ínga. Hallbera hèt módir hans, dóttir Ara af Reykianesi. Kolfinna [1]) hèt kona þórgils, dóttir Halls Styrmissonar þorgeirssonar frá Asgeirsá. þær sveitir voru fiölbygdar ok gódir bændr í þann tíma. þórdr Gilsson bió undir Ytrafelli [2]); Húnbogi þórgilsson bió at Skardi fadir Snorra lögsögumanns. Már prestr þormódsson [3]) bió í Sælíngsdalstúngu, hann var náfrændi Haflida Márssonar. Haldóra hèt módir hans, dóttir Vedísar Mársdóttur, en Vedís var systir Haflida Márssonar [4]). Gudmundr prestr Brandsson bió í Hiárdarholti, hann var náfrændi þórgils Oddasonar ok aldavinr. Örnólfr þórgilsson bió at Kvennabrekku [5]). þórólfr [6]) Biarnarson bió at Skridnisenni [7]); hann var fèlítill, en var þó vinr ok þíngmadr Haflida Márssonar. Ingimundr prestr Einarsson bió at ættleifd [8]) sinni á Reykjahólum; hann var vinsæll madr ok nokkut fèvani, en var þó ör af peníngum ok hit mesta stórmenni í skapi, sem ætt hans var til; hann var skáld gott, ok at mörgu hinn mesti mætismadr [9]); hann var enn frændi þórgils Oddasonar, ok hann hafdi gèfit honum Reyknesínga godord, ok var þeirra frændsemi allgód. Ingimundr var frædimadr mikill, ok fór vel [10]) med sögur, hann skèmti vel, ok orti gód kvædi, er hann þá laun fyrir utanlanz, hann var ok gódr vidtakna, er vinir hans sendu honum vandrædamenn, ok seldi [11]) jafnan vel sèr af hendi. Hrólfr hèt madr, er bió á Skálmarnesi undir Múla; hann var gódr vinr þórgils Oddasonar, ok þíngmadr hans, lögmadr mikill, ok fór miök med sakir, hann var ok sagnamadr, orti skipuliga [12]), ok hafdi gott bú. þórdr hèt madr, hann bió í Hvammsdal, ok

1) Kolfreya. *B.*

2) felli hinu ydra. *EV.*

3) þóroddsson. *C. St.*

4) þorsteinn Qvistsson átti Vedísi dóttur þorgèrdar, dóttur Vedísar Mársdóttur, bætir *EV.* inní.

5) Arnór Kollsson bió at Kleyfom í Gilsfirdi. *EV.*

6) þórálfr. *A.* þ. *EV.*

7) Skridnessenni. *EV.* Skridnesi. *C. St.*

8) födurleifd. *C. St.*

9) mannvitsmadr. *B.*

10) mikid. *EV.*

11) sendi. *A. C. St.*

12) *EV.* bætir inní; vel fiáreigandi ok átti *o. s. fr.*

átti þat land Þórgils Oddason, Þórdr var fèlítill ok var kalladr Rúfleya[1]) skáld, af því hann hafdi þar leingi verit ádr. Skip stód uppi í Dögurdarnesi, ok átti[2]) Bergþór Mársson; hann seldi Þórdi Már son sinn til fósturs, ok óx Már þar upp, ok þá ílla gódan vidrgiörníng, ok at nest-lokum[3]) vinnr Már á Þórdi fóstra sínum miök, ok hleypr sídan til Haflida Márssonar födurbródur[4]) síns ok tók hann vid honum, en Þórgils fer med eptirmálit, ok er því laung frásögn um málaferli þessi ok tilgánga[5]), ok er þetta sagt upphaf mála þeirra Þórgils Márssonar.

7. Madr sá fæddist upp í Breidafirdi er Olafr hèt ok var Hildisson, fadir hans vard skógarmadr, en sveinninn var færdr til fèránsdóms ok giör at fiórdúngs-ómaga ok á hèrad[6]) um Breidafiörd, ok fer svo fram uns hann er 12 vetra[7]). Hann var heldr óvænn madr, nokkut kiötvaxinn[8]), hærdr vel ok fèll miök hárit í lokka, þá var hann taldr af þessari vist ok var laungum med Þórgils á Stadarhóli. En þessi Þórgils bóndi var fimti eda siötti madr frá Geirmundi Heliarskinn. Þessi Olafr átti fátt í peníngum, hross nokkur átti hann, ok var óhrakligr at klædum, eina fatakistu ok öxi miök góda. Hann leitar þá vid Þórgils hvat rád hann sæi fyrir honum liggia. Hann svarar at þat væri vænst, at hann færi nordr á strandir ok afladi þar fiár, sagdi þat margra manna sidveniu. Sídan fór hann nordr á strandir med gagn sitt ok kèmr nidr í Avík til Hneitis. Þess er enn gètit, at Már Bergþórsson vekr til vid Þorstein at hann væri á skipi med honum, þú ert mèr[9]) hægr vidreignar, en ek þyrfta þess manns mest. Hann sagdi, ek hefi lengi verit med Hneiti ok hefir mèr vel gèdiazt[10]), ok er mèr vanbreytt[11]) um þat. Már segir ok kvedst.

[1]) Raufeya. *C. EV.* Raufeyiar. *St.* Rúzeyia. *Gr.*

[2]) hálft bætir *St.* innf.

[3]) vidlokunum. *C. St.*

[4]) Bergþórs födur síns. *C. St.*

[5]) tilgaungu. *B.* hvörneg tilgèingu. *EV.*

[6]) ok hèradsfari.

[7]) 16 vetra. *C. St.*

[8]) kèlvaxinn. *B.*

[9]) miök. *B.*

[10]) gott til hags ordit. *EV.*

[11]) vandbreytt. *EV.*

ætla vel til hans giöra [1]) ok sækir miök eptir. Ok þar kèmr at Þorsteinn neitar ei skipvist med Mávi [2]). Þá skèr [3]) hann til miök ef Hneitir legdi leyfi til at Þorsteinn rèdist frá skipi hans ok í sveit med honum. Hneitir sagdi, þykir honum einsætt at skilia vid mik. Már sagdi, svo hygg ek vera [4]). Hneitir sagdi hann ráda mundi at skilia at því. Olafr Hildisson vekr til vid Hneiti ef hann mætti vera á hans skipi, en hann segist rádit hafa nóga menn, ok vísar honum til Márs. Olafr segir, þat sem okkr hefir at ordum ordit, þá verdr mèr sá madr torsóttr, ok vilda ek at þú vektir til fyrir mína hönd, hann hèt því, ok vekr til vid Már, ef hann vildi taka vid honum. Már lèzt vilia tala vid manninn ádr hann veitti honum skiprúm, þá kèmr Hneitir máli þeirra saman ok rædst Olafr til skips med Mávi. Már frèttir, hvar eru veidarfæri þín eda vistir? er þat sidr manna at fá sèr slíka hluti ádr menn taka skipun [5]). Hann kvedst ekki hafa þeirra hluta. Már segist ei mundi vid þeim mönnum taka, er svo fólsliga hafa búit sína ferd, kvedst ok þannveg á hann lítast, sem hann mundi glæpamadr nokkur vera. Hneitir átti nú hlut í at hann varni honum ei skipunar [6]), en hann rèdi siálfr miök kostum. Már segir, at ei mun hann vid honum taka, nema hann ynni honum allt ok hann rèdi kaupi hans, ok þann kost tekr Olafr ok rædst til skips med Mávi. Þat er sagt um sumarit er Olafr óslíngr vid allt er hann á at giöra, enda þiggr Már ílla, ok verdr opt millum þeirra standa um sumarit, kèmr þar svo at Olafr svarar ílla, en þó fá þeir mikil faung, ok koma í Avík at hausti til Hneitis bónda, þá vekr Olafr til hvat hann skal til kaupa hafa, Már segir hann til einskis unnit hafa [7]), Olafr kvedst opt hafa góda menn heimsótt, ok öllum [8]) vel ordit nema honum, ok

1) ætla at hann mundi vel vid hann lúka.

2) Mári. *B.*

3) skorar. *EV.*

4) þat lætr hann nú at honum þyki þat ekki sídr hent.

5) skiprúm. *C. St.*

6) neitti honum ei skiprúms. *C. St.*

7) segir hann ekki hafa mundu, ok kvad hann eingis verdan. *EV.*

8) til sín. *EV.*

kvad hann í mesta lagi úr sinni ætt, sagdi at eingi mundi iafn ílla til sín ordit hafa, heyr þar á endimi sagdi Már, ok eru þat firni [1]) ef [2]) ek skal taka af þèr íll ord, sídan tekr Már upp allt þat er Olafr á í fèmunum, ok svo kistu hans, klædi ok vopn hans sem annat, Olafr sagdi Hneiti til svobúins, hann segir Már mundi þat ei giöra vilia ok rædir Hneitir til vid Már, at hann muni láta rakna fèmuni hans ok kistu, segir þó hlut hans yfrit hardan, þott hann missi kaupsins. Már kvad ei tiá mundu honum umrædur um þenna hlut, Hneiti þótti nú verr ok skilia vid þat, litlu sídar sagdi hann Mávi, at vistir hans mundu þar ei leingr vera at hans leyfi, en þat var raunar at honum þótti hann Már of lángtaladr [3]) vid dóttur sína. Már kvadst ei hirda hvat búkarlar þar á ströndum ræddu um vistir hans ok lèzt þar mundi aungvan gaum at gèfa.

8. Olafr Hilldisson fer burt úr Avík ok hefir mist allan sinn fiárhlut, ok kèmr í Saurbæ á Stadarhól um kveld, ok var vedur óspakt [4]), Þórgils bóndi sat vid eld ok húskarlar hans. Olafr kèmr inn ok þekkir hann manninn, ok bydr honum þar vera. Lætr nú Þórgils vita, at hann hefir mist alla sína fiármuni, vopn sín ok klædi; munum vær ei þurfa annarstadar veidiskap at kaupa, segir Þórgils, en at þèr; meir [5]) er verr en því sæti, segir Olafr; hann var þar um nóttina, ok segir Þórgils vandrædi sín, ok bidr hann ásiá; Þórgils lætr hann þar vera, ok bidr húsfreyiu fá honum klædi nokkur. Ok þá leitar Olafr eptir hvört rád Þórgils sæi helzt til med honum; hann sagdi hann mundi leita eptir vid Már [6]), at hann nædi fè sínu; Olafr sagdist þess ófús, ok vænti ek þar íllra orda. Þetta er þó mitt rád [7]), at þú leitir eptir sæmd þinni, en þat sè ek, at þik skortir vopn, ok fèkk Þórgils mikla öxi í hönd honum, ok sagdi: eigi værir þú

[1]) firn mikil. *EV.*

[2]) er. *B. C. St.*

[3]) margtaladr. *A. B. C. Þ. St.*

[4]) úsvast. *EV.*

[5]) miklu. *C. St.*

[6]) sagdi at honum hæfdi at leita eptir vid Má. *EV.*

[7]) *B. C. St.* bæti inni: sagdi Þórgils.

óflugu mannligr, ok skilia at því. Ok fer Olafr nordr, uns hann kèmr í Avík, þat var ekki [1]) síd dags; Hneitir var ei heima, en húsfreyia sat á palli, ok geingr Olafr á pallinn til húsfreyu; hún frèttir tídinda. Már lá utar í bekk, ok hafdi lagt höfud sitt í knè Rannveigar dóttur Hneitis bónda. Hann settist þá upp, er hann heyrdi til Olafs, ok hafdi annan fótinn nidr fyrir bekknum [2]); hann var í lodkápu; Olafr snýr af pallinum, ok utar fyrir Már, ok spyr: hvörsu máttu, ok hve líkar þèr nú, sagdi hann? hvat mun þik varda um þat, hvert um mik lídr vel eda ílla [3]), sagdi Már: Olafr spyr þá, ok mælti linliga [4]) ef hann vildi fá sèr aptr, edr bæta fiár upptektina? Már svarar ílla, ok segir at eigi mundi tiá ord um, nè svo tillögur Þórgils Oddasonar. Sídan höggr Olafr til Márs, ok verdr þat svödusár, en ei beinhögg; sídan gengr Olafr út, en Már vill hlaupa eptir honum, Þorsteinn hleypr upp, ok heldr Mávi ok þægir honum í bekkinn. Már verdr ákafliga ódr vid, ok læzt mundu Þorsteini slíkan vilia velia, ef hann bannadi honum at hefna sín; en Þorsteinn gaf öngvan gaum at ordum hans. Þá eggiadi Már sonu Hneitis útgánga [5]) at hefna sín, en módir þeirra hèlt þeim, þegar þeir hlupu út, svo þeir stofnudu ei til þessa vandrædis. Olafr fer nú leidar sinnar, en þær konurnar binda sár Márs; hann þiggr þat ílla; litlu sídar sprettr Már upp ok vegr Þorstein ok hnígr hann í fadm módur sinni. Litlu sídar kèmr Hneitir heim, ok rak þegar Már í burt, ok kvad margt íllt af honum standa. Þat mun nú ok svo vera at sinni, sagdi Már, en lítinn gaum vænti ek gèfi at ordum þínum um þat. Sídan fór Már á fund Haflida frænda síns, ok sagdi honum víg Þorsteins, ok þar med allan atburd, eptir því sem málavextir stódu til. Haflidi lèt ílla yfir verkinu, ok kvad Már leingi hafa verit ónytiúng, ok kalladi slíka menn helst mega heita frændaskömm.

1) enn fyrir ekki. *EV.*

2) bekkinn. *St.*

3) hann svarar hvat mun þèr undir vera, mun þèr fyrir þat gánga sem ek megi ílla ok mèr líki ílla. *EV.*

4) hófliga. *EV.*

5) útgaungu. *B. St.* til útgaungu. *C.*

9. Nú er þar til máls at taka, Hneitir bóndi úr Avík fer til fundar vid Haflida Mársson, hann tók vel vid Hneiti, ok sagdist vilia bæta óhapp bródursonar síns, ok lèzt gialda mundi fyrir 10 hundrud þriggia álna aura, eda ella fylgi mèr til handa lid hans, ok mun ek annast, edr at ödrum kosti taktu vid fè ok ómegd hans. Hneiti líka vel ummæli Haflida, ok dvelst þar nokkrar nætr. I annan stad er at segia frá því at sá madr kom til fundar vid Már er Hrafn hèt, ok var kalladr Finngèrdarson, mikill ok sterkr, ódæll ok hinn mesti illhreisíngr [1]). Þeir bera rád sín saman ok mælti hann Már: hvad vildir þú helzt fyrir þínu rádi siá. Hrafn svarar: þat væri mèr skapfelzt at vera med þeim mönnum er ódælir væri ok kynstórir, ok veita þeim eptirgaungu. Már mælti: slíkir menn væri mèr velhentir sem þú ert. Hrafn sagdi: þat verdr ydur stundum, at þèr látit mikiliga, en þegar ríkra manna ord koma til ydar, þá eru þèr þegar limhlaupa [2]). Már segir: vel er slíkt mælt, en ei ætla ek þat enn heldr fyrir mèr. Þeir fara nú til Avíkur [3]), ok biuggu þar búi Hneitis, medan hann var heiman, ok giöra þat rád, at Már legst med bóndadóttur, en Hrafn med húsfreyu hans. Hneitir frèttir þetta hvat þeir hafa tiltekit; þá bregdr hann vid skiótt ok fer heimleidis [4]), þó leyniliga, ok vill stræta þá árdegis, voru saman nokkrir menn. En þá er Már veit at Hneitir mundi heimkoma, þá hefir hann vördu á sèr, ok bidr þann sama morgun er Hneitir kom [5]) heim, at þeir skyldu standa upp, ok bída hans ei heima. Gánga sídan til árinnar, hún var opin ofan eptir midju en höfudísar at utan. Hann Már hleypr yfir ána, því hann var bædi knár ok fótmiúkr ok iafnt í því Hrafn vill eptir honum hlaupa, koma þeir Hneitir at ok höggva hann framan á þióhnappana ok fellr hann vid sárit áfram, sídan taka þeir hann ok flytia til lækninga. Már fer nú leidar sinnar, þartil hann kèmr til Jörundar í Oddbiarnareyar ok lætr gódmódliga [6]) ok bidr Jörund

[1]) lanzöfríngr. *EV.*

[2]) linhlaupa. *B. C. St.*

[3]) bádir saman bætir *EV.* inní.

[4]) snúdigt, en. *EV.*

[5]) var von. *EV.*

[6]) gódvættliga. *EV.*

vidtöku ok tekr hann vid honum, ok þá bidr Már at þeir skyldu sækia eptir gagni hans í Avík. Jörundr kvadst einga óþektar för vilia fara til Hneitis bónda. Már segir at þeir væri sáttir, sídan fer Jörundr med honum ok koma í Avík snemma um morguninn. Már ræddi til Jörundar, nú mun ek inngánga, en þú bíd mín úti, Már geingr inn, en Hneitir hvíldi ok spyr hvörr þar geingi, ok eptir málinu höggr hann Már [1]). Hneitir sprettr upp ok tekr í hönd sèr trèkèfli [2]) ok hleypr á gólfit, en Már höggr í tréd ok kippast þeir um leingi, þá kalladi hann Már, skömm er þèr þat Jörundr at fara svo med manni at standa hiá, en Hneitir vinnr á mèr. Sídan hleypr Jörundr inn ok höggr Hneiti banahögg, eptir þat gánga þeir út, þá mælti Már, þú ert glæpamadr mikill ok óhappafullr, drepit saklausan mann, gódan bónda [3]), giöri ek betr en ekki [4]) at ek drep þik ei, ok vertu á burt sem skiótast, en ek mun sækia á fund Haflida frænda míns. Jörundr fer til skips síns, ok er þat frá honum sagt, vedr kèmr á ok tynist hann. Már fer á fund Haflida ok segir honum hvad í hafdi giörzt. Hann kvad margt íllt af honum standa ok kalladi hann miök segiast úr sinni ætt, en fyrir frændsemis sakir, þykist Haflidi ei mega skiliast vid hans mál.

10. Þórgils Oddason átti för nordr á strandir, sem opt var vandi hans til. Biörg ok synir hennar fara á fund Þórgils, ok bidia hann líta á sitt mál, nenna nú ei at sækia á fund Haflida, mest fyrir því at Már var þar fyrir, ok þótti sèr vera skapraun í því. Þórgils kvad sèr ei vera skylt at siá á þat mál, er þíngmenn Haflida áttu hlut í, hún sækir eptir miök, ok er Þórgils sèr þat, þá segir hann at henni muni hardir einir kostir ágiördir, því ekki muni audsótt þykia at sækia Haflida at málum, en ek mun gialda 12 hundrud vadmála fyrir víg Hneitis, en ek mun þat hafa [5]) er ek fæ af málinu vid Haflida ok á þat sættust

[1]) höggr Már. *B.* kènnir hann Má. *EV.*

[2]) trèkylfu. *C. St.*

[3]) dreing. *C. St. EV.*

[4]) en vert er. *EV.*

[5]) ok hafa þat. *B.*

þau, en er Hafliđi frèttir þetta, þá þykir honum málid verr snúizt hafa en hann vænti, sagdi þetta aungva sæmd fyrir víg Hneitis, ok kallar þau hafi giört vandalaust til sín, ok kvedst ætla meiri sæmd fyrirhugat fyrir víg Hneitis. Þórgils byr mál þetta til alþíngis, Hafliđi byr ok mál til á hendr Olafi Hildissyni, hann var þá med Þórgils á Stadarhóli, ok rída þeir Hafliđi ok Þórgils til þíngs um þenna tíma ok med þennan mála-tilbúnad, en ádr Þórgils rídi heiman sendir hann Olaf sudr á eyrar til handa þeim manni er Arni hèt ok var kalladr Fiöruskeifr, hann hafdi verit heimamadr Þórgils um veturinn, en átti þar skip uppistandandi, ok sá madr annar er Hermundr [1]) hèt Þorvaldsson bródir Þórdar í Vatnsfirdi, þeir höfdu bádir verit í útförum med Jórsala-Sigurdi, ok voru sídan fèlagar, ok sendir Þórgils Arna ord til at hann flytti Olaf utan. Ek þykist glöggt siá, hvörsu mál þetta muni fara segir Þórgils, þú munt verda sekr, en ek mun leita um sættir ok bióda fè til farníngar þèr.

11. Snorri hèt madr, [hann bió í Múla enum nedra í Saurbæ [2]), hann átti Hallberu dóttur Snorra Þórdarsonar Sturlusonar bródurdóttur [3]) Þurídar, er átti Hafliđi Màrsson. Grímr hèt son þeirra, úngr ok seinligr. Snorri átti vel fè ok hafdi selför í Svínadal, þar sem nú heita Snorrastadir; hann drukknadi í Sælíngsdalsá, þar sem heitir Snorravad. Þá fór Sighvatr Ulfsson mágr hans at leita líksins, ok þeir fimm saman, ok tók þá snióskrida, ok fórust þeir allir; en er Olafr fór frá Stadarhóli ok sudr til Eyra, þá tók hann hest Snorra frá Múla, því hann nennti ílla at gánga, ok rídr uns hann kèmr til fundar vid Arna, ok tekr hann vid honum, ok lætr hann vera þar á laun. Nú eru menn Þórgils komnir til þíngs, ok er leitat um sættir medal þeirra höfdingianna, ok segir Þórgils at hann vill þessu máli ei med kappi fylgia, ok kvadst meir hafa giört fyrir úrlausna sakir, ok bænastad frændanna. Hafliđi tekr nú svo upp, ok svarar: at ei mundi

[1]) Hámundr. *C. St.*

[2]) [er kalladr var Mágsnorri, hann bió í Saurbæ fyrir Múlanum nedra. *EV.*

[3]) dóttur. *C. St.*

varnat bótanna, ok dregr þó miök hvorutveggi sitt mál fram, Þórgils um víg Hneitis, góds bónda ok frænda síns, en Haflidi um áverkana vid Már; ok skulu þó gialdast 30 hundrud fyrir víg Hneitis, en 9 hundrud [1]) fyrir áverka vid Már; þat urdu málalok, því í sætt var slegit [2]), en sekt Olafs slík at hann skal leita vid utanför þriú sumur, ok virda ei biargir hans; hann skyldi vera sykn í förum med Þórgilsi, ok í landeign hans, en sekr fullri sekt annarstadar. Haflidi greiddi fè, sem ákvedit var, fyrir vígsgiöld eptir Hneiti; þá vóru þessar vísur kvednar:

Vard Haflidi [3]) hundrud
happvísum [4]) Þórgilsi,
sá [5]) var [6]) vegs nè vægdar [7])
valdr [8]) þriátygi gialda;
sátt var sögd á sumri
slík medal göfugra yta,
hlaut Oddasonr aura
ítr at [9]) Stranda Hneiti. [10])
Lèt Haflidi af höndum
Hneitis giöld á Ströndum,
drótt [11]) vard Otta arfi [12])
ádr at miklu hverfi [13])

[1]) 10 hundrud. *EV.*

[2]) at í sætt var slegit. *EV.* ok var því í sátt slegit. *B.*

[3]) Haflida. *C. St.*

[4]) heppuisöm. *C. St.*

[5]) siá. *EV.*

[6]) sæma vegs. *B. Gr.*

[7]) værdar. *C. St.*

[8]) valdi. *B. Gr.*

[9]) af. *B. C. Gr. St.*

[10]) *EV.* bætir hèr inní.
Vard Haflida af höndum
hríngsbaldr tug gialda
diarfr Odda arfi
en Haflidi þrenna.
Játti slíkum sáttum
sveit eptir Stranda-Hneiti
afreks kunni at unna
allvísum Þórgilsi.

[11]) dátt. *C. St.*

[12]) erfi. *C.* Odda erfi. *EV.*

[13]) hvarfi. *B. Gr.*

reyndist seggr [1]) svinni
slíkt hefir öld í minni.
Od giöri [2]) ek opt med sanni
af [3]) ágætis manni.

12. Nú er at segia frá því, at þeir kaupmennirnir biuggust at [4]) Eyrum, ok Olafr Hildisson var á laun med Arna Fiöruskeif; þeir báru nú út um daginn vöru sína. Olafr geingr útá skip med vöru sína, ok hafdi hött sídan á höfdi. Hermundr [5]) Styrimadr gètr at líta manninn ok snyr at honum ok spyr: hvör ertu? honum verdr stans [6]) at svara. Hann segir: ertu ei Olafr Hildisson, ok hleypr at honum, ok hrindir honum af bryggiunni á kaf, ok verda adrir menn at biarga honum, ok fyrirbydr honum farníngina, ok verdr þeim styrimönnum þetta at sundrþykkiu, en þeigi riúfa þeir skipun sína, ok sigla á haf út, en Olafr sitr eptir, ok fer vestr til Þórgils, ok tekr hann vid honum. Þetta spyrst nú um hèrudin, at Olafr er med Þórgilsi Oddasyni á Stadarhóli. Már Bergþórsson er med Haflida, en fer heiman vestr til Saurbæar, ok slæst í ferd med þeim mönnum er fóru til sölvakaupa, ok hefir Már frètt [7]) af um athafnir Olafs, ok sitr um ef ferdir þeirra bæri saman edr fundir. Þórgils frèttir til ferda Márs, ok skipar fyrir sèr erindum hans, ok mælti sídan til Olafs Hildissonar: hvört rád muntu nú taka? ek hefi spurt at Már fór nordan med þessum mönnum, en hann er hvörgi til bæa kominn, ok mun hann sitia til hefnda vid þik. Olafr mælti: ek mun þínum rádum framfara. Þórgils mælti: hèr eru blautar myrar hiá gardi sem þú veizt, þángat sendi ek þik med liá at rista torf, ok er þeir siá þik, munu þeir þykiast hafa rád þitt í hendi, en verda má at leidin verdi ei svo greid sem þeir ætla. Olafr giörir svo, en Þórgils sendir alla karla af bæ edr því nær, ok lætr þat spyriast ok svo athöfn Olafs, ok egndi þann veg veidina fyrir þeim Mási. Nú frètti

[1]) seggr hinn. *A.* Þ. seggrinn, *EV.*
[2]) ord giörik, *EV.*
[3]) at. *B. Gr.*
[4]) af. *B.* 4, *EV. Gr.*
[5]) Hámundr. *St. EV.*
[6]) stadr. *EV.*
[7]) frèttir. *A. B. C.*

Már þetta, at ekki var karla heima á Stadarhóli, en Olafr var á leid þeirra, ok þá mælti Már: vera má at oss gèfi nú veidina [1]) ok rída nú á myrina at Olafi, en hestarnir liggia í driúgt, ok fer þeim seint ok ógreidt. Olafr víkr heim til bæarins, en þeir vildu eptir rída, ok í því bili komu konur heiman at girdtar í brækr, ok höfdu vopn í hendi. Þeir Már fara þá af baki, ok vildu henda Olaf á hlaupi, fyrst hestunum mátti ei vidkoma, ok þá koma konurnar heiman, snúa þeir undan, ok vildu til hesta sinna, ok nádu ei, komast á hlaupi undan, ok áttu fótum fiör at launa. Þórgils lætr aungvan gaum at þeim gèfa þadan í frá, ok fara þeir uns þeir komu nordr til Haflida ok lítt erindi fegnir [2]). Haflidi lèt ílla yfir för þeirra ok kvad þess von at Már mundi ei hafa gæfu vid Þórgils ok giör aldrei för þína heiman slíka sídan. Lída nú af misserin ok kèmr annat sumarit ok er ei gètit at Olafr leiti til utanferdar.

13. Ingveldr Þórdardóttir bió í þenna tíma vestr í Isafirdi, hún var audig at fè ok virdingar-kona mikil. Bóndi hennar var andadr ok áttu þau tvær dætur hèt önnur Helga, en önnur Hallfrídr. Þetta vor hit sama rèdst hún vestan ok til Reykiahóla til Ingimundar prests ok giöra þau fèlag sitt. Ingimundr var son Einars Arasonar, systrúngr Þórgils Oddasonar. Ingimundr var hit mesta göfugmenni, skáld gott, ofláti mikill bædi í skapferdi ok annari kurteisi, hinn mesti gledimadr ok fèkk sèr allt [3]) til skèmtunar, hann var enn vitrasti madr ok hèlt sèr miök til vinsælda vid alþydu, hann var ok mikils virdtr af mörgum göfugum mönnum. Ok þá er Einar fadir hans andadist gaf hann [4]) Ingimundr Þórgilsi frænda sínum Reyknesínga Godord, sem fyrr var ritat, ok var þeirra frændsemi allgód medan þeir lifdu bádir. Um sumarit bidr sá madr Helgu [5]) er Olafr hèt, ok skyldu þau rád takast en veizlan skyldi vera á Reykiahólum um Olafsmessu skeid um sumarit. Ingimundr ok Ingveldr bióda fyrstum til þess-

[1]) þannig *EV*, en hinir: gèfist í veizluna.

[2]) feingit, þ.

[3]) mart. *EV*.

[4]) vantar í *B*, *EV*.

[5]) dóttur Ingveldar bætir *EV*. inn í.

arar veizlu Þórgils Oddasyni ok Þórdi Þorvaldssyni úr Vatnsfirdi. Hrólfr at Skálmarnesi var ok at þessari veizlu ok margt annat gott mannval, en þó voru Þórgils ok Þórdr mestir virdíngamenn komnir. Nú er mönnum í sæti skipat, ok sitr Þórgils á annan bekk med sveit sína ok Ingimundr prestr, en Þórdr á annan bekk gagnvart Þórgilsi. Þórdr mælti vid förunauta sína, þann veg segir mèr hugr at nokkut verdi þat at þessari veizlu, at ek munda mik nú heldr annarstadar kiósa at þeirri manna skipun sem hèr er fyrir, ok giarnan vilda ek heldr sitia heima í Vatnsfirdi ef ek hefda tvö rádit úr einu, ek kann ei [1]) vita nema hèr sè fyrir óvinir vorir, ok þætti mèr allt undir mèr betr eiga en þeim. Förunautar hans segia: miklu eru hèr fleiri gódir menn samankomnir, en hèr muni nein svæla edr flærd til nokkurs manns giör, mun ok ei annar madr meiri virdingar-för fara en þú ok annar Þórgils Oddason, eru ok fyrirmenn þessarar veizlu ei annars manns vinir meir en þínir. Þórdr kvad svo vera ok giörir sik nú gladan, eptir þat fara bord fram ok er nú setit þraungt á bekkium ok forsætum, þar vóru bædi tilfaung gód ok skorti ei drykk gódan ok gnógligan ok allt gèkk ósparliga, þá ræddi Ingimundr prestr at Þórgils skyldi mæla fyrir minnum, en hann veik til Þórdar ok bad hann ráda hvör minni væri fyrst drukkin, Þórdr var því kátr vel ok mælti vid Ingimund prest at einhvör vildismanna ætti at hefia gildit, en kvedst mundi undir standa med þeim um hvöria gledi er þeir vildu fram hafa, drekka nú gladir ok færist [2]) brátt á þá drykkrinn. Þórdr var ekki mikill drykkiumadr, nokkut vangæft um fetlima [3]), sem opt kann at verda þeim er vanheilsu kènna, þvíat madrinn var þá á efra aldri, var þó enn hraustr, en kèndi þó innan-meins, ok var því ekki miök matheill, þvíat hann blès svo af, sem hann hefdi vèlindisgáng, ok vard þó nokkut andrammr. Þórdr var mikilleitr [4]) madr eygdr vel, ok lágu vel augun fram, snodinn ok stryhærdr, sá upp miök ok ridandi nokkut litit. Þeir drekka nú ákaft, ok fær á þá alla nokkut, giörast nú málgir ok má kalla hvör styngi annan med nokkru hnífilyrdi, ok

[1]) ok kann ek ei. *EV.*
[2]) rekkir þá brátt. *EV.*
[3]) fótlimi. *C. St.* fædsluna. *EV.*
[4]) mikilúdligr. *EV.*

er þó fátt hermt af þeirra kèskiyrdum í þessari frásögu. þess er gètit at Ingimundr prestr laut at sessunaut sínum, svo sem hann spyrdi:

hvadan kènnir þef þenna? [1])
þórdr andar nú handan,

ok verdr at hlátur mikill, ok er næsta giör at þessu gis mikill [2]); ok er því lèttir, þá kvedr þórdr í mót:

Andi er Ingimundar
ekki gódr á bekkium.

Ok af þessum áaustrum [3]) tekr heldr til at grána [4]) gamanit, ok koma kvedlingar vid, svo þá var þetta kvedit til þórdar:

Rírar [5]) í barka
ríkis-manna
glitar vid skallinn [6])
á goda ydrum.

Hèr hlær þórdr miök at þessum kvedlíngi, ok kvedr þegar í mót adra vísu [7]). þórgils brosti nú at, en lagdi alldri til um áköstin. Ingimundr mælti, at nokkur þeirra bekkiunauta skyldi siá [8]) í mót [9]). þá var enn vísa kvedin til þórdar; [10]) en hann lítr eptir kvedlíngi þessum, ok þótti miök bera hliód þar yfir er Olafr Hildisson [11]) sat. þórdr heimti húsfreyu til máls vid sik, ok spyr hvör sá sè lokkamadrinn, sem sitr á fyrirsæti á bekk þórgils, ok vísar henni til. Hún segir þat sè Olafr Hildisson. þórdr mælti ei munum vid bádir sitia at einni veizlu leingi [12]), ok sendtu hann

[1]) honum var svarat bæta *B. Gr.* inn ámilli.

[2]) mikid. *C. St.*

[3]) áköstum. *EV.*

[4]) heldr at grædna. *EV.*

[5]) reyrir. *St. EV.*

[6]) skallann. *C. St.*

[7])
Vaxa blástrar
af bekk þadan
hrunull giörist þefr
af hrópom ydrom.
bætir *EV.* inní.

[8]) slá. *EV.*

[9]) vid þórd. *EV.*

[10])
þat er válítit
þó vèr reptom
bekkionautar
af bolakiöti,
reptir þórdr
þórvaldarsun
Kiartanssunar
af kóna sínum. *EV.*

[11]) sem madr sat á forsætinu mikit þrekligr ok allvel hærdr. *EV.*

[12]) leingr. *B. C. St. EV.*

burt á annan bæ, ellegar munum vèr rída á burt; hún svaradi seint ok mælti svo: sæmd þykir oss at hèrvist þinni, ok [1] ei kann ek þat at mínu rádi siá at kvedia í burt mönnum Þórgils edr förunautum, ok mun Olafr aungva skapraun giöra ydur í ordum sínum. Nú verda adrir menn nokkut áheyrsla hials þeirra, ok spyr Þórgils eptir hvat þau eigi at hiala? En hún segir honum, ok bidr hann med vægd at hann lèti Olaf á burt fara at eigi yrdi beinaspell. Þá svaradi Þórgils: ef svo var Olafi sykna mælt, at hann skal sykn med mèr, en sekr ef hann er annarstadar, þá mun ek aungvan minna manna senda til bana [2]), en Þórdr giöri um burtreid sína sem honum lízt, en Olafr mun hvergi fara, ok munum vær láta vel vært vid Þórd. Þá stígr Þórdr undan bordi, ok blès vid mædiliga, en mælti ekki. Þá var þetta kvedid;

Æsti upp úr brióstí
atfángs um dag lángan
brædru Bessa [3]) nidia
billíngs hvidu illa,
allt tók sèr þá er særir [4])
sótt linna blès innan
þiód óx þefr í búdum
þíngheimr af nef fíngrum [5]).

Ekki er þess gètid at Þórdr andæpti þessari vísu, ok gèngr hann ok hans menn á burt, ok eru þeim greidd vopn sín ok klædi, ok rída þeir á burt, ok á annan bæ um nóttina. En þá er Þórdr gèkk ut, var þetta kvedit [af einhvörium honum til spotts, en sú vísa er hèr ei ritud [6]) ok ekki er sagt at neitt yrdi af giöfum vid hann. En Þórgils sitr nú eptir ok förunautar hans, ok svo brúdgumi ok bodsmenn, ok þykir þeim förunautum Þórgils nærsta

[1]) en. *C. St. EV.*

[2]) bsia. *EV.*

[3]) brydiu berla. *EV.* brædru Brúsa. *St.*

[4]) sættir. *C. St.* siór þá er særum. *EV.*

[5]) of nef fíngrom. *C. EV.*

[6]) *EV.* sleppir þessu frá [af einhvörium en hefir vísuna:

Godinn repti svá
er vèr geingom hiá
stód á hnakka hy
hver madr kvad fy.

Er svá sagt, at Þórdr væri med þessum kvidlíngi útleystr, en ei er gètit at neitt *o. s. fr.*

íbrosligt [1]) um ferd þórdar ok burtreidina. þar var nú glaumr ok gledi mikil, skèmtun gód ok margskonar leikir, bædi dansleikr glímur ok sagnaskèmtan. þar var 7 [2]) nætur fullar ok fastar [3]) setit at bodinu, af því þar skyldi vera hvert sumar Olafs-gildi [4]). A Reykianesi voru svo gódir lanzkostir í þann tíma, at þar voru aldrei ófriófir akrar, svo þar var jafnan nytt miöl [brúkat til eins ok annars ágætis. þar var ok haldit til Olafs-messu at þessari veizlu ok framdir allskonar leikir, ítem voru sögur framsagdar [5]). Hrólfr af Skálmarnesi sagdi sögu af Hraungvidi berserk ok víkíngi, ok frá Olafi lidsmanna kóngi, ok haugbroti þráins, ok Hrómundi Greypssyni ok margar vísur med. En þessi saga var skèmt Sverri kóngi, ok kvad hann slíkar lygisögur skèmtilegar, en þó kunna margir at telia ættir sínar til Hrómundar [6]). Ingimundr prestr sagdi sögu Orms Báreyarskálds ok vísur margar, ok flokk gódan vid enda sögunnar, er hann siálfr ort hafdi [7]).

14. A þessu sama hausti [8]) keypti þorgils Oddason Múlaland at Grími Snorrasyni ok módur hans, ok med því fè kaupa þau Túngu-land í Svínadal, en búa þó í sama stad þau misseri. [Nú takast upp leikar margir at Stadarhóli ok sækir Grímr þángat ok leikast þeir opt vid Olafr ok Grímr. [9]) Olafr er gódr leikmadr, hardleikinn ok kappsamr, en Grímr er ei aflmikill ok linr, en þó ákafliga sækinn madr, vard hann því opt vanhluti [10]) ok

[1]) brosligt. *B. Gr. C. St.* íbroiligt. *EV.*

[2]) 6. *C. St.*

[3]) *B.* ok *Gr.* sleppir út: ok fastar.

[4]) ef korn gæti at kaupa tvö miölsáld á þórnessþíngi ok voru þar margir gilda bændr bætir *EV.* inni.

[5]) [hafi til beinabótar, ok ágætis at þeirra veizlo ok var gildit at Olafsmessu hvört sumar. Frá því er nokkud sagt er lítit þótti tilkomu, hvörjir þar skèmtu, eda hvörju skèmt var, þad er í frásögn haft er nú mæla margir ímóti, ok látast ei vitat hafa; því margir gánga duldir hins sanna, ok hyggia þat satt sem skrökvat er, en logit þat satt er. *EV.*

[6]) en þessa sögu hafdi Hrólfr siálfr samansetta. *EV.*

[7]) ok hafa því margir fródir menn þessa sögu fyrir satt. *EV.*

[8]) sumri. *St.*

[9]) [Nú takast leikar upp í Saurbæ ok sækir Grímr leika á Stadarhól, eigast þeir opt leika vid Olafr Hildisson ok Grímr Snorrason. *EV.*

[10]) varhluti. *C. St.*

hrakligr fyrir Olafi ok leggia þar á ofan gár [1]) ok gis. Grímr ræddi þá at þeim væri þat lítilmenska at giöra hann at athafnarmanni ok giöra leik til. Þeim þótti þess at brosligra ok rèdust eingar bætr á at heldr. Þá fór Grímr heiman ok sudr yfir heidi til Sælíngsdalstúngu, þar bió Már prestr Þormódsson frændi hans ok Haflida Márssonar, ok segir Grímr honum hvat títt var, Már bydr honum at vera med sèr um jólin, [en at þeim lidnum mun ek ferdast nordr á fund Haflida, segir hann, ok fardu þá med mèr ok seg honum þín vandrædi. Hann þiggr þetta ok er med honum fram um iólin, sídan ferdast þeir nordr ok komu til Haflida ok dvelia þar nokkura hríd, ok eru þar gódar vidtökur, mikill mannfiöldi, gledi ok glaumr [2]). Þá [3]) er þeir biuggust brott leiddi Haflidi þá á götu ok mælti vel vid þá at skilnadi, ok þá spurdi Már Grím hvörsu honum hafdi þar hugnat, hann lèt vel yfir, ok hèr hefi ek svo verit at mèr hefir bezt hugnazt [4]), sagdi Grímr, ok vel væri sá madr kominn, er hèr ætti leingi at vera. En fleira hefi ek ætlat at mæla vid Haflida en ordit hefir. Hverf þú þá aptr, sagdi Már, ok mæl þat er þèr synist, því Haflidi tók ávallt vel þínu máli. Grímr hvarf þá aptr ok kallar á Haflida, en hann snyr mót honum [5]). Grímr segist vilia ræda nokkut vid hann, þeir setiast nidr ok segir hann honum hvat þeir ættu um at vera vestur þar [ok bad hann fyrir frændsemis sakir nokkurrar ásiár [6]), segir aungvan veita sèr slíkan ágáng sem Olaf Hildisson. Skil ek hvat þú segir, sagdi Haflidi, en ekki vil ek eggia þik fram til ónytra hluta, en halda mun ek þik sem son minn hvat sem

1) dár. *C. St.*

2) [ok mælti: ek mun fara nordr á bak iólum til Haflida frænda míns, ok far þú þá med mèr nordr þángat, ok seg honum til vandræda þinna, þetta þekkist Grímr ok er hann þar um iól, fara sídan nordr á bak iólum, ok koma á fund Haflida, ok eru þar gódar vidtökur, dvelia þeir þar nokkra hríd, þar var mannfiöldi mikill ok skèmtan gód, þeir áttu opt hial saman Haflidi ok Már prestr. *EV.*

3) En þá *C. Gr.* þ. en. *St.*

4) þótt. *EV.*

5) ok fagnadi honum, bætir *EV.* vid.

6) [í sveitunum ok þarmed at honum hugnadi þar ei, kvedst því þángat hafa sótt erfidliga lángan veg, at hann vænti þar nokkurrar ásiár fyrir frændsemis sakir. *EV.*

þèr berst á hendr. Sídan stígr Grímr á hest sinn ok bidr Haflida vel lifa. Kèmr Grímr heim vestr til Saurbæar, ok taka þeir nú at gabba hann ok segia hann flúit hafa undan leikum ok þorat ei vid at vera. Hann gèfr at því aungvan gaum, ok svo lídr fram á lángaföstu. Þórgils átti heimanför ok rædir vid Olaf ok segir, þú skalt iafnan vera heima, en geyma hrossa minna. Hann sagdi sína heimvon í efstu viku föstu. Lídr nú stundin ok kèmr Þórgils ei heim. Olafr vinnr á bænum heima sem honum var bodit. Þat er sagt, at þegar kèmr at dymbildögum, at þá sækia menn þángat fiölmennt tídir skírdagsmyrgin. Grímr var þar kominn ok gèkk at honum Olafi eptir náttsaung ok mælti: skaltu nokkut geyma hrossa Þórgils, nú eru þau í voru landi ok er einginn gaumr at gèfinn. Olafr svaradi, vid mik mun þat metit, ok skal ek nú eptir fara. Gánga sídan bádir saman, hefir Olafr öxi, en Grímr staf. Þá mælti Olafr: óvarliga fer ek nú, er ek geing einn saman úti á nóttum med þèr, en med okkr er heldr ótrútt [1]), ok veit ei hvar manni mætir, edr hvöriu heilli útgeingr. Grímr svaradi: ekki er nú hættiligt um, ek hefi sprota í hendi en þú öxi, ok þat hefi èk áfundit, þótt vid værum jafnbúnir, at þèr myndi ek ei vígligri þykia [2]). Olafr svaradi: vid skulum þat nú nidrleggia, er menn eigast vid [3]) í leikum, ok eru nú þær tídir, at eigi þarf á slíkt at minnast. Fara nú bádir saman til Laxár, ok hefir þar fiöldi hrossa geingit um veturinn á myrunum. Vill Olafr henda hross Þórgils, ok slá beizli vid hestinn, en Grímr safnar at ödrum hrossum, ok á götuna, hestrinn giörist órór, er hann sèr önnur hrossin, svo Olafr fær valla haldit hestinum, ok [4]) hrytr öxin úr hendi honum. Þá geingr Grímr þángat at, ok þrífr [5]) öxina, ok veitir Olafi banasár, ok rídr heim sídan, en þykist þó siá at þarvistir hans muni þar ei leingi mega vera, ok fer hann þegar at skyndíngu nordr yfir heidi til Bitru ok til Hrútafiardar, ok kèmr þvottdaginn fyrir Páska til fundar vid Haflida, ok tekr hann vid honum vel; en eptir páska-viku sendir hann

[1]) útitt. *EV.*

[2]) at þèr mundi vid ei glíkt vígligir þykia. *EV.*

[3]) eigu saman. *EV.*

[4]) í sveidum hestsins bætir *EV.* inní.

[5]) upp bætir *EV.* inní.

Grím austr í Fiördu til Hofs til Halls lögsögumanns. Hann hafdi átta Halldísi dóttur Bergþórs, bródur Haflida, ok kèmr hann honum utan. Ok þá er Grímr kèmr út stadfestist hann þar austr í Fiördunum, ok þótti vera mannhafnar-madr, ok var veginn af húskarli sínum.

15. Nú er þat sagt, at lík Olafs er heimfært [1]), ok tialdat yfir í kirkiugardi. Ok um daginn rídr þórgils sunnan yfir [2]) heidi, ok tekr áfánga at þórdar Rúffeyarskálds [3]) í Hvammsdal. þórdr hafdi ort kvædi um þórgils, ok var ei launat, þórgilsi hafdi gèfin verit öxi gód. þórdr tekr til öxarinnar [4]), ok spyr: hvat þeim þætti hún verd [5]), en þeir urpu á 2 merkr. þórdr kvad vísu:

Metin er [6]) marka tveggia
mèr þætti svartleggia
góð ef grunlaus væri
ok gott veldi mèr færi,
en fagurslegin fála
fastlegst [7]) virdir [8]) tála
samdi sá fyrir kvædi
sleppr mörgum siálfrædi [9]).

þórgils mælti, at þórdr skyldi taka lanzleigu undir siálfum sèr, en hann segist eiga lög til öxarinnar. Ok um daginn kèmr þórgils heim, ok eru honum sögd tíðindin, ok lætr hann grafa lík Olafs at kyrkiu.

16. þat er sagt, at um vorit kèmr sá madr til þórgils er Kètill hèt, ok skorar á þórgils til vidtöku ok ásiár; hann var vestfirzkr ok sekr. þórgils bóndi mælti: þú munt verda fátt undir

[1]) heimflutt. *EV.*

[2]) um. *EV.*

[3]) Raufeyaskálds. *EV. St.* Ruffeya, *Gr.* Raufeira, *C.*

[4]) ok litr á bætir *EV.* vid.

[5]) hvörs þeim þætti verd öxin. *EV.*

[6]) er, sleppir *EV.*

[7]) fastlig. *EV.*

[8]) virdar *B. Gr.*

[9]) fullrædi. *EV.*

höfud at leggia [1]), ef ek skal vid þèr taka. Kètill mælti: ef ek kved nei vid því sem þú vilt fyrir mik leggia, þá segdu mik þèr afhendan [2]), því ek mun lítill gæfu-madr, ok mun því opt þurfa þinnar gæfu vid at nióta, ef vel skal takast. Nú er hann med Þórgils um vorit. Nokkurn [3]) dag um vorit mælir Þórgils vid Kètil, ek vil senda þik nordr í Vestrhóp ok far ei erindislaust, [þú skalt drepa nokkurn þíngmann fyrir Haflida [4]). Kètill mælti: fara mun ek, en eigi em ek sigurstrángligr. Þá var búin för hans ok er ei gètit náttstada fyrr en hann kom í Vestrhóp til Haflida Márssonar, ok bar upp erindi sín ok vandrædi [5]), at hann sè sekr ok hafdi Þórgils eptirsiónir [6]), ok skorar Kètill á Haflida til vidtöku ok ásiár, ok er hann þar um hríd ok hugnast mönnum vel til hans. Madr er nefndr Steinólfr, hann var austfirzkr at kyni, hann var giör sekr [7]) austr [8]), sídan strykr hann burt ok nordr ok verdr heimamadr Haflida. Einn dag um vorit er Katli ok Steinólfi skipat [9]) til verks, at giöra upp stekka, þeir fóru snemma [10]) heiman, ok hiala margt ok varast hvorgi annan, en verdr þó sá skilnadr þeirra, at Kètill vegr Steinólf [ok felr hann vid gardinn [11]) ok fer í burt sídan ok lysir víginu á hendr sèr, þar sem hann má ok honum er óhætt, ok fer þartil hann kèmr á Stadarhól ok segir erindi sín. Þórgils lèt vel yfir [12]), ok kvad hann [13]) vel hafa farit. Nú fer tveim frásögum fram, þá þykir þeim í Vestrhópi frestast heimkoma þeirra Kètils ok Steinólfs. Um kveldit er þeirra farit at leita, ok segir Haflidi, ef svo ílla berst at, at þèr finnit annanhvorn þeirra andadan af manna völdum, þá giörit þar ekki at, fyrr en ek kèm til, ok kann margt í mörgu

[1]) leggiast. *EV.*

[2]) af höndum. *C. EV. St.*

[3]) Einn. *EV.*

[4]) setti Þórgils rád fyrir hann, at hann skyldi drepa einhvörn mann fyrir Haflida Márssyni. *EV.*

[5]) vankvædi öll ok segir. *EV.*

[6]) eptirmál. *EV.*

[7]) fyrir nokkurskonar íllvirki austr þar í fiördunum *EV.*

[8]) austan. *C. St.*

[9]) saman, bætir *EV.* inní.

[10]) dags bætir *EV.* inní.

[11]) ok færir á hann stekksvelsin. *EV.*

[12]) erindi hans bætir *EV.* vid.

[13]) honum. *EV.*

at verda, ok er nú fyrst leitat [1]) til stekkianna, ok finnst Steinólfr, en ei Kètill, sem líklegt var. Nú er [2]) sagt Haflida, ok fer hann til [3]) ok menn med honum [4]), ok kèmr höndin ber at úlflid fram undan torfinu; Haflidi nefnir votta at því at ei eru hræin hulin, ok byr þetta mál til alþíngis [5]). Þórgils byr ok mál til um víg Olafs Hildissonar, svo sem væri hann sykn madr, ok fann [6]) þat til at honum væri sú sykn mælt, at hann skal sykn vera med Þórgilsi í hans förum ok í hans landeign. Nú [7]) fiölmenna hvorutveggiu til alþíngis, ok var leitat um sættir. Haflidi kallar Olaf sekan hafa fallit ok drepinn í annari landeign en honum var sykn mælt. Þórgils mælti [8]) til þess hvört ei væri Olafi sú sykn ágiör [9]), at hann skyldi sykn í förum med mèr ok í minni landeign, ok var [10]) borit þetta mál; Þórgils mælti, því megi þèr ei [11]) Olaf sekan kalla, at ek tel mína landeign allt þar er ek á land. Haflidi mælti: èk mun gèfa Þórgils 8 Kúgildi fyrir metnadar sakir [12]) ok virdíng, ok kalla èk giöf, en ekki [13]) giald, ok skilr þat med þeim at ödrum þótti [14]) ekki at gialda, en ödrum þótti [15]) lítit giald fyrir sökina [16]), ok þótti hvörium þar sín virdíng vidliggia hvört heldr væri kallat, ok stód þat á milli, at ei urdu sáttirnar [17]).

17. Þat er sagt um þíngit, at Pètursmessu-dag geingu flokkarnir til kyrkiu um gudspiall, ok stódu med vopnum sínummegin kyrkiudyra hvorir; Haflida flokkr [18]) fyrir nordan kyrkiu-

1) farit at leita. *EV.*
2) þetta bætir *C. EV.* inní.
3) stekkianna: bætir *EV.* vid.
4) þeir líta ok siá at kèmr *o. s. fr. EV.*
5) ef nokkut skortir ádr á fulla sök Kètils, bætir *EV.* vid.
6) færir. *EV.*
7) Eptir þat. *EV.*
8) inti: *EV.*
9) mælt. *EV.*
10) þá svo borit. *EV.*
11) Hví megi þèr at því *o. s. fr. EV.*
12) metnad hans ok. *EV.*
13) alls ei. *EV.*
14) fyrir bætir *EV.* inní.
15) betra bætir *EV.* inní.
16) en eiga giöf at launa, bætir *EV.* inní.
17) ok skildust med því at þá þótti hvörium verr en ádr. bætir *EV.* vid.
18) stód, bætir *EV.* vid.

dyr, ok þarhiá Hallr Fáluson, en fyrir sunnan [1]) Þórdr úr Vatnsfirdi [2]), en þar sudr fyrir [3]) Hallr Teitsson [4]). En fyrir vestan [5]) stódu þeir Þórgils [6]), ok Bödvar Asbiarnarson, ok þar margir menn hiá þeim. Þórgils mælti til Bödvars: taka mun nú öxi mín til Haflida, ok mun þá um meira at tala en 8 kúgildi. Bödvar mælti: ær ertu [7]); ei em ek ær, sagdi Þórgils; þetta er satt, segir Bödvar, en þó lítr þú ei rètt á hug [8]) hvar vær erum nú komnir; þetta á at vera sáttarfundr vid Gud, er vèr höfum á kyrkiu helgi sótt, ok bidia oss miskunar; nú er ok í þessu kyrkiufrid raskat, ok er þetta fyrir þá sök ódæma-verk, hitt er ok annat er fyrirstendr helgrin [9]), er vèr höfum alla hiálp afhlotit [10]). Þat er ok til [11]) at grid [12]) eru sett um þíngit [13]), ok er þetta fyrir því hit mesta lagabrot [14]). Ok fyrir umtölur Bödvars sefast [15]) Þórgils, ok er þeir geingu heim til búda, þá mælti Þórgils til Bödvars: þat mæla menn, at þú sèrt [ei laus [16]) madr, heldr gódgiarn í medallagi, ok þat lystir þú nú [17]). Bödvar mælti: þat er satt er þú segir, ok ekki gekk mèr trúa til þess, er ek latta þik tilræda [18]) vid Haflida, heldr hugda ek at fleiru en hiali okkru. Ek sá at flokkar stódu á tvær hendr oss, en vær í kvínni, ok sá ek þetta fyrirfrám [19]) at slá mundi í bardaga, ok værum svo [20])

1) kyrkiudyrnar bætir *EV.* innf.
2) ok hans sveitúngar, bætir *EV.* vid.
3) sudr frá. *EV. Gr. A. C.*
4) ok margir menn med honum, bætir *EV.* vid.
5) kyrkiu gègnt kyrkiudyrum, bætir *EV.* vid.
6) Oddason bætir *EV.* vid.
7) ok tók nokkut svo til hans ok mælti hardliga til hans, bætir *EV.* vid
8) hygg at þessu, hvar *o. s. fr. EV. St.*
9) yfirstendr dagshelgin. *EV. Gr.*
10) ok siálfr Gud almáttugr lèt sína mildi ok miskun svo mikla skína ok birta á þessum degi, bætir *EV.* vid.
11) hid þridia. *Gr.* þ.
12) ok fridr, bætir *EV.* innf.
13) ok þínghelgin stendr yfir, bætir *EV.* inní.
14) helgibrot. *EV.*
15) ok er þeir höfdu vidmælzt, þá heptist at því ok rèd hann ei til Haflida. *EV.*
16) trúlaus. *EV.* ei huglaus. *C. St.*
17) en ei lystir þú nú því. *EV.*
18) til árædis. *EV.* tilrædis. *A.* þ.
19) ok sá ek þat, ef þetta færi fram. *EV.*
20) ok mundi hvörr vár fèlaga drepinn á fætr ödrum. *EV.*

drepnir hvörr at ödrum. [1]) En ef ei væri þetta til, þá hirdta ek aldreigi, þótt þú hefdir drepit hann í kyrkiufridi edr þínghelgi. Nú bidia sèr lids hvorutveggiu til dóma ok fiölmenna eptir faungum. Haflidi tók öxi í hönd sèr, er hann gèkk til dóma frá búd sinni, en þat var ei vandi hans at bera öxi, því hann rèd einn náliga í öllum málum vid hvöria sem skipta var, þvíat Haflidi var bædi fiöltaladr ok frændgöfugr. Þá mælti Rannveig kona hans: hvat er í þessu Haflidi at bera nú vopn heldr en fyrr [2]), ok haldtu hætti þínum [3]). Haflidi vard styggr [4]), ok kvad þat ei til hennar koma [5]). Þórgils gèkk at dómum med fiölmenni miklu, ok hafdi fram sökina um víg Olafs [6]). Þórgils var [7]) í selskins kufli yfir bryniu, ok girdtr í brækr, ok hafdi öxi í hendi. Þess er gètit, at Þórd Magnússon í Reykiaholti dreymdi [8]) um þíngit, ok var hann þá heima [9]); honum þótti [madr koma at sèr af þíngi, hann þóttist spyria tídinda [10]); hinn sagdi þíng kvitt. Þórdr þóttist spyria: ef nokkur deilumál [11]) væri framhöfd á þínginu? Þat var helzt nylunda, sagdi draummadrinn, at einn madr tekr [12]) á hendr at vinna í öllum búdum sá er heitir Þórir Dritlok [13]). Þórdr rèd svo drauminn, at ei mundi þar öll mál vel lukkast [14]).

18. Haflidi gèkk at dómum med miklu fiölmenni, ok vildi hleypa upp dómum, en þeir Þórgils snúast vid, ok verdr þraung

[1]) en því sagdag þèr þat ei til, at ek kunni skap þitt at því, at þú mundir aungvan gaum at gèfa, ef ek fynda þat til, en ef ei væri þat, þá *o. s. fr.* bætir *EV.* inní.

[2]) hefir þú verit vanr at giöra, bætir *EV.* vid.

[3]) Hún var vitur kona ok vel at sèr um marga hluti. bætir *EV.* inní.

[4]) H. svarar nokkut styggiliga. *EV.*

[5]) ok kastadi at henni nokkrum ordum, bætir *EV.* vid.

[6]) Hildisson bæta *EV. Gr.* vid.

[7]) svo búinn at hann var *o. s. fr.* bætir *EV.* inní.

[8]) draum bæta *EV. Gr.* Þ. vid.

[9]) í Reykholti bætir *EV.* vid.

[10]) sem madr kæmi at honum, ok þóttist hann spyria hvadan hann væri kominn; hann kvadst vera kominn af þíngi Þórdr þóttist spyria tídinda *o. s. fr. EV*

[11]) tídindavænlig. *EV.*

[12]) hefir tekizt. *EV.*

[13]) Þórdr Dritloki *EV.*

[14]) lúkast ádr sliti þínginu. *EV.*

mikil ok rædst aptr ok fram; ok þá er svo hefir verit um hríd, þá ræda margir vitrir menn at leita [1]) skuli um sættir, ok enn bydr Haflidi en sömu bod ok fyrr, ok ryma [2]) þá nokkut þraungin; en Þórgils læzt ei nema ord Haflida ok lææt [3]) reidast þángat at, sem fáir menn voru milli þeirra. Þórgils sèr at Haflidi heldr á öxi, ok höggr þegar yfir höfut manni, ok kèmr á hönd Haflida vid öxarskaptinu, ok af leingsta fingurinn med öllu, en í sundr köggulinn í enum minsta fíngri, ok þeim sem þar er ámillum [4]). ok verdr Þórgilsi laus öxin, þá er menn þreyngdust at Haflida. Þórgils þrífr [5]) öxi af manni í flokki Haflida, sá er Þormódr læknir hèt, hann batt hönd Haflida sídan ok grœddi svo at fíngurnir láu tveir í lófa [6]), en fyrir stúf ens þridia. En þá er Haflidi hafdi feingit áverkana, sleit þraunginni, ok gèkk hann heim til búdar med [7]) flokk sinn; ok þá er hann gekk inní búdina, ok þar at sem kona hans [8]) sat, þá mælti Haflidi: opt hefi èk þat reynt, at ek em vel kvændr, ok hefir heldr þá raun áborit, at þú ert vitur [9]) ok vel forspá, af [10]) því at ei munda èk fyrir þessum vansa ordit hafa, ef ek hefda þín rád haft. Sídan var höndin bundin, ok geingit til lögbergis eptir þat, ok var lyst áverkunum, ok beiddu [11]) sídan at fœra skyldi dóma út í annat sinn, ok nádu ei fleiri dómendum en í þeirra flokki höfdu verit ok settu þrisvar nidr dómendr sína í dómsteinum [12]), ok mátti dómrinn aldrei nidrsetiast; ok þá nefndi Haflidi váotta at því [13]). Þeir fœrdu dóminn austr á hraunit hiá Byrgis búd [14]), ok þar verdr Þórgils Oddason sekr skógarmadr, ok þetta eitt mál nyttist þat er í dóm var lagt, ok þá var geingit til lögbergis, ok sagt til sektar hans.

1) ræda. *A.*

2) rymkast. *B. Gr.*

3) lætr. *B. Gr.*

4) þar hlaupa menn ímillum þeirra. bætir *EV.* vid.

5) þegar bætir *EV.* vid.

6) lófann. *B EV. Gr.*

7) allan bætir *EV.* inní.

8) Rannveig. *EV.*

9) allvitur. *EV.*

10) at. *EV.*

11) Haflida bætir *EV.* inní.

12) dómstadnum. *EV.*

13) at eí mátti hann dómum framkoma fyrir ofríki Þórgils, bætir *EV.* vid.

14) þar gæta giár þrem-megin, en virkis gardr einum-megin, bætir *EV.* vid.

Ok er menn komu heim til búda, var rætt um áverka Haflida, af því at alþydan vissi þá enn ei víst hvat at hafdi ordit, edr hvörsu mikit. Þá var sendr Bödvar Asbiarnarson ok Ingimundr prestr Einarsson at kynna um áverkana, ok menn med þeim til fundar vid Þorgeir [1]) Helgason [2]). Hann átti Hallberu Einarsdóttur systur Ingimundar prests, ok [3]) hafdi búdarvist med Þórólfi Sigmundarsyni, ok hafdi þó meir rád fyrir þíngmönnum en Þórólfr ok búdarlidi. Svo var ásett at [4]) Bödvar ridi á baki Þórólfi, ok hèldi þó í taumana, ok styrdi hvört fara skyldi. Þá þeir komu heim til búdar [5]), voru þeir spurdir tídinda. Þá kvad Ingimundr prestr:

Fíngur eru þrír af þeirri
þó skyldu mun fleiri
sundr í siálíngs [6]) hendi [7]).

Sídan var kvadt fèráns-dóms, ok rída menn heim til hèrada eptir þat; ok er Þórgils ei at sídr í búi sínu, ok er dregr at fèránsdómum, safnar Þórgils at sèr mönnum, ok verda nær 4 hundrud [8]) manna. Haflidi hafdi nordan nær hundrad [9]) manna einvala lid bædi at búnadi ok mannvirdíngu. En í þridia stad safnast saman heidarligir [10]) menn til medalgaungu. Þar var fyrirmadr Þórdr Gilsson, ok Húnbogi [11]) frá Skardi, ok med þeim margir gódgiarnir menn, Gudmundr Brandsson, ok Örnólfr Þórgilsson frá Kvennabrekku til medalgaungu. En Þórgils ætlar at veria vígi allt hèradit, ok skyldu þeir Haflidi ei ná bæarreidinni; hann ætladi ok at veria heidarbrekkurnar, ef þeir ridi Sælíngsdal, en Miósyndi, ef Svínadalr væri ridinn. Þar mega fáir einir menn ríđa jafnframmi, þvíat þar eru fiöll brött á bádar hendr. Þeir Haflidi rída um kvöldit fyrir fèráns-dómana til gistíngar til Márs prests í Sælíngsdalstúngu, ok hafdi hann fyrir 40 manna til lids

[1]) Þórgils. *B. Gr.*

[2]) Hallsson. *EV.*

[3]) en Bödvar. *EV.*

[4]) Svo skipudu menn til í ordtaki sínu, sem. *EV.*

[5]) Þorgeirs bætir *EV.* vid.

[6]) svalnings. *EV.* er sleppir í,

[7]) *EV.* bætir vid:
slíkr er böggvi nú höggvinn.

[8]) þriú hundrud. *St.*

[9]) tvö hundrud. *EV. St.*

[10]) hèrads. *EV.*

[11]) Þórgilsson bætir *EV.* vid.

vid Haflida. Þá rídr Gudmundr Brandsson systrúngr Þórgils, son Steinunnar Aradóttur, ok var hann hinn mesti mætis-madr, ok var hann opt mikils metinn í stórmálum; hann var í biskups kosníngu [1]), ok annar madr Klángr. Gudmundr var vinr Haflida [2]), ok vildi [3]) koma á sættum med þeim; hann spurdi Haflida, hvöria tilætlan hann hefdi um för sína, ok giör svo vel, ok far varliga, ok gæt virdíngar þinnar ok sóma, af því at svo er mikit fiölmenni fyrir, at þú hefir ei lid vid, ok eigu menn mikit í hættu ef ei gætist vel til, er þèr ok eingi vanvirda [4]), at búa þar [mál til at lögum er þú kèmr fyrst [5]), ok þèr er óhætt, mun ek ok med þeim ydrum snúa [6]), er mín ord virda meira, med þá menn er ek fæ til; haf þú vid rád vina þinna, at þú fylgir því at eins þessum málum, at þú gætir sóma þíns. Haflidi mælti: þetta er vel [7]) ok vingiarnliga talat, ok skal ek þat miök hafa er slíkir menn tala, er bædi eru vitrir ok heilrádir, ok eiga mikils kosti. Eptir þetta rídr Gudmundr á fund Þórgils, ok spurdi hvöria tilætlan hann hefdi á sinni ráda-giörd, svo mikit fiölmenni sem þar væri samankomit [8]). Þórgils lèzt ætla at veria þeim [9]) bæar reidina, heidarbrekkurnar vid Sælíngsdal [10]), en Miósyndi, ef þeir ridi Svínadal. Gudmundr mælti [11]), at því er at hyggia vid hvörsu dyran [12]) mann þú átt málaferli [13]), ok mun sá ordrómr áleika [14]), at þú hafir allmikilmannliga móttekit þó þú takist ei

[1]) hann var med hafdr í ordstefi, þá er um biskupa skyldu kosníngar vera í Vestfirdíngafiórdúngi. *EV.*

[2]) ok rídr hann á milli ok menn med honum, bætir *EV.* inni.

[3]) midla mál med þeim, ok bætir *EV.* vid.

[4]) svívirdíng i. *EV.*

[5]) mál til er þú kèmr framast at lögum. *EV.*

[6]) atsnúa. *EV.*

[7]) þetta er sannarliga vel mælt ok. *EV.*

[8]) ok búit sem til bardaga bædi at vopnum ok ödrum vidrbúningi, bætir *EV.* vid.

[9]) Þórgils kvadst þat ætla vænst, at hann mundi vidleita at veria þeim Haflida ok mönnum hans bæarreidina. *EV.*

[10]) annattveggia heidarbrekkurnar vid Sælíngsdalsheidi eda *o. s. fr. EV.*

[11]) ei er slíkt at mæla, en *o. s. fr.* bætir *EV.* inni.

[12]) göfgan. *EV.*

[13]) málaferlum at skipta. *EV.*

[14]) áfalla. *EV.*

meira á hendr, en verjir bæ þinn, þar sem fèránsdómr átti at vera, edr landeign þína hit mesta. En ef þú fer med þeim ofsa, sem einskis manns dæmi eru til, þá uggi ek at þú mætir ofsanum ádr en lúki málum ykkrum, þigg heldr rád af vinum þínum, er þú mátt ei siá satt mál fyrir ofrkappi þínu, en Haflidi fer [1]) med vægd ok stillíng, en er vorkun at hann vilji halda máli sínu til þrauta, ok muntu vilia virda ord vina þinna ok styra ei [2]) mörgum mönnum í mikil vandrædi. Ok fær hann heitord af Þórgilsi um þetta, ok í því koma tídindi [3]), er Þórgils hafdi tilsett at niósna um ferdir Haflida, ok kunna þeir at segia at hann muni rída Sælíngsdal, þá bidr Þórgils rída flokkinn ámóti [4]), ok komu upp af Steinshyl [5]) at Þverdalsá ok bída þeirra Haflida, koma þar hèradsmenn þeir er á milli gengu. Þar eru háfir hamrar fyrir austan ána, en múlar [6]) brattir fyrir vestan, ok meiga menn þar ei hiárída, ef fiölmenni er med, ok verdr þetta nær einstígi, ok rída þeir Haflidi at fram ok stíga af baki, ok nefnir hann [7]) votta, at hann má ei komast leingra áfram óhætt ok heyir þar fèránsdóminn, er þat ei í Stadarhóls landeign, ok ráda hvorugir á adra, rídr Haflidi heim nordr, en Þórgils sitr í búi sínu med 80 [8]) karla ok höfdu hvorutveggiu vörd [9]) á sèr um sumarit.

19. Skip hafdi stadit uppi í Rútafirdi um veturinn ok hafdi Þórgils keypt marga vidu til skálagiördar ok heim flutta, nema eitt hundrad vida hafdi þar eptir ordit, ok þat eitt fèkk Haflidi af sektafènu, þau misseri var skálinn giör, er Þórgils var í sektinni [10]), þá var ok sonr hans Einar fæddr. Haflidi sendi ord í allar sveitir at bidia um lid [11]) bædi smærri menn ok stærri, ok

1) ok vill Haflidi fara. *EV.*

2) ok afstyra — mikil vandrædi. *B. Gr.*

3) ok í því bili koma þeir menn rídandi *EV.*

4) þeim Haflida, bætir *EV.* vid.

5) ok ridu sídan allt þar til þeir komu upp um Steinsgil. *EV.*

6) melar. *EV.*

7) enn, bætir *EV.* inní.

8) vígra bætir *EV.* inní.

9) úværd. *B. Gr.*

10) ok sá skáli var þá úhrörligr, er M. biskup Gissursson andadist, bætir *EV.* inní.

11) ok fulltíngis, bætir *EV.* inní.

um haustit stefndu þeir fund sín á milli Haflidi, Hallr Teitsson ok Þórdr Þorvaldsson [1]), ok þarum var þetta kvedit:

Ambhöfdi kom nordan,
en Auknhöfdi [2]) sunnan,
Hiarthöfdi kom vestan,
höfdu rád und skuti [3]),
tóku mart at mæla,
er menn spakir fundust,
þó var úlbúd ærin
í Ambhöfda [4]) bríósti.

Ok lidu nú af misserin ok um vorit eptir fór Haflidi sudr í Haukadal til kyrkiodags tveggia postula messo Philippi ok Jacobi, til Halls mágs síns [5]), ok taladi Haflidi þar lángt erindi um málit eptir tídir ok bad lidsinnis ok þíngreidar úr hèradi, hann bad ok lids lærda menn at þeir skyldu bidia fyrir þeim [6]) ok at mál þessi lyktudust med gódu [7]). Þá mælti sá madr er Þorsteinn hèt [8]): naudsyn væri at stoda ord þín, því þú hefir leingi borit hardan [9]) hlut fyrir Þórgilsi [10]). Ok nú um sumarit fiölmenna hvorutveggiu til alþíngis eptir faungum, þá er þar kom, ok ridu menn á þíng enn nærsta dag fyrir Jóns messo Baptistæ, ok þeir mágar Haflidi

[1]) vatnsfirdíngr bætir *EV.* vid.

[2]) Aukinhöfdi. *B. Gr.*

[3]) skauti. *EV.*

[4]) Auknhöfda. *C. St.*

[5]) ok dvaldist þar í gódu yfirlæti, taladi hann þar lángt erindi um málin þeirra Þórgils, eptir allar tídir um daginn, ok segir honum þótti sèr erfidt veita at skipta málum vid hann fyrir sakir ofrkapps ok fiölmennis, ok taladi þarum lángt erindi ok snjallt, *o. s. fr. EV.*

[6]) til Guds, at mál — lykist, *o. s. fr. EV.*

[7]) ok svo yrdi nokkursháttar at sem bezt gègndi öllu lanzbúinu, en hann hèldi þó sæmd sinni, bætir *EV.* vid.

[8]) af Drumboddsstödum, bætir *EV.* vid.

[9]) skèrdan. *EV.*

[10]) ok setit honum mikinn vansa. Þá svarar Hallr Teitsson: Þorsteinn fèlagi, verum vid hliódir, ok ertu vesæll máls þíns, kunnum vid ei betr en hlyda til, þú vilt vel, en mátt illa. Haflidi hefir honum aldrei vansa setit, en þó er honum þetta naudsynia mál, ok sá einn er minn vinr, er þessum málum fylgir sídr, bætir *EV.* vid.

ok Hallr Teitsson, ok nokkrir flokkar med þeim rída snemma dags á þíngit, ok snyr Haflidi til búdar Þórgils ok brióta hana alla til iardar. Hallr eggiar at þeir Haflidi, skuli rída móti þeim Þórgilsi med þat lid sem þeir fá til, ok segir þat mikla lögleysu [1]) at sekir menn rídi á helgat þíng [2]), ok minnumst nú þess er hann lèt ei ná at heya fèráns-dóminn þar sem vera átti at lögum, nema menn berdist. Ok þá rída þeir uppá völlu, ok giöra þar fyrisát ok verdr allt seinna en segir, þvíat sumir löttu fyrisátirnir, ok kvádust ætla heldr mundi sætt takast, ef gódgiarnir menn geingi í millum ok ætti hlut at [3]), ok var af því ei leingra ridit ok stigu menn af baki. Þá geingr at Kètill prestr Þorsteinson ok tók svo til máls: rædr þú Haflidi fyrirsátinni? Svo er víst, segir Haflidi. Þessi fyrirætlan er órádlig [4]), mætti vera, at Þórgils tæki þat rád at rída í nótt [5]) edr ei alþyduveg, ef vill hann med kappi fara. Þá geingr at Þórlákr biskup, er þeir ræda þetta ok bad Haflida at þeir ridi heim til búda ok væri leitat um sættir. Haflidi mælti: þetta mál er mèr miklu nákomnara [6]) en þat megi í neina umrædu leggia, at sekir menn rídi á helgat þíng ok brióti lanzlög, ok sú raun mun á gèfast [7]) enn af stundu, at margir munu hèr eptir taka, ef þessum hlydst. Biskup mælti: þat er satt er þú segir, en er þat satt, sem komit er fyrir oss, at þú hafir þèr [8]) lids bedit um allar sveitir höfdíngia, minni menn, fátæka, iá oksvo hveria herkèrlíngu [9]). Þat er víst satt, segir Haflidi. Biskup mælti: þat er lítillátligt slíks manns, sem þú ert, at þú vildir allir væri í huga þínum ok í bænum þèr í sinni [10]), en þó mun þat einmælt [11]), at vitrum manni missynist slíkt i meira lagi, er þú vilt alla hina herfilegustu [12]) þèr í sinni, en þann dyrliga mann

1) ósóma mikinn ok lögleysu. *EV.*

2) alþíng. *EV.*

3) en svo margra mundi vidkostr, ef menn sættust ei, ok vard mart til dvala, bætir *EV.* inní.

4) segir Kètill, bætir *EV.* inní.

5) um nátt. *EV.*

6) naudsynligra. *EV.*

7) ok þá raun mun ábera. *EV.*

8) þessi misseri, bætir *EV.* inní.

9) kararkèrlíngu. *EV.*

10) væri þèr í sinni, í huga sínum ok bænum. *EV.*

11) ummælt. *EV.*

12) menn, bætir *EV.* inní.

á móti þèr sem messodaginn á á morgun, er göfugastr er nær allra Guds ástvina [1]) at vitni siálfs Guds, ok mun hans reidi áliggia, ok muntu hana hafa, ef þú vilt svo margra manna blódi úthella fyrir þessa sök, en líkast ef þú lætr þetta fyrifarast [2]) á þessari hátíd, at Gud ok hinn heilagi Jóhannes [3]) siái þèr hlut til handa um þetta mál, en þar at auk er þetta einskis verdt, hiá því er þèr mun í ödrum heimi endrgoldit, þar er þú giörir nú fyrir Guds sakir ok hins heilaga Jóhannis [4]) Baptistæ. Þá svarar Haflidi, sannlega er slíkt mælt, en þó nennum vèr ei [5]) at heya þíngit í svo mikilli lögleysu, at sekir menn rídi á þat ok neitti Haflidi því er biskup beiddi, ok er í fyrisátinni nær 12 hundrud manna.

20. En þá fyrirbydr biskup öllum lærdum mönnum at gánga í flokk [6]) med honum en bidr alla alþydu til medalgaungu med sèr ok til þessa lètust margir búnir mundu. En þá er Þórgils fregnar at honum er bönnud [7]) þíngreidin af Haflida, er hann vid Sandvatn med 7 hundrud manna [8]), þar var bedit Styrmis Hreinssonar [9]) af Gilsbakka; hann var mágr Þórgils, þar voru þá allir godordsmenn [10]) fyrir vestan Bláskógaheidi, nema Þórdr í Vatnsfirdi. Sídan tóku menn tal med sèr, ok löttu flestir þíngreidarinnar vid svo mikinn lidsmun. Þá mælti Þórgils: þat veit ek glöggt, ef þar er svo mikit fiölmenni, sem sagt er, at þar munu margir fagna, ef annar tveggia lètist, en hirda mundu aldrei hvorr á burt kæmist, en ek veit, at ek hefi svo trausta menn í mínu föruneyti ok mèr örugga, at hvörr mun heldr falla vilia um þveran annan, en mèr verdi neitt, ok munu vær af því framhalda ferd-

[1]) helgra manna. *EV.*
[2]) um fridinn, bætir *EV.* inni.
[3]) ok sá kappi Jón Baptista. *EV.*
[4]) Jóns *EV.*
[5]) lída, bætir *EV.* inni.
[6]) lid. *EV.*
[7]) fyribodin. *A*, *B*, *C*, *St.* þ.
[8]) En er Þórgilsi var fyrikvedin þíngreidin af Haflida, þá hleyptu margir móti flokkinum Þórgils, ok segia horum hvar komit var, ok hitta flokkinn fyri nordan Sandvatn, þar voru þá 8 hundrud manna. *EV.* 8 hundrut. *St.*
[9]) Þórissonar. *C.* *St.*
[10]) med Þórgils. *EV.*

inni, þá var Styrmir kominn med hundrad manna, þá mælti Styrmir: þat vitum vèr, hvörsu þat er nær öllum gèfit at aungvum þykir sèr lid veitt med fullu nema vígsgeingi sè veitt [1]). Ok svo fer Þórgils nú af stad ok mælir: þeir menn, sem hèr eru samankomnir, bindist í því at skiliast ei fyrri vid en málum þessum er lokit, þeir er nú vilia leggia sik í svo mikla hættu. Styrmir svarar, vita vil ek til hvörs þú vilt á þíng rída annars en syna ofrkapp þitt, ok styra mönnum í svo mikinn vanda. Þórgils segir, þat er erindi mitt, at biódа Haflida sættir til handa honum [2]), en ef því er neitat, at nióta þá margra vina, ok göfugra manna ok mikils brautargeingis. At þessu er veitandi öllum vöskum mönnum ok vinum þínum, sagdi Styrmir. Þá var feinginn til Bárdr hinn svarti ok Aron [3]) son hans ok menn med þeim, at rída fyrir ok bera niósn ádr samandysti flokkunum, en megit lidit reid í fylkíngu ok beid í Vídekiörum nokkra hríd, en reid svo ofan yfir Háls at Sandvatni, ok töludu margt um rádagiördir ok var farit heldr tómliga [4]), reid Þórgils, í framanverdri fylkíngu [5]). Þá spyr Þórdr prestr, er kalladr var Lundarskalli, þó hann ádr vissi, hvat þeir voru at ræda ok hvar komit væri, edr hvat þeir vissu sídast til flokks Haflida, en þeir sögdust ekkèrt víst kunna frá honum at segia. Hann sagdi [6]) þá, at flokkr Haflida væri kominn á völluna [7]) ok ætladi at veria [8]) alla þínghelgina, en biskup ok margir adrir gódir menn löttu fyrisátar ok mótreidina [9]). Þórdr mælti: ekki kann ek þèr rád at kènna, en á því er mèr

1) nú megum vèr ok þat siá, at Þórgils þykir sèr ei lid veitt med fullnadi, nema honum sè vígsgeingi veitt. bætir *EV.* vid.

2) gódar sættir til sæmdar honum. *EV.*

3) Arnór. *C. St.*

4) leyniliga. *C. St.*

5) þá kvad Ingimundr prestr vísu: Hallr vill ádr frid fullan, *o. s. fr.* siá enda Kap. Þá koma þeir at rídandi Þórdr prestr Sigurdarson, er kalladr var Lundarskalli, ok nokkrir menn med honum, hann var audkyfingr mikill ok vin Þórgils, framkvæmdarmadr ok skilgódr; hann spyr *o. s. fr.* bætir *EV.* vid.

6) honum var þá sagt inniliga. *EV.*

7) efri. bætir *EV.* vid.

8) at bída þar ok veria vígi. *EV.*

9) en vissu ei leingra, ok menn voru sendir hvat tídinda væri, bætir *EV.* vid.

bænarstadr at þú þiggir at mèr heimbod fyrir lítillæti þitt ok áfysu mína [1]), skal þar vera ummælt, at þú hafir ei komit til matar eins edr aptrhorfit, því [2]) þat er líkligt, at Haflidi haldi ei fyrisátinni leingr en í dag edr nótt, ok muntu þá vel mega rída hlutlaust, ok má vel verda at gódir menn komi á sættum edr gridum, ok er þá gott at rída, en hafa marga menn firta vandrædi [3]), svosem nú horfist á. En þá er Þórdr lauk sínu máli þökkudu honum margir sín ummæli ok fystu at þat væri upptekit, þá kvad Ingimundr prestr vísu:

Hallr vill ádr [4]) frid fullan
fer Haflidi at veria
breidan völl ok búdir
banna skógarmanni
þar rídr mætr á móti,
malmríri tel ek skíran,
ordinn allrar ferdar
Odda sonr í broddi.

21. Nú er at segia frá ferdum þeirra [5]) Bárdar ok Arons, at þeir koma ofan á Sandkluftir [6]), ok siá þar nidr undir [7]) fiölda hrossa ok manna, ok er nokkut svo at þeir hugsa fyrir sèr rádit, ok þeim þykir ei ólíkligt at þeir Haflidi muni þar vera ok sitia fyrir ok gæta svo hvorutveggiu veganna [8]). Annar liggr framundir Armannsfell ok at Sledaási, en önnur liggr leid austr yfir hraunit, ok undir Hrafnabiörg ok Reidarmúla til Giábakka ok svo austr yfir [9]) hraunit til búda. Þeir Aron giöra þat rád med sèr at rída ok hitta þessa menn, því, segia þeir, vèr erum í aungvum sökum vid neina menn, en nokkrir vorir menn skulu rída sídar ok hugleida, hvat í vegi [10]) verdr ok segia Þórgils hvat sem

[1]) en fyrir — skal þar *o. s. fr. EV.*

[2]) en. *EV.*

[3]) firrda vandrædum. *EV.*

[4]) at. *C. St.*

[5]) fedga bætir *EV.* inní.

[6]) sandklaufir. *C. St.*

[7]) Armannsfelli bætir *EV.* inní.

[8]) leidarinnar. *EV.*

[9]) austan um. *EV.*

[10]) i hvöriu. *EV.*

ígiörist, ef nokkut er tálmat um vorar ferdir, ok felmtrid ei all-miök, ok vitid med sannleik ádr hvat þèr skulud segia. Þeir Bárdr [1]) ok Aron [2]) ok nokkrir [3]) med þeim [4]) ridu þar at sem flokkrinn var, en hinir standa upp med vopnum er fyrir voru, ok var sinn veg hvörr þeirra leiddr, ok giör at þeim þraung mikil, svo at hinir máttu ei siá hvat af þeim vard [5]) fyrir þraunginni, ok hèldu þat fyrir satt at þeir væri [6]) giörvir handteknir [7]), ok hleyptu nú sem mest máttu þeir til fundar vid Þórgils, ok segia svo at ei mun tídindalaust vera. Þórgils mælti: hvat er þá tídinda? Vèr kunnum frá aungvu at segia vísliga, en sögdu frá því hvar þeir Bárdr skildust, ok at mikill mannfiöldi var fyrir ofan Sledaás, ok þángat ridu þeir Bárdr til; ok þat þóttumst vèr siá, at menn hlupu upp med vopnum í flokkinum, ok giördu þá handtekna alla at minsta kosti. Þórgils mælti: þóttuzt þèr nokkut tilvita hvat flokkr þetta mundi vera, edr kèndu þèr nokkra menn, edr búníng þeirra, edr fararskióta? sendimenn mæltu: eigi vilium [8]) vèr þat víst segia, en flokkr Haflida mundi vera at vær hugdum, ok kènna þóttumst ek fák þann [9]) þú gafst Bödvari mági þínum í fyrra sumar á þíngi, svo ok þóttumst ek kènna spiótit þat ed gullrekna, er þú gafst honum. Margir tóku undir at þetta mundi tídindum gègna, ok einsætt væri at þiggia heldr sæmd ok virdíngar heimbod at Þórdi [10]), en leggia sik ok sína menn í slíka mannhættu at gánga í bardaga í mót svo miklu ofrefli, ok syna svo mikinn ofsa, at geta ei sómans fyrir því, en [11]) hættulaust mundi vera at rída at morgni eda tveggia nátta fresti, ok tóku upp allt tal Þórdar.

22. Þórgils hlyddi til medan adrir mæltu slíkt ok lagdi ei til, en íhugadi málit fyrir sèr. Ok þá er adrir spurdu hvat upp

1) hinn svarti bætir *EV.* inní.
2) son hans bætir *EV.* inní.
3) menn bætir *C. Gr.* inní.
4) af föruneyti þeirra, bætir *EV.* inni.
5) um þá leid, allir nema *Gr.*
6) allir bætir *EV.* inni.
7) bída þeir nú ei leingi byriarins, bæt. *EV.* inni.
8) vitum. *A.*
9) kinnskióna fóstra þinn, er. *EV.*
10) presti bætir *EV.* vid.
11) sómans, fyrir því at. *EV.*

skyldi taka, mælti Þórgils: ef svo er sem sagt er, at vorir vöskustu ok beztu menn eru giörvir handteknir, meiddir edr drepnir edr klandradir [1]), þá mun oss til ámælis verda, ef vær rídum svo á burt, at vær vitum ei giör en gètum til; hitt er í ödru lagi at þeir þóttust kènna þá tvo gripi, hest ok spiót, er ek gaf Bödvari mági mínum, ok hann mundi hvorugan lausan láta naudúngarlaust; ok ef honum er ordit nokkut til meins, þá vil ek rída, ok vita, ef ek má nokkut hefna. En ef svo er, sem ek vænti vera muni, at hann sè heill madr ok fylgi siálfr gripum sínum med flokki miklum til fulltíngis vid oss, en vèr rídum á burt, ok látum hann eptir í háska, þá mun enn ei látit ordlaust vid oss. Ok er því sem þat kvædi [2]) at ek vil til þíngsins rída [3]), med þá menn er mèr vilia fylgia, en þeir hverfi aptr er þat synist dreingiligra. Ok snyr áleidis, ok ofan um Sandklyftir [4]) rída menn ok vill einginn aptr snúa, þegar þeir siá, at hann tiáir ei at letia, ok voru allir skèligir [5]) í því at skilia ei vid hann, hvat sem á adra hönd bæri.

23. Nú er at segia frá þeim Bárdi ok Aroni, þeir rída fram at flokkinum, ok standa menn upp í móti, ok fagna hvorir ödrum vel, af því at þar var vina fundr. Þar var fyrir Bödvar Asbiarnarson, ok Gudmundr Þorgeirsson mágar Þórgils, ok höfdu þeir med sèr vel hundrad manna, ok þá var hvorutveggium mikill hugr á at spyria tídinda. Bödvar frèttir Bárd at fyrirætlan Þórgils, en Bárdr frèttir Bödvar tídinda af þínginu, ok var þar þreyngd at ödrumegin, ok á alla vegu, er margir vildu tilhlyda hvat talat var [6]), ok er þeir hafa vidtalazt um hríd, þá rída þeir Bárdr enn leingra, ok allt [7]) at Haflida, ok var þeim vel fagnat, af því at margir vissu á þeim fedgum mikil deili, þvíat þeir voru skilgódir menn, ok margra göfugra manna vinir, ok eru þeir frèttir hvat

[1]) klandadir. *A. EV.* þ. örkumladir. *St.* kumladir. *C.*

[2]) því mitt atkvædi. *EV.*

[3]) hvat sem annars er, bætir *EV.* inní.

[4]) Sandklif. *C. St.*

[5]) skialligir. *St.*

[6]) heyra hvat sagt var. *EV.*

[7]) þartil þeir komu ofaná völlu, bætir *EV.* inní.

Þeir kunna at segia af ferdum Þórgils ok fiölmenni. Þeir segia, at Þórgils væri kominn sudr á heidina frá Reykiadal med miklu fiölmenni, ok þá komu menn á móti honum, ok sögdu þíngreidin væri [1]) bönnud, ok þat med ef hann ætladi at rída ei at sídr, at Haflidi ætladi at veria [2]) alla þínghelgina, en Þórgils kvad Haflidi mundi því hafa framkastat med aungvan alhuga, en hinir sögdu at öruggu at satt væri, ok at Haflidi væri kominn á ferd med 12 hundrud manna, þá er þeir vissu sídast til. Vid þetta nam flokkr Þórgils stadar ok tóku rádagiörd med sèr hvat upp skyldi taka, ok í því stód er vær vissum sídast til. Eptir þetta rída þeir heim til búda til fundar vid Þorlák biskup; hann fagnar þeim fedgum allvel, ok þar segia hvorir ödrum allan trúnad, ok hvar komit var öllu jafnsaman. Sídan senda þeir fedgar Þórgilsi niósn af skyndíngu, ok láta segia honum svo skapat [3]) sem var, ok þeir höfdu vísir ordit. Niósnarmenn komu til Þórgils undir Armannsfelli, fyrir ofan Sledaás, þar sem þeir Bödvar höfdu bedit, ok segia allt sem vaxit var; þeir segia ok þat, at búd Þórgils væri öll brotin at iördu nidr. Þat er synt í því sagdi Bödvar, at Haflidi sparar lítt [4]) hendr vorar at hefna, enda væri þat ok ei fiærri at hann reyndi, at vèr kynnum fleira at starfa [5]) en giöra upp búd Þórgils, því nú klæa oss lófarnir miök, ok tók at beria vopnum á hlífarnar. Þá tóku margir undir, at þat væri líkligt, at Þórgils mundi ráda at sinni athöfnum þeirra. Þá kvad Þórgils:

Munum [6]) oss vita ásum
arnspreingianda [7]) leingi,
þat segi ek gullsins gialla
gardr [8]) þíngliga [9]) verda.

Ok munum vèr rída ei at sídr, sagdi Þórgils ok verdr vor för sem má.

[1]) honum bætir *EV.* innf.

[2]) honum bætir *EV.* innf.

[3]) skipat. *A. C. St. B.*

[4]) vel. *C. St.*

[5]) vinna. *EV.*

[6]) man at. *EV.*

[7]) arnspreyngiaadi. *EV.*

[8]) gèrdar. *EV.*

[9]) þíngloga. *EV.* þúngloga. *C.* þúngliga. *Gr.*

24. Enn er [1]) tveim frásögunum fram, þá er biskup hefir kallat til sín lærda menn, þá geingr hann í annat sinn á fund Haflida, ok mælti: ertu nú [2]) rádinn til þess at virda hèr einskis manns ord nè vilia til heimgaungunnar. Svo verdr nú [3]) fyrst at sinni, sagdi Haflidi. Biskup mælti: þá munum vèr gánga [4]) til kyrkiu, ok af því valdi, er Gud gaf Pètri postula, at binda ok leysa allt á himni ok jördu, en hann gaf Clemens páfa, ok hvörr at [5]) ödrum tók þat veldi, en Össur erkibiskup gaf mèr, ok fyrir þat atkvædi mun ek banna ydur hèr at sitia, neita sættum, en slíta [6]) fridinn, eru mèr þau ord komin frá Þórgils, at hann vill sæmilig bod bióda fyrir sik, ok endi biskup svo málit, at af þessari röksemd allri jafnsaman, ef mitt mál má nokkut standast vid Gud ok vorar bænir, at hann sè þèr svo bæna á dóms-degi, sem þú ert mèr nú bæna. Þá mælti Haflidi: verdi þat at lyktum málaferlis okkars Þórgils sem audit verdr, ok má hvörr slíka virdíng áleggia sem synist, en vid þessa umrædu þína mun ek ei beriast daglángt, ef þessir menn heita [7]) at skiliast ei vid mál okkar fyrr en þau lúkast á nokkurn veg til sóma; ok náir þú einn atgiörd á [8]), segir Hallr Teitsson, ok ef adrir ráda ei fyrr á oss, ok því játudu allir menn. Þá mælti Einar Gilsson: þigg þú Haflidi þetta heilrædi er biskup kènnir þèr, en slíkt veitum vær þèr eptir helgina, sem vær höfum faung á. Ok sídan gánga þeir Haflidi heim til búda. En í annan stad rída þeir Þórgils á völlinn ok til búdar hans, ok siá þar vegsmerki um [9]), at búdir hans voru nidrbrotnar [10]), ok bióda honum margir sínar búdir at tialda, en hann neitti því, ok vildi ei annat en láta giöra upp búd sína. Ok þá gèkk til Sæmundr [11]) enn fródi ok nokkrir menn ok var tekit til at giöra upp búdina um aptaninn ok vard lokit

[1]) fer. *B. C. Gr. St.*
[2]) Haflidi bætir *EV.* inní.
[3]) at vera bætir *EV. St.* inní.
[4]) heim bætir *EV.* inní.
[5]) af. *C. EV.*
[6]) banna. *St.*
[7]) heitast vid. *C. EV. St.*
[8]) atgiöra. *EV.* atgiörda. *A. C. St.* þ. *B.*
[9]) vegs ummerki.
[10]) búd — var — brotin. *EV.*
[11]) prestr bætir *EV.* i.

fyrir Ottusaung öllu starfinu um nóttina. Ok nú er leitat um sættir med þeim höfdíngiunum [1]), ok vill Haflidi aungvar nema siálfdæmi, ok þess varnadi Þórgils ei at Haflidi giördi fè slíkt til sæmdar sèr sem hann vildi, en undan væri skildar mannsektir allar, godord ok stadfesta, ok stód í því um helgina, at Haflidi vill [2]) ráda óskorat, ok þykir þá beggia vinum vandt á milli at gánga, ok eptir messo-daginn enn næsta dag síd um aptaninn, þá er flestir menn höfdu lagzt til svefns, þá gèkk Kètill Þorsteinsson [3]) til fundar vid Haflida, hann sat í búd sinni, ok var honum þar vel fagnat, ok mælti hann svo: Stór mein þykia vinum ydrum, á því er ei skulu sættir takast ok lúkast mál þessi med gódu, ok þykir mörgum fyri von komit eda nær því. Nú kann ek þèr ei rád at kènna, en dæmisögu vil ek sogia þèr.

25. Vèr uxum þar upp í Eyafirdi, ok var þat mælt, at þat lid væri efniligt. Ek gat ok þann kost Grón dóttur Gissurar biskups, er beztr þótti vera, en þat var mælt, at hún lèti mik ei einhlítan, en þat þótti mèr illa, en þat var mælt ok tilraunir voru giörvar ok gengu þær vel, en ei at sídr þótti mèr illr rómr á vera, ok fyrir þat lagda èk fiandskap á manninn, ok eitthvört sinn er vid hittumst á förnum vegi, veitta èk honum áhlaup ok vilda vinna á honum, en hann rann undir höggit, ok vard ek undir, sídan brá hann knífi ok stakk í auga mèr, ok mista èk sionar at [4]) auganu, þá lèt hann mik uppstanda, ok var þat nokkut med ólíkindum at því sem ek virdta, [5]) èk hafda tvö megni hans, enda þótti mèr okkar vera slíkr munr í ödru, ok þess vilda èk greyliga [6]) hefna med frænda afla ok giöra manninn sekan ok biuggum vèr mál til. En þó urdu til nokkrir aflamiklir menn med honum at veita at málum ok ónyttust mín mál. Ok nú má ok vera at til verdi nokkrir at veita Þórgils, þóat þín málefni sè rèligri. Ok þá er svo var komit, búdu þeir fè fyrir málit, ok þá

[1]) Þórgils ok Haflida. *EV.*

[2]) einn bætir *EV.* i.

[3]) med nokkra menn. *A. C. Þ. St. EV.*

[4]) á. *C. B. Gr. St.*

[5]) því at bætir *EV.* i.

[6]) greypiliga. *A. C. St.* gráliga. *Gr. B.* greidliga. *EV.*

hugda èk at hvat mèr hafdi atborizt ok hversu allt hafdi þúngliga fyrir mèr tekizt, ok neitta èk fèbótunum, ok sá èk þá at þat eitt var hiálprádit at skióta málinu á Guds miskunn, þvíat [1]) mèr [2]) tókst allt [3]) þúngligar til mannvirdíngar um mitt rád, fann ek þat þá ok sá [4]) metnad Mödruvellínga, er manninum fylgdu [5]), at eigi mundu þær bætr fyrirkoma, at mèr mundi stór sæmd at [6]) verda. Giörda èk þat [7]) fyrir Guds sakir, ok gaf honum upp allt málit, vissa èk at ek mundi þat fyrirtaka, er mèr væri hallkvæmast, ok baud ek honum til mín, ok var hann leingi med mèr sídan, ok þá snèrist ordrómrinn ok þar med virdíng mín medal manna, ok lagdist mèr hvörr hlutr sídan meir til gæfu en ádr, svo ok til virdíngar, ok vænti èk ok af Gudi svo muni vera. Haf þú þat nú af hiali mínu þat er þèr þykir nytandi, sagdi Kètill.

26. Þá þakkadi Haflidi honum vel ok mælti, þat mál hefir hèr verit at ræda á þíngi, er mikils er verdt, hvörn vèr Nordlendíngar skulum til biskups taka [8]) í stadinn Jóns biskups, en til míns kiörs hafa flestir vikit, en fyrir málum þessum hefir hèr ei svo skiótr dómr áfallit, en nú þarf ei leingi at líta á þessa kosníng, því èk verd ei á annat sáttr sumarlángt, en þú sèrt til biskups kosinn, ok þat er mitt vit, at þá sè fyrir lanzbúunum [9]) bezt fyrirhugat [10]), ef þú verdr biskup af því mannvali, sem nú er. Ok snerist Haflidi nú mikit vid hial þeirra, ok þadan í frá var hann meir snúinn til sátta ok miklu audmiúkari, ok þá mælti Kètill: Ek er ósæmiligr slíks erindis, þat mega allir siá hvat stór lyti á mèr eru í manna augsyn, en miklu eru þau þó fleiri [11]) í Guds augliti, at ek er ófallinn til biskups tignar, [en þó skaltu

1) þar ádr. *EV.*

2) nú. *A. C. St.* þ.

3) eitt ödru. *EV.*

4) fann ek þat rád ok kalladi ek ofrkapp vera ok metnad *EV.*

5) veittu, hve þúnghæst mèr mundi vera, fann èk þar alls er ek hugda at mannvirdíngu. bæt. *EV.* inní.

6) þat til mannsóma verda. *EV.*

7) þá — at gefa. *EV.*

8) kiósa. *A. St.* þ.

9) lanzmönnum. *EV.*

10) mest hugat. *EV.*

11) eru þó meiri lyti á mínum hag. *EV.*

miklu vid mik ráda, látir þú góda menn vid þik ráda um sáttir ykkar Þórgils [1]). Nú er enn at nyu leitat um sáttir ok gánga margir göfugir menn á millum [2]), ok um sídir vard þat, at Hafldi skyldi einn giöra svo mikit fè til handa sèr, sem hann væri vel af sæmdr, en undanskilin godord ok stadfesta sem í fyrstunni. Þat fylgdi ok at hvörr þeirra þriggia manna, er til handsala gèkk, unnu fimtardómseid Haflida at gialda slíkt fè sem giört væri. En þessir menn geingu til handsala, Þorsteinn Gèllisson frá Fródá mágr Þórgils, audmadr mikill, hann átti Steinvöru dóttur Þorsteins Arasonar. Annar Styrmir Hreinsson af Gilsbakka, mágr Þórgils [3]). Þridji [4]) Þorsteinn Ránglátr [5]). Ok þá er þessum málum var lokit, var þessi vísa kvedin:

[6]) Máttit mága sáttum [7]),
mál dragast liót til bóta,
geigr vard vid svad seigum [8]),
sandkorn fyrir standa.
Hradslaungvir [9]) bad hrínga
hugstrídr fá sídan
alla þiód, hinn er olli
allskiótt megin þrótti.

27. Þess hafdi ákènt í medalgaungu manna, þá er um sættirnar var leitat, at Halli þótti ei þurfa at draga allmikit lid sam-

[1]) [ ok þá kom at nestislokum málsins at Kètill mælti: ef þá væri nær um sættir ydar en ádr, þá kvediunst ek í þenna vanda, ef til þess er annara vilji slíkr sem þinn *EV.*

[2]) ok var heldr torsótt, ok var Hallr tregari í öllum málum en Haflidi, bætir *EV.* inní.

[3]) Þorrídr dóttir Þorgeirs Galtasonar var módir Styrmis, en Styrmir Þorgeirsson var fadir Halls födur Kolfinnu, er átti Þórgils Oddsson.

[4]) madr gèkk til handsala, bætir *EV.* inní.

[5]) at því er mik minnir, bæt. *EV.* vid.

[6]) Mætti seigum sættum
sandkorn fyrir standa,
þó latti miök mága
mál at greida táli.
Bæt kvad hlynbiódr fleina
byr mildr at þá skyldi
til eggþrumu æsa
öll þiód fara köllud.
bætir *EV* inní.

[7]) Máttu mága sættom. *EV.*

[8]) slag sleginn. *C. St.*

[9]) hradslaungvinn. *Gr.*

an, nema Haflidi neitti [1]) um sinn sakir naúdsynia mál, edr rèdi einn öllu óskorat. Ok lèt Haflidi sem hann hefdi ærin fè á gamals manns [2]) aldri, ef hann hèldi virding sinni. En þridia dag fyrir þínglausnir gánga menn fiölmennir til hvorutveggiu er þeir skyldu sættast [3]), giördi Haflidi fyrir áverkana 80 hundrud [4]) 6 álna aura [5]), vöru-virdt fè, land nordr í nordlendínga fiórdúngi, gull ok silfur, norrænan varníng, iárnsmídi ok rífliga gripi þeir er ei tæki [6]) minna fè en kúgildi, [gèldfè ok hesta [7]), hross ei eldri en 12 vetra ok ei yngri en 3 vetur. Gialddagi á fènu skyldi vera fyrir búdardyrum Haflida, eda færa honum heim gialdit á sumu fènu, en hann virda siálfr fèit, þá er Haflidi sagdi upp vöxt fiárins, þá svaradi Skapti Þórarinsson, dyr mundi Haflidi allr, ef svo skyldi hver limr. Þá sagdi Haflidi, ei mundi sú túnga um mæla [8]) ef vidþyrfti, ok fór þetta meir eptir því sem vilia mundi Bödvar Asbiarnarson edr adrir óvinir vorir er ek skyldi fè á mèr taka heldr en ek hafdi tilætlat, ok meir hef ek þessa sátt látit vera [9]), eptir bón vina vorra heldr en eptir fègirni einnisaman. Bödvar mælti, af því at þessu er meir á mik vikit en adra, verd ek at svara ok verd ek þetta ósanna [10]). Þvíat vanhlutarins unna èk þèr þessa edr meir, en ei fiárins. Þat hafdi Bödvar mælt, þá Haflidi sagdi upp sættina, þar reis at undir króki, ok því kvaddi Haflidi Bödvar at, enda var ætíd ótrútt [11]) med þeim. Þórgils mælti, gèfi menn vel hlióð máli Haflida; þvíat hèr hefir hvor okkar þat vel má vid una, ok eptir þetta tóku þeir höndum saman, ok þökkudu hvorir sínum lids [12]) mönnum fylgd, föruneyti ok allan sóma, ok fyrr en Þórgils kom heim af þíngi, hafdi hann ei þegit minna fè af vinum ok frændum sínum en 80 hundrud. Sumir [13]) budu honum

1) veitti. *C. St.*
2) manns sleppir *EV.*
3) er sættin skyldi vera uppsögd. *EV.*
4) 30 hundrud. *A. C. St.*
5) 3 alna aura. *EV.*
6) væri. *EV.*
7) [gèldir hestar ok því at eins gradhestar ef mer fylgir, ok því at eins merhross, ef hestr fylgdi. bætir *EV.* inni.
8) eptirmæla. *EV.*
9) sætt giörva. *EV.*
10) ok man ekki þetta úsanna. *EV.*
11) útítt. *EV.*
12) lidveizlu. *A. EV. C. St.* þ.
13) margir. *EV.*

heim úr öllum sveitum, hvörra [1]) hann vitiadi sídar ok leystu þeir hann út med stórkostligum giöfum á burt. Vída var ok farit um Vestfirdínga fiórdúng at krefia fiár, en at öllu fènu vel luktu því sem giört hafdi verit, þá gaf Þórgils Haflida virduligar giafir, stódhross 5 saman, fingurgull ok feld bláu [2]), er honum hafdi gèfit Sigrídr dóttir Eyólfs Snorrasonar Goda austan frá Höfdabrekku, er átt hafdi Jón Kálfsson. Haflidi mælti: nú sè èk, at þú vilt heilar sættir okkar [3]), ok svo var æ sídan hvar þeir fundust eda hittust, þá stódu þeir jafnan at málum hvörr med ödrum svo leingi sem þeir lifdu [4]).

---

# Annar þáttr.

## Nokkrar ættartölur eda mannanöfn Islendínga sem framkoma í þessari sögu, ok byriast hèr annar þáttr af Einari Þórgilssyni.

1. Sæmundr hinn Fródi átti Gudrúnu dóttur Kolbeins Flosasonar, þeirra börn voru þau Eyólfr prestr ok Loptr prestr, Lodmundr ok Þórey er átti Þorvardr Olafsson, þeirra son var Olafr prestr. Loptr Sæmundarson fór utan, ok fèkk í Noregi Þóru, en þat reyndist sídan at hún var dóttir Magnúsar konúngs Berfætts. Jón var son þeirra, er mestr hefir verit höfdíngi ok vinsælastr hèr á Islandi. Hann átti Haldóru dóttur Skèggbranz; þeirra börn voru þau Sæmundr ok Solveig, er átti Gudmundr Gríss [5]). Enn voru synir Jóns ok Ragnheidar Páll biskup ok Ormr Breidbælingr. Ragnheidr var Þórhallsdóttir systir Þorláks biskups ens Helga. Son Jóns Loptsonar ok Asu Þorgeirsdóttur var Þorsteinn; hans synir

[1]) þeirra ver. *EV.*

[2]) hladbúinn bætir *EV.* vid.

[3]) ok skulum vid nu betr vidsiást deilum en ádr, bætir *EV.* inni.

[4]) einúmegin at málum kvalt, sídan medan þeir lifdu. *EV.*

[5]) Gríss. *B. C. Gr. St. EV.*

voru þeir Andreas ok Amundi, þorgeir ok Gunnar. Enn var sonr Jóns Loptssonar ok Helgu þórisdóttur Einar, hann átti mörg börn. Enn voru synir Jóns Loptssonar ok Valgèrdar Loptsdóttur, Hallbiörn prestr, ok Sigurdr er átti Salgèrdi Erlendsdóttur. Lodmundr Sæmundarson átti þórunni dóttur þórarins Fornasonar, þeirra son Jón, er átti Aldísi Haldórsdóttur; þeirra börn Valgèrdr ok Eyólfr. Sonr Eyólfs ok Valgèrdar Gamladóttur var Gudlaugr. Enn voru börn Eyólfs ok Hildar Skèggiadóttur [1]) Jón, Lodmundr, Alfrídr. Ragnhildr [2]) var dóttir Valgèrdar ok Sæmundar Jónssonar ok Solveig.

2. þórdr sonr Gils Snorrasonar Jörundarsonar var samtída vid Gissur biskup. Módir Gils var Asny dóttir Sturlu þiódrekssonar [3]). Módir þórdar var þórdis Gudlaugsdóttir. Módir þórdísar var þorkatla dóttir Haldórs Snorrasonar Goda. þórdr Gilsson átti Vígdísi dóttur Svertíngs Grímssonar. Módir Vígdísar var þórdís dóttir Gudmundar Gudmundssonar, Eyólfssonar ens Halta. Sturla hèt son þeirra þórdar ok Vígdísar, en annar var Snorri, þórdís ok Gudrún dætur. Sturlu fylgdi fyrst Olöf Vilhiálmsdóttir [4]); þeirra börn, Sveinn, þurídr, Helga, Valgèrdr, Sigrídr. Sídan fèkk hann [5]) Ingibiargar dóttur þorgeirs Hallssonar; Steinun hèt dóttir þeirra, er átti Jón Brandsson; þeirra synir Bergþór, Ivar, Brandr, Ingimundr. En þórdísi dóttur þeirra Sturlu ok Ingibiargar átti Bárdr son Snorra Bárdarsonar ens Svarta. Pètur hèt son þeirra, Sturla ok Snorri. Biörn hèt son Sturlu ok Gudfinnu. Sturli átti sídan Gudnyu dóttur Bödvars þórdarsonar. Módir Bödvars bónda var Valgèrdr dóttir Markús lögsögumanns. Módir Gudnyar var Helga, dóttir þórdar Magnússonar úr Reykholti. Börn þeirra Sturlu ok Gudnyar voru þau þórdr, Sighvatr, Snorri ok Helga, er átti Sölmundr Austmadr, ok Vigdís, er átti Gèllir þorsteinsson. þórdr Sturluson átti fyrst Helgu dóttur Ara hins sterka; þau áttu ekkèrt barn [6]). Sídan átti hann Gudrúnu Biarna-

1) Skátusonar. bætir *EV.* inní.
2) Magnhildr. *St.*
3) þórdarsonar. *Gr.*
4) þorgeirsdóttir. *EV.*
5) Sturla. *EV.*
6) ekki barna. *EV.*

dóttur. Bödvar son þeirra, en Halla dóttir, er átti Tumás prestr Þorgrímsson [1]). Þórdr átti frillu, er Þóra hèt; þeirra börn Olafr, Sturla, Guttormr, Þórdr, Valgèrdr, Gudrún. Sighvatr Sturluson átti Haldóru Tumadóttur; þeirra börn Tumi, Sturla, Kolbeinn, Þórdr Kakali, Markús, Þórdr Krókr, Tumi, Steinvör, er átti Hálfdán Sæmundarson. Hallgèrdr [2]) hèt dóttir Sighvats, er átti Bárdr Þorkèlsson [3]). Sigrídr hèt dóttir Sighvats ok Helgu Biarnadóttur, hana átti Styrmir Þórisson. Snorri Sturluson átti Herdísi Bersa dóttur; þeirra börn Jón Murti ok Hallbera er átti Kolbeinn Arnórsson. Sídan átti Snorri Hallveigu dóttur Orms Jónssonar; ekki lifdu börn þeirra. Snorri átti son er Urækia hèt; Þurídr Hallsdóttir var módir hans. Enn átti Snorri dóttur vid Gudrúnu Hreinsdóttur er Ingibiörg hèt, ok var gipt Gissuri Þorvaldssyni, er sídar vard jarl. Þórdís var enn dóttir Snorra, er Þorvaldr Vatnsfirdíngr átti; Oddny hèt hennar módir.

3. Asbiörn Arnórsson átti Ingunni dóttur Þorsteins Snorrasonar Goda. Börn þeirra voru þau Arnór, Þorsteinn, Bödvar, Sigrídr. Arnór átti Gudrúnu dóttur Dada Starkadarsonar, þeirra son var Kolbeinn, hans son var Tumi ok var hann ei skilgètinn. Tumi átti fyrr Gudrúnu dóttur Þóris Steinmódssonar, Sigrídr hèt dóttir þeirra, er átti Sigurdr Ormsson. Sídan átti Tumi Þurídi Gissurardóttur; þeirra börn voru þau Kolbeinn, Arnór ok Haldóra, er átti Sighvatr Sturluson, ok Alfheidr [4]), er átti Ingimundr Grímsson. Þorsteinn hèt son Tuma laungètinn, hann var fadir Ivars múnks [5]). Asdís [6]) hèt dóttir Tuma laungètin, er átti Steingrímr Þorvaldsson. Arnór Tumason átti Asdísi [7]) Sigmundardóttur, þeirra son Kolbeinn Ungi, ok Sigrídr, er átti Bödvar at Stad, ok Herdís, er átti Bödvar í Bæ, ok Arnbiörg, er átti Urækia.

[1]) Þórarinsson, *EV. B.*

[2]) Valgèrdr. *EV.* Þ.

[3]) Hiörleifsson. *EV.*

[4]) Alfrídr. *C.*

[5]) *EV.* sleppir munks, en bætir vid: Markúsar ok Tuma, ok Gudrúnar, er Sveinbiörn Rafnsson fylgdi, ok Steinunnar, er Krákr fylgdi, ok Sigrídar.

[6]) Arndís. *EV.*

[7]) Alfdísi. *EV.*

Snorrason. Dóttir Arnórs laungètin var Þorbiörg, er átti Broddi Kolbeinsson [1]). Arnór Asbiarnarson [2]) átti Herdísi dóttur Þorkèls Steinólfssonar; þeirra son var Arnór, er átti Gudrúnu dóttur Brands biskups, þeirra son Kolbeinn Kaldaliós, ok Haldóra, er átti Jón Sigmundarson, þeirra son Brandr biskup enn sídari. Kolbeinn Kaldaliós átti Margrètu dóttur Sæmundar Jónssonar; þeirra börn Brandr, Páll, Valgèrdr.

4. Sigmundr Þórgilsson átti Haldóru dóttur Skèggia Biarnasonar, Jón var son þeirra; hann átti Þórnyu dóttur Gils Einarssonar, þeirra son var Ormr, er átti Helgu dóttur Arna Grímssonar, þeirra son var Sigmundr, er átti Arnbiörgu dóttur Odds Gissurarsonar, þeirra son Jón Sigmundarson, er fyrri átti Þóru dóttur Gudmundar Gríss, þeirra börn Ormr Svínfellíngr, Steinun ok Solveig. Jón átti sídar Haldóru Arnórsdóttur, þeirra son Brandr biskup. Son Jóns laungètinn var Þórarinn, er átti Digur-Helgu dóttur Helga [3]), þeirra synir voru þeir Þorvardr ok Oddr. Sigurdr múnkr var enn son Orms, bródir Sigmundar, hann átti Þurídi Gissurardóttur sídar, en Sigrídi Tumadóttur fyrri, Ormr Svínfellíngr átti Alfeidi Niálsdóttur, þeirra börn Sæmundr ok Gudmundr, Ormr ok Þóra, er Krákr átti Tumason. Oddny var laungètin dóttir Orms, er Finnbiörn átti [4]); módir Skards-Snorra hèt Gudrún, hennar módir Haldóra dóttir Jóns Sigmundssonar Þórgilssonar [5]) Þórdarsonar Freysgoda.

5. Bárdr hinn svarti hèt göfugr bóndi, hann bió í Selárdal ok var Atlason, hann átti Birnu Arnórsdóttur [6]), þeirra synir Sveinbiörn, Atli, Aron, Snorri, Ingólfr, Stirbiörn, Gunnar, Höskuldr, Rögnvaldr, Markús, en dætur Hallbera, Oddgèrdr, Salgèrdr, Ulfrún. Sveinbiörn átti Steinunni dóttur Þórdar Oddleifssonar, Rafn var son þeirra, er átti Hallkötlu Einarsdóttur; Sveinbiörn,

[1]) Þorleifsson. *EV.*

[2]) Þorsteinn son Asbiarnar Arnórssonar. *EV.*

[3]) er átti Helgu dóttur Digur-Helga. *EV.*

[4]) Helgason bætir *EV.* inní.

[5]) Þórgeirssonar bætir *C. St. A. Gr.* Þ. inní.

[6]) Snorrasonar bætir *EV.* vid.

Krákr, Grímr, Einar, Steinun, Herdís, Þórey, Þurídr, Hallgèrdr, voru börn þeirra. Markús prestr var enn son Sveinbiarnar, en dætur þriár, Herdís, er Hallr Gissursson átti, Helga, er Brandr átti, Gudrún, er Sámr Símonsson átti, Birna ok Halla. Aron Bárdarson átti Sigrídi Þorleifsdóttur [1]) systur Þorleifs Beiskalda úr Hítardal, þeirra börn Hafþór, Ingvöldr, Ragneidr, er Amundi átti; þeirra börn Þórdr, Tófa, Margrèt, Hallbera, Birna. Ragneidr átti sídan Þórarinn Þorleifsson [2]), þeirra börn Krákr, Þórarinn [3]), Hafþór, Tómas, er átti Höllu dóttur Þórdar Sturlusonar, þeirra börn [4]) Audun, Snortr [5]), Gudrún, Ragneidr, Gudfinna, Gudrídr, Hallbera. Gudfinna var dóttir Þórarins, er Skúli átti undir Hrauni. Snorri Bárdarson átti Sesseliu Asgeirsdóttur; þeirra son var Bárdr, er átti Þórdísi Sturludóttur. Snorri átti sídar Sesseliu Hafþórsdóttur, þeirra dætur voru Þórlaug ok Rissula er átti Sveinn Sturluson; þessi voru laungètin börn Snorra Bárdarsonar, Eylífr [6]) ok Tófa módir Sæunnar, er Skards-Snorri átti.

6. Þórdr í Vatnsfirdi var son Þorvalds Kiartanssonar ok Þórdísar Hámundardóttur. Módir Þorvalds var Gudrún dóttir Haldórs Snorrasonar Goda. Þórdr átti Sigrídi dóttur Haflida Márssonar. Páll var son þeirra, Snorri, Teitr, Ivar. Páll átti Gudrúnu dóttur Brands biskups; þessi voru börn Páls ok Hallveigar Asmundardóttur Vígfús ok Oddny, hana átti Kálfr Snorrason; þeirra börn voru Vígfús, Snorri ok Eirny, er fylgdi Þórdi Jörundarsyni at Hítarnesi; [þessi voru börn þeirra, Oddny ok Þórarinn [7]). Snorri Þórdarson var fadir Þórdar, Þorvalds ok Bárdar; módir Þorvalds var Jóreidr Oddleifsdóttir Þórdarsonar Þorvaldssonar Þórdarsonar Þorkèlssonar ens audga úr Alvidru. Þorvaldr átti Kolfinnu dóttur Einars Þórgilssonar; þeirra börn Einar, er druknadi á Isa-

1) Þórólfsd. *A.*

2) Þorkèlss. *EV.*

3) Eyvindr. *EV.*

4) Krákr, Þórarinn bætir *EV.* inní.

5) Snorri. *EV.*

6) Eyólfr. *EV.*

7) Þessi voru börn Oddnyar ok Þorbiarnar Bergssonar, Snorri, Teitr, Valgèrdr ok Margrèt, er átti Asgrímr Bergþórsson Snorri var fadir Haflida, er tyndist med Asmundi Kastandrafa edr Kastanrasta. *EV.*

firdi, ok Jóreidr, er Hafþór Haldórsson [1]) átti. Þórdr hèt son Þorvalds ok [Þórdísar Asgeirsdóttur, Kètill ok Páll voru enn synir Þorvalds ok Halldóru [2]) dóttur Sveins Helgasonar. Þorvaldr átti sídar [3]) dóttur Snorra Sturlusonar, þeirra börn Einar ok Kolfinna.

7. Þorsteinn, er kalladr var Ránglátr, bió á Grund í Eyafirdi, hann var Einarsson [4]) Þorvaldssonar Krókssonar af Espihóli Þórissonar Hámundarsonar Heliarskinns. Módir Þorsteins var Steinun Bergsdóttir Vígfússonar Vígaglúmssonar; þessi eru börn Þorsteins ok Steinunnar dóttur Biarnar Karlsefnis [5]) sonar Kètils, hann átti Alfeidi dóttur Þorleifs Beiskalda Þorleifssonar [6]) hins auduga úr Hítardal, þessi eru börn þeirra, Þorleifr [7]), Arni, Herdís [8]). Biörn var son Þorsteins Rángláts; Olafr, Einar, Gudrún, Steinun, Helga [voru hans börn, hann átti Gudrúnu dóttur Jóns í Mödrufelli. [9])

8. Þórgils hèt madr Oddason höfdíngi mikill, hann bió at Stadarhóli í Saurbæ. Hann átti deilur vid Haflida Márssson, sem

[1]) Haldór Hafþórsson. *EV.*

[2]) *EV.* bætir inní: ok Helgu Ormsdóttur; Snorri hèt enn son Þorvalz, Illugi var enn son Þorvalz ok Þórdísar Asgeirsdóttur; Kètill var son Þorvalz ok Lofneidar; Páll var son Þorvalz ok Haldóru.

[3]) Þórdísi bæt. *EV.* inní.

[4]) Kètilssonar. *A. C. Gr. St.* Þ.

[5]) Hallsteins. *C. St.*

[6]) Þorlákssonar. *EV.*

[7]) Þorlákr. *EV.*

[8]) *EV.* bætir í: þessi laungètin Jón ok Herdís. Börn Þorláks Kètilssonar ok Gudlaugar Eyólfsdóttur, Gudmundarsonar Eyólfssonar hins halta voru Kètill prestr lögsögumadr, Steinun ok Ingun. Þessar voru dætur Þorláks laungètnar, Þóra ok Þorbiörg.

[9]) Börn Olafs Þorsteinssonar Einar, Gudrún. Börn Gudrúnar ok Eyólfs Hallssonar, Jón í Mödrufelli. Biörn Þorsteinsson átti Ingibiörgu Þorleifsdóttur Beiskalda, þeirra son Snæbiörn. Dætur Gudrúnar Þorsteinsdóttur ok Jörundar Gunnarssonar, Halla, Kolfinna, Hallfrídr, Hallótta. Börn Höllu Jörundardóttur, Flosi, Einar, Gudrún. Börn Kolfinnu, Jón, Kár. Börn Jóns, Þorsteinn í Hvammi, Einar, Gudrún. Börn Hallóttu, Styrmir, Steinun, Þurídr. Börn Steinunnar Þorsteinsdóttur, Vilmundr, Þorsteinn, Haflidi. Börn Helgu Þorsteinsdóttur ok Asgríms Þórdarsonar, Haflidi, Þurídr, Haldóra. *EV.*

fyrr er ritat. Hallbera var módir hans dóttir Ara af Reykianesi frá Reykhólum, hann átti Kolfinnu dóttur Halls Styrmissonar frá Asgeirsá úr Vídidal; þessi voru börn þeirra, þau er úr barnæsku komust, Oddi ok Einar, dóttir þeirra var Hallbera, er átti Gunnsteinn Þórisson, er bió nordr í Reykiadal á Einarstödum; önnur var Valgèrdr, er átti Þórhallr [1]) Finnsson austr í Fiördum í Fliótsdals hèradi; þridia var Olöf, er átti Snorri Pálsson [2]) at Mel í Midfirdi; fiórda Alfdís, er átti Örnólfr Kolluson [3]) frá Snióföllum í Isafirdi; fimta Gunnhildr, er átti Haldór Bergsson; siötta Ingibiörg, er átti Bödvar Barkarson; siöunda Gudrún [4]), er átti Haldór [5]) úr Fagradal. Oddi Þórgilsson var at fóstri í Odda med Sæmundi [6]) Sigfússyni, vard hann því fródr. Einar Þórgilsson var at fóstri á Brunná med Þorgeiri Sveinssyni. Gunnar [7]) hèt son þeirra. Vermundr hinn audgi bió at Hóli [8]) í Saurbæ, hann átti Þurídi Staradóttur. Þorbiörn hèt son þeirra, en Þóra dóttir. Önnur Þorbiörg, er átti Ari Einarsson. Þóru átti Þórir Símonarson, ok voru synir þeirra Gunnlaugr prestr, Jón, Vermundr ok Þorgeir; þá bió at Stad í Rútafirdi Skèliúngr [9]) Helgason, hann átti Þorgèrdi Asbiarnardóttur [10]); börn þeirra voru Helgi prestr, Narfi ok Þorlaug, er átti Jón Þórgilsson.

9. Snorri lögsögumadr Húnbogason bió at Skardi á nyrdri strönd. Hans módir var Ingveldr Hauksdóttir, hennar módir hèt Þorgèrdr, hennar módir Ingveldr, hennar módir Þorbiörg dóttir Olafs Höskuldssonar [11]). Módir Höskulds var Þorgèrdr dóttir Þorsteins Rauds Olafssonar hvíta Ingialdssonar, módir Ingialds var Olöf dóttir Sigurdar Orms í auga. Snorri lögsögumadr átti Ingveldi Atladóttur, synir þeirra voru þeir Þórgils ok Narfi prestr fadir Snorra prests, er þar bió sídar. Alfr Örnólfsson bió þá í

[1]) Hallr. *EV.*
[2]) Kálfsson. *EV.*
[3]) Kollsson. *St.* Kolsson. *C.*
[4]) Ingveldr. *EV.*
[5]) Stakkafótr. *EV.*
[6]) presti bætir *EV.* innf.
[7]) Vidar. *EV.*
[8]) Hvoli. *C. EV.*
[9]) Skèlníngr. *C. St.*
[10]) hins daufa bætir *EV.* vid.
[11]) Dalakollssonar bætir *EV.* vid.

ödrum Fagradal. Birníngr Einarsson [1]) bió þá í Tialdanesi, hann átti Helgu dóttur Þorgeirs Lánghöfda; dóttir þeirra hèt Sigrídr. Módir Bírníngs hèt Hallfrídr Biörnsdóttir [2]) Haldórssonar Snorrasonar Goda. Undir Felli á Sydriströnd bió Þórdr Gilsson; módir Þórdar var Þórdís dóttir Gunnlaugs [3]) úr Straumfirdi, ok Þorkötlu Haldórsdóttur Snorrasonar Goda. Þórdr Gilsson tók vid godordi Snorrúnga eptir Mánaliót. Þórdr átti Vígdísi dóttur Snorra [4]) Grímssonar [5]); börn þeirra voru þau Sturla, Snorri, Þórdís ok Gudrún. Hallr son Þórdar Gufu var húskarl undir Felli ok grædi þar fè þar til hann keypti land [6]) í Flokkudal [7]); hann elskadi Sturlu, er hann var úngr, ok giördist fóstri hans. Hallr átti þá konu er Gudbiörg hèt; þeirra synir Grímr, Snorri ok Ingialdr. Erlendr hèt madr er bió í Svínaskógi; hann átti Olöfu dóttur Þorgeirs Kaggasonar [8]); þeirra dóttir var Gudleif. Erlendr andadist, en Olöf sat eptir, ok þótti kvenna frídust ok giörfiligust. Sturla Þórdarson tók þat til ráds, at hann hafdi hana heim med sèr; þau áttu fim börn. Helga ok Valgèrdr voru jafngamlar, Sveinn ok Þurídr voru jafngömul, Sigurdr hèt einn [9]).

10. Skèggi hèt madr, bió á Sarpstödum [10]) son Gamla Skèggiasonar Skammhöndúngs, hann var son Skèggia ok Herdísar, systur Grettis Asmundarsonar. Skèggi var vitr madr ok gildr bóndi. Þóroddr hèt annar son Gamla, er bió í Þiódólfshofi [11]), hann var góðr bóndi, son hans hèt Vilmundr. Einar hèt hinn þridji son Gamla, er bió í Midfirdi, hann átti Sigrídi Kálfsdóttur systur Snorra. Helga hèt enn dóttir Gamla, hana átti Þórarinn Króksfiördr [12]), þeirra synir voru þeir Jón ok Þorsteinn [13]), þeir

1) Steinarsson. *EV.*
2) Birníngsdóttir. *EV.*
3) Gudlaugs *EV.*
4) Svertíngs. *EV.*
5) lögsögumanns frá Mosfelli. *EV.*
6) ok góđ bú bætir *EV.* í.
7) Flókadal. *C. St.* Flekkudal. *EV. Gr. B.*
8) Þorsteinsdóttur Kuggasonar. *EV.*
9) Sigrídr var ein. *EV.*
10) Skarfstödum. *A. B. C. St.* Þ.
11) Þórólfshöfn. *EV.*
12) Króksfirdíngr. *EV.* Krossfiördr. *St. G.*
13) ok Oddi bætir *EV.* vid.

voru miklir ok sterkir menn. Þá bió í Hvammi Þorkèll prestr, gódr bóndi; hann átti Þórunni Orms dóttur, þeirra synir Gudmundr [1]) ok Biarni, þeir voru giörfiligir menn. En er Þorkèll [2]) andadist, eyddist fè fyrir þeim brædrum, ok seldu þeir landit Bödvari Barkarsyni. Gunnfredi [3]) hèt prestr útlenzkr; þessi voru börn hans: Asúlfr ok Adalríkr [4]) ok Margrèt, þeir voru þrifligir menn, þeir voru [5]) med verka-kaup á sumrum.

11. Nú er frá því sagt, at Adalríkr [6]) tók sèr vist med Skèggia Gamlasyni. Þat vard til tídinda um sumarit, at 6 álnir lèrepts hurfu Arnóru konu Skèggia, en Kálfr [7]) þóttist þat spurt hafa, at fylgiukona [8]) Adalríks [9]) Vigdís mundi tekit hafa; hún var skillítil kona, ok var þá vestr í sölvafiöru í Saurbæ, ok at herbergi frá [10]) saudahúsum úr [11]) Hvítadal. Skèggi heimti Adalrík á mál, ok kvad svo at ordum: svo er mál med vexti at lèrept nokkut er horfit, [ok hefir húgr minn þar heldr grun á at þid munut handhafa at ordit ok valda [12]), ok vilda èk at þú segdir mèr í trúnadi, ok mun þá lètt falla. Hann svaradi, ok kvadst ei ætla slík ord Skèggia fyrir [þat hann vann med honum [13]). Skèggi mælti: vilji þid festa járnburd. Adalríkr lèzt þat giarnan vilia, [ok fór þat fram [14]), en [lèzt hann þó ei í vistinni vilia vera láta [15]), þartil hann hefdi hrundit málinu. Adalríkr lèt sèr ei títt at-bera járn, ef hann skyldi láta vistina. Skèggi svaradi: svo er [varast úrád [16]) at þau lúkast opt ei vel. Ok med því

[1]) prestr bætir *EV.* inní.

[2]) prestr bætir *EV.* vid.

[3]) Gunnvardr. *EV.*

[4]) Odalríkr. *EV.*

[5]) ok fóru. *EV. St.*

[6]) Odalríkr *EV.* allstadar í þessum Kapítula.

[7]) Skèggi. *EV.*

[8]) fylgikona. *EV.*

[9]) Odalríks. *EV.*

[10]) í. *A. EV.*

[11]) þar frá. *EV.*

[12]) [ok bydr hugr minn helzt at þid munut hönd hafa áhaft. *EV.*

[13]) fyrir sitt starf, er hann var med honum. *EV.*

[14]) Skèggi lèt þat fram fara. *EV.*

[15]) lèz þó ei vilia hann í vistinni. *EV.*

[16]) at varast íll rád, at þat er iafnan, at *o, s. fr. EV.*

Skèggi [hèlt samt á sínu máli [1]), þó stórmenni ætti hlut at, þá var þat öfundsamt, því at öllum teingdamönnum Þórgils Oddasonar þóttu skyldir [2]) til at vægia [fyrir þeim [3]). En Adalríkr var þeim á hendr bundinn, ok nú fer hann at hitta Odda Þórgilsson, ok sagdi honum hvör ósæmd honum var giör, ok bad hann ásiár. Oddi svarar, ok lèzt óglögt [4]) vita [hvör madr hann væri í trúlyndi [5]) á [6]) ödrum hlutum, [hvört hann væri eptir ásynd [7]) ok giörvileik edr ekki. Adalríkr lèzt þat ei vita, hversu þat skyldi verda. Oddi veik þá ei [8]) af hendi um ásiána, ok um þenna tíma hafdi Oddi sezt í bú at Skardi á Nyrdriströnd, en Einar bródir hans [hafdi sezt í bú at Túngu í Sælíngsdal [9]). Þat sama sumar hittùst þeir á alþíngi Þorgeir Hallsson [10]) ok Sturla Þórdarson, hann hafdi fram bónord sitt ok bad Ingibiargar dóttur hans. Þorgeir svarar þeim málum vel ok átti rád vid vini sína, hann hafdi spurdaga af Sturlu, at hann var mikilmenni ok vænn til höfdíngia, vitur ok ættstór, ok rèdst þat úr málum þeirra, at Sturla [fastnar sèr Ingibiargar [11]) á því þíngi, hún var í þann tíma vænst kvenna á Íslandi; hana hafdi átt Helgi Einarsson [12]), ok hèt Einar [13]) son þeirra, hann var þá þrèvetur. Módir Ingibiargar var Hallbera dóttir Einars Arasonar. Þorgeir bió þá í Krossnesi [14]) í Eyafirdi, ok var höfdíngi mikill. Sturla sótti nordr þángat brúdkaup sitt; ok fóru [15]) þeir Þórgils Oddason, ok Einar son hans, ok Magnús prestr, ok voru 30 saman, ok höfdu frítt lid. Fadir hans var þá hrumadr [16]) af elli, ok fór hann hvörgi.

1) var madr vinsæll ok haldsamr á máli sínu. *EV.*

2) þótti skyldt. *B. Gr.*

3) til fyrir honum. *EV.*

4) úgèrla. *EV.*

5) hvada manni hann væri at trúlyndi. *EV.* trúnadi. *Gr.*

6) edr. *EV.*

7) ok hvört þat — ásynd hans *o. s. fr. EV.*

8) mælti títt. *EV.*

9) bió í Sælíngsdalstúngu. *EV.*

10) Hallason. *EV. A.*

11) festir — Ingibiörgu. *C. St.*

12) Eyríksson. *A. C. St.*

13) Már. *Gr.*

14) Kristsnesi. *EV.*

15) med honum bætir *EV.* inni.

16) hrumr. *EV. G. St.*

Ingibiörg fór nordan med Sturlu, ok voru þau undir Felli um veturinn. En um haustit, Mattías-messu [1]), var [hreppsfundr [2]) í Hvammi, ok kom þar fiölmennt. Oddi Þórgilsson var þar kominn á kynnisleid, ok um daginn milli tída skyldi [mála-samkoma vera [3]), ok var stofan alskipud. Oddi sat í öndvegi, en Skèggi sat í innanverdri stofu á annan [4]) bekk; menn bidu Bödvars Barkarsonar, en hann kom ekki inn, en Adalríkr var þar kominn inn, ok reikadi á gólfi. En er hann kom at Skèggia, þá brá hann öxi undan skikkiu, ok hió í höfud honum, svo öxin sökk, ok mælti vid, svo kann ek járn bera. Skèggi hlióp upp vid höggit ok settist nidr aptr. Adalríkr hlióp til dyra ok fram. En Bödvar Barkarson hafdi stadit fyrir framan hurdina, ok lèt [5]) aptr eptir honum, en hann hlióp út, ok í fiall upp, svo vestr yfir heidi. Þá mælti Oddi Þórgilsson: þetta er illr atburdr. Skèggi segir: ekki fiarri því sem þèr mundut vilia, ok er ekki gètit fleiri orda hans, ok vard þetta at vígi. En med því Skèggi var þíngmadr Þórdar ok Sturlu ok vin, þá tók Sturla eptirmálit, ok kvad [þetta illa atberast er flugumenn hlaupa [6]) í höfud mönnum. En til Adalríks frèttist ei í brádi. Einn annan vetur [7]) eptir iól var skinnleikr undir Felli. Þar var kominn nordlenzkr madr, hann mælti, ok kvad þat á máli haft nordr þar um Öxarfiörd, at vestr hèr mundi vera gódir leikmenn, því þar var kominn forgángsmadr [leikanna [8]), ok fór um vorit vestr [9]) um fiördu. Sturla frètti hvat nafn hans væri? Gèstrinn kvad hann undarliga heita, ok svo fadir hans. Þá nefndi Sturla Adalrík Gunnfarsson [10]), Gèstrinn kvad hann svo nefnst hafa, ok kvad Brand prest Ulfhèdinsson sik sendt hafa austr í Fiördu til Þórhalls [11]) Finnssonar. Sturla kvad nú hægra um at leita. Ok um vorit, eptir páska fór

[1]) Matthæusmesso. *C, EV.*

[2]) gildr fundr. *EV.*

[3]) mæla samkomu málum, *EV.*

[4]) úædra. *EV.*

[5]) lauk. *EV.*

[6]) slíkt — at — hlypu, *EV.*

[7]) En um veturinn. *EV.*

[8]) er þar var at leikum. *EV.*

[9]) austr. *EV.*

[10]) Gunnvardss. *EV.* Gunnfredars. *A. B. C. Gr. St.*

[11]) Halls. *EV.*

Sturla nordr til Öxarfiardar eptir [1]) fiár-heimtum sínum. En er hann var i Skagafirdi at Vallalaug, kom þar Brandr prestr Ulfhèdinsson, ok heimti Sturla hann á tal, ok spurdi Sturla, ef hann væri sannr at biörg vid manninn, vilium vær leita eptir med stillíngu vid þik. Brandr kvad satt vera. En nú er svo komit, at ek vil [þú giörir einn um málit med okkur. Sturla segir [2]): ek skil giörla hvat þik hefir tilrekit, ok mun verit hafa í rádum þessum Oddi þórgilsson ok margir adrir, þó èk nefni ekki, ok þóttist nú glöggt vita [3]) hvörir í rádum edr biörgum höfdu verit med ödrum [4]), ok nú tók at rísa [óvild med þeim Sturlu ok Odda [5]). En þó var þetta mál í deild lagt á þíngi [6]) um sumarit, ok vard Adalríkr sekr, ok stódu menn þar ekki í mót, en honum vard utan komit í Austfiördum. Sídan var eptirleitat um sættir, hvat menn vildu bióda fyrir biargir ok fiörrád, en þar kom vid, fyrir umtölur gódra manna, at goldit var fyrir biargir ok fiörrád 30 hundrud. Þat sama sumar lètu þeir Þorsteinn Asbiarnarson ok Einar son hans sækia Gils Þormódsson ok Gudrúnar Gilsdóttur systur Þórdar, um þat er hann átti börn vid Asnyu Knararbríngu systur Þorsteins Titlíngs. Hámundr ok Sigurdr [7]) voru synir Gils ok Asnyar. Sturla beiddi at fè væri tekit fyrir frænda hans, en því var ekki iátat ok fóru sakir í dóm. Þá bad Sturla sèr lids ok kvad naudsyn á at frændr hans yrdu ekki vanhaldnir, ok hètu menn honum lidi, eptir þat gèkk hann at dómi ok gèkk upp dómrinn. Sídan mælti hann: Nú eru en sömu bod at fè muni framlagt fyrir frænda vorn til sæmdar gódrar, þvíat hèr vilium vèr ei þennan óiafnad. Þá var þessu iátat, en dómrinn var ei settr fyrr en sæzt var á málit ok tekit fè sektalaust. Þessi mál voru hin fyrstu er Sturla átti á þíngi málum at skipta vid menn.

[1]) at, *EV*.

[2]) [at þú vitir allt um ferdir hans, en ek vil at þú rádir í um málit med okkur. Sturla mælti: slíkt hefir þú um átt *o. s. fr.* *EV*.

[3]) giör vita en ádr. *EV*.

[4]) med Odalríki. *EV*.

[5]) úfar á vinfengi þeirra Odda. *EV*.

[6]) alþíngi. *EV*.

[7]) Sigmundr. *EV*.

12. [1]) Þá er menn komu heim af þíngi, hitti Sturla Bödvar Barkarson ok kvadst vilia kaupa land at honum ok kvadst þar til hafa fest [2]) hug sinn. Bödvar giördi kost á því ok sömdu þeir þat med sèr. Eptir þat giördi Sturla bú í Hvammi, því er hann hèlt til elli, en Bödvar fór þá í Sælíngsdalstúngu, ok í þenna tíma fór Þórgils Oddason nordr til Þíngeyra, en synir hans tóku vid búi á Stadarhóli ok godordi. En um veturinn eptir var sótt mikil, þá andadist Oddi Þórgilsson ok þótti þat mikill mannskadi, því hann var vitur madr ok manna sniallastr í máli, hann andadist barnlaus, ok þat sama vor andadist Þórgils fadir þeirra. Einar tók þá fè sitt ok godord ok giördist hann höfdíngi, þvíat margar stodir [3]) runnu undir hann, frændr, mágar ok vinir, er fadir hans hafdi feingit sèr. Hann skorti ok ei kapp nè árædi, eingi var hann lögmadr, blestr í máli. Frá því er sagt at Vermundr hinn audugi andadist, en Þorbiörn son hans tók arf eptir hann, hann var kvennamadr mikill ok átti margt barna ok urdu flest lítt at þroski. Hann átti Helgu Þórólfsdóttur, Olafr hèt son þeirra ok var prestr.

13. Ingveldr Þórgilsdóttir vard ekki unnandi bónda sínum Haldóri, en þó var þat med nokkrum hægindum [4]), medan Þórgils fadir hennar var vid, en sídan nyttu þau ekki af; rèdst þá Haldór til utanferdar ok med honum Þorbiörn Vermundarson, ok er þeir komu um haf rèdust þeir til sudrferdar ok öndudust bádir. En er þat spurdist út híngat, þá tóku þau Þórgils ok Þóra til vardveizlu fè barna Þorbiarnar ok biuggu at Hvoli. Þá rèdst þángat til vistar Helgi prestr Skèliúngsson, hann var vitur madr, gódr kènnimadr ok margs velkunnandi ok læknir gódr. Þá gèkk Jón Þórgilsson at eiga Þorlaugu systur Helga prests, en hann fèkk þá Þorgèrdar dóttur Haldórs [Skakkafóts ok Gudrúnar [5]) Þórgilsdóttur. Tók þá Jón vid búi at Hvoli, þviat Þórgils ok Þóra eldust miök. Helgi prestr átti bú med Jón mági sínum. [Þór-

[1]). Nú er at segia frá bætir *EV.* vid.

[2]) fellt. *EV.*

[3]) margir stadir, *C. St. EV.* þ.

[4]) hæfindum. *EV.*

[5]) Stakkafóts ok Ingveldar. *EV.*

oddr Grettisson átti barn vid Þórdísi [1]) hinni lygnu, hún var gaungukona, sá sveinn hèt Geir, ok var hinn mesti óaldarmadr, stuldamadr ok útilegu þiófr. Hann var skiótr á fæti, svo at einginn hestr tók hann. Vidraudr [2]) hèt madr, hann var Galins [3]) son [4]), hann giördist óreidumadr [5]) mikill, hann var lítill madr vexti ok hinn hvatasti. Þórir hèt madr nordlenzkr fóstri Þorgríms Assa [6]), hann var í föruneyti med þeim, þeir giördu margt íllt. Þess er vidgètit at húskarlar at Hvoli höfdu farit í eyar út ok er þeir komu utan at [fiöru siöar [7]), þá festu þeir skip sitt vid saltholur [8]), en báru upp föt sín á land ok fóru heim um kvöldit. En um nóttina komu þeir Geir ok tóku burt vistir ok klædi ok allt þat þar var nytt. Um morguninn, er Hvolsmenn komu þángat, mistu þeir vinar í stad, ok þótti þeim sín för ill. Um haustit nokkru sídar þóttist Helgi prestr hafa niósn af at Þorgeir at Brunná ok Vidar son hans mundu herbergia þessa þiófa, ok öndverdan vetur er myrar voru lagdar, þá fóru þeir 10 saman frá Hvoli öndverda nótt, því nylysi var á, þeir fóru ofan til Brunnár, ok er þeir komu miök at gardi, þá fóru á móti þeim 2 menn, þat var Vidar ok Þórir hinn fiölkunnugi, ok fundu þeir ei fyrr en Hvolmenn komu í móti þeim, þvíat þeir áttu at siá ígègn túnglinu. Þeir hlaupa á eitt ennisvell ok hafa vopnin fyri sèr, en Hvolsmenn slá um þá hríng ok sækia at í glett ok kastast á ordum. Jón kvad makligan fund þenna ok kvad Þórir ei hafa farit kurteysliga um bygdir, ok lèt þeim illa sóma er miklir þóttust at stela kitlíngum [9]). Þórir kvadst stundum áviliadr [10]) at skèra hinum stærrum seggium, hann hafdi öxi snaghyrnda, er átt hafdi Vígaglúmr [11]), hann lagdi öxinni til Jóns, ok kom á kvidinn, þat var mikit sár. Sídan tóku þeir Þórir höndum; Vidar komst á burt ok fór hann

[1]) [Þóroddr Grettisson hèt bóndi mikill ok sterkr, hann gat son vid Þorgèrdi, *EV.* vid Herdísi, *St.*

[2]) Vidrádr, *EV.*

[3]) Golnis, *C. EV. St.*

[4]) ok Sturbíu bætir *EV.* vid.

[5]) öreydumadr, *C. EV. Gr. B.*

[6]) lítill vexti bætir *EV.* vid.

[7]) [alfiöru sæfar *EV.*

[8]) salthólm, *EV. Gr. B.*

[9]) bitlíngum, *EV.*

[10]) viliadr á, *EV.*

[11]) Vígastýr, *EV.*

á Stadarhól ok fann Einar fóstbródur sinn, ok sagdi honum svo búit, ok kvedst ætla at hann muni vilia rètta hans hlut [1]), þá er þeir lèku saman barnleikum. Einar lèzt svo giöra mundu ok kvedst hann ei skyldu hrekiast um Strandir. En Þórir fór í böndum til Hvols ok var ætladr til dráps. Snemma um morguninn komu þeir Einar til Hvols med 20 menn [2]), ok geingu til stofu ok köstudust menn ordum á, ok spurdi Einar ef þeir vildu manninn lausan láta. Helgi prestr kvad þat ei efni í at láta lausan þióf fiölkunnugan, en unnit nú til ólífis sèr. Einar kvad margt mega tína [3]) vid hann sem adra menn, ok kvad honum karlmennsku í því at hann verdi hendr sínar. Prestr kvad þat mál manna vera, at ofríkt væri atgeingit ef þeir tæki hann áburt, ok kvad medallagi rádligt at hefia svo virdíng sína at giöra góda menn ser at óvinum, en vilia hiálpa strákum. Einar kvedst manninn burt hafa mundu, ok þat vard at lyktum at Einar gèkk at ok skar böndin af Þóri ok hafdi burt med sèr. En upp frá þessu vard Helgi prestr aldrei slíkr vin Einars sem ádr. Jón lá um hríd ok andadist úr sárum, en Þórir lá úti ok var í ymsum stödum ok höfdu [þeir sveit þar þeir komu [4]). Þat var mælt þessir 3 döglíngar [5]) væri á Stadarhóli [6]) med Einari, stundum at Brunná, stundum á Tialdanesi. Um veturinn fyrir föstu er þess gètit, at Hvolsmenn færi 15 eda 16 til Brunnár ok sóktu þar at þeim, en þeir vördust úr húsum, en Hvolsmenn treystust at óiafnt yrdi skipt ef Einar yrdi vid [7]) var, ok hurfu frá. Birníngr taldi á [8]) er hús hans voru rofin, en Hvolsmenn kvádu ærna sök til þess er hann hafdi hyst óaldarmenn, ok vard af slíku íllt milli manna. Enn um vorit tók Helgi prestr Geir í saudahúsi þeirra af [9]) Brunná, ok hafdi hann til Hvols ok bad nú ekki fresta at

1) hlut sinn. *EV.*

2) 15 menn. *EV.*

3) tiá. *EV.*

4) þ útá spátsiunni, dólgar.

5) [þeir þá sveit ok Vidkunnr Linnsson. Vígfús hèt madr er enn var í sveit med þeim ok var austfirzkr, Geir var ok þar adra lotu, ok var þat kvitt at þeir væri hrídum á Stadarhóli *o. s. fr. EV.*

6) í Tialdanes. *EV.*

7) kæmi. *EV.*

8) taldi at. *EV.*

9) frá. *EV.*

festa hann upp ádr menn giördust til at draga hann af þeim, ok svo giördu þeir, ok [heingdu hann í Hvols-tröd [1]) at húsbaki. En um sumarit eptir var lagt hesta þíng at Stadarhóli, þá var þar einn af þessum þiófum Vidkudr Linnson, þeim vard at ordum ok Birni Gilssyni. [Beiddist Vidkudr bóta af Birni, fyri þat hann hefdi verit einn af þeim sem at sèr hefdu farit til Tialdaness [2]). Biörn kvad hann syna mikinn ósóma, er hann færi á mannafund þiófr ok ódádamadr. Sídan heitadist hvörr vid annan, Biörn sagdi: ei þorir þú at gánga rètt framan at mèr; siá þú þá vid, sagdi Vidkudr ok lagdi öxinni Steinsnaut [3]) framan á kvidinn ok fèll Biörn þar. En Vidkudr gèkk heim á Stadarhól ok inní sudrbúr ok var því slegit [4]) í lás, Þórir var ok þar fyri. Biörn andadist um nóttina. Sídan kom Einar Þóri utan, en vígin voru bótalaus. Vidkudr var í ymsum stödum, en menn höfdu á höndum Einari um víg Biarnar [5]), en hann færdist undan med eidum ok vard [þat aldrei ummælalaust [6]). Þat bar til tídinda at Kambi í Króksfirdi, þar bió Einar Kiartansson, þángat höfdu sótt til dagskèmta [7]), Jón ok Þorsteinn synir Þórarins Króksfirdings Þorsteinn var inni [8]), en Jón stód úti [9]) ok rædi vid [10]) húsfreyu, þá rída menn fyrir húsin Vidkudr Linnsson ok Vígfús [hann hafdi enn öxi Steinsnaut sèr í hendi, en Vidkudr [11]) hafdi svidu ok sylfurrekinn leggrinn, allra vopna beittust, iarnvafit [12]) skaptit. Þeir hlupu þegar [13]) at Jóni ok sögdu þeir skyldu launa honum atför ok eltíngar, ok lagdi Vidkudr til Jóns med svidunni, en Steinun húsfreya rann á móti Vígfúsi ok hèlt honum. Jón hafdi öxi vída [14])

1) festa hann upp í koppströd. *EV.*

2) [Taldi Vidkudr at vid hann um þat hann hafdi farit í Tialdaness med Hvolsmönnum ok beiddi bóta fyrir. *EV.*

3) Styrsnaut. *EV.*

4) lokit. *EV.*

5) at hann væri í rádum þarum, bætir *EV.* vid.

6) [þó aldrei ummálslaust. *EV.*

7) sótt dagskèmtun. *EV.*

8) því hann átti þar fylgikonu, bætir *EV.* vid.

9) undir vegg, bætir *EV.* vid.

10) Steinunni bætir *EV.* vid.

11) [hafdi Vidkudr enn öxina styrsnaut, en Vigfús *o. s. fr.* *EV.*

12) bezt, vafit iárni. *EV.*

13) bádir senn, bætir *EV.* vid.

14) mikla. *St. C.*

ok stutt [1]) skapt í, hann laust af sèr lagit, en greip sviduna ok las at [2]) höndum honum, þá vildi Vidkudr bregda saxi [3]), en Jón tók hann höndum ok þá kèndi aflsmunar ok hörfadi Vidkudr undan, þá kom þorsteinn út ok vard ekki tilrædi hans. Ok er Jón sá þorstein, rak hann frá sèr Vidkud svo hart at honum lá vid fall, sídan hió hann til hans um þvert ennit, ok var þat ærit banasár, þessi áverki var lofadr af flestum mönnum. Eptir þessa atburdi lagdist á ordrómr, at annar háttr. [þótti á hèradsstiórninni, en þá þórgils var á dögum [4]), ok tóku þá margir, þeir ed mikit þóttust at sèr eiga, at ráda sèr til eigna í adra stadi, þar sem þeim þótti sèr helzt trausts at von.[5]), ok komst Einar í fyrirlitníng af þessu.

14. Nú skal taka þar til máls [6]), er Bödvar [7]) bió at Túngu í Sælíngsdal, þá rèdst til búlags med honum Ingveldr þórgilsdóttir, hún var þá ekkia, þá vard þat tídinda, at þeir synir þorgeirs [8]) voru í Hvammi med Sturlu mági sínum, þorvaldr [9]) ok Ari. þeir giördu sèr títt um fundi vid Túngumenn ok hittust optast at laugu, þat var um veturinn at þorvaldr hafdi farit til laugar í Sælíngsdal, ok er hann skyldi heim fara, fèll hann af baki ok skeindi sik á fæti ok mæddi hann blódrás ok færdu hann til Túngu ok vard hann þar eptir, ok batt Ingveldr um fót hans [10]). Um vorit var hann ymist í Túngu edr í Hvammi. þat var rædt [11]) at þau þorvaldr ok Ingveldr mæltust fleira vid en adrir menn, en vinir þeirra syniudu þess. En um vorit eptir rædst þorvaldr til Eyafiardar, en Ingveldr [12]) giördi þá bú at Ballará, hun lèt sèr búa svefnhús ok var þar iaungum, hún hafdi fótarmein um sum-

1) lágt. *EV.*
2) af. *EV. C. B. St.*
3) bregda undan.
4) [þótti vera á um hèradsstiórnina, en þá er þórgils hafdi. *EV.*
5) á vera. *C. St.*
6) er ádr var frá hérfit, bæt. *EV.* vid.
7) Barkarson bætir *EV.* vid.
8) Hallasonar bætir *EV.* vid.
9) þorvardr. *A. B. Gr. EV.* allstadar í þessum Kap.
10) Var hann í Túngu miök leingi at lækníngu, bætir *EV.* vid.
11) mönnum fundust ord um. *EV.*
12) fór þá út á Medalfellsströnd ok, bæt. *EV.* vid.

arit ok gèkk lítt um syslur. En um haustit kom þar kona, hún hèt Þórdís ok var Leifsdóttir, hún var úr Eyafirdi, ok er hún hafdi litla hríd þar dvalizt, þá ól hún barn, ok var nefnt Sigrídr, en fadirinn Þorsteinn Leifsson [1]) nordlenzkr madr. Hún fór um haustit [2]) nordr til Eyafiardar, en ei at sídr [3]) giördu menn margordt um ráđ þeirra Þórvalds ok Ingveldar. En er Einar vard þessa vís [4]), leitadi hann eptir um málit vid Þorvald [5]), en þau svör komu þar í mót af Þorvalds hendi at synia [6]), ok var festr iárnburdr fyrir. En Klángr biskup skyldi um giöra hvörsu sem skírsla geingi. Grímr hèt sá madr er iárnit bar nordlenzkr, en er höndin var leyst, þá var þat atkvædi biskups at hann væri skír. Þar eptir snèri biskup giörd ok giördi fè á hendr Einari, ok sleit svo því þíngi. Þat sumar bióst Þorvaldr til utanferdar í Eyafirdi, þá seldi ok Ingveldr Sturlu fiárheimtur sínar allar, ok tók sókn ok vörn állra hennar mála, svosem hann væri adili. Eptir þat rædst Ingveldr til ferdar á laun nordr til Eyafiardar ok skar sèr [skrúdklædi sem karlmadr væri [7]), ok med henni Steingrímr Kumbaldi Mársson, ok er kaupmenn lögdu úteptir firdi, hlódu þeir segli, skutu báti ok rèru yfir á Gálmanstiörn [8]) ok gèkk Ingveldr þar á skip ok fór burt med Þorvaldi, ok komu vid Noreg, þá var Ingi Haraldsson kóngr ok rædst Þorvaldr til hans, en Gregoríus Dagsson tók vid haldi [9]) Ingveldar. En er þat frèttist, þá hefst at nyu sá ordrómr, at Sigrídr mundi vera dóttir Þorvalds ok Ingveldar, ok þar med at skírsla hefdi villt verit, ok at Sturla ok Ingibiörg hefdi þessi rád vitat med Þorvaldi, ok snyst nú Einar med fiandskap á hendr Sturlu, ok kvad hann hafa vafit [10]) sik miklu vandrædi, ok næsta sumar kvad Einar þat upp fyrir vinum sínum, at hann mundi málum framhalda vid [11]) Sturlu um

[1]) Þorleifsson. *EV.*

[2]) med barnit, bæt. *EV.* vid.

[3]) grunudu menn ok bætir *EV.* vid.

[4]) var. *EV.*

[5]) ok kvad hann mundu vilia hèrum sönnu svara, bætir *EV.* inní.

[6]) at syniat var málsins. *EV.*

[7]) skör ok karlsklædi. *EV.*

[8]) Gálmarsströnd. *EV.*

[9]) valdi. *EV.*

[10]) vafdan. *EV.*

[11]) á hendr. *EV.*

þenna úhæfan hlut, ok svo giördi hann ok fiölmennti miök, ok sótti þau mál í dóm, at hann hefdi rádit þau rád Þorvaldi at hann skyldi segia, at Þorsteinn væri fadir Sigrídar, þar sem Þorvaldr var Þorgeirs son, ok giört þarí mannvillu ok kristnispell, ok lèt varda fiörbaugsgard; en Sturla baud eid fyrir málit, at hann hefdi ei í þeim rádum verit. Einar mælti: fá 12 menn med þèr at sanna eid þinn, ok mun ek þá þeim málum ei framhalda; ok er eida skyldi vinna [1]), þá skildi Sturla svo undir eidstaf sinn, at hann hefdi ei rádit Þorvaldi at giöra mannvillu. [Þá mælti Einar svo undir málit: ok [2]) ei vitat med honum. Þá mælti Sturla: eigi hugda èk mik um þat mundu sekan verda, þó at ek segda ei óhapp [eptir tengdamönnum mínum [3]), medan ek var ei atspurdr. Þá svaradi Einar ok kvad þat nú heyra meiga, hvört Sturla hefdi ei vitat mannvilluna, ok sá ordrómr lagdist á at hann mundi vitat hafa; var þá lokit sáttinni. En med því at sekt sú var ógoldin er Klángr biskup hafdi giört á hendr Einari, þá stefndi Sturla honum eindaga um alþíngis sektarhald, ok lèt varda fiörbaugsgard, ok fóru hvorutveggiu málin í dóm, ok höfdu hvorutveggiu mikit fiölmenni, ok geingu hvorutveggiu málin fram, ok urdu bádir sekir fiörbaugsmenn Einar ok Sturla. Eptir þíngit söfnudu þeir bádir lidi til fèránsdóms, ok þá fór Einar í Hvamm med 4 hundrud manna, en hann lèt eptir í Saurbæ Hrólf Gunnólfsson med hundrad [4]) manna. Þar var med Einari Snorri Kálfsson ok Þorleifr Beiskaldi úr Hítardal fadir [5]) Þorláks Audga, Hermundr Kodransson [6]), ok margt annat virdíngamanna. Sturla hafdi ok mikit lid, þar var Bödvar Þórdarson ok Páll Biarnason [7]). Sturla reid vestr til Saurbæar med 60 manna, um Þverdal [8]) ok ofan Tradardal, ok svo í Saurbæ, ok hádi fèránsdóm at Stadarhóli, ok reid aptr um Sælíngsdal, ok utan reidgötu at Hvammi. En flokkr [9])

1) ok er eidar skyldu framfara. *St.*

2) þá inntì Einar svo málit, at hann hefdi o. s. fr. *EV.*

3) teingdamanns míns. *EV. C.*

4) tvö hundrud. *St.*

5) sonr. *EV.*

6) ok Haldór Eyólfsson bæt. *EV.* vid.

7) Biarnarson. *B. C.*

8) Þverárdal. *EV.*

9) Einars bætir *C. St.* vid.

sat fyrir ofan götuna milli túngards ok stekkiamúla. Sídan geingu þeir [1]) af bænum med flokkinn mót Sturlu. Einar hlióp upp, ok eggiadi atgaungu, en þorleifr Beiskaldi bad hann ei stefna [2]) mönnum í svo mikinn vanda, at aldrei leystist, sem von væri á, ef svo mikit fiölmenni skyldi beriast, ok urdu margir gódir menn til med honum at eiga hlut í [3]), ok skyldu menn þar úhappalaust. En er þeir fundust Bödvar ok Sturla, sagdi Bödvar at Sturla hefdi miök hætt til um málin, ok ridit frá mönnum sínum. Sturla kvad ei mundu þykia haldit til iafns vid Einar, ef hann sæti heima, ok hádi ei fèránsdóma, en kvad vant at siá [4]) hvörr þar bæri hærra hlut.

15. Nú sátu hvorutveggiu í sekt þau misseri, en at sumri búast þeir bádir til þíngreidar, Sturla Lángavatnsdal, en Einar Bröttubrekku, ok er hann kèmr sudr í Kálfsdal [5]) skipti hann lidi sínu ok mælti: Nú er þann veg umbúit [6]), at vèr munum breyta rádum um ferdir vorar ok snúa aptr heim til hèrads, en Alfr son þórodds Jónssonar skal taka vid godordi mínu. Mörgum mönnum kom þetta á úvart, ok þóttust skilia at nokkut stórt mundi undir búa. Einar snèri þá aptr med hálfan þridia tug manna, þar var med honum Gunnsteinn þórisson, Eyólfr ok Oddr Brúsason [7]) ok margt annat lid, þeir átu náttverd at Saudafelli ok ridu um nóttina inn í Hvamm, þá mælti Einar ádr þeir ridu at bænum: Nú væri èk á þat viliadr [8]), at vær eldum úsparliga í Hvammi þessa nótt ok mætti þeir reka minni til komu vorrar. þeir voru ok flestir med honum at ei löttu miök þessa, ok er þeir tóku Hvamm, þá færdu þeir menn alla í kyrkiu, en rændu fè öllu ok brendu bæinn [9]), ok færdu allt vestr til Saurbæar, ok sögdust at sínu gánga. Einar reid þá til þíngs vid [níunda mann [10]), ok er

1) Bödvar bætir *EV.* vid.

2) styra. *EV.*

3) med þeim, bætir *EV.* vid.

4) vita. *EV.*

5) Nordrárdal. *EV.*

6) á þá leid komit. *EV.*

7) Bersason. *EV.* ok bæt. vid: Vidar þorgeirsson.

8) fúsastr. *EV.*

9) giörvallan bætir *EV.* vid.

10) hundrad manna. *EV.* tólfta mann. *C. þ.*

menn komu á fund Sturlu ok sögdu honum tídindin, sagdi hann Einar mundi eldt hafa fríulaust [1]). Eina nótt sídar var leitat um sættir af beggia vinum ok stefnur tillagdar, því mönnum þótti til vandræda búast. [Sídan var adsóktr Klángr biskup at hann mundi giöra um málit [2]). Einar iátadi því ok sva Sturla [3]), ok ádr þíngit var sett var sæzt á öll þessi mál. En ádr lykt fèlli á þessi mál kvedst Sturla vilia at biskup ynni fimtardómseid, at hann giördi iafnsætti. Sídan var fundr lagdr í Bóndakyrkiu [4]) allfiölmennr, þá mælti biskup: Ek giöri fyri brennu ok bæarskada 60 hundrud, en fyrir sakir vid Einar 50 hundrud, en ránin skulu gialdast aptr, eptir þat vann biskup fimtardómseid. Þá mælti Sturla: svo virdi èk eid biskups sem páska messo [5]), en satt er þat, flestir munu kalla giöldin ei mikil ok giördir ei fèsamar. Sídan fóru menn heim af þíngi ok voru sáttir at kalla, rèttust rán flest, en eigi giörsamliga. Sturla lèt húsa bæ sinn um sumarit, ok var [búit fyrir veturnótt [6]) ei verr en ádr. Þau Sturla ok Ingibiörg áttu tvær dætur, Þórdísi ok Steinunni. Ingibiörg tók sótt ok andadist [7]). Sídan átti Jón Brandsson Steinunni Sturludóttur ok biuggu þau á Reykhólum, þeirra synir voru þeir Bárdr [8]), Brandr, Ivar ok Ingimundr. En Þórdísi átti Bárdr Snorrason, sonar Bárdar ens svarta úr Selárdal, ok voru þeirra synir Snorri, Pètur, Sturla. Nokkru sídar átti Sturla son þann er Biörn hèt vid Gudfinnu Steinsdóttur [9]), ok litlu sídar fèkk hann Gudnyar Bödvarsdóttur, ok var þat brúdkaup at Hvammi, ok átti hana til elli.

1) en kvad þó ei skyldi allt hafa bótalaust annat ár, bætir *EV.* vid.

2) [þótti mönnum ok tilhlyda at Klángr biskup settist í at giöra um málit, var hann settr at því sídan, *EV.*

3) ok kvedst þat halda mundu er biskup giördi um málit, ok kalla þeir hann líkligan at þessu at giöra til iafnadar, bætir *EV.* vid,

4) Kyrkiugardi, *EV.*

5) ok má èk því ei til fiár meta, bætir *EV.* vid.

6) alhyst fyrir vetur. *EV.*

7) ádr málalok þessi urdu, bætir *EV.* vid.

8) Bergþór. *EV.*

9) Sveinsdóttur. *EV.*

16. Þá var Einar Helgason stiúpsonr Sturlu í Hvammi, hann giördist roskinn [1]) madr, þá greiddi Sturla út fè hans, þat var land í Sælíngsdalstúngu ok þar búit med, hann settist þá í bú ok kvongadist, ok fèkk Gudrúnar Branzdóttur, systur Jóns Branzsonar, med tilstilli Sturlu. Henni fylgdi heiman land í Króksfiardarnesi ok Króksfiardareyar, en þat hafdi verit nokkra hríd, at Brandr hafdi lèd Einari Þórgilssyni eyarnar at fæɾa í ær til skurdar á haustum, en þá var svo komit, at Einar þóttist eiga mála á landinu at hafa á medan hann byggi á Stadarhóli. Sídan lèt Einar Helgason fæɾa þángat ær sínar á haustin úr því hann bú reisti, ok kvedst ætla at hann skyldi ei vera ræníngi fyrir Einari Þórgilssyni. En er þetta fregnar Einar, kvad hann þat líkara at hann nædi halda rèttu fyri nafna sínum ok kvad þeim enn ei leidast at leita á sik. Hann sendi sídan Högna prest at fæɾa sínar ær út, en hinar [í land [2]), ok er þeir komu í Króksfiardarnes til Eyólfs Hallgrímssonar, hann var gamall madr ok gódr bóndi, þeir bádu skips, hann kvedst ei [hafa [3]), þá mælti prestr: firn mikil tekr þú til, ok laust hann med öxarhamri, ok var þat mikill áverki. Þeir tóku skipit ok færdu út ærnar, en hinar utan ok fóru heim eptir þat. En er þetta spurdi Einar Helgason kvad hann Einar Þórgilsson enn syna ránglæti ok fylgia vondum málefnum sem fyrr. Hann lèt fara eptir ám sínum ok reka heim. Sídan finnr hann Sturlu ok kvad sèr illa líka vid nafna sinn. Sturla svaradi: þat munu flestir ætla at ek mun láta [af málaferlum [4]) vid Einar, en ei vil ek sitia honum úhæfu hlut vid mik edr vini mina. Litlu sídar fóru þeir Sturla ok Einar at heimbodi vestr til Gufudals vid tólfta mann, ok er þeir fóru vestan komu þeir í Króksfiardareyar ok hiuggu allar ær Einars Þórgilssonar ok báru saman í köst, eptir þat fóru þeir heim. Einar Þórgilsson var þá at brúdkaupi at Reykiahólum, er Bödvar Barkarson gipti Valgèrdi dóttur sína Þórhalli Branzsyni, þá frètti Einar ærhöggit; hann svaradi svo: eigi leidist þeim at eiga vid mik glettur. En um veturinn eptir iól fór Einar Helgason nordr til

[1]) röskr. *St.*
[2]) utan. *EV.*
[3]) [lið mundu. *EV.*
[4]) [fyrir vinnast um málaferlin. *EV.*

Eyafiardar, ok er Einar Þórgilsson frètti þat fór hann vid áttunda mann sudr til Túngu, hann kvaddi til sín Þorgeir Grímsson ok kvadst vilia hann ynni á Lopti fóstra Gudrúnar Branzdóttur ok vilia giöra á þeim nökkra audkènníng [1]) sinna verka. Þegar þeir komu til Túngu, geingu þeir í stofu ok var þeim heilsat ok spurdir tídinda, þeir settust nidr; en er Einar sá at ekki vard tilrædi Þorgeirs, þá stód hann upp ok gèkk utar á gólfit, hann var nærsynn ok þekti ei hvar Loptr sat, hann snèri at þeim manpni er Þórólfr hèt ok lagdi spióti í lær honum svo at skar útúr, vard þat svödusár. Þar hlupu upp allir menn er inni voru ok hèlt hvör ödrum, þar var Gudfinna Sveinsdóttir ok hèlt hún Einari, þau [sendu konu eina [2]) út í Hvamm at segia Sturlu, en konur ok karlar hèldu þeim [er þar voru [3]), ok mundu þeir ei á burt komist hafa, hefdi Svertíngr Starason ei hiálpat þeim, því hann lèt þá lausa ok kvad ei hæfa at þar yrdi meira vandrædi ok kom hann þeim á burt, hann var þar heimamadr. Þeir Einar fóru þegar á burt ok geingu uppá Múla ok svo nordr eptir fialli þar til þeir komu heim. En er þeir Sturla komu í Túngu, lèt hann lysa áverkum, hann gèkk at Svertíngi Starasyni ok reiddi öxarhamar at höfdi honum, ok kvad hann þess verdan at hann væri drepinn, ok var vid siálft at þat færi fram, en þat hiálpadi [4]) honum at hann var þar heimamadr. Nú þóttist Einar Þórgilsson hafa hefnt ærhöggsins.

17. Nú er þat sagt um haustit, at Þorgrímr prestr brotamadr kom nordr [5]) úr hèradi, ok med honum Olöf kona hans, hún var kvenna vænst, en hann gamall madr, þau komu á Stadarhól. Hallr Þiódólfsson var þá heimamadr Einars, hann kvad þat aldrei skyldu leingr at gamall madr [flekkadi svo væna konu [6]) ok tók hana af honum ok svo hest hans er Máni hèt, allra hesta bestr. Þorgrímr fór burt at Stadarhóli ok vard [7]) ílla vid, hann

[1]) þeim — áminníng. *EV.*

[2]) skutu konu einni. *EV.*

[3]) Einari *EV.*

[4]) barg *EV.*

[5]) nordan. *C. St.*

[6]) flikkadi svo vænni konu, *EV.* elskadi. *C.*!

[7]) undi. *EV.*

fór svo í Hvamm ok sagdi Sturlu, hvör svívirdíng sèr væri giör ok bad hann ásiár. Sturla svaradi ok kvad ei mikilmennsku í slíku synast; en kvad Einar þat ílla giöra at veita vandrædismönnum á leid fram ok leggia þar vid virdíng sína. Um haustit hafdi brotit skip nordr vid Horn ok menn þeir þar á voru fóru fèlausir til Sturlu ok bádu hann ásiár; hann tók vid þeim um veturinn, einn þeirra hèt Giafvaldr. Sturla mælti vid hann: ek þykist hafa veitt þèr [1]) miök vel, nú vil ek senda þik vestr til Saurbæar til Helga prests [2]), at hann sè þèr at lidi ok heimamenn hans, en þú skalt sitia um Hall þiódólfsson. Hann kvedst skyldu atgiöra [3]) þat er Sturla vildi. Hann fór [4]) til Helga prests, ok sagdi honum erindi sín, hann kvedst mundi vid honum taka ok var hann þar um hríd. Ok litlu sídar kom þar Hallr um farinn veg, ok stefndi þar [5]) ofan um Márs-kèldu, en húskarlar Helga prests slóust á leid med honum; en er þeir komu út úr gardi, kom Giafvaldr eptir þeim ok hió þegar til Halls ok kom á hægri öxlina, ok rendi ofan eptir armlegg ok at olboga, vard þat mikit sár. Giafvaldr tók þá á rás, ok lètti eigi fyrr en hann kom í Hvamm. Ok er Einar þórgilsson spyr þetta, heimtir hann at sèr vini sína [ok vill ei hafa svo giört [6]); sumir mæltu, at honum væri urádligt [at leggia virdíngu sína í hættu fyrir slíka menn [7]). Eptir þat fór Olöf burt af Stadarhóli ok sudr í Hvamm ok tók þorgrímr vid henni, sídan bad Sturla þorgrím fara [eptir hesti sínum, ef hann giæti nád honum [8]). Sídan fór hann í Saurbæ ok sat um hestinn [9]), ok komst burt med hann. Einar Helgason kom nordan um veturinn ok líkadi ílla er húskarl hans var særdr.

18. Sigurdr hèt madr Kèrlíngarnef, hann bió at Laugum í Sælíngsdal, hann var þíngmadr Einars þórgilssonar, honum fylgdi

1) rádit vid. *EV.*

2) til halds bætir *EV.* inní.

3) kvedst vera skyldr til at giöra. *EV.*

4) til Hvols bætir *EV.* inní.

5) þadan. *EV.*

6) [ok kvad sèr illa hugnast svobúit. *EV.*

7) [at auka vandrædi. *St.*

8) til Saurbæar ok vita ef hann nædi hesti sínum. *EV.*

9) ok gat tekit í drífu-eli, bæt. *EV.* vid.

at lagi Arngèrdr dóttir Asólfs Gunnfridssonar [1]), hún var væn kona. Þat var eitt sinn at Einar Helgason reid upp til Lauga [2]) ok batt hest sinn vid dyr, ok gèkk til stofu, ok taladi vid Arngèrdi, en er Sigurdr vard þessa var hleypti hann beizli af hestinum, svo hann hlióp burt, en konur komu í stofu, ok sögdu Einar mundi verda at gánga heim, ef hann tæki ei hest sinn. Einar gèkk út ok hitti Sigurd, ok spurdi því hann giördi sèr slíkan farartálma. Sigurdr var stórordr ok kvad hann vel tilbúinn [3]) at elta hest sinn, heyr á [4]), sagdi Einar, at þú giörir mèr afarkosti, ok sló til hans med öxinni [5]) fyri ofan eyra, svo þegar stódu fætr í lopt upp. Einar mælti viltu enn annat, Sigurdr stód á fætr ok skauzt inní dyrnar, en konur þrifu Einar ok bádu heimfara, hann giördi svo. Sídan sendi hann mann í Hvamm til Sturlu at segia honum þetta. Einar Þórgilsson var at gistíngu í Asgardi at Erlindar prests. Sigurdr fór þángat á hans fund ok sagdi honum hvör ósæmd honum var giör, ok bad hann ásiár. Einar lèzt vilia at ei ynni þeir opt á þíngmönnum hans. Sturla fór í Túngu ok stefndi til sín bændum, ok voru nær 30 manna. Einar Þórgilsson sendi þá Styr Gilsson at beida bændr at þeir kæmu í Asgard, ok er Sturla vard þess var, sagdi hann at þess skyldi ei kostr. Sídan reid Einar í Túngu vid 9da manna; en þeir Sturla geingu mót Einari, þá mælti Sturla: saddir erum vèr á heimsóknum ydrum, ok miök virdum vèr til ágángs ydar tiltèktir, ok meir [6]) þykiumst vèr undan eira, ok veldr því at vèr vildum fordast vandrædi, en kostr væri nú at rètta hlut sinn vid þik. Einar Þórgilsson svaradi, því eins skal sú heimsókn ydur veitt, at eingin skal ósæmd at verda, ok mælti allfagurt, ok var þat málalykt, at Sturla skyldi giöra einn med þeim. [Eg giöri fyri áverkann hest ok uxa þrèvetran, ok giald nú þegar, ok skildu vid þat. [7]) Hallr Þiód-

1) Gunnvardssonar. *EV.* Gunnfredarsonar. *C. St.*

2) ok kom til húsa, bætir *EV.* vid.

3) hlaupsbúinn. *EV.*

4) endemi bæta *C. St.* vid.

5) laust — exarhamri. *EV.*

6) synu meir. *EV.*

7) Sturla lèzt þá mundi giörd uppsegia ok mun ek giöra rètt mannsins, ok skal hèr nú gialda fèd; þat var yxni þrèvett ok hestr ok skildu vid þat. *EV.*

ólfsson var at lækníngu at Hvoli til þess er hann vard heill. Helgi prestr mælti: þat rád er þèr [1], at þú farir í Hvamm ok biódir mál þitt undir [2]) Sturlu ok tel ek þèr þat vænst til lidveizlu [3]). Hallr fór nú ok hitti Sturlu ok kvadst vilia [hans dóm á sínu máli [4]). Sturla kvadst vilia unna honum sæmdar fyri áverkann.

19. Haldór hèt madr ok var kalladr Hvirfill, son hans hèt Kiartan [5]), en Gunnbiörg [6]) hèt kona hans, hún var dóttir Skáld-Þórdar, hún hafdi fylgt Vidari Þórdarsyni [7]), ok voru þau þá skild ok skilin, hún var heimakona í Holti. Þat var mælt, at Kiartan væri [elskr at henni [8]). Svo bar at eitt sinn er þau fóru frá tídum, at Vidar fann þau á leid, ok hlióp at Kiartani [9]), ok kvad mikil firn [um ord þat er álagdist [10]), ok fór med hann ílla, en er bóta var beidt, svaradi hann: ef ek skal bæta þetta, þá vilda èk [eiga at giöra nokkut [11]). Enn í annat sinn finnr hann [Kiartan, ok rædir hit sama, ok fer med þeim verr en ádr [12]), ok mælti margt svívirdiligt vid hann; ok er Ospakr vard þessa vís, beiddist hann bóta, ok vird [mik til [13]) í þessu máli, því hann er húskarl minn [14]). Þeir voru brædur Oddr fadir Ospaks ok Þórdr [15]) fadir Vidars. Hann kvadst aungvu mundi bæta, kvad Kiartan [hafa [16]) verr haft í svörum ok tilgiördum, ok fèkst þar ekki af. Þat var um veturinn fyrir iól Magnúsmessu, er þeir

1) þat mun ek ráda þèr. *EV.*

2) dóm bætir *C.* vid. skiótir máli þínu *o. s. fr. EV.*

3) leidrèttu. *EV.*

4) [leggia á hans dóm mál sitt. *EV.*

5) hann var húskarl Ospaks í Holti. bæt. *EV.* vid.

6) Gudbiörg. *A. C. EV. Gr.*

7) Þorgeirssyni. *EV.*

8) [at tali vid hana. *EV.*

9) ok rak hann nidr, bætir *EV.* vid.

10) [at audvirdi þat legdist at konum. *EV.*

11) fyrir nokkut eiga at bæta. *EV.*

12) [þau Kiartan ok Gudbiörgu á förnum vegi ok rekr hann nidr ok ber á honum ok fer med hann verr en ádr. *EV.*

13) mikit. *EV. St.*

14) en þar er teingdamadr minn sem þú ert, bætir *EV.* vid.

15) Þorgeir. *EV.*

16) leingi hafa verit sèr til óþektar ok, bætir *EV.* vid.

fóru bádir til Hvols til tída, ok er lokit var tídum, fóru menn burt. Vidar gèkk af [1]) kyrkiugardi ok heim, en Kiartan þegar eptir honum, ok hió í höfud honum, ok leiddi þat hann til bana. Kiartan fór eptir þat sudr yfir heidi ok kom í Hvamm, ok sagdi Sturlu áverkann. Sturla kvad honum naudsyn á hafa verit ok skaut yfir hann nokkru skióli. Kiartan var skyldr þeim brædrum at Skardi Narfa ok Þórgils, ok sendi Sturla hann þángat, ok tóku þeir vid honum, ok komu honum utan, ok gafu fè til færingar [2]) honum.

20. Gils hèt madr, hann bió á Medalfellsströnd, hann átti lítit fè ok mannheill; Össur hèt son hans, hann var í förum ok [3]) lestreki Gudlaugs Audga norræns manns, hann græddi þaraf fè, þar til hann vard audugr, ok keypti land á Nyrdriströnd í Búdardal, ok giördi þar bú, ok var gódr bóndi ok gagnsamr, ok þó [lítt heill [4]). Þórgils hèt madr er bió í Króksfirdi, hann var lítill fyrir sèr, hans synir voru þeir Grímr ok Skapti. Grímr var kominn á framfæri Álfs Örnólfssonar í Fagradal, en Skapti bió í Króksfirdi fèlítill, en átti ómegd mikla [5]). Þeir brædur voru nefndir [6]) til arftöku eptir Össur Auduga, því Þorkatla Svansdóttir [7]) þótti ei hafa vit til at vardveita fèd, en var þó skyld Össuri. Jósep hèt madr, hann var son Grettis Skèggiasonar Skammhöndúngs, hann var gódr bóndi, kona hans hèt Olöf ok var Tryggvadóttir, börn þeirra voru þau Oddr, Heimlaug ok Þórdís. Oddr Jósepsson var iafnskyldr Össuri sem Skapti ok Grímr. Oddr var giörviligr madr ok vel mæltr, ok þótti Össuri þar best komit fè sitt, er Oddr tæki. Oddr var laungum í Búdardal, ok svo var þegar Össur andadist; þá bió Erlendr Hallsson [8]) í Ásgardi, hann var þíngmadr ok aldavin Einars Þórgilssonar, ok sat fyrir gistíng hans, hvört sem hann fór med fleiri edr færri menn,

[1]) úr. *EV.*

[2]) faringar. *EV.*

[3]) var fyrst bætir *EV.* inní.

[4]) [illa heill laungum. *EV.*

[5]) ok var siálfr lítilsháttar, bæt. *EV.* vid.

[6]) taldir. *EV.*

[7]) Sveinsdóttir. *C. St.* Svartsdóttir. *EV.*

[8]) prestr Hallsson. *EV.*

því hann var gildr bóndi, honum fylgdi Jórun Grettisdóttir. Snorri son Gufuhalls hafdi rádizt at vistarfari vestr til Saurbæar, þvíat hann var í kærleikum vid Kolfinnu Þorgeirsdóttur konu Sigurdar [1]) á Biarnastödum Höskuldssonar, ok giördist vin Einars Þórgilssonar. En er vandat var um víst hans í Saurbæ, þá lagdi hann búlag sitt vid Erlend prest í Asgardi, hann var [hailr undir Einar [2]) í málaferlum þeirra Sturlu, ok lagdi Sturla úþykkiu á þá Erlend ok Snorra, ok kvad synast sem þeir vildu vera mótgaungumenn hans. Þat var eitt sinn at hross þeirra úr Asgardi höfdu geingit út yfir ána, en Már Alfsson gætti smala í Hvammi ok tók hrossin ok reid, en Þorleifr Kètilsson húskarl Erlends prests rak hann af baki, ok bardi hann, svo hann var bædi blár ok blódugr. Sturla var ridinn á strönd út, ok kom heim annan dag viku, honum var sagt frá sameign þeirra Márs ok Þorleifs. Sturla kvad slíkt vera ósóma mikinn at beria á saklausum manni. Sídan lèt Sturla halda niósnum til hvat þeir giördu í Asgardi, ok vard þess vís, at þeir Erlendr prestr ætludu til laugar drottinsdag [3]), ok eptir dagverd drottinsdag fór Sturla heiman ok Sveinn son hans til Lauga, ok er þeir komu þar, var prestr í laugu, en Snorri gèkk úr lauginni, en Þorleifr sat ok fór úr klædum ok ætladi í laug. Þeir unnu þegar á Snorra, en vógu Þorleif. Þá mælti Sturla vid Svein, at hann skyldi vega Erlend prest. Sveinn sagdi: þat hæfir ekki, því hann er skírifadir minn, ok þat hiálpadi honum. Sídan fóru þeir Sturla heim; Kètill prestr fadir Þorleifs var þíngmadr Einars Þórgilssonar [4]). Þeir Einar fóru ok lystu vígi ok áverkum, ok kvádu þá miök syna ofsa ok fiandskap, ok sagdi Sturlu optar fyrr vekia úhæfu [5]). En um vorit eptir var fundr lagdr í ofanverdum dal [6]), ok urdu menn þar ekki ásattir. Nokkru sídar kom nordan Snorri Einarsson [7]), ok var þá enn fundr lagdr í Sælíngsdal. Hann átti mikinn hlut í sáttum, ok kvad einsætt, at ei rækist vandrædi

[1]) Sigmundar. *EV.*
[2]) hollr undir Einari. *A. B.*
[3]) eptir dagverd, bætir *EV.* vid.
[4]) hann fór í fund hans, bæt. *EV.* vid.
[5]) óvísu. *EV.*
[6]) Sælíngsdal. *EV.*
[7]) Bárdarson. *EV.*

manna, ok kvad ymsa valda. Þá vard sátt [1]) ok tók sinn mann hvörr til giördar. Eptir þat brá Erlendr prestr búi, en Snorri fór á Skarfstadi.

21. Þá er Einar Þórgilsson frètti andlát Össurs Audga, fór hann út í Fagradal [2]). Ok er hann kom, sagdi hann Grími erindi sitt, ok vil ek at þú farir heim med mèr, en ek vil taka fiárheimtur þær, er þú átt í Búdardal. Grímr var leiddr úr kyrkiu ok fór med Einari; en Alfr kvad þat ei med sínum vilia giört, þvíat ek hefi ádr lagt fyrir hann fè, þvíat Össur var ei skilgètinn ok sat ek því fyrir ómegdum, ok þykiumst ek því tilkominn um fiártekiuna at nokkrum hluta. Einar kvedst ei hirda hvat hann mælti, ok tók í hönd Grími, ok nefndi votta, ok skildi svo fyrir handsali, ok tók handsölum ok heimildum á fè því öllu er var í Búdardal, ok Grímr var þar arfi at ordinn, en ek handsala honum vist ámóti ok framfærslu Eptir þat fór Einar á fund Skapta, ok tók af honum handsöl med sama hætti. Sídan fór hann til Búdardals á fund Odds, ok kvadst vilia leysa hann frá fè því öllu er þar væri med 60 hundrudum. Oddr kvadst þat ei vilia, þó hann tæki af honum [3]) naudugum. Þá mælti Einar: þat hefi ek heyrt menn segia, at þú munir ei skilgètinn, ok mun þat vera rèttara at þú hafir ekkert af, ok skildu at því. Reid Einar heim, en Oddr fór þegar sudr í Hvamm at hitta Sturlu, ok sótti hann at málum. Sturla kvadst mundi álíta med honum. Sídan [baud Oddr Einari iárnburd at hann væri lögligr arfi haldinn, en [4]) láta fèd laust fyrir lög fram. Þar var kominn til Einars Már Gudmundarson, Vilmundr Snorrason, Ivar Össursson, Grímr ok Asbiörn Liótssynir. Þeir urdu sekir um víg Karls Konrádssonar, ok Bödvars Grímssonar, þeir voru kalladir Skógúngar, ok höfdu ádr verit med Þorsteini Gydusyni í Flatey.

22. Um vorit eptir páska fór Einar Þórgilsson í Búdardal, ok tóku upp [fèd allt, mat ok vöru, ok kvikfè allt [5]) þat þeir máttu

[1]) var sátt fest. *EV.*

[2]) til Alfs bætir *EV.* vid.

[3]) mönnum — slíkar kleyngíngar. *EV.*

[4]) lèt Oddr þau ord fara til Einars at hann mundi bera iárn, at hann væri arfgeingr, heldr en *o. s. fr. EV.*

[5]) bú allt, vöru ok gángandi fè. *EV.*

med komast, en Oddi var haldit á medan, ok bad Einar hann vera kyrran, ok gèkk at honum ok greip af honum silfurhríng, ok fór heim sídan. Þá var giört virki um bæinn á Stadarhóli ok þar byrgd í nautin um nætur [1]), en setit at um daga yfir undir fiallinu gègnt Stadarhóli. Oddr Jósepsson fór þegar eptir ránit í Hvamm, ok bad Sturlu lids, ok kvadst miök þurfa hans fullíngis, ok vil ek gèfa þèr fè til lidveizlu. Sturla kvedst ei nenna at deila um slík mál vid Einar, en hitta muntu [2]) Einar Helgason, ok vita ef hann vill rètta hlut þinn. Nú hitti Oddr Einar at máli [3]), ok sagdist vera varhaldinn, nú vil ek gèfa þèr fè til lids. Einar kvedst vilia hitta Sturlu. Nú fara þeir bádir á fund Sturlu, ok segist Einar vilia tilseilast [4]), sýnist mèr at úiafnadi gángi svobúit, eda hvöriu vilt þú þèr afskipta? Sturla svarar: Þat veiztu mágr, at ek mun ei vid þik skiliast í málaferlum manna. Sídan fóru þeir Sturla ok Einar med Oddi í Búdardal, ok giördu þar setu, ok söfnudu at sèr kvikfè [5]) því er eptir hafdi ordit, ok svo feingu þeir úr eyum egg ok sela. Sídan fór Sturla heim, en þeir Einar ok Oddr voru fyrir setunni. Þeir Einar höfdu skipkost betri en Búddælir, ok urdu því opt feingsælli.

23. Einar Helgason fór eitthvört sinn med nokkra menn í Tialdanes, ok kvedst vilia giöra Saurbæíngum nokkut íllt. Ok er þeir komu þar, þá hiuggu þeir þriú skip Einars Þórgilssonar, ok kvad þá iafnast [6]) med þeim; þeir fóru þá aptr hit nedra um fiöru. Þá fóru þeir Már Gilsson [7]) ok Biarni Kálfsson [8]) hit efra um mýrar, ok fundu þá ei fyrr en þeir komu umfram, ok snèru eptir þeim ok eltu leingi, en þá dró undan, ok skildu vid þat. En er Einar Þórgilsson vard þessa var, kvadst hann vilia hitta Búddæli, ok svo var giört. En er bændr urdu þess varir, þá söfnudust þeir saman, ok geingu í milli, ok var hvorigum kostr

[1]) ok vakat yfir bætir EV. vid.

[2]) máttu. EV.

[3]) ok sótti hann at trausti, bætir EV. vid.

[4]) tilseliast. EV.

[5]) búfè. EV.

[6]) þat meiga iafnast. EV.

[7]) ok Jón bætir St. vid.

[8]) ímóti þeim bætir EV. innf.

at giöra ödrum mein. Einar stefndi þeim Oddi sídan um skipahögg, ok fór svo heim sídan. Einar reid sídan til þíngs, ok þridiu nótt fyrir þíngit fóru þeir Einar Helgason yfir fiall [1]) hit efra, ok ofan Tradardal uppfrá Stadarhóli, en þeir giördu tvo menn hit efra um Mel af dal [2]), en einn ofan Asólfsgötu á niósn at vita um naut þau er komin voru úr Búdardal. Þeir komu í móti þeim Einari í Þverárdal ok sögdu at nautin væri nær komin túni á Stadarhóli, sídan fóru þeir til nautanna, ok kèndu [3]) at Oddr átti þarmed gradúng þann er kom úr Búdardal, ok fyri því hugdu þeir at þat mundi Búdardalsnaut, en þat voru þó heima-naut af Stadarhóli. Þeir ráku nautin [4]) fyrir sèr ok stefndu til Tialdaness. En þegar Einar reid til þíngs, setti hann eptir Már Gilson ok Vilmund. Sturla reid ok til þíngs. Vilmundr ok þeir fèlagar voru geingnir til borda, en Már fastadi um daginn. Már kom í stofuna ok sagdi, þá væri önnur sysla en matast alleingi, kvad naut Einars burtrekin [af Búddælum [5]). Þeir Vilmundr hlupu þegar til vopna ok fóru eptir þeim ok nokkrir menn af næstum bæum ok siá för þeirra hvorutveggiu, þeir fundust upp hiá hleypilæk, voru [Búddælir 16 [6]), Vilmundr ok þeir honum fylgdu 14. En er þeir fundust, slæst þar þegar í bardaga, ok snemma dagsins hió Ivar prestr um þverar herdar Einar Helgason, ok var þat mikit sár, en Oddr hió Ivar prest banahögg. Oddr Jósepsson vó Leif heimamann [7]) Einars Þórgilssonar, sídan hió Oddr til Asbiarnar Finnssonar [ok klauf nidr í öxlina [8]), svo inn sá í búkinn [9]), þá hió hann til Þorsteins Olafssonar ok klauf andlitid ok fèll hann þar. Asbiörn Finnsson lagdi spióti til Gríms ok fèll hann ei, ok gèkk uppá lagit, svo oddrinn nam stadar í hryggnum, en hann snaradist vid ok hlióp spiótit út milli rifianna, hann hió med handöxi á hönd Asbiarnar ok vard þat mikit sár. Þá fèll Grímr ok Audun Tostasynir [10]),

1) sudr bætir *EV.* innf.
2) ofaní Melárdal. *EV.*
3) kèndu þeir Oddr *o. s. fr. A.* þ.
4) beint yfir ána, bætir *EV.* vid.
5) ok Búddælir mundu komnir. *EV.*
6) þeir Oddr 15 eda 16. *EV.*
7) húskarl. *EV.*
8) á öxlina ok klauf nidr í síduna. *EV.*
9) holit. *EV.*
10) Jósteinssynir. *EV.*

Steinólfr af Kvenngrióti, Einar Sighvatsson [1]) af Biarnastödum [2]). Biarni Finnsson fèkk ok mikit sár á sídu. Sigmundr Ingimundarson fèkk ok sár. Vilmundr Snorrason vard ok naudliga staddr, hörfadi fram at ánni ok stakk svo spiótskaptinu bak sèr yfir ána ok komst svo á hlaupi undan. En er sleit bardaganum, urdu Búddælir varir vid at Einar Helgason var sár ordinn ok vildu þá sumir fara eptir þeim ok drepa þá, en hit var rádit tekit, at þeir fóru yfir at Hvoli til Helga prests ok sögdu honum tídindin [3]), hann fór móti þeim ok batt um sár Einars ok flutti hann heim til Hvols, en þat er mitt rád, sagdi prestr, at kvikfè fari aptr á Stadarhól, þvíat miklu er nú um meir at tala, fyrst svo hefir mistekist til nautanna, ok þat vildi Oddr, voru þá nautin rekin á Stadarhól. Sídan fóru þeir Oddr til Búdardals ok sendu þegar mann til þíngs, ok var þá hestr búinn ok reid Olafr Þorgeirsson þeim í Lækiarskóg, þá var tekinn annar ok reid hann þeim á Glisstadi [4]), þar tók hann enn þridia, honum reid hann til [5]) búdar Sturlu, ok sagdi honum tídindin. Þá heimti Sturla at sèr vini sína sagdi hvat at hefdi ordit, litlu sídar kom Sigmundr [ok var sendr frá Stadarhóli ok sagdi [6]) Einari Þórgilssyni tídindin.

24. Sídan giördist óþykt mikil milli manna í lidsdrætti [7]). Klángr biskup var med Einari frænda sínum, Gissur Hallsson, Þorleifr Beiskaldi, Snorri Kálfsson ok margir adrir [8]). En Brandr biskup veitti Sturlu frænda sínum. Sæmundr fadir biskups var fodurbródir Vígdísar módur Sturlu. Bödvar Þórdarson veitti Sturlu mági sínum, Þorvardr Þorgeirsson ok margir adrir. En sumir leitudu um sættir ok vard ekki af því, ok fóru málin í dóm ok giördu hvorir adra seka, en er leid at þínglausnum, þótti mönn-

[1]) Sigurdarson. *EV.*

[2]) þeir höfdu hlaupit til úr torfskurdi, bæt. *EV.* vid.

[3]) þvíat Einar fysti þess ok kvádu mikit at ordit, ok var hann borinn af fúndinum. Hallr hinn raudi fór til Hvols ok segir presti tídindin, bætir *EV.* inní.

[4]) Glitstadi. *C. EV. St.* Gilsstadi. *B.*

[5]) þíngs til, bætir *EV.* inní.

[6]) er Herdís hafdi sendt frá Stadarhóli at segia. *EV.*

[7]) ok lidsdráttr. *EV.*

[8]) veittu Einari, bætir *EV.* vid.

um ófridligt, ef svo búit stædi ok málin færi heim til hèrads, ok áttu menn þá hlut at ok vard þá sæzt á málin ok skyldi Klángr biskup giöra ok Bödvar Þórdarson [1]), ok þótti Sturlu skakkar giördir verda ok óhægar, voru þá framfærdar síknur manna. Sturla reid fyrr af þíngi en Einar, ok er hann kom heim, var Einar Helgason þar kominn ok Helgi prestr med honum. Litlu sídar kom Oddr Jósepsson at hitta Sturlu, en Sturla [kvad ei mundu annat vænna en giöra [2]) fèlagsbú; Oddr kvadst þess búinn, ok var þat rádit, at Oddr skyldi eiga í búi í Hvammi. Sídan settist Sturla fyrir mál þeirra öll. Einar Helgason ok Oddr ok adrir Búddælir voru í Hvammi þau misseri, ok voru þar 18 menn sekir um veturinn. Einar Þórgilsson hafdi ok margt setumanna um veturinn, þar var Hallr Gilsson frændi hans. Asbiörn Hallidason, Arni Bersason, Þórgils Sigurdarson [3]), Hallr Þorgrímsson [4]) ok fleiri adrir þeir voru allir fylgdarmenn Einars Þórgilssonar, ok þóttust öruggir fyri iafnmörgum, ok ei þótti þeim sitt úvænna, þótt þeir hittu hálfu fleiri Búddæla. Margr fór ordasveimr, en ekki vard af fundum. Sturla lèt ok eingi giöld um sumarit, því hætt var kallat milli þeirra, hann hafdi látit giöra virki um húsin í Hvammi. Einar Helgason fór optliga til lauga um veturinn vid fimta mann eda siötta. Einar Þórgilsson hèlt niósn um ferdir hans, hann frètti þá at Einar Helgason ætladi annan dag til laugar, hann fór þá vestan vid 30 manna. Þann sama dag bióst Einar Helgason til laugar vid fimta mann. Sturla latti hann, ok þyki mèr illar leypifarir slíkar. Einar kvedst fara vilia iafnt sem ádr. Sídan bióst Sturla til ferdar ok voru þeir á þridia tugi alvopnadir. Gils Styrmisson bió þá at Laugum, en er hann vard var vid at Einar Þórgilsson sat vid laugina fiölmennr, leysti hann út naut sín ok rak ofan í Hóla, þvíat hann vissi at Hvammsmenn ætludu til laugar. Hann kallar, at þeir Sturla skuli aptr rída, en annat skeid æpti hann á nautin til ólíkinda. Þeir Sturla fóru um fiall

[1]) ok var þá þegar upplokit, bætir *EV.* inní.

[2]) kvadst ei nenna annat en þeir giördu. *EV.*

[3]) Sighvatsson *EV.*

[4]) Þórdarson. *EV.* bætir inní: Þorgrímr Kolbeinsson.

ok komu til laugarinnar ok voru þeir Einar Þórgilsson þar fyrir ok rèdu hvorugir á adra, ok nú fór Einar Þórgilsson heim, en Sturla litlu sídar. Sturla lèzt ætla at Einar Helgason mundi ei þykiast offiölmennr verit hafa, ef hann hefdi farit vid fimta mann sem hann ætladi. Hann svaradi: opt ertu mágr vitrari en ek. Sídan voru þeir varari um laugarfarir en ádr, þadan af kölludu Hvammsmenn Búddælavetur.

25. Um sumarit ridu hvorutveggiu til þíngs, þá sótti Einar Þórgilsson [Haldór um sættir [1]), ok áttu þá enn vinir þeirra hlut í at sætta þá, ok var þá enn málum þeirra komit til sátta [2]), ok gengu þeir til handsala fyrir Sturlu Snorri bródir hans ok Ingialdr son Gufuhalls, hann átti Þurídi dóttur Sturlu ok bió þá á Skarfstödum. Þá var giört fè á hendr Sturlu fyrir sættarhald, en allar enar fyrri giördir stódu, þá voru færdar fram syknur hvorutveggiu. Þat sumar var Þorvardr Þorgeirsson á þíngi, hann hafdi [þat á máli [3]), at Einar systurson hans var hafdr at forhleypismanni ok at áeggiunarfífli vestr þar, ok lèt sèr þá ekki annat líka en hann færi nordr med sèr af þínginu, ok svo var, sídan fór hann utan ok var med Magnúsi kóngi Erlíngssyni um veturinn, ok þótti kurteys madr, hann fèll á Iluvöllum. En er Sturla kom heim af þíngi, líkudu honum ei giördir betr en hit fyrra sumarit, hann lèt ok Ingiald mág sinn eingi giöld gialda, ok baud honum til sín, ok kvad þat varligra þykia. Ingialdr kvadst sitia vilia í búi sínu. Snorri Þórdarson galdt ok ekki fè, því honum þótti sem ekki mundi af sættum verda, þott hann gyldi sumt, en sumt væri ógoldit. Hann seldi af höndum búit [4]) undir Fialli ok tók vid Oddr [Króksson [5]), en Snorri fór til Ballarár til Alfs Snorrasonar ok var þar um sumarit. Þá var íllt þerrisumar ok spiltist hey manna, ok drottinsdag at veturnóttum kom Ingialdr til tída í Hvamm, þá mælti Sturla vid hann, ek vilda kaupa at þèr gèldínga til sláturs, því mèr þykir ei úlíkt [6]) at þú farir med

[1]) Sturlu um sáttarhaldit. *EV.*
[2]) lykta. *EV.*
[3]) þá mál fram. *C, St.*
[4]) bú sitt. *EV.*
[5]) sonr Þórarins Króksfirdíngs. *EV.*
[6]) varligt. *EV.*

marga gèldínga, hefir ek þat spurt, at þeir Saurbæíngar heitast iafnan vid þik ok fè þitt. Ingialdr gèkk undan ok þagdi. Ok þrem dögum sídar kom Olafr Þorgeirsson í Hvamm, hann var heimamadr á Biarnastödum. Sturla leiddi hann á götu ok spurdi hvört hann skyldi fara; hann kvedst eiga erindi uppá Skógaströnd [1]), hann hafdi verit heimamadr Sturlu, ok þá var í Hvammi Asbiörn prestr bródir hans ok Kolfinna Gísladóttir [2]) módir hans ok Sesselia systir hans, hún fylgdi þá Sveini Sturlusyni, þá var fátt karla í Hvammi. Oddr Jósepsson var farinn nordr til hèrads at smídiskaupum [3]). Sveinn ok Oddr prestr voru farnir yfir í Dali. Sturla mælti um kveldit er hann kom heim, ekki þótti mèr Olafr fóstri vor í dag alhugligr, ok ei veit ek hvat verit mun hafa undir förum hans. Um kveldit kom Oddr prestr ok Sveinn heim ok margt búmanna. Ok um kveldit eptir náttverd mælti Sturla vid Gudnyu húsfreyu at slá skyldi hríngleik [4]) ok fara til alþyda heimamanna ok gèstir. Sturla mælti at siá skyldi út at ödru hvoriu, ok bad menn hlydast um, því kyrt var um vedur ok var vakat til midrar nætur eda meir, ok vard ei vart vid manna ferdir. Olafr Þorgeirsson kom vestr á Stadarhól ok sagdi Einari öll tíddindi úr Hvammi, ok svo þat at þar væri fátt karlmanna heima. Einar kvad hann vel segia, ok annan aptan eptir bióst Einar til ferdar, þeir voru 14 eda 15. Þar var Hallr Gilsson, Asbiörn Haflidason, Arni Bersason, Olafr Klökkuson ok Hallr Þórdarson, item þeir Þórgilssynir, Þorsteinn Narfason [5]), Þórólfr Starason ok fleiri adrir. Þeir Einar Þórgilsson fóru vestan um nóttina ok sudr af brúninni fyrir austan gilsbotn þann er austr er frá reidgötunni, en skafl var ok nyfenni í brúninni ok brutu þeir þar slód ígègnum ok fóru ofan eptir Sælíngsdal ok út fyri Hvamm ok allt á Skarfstadi, ok fóru sumir til húsa heim ok leystu úr fiósi 14 naut. Sumir fóru ofan til saudahúsa [6]) ok söfnudu saman öllu saudfè því er þeir fundu, þar var Einar siálfr í för, hann reid í

[1]) Kúgaldastadi. *EV.*

[2]) Gilsdóttir. *EV.*

[3]) at kaupa saudi. *C. Sr*

[4]) vera — hríngleikr. *EV.*

[5]) Tiörfason. *EV.*

[6]) ofan í nes, bætir *EV.* vid.

gryfiu eina ok fèll hestrinn undir honum, ok vard honum [af því nøkkut mein [1]), þeir ráku allt þat er þeir fundu ok fóru utan um nóttina ok komu, er lysti, í Sælíngsdal.

26. Nú er þat tídinda á Skarfstödum, at kona stód upp í dögun ok gèkk til bænahúss. Hún gèkk til fióss, því hún heyrdi naut beliadi, hún sá at nautin voru í burtu, nema ein kvíga var eptir, hún gêkk inn ok sagdi Ingialdi, sídan fóru menn í klædi sín, tóku sèr hross ok ridu til Hvamms. Þar voru med Ingialdi Þorsteinn Gunnarsson ok Þórdr Bödvarsson, þeir komu á för nautanna ok mikla manna slód. Sturla hafdi risit upp þegar lysti ok gèkk til tödugards. Þar voru fyrir húskarlar ok rufu heydes [2]) er drepit hafdi um haustit, vindr var á nordan ok friósandi, þeir sáu at 3 menn hleyptu handan frá á [3]) miök mikit, sem fara máttu. Ok er þeir komu á túnvöllinn kèndu þeir at þat var Ingialdr. Þá mælti Sturla, svo lízt mèr á Ingiald mág minn, sem hann mundi í dag vilia selia mèr gèldíngana. Ingialdr kom í Hvamm ok sagdi Sturlu ránit. Sturla svarar eingu, gèkk inn þegiandi [ok þeinkiandi [4]) til rúms síns, tók ofan skiöld sinn ok öxi. Gudny húsfreya var vöknut, ok spurdi hvat tídinda væri? hann svaradi: ekki [5]) annat en Einar Þórgilsson hefir ræntan Ingiald öllu gángandi fè, ok hlióp þegar fram á gólfit, ok þar næst út. Gudny stód upp skiótt ok gèkk utar á gólfit ok mælti: standi menn upp skiótt, Sturla er burtgeinginn med vopn sín, en Ingialdr ræntr. Menn biuggust þá skiótt, ok klæddu sik ok biuggust þó miök af hrapladi [6]). Einar [7]) Biarnason tók skiöld af þili, ok enn fleiri menn; þeir höfdu [nokkur [8]) spiót, ok fór þá hvör sem búinn var [9]); þeir tóku ok [nokkur hross, sem þeir fundu [10]); ok er þeir komu til Krosshóla voru þeir 19 saman, þá siá þeir

[1]) meint vid. *EV.*

[2]) hey. *C. St. EV.*

[3]) akri. *EV.*

[4]) sleppir *EV.*

[5]) eigi enn nú. *EV.*

[6]) hraplanda. *C. St.*

[7]) Arni. *EV.*

[8]) tvö ein. *EV.*

[9]) úr gardi med hlídinni, bætir *EV.* inní.

[10]) tvö hross saman. *EV.*

hvar þeir Einar fóru upp um Ránarvöllu. Þá mælti Sturla: þat vil ek at þèr berit svo spiótsköpt [1]) at ei leggi iökul á, en bad þá duga sem best, sagdi þess von, at nú mundi annathvört mikil sæmd, edr skiótr bani gódum dreingium [2]), ok sækium [3]) nú leidina sem ákafast. Þeir Einar siá nú eptirreidina, þá mælti Hallr Gilsson: þat synist mèr rád frændi, at láta eptir úngfèd, en reka undan [þat sem skiótfara er [4]), þvíat mèr segir svo hugr um sem vid lidsmun muni vera at eiga ef vèr finnumst hèr fyrir sunnan heidina. Þá mælti Arni Bersason ok þeir sem ákafastir voru, ekki siáum vèr þá fleiri en vær erum, heldr nokkut færri, ok víst ei viljum vèr renna fyrir iafnmörgum. Þá mælti Olafr Klökkuson, ek em madr skygn, ok synist mèr sem flestir tvímenni þeir ed eptir rída. Einar mælti: hafa skal hvört lamb, medan gánga [5]) má. Þeim vard nú sein förin yfir ána, þvíat fèd var heimfúst. Þá er þeir Einar koma upp yfir Snorravad, þá fóru þeir Sturla um Ránarvöllu; þeim Einari vard seint upp um brekkurnar, þvíat þar var sniór í driftum [6]). Þá mælti Einar til Arngríms Audunarsonar: þú skalt fara vestr um heidi, ok safna lidi, ok svo giördi hann. Þeir Einar fóru allt uppá heidarbrúnina ok fyrir reidgötuna, ok er þeir voru komnir á upp, þá hlupu þeir af hestum sínum, ok tóku sèr stödu á framanverdri brúninni. Ok þá voru þeir Sturla komnir at hinni efstu brúninni, ok hlupu af hestum sínum, ok hlióp Sveinn Sturluson ok Þorsteinn Gunnarsson, ok vard Sveinn fyrstr upp, ok snèru til þeirrar slódar, sem þeir Einar höfdu farit um nóttina vestr, ok aungvir voru menn fyrir. Arni Bersason skaut af boga nokkrum örvum, ok kom á aungvan mann. En er þeir Einar siá hvar þeir stefndu, þá runnu þeir á móti þeim fyrir gilbotninn, en Sturla snèri þar upp, er þeir Einar höfdu ádr upp farit, ok er þeir komu upp á brúnina, þá snúa þeir Einar aptr móti þeim. Þá mælti Sturla, vilji þèr laust láta fèd. Einar svaradi: aldrei, á medan vèr meigum áhalda, ok sídan

[1]) exarsköpt. *EV.*
[2]) ok studdu flestir hans mál, bætir *EV.* vid.
[3]) sóttu. *EV.*
[4]) hit hradfarara. *EV.*
[5]) halda. *EV.*
[6]) dreifium *EV.*

lupust þeir at, ok gèkk Ingialdr fast fram med reidda öxina, en Olafr Klökkuson hió til hans á öxlina vinstri, ok hlióp þegar á hol, ok var þat banvænt sár. Asbiörn Haflidason hió til Sturlu ofaní skiöldinn ok klauf nidr at mundrida, þá fèkk hann ok lög tvö, ok kom hvörttveggia í skiöldinn, ok í því bili var höggvin hönd af Bersa Liótssyni, ok þessu nærst fèkk sár Þorgrímr Kolbeinsson. Sveinn Sturluson ok Þorsteinn Gunnarsson særdu hann, ok var hann höggvinn á tvöfalda höndina, ok sundr handleggrinn fyrir ofan ok framan olboga, hann hafdi ok herdasár mikit. Sídan lagdi madr til Ol[illegible] Klökkusonar, ok kom á hann midian, tvö hafdi hann lög, ok mörg önnur stór sár, ok gèkk hann frá bardaganum, ok upp í hallinn ok settist nidr þar. Þá fèkk Snorri Hallsson sár á hendi; þeir Arni Bersason ok Arni Biarnason reiddu vopnin. Þá mælti Arni Biarnason, eigumst vid ei vid, þvíat vid höfum mælt til vináttu, þá lèt Arni Biarnason síga nidr skiöldinn frá andliti sèr, en er Arni Bersason sá þat, reiddi hann upp öxina tveim höndum ok hió til hans, en hann brást undan, ok hió hann nidr öxinni ok steyptist eptir. Þá hiuggu þeir Arni ok Þórdr [1]) bádir til hans, ok kom [2]) annat um þverar herdarnar, ok nidr í gègnum bióstit, ok lèt Arni þar líf sitt, ok í því bili vard Asbirni laus öxin er hann hafdi nidrhöggvit ok rendi frá honum, en er hann vildi taka, þá fèll hann [3]) flatr, því hallendt var, þá hió Sveinn Sturluson til hans, ok kom á hann midian ok brast vid hátt. Asbiörn var girdr saxi, ok kom höggit ofan í hialtit, en oddr saxins nam [stadar í iördunni [4]); hann stód þegar upp, ok var enn ekki sár ordinn. Þá fèkk Einar lag af spióti í sídu ok rann honum mikit blód. Þorsteinn Tiörfason krækti mann Sturlu at sèr med öxi sinni [ok söxudu þeir hann undir fætr sèr ofan í gilit undir hólfinni [5]). Nokkrir fleiri menn urdu sarir af hvorutveggiu flokki en hèr eru nefndir. Þá mælti Einar vid Svein Sturluson: þat vildum vær at þú gæfir oss grid, þvíat þú átt iafnan

[1]) Oddr prestr. *EV.*

[2]) annat í höfudit en, bæt. *EV.* inní.

[3]) hörfadi hann ok fèll. *EV.*

[4]) mundridann. *EV.*

[5]) ok svo undir fætr sèr ok fèkk hann komit sèr ofan í gilit undir holfinni. *EV.*

þann hlut í med oss, er þá er betr en ádr. Sveinn mælti: fadir minn rædr gridum. Þá settist Einar nidr ok mæddi hann blódrás. Þá mælti Hallr Gilsson til Sturlu: grid þættumst vær nú þurfa [1]. Sturla svaradi: leggit þá nidr vopnin, þat giördu þeir [2], þá voru þeim grid gèfin, ok mælti eingi í mót at fèd færi aptr. Þessir menn eru nefndir med Sturlu á heidinni: Sveinn sonr hans, Ingialdr mágr hans ok húskarlar hans tveir, Snorri bródir [Ingimundar prests, Oddr [3]) ok Þorgeir Bersasynir [4]), Þórdr Indridason [5]), Oddr [6]) Sveinsson, Brúsi [7]) Liótsson ok Ingimundr bródir hans, Arni Biarnason, Atli Gilsson [8]). Ingialdr mágr Sturlu var þegar örendr, ok Hallr Gilsson ok Arni Bersason af lidi Einars, en Olafr Klökkuson ok Þorgrímr Kolbeinsson feingu þiónustu ok öndudust bádir. Þorsteinn Tiörfason lá allan veturinn í sárum ok vard græddr at kalla, græddir urdu ok allir menn adrir, en Snorri Hallsson ok Brúsi [9]) urdu ei örkumlalausir, þvíat Brúsi lèt hönd sína en Snorri nytti ekki [sína hönd [10]).

27. Þá er Sturla fór heim af fundinum, hafdi hann med sèr lík Ingialds ok fè þat allt er rænt hafdi verit. Þeir Einar fluttust ok heim ok komu menn móti honum í Hvammsdal. Eptir fund þenna sátu menn í búum sínum um veturinn, ok var þat mál flestra manna, at á þeim fundi skipti um mannvirdíngar med þeim Sturlu ok Einari. Um vorit eptir voru mál búin til alþíngis ok ridu þángat hvorutveggiu ok hèldu málum fram, ok var enn sem fyrr at vinir hvorutveggiu geingu í milli, ok var málum snúit til sátta, ok skyldi Jón Loptsson giöra um ok Gissur Hallsson, ok var þeim giördum svo farit, sem líkligast [mundi sættirnar verda [11]),

1) vildum — hafa. *EV.*

2) þá mælti Sturla: grid skulu þèr nú fá, bætir *EV.* inní.

3) hans, Oddr prestr *o. s. fr. EV.*

4) Bersason.

5) Asbiörn Hiörtsson, bætir *EV.* inní.

6) þóroddr. *EV.*

7) Bersi *EV.*

8) Gissurarson. *C. EV. St.*

9) Bersi Liótsson. *EV.*

10) af hendi. *EV.*

11) sem líkast þótti at helst mundu haldast sættirnar *EV.* bætir vid: en ekki um stafnaburd, sem fyrr voru giörvar.

ok skildust menn þá sáttir á því þíngi á öll þau mál er þeirra á millum verit höfdu, ok fóru vid þat heim ok voru nú sáttir.

28. Tanni hèt madr, hann bió í Galtardalstúngu, hann átti Gunnhildi Brúsadóttur [1]) systur Þórdar. Þórdís hèt önnur Brúsa [2]) dóttir, [hún fylgdi at lagi þeim manni [3]), er Þorgeir hèt, hann var kèndr vid módur sína ok kalladr Arnóruson, Bödvar hèt fadir hans. Þórdís var úskapvær [4]), hún fór eitt sinn á laun [5]) í Túngu til systur sinnar, en er Þorgeiri þótti hún sein heim, fór hann eptir henni, en hún var treg heimferdar, þá lagdi Tanni bóndi þau ord til, at hann vildi at hún færi ei naudug úr hans hybylum. Þorgeir segir at hann mundi því ei ráda ok greindi þá á, þartil Þorgeir hió til Tanna ok vard þat banasár. Eptir þetta fór Þorgeir á fund Sturlu ok bad hann ásiár. Sturla kvad íllt verk vera, en lèzt þó ei kunna at reka þíngmenn sína frá sèr, en Tanni hafdi verit þíngmadr Þorleifs Beiskalda ok hans frændi. Þorleifr tók vid máli eptir Tanna ok sótti Þorgeir til fullrar sektar á alþíngi [6]), en Sturla kom honum utan um sumarit nordr í Eyafirdi. Ofeigr hèt madr Valgèrdarson [7]), en Bergr hèt fadir hans, hann var vin Sturlu ok heimamadr, hann fór nordr med Þorgeiri ok svo utan, annat sumar eptir kom Ofeigr út ok aptr til Sturlu ok var þar um veturinn. Þorleifr vard þessa vís ok kvad mikla ósæmd í slíku synast af Sturlu, er hann vildi sitia fyrir sæmd höfdíngia. Þorleifr giörir um vorit lidssafnad ok fór í Dali ok gisti í Asgardi at Biarnar Steinssonar, þar kom Einar Þórgilsson til lids vid hann, ok höfdu þá þriú hundrud manna, ok fóru stefnuför í Hvamm. En er Sturla spurdi lidsdrátt þeirra, safnar hann at sèr lidi, en hafdi þó miklu minna fiölmenni. Sídan stefnir Þorleifr Ofeigi fyrir þat at hann hafdi verit í för med Þorgeiri. Sturla kvad Þorleif iafnan hafa stórrædi fyrir hendi, þótt

1) Bersadóttur. *EV.*

2) Bersa. *EV.*

3) henni — sá madr. *EV.*

4) úskapvætt. *EV.* úskapfær. *C. St.*

5) á kynnisleid. *EV.*

6) ok syndist Sturlu ei at veria þat mál, ok vard Þorgeir sekr skógarmadr, bætir *EV.* vid.

7) Salgèrdarson. *EV.*

ekki mætti vid þat iafnast er hann brendi inni Magnús biskup í Hítardal, en varst siálfr dreginn grátandi úr eldinum. Þorleifr svaradi: aungvum munu þau tídindi verri þykia en mèr, en þó erum vèr þadan komnir. Þat er óvist at sá hafi betr, er einskis þykir vert um þau tídindi, en ógiörla manstu þat, at þú mundir drepinn hiá gardi þínum, sem melrakki hiá greni, ef ek stæda ekki mót, en þat vilda ek [1]) at færri geingi höfudlausir fyrir mik á dómsdegi en fyrir þik, er þú hlær [2]) nú at glæpum þínum. Sídan reid Þorleifr burt í Asgard um kveldit ok gisti þar adra nótt med flokkinn allan, en at morgni skildust þeir Einar þar ok fóru hvorutveggiu heimleidis, ok litlu sídar reid Sturla í Asgard vid siötta [3]) mann ok var Biörn bóndi [4]) í smidiu. Sturla kvaddi hann út ok mælti: þat ætla èk, sagdi hann, at vid munum verda at skilia nábúdina, ok kvedst ei vilia at óvinir hans ætti optar heimilan gistíngarstad í Asgardi, er þeir færi slíkar óspektar ferdir ok kvad annanhvorn ryma [5]) mundu verda bústadinn. Sídan reid Sturla heim, en Biörn seldi landit Erlendi presti Hallssyni [6]). Sídan reid Þorleifr Beiskaldi til þíngs, ok hafdi fram málit um sumarit, ok geingu menn á medal [7]), ok tók sinn mann hvorr til giördar, Sturla tók Bödvar Þórdarson, en Þorleifr Einar Þórgilsson [8]). Þá mælti Bödvar: þat þyki mèr rád at vèr hlutumst um hvorr giöra skal, ok því iátti Einar. Sídan hlutudu þeir ok hlaut Bödvar at giöra Hann giördi litil fègiöld á hendr Sturlu. Nokkru sídar fór sótt mikil um hèröd. Þess er gètit, at einhvörn aptan kom í Hvamm sá madr er kominn var utan af Snæfellsnesi, en ádr úr Borgarfirdi, hann var sumrúngr. Sturla settist á tal vid hann ok spurdi margs, hann spurdi fyrst um ferdir hans, en hinn sagdi, þá mælti Sturla, er sótt mikil sudr um hèrad? hann mælti, svo var er ek fór þadan; komstu í Hítardal, sagdi Sturla; já, sagdi

1) vitumst ok. *EV.*

2) leikr. *EV.*

3) níunda. *EV.*

4) heima vid annan mann, bætir *EV.* inní.

5) færa. *EV.*

6) Hallasyni. *EV.*

7) ok sættu þá, bætir *EV.* inní.

8) ok urdu þeir á ekki sáttir um giördina, bætir *EV.* vid.

ferdamadr, hvörsu mátti Þorleifr? vel mátti hann, ok því var kátt [1]), sagdi förumadr; já, sagdi Sturla, svo má vera, því allar kvalir munu honum ætladar [2]) til annars heims. Nú skildu þeir talit, ok fór hann um morguninn allt um haustit vestr í Fiördu, ok vestan nær vetri ok kom [3]) í Hítardal. Þorleifr bóndi var spurull vid hann ok frètti margs, komstu vestan úr Fiördum? ferdamadrinn segir svo vera, hvörsu er þar vært, segir Þorleifr? hinn svarar, vel ok gott er þar [4]), utan sótt giörist þar mikil. Þorleifr spurdi, komstu í Hvamm? já, sagdi hann, hvörsu mátti Sturla bóndi? vel mátti hann, er ek fór vestr, en nú lá hann er ek fór vestan, sagdi ferdamadrinn, ok var miök tekinn; svo mun vera, sagdi Þorleifr, hann mun nú hafa íllt, en hálfu verra sídar.

29. Madr hèt Biarni, hann var Gèllisson, hann átti Helgu Þorsteinsdóttur, þeirra son hèt Þorsteinn Drettíngr. Þórhallr Svartsson hèt bóndi, hann bió at Hólmlátri á Skógarströnd, hann átti Æsu Þorsteinsdóttur [5]). Hann var audmadr mikill, sterkr ok ódæll [6]), hann var þíngmadr Þorleifs ok giafvin. Þau áttu 3 dætur, Þórdísi, Þórnyu ok Helgu. Þórnyar fèkk Þorsteinn Drettíngr, hann hafdi þá gódan fiárhlut, ok rædst hann til Hólmláturs med fè sitt, þat kom þá upp at Þórny væri ólètt gèfin, ok átti sá madr barnit er Þórdr hèt ok var all-skillítill. Þorsteinn Drettíngr átti ok barn í vonum, ok var því leynt. Gudrún Asbiarnardóttir sagdi at Þorsteinn væri fadir at barni sínu, því er þá var nokkurra vetra gamalt, en er þat kom upp allt saman, þá lèt Þórhallr kènna manna-munar [7]) ok dró fè Þorsteins allt undir sik, en hèldt honum til verknadar, en ef hann lagdi ord til, þá var hann hraktr í ordum eda bardr. Ekki var Þorsteinn vinsæll madr. Þorvardr hèt madr er bió í Grasey gildr bóndi. Þat var eitt sinn nærri vetrnóttum, at Sveinn Sturluson fór út þángat ok keypti miöl at honum til handa Sturlu, en er miölin komu heim reyndust þau verr en

1) því var betr af hann mátti vel. *EV.*

2) spardar. *EV.*

3) þegar lítit var at vetri, bætir *EV.* inní.

4) ferdamadr sagdi þar vera gótt ár. *EV.*

5) Þorbergsdóttur. *EV.*

6) ok mikilmenni, bæt. *EV.* inní.

7) mannraunar. *EV.*

ætlat var, nú líkar Sturlu illa ok þykir Þorvardr hafa falsat sik. Sturla fór [stundu sídar [1]) at hitta Þorvard, ok sagdi honum svo; tveir eru kostir til af minni hendi, sá annar, at ek mun stefna þèr, eda þú takir vid syni mínum er Haldór heitir. Þorvardr kvadst þat heldr kiósa mundu en at sitia fyrir ágángi [2]) þeirra fedga, ok fór Haldór þángat. Þorvardr var aldavin Þórhalls at Hólmlátri, ok er hann spurdi þetta, fór hann þángat ok færdi sveininn á burt ok á módur-frændr [3]), þar sem ádr hafdi verit, ok kvadst ei vilia slíkan ágáng. Þorvardr kvad hann syna vináttu vid sik, en mèr þykir þó betra at syna lítilmensku hèr um, en koma mönnum í vandrædi ok siálfum mèr. Þórhallr kvad svo búit vera skyldu. En er Sveinn spurdi þetta, þá mælti hann, vera kann at Þórhallr vilji sitia yfir vorum hlut, en kostgæfr mun ek vera at leggia honum slikt í mót. Sturla kvad þat audsèd, at þessir menn vildu eiga illt vid þá, en Gudny bad þá láta hægt [4]), þvíat vel var med þeim Þórhalli. Sídan var þat afrádit at senda mann til Hólmláturs at fala þriár vættir matar at honum ok voru borin til ord Gudnyar. En Þórhallr kvadst eingan mat mundu selia [5]) Hvammverium [6]), ok reid svo sendimadrinn heim í Hvamm, ok sagdi Sturlu ord hans. Sturla bad Gudnyu enn reyna vini sína. Litlu sídar hittust þeir Sveinn Sturluson ok Þorsteinn Drettíngr [7]), ok sátu á tali um stund, ok var þat hial med þeim at Sveinn skyldi ráda at Þórhalli ok taka hann af dögum, en Þorsteinn skyldi gèfa til 60 hundrud ok skyldu þau kaup á laun fara, ok um vorit eptir páska fór Sveinn út á Hólmlátur med 10 mönnum ok fóru á skipi ok lendtu út hiá stekkium Þórhalls. Sídan mælti Sveinn vid menn sína, vita skulu þèr nú erindi mitt, at vèr munum stefna Þórhalli, sídan gánga þeir til húss. Hafþór [8]) Nadsson var húskarl Þórhalls [9]), en þeir Sveinn ætludu at taka hann út, ok láta

1) sudr skömmu eptir. *EV.*

2) úvingan. *EV.*

3) at Horni frændum módurinnar. *EV.*

4) láta vera kyrrt. *EV.*

5) falan láta. *EV.*

6) Æsa fysti at selia, en Þórhallr vildi ei selia, ok rèdi hann. bæt. *EV.* vid.

7) vid Hvammsfiörd, bætir *EV.* vid.

8) Haldór. *C. St.*

9) ok vinr Sveins, bæt. *EV.* vid.

hann heyra stefnuna; þeir gánga fyrst til dyra Þóróddr ok Þórdr Brúsason [1]), þeir drápu á dyr, en Þórhallr gèkk siálfr til dyra, ok lauk upp, ok stód í dyrum inni, þá geingu þeir Sveinn at dyrum, ok nefndi hann sèr votta, ok stefndi Þórhalli um þat at hann hafdi leynt fiórdúngi fiár síns, ok giört ei tíund af. Stefndi hann honum annari stefnu um þat at hann hefdi tvo pundara, ok hefdi á hinn meira keypt, en á hinn minna selt, ok væri hvorutveggi rángr, ok lèt varda fiörbaugsgard. Hann stefndi enn um þat at hann hefdi alin ránga [2]), ok lèt vera 6 merkur jafnan [3]). Þá mælti Þórhallr til Sveins: kaupa muntu vilia fè mitt, svo sem þú hefir virdt til tíundar. Sveinn svarar, ok kvad hann ei mundu selia vilia fyrir þriú hundrud hundrada á frest, [er hann vildi ei selia 3 vættir matar [4]) Sídan fór Sveinn á burt, en Þórhallr fór á fund Þorleifs Beiskalda, ok sótti hann at rádum. Þorleifr mælti: tveir eru kostir, annar er at selia land sitt, ok rádast burt vestan þadan, edr ok sættast vid Hvammverja, ok selia þeim siálfdæmi. Þórhallr mælti, viltu þá fá mèr land sudr hèr. Þorleifr lèzt ætla at hann mundi þat ei fullgiöra, ok eggiadi at hann rèdist leingra burt. Þórhallr fór heim ok litlu sídar inní Hvamm, ok seldi Sturlu siálfdæmi, ok kvedst þetta mál ei til þrætu leggia. Sturla kvadst ætla at honum mundi þat betr gègna. Sídan frètti Sturla Svein at hvat giöra skyldi. Sveinn kvadst vilia, at ei væri minna giört en hundrad hundrada [5]), ok kvad hann þess makligan. Nei, sagdi Sturla: 10 hundrud skal giöra, ok hefir hann þó málit undir mik lagt, ok þessa giörd sagdi Sturla upp, en Þórhallr lèt sèr vel líka, ok svo kona hans, ok galdt þegar fè, land í Lángeyarnesi, ok þriú hundrud í slátrum. Madr hèt Þorsteinn ok var Þorleifsson [6]), hann hafdi verit heimamadr Sturlu, hann var þá á vist med Þórhalli, ok fór med þeim heldr illa.

1) Bersason. *EV.*

2) álnir rángar. *EV.*

3) ok lèt varda fiörbaugsgard, ok iafnan 6 merkr. *EV.* bæt. vid: því næst stefndi hann Þorleifi Þormódarsyni 4 stefnum, sinni um hvörn fiórdúng tíundar ok lèt varda iafnan 6 merkr.

4) ef hann vildi ei eiga at honum verd þriggia vætta matar. *EV.*

5) 60 hundrud. *EV.*

6) Þórisson. *EV.*

Stefndi Þórhallr honum fyrir hrossreid; sídan fór hann á fund Sturlu, ok bad hann ásiár. En Þórhallr sótti hann á Þíngi til fullrar sektar [1]). Sídan sendi Sturla hann nordr um land, ok biargadi honum svo [2]). Nú líkadi hvorutveggium heldr verr en ádr. Sturla þótti Þórhallr þat einskis virda, er hann hefdi honum á hendi verit. En Þórhalli þótti enn hafdr újafnadr vid sik. Nú er Þórhallr þóttist spyria kaup þeirra Þorsteins ok Sveins, þá hitti hann Þorleif Beiskalda ok Einar Þórgilsson eitt sumar á Þíngi, ok sagdi þeim svo at hann þóttist vid mikil vandrædi kominn vera; þætti þèr eigi þat tilliggia, sagdi Einar, at vid Þorleifr rádum Sturlu af ef vid mættum, en þú hèldir upp fèbótum? hann kvedst þat giarnan vilia. En Helgi prestr Skèliúngsson vard var vid þessa rádagiörd ok sagdi þeim fedgum. Kálfr hèt madr, bió á Gunnarstödum, innfrá Hólmslátri hit nærsta, hann átti 3 sonu, hèt enn yngsti Haukr. En er Kálfr fadir þeirra andadist, seldu þeir landit enir eldri synir hans Þorhalli. En er Haukr var nokkut á legg kominn, þá kalladi hann á hendr Þórhalli til lanzins á Gunnarstödum; en Þórhallr kvadst ei mundu laust láta landit fyrir honum, ok svaradi heldr stutt. Haukr var ei vel ordstiltr, hann var Þíngmadr Sturlu.

30. Már hèt madr, hann bió í Dölum [3]), ok var óspektarmadr mikill; þennan mann sótti Þórhallr til fullrar sektar, en Már [4]) hafdist þó vid þar í Dölum. Ok eitt sinn hittust þeir Már ok Sveinn, ok bar Már upp fyrir Sveini vandrædi sín, ok kvedst ei vera vel vidlátinn. Sveinn kvad þat satt vera, ok kvad margan ei mundu vid þat sitia. Madr hèt Alfr [5]), lítill bóndi; hann hafdi fastnat sèr konu er Valgèrdr hèt, ok skyldi brúdkaup þeirra vera á Kètilstödum um midsumars skeid; ok fór Þórhallr til bods, kona hans ok dóttir, en drottinsdaginn reid hann inn í Leidar-

1) en Sturla tók vid heimilisfángi hans ok rèd því Þórhalli ei til at fèransdómr væri hádr. bætir *EV.* vid.

2) ok vardadi ei um biergir hans. *EV.*

3) Kári hèt madr er þar var í dölunum. *EV.*

4) Kári *EV.* ok þannig allstadar í þessum Kap.

5) Olafr. *C. St.*

hólm til hestaþíngs, þar var kominn Sveinn Sturluson [1]), ok hafdi Þórhallr fiölmennara, þvíat hann gèkk um daga med 30 manna, ok um aptaninn reid hann út á Kètilstadi ok var þar um nóttina; þeir Sveinn ridu ok út á Skógarströnd [2]) til Hèdins Bergssonar, en um morguninn eptir reid Haukr inn á Kètilstadi á nióan, ok kalladi þá enn til lanzins vid Þórhall, ok var þar deila mikil. Sídan fór hann út aptr til þeirra Sveins. Ok um daginn reid Þórhallr heimleidis, ok kona hans Asa ok Helga dóttir ok Haldór Gudbranzson mágr hans. Kolbrandr hèt madr er reid med henni, þau ridu it nedra med sió, ok er þeir Sveinn siá för þeirra, þá rída þeir í móti þeim, ok hittast vid siáinn gègnt Gunnarstödum. En er þeir Þórhallr siá för þeirra Sveins, stigu þeir af baki, ok er þeir hittast, hlaupa þeir Sveinn ok hans förunautar af baki, ok hèlt Haukr Haldóri, en Sveinn Kolbrándi. Már ok Bergþór vógu Þórhall, ok eptir þat ridu þeir Sveinn inni Hvamm, tók Sturla vid þeim öllum, nema Már, hann var í ymsum stödum. Þorleifr Beiskaldi tók vid eptirmáli um víg Þórhalls, ok sótti þá á þíngi. Vard Bergþór sekr skógarmadr; Torfi var ok af landi giör, ok skyldi utan vera 3 vetur. Bergþór var ok feriandi, en fègiöld komu fyrir Svein ok Hauk, en fèránsdómar voru í Hvammi ok sóttu þeir heim til Sturlu Þorleifr ok Einar Þórgilsson, ok höfdu nær 100 manna; þar var ok fiölmenni fyrir; þá baud Sturla Þorleifi heim med flokk sinn. Þorleifr sagdi: ödrusinni mun ek híngat kynnis leita, en skylt var med þeim Þorleifi ok Gudnyu. Sturla mælti: þiggia máttu af því bod mitt at hèr eru þeir Bergþór ok Torfi, ok skulu þegar á burt, er þèr viljit híngat; sídan ridu þeir Þorleifr á burt, ok lètti svo þeim málum.

31. Klement hèt madr, ok var Karlsefnisson, hann var bóndi. Helga hèt kona hans, hún var dóttir Vinsenzíus Eyólfssonar. Bárdr hèt madr ok var Alfsson; þat lèk ord á, at hann fifldi [3]) Helgu, konu Klemenz. Madr hèt Kiartan [4]), hann var

[1]) ok höfdu þeir adra sveitt, bæt. *EV.* inní.

[2]) þar var Haukr Kálfsson ok Bergþór ok Torfi Svartarson ok Kári hinn seki; þeir ridu á Gunnarsstadi um kvöldit *o s. fr.* bætir *EV.* inní.

[3]) fipladi. *EV.* fylgdi. *C. St.*

[4]) ok var Þorvalzson, bæt. *EV.* vid.

frændi Klemenz; þat var eittsinn á hestaþíngi at Kleifum í Gilsfirdi, at Bárdr var á tali vid Helgu, þar kom at Kiartan, ok veitti Bárdi áverka. Eptir þat sótti Alfr at lidveizlu Einar Þórgilsson, en hann taldist undan, því hann var meir hallr undir þá fedga Kiartan ok Þorvard [1]), þeir voru vinir hans ok þíngmenn. Sídan sótti Álfr Sturlu at lidveizlu, ok tók hann vid haldi þeirra Alfs ok Bárdar [2]), ok var þá sæzt á málin, ok giördi Sturla hálfan þridia tug hundrada [3]).

32. Birníngr Steinsson ok Helga kona hans urdu ei ásátt [4]), hün var dóttir Þorgeirs Lánghöfda, var giör skilnadr þeirra, ok áttu þau þó dóttur eina, er Sigrídr hèt. Þá gèkk Birníngr at eiga Gudbiörgu [5]) Alfsdóttur, en Helga giptist Þorsteini Þorvardssyni, ok áttu þau börn saman, Þorgeir prest ok Ingimund. Þau Gudbiörg ok Birníngr áttu þann son er Þorlákr [6]) hèt. Nú kallar Birníngr Þorlák arfa sinn, en Sigrídr dóttir hans var lítt at þroska, henni fylgdi at lagi sá dreingr er Eyríkr hèt. Einar Þórgilsson keypti at henni arfvon eptir Birníng, ok kalladi þat ekki verit hafa laga kvonfáng, er hann fèkk Gudbiargar. Sídan beiddist Einar, at Birníngr færi heim til hans med fè sitt, en hann kvedst mundu skipta af nokkru til handa Gudbiörgu ok syni hennar slíkt sem hann rèdi; en Birníngr vildi þat ekki, hann bió þá at Heinabergi, ok hafdi mikit fè, ok um haustit sendi Einar húskarla sína út á heidar at safna saman gèldfè Birníngs, þeir fóru ok ráku heim á Stadarhól 70 gèldínga, ok lèt Einar alla þá skèra. Sídan fór Birníngr í Hvamm ok hitti Sturlu, ok sótti hann at rádum, ok sagdist vilia handsala honum fè sitt allt, ok var þat nú afrádit at Birníngr fór í Hvamm, ok var þar medan hann lifdi, en búit at Heinabergi vardveitti Gudbiörg, ok lauk svo þessum málum, at Sturla sótti ei Einar um ránit, enda sagdi Einar ei úsátt sína á handsali þeirra Sturlu ok Birníngs, ok sátu hvorir vid þat er fengit höfdu.

1) Þorvald. *EV.*
2) ok mælti eptir Bárd, bæt. *EV.* vid.
3) Ok rèdst Alfr þá at þíngfesti undir Sturlu, bætir *EV.* vid.
4) samskapa. *EV.*
5) Gudrúnu. *C. St. A.*
6) Þorleikr *EV.* ok framvegis í þessum Kap.

33. Í þenna tíma binggu þeir í Vatnsfirdi brædur Snorri ok Páll synir Þórdar Þorvalzsonar ok Sigrídar dóttur Haflida Márssonar ok Rannveigar Teitsdóttur Isleifssonar biskups. Þeir brædur voru enir mestu höfdíngiar. Páll var allra manna vænstr ok giörviligastr. En Snorri var lítill madr ok vænn, forvitri, skörúngr mikill; þá bió at Helgafelli Olafr prestr Sölvason bródir Páls prests í Reykiaholti; þar var á vist göfugr kènnimadr Runólfr prestr Dálksson Þorsteinssonar [Herþórssonar Kètilssonar biskups [1]), hann var hinn mesti klerkr [2]). Hans dóttir var Hallgèrdr er átti Olafr prestr, hún var kvenna vænst ok merkiligust, ok mestr skörúngr at öllu. Þat er mælt at Páll tók til ords vid bródur sinn Snorra, hann kvedst vilia fara sudr til Helgafells ok nema burt Hallgèrdi, ok kvadst vilia hafa þar til hans fulltíng ok lidsinni. Snorri kvad þat illa sóma, at giöra slíkt vid göfuga kènnimenn, ok lèt at þeir ættu sæmdarmenn í nánd sèr þá er ei mundu slíku vel unna. Páll kvedst á þat vilia hætta. Sídan fóru þeir ei allfáir sudr yfir heidi ok yfir Breidafiörd, ok komu um nótt til Helgafells, ok geingu þegar inn í skálann, ok var Hallgèrdr þegar tekin upp úr hvílu sinni ok borin út, en Olafi var haldit ok Runólfi presti, hann var mikill ok sterkr; þá var þar at Helgafelli Jórun Haflidadóttir módursystir þeirra Vatnsfirdínga. Hana hafdi átt Brandr Gèllisson er búit hafdi at Helgafelli. Sídan fóru Vatnsfirdíngar burt. Þetta fréttist vída, ok þótti mönnum syndr í slíku mikill ósómi. Ok um sumarit er menn komu til alþíngis, þá var atsóttr Jón Loptsson þessum málum, hann var allmikill vin þeirra brædra Páls prests ok Olafs prests, en frændi Runólfs prests ok þeirra Mödruvellínga. Dóttir Eyólfs hins halta var Þórey módir Sæmundar prests födur Lopts födur Jóns. Runólfr var sonr Dálks Þorsteinssonar Eyólfssonar ens halta. Þeir Vatnsfirdíngar voru á þíngi ok svo Hallgèrdr, voru þá sem mestar virdíngar Jóns ok var þangat skotit öllum stórmálum sem hann var. Þeir Páll, Runólfr ok Olafr [3]) sögdu honum hvör ósæmd þeim var giör ok bádu hann lids, hann sagdi ok kvad víst í slíku synast mikinn ósóma

[1]) bródur Kètils biskups. *EV.*
[2]) lærdómsmadr ok höfudklerkr. *EV.*
[3]) hittu Jón á þínginu ok, bætir *EV.* vid.

ok ílsku [1]), ok bad þángat kalla Hallgèrdi, ok svo var giört, ok tóku þau Jón tal med sèr, ok tiádi hann fyrir henni hvörsu illa samdi ok bad hana leggia hug sinn frá þessu úrádi, hefir med oss sagdi hann leingi vel verit, ok vilda èk þú semdir vid bónda þinn, en þó þèr þyki manna munr, [þá er þó miklu meiri ábyrgd á [2]), ok mun þetta úrád illa útseliast, ok sómir þèr betr at þú rádir þik siálfviliandi frá, en naudskilnadr verdi, því eigi munu þid leingi nyta hvort af ödru, en ekki mun ek at sinni þraungva þèr um þetta, en segi èk þèr hvat á mun liggia, en ef þú virdir ord mín, ok fer heim med bónda þínum at siálfrar þinnar vilia, þá skal þat framgánga. En því mun ek þèr heita, ef þú þarft nokkru sinni minnar ásiár, at ek skal þèr heill [3]) til lidveizlu, ef þú giörir nú eptir mínum vilia, en ef þú vilt þetta ei, þá skal ek þèr aldrei lid [4]) veita. Hallgèrdr svaradi: [þat mun ek kiósa at þú sèrt mèr í vina húsi [5]). Sídan lagdi Jón Loptsson til, at Olafr prestr tæki vid konu sinni, ok var sídan sæzt á málit. Ok litlu sídar dreymdi Pál Þórdarson at hann þóttist vera í skygndum línkyrtli, ok eptir þat drruknadi hann á Isafirdi ok nokkrir menn med honum [6]). Eptir þat tók Snorri bródir hans mannvirdíng í Vatnsfirdi, ok voru hans synir Haflidi, Þórdr, Þorvaldr ok Bárdr. Valgèrdr hèt dóttir Hallgèrdar, hana nam Sveinn Sturlusson í Hvammi, ok giördust þaraf miklar ósáttir, þá sótti Hallgèrdr Jón Loptsson at málinu, ok kvadst þá vilia taka til þess er hann hefdi henni heitit, hann kvad þat heimilt vera, ok sídan sendir hann vestr Sæmund son sinn ok nokkra menn med honum, þeir fóru vestr til Borgarfiardar, ok komu til lids vid þá Þorleifr Beiskaldi ok Einar Þórgilsson, ok fóru stefnuför í Hvamm; þá mælti Sturla er hann kèndi mennina: er Sæmundr þar? segir hann; ek þykiumst hèr vera, segir Sæmundr. Sturla mælti: miklu muntu vera madr vitrari en eigi munir þú vita hvar þú ert eda adrir menn.

1) ágáng. *EV.*

2) þá er þó miklu meiri munr um ábyrgd þá er áliggr. *EV.*

3) heimill. *EV.*

4) ásiá. *EV.*

5) þat mun vera kiör mitt vid þik, Jón, at kiósa þik ei frá ásiá vid mik. *EV.*

6) Ok var þá svo rádinn draumrinn, at línkyrtill sá væru bárur stórar okliósar, er geingu at honum. *EV.* bæt. vid.

Sídan stefndu þeir Sveini Sturlusyni, ok komu þessi mál undir Jón Loptsson á þíngi, ok rèd hann einn sem hann vildi, ok skipadi svo at flestum líkadi vel.

34. Páll prestr Sölvason bió þá í Reykiaholti, hann átti þorbiörgu Biarnadóttur systur Audhelgu, er átti Brandr biskup. Börn þeirra Páls ok þorbiargar voru þau Brandr ok Magnús, þorlaug ok Arndís [1]). þórir hèt madr ok var þorsteinsson, hann var prestr ok bió í Deildartúngu í [Reykholts-Reykiadal [2]), hann var audmadr mikill, hann átti hundrad kúgilda á leigustödum ok tíu Jendur [3]), honum fylgdi at lagi kona sú, er Asny hèt ok var Haldórsdóttir. Leggr ok Lidr voru synir þeirra, er súbdiáknar voru ok urdu úti á Bláskógaheidi. Vígdís hèt systir þóris skilgètin, er átti Klippr prestr þorvardsson. Börn þeirra voru þorvardr prestr ok Kolþerna [4]), er átti Hámundr Gilsson frændi Sturlu þórdarsonar. þorvardr prestr átti Oddnyu Torfadóttur; þau þorvardr prestr ok Oddny áttu mörg börn: [Arni prestr at Lundi, Snorri prestr, Játgeir prestr, Torfi prestr, Leggr prestr, Gunnar, Gudbrandr [5]). þórir enn audgi bad þorlaugar Pálsdóttur. Páll kvad sèr kunnugt um fiárhagi þóris, en þvíat manna munr muni mikill þykia, þá vil ek ráda fyrir máldaga. Sídan tókust rád þessi med þeim máldaga, at þorlaug skyldi hafa heiman 30 hundrada, ok var þat þó mál manna, at þórir legdi fram í giöf vid Pál ok staddinn í Reykiaholti ei minna fè en hún hafdi heiman, en eptir samlag þeirra, þá skyldi hálft fè eiga hvort [þeirra [6]). þau biuggu í Túngu 7 eda 8 vetur, þau áttu börn ok öndudust öll, en eptir þat beiddist þorlaug at fara af landi burt, ok kvedst heitit hafa Rómferd sinni í vanmætti sínum, en þórir kvad þat ei rádligt at skiliast vid svo mikil hægindi, ok kvadst ófús vera rádabreytni, en hún bad hann miök ok fyrir ástar sakir vid hana lèt hann til-

[1]) er átti Gudmundr hinn dyri á Bakka í Öxnadal, bæt. *EV.* vid.

[2]) Reykiadal enum nyrdra. *EV.*

[3]) bygda bólstadi. *EV.*

[4]) Kolfinna. *EV.*

[5]) Arni prestr fadir Ara at Lundi, fadir Lundar-Biarna, Snorri prestr fadir Játgeirs prests, Torfi prestr fadir Leggs prests ok Oddnyar. *EV.*

[6]) vid annat feingit ok úfeingit. *EV.*

leidast, en var þó tregr, hann seldi Páli presti mági sínum fiárvardveizlu sína, medan þau væri utan, ok voru þat [1]) 4 hundrud hundrada. Þórir kom af hafi nordr vid Þrándheim, ok var þar um veturinn, ok um sumarit eptir fóru þau sudr til Biörgvinar, ok voru þar annan vetur, þar ól Þorlaug svein þann er Biörn hèt, ok eptir um vorit biuggust þau til sudrferdar, en skildu sveininn eptir til fósturs skamt frá bænum [2]). Sídan fóru þau til Róms ok kom hvorki þeirra aptr, en um sumarit eptir Seliumannamessu andadist sveinninn Biörn. Jón hèt prestr íslenzkr, hann var Þórhallason, rèttordr madr ok Breidfirzkr at ætt, hann hafdi þenna vetur hinn sama verit í sudrgaungu. Svo sagdi hann frá, at Þórir prestr hinn audgi hefdi andast í Liúkuborg [3]) föstudaginn í ymbrudögum á lángaföstu, en Þorlaug hefdi framhaldit ferdinni til Rómaborgar, ok hefdi hann hitt hana á veginum er hann fór sunnan, ok var þat eptir páska, ok var þá snaud ok nokkut siúk. Þórir Kraki [4]) hèt madr norrænn, er þá var á sudrvegum, hann kvadst hitt hafa Þorlaugu um sumarit nær Maríumessu eptir andlát bónda síns, ok er þau tídindi komu til Noregs, þá var Þorlákr biskup hinn helgi kominn [til vígslu, ok dró [5]) svo aptr til Islands þetta sumar ok sagdi þessi tídindi út. Þá sagdi Páll prestr Sölvason eptir sögn Þóris Kraka [6]) af misdauda þeirra, at Þórir hefdi fyrst andast ok þarnæst sveinninn, þá var Þorlaug arfi hans ok sonar síns, en hann kvadst vera hennar arfi, ok tók hann allt fèd undir sik. Bödvar Þórdarson var náfrændi Þóris ok Vígdísar er þá lifdi, ok taldi hann Vígdísi þá vera rèttan arftökumann Þóris, þvíat hún var skyldust at ættinni skilgètinna manna. Bödvar sendi mann til fundar vid Pál prest um veturinn ok beiddist [lanz er hann ætti at rèttu [7]). Sonum Þóris þótti sem þeim bæri arfr eptir födur sinn, ok baudst Eyólfr Þorgeirsson, er bió í Stafhólti, til fiárvard-

1) var þat kallat. *EV.*

2) at Miólká, bæt. *EV.* vid.

3) Lukkuborg. *EV.*

4) Kráka. *EV.*

5) frá vígslu til skips ok fór *o. s. fr.* *EV.*

6) Kráku. *EV.*

7) lanz þess, er tæki 40 hundrada fyrir hennar hönd, ok kvad betr sóma at hún væri nokkurnveginn fráleyst. Páll kvadst ætla at honum mundu bera fèn at lögum, ok kvadst ei vilia láta, þat er hann ætti med rèttu. *EV.*

veizlu fyrir þá [1]). Um vorit hinn þridia dag páska reid Bödvar í Túngu med 60 manna ok settist í búit, en baud Páli at hafa af fènu 60 hundrada, en Páll kvadst ei meiga [þat nú laust láta, er ádr vildi hann ei uppgèfa [2]). Sídan giördi Bödvar ord vinum sínum Hermundi Kodránssyni ok sonum hans Karli ok Kodráni, þvíat þeir væri vænligastir [3]) menn í hèradi, ok Magnús þorláksson af Melum. Helga Sölvadóttir var módir þorláks, systir þórdar födur Magnúss födur Sölva födur Páls prests. Magnús þorláksson átti Valdísi dóttur Reinis Abóta at þverá. Brandr Pálsson bad Magnús lidveizlu, ok var Valdís kona hans miök eggiandi þess at hann veitti honum. þórdr Bödvarsson bad ok Magnús lidveizlu ok kvad honum þat hent at veita födur sínum, er þeir væri bádir úr einni sveit, ok kvad honum þúngt veita mundu í móti honum at standa. Magnús kvedst Páli mundi veita, er hann hèt fyrr lidi. Brandr var madr knár ok mikill vexti, Magnús bródir hans var ok ófeilinn madr, ok voru opt med honum einhleypíngar, fráligir menn. þórarinn Svadi var fóstbródir hans madr knáligastr ok allúdæll, margir adrir voru þá í Reykiaholti hans iafníngiar. þat giördist þó rád göfugra manna, at auka ei vandrædi í hèradi, at láta bída þíngs svo búit, ok fóru hvorutveggiu til þíngs um sumarit ok voru áttar stefnur at málum, taldi Páll prestr upp skada sinn, at Bödvar hefdi eydt í Túngu miklu fè ok þóttist þar fyrir verdr bóta, svo rángliga sem honum þótti Bödvar gánga á hendr sèr, en Bödvari þótti Vígdís eiga [þridiúng alls fiár vid Pál [4]), þá var því máli svo lokit, at hvorutveggiu iáttu [í dóm [5]) Jóns Loptssonar, ok á því þíngi lauk Jón upp giörd sinni, [at Páll skyldi hafa lönd öll er þórir hafdi átt ok svo lausafè, en gialda [6]) Vígdísi 40 hundrada, svo sem Bödvar beiddist í fyrstu, ok þótti vel at Páll

[1]) lidveizlu vid þá, *EV.*

[2]) svo tillokka at gèfa þat upp er hann vildi ei fyrr. *EV.*

[3]) gèrviligastir. *EV.*

[4]) at heimta vidtöku ok vardveizlu þess luta fiár, er þórir bródir hennar hefdi átt í fèlagi vid þorlaugu. En til þess at sæzt væri á málit, þá vildi hann at Vígdís hefdi þridiúng alls fiár til eginords vid Pál. *EV.*

[5]) umdæmi. *EV.*

[6]) ok kvedst hann giöra lönd öll til handa Páli þau er þórir hefdi átt ok svo lausafè, en kvadst vilia at Páll gyldi *o. s. fr. EV.*

giördi þetta til samþykkis vid frændur Þóris, þótt hann ætti fèd at lögum; Páll kvad sèr hans ummæli vel líka, en Bödvari líkadi ekki af giördinni ok reid heim í Túngu ok sat þar þau misseri. Páll Sölvason hafdi gipt Arndísi dóttur sína Gudmundi dyra ok veitti hann því Páli. Um vorit eptir páska fór til lids vid hann Brandr biskup ok Gudmundr dyri med mikla sveit manna, [Þorleifr Beiskaldi ok Ari hinn sterki [1]), þvíat Magnús son Páls átti Hallfrídi systur Ara, þar kom ok Hermundr úr Kalmanstúngu, er átt hafdi Hallfrídi Runólfsdóttur, ok fiöldi hèradsmanna. Þar kom nordan úr Túngu Þórdr Bödvarsson, ok beiddi at Páll ynni sómahlutar frændum Vígdísar; þá svaradi Gudmundr hinn dyri, ok kvad Pál hafa sett höfdingia yfir mál sitt Jón Loptsson, ok vill nú halda öll hans ummæli, ok giöra þat fyrir sakir kènnimannskapar sins, svo ei jykist vandrædi í hèradinu, lèt hann þá Túngumenn ei hafa þat ásynt, at þeir væru sæmdar af verdir. Sídan fóru Reykhyltíngar stefnuför í Túngu, þá hafdi þar fiölmenni mikit; þar var þá Sturla Þórdarson mágr hans vid margan mann. Þórdr Bödvarsson, Arni Biarnason frá Hólmi, Sveinn Sturluson, ok geingu þeir allir á tal um þat hvöria medferd hafa skyldi, ef þeim væri stefnt, rèdu nokkrir, þeir sem ódælastir [2]) voru, at vinna skyldi á mönnum; Sturla kvad þat ekki rád, vid svo mikin afla, sem þeir hefdu, kvad heldr rád at stefna á móti jafnmörgum stefnum, ok finna slíkt til er syndist, ok var þat afrádit, ok biuggu hvorutveggiu málit til. Frá því er sagt, at Sturla gèkk at Jóni Þórvalzsyni, bródur Gudmundar dyra, módir þeirra var Þurídr, dóttir Gudmundar lögsögumanns. Sturla mælti: heill þú Jón! menn spurdu, því hann kveddi hann, en ei Gudmund? Sturla svarar, kvad þennan vídfrægastan af endemum; Jón var skáld, hann kvad þetta:

Karl er staddr hiá Sturlu,
stendr hann fyrir rèttindum,
þrumir andskotinn undir,
ordslægr gódu bægir.

[1]) Þorleifr bóndi Arason hinn sterki. *C. St.*
[2]) ákafastir. *EV.*

Sídan ridu menn af þeim fundi, ok fóru málin um sumarit til alþíngis; lèt Páll prestr þá sanna misdauda þeirra Þóris ok Þorlaugar þar á þínginu at lögum, eptir því sem hann hafdi ádr giört [1]), en hvorigir urdu lögsekir, ok var þá svo komit málum, at sáttarfundr var lagdr um haustit heim í hèradi eptir Mikaels messu í Reykiaholti, áttu þá margir gódir menn hlut í; kom þar þá Bödvar Þórdarson ok Sturla mágr hans, ok sátu menn úti á velli fyrir sunnan hús, ok ræddu um sáttina, vildi Bödvar enn sem fyrr, at þau Vígdís hefdu þridiúng fiár, ok taldi þat sem var, at þótt búit í Túngu hefdi ordit ófriófsamt, þá hefdi hann þó mikit fè tillagt í miölum ok slátrum, en Páll prestr var heldr tregr, ok heimti til síns máls, ok vard því sein lyktin.

35. Þorbiörg kona Páls prests var grimmúdig í skapi, ok líkadi henni stórilla þóf þetta, hún hlióp fram milli manna, ok hafdi kníf í hendi, ok lagdi til Sturlu Þórdarssonar ok stefndi [2]) í augat, ok mælti þetta vid: hví skal ek ei giöra þik þeim líkastan, er þú vilt líkastr vera, en þat er Odinn, [en lagit [3]) kom í kinnina, ok var þat mikit sár. Sídan hlupu upp menn Sturlu, ok reiddu vopnin, þá mælti Sturla: vinnit ekki á mönnum hèr, fyrr en ek segi hvar nidr skal koma. Bödvar vard ok ódr miök, þá mælti Sturla: setjist menn nidr ok tölum um sáttina [4]), ok þurfa menn ekki hèr lysa vanstilli [5]) fyrir þessa sök, þvíat konur kunna med ymsu móti at leita eptir ástum, þvíat leingi hefir vinfeingi okkar Þorbiargar verit mikit; hann hafdi höndina at andlitinu, ok dreifdi blódinu á kinnina, ok mælti: þess er mest von, at vid Páll prestr munum sættast á okkar mál, ok þurfa ekki adrir hèr hlut í at eiga, ok setjist nidr Páll mágr; þá mælti Páll prestr: ræda vil ek víst um [sátt vid Bödvar [6]), en þó lízt mèr þetta umræduverdt, sem nú hefir í giörzt, ok snúa nokkut áleidis. Sturla svaradi: rædi menn fyrst um sættir med ykkur Bödvari,

[1]) heyrt. *EV.*

[2]) ok ætladi at leggia. *EV.*

[3]) ok í því var hún tekin ok stödvadist lagit ok, *o. s. fr.* bætir *EV.* vid.

[4]) rædum um sáttmál. *EV.*

[5]) vansætti. *EV.* vanskilnadi. *B. Gr.*

[6]) sáttmál okkar Bödvars. *EV.*

einskis er [1]) þetta verdt, ok munum vid Páll mágr hèrum ræda sídar. [Þá sættust þeir Bödvar [2]), ok lèt Páll þá gángast þá hluti er ádr höfdu í millum stadit, ok var málum lokit á þá leid, at Bödvar skyldi hafa þridiúng þess fiár, er Þórir hafdi átt. Eptir þetta binggust menn burt at rída; þá bádu vinir Páls prests, at hann skyldi selia Sturlu siálfdæmi, hann kvedst þess ei fús vera, ok lèt þar [újafnadar eins at von [3]) er Sturla var, þótt hann mæli fagurt. En þó gèkk hann at Sturlu fyrir umtölur annara manna, ok bad hann hafa þökk fyrir stillíngu sína, er hann hafdi þar giört á [því þíngi [4]). Sturla svaradi: þat heyri èk at litlu muni skipta, [hve til mín er giört, enda finn ek þat rètt á [5]), at ydur þykir svo. Páll prestr mælti: [ef svo er at þetta má bæta, þá vil ek [6]) at þú giörir slíka sæmd til handa þèr, sem þèr líkar siálfum. Þá mælti Sturla: siádu svo fyrir, at ek væntir, ef ek skal siálfr meta mik, at ydur mun þykia úhófs vita [7]). Þá svaradi prestr: ekki hefir mèr fyrir þá sök slíkt vandrædi til handa borit, at ek munda þat kiósa, [nè svo þik at hafa fyrir ordit [8]), ok er þat því vel fallit, at þú rádir fyrir [9]), en bidia vil ek þik, segir prestr, at þú leggir ei dóm fyrr á málit, en vèr erum allir vinir [10]); eptir þat fóru fram handsöl ok handsaladi Páll prestr Sturlu siálfdæmi, en Sturla handsaladi honum aptr í mót nidrfall á sökum, ok skildust at því.

36. Nú leid veturinn, en um vorit fór Sturla sudr til Borgarfiardar ok reid í Túngu til Bödvars. Sídan sendir hann ord Páli presti í Reykholt, at hann skyldi koma í Túngu ok heyra á sáttar-

1) má kalla. *EV.*

2) þá ræddu þeir um sáttmál vid Bödvar. *EV.*

3) úiafnad einn mundu framkoma. *EV.*

4) á þeim fundi. *EV.*

5) hvörsu um er giört, ok þykiumst ek á siá. *EV.*

6) ef þèr synist, at hèr muni eiga nokkur bót fyrir at koma, þá mun ek vel eiga hóf undir þèr um þat. *EV.*

7) en ei hófs, mun þat verda annan veg en mèr lízt at verda muni. bætir *EV.* vid.

8) nè hitt at þú hlytir úvirdíng af. *EV.*

9) ok mun rèttr á at bæta vel, bætir *EV.* inní.

10) en vid eru staddir rèttlátir menn ok vinir allra vor. *EV.*

giörd, þat var Krossmessu, en er Páll kom, þá mælti Sturla, hvörsu marga menn viltu skilia undir sátt okkar, svo at þú viljir handsölum uppihalda fyrir? þá mælti prestr: mik, sonu mína ok konu; þá mælti Sturla: nokkut fleiri menn; prestr sagdi: Hermund ok konu hans, Torfa Svartsson einnig; þá mælti Sturla: viljir þú þá tilskilia, þá vil ek þá fráskilia, þvíat nú ber þú siálfr vitni um, hvörjir [í svikrádum hafa vid mik verit [1]). þat er mín ætlan, segir prestr, at í þeim rádum hafi aungvir menn sik vafit, nema sá er til styrdi, en því nefnda èk þessa menn til, at aungvir menn syna sik búnni [2]) til lidveizlu vid mik en þessir. Nú muntu ei bædi vilia skilia menn undan sættum, ok giöra þó einn um þèr til sæmdar [3]). Sídan kom þar at, at Sturla lauk upp giördinni ok mælti, hvört munum vèr breyta um, at giöra ei at dæmum ens vitrasta manns Haflida Márssonar, þá er hann fèkk vansa í sárafari? Nú giöri èk þèr á hönd fyri frumhlaup þorbiargar konu þinnar, til mín 2 hundrud hundrada, þat skal vera vara ok búfè, gull, brennt silfur eda adrir rífligir grípir. Prestr mælti: víst hefir hèr leingi atþrútnat um ójafnadinn, þó er nú knútr á ridinn [4]), ok kvad þess von at ei mundi fèd goldit at fyrstu fardögum. Öllum mönnum þótti [5]) mikil undur, at Sturlu kom í hug at kveda slíkt upp, ok eptir þat fóru menn heim. Páll prestr kvaddi á mál sonu sína, ok spurdi hvat þeim syndist af at kiósa, hyggst mèr svo, at ef þetta fè gèlzt upp, at þar muni þá fara eign vor öll. Nú er ydur at kiósa, hvört þèr viljit heldr sitia fyri því vandrædi at verda fyrir ágángi Sturlu ok umsátum, eda viljit þèr leita trausts á menn med fègiöfum til lidveizlu, því flestir munu svo virda, at ei sè [vid þetta leitandi [6]), þeir kvádust aldrei vilia sína eigu uppgèfa. Sídan sendir Brandr prestr son sinn sudr í Odda, ok fèkk hann þar gódar vidtökur af Jóni Loptssyni, bar hann þá málit upp fyrir honum ok sagdi allan málavöxt. Jón kvad ei vel sóma, at höfd-

[1]) sannir eru at banarádum vid mik. *EV.*

[2]) búnari. *C. St.*

[3]) mannvirdíngar. *EV.*

[4]) um úsómann, bæt. *EV.* vid.

[5]) Ei fóru þar þann dag rædur miúkt med mönnum, ok þótti öllum *o. s. fr.* *EV.*

[6]) þetta hlytandi. *C. St.*

íngiar geingi vid svo mikinn úiafnat á hendr svo dyrdligum kènnimanni sem Páll væri, ok kvedst mundi veita honum lid á þíngi sem hann hefdi faung á. Sídan fór Brandr heim ok sagdi presti svo búit ok nú lídr at þínginu, ok rídr Páll prestr til þíngs, því hann átti Reykhyltínga godord, ok voru vidsiár miklar ok vardhöld med flokkum, ok er þeir komu til þíngs, þá reid Páll til búdar sinnar, en Jón Loptsson gèkk frá búd sinni móti Páli ok heilsadi honum ok bad hann vera velkominn ok far til búdar med mèr; prestr bad hann hafa þökk fyri bodit, en ek mun rída til búdar minnar, en vær munum drekka allir samt um þíngit, ok svo giördu þeir. Snemma þíngsins kom Bödvar Þórdarson á fund Jóns Loptssonar ok ræddi vid hann, kvad Sturlu hafa sendan sik, ok segir hann þess vænta, at Jón mundi ei mótsnúinn málinu, þótt þau ord færi um. Jón kvad med miklum ákafa farit á hendr Páli presti, en lèt ei sóma at etiast vid kènnimenn gamla ok göfuga ríkum höfdíngium, ok nú hefi èk heitit presti ásiá ok lidveizlu. Bödvar mælti, svo segir mèr hugr um at [höfudgrant verdi [1]) nokkrum vinum prests, ef Sturla er at nokkru mínkadr. Jón svaradi: vitum vèr þat, at Sturla er opt óbilgiarn vid manndrápin, en fleiri menn kunna at láta drepa menn en Sturla einn. Ok þat segi èk þèr, Bödvar, ef Sturla lætr drepa einn mann fyri Páli presti, at drepa skal ek láta 3 menn fyri Sturlu. Sídan skildu þeir talit, ok voru nú miklar vidsiár um þíngit. Sturla var optast í búd sinni ok gèkk óvída, en lèt skèmta sèr heima í búd. Páll prestr gèkk á fund Þorláks biskups ok töludust þeir vid; biskup mælti: ei þyki mèr maklig deilan ykkar Sturlu, þeir eru menn ríkir ok kaldrádir, en þú ert dyrdligr kènnimadr. Nú vilda èk at þú værir var um þik um þíngit, ok bærir vopn ok verdir hendr þínar, ef þú þarft þess vid, þvíat einskis er frá þeim örvænt, ok svo giördi Páll prestr, en þó láu honum opt eptir vopnin, þá er hann gèkk frá kyrkiu, ok syndist í því, at hann var óvanr vopn at bera.

37. Nú var leitat um sættir, ok verda þeir Sturla þess varir, at Jón Loptsson ætlar hèr til kapps at halda at veita presti fyrir

[1]) at höfud vardi. *EV.*

bón Branz biskups, ok gánga menn nú medal þeirra ok beida þess, at Sturla [iátadi í dóm Jóns Loptssonar um málit [1]), kvádu þess von at honum mundi í því mestr sæmdarhlutr, en hitt allósynt hvörsu vegnar, ef slær í deilur um, ok sögdu þá breytt hafa giördum þeim er Jón giördi um Túngumál ok giört í því aungva virdíng til hans. Ok einn dag, er menn komu fiölmennir til lögbergis, þá gèkk Sturla fram [2]). Þat var opt háttr hans at [setia á [3]) lángar tölur um málaefni sín [4]), en madrinn var bædi vitur ok túngumiúkr, ok vildi hann at þat væri iafnan fráborit at hans virdíng yrdi vídfræg. Hann kvad nú svo at ordi: kunnigt mun mönnum vera um málaferli vor Páls prests, ok um þá svívirdíng er mèr var ætlud [at giöra ef framkæmi [5]), ok olli því meir hamíngia mín en tilstilli þess er giördi, sídan var sæzt á málit ok selt mèr siálfdæmi af presti, en nú [eru sóttir [6]) at mèr enir ædstu [7]) menn hèr á landi, at þetta mál skuli í giörd leggia, er ádr kom í siálfdæmi. Nú ef dæmi fyndist til þess, at menn hefdu svo fyrr giört, þá væri á þat at líta, en þeir menn er sik binda nú vid málit, nefni èk fyrst til Jóns Loptsson, er dyrstr [8]) madr er á landi þessu, ok allir skióta sínum málum til, þá veit ek ei víst hvört annat er nú virdíngavænna en reyna hvörn soma hann vill giöra til mín. Nú kann vera, at ek hafi ekki vit at siá málahlut til handa mèr, en vilia munda èk halda sæmd minni. Þá mælti Brandr biskup: Eingi madr frír þèr vits, en meir ertu grunadr um gæzku [9]). Jón kvad Sturlu viturliga mæla ok siá fyrir margra hönd, en fègiöld, sagdi Jón, af hendi prests munu þó til vægdar snúast, þvíat þau voru hátt [10]) reist, ok skal nú vid mik um at eiga, en ei vid Pál. Sídan geingu menn frá lögbergi ok heim til búda, en ádr þínginu lyki, baud Jón Sturlu barnfóstur, ok baud

[1]) iáti því at Jón giöri einn um málit. *EV.*

[2]) á virkit fyrir búd sína, bætir *EV.* vid.

[3]) giöra. *EV.*

[4]) málagiördir sínar, ok leiddist mönnum opt til at heyra. *EV.*

[5]) at veita miklu meir en framkvæmi. *EV.*

[6]) er svo komit því máli at settir eru *o. s. fr. EV.*

[7]) mestu. *EV.*

[8]) mestr. *EV.*

[9]) græzku. *EV.*

[10]) med freku. *EV.*

heim Snorra syni hans ok honum siálfum til kyrkiudags í Odda. Sídan fylgdi Sturla sudr sveininum ok þá sídan virdugligar giafir af Jóni. [En giald af presti snèrist miök ok var þat 30 hundrada [1]).

38. Páll prestr baud heim Jóni Loptssyni í Reykiaholt, ok var þar gódr drykkr. Þar voru leiddir fram uxar þrír ok var einn 5 vetra gamall, annar 6 vetra, þridji 9 vetra. Þá mælti Páll: minni munu laun fram koma en þú værir verdugr fyrir lidveizluna, en hèr skaltu kiósa hvort þú vilt hafa þenna 6 vetra uxa eda hina báda. Jón leit á uxana ok mælti: Svo lízt mèr á hinn 6 vetra uxann at eigi meigi betri uxi verda en þessi, ok kys ek hann. Páll mælti: þat er ok vel, því iafnmikit hefir mik kostat sá ok hinir tveir. Sídan dró hann gullhríng á horn uxanum, ok kvad því fylgia skyldu 10 hundrud vadmála. Jón þakkadi honum vel slíkar vingiafir, ok skildu med hinni mestu vináttu.

Svo er sagt, þá er Sturla frètti andlát Þorbiargar konu Páls prests, at hann leggst í rekkiu, ok þat var honum miök títt, þá er hann var hugsiúkr. Menn frèttu hann hvöriu þat gègndi; Sturla svaradi: Ek hefi nú þau tídindi fregnat er mèr þykia áhugaverd. Menn svörudu, ekki hugdum vær, at þú mundir stríd um þat bera, þótt Þorbiörg væri öndud. Sturla svaradi: [annat ber ek til áhuga er ei er allhægt [2]) at, því èk virta svo sem aldrei væri saklaust vid þá brædur sonu Páls ok Þorbiargar, medan hún lifdi, en nú sómir ei vel at veita þeim ágáng, er hún er öndud. Þá bió Magnús prestr Pálsson á Helgafelli ok Hallfrídr Þórgilsdóttir Arasonar prests hins fróda ok var hún skörúngr mikill. Sturla andadist í elli sinni í Hvammi, en Gudny bió þar lengi sídan.

Margar sögur verda hèr samtída, (sem ek hefi skipt í þætti [3]) ok má þó ei allar senn rita, saga Þorláks biskups ens helga ok Gudmundar ens góda Arasonar, þartil hann var vígdr til prests. Saga Gudmundar ens dyra hefst þrem vetrum eptir andlát Sturlu, ok lykr þá er Brandr biskup er andadr, en Gudmundr hinn gódi

[1]) en fègiöld svörfudust miök, ok var þat ákvedit at væru 30 hundrud. *EV.*

[2]) annat ber til, at mèr er eingi alhægd at. *EV.*

[3]) sleppir *EV.* úr.

er vígdr til biskups. Saga Rafns Sveinbiarnarsonar ok Þorvalds Snorrasonar er samtída sögu Gudmundar hins góda ok hefst hún eptir andlát Branz biskups, svosem Sturla Þórdarson segir í Islendínga sögum [1]). Flestar sögur, er hèr hafa giörst á Islandi, voru ritadar ádr Brandr biskup Sæmundarson andadist, en þær sögur, er sídan hafa giörst, voru lítt ritadar ádr Sturla skáld Þórdarson sagdi fyrir Islendíngasögur, ok hafdi hann þartil vísindi af fródum mönnum þeim er voru á öndverdum [2]) dögum hans, en sumt eptir brèfum þeim er þeir ritudu er þeim voru samtída ok sögurnar eru frá. Marga hluti mátti hann siálfr siá eda heyra, [þá er á hans dögum giördust, til stirkinda, þvíat hann var göfugr, gódsamr, allvitur ok hófsamr madr, diarfr ok einardr [3]). Láti gud honum nú raun lofi betri.

39. Þorgeir Hallason bió undir Hvassafialli í Eyafirdi, hann átti Hallberu Einarsdóttur af Reykianesi Arasonar Þórgilssonar [4]) Márssonar. Þau Þorgeir ok Hallbera áttu 10 börn, þau er úr barnæsku komust, sonu 5 ok dætur 5; þeirra son var Einar, ok átti ekki barna, hann fèkk líflát á Grænlandi í úbygdum; ok er tvenn frásögn um: Sú er önnur frásaga Styrkárs Sigmundarsonar [5]) af Grænlandi, ok var hann sagnamadr mikill ok sannfródr, at skip þeirra hefdi farist í óbygdum, en lid þeirra geingit í tvo stadi, ok barist um þat er adra þraut fyrr vistir en adra, ok komst Einar í brott med þridia mann [6]), ok vildi leita bygdar; hann gèkk á jökla upp ok lètu þar líf sitt, er dagleid var til bygdar, ok fundust vetri sídar. Lík Einars var heilt ok ósakat, ok hvílir hann á Heriólfsnesi. Annar son Þorgeirs var Þorvardr, hann fór utan þá hann vàr 18 vetra, ok [er hann kom í Biörgvín [7]), laust hann hirdmann Inga konúngs þann er Jón hèt, svo hann vard aldrei

1) sögu. *B. C. Gr. EV.*
2) ofanverdum. *EV.*
3) þá er giördust á hans dögum til stórtídinda, ok treystum vèr honum vel til vits ok einardar at segia frá, þvíat hann vissum vèr allvitrastan ok hófsamastan. *EV.*
4) Arasonar bætir *EV.* innf.
5) Sæmundarsonar. *B. Gr.*
6) 6ta mann. *EV.*
7) þegar er hann stè fótum á land í Biörgvin. *EV.*

heill sídan, ok dó um veturinn eptir, en þat var fyrir þá sök, at þessi madr sigldi frá honum úr Eyafirdi, en Þorvardr rèdst [1]) þegar í annat skip, ok komu þrem nóttum sídar til Biörgvínar, en Jóns skip. Þorvardr sótti á fund Kètils Kálfssonar, ok hafdi í sinni hendi hvort öxina ok skaptit, er brotnat hafdi, þá er hann laust Jón, en því máli lauk svo, at Þorvardr vard hirdmadr Inga konúngs, ok vard honum kær. Nú er hætt frásögn um athafnir Þorvards [2]). Hann kvongadist, þá er hann lèt af ferdum [3]), ok fèkk Herdísar Sigurdardóttur [4]). Hann átti 5 dætur, þær er úr barnæsku komust, ein hèt Gudrún, er átti Þorgeir, sonr Branz biskups, en sídar Eyríkr Hákonarson úr Orkneyum, dóttursou Sigurdar Slembis; önnur Gyrídr [5]), er átti Kolbein Tumason; þridia Gudrún, er átti Klængr Kleppjárnsson; fiórda Hallbera, er átti Þórdr Amundason [6]); fimta Ingibiörg, er Brandr átti. En ádr Þorvardr kvæntist, átti hann dóttur vid Ingveldi Þórgilsdóttur Oddasonar, hvar fyrir þau sigldu bædi, sem ádr er áhrært, med rádi edr nokkurri vitund Sturlu í Hvammi, því hann átti þá Ingibiörgu systur hans; þessi hans dóttir hèt Sigrídr, hún var gipt Hiálmi Asbiarnarsyni; adra dóttur átti Þorvardr enn vid Herdísi Klængsdóttur, sú hèt Helga, hún var gipt Teiti Oddssyni í Austfiördum. Þorvardr átti son, er Ögmundr hèt, vid konu þeirri er Helga hèt. Ögmundr fèkk Sigrídar Eldiárnsdóttur af Espihóli. En í elli sinni átti Þorvardr dóttur er Borghildr hèt [7]), hún var gipt Eldiárni í Fliótsdalshèradi. Þridji son Þorgeirs hèt Þórdr, hann var múnkr at Þverá, andadist þar, ok átti ei börn. Fiórdi son Þorgeirs Ingimundr átti Sigrídi Tumadóttur, ok áttu þau ei börn, hann var prestr ok mikit göfugmenni. Ari hèt hinn fimti son Þorgeirs, hann var mikill madr ok sterkr. Þóru Þorgeirsdóttur átti Hèdinn Eyólfsson, er bió at Hólum í Eyafirdi, en sídar átti hana Eyólfr Einarsson. Önnur dóttir Þorgeirs var Ingibiörg, hana átti fyrst

1) reid — til *o. s. fr. EV.*

2) þvi þar eru meiri efni í en ek vilji í þessa sögu rita, bæt. *EV.* vid.

3) siglíngum. *EV.*

4) Sighvatsdóttur. *A. EV.*

5) Gudrídr. *C. St.*

6) Örnólfsson úr Önundarfirdi. *EV.*

7) vid Birnu Branzdóttur, bæt. *EV.* vid.

Helgi Eyríksson úr Launguhlíd, en sídar Sturla í Hvammi. Þridia hèt Þórny, hana átti Grímr Snorrason at Hofi í Skagafirdi á Höfdaströnd. Fiórda dóttir Þorgeirs hèt Gríma, hana átti Brandr Tiörfason á Vídivöllum. Fimta hèt Oddny, hana átti Þórir Þorvardsson. Gunnar hèt madr, er kalladr var Sleggiugunnar [1]), hann átti Rannveigu Ulfhèdinsdóttur Kollasonar Þormódssonar Þorlákssonar Branzsonar Steinþórssonar af Eyri, er Eyrbyggiar eru frákomnir. Þormódr Kollason átti Þórnyu Aradóttur af Reykianesi. Þau Gunnar ok Rannveig áttu dóttur er Ulfheidr hèt, hún var gipt naudug, en sídan lagdi þokka á hana Ari Þorgeirsson, ok átti hann vid henni fiögur börn. Klement hèt einn son þeirra, ok andadist úngr; annar son Ara hèt Gudmundr, hann var fæddr at Griótá í Hörgárdal, þar bió þá Steinun Þorsteinsdóttir ok Sigrídr Ulfhèdinsdóttir [2]), þat var þrem nóttum fyrir Mikaelsmessu er sveinninn var fæddr; þar var vitur madr ok fródr Gudmundr Kárhöfdi, [hann mælti er sveininn var nyfæddr [3]), at hann hefdi aldrei neins barns rödd heyrt slíka, ok kvad víst vita at þat barn mundi verda annara manna afbragd ef lífi hèldi, ok kalladi sèr boda ótta mikinn, er hann heyrdi til. Þau áttu dóttur er Gudrún hèt ok son er Gunnar hèt ok andadist úngr, en er lag þeirra Ulfheidar ok Ara tók til, lèt hún koma í hendr honum 15 hundrud þriggia álna aura honum til forráda [4]), ok hafdi hún þá eptir gullhríng ok marga adra góda gripi, en fyri því Ari var madr stórlyndr, þá lagdist þetta fè brátt í lóg.

40. Nú er þar til máls at taka, er Þorvardr Þorgeirsson kom út eptir fall Inga kóngs, ok lysti því, at hann vildi aungvum iardligum kóngi þióna eptir Inga kóng, því honum þótti sem eingi mundi hans iafníngi verda, ok þess bad hann Ara bródur sinn, ef hann kæmi til Noregs, at hann skyldi ei vid þann flokk bindast er fellt hafdi Inga konúng, kalladi von at flokkr mundi

[1]) hann var Helgason, Þórdarssonar Þórissonar Arngeirssonar Bödvarssonar, bætir *EV.* inní.

[2]) hún var systrúngr Ulfheidar ok var ásiúdligt med þeim, bætir *EV.* inní.

[3]) ok er sagt frá ordatiltekiu hans, þá er sveinninu kvad vid nyfæddr. *EV.*

[4]) ok medferdar, bætir *EV.* vid.

hefiast í Vík austr ok leita eptir hefndum, ok bad hann rádast í þann flokk ok setiast í sitt rúm. Nú fer Ari utan, en Ulfheidr sitr eptir med son þeirra Gudmund. Ari sótti á fund Erlíngs iarls, ok hitti hann í Vík austr um vorit eptir, ok áttu þeir þegar bardaga í Túnsbergi Hákon Herdabreidr ok Erlíngr iarl, ok fèkk Hákon ósigur ok flýdi, litlu sídar bördust þeir fyrir Hrafnabiörgum, ok lagdi Hakon enn á flótta, enn áttu þeir þridia bardaga [1]) undir Sekk nærri Raumsdal, ok þar fèll Hákon kóngr ok mart göfugra manna. Erlíngr iarl lagdi mikla virdíng á Ara fyrir fylgd sína. Um veturinn fór iarlinn um Upplönd, Magnús kóngr ok hirdin, Ari var ok þar med, ok áttu þá enn bardaga á Reyri skamt frá Hamar kaupángi [2]), ok bördust vid Sigurd iarl ok fèll hann þar ok mart manna med honum, en er tídindi þessi komu til Islands, ok hvöria virdíng Ari fèkk af kóngi ok iarli, þá kvad Þorvardr vísu:

Endr lèt svinnr 'á sumri
snarfeingr med Erlíngi
bródir minn und breidar
brandels stadist randir.
Víggards hefir vardat
vedur eggiandi beggia
okkar rúm þar er ama,
úngr baud, kuflar sprúngu.

En um vorit eptir fýstist Ari út híngat, ok gaf iarl honum knör med rá ok reida, hann vard vel reidfari, ok kom skipi sínu at Gásum í Eyafirdi. Skipit átti hálft med honum Amundi Konrádsson. Þat sumar var kallat griótflaugar sumar, þá var barist í lögrèttu á alþíngi, ok vard mart manna sárt, þar fèll Haldór prestr Snorrason, ok Þorvardr Þorgeirsson vard sár. En er þessi tídindi urdu, þótti höfdíngium naudsyn at auka þíngit, ok væri mál þessi þegar sótt ok sættir menn, er vansa höfdu bedit af griótflaug ok vopnum, því þat vard med svo miklum ólíkindum, er griótinu var kastat, at sannordir menn sögdu, er þar voru, at eptir bar-

[1]) þat sumar, bætir *EV.* inní.

[2]) Há-kaupángi. *EV.*

dagann feingi menn þeim steinum trautt af iördu lypt, er kastat var í bardaganum, ok er þat var miök tiád at auka skyldi þíngit, þá svaradi Þorgeir Hallason ok sagdi svo: þat er víst, at þessu máli verd ek ei samþykkr at auka þíngit ok giöra öllum mönnum svo mikit mein ok vanhag, ok uggi ek, at vid þat muni vandrædi vaxa ok ófridr, en þverra ei. Nú hafa þat kènt enir vitrustu menn, at lægia skuli vandrædi, en æsa ei. Nú hefir minn son ordit fyrir áverka, ok þykir mèr hann gildr madr fyrir sèr, ok mun ek þó ei siá þann hlut til handa honum eda mèr, at giöra almúganum vandrædi, heldr mun ek bída ok leita ráds, ok fara heim at sinni. Ok er hann hafdi þetta uppkvedit, þá svara allir höfdíngiar at þyggia vildu þetta rád, ok var þá slitit þínginu. Um haustit fór Ari til Hvassafells til födur síns ok Ulfheidr med honum, ok voru þau þar um veturinn, þángat var ok kominn Gudmundr son þeirra. En er Ari hafdi þar verit tvo vetur, fór hann utan ok Ingimundr bródir hans, ok er þeir komu um haf, fóru þeir til hirdvistar med Erlíngi iarli ok voru med honum um veturinn. Á þeim vetri hófst flokkr Olafs Gudbranzsonar, er var dótturson Haralds kóngs Gylla. Ari bió skip sitt til Islands um vorit ok var albúinn til hafs, en þeir er helzt voru öfundarmenn Ara lögdu honum þat til ámælis, at hann legdi svo fylgd sína vid Erlíng iarl at fara frá honum þá er hann þyrfti helzt manna vid ok ófrídar at von. En er Ari heyrdi þessa umrædu, lèt hann bera föt sín af skipi, ok rèdst þá enn til hirdvistar med kóngi ok iarli. En Ingimundr prestr ok adrir íslenzkir menn hèldu til Islanz ok urdu vel reidfara; þat sumar fylgdi Ari iarli ok fór um haustit austr í Vík. En um nóttina eptir allraheilagramessu var iarl staddr á bæ þeim er á Rydiökli hèt med lid sitt, ok reis upp um nóttina at vanda sínum til óttusaungs ok gèkk til kyrkiu med þá menn er honum voru kærastir, en er lokit var óttusaung, sat iarl ok saung sálma, þá heyrdu þeir lúdragáng [1]) ok vissu úfridr mundi fylgia. Jarl lauk sálmi sínum ok gèkk út sídan, ok urdu þess varir at lid var komit at bænum, svo at bærinn var fullr af mönnum, iarl vildi þá leita heim til stofu sinnar ok til lids ok

[1]) lúdrasaung. *EV.*

vopna. Þá tók til orda Biörn Búkkr, at iarli væri einsætt undan at halda, en þeir höfdu ekki vopna ok máttu ei veria iarl, þótt þeir vildu. Þá sagdi Ari: [verium iarl svosem oss er möguligt [1]); þá taka þeir undan, en ófridarmenn eptir. Jarli fylgdi Biörn Búkkr ok Ivar Gylli lendir menn, Biörn stallari ok Ari, ok er þeir komu at skídgardi nokkrum, hlupu þeir Biörn Búkkr ok Ivar Gylli yfir gardinn, en iarl fèkk ei yfir hlaupit, því hann var þúngr madr á sèr, ok tóku þeir Biörn ok Ivar móti honum, en Ari hlióp á milli iarls ok úfridar manna, ok snèrist móti hermönnum ok gaf svo iarli líf, en fann sik öruggan fyrir, þvíat hann var ádr ekki sár, en þá var hann skotinn gafloki í óstinn, ok nístr svo vid gardinn ok lèt Ari þar líf sitt, en jarl var skotinn í lærit ádr hann komst yfir gardinn, [ok í því bili fèllu enn 10 menn af iarli, en hann komst í nokkut hlè. En er hann saknadi Ara, þótti honum þat mikit, sagdi hann hefdi látit sitt líf fyri sik, ok sik varit frekar en adrir ok lofadi hans hreysti, iarl lèt sídar sína menn greftra. En er þetta spurdist til Islanz, orti Þorvardr erfiflokk um bródur sinn, þóttist svo hyggia best af harmi eptir hann [2]).

1) Hèr erum vèr þó, ok fylgium iarli því betr at eingi eru vopnin. *EV.*

2) En í þessu athlaupi fèllu 10 menn adrir en Ari. Þessir menn fèllu af Erlíngi iarli at sögn Þorkèls haga: Ari Þorgeirsson, Einar Opinsiódr, Biörn Skozki, Jón Fiósi, Ivar dælski, Gunnar Tiöruskinn, Þóroddr Jórsalamadr. En er iarl komst yfir gardinn ok í nokkut hlè, þá spurdi hann hvar Ari væri íslendingr? en þeir sögdu hann dveldist þar eptir vid gardinn líflátinn. Jarl segir: þat er víst, at þar fór sá er oss hefir bezt fylgt, ok höfum vèr eingan iafnhvatan eptir, ok vard hann einn bæinn fyrstr til at gèfa sitt líf siálfviljandi fyrir mitt líf. Nú má èk hans frændum ei launat fá þann skada, er þeir hafa bedit fyrir mínar sakir Nú kèmr iarl til lids síns ok safnar saman flokki sínum ok lætr greftra menn sína þá er fallit höfdu. Tídindi þessi komu til Islanz sumarit eptir. Þá yrkir Þorvardr bródir Ara erfiflokk um hann, ok þóttist hann þannveg helst hyggia af lífláti Ara, at láta hreysti hans koma í kvædi þau er vída væri borin,

# Þ r i d j i þ á t t r.

Fyrst um fæding Gudmundar Arasonar, er sídar vard biskup, ok hans uppfóstur ok lærdóm. Hèr er ok gètit Þorláks biskups, er ádr hefir kalladr verit hinn helgi. Sagan af Gudmundi dyra ok hans giörníngum, hans mótstödumanna deilur, manndráp, brennur ok fleira, sem um þann tíma hefir tilborit.

1. Nú tek ek þar til frásagna, er Gudmundr son Ara var fæddr at Griótá, þat var allt á einum misserum ok fall Inga kóngs ok þat brendr var bær Sturlu í Hvammi. Þá var Biörn biskup at Hólum, en Klængr biskup í Skálaholti, vígdr Eysteinn erkibiskup einum vetri ádr. Þá var lidit frá híngatburdi [1]) vors herra Jesú Krists 1162 [2]) ár. Annat sumar eptir fór Biörn biskup nordr til Þverár at vígia Biörn [3]) bródur sinn til áhóta, ok í þeirri för biskupadi hann Gudmund Arason á Mödruvöllum, ok var þat um vorit eptir páska. Þat sumar ætladi Biörn biskup at rída til þíngs, en þá tók hann sótt ok mátti ei til þíngs rída. Hann stefnir nú at sèr frændum sínum ok vinum [ok skipar svo til sem hann eigi skammt eptir, sem sídar kom fram [4]). Hann gèfr hundrad hundrada af stadnum til Múnkaþverár, ok syndi tvennt í því, at hann þóttist ofveitull verit hafa af stadarfiánum, en hann trúdi þat mesta stirkíng kristninnar at stirkia múnklífi, ok handsaladi Brandi frænda sínum til heimtu, er næstr var biskup eptir hann, en þat var forsiáligt at hann handsaladi þeim, sem siálfr hlaut at gialda. En sídan fór hann heim til Hóla ok lá allt sumarit ok andadist um haustit fyrir Kolnismeyamessu. Þá baud Þorgeir Hallason heim til fósturs Gudmundi Arasyni, ok var sá annar vetur aldurs hans, ok þau misseri fèll Hákon kóngr

1) burdi. *EV.*

2) 1161. *EV. A.*

3) Brand. *B. Gr.*

4) ok skipar þeim hlutum er honum þótti medþurfa, svo þat fannst þá á, er sídar kom fram, at hann vissi at hann skyldi vid bana sínum búast. *EV.*

Herdabreidr undir Sekk, en hófst upp Magnús kóngr Erlíngsson. Þau misseri andadist Asgrímr áböti ok Þorvardr audgi, ok þau misseri bördust menn at Reykium [1]) í Flóa sudr. Þá var vígdr Hrói biskup til Færeya. Hin þridiu misseri kom út Ari Þorgeirsson, ok þat sumar var lögrèttubardagi, sem fyrr er ritat. Þat sumar var til biskups kosinn Brandr Sæmundsson, ok fór hann utan. Hin fiórdu misseri fiölmenntu þeir miök til þíngs Þorgeir ok synir hans Þorvardr ok Ari, þeir höfdu austmenn marga í flokki med sèr nær 30, ok var þat kallat Skáldasumar, þá mæltu þeir fedgar eptir áverkum vid Þorvard vid Vatnsfirdínga, ok fylgdu því máli svo, at sá vard sekr er ávann, en Vatnsfirdíngar Páll ok Snorri seldu Þorvardi siálfdæmi, en Þorkèll Flosason, sem sekr var giör um sumarit, færdi Þorvardi höfud sitt skírdags aptan [2]), ok lèt hann hann fara med fridi, ok bad hann fara hvört hann vildi ok gaf honum hest eptir páskaviku, ok skyldi hann nióta þess [er á þeim tídum hafdi vidborit [3]). Hin fimtu misseri kom út Brandr biskup, ok urdu landskiálftar miklir í Grímsnesi, ok fórust 18 menn; þá var Karlshríd Gregoríusmessu. Hin siöttu misseri fèll Ari Þorgeirsson, þá kom blód Krists í Nidarós frá Rómaborg, [ok þann vetur andadist Jón Sigmundarson, hinn fyrra vetur Reinn áböti vígdr [4]). En fyrir því at fiárhlut þann er Ari hafdi átt bar undan Gudmundi syni hans, þá þótti frændum hans rád fyrir honum at siá at setia hann til bókar, ok rèdst Ingimundr prestr med honum at kènna honum, ok fèkk hann þá þat fyrst í födurbætur ok erfd, at hann var lærdr til bókar, hann var ólatr miök, ok þótti þat þegar þá andsynt á athöfn hans, at honum mundi í kyn kippa um údælleik, því hann vildi ráda vid hvörn sem hann átti, en fyrir þat var föstri hans vid hann hardr. Sá vetur var kalladr kyniavetur, þvíat þá urdu margir undarligir hlutir, þá voru sènar sólir tvennar í senn, þá voru sènir álfar ok adrir kyniamenn rída saman í flokki í Skagafirdi, þat sá Ari Bödvarson ok fleiri.

[1]) rèttum. *EV.*

[2]) ok lagdi á bord fyrir hann, ok gaf hann honum höfud sitt, bæt. *EV.* vid.

[3]) er hann kom á þeim tídum. *EV.*

[4]) ok þann vetur andadist Jón Sigmundarson hinn fyrri, Reinn áböti vígdr. *EV.*

Þat bar til í Hegranesi, at þar hlióp gyltr einn úr húsi sínu um nótt, ok braut upp hurdir, ok hlióp at hvílu einni er kona hvíldi í med barni ok greip gyltrinn barnit ok beit til bana, ok hlióp út síдan í hús sitt, en barnit lá daudt. Önnur misseri selr Þorgeir af höndum Hvassafell, ok rædst til Múnkaþverár, en Þorvardr tekr vid búinu ok Ingimundr prestr. Þau misseri eptir brann kyrkian í Laufási, Gudmundr var þá 8 vetra, þá fóru þeir Ingimundr prestr fóstri hans nordr á Háls til Branz, er átti Gudrúnu Þorgeirsdóttur, ok voru med honum á vist þau misseri. Þá fór Þorgeir til Liósavatns at búa, en Gudmundr var 9 vetra, þá átti Ingimundr bú vid Brand mág sinn á Hálsi, ok voru þeir þar vetur annan. En á því ári vó Þorgeir Branzson Höskuld Hranason, ok þá urdu víg þeirra Kodránssona, ok þá var vígdr til Þíngeyra Karl ábóti, þá var Gudmundr 10 vetra, þá fór Ingimundr fóstri hans á Vagla at búa [1]), þá áttu þeir Gudmundr ok Ögmundr barnleika saman ok margt annat úngmenni med þeim, en til ens sama kom iafnan um atferli þeirra ok leika, hvat sem fyrst var upptekit, at Gudmundi var giört mítur, bagall, messuklædi, kyrkia ok altari, ok skyldi hann vera biskup í leiknum, en Ögmundi öxi, skiöldr, spiót ok önnur vopn, ok skyldi hann vera hermadr, þótti mönnum þat vera fyrispá mikil, þá er þat kom fram um hvorn þeirra er ætlat var. Þau misseri fórust 80 manna í skridum ok var kalladr bysnavetur. Þau misseri fèll Tómás erkibiskup á Englandi, ok þá andadist Þorgeir Hallason múnkr [2]). Um vorit eptir fór Ingimundr prestr búi sínu á Mödruvöllu ytri ok leigdi landit 10 hundrut. Þau misseri fèkk Ingimundr Sigrídar Tumadóttur, ok þat haust bördust þeir Sturla Þórdarson ok Einar Þórgilsson á Sælíngsdalsheidi, um þat er Einar hafdi ræntan Ingiald mág Sturlu, sem fyrr er ritat; þá er Gudmundr var 12 vetra, brá Ingimundr búinu ok rèdst vestur til Ass í Skagafirdi til Tuma mágs síns med Sigrídi konu sína, því at samfarir þeirra voru misiafnar [3]).

[1]) ok er þeir brædur byggia svo í stödrenni, bæt. *EV.* vid.

[2]) Þat sumar bördust þeir Einar Helgason ok Skógúngar, Vilmundr Snorrason í Saurbæ, ok fèllu 7 menn af Vilmundi, en Einar vard sár, ok var borinn á skyldi í brottu, ok nokkrir menn urdu sárir af lidi hans, bætir *EV.* vid.

[3]) voru ei med værdum. *EV.*

Þá fór Gudmundr á Háls til Þorgeirs, þá var andadr Grundar-Kètill. Um hanstit fór Ingimundr brott úr Asi, þvíat þau Sigrídr nyttu ekki af samförum, ok budu margir göfugir menn honum heim, en hann fór á Greniadarstadi til Halls Rafnssonar, þá rædst þángat Gudmundr frændi hans, sá var kalladr hinn gódi vetr. Þá brann Biörgvín um veturinn, þá var ádr um sumarit færd úr Seliu hin helga Sunnefa ok stödvadi þat eldsgánginn, er skrín hennar var á móti borit [1]). Nú voru þeir Ingimundr ok Gudmundr á Greniadarstödum, þá var hann 13 vetra ok tók vígslur af Brandi biskupi til akolúthum. Vetri sídar vígdi Brandr biskup hann til súbdiákns, en 15 vetra til diákns, en hin fyrstu misseri var þat til tídinda, at þá var veginn Ingimundr Jónsson bródir Karls ábóta, ok þau misseri fóru Vatnsfirdíngar Páll ok Snorri Þórdarsynir med flokk til Helgafells ok námu burt þadan Hallgèrdi Runólfsdóttur, en Sveinn Sturluson Valgèrdi dóttur hennar. En önnur misseri var veginn Helgi Skaptason á alþíngi [2]). Þau misseri andadist Snorri Kálfsson á Mel. Hin þridiu misseri andadist Klængr biskup, þá fèll Eysteinn kóngr ok Nikulás Sigurdarson. Um þat sumar voru skærur þeirra Arnórs Tumasonar ok Sveins Sturlusonar. Hafdi Sveinn ridit at hitta konu, er Arnór meinadi, reid Arnór eptir honum vid siöunda mann Maríumessudag hinn sídari, ok bardist vid hann hiá Svínavatni, en þeir Sveinn voru tveir saman ok var förunaut hans haldit, en Sveinn hlióp at Arnóri ok hió á hönd honum, svo hann vard úvígr, en þeir sóttu at Sveini 6 saman, ok hugdust at gánga af honum daudum, en Sveinn vard heill sára sinna, en Arnór lifdi vid örkuml sídan. Af þessum atburdum má siá at Kolbeini var ættgeingt at stilla ei reidi sína ok ákèfd, er fadir hans vildi ei vægia til fyrir hátídar sakir Maríu drottníngar. Hin fiórdu misseri var vígdr til biskups Þorlákr enn helgi ok um þenna tíma tók Sverrir kóngs nafn. Nú er Gudmundr 16 vetra.

[1]) Veginn Einar Grímsson ok brendr bær Einars Skaptasonar í Saurbæ á Kialarnesi; tók lögsögu Styrkár Oddason, bæt. *EV.* vid

[2]) fyrir þat hann brendi kaupskip fyrir Páli austmanni, er kalladr var Brennu-Páll, en eptir vígit mælti Þorvardr Þorgeirsson, ok fèkk hann siálfdæmi af austmanni ok af því virdíngu mikla, bætir *EV.* vid.

2. Þá rèdust þeir Ingimundr burt af Greniadarstödum ok fór Ingimundr til Stadar í Köldukinn at búi til Þórarins ok bió þar 2 vetur, en Gudmundr fór inn til Saurbæar í Eyafirdi til Olafs Þorsteinssonar, ok var þar þá 2 vetur er Ingimundr prestr fóstri hans var at Stad. En þann hinn þridia vetur fèkk Gudmundr Kárhöfdi vitran; þann vetur sat fyrst at stóli Þorlákr biskup, þá fèll Erlíngr iarl um vorit eptir; þá voru í lög teknar Ambrosíusmessa, Sesseliumessa ok Agnesarmessa, en afteknir tveir dagar í hvítasunnu viku. Þau misseri eptir andadist Hallbera Einarsdóttir, ok þá var gipt Gudrún Þorgeirsdóttir Þorgeiri biskupssyni, ok var bod þeirra á Hálsi, þar voru fimm hundrud bodsmanna. Þau misseri var bardagi á Iluvöllum med Sverri köngi ok Magnúsi köngi. Um vorit er Gudmundr var 19 vetra, þá bregdr Ingimundr prestr til utanferdar, ok Gudmundr fóstri hans med honum; þeir rèdu sèr far at Gásum í Eyafirdi med Hallsteini Kúlubak; ok lètu út hinn næsta dag fyrir Mikaelis messu, þat var drottinsdag, ok leiddi vedur þá nordr fyrir Gnúpa til Melrakkaslèttu; þá kom andvidri ok leggia þeir í rètt ok velkir svo viku, ok rekr þá vestr at Hornströndum. A einum aptni, er menn sátu yfir matbordi, sprettr tialdskörin. Sá madr er Asmundr hèt ok var austmadr, honum vard þetta at munni, er hann sá úthverfis [1]): af tiöldin, upp mennirnir hart ok títt, bodar eru allt fyrir, hrindit bordunum, ok hirdit ekki um matinn. Þá spretta allir menn upp ok köstudu af tiöldum; þá kalladi Hallsteinn styrimadr: hvar er skipsprestr vor? skamt er hans at leita, segir Ingimundr, eda hvat vilji þèr honum? Vær vilium gánga til skripta, segia þeir; ekki er nú betra til skripta at gánga en í haust, er ek hefi hvörn drottinsdag bodit ydur til fyrir guds sakir, en þèr vildut því aldrei hlyda, [nú vardar ei þó gud skripti ydur, þvíat ekki er mèr siór verri en ydur [2]); verit nú hraustir ok óhræddir. Þeir segia: þá muntu prestr vilia heita med oss sudrgaungu edr ödrum stórheitum, þvíat nú mun ekki annat stoda Víst ei, segir prestr: ek mun heita, ef ek ræd hvöriu heita skal, en ella mun ek taka máli fyrir alla íslendínga,

[1]) er hann sèr út: hviss, þyss. EV.
[2]) nú verd ek at bidia gud skripta ydur, þvíat ei er mèr slíkt fiærri en ydur. EV.

er á skipi eru, at alls einginn mun vera í heitum med ydur, því èk vil nú ei heldr ydra forsiá fyrir mèr, en þèr hafit mína forsiá viliat i haust. Hvöriu viltu heita þá, prestr? segia þeir. Hann svarar: ek vil heita á allsvaldanda gud ok helgan kross ok frú sanctam Maríam ok alla heilaga, at gèfa tíunda hlut af öllu því er á land kèmst til kyrkna edr fátækum mönnum eptir rádi biskups. Þeir svörudu: þú skalt ráda prestr, því ei meigum vèr nú missa þinnar forsiár. Þá fór handtak um skip þeirra at þessu heiti, ok eru þeir þá komnir miök svo allt at bodunum, ok er þá á þræta mikil, hvört rád taka skal, ok vill sitt hvör. Sumir vilia láta vinda segl upp, ok var til þess hlaupit [1]). Þá rædir Hallsteinn styrimadr vid prest ef hann kynni nafn guds hit hærsta? kann ek nokkur nöfn guds, segir prestr, ok trúi èk því, er sagdi Páll postuli, at ei sè annat nafn guds ædra ok helgara en Jesús, en hitt veit ek ei, hvat þú kallar hærst. Hann svarar: ekki kalla èk slíkt presta, er ei kunna nafn guds. Þá kallar hann á Hallvard, ok spyr: kantu nafn guds id hærsta? hann svarar: veit gud, at ek ætla mik nú ei muna þegar, ok er þat þó illa, ok mun kunna Þórdr Kráka. Hann mælti: Þórdr Kráka, kantu nafnit? hann svaradi: því er verr, fèlagi, at mèr er þat úr minni fallit; en ek veit þann er kunna mun, Þorbiörn Humla [2]) mun kunna, já já, vel vel, Þorbiörn Humla, seg nafnit ef þú kant; hann svaradi: èk vildi giarnan kunna, en ek ætla èk muni aldrei heyrt hafa þat nafn, en vísa mun ek þèr til þess manns er ek ætla kunna muni, Einar Nípa [3]). Þá var rædt vid hann, ok nefnir hann nafnit; en er þeir hafa lypt segli af búlka, varla mannhæd upp, þá kèmr áfall mikit fyrir aptan búlka, en annat fyrir framan ok dreif yfir búlkann, þá hèlt madr á reipi hvöriu, en Ingimundr prestr þreif hefilskapt, ok vildi kippa ofan seglinu. Gudmundr fóstri hans átti bygd í báti, ok stód milli bátsins ok seglsins, ok skyldi greida seglit, en í því kèmr annat áfall svo mikit, at yfir gèkk þegar skipit, ok drap ofan flaugina ok af vígin bædi, ok utanbords alt þat er laust var á búlkanum, nema menn, ok lestist þá

[1]) þrist. *EV.*
[2]) Gumli. *EV.*
[3]) Vippa. *EV.*

miök skipit ok bátrinn, þá hrindr þeim fram af bodanum, ok fá þeir áfall hit þridia, ok var þat minst; þá var hlaupit til austrar bædi fram ok aptr, en segl var undit upp, þá siá þeir land, ok ræda um hvar þeir mundu komnir, sögdu sumir at þeir mundu komnir at Málmey, en Þórarinn Rosti íslenzkr madr kvad þá skamt rekit hafa til þess. Þá svaradi Már Eyólfsson ok lèzt kènna at þeir væru komnir vestr at Hornströndum at Skialdabiarnarvík, ok kvadst þar hafa verit ádr um sumarit, þeir bádu hann vísa leid til hafnar ok vildu nordr fyrir til Þaralátursfiardar, þvíat þar var góð höfn, þá var leitat um hvat at skada hefdi ordit, ok kèmr Ingimundr at Gudmundi frænda sínum, en áfallit hafdi drepit hann inní bátinn, en fótrinn hægri hèkk út af bátsbordinu, ok var fastr í seglinu. Ingimundr spyr, hví hann stædi ei upp, en hann kvad [sèr svo óhægt [1]) at hann mátti ei hrærast edr uppkomast. Þá var rudt af honum ok mátti hann ei at heldr uppstanda. Ingimundr spurdi, hví hann mætti ei uppstanda? hann kvad sèr svo höfgan fótinn at hann mætti hvörgi hræra; mun fótrinn ei brotinn, kvad Ingimundr? eigi kènni èk þess, sagdi Gudmundr. Þá var athugat, ok var fótrinn brotinn á bátsbordinu, svo smátt sem skèliamoli, ok horfdu þángat tær er hæll skyldi, þeir bionggu um hann í bátnum. Þá saknadi Ingimundr prestr bókakistu sinnar, ok var hún fyrir bord dottin, þá þótti honum hart um höggva, þvíat þar var hugr hans sem bækurnar voru, en madr sá meiddr er hann unni mest, ok þakkadi hann þat allt gudi, ok þótti skiótt hafa ræzt draumr sinn er hann dreymdi ádr um nóttina, at hann þóttist koma til Eysteins erkibiskups ok þótti hann fagna sèr vel, en Gudmundr fóstri hans rèd svo drauminn at þar mundi koma yfir þá bysn [2]); ok nú hefr þá nordr fyrir Reykiafiörd, þá geingr ei leingra, ok lægia segl ok kasta akkèri [3])

[1]) svo höfgt á sèr. *EV.*

[2]) En um daginn ádr þeir sigldu í bodana, tók til orda Magnús Amundason ok spyr, ef þeir vissu hvar bodar þeir væru, er þúfubodar hètu? en þeir svara honum, at þeir væru fyrir Ströndum. Svo hefir mik dreymt til, segir hann, at þar nærri mundum vèr komnir vera; en litlu sídar er þeir höfdu þótta talat, þá urdu þeir varir vid bodana, bætir *EV.* vid.

[3]) ok drífr vid línu akkèri eitt um sídir, bætir *EV.* vid.

ok liggia þar vid um nóttina, en at morgni flytiast þeir med vidum til lanz af skipi, ok höggva trè sitt ok streingi á bordi ok lètu reka upp, þá var umrædt hvörnin fara skyldi med Gudmund, ok tók til orda sá madr, er Bersi hèt ok kalladr V... rá, því önnur hans kinn var kolblá: hví munum vær fara med siúkan mann ok fótbrotinn, er vèr meigum ei biarga siálfum oss, ok skiótum honum fyrir bord. Þórarinn Rosti mælti: mæltu allra manna armastr ok skyldi þèr fyrir bord kasta ef vel væri, en hèr munum vèr annars ráds leita. Hann hleypr þegar fyrir bord ok Einar Narfason, þá víkr skipit svo þat stendr grunn, ok láta Gudmund síga fyrir bord í vadmáli, en Þórarinn ok Einar taka vid honum ok hèlt um sitt lær hvorr þeirra ok hann sinni hendi um háls hvorium þeirra, þá geingu sumir eptir ok hlífdu þeim vid áföllum ok dróust svo til lanz at út vildi draga at útsogum, en þá skreid á er brimit hratt þeim at upp, ok komust þeir um sídirat landi med hann. Þá hallar skipinu frá landi ok skolar til hafs öllu úr skipinu, ok braut skipit allt í spón, en lítit kèmr í land af fiárhlut. Þar bió sá madr er Snorri hèt ok var Arngeirsson, hann var læknir gódr, hann tekr vid Gudmundi ok giörir vid hann sem hann kunni bezt, en hann var þó fèlítill ok vildi þó vel. Margir menn komu þángat úr næstum hèrödum [1]) ok vildu duga þeim ok fè þeirra, þá hèt Ingimundr prestr at kista hans ok bækur kæmi á land, en fám nóttum sídar spurdist at kistan væri rekin á land at Draungum heil ok allt þat er í var, ok hèlt ein hespa, en tvær voru afbrotnar, en allar adrar kistur vóru uppbrotnar þær er á land komu, ok allt úr þat er í var. Þá fór Ingimundr prestr þángat at þurka bækur sínar ok var þar til Marteinsmessu, þá fór hann nordr aptr at finna fóstra sinn ok vildi vita hvat um hann lidi ok um fót hans, en þá var festr fótrinn. Þá rèdst Ingimundr nordan ok til Breidabólstadar í Steingrímsfiörd, þar bió þá Jón Branzson, hann átti Steinunni dóttur Sturlu ok Ingibiargar Þorgeirsdóttur, systurdóttur Ingimundar, ok tóku þau vid honum bádum höndum, ok er hann þar um veturinn. En er þriár vikur voru til páska, þá kom Gudmundr at nordan vid þat at út stódu

[1]) bygdnm. *EV*.

leggiabrotin ok gèkk hann vid þat nordan ok kom á Breidabólstad in passione domini, ok vard Ingimundr fóstri hans honum allfeginn, ok þar er hann fram yfir páskaviku. En þó þótti presti ei leingi vera meiga atgiördalaust um- fót hans, þá fór hann sudr til Hóla á Reykianesi til Helga prests Skèliúngssonar, hann var ágætr madr ok hinn mesti læknir, hann tók vid Gudmundi forkunnar vel, ok var hann þar fram um fardaga til lækníngа, en brátt er hann kèmr þángat, þá bakar Helgi prestr fótinn, ok drógu tveir karlar beinit úr fætinum med taung ádr brott geingi, en þá grædir hann eptir ok verdr Gudmundr heill nær fardögum. Eptir fardaga fer hann nordr aptr á Breidabólstad. En vetur sá er hann var á Ströndum var kalladr sóttar vetur, þá öndudust margir menn er mikil skadi var at, Biörn ábóti at Þverá í Eyafirdi, ok Styrkár lögsögumadr, Oddr Gissurarson ok Arnór Kolbeinsson; þá tók Gissur Hallsson lögsögu, þá voru Deildartúngu mál, ok er Gudmundr nú 20 vetra. Um sumarit eptir fór Jón Branzson nordr til Þíngeyra til gildis, ok fór þá med honum Gudmundr Arason, þvíat Ingimundr prestr vildi at hann færi á Háls til vistar til Þorgeirs, ok var svo at hann þar um veturinn, þá fystist hann vestr aptr til fóstra síns, ok fer hann til þíngs nordan med Þorgeiri; þat sumar var kallat grasleysu sumar, þá um veturinn ádr andadist Valdimar kóngr í Danmörk sonr Knúts kóngs, ok þann vetur urdu landskiálftar miklir, ok tyndust 11 menn. Þá hafdi Gudmundr einn vetur ok 20. En um sumarit fylgdi hann vestr Jóni Branzsyni af þíngi; þat sumar fór hinn helgi Þorlákr biskup fyrsta sinn um Vestfiördu. En er hann kèmr í Steingrímsfiörd, þá hefir hann gistíngarstad í Kálfanesi, því þar var nygiör kyrkia úvígd, ok vígir, þar kèmr gott mannval, þar var Ögmundr ábóti, ok Þorsteinn Tumason, er sídar vard ábóti; þar var þá Ingimundr prestr ok Gudmundr fóstri hans. En Gudmundi þótti skèmtiligra at eiga tal vid klerka biskups, en vera at tídum eda kyrkiuvígslu. Þá geingr Ingimundr prestr eptir Gudmundi fóstra sínum ok mælti vid hann, far þú til tída ok kyrkiuvígslu ok hygg at vandliga, því ei veit til hvörs taka þarf, en ek hygg, sá er nema þarf, at eigi muni færi ávera at nema af betra manni en þeim, er nú skal þetta embætti fremia hèr, ok var þetta tvöfaldligr spáleikr,

þvíat hvortveggia kom fram sídan þat er í honum [1]) bió, þvíat Þorlákr biskup var sannheilagr madr, en Gudmundr þurfti siálfr þetta embætti at fremia sídar. Um haustit eptir fór Ingimundr prestr til Hvítár til skips, at kaupa varníng til sölu ok ávaxtar, því iafnan bióst hann vid utanferd, sem sídar kom fram. Nú skildust þeir frændr í Dölum, ok fèkk Sturla Gudmundi förnneyti nordr á Háls, þvíat Ingimundr prestr sendi hann enn þángat, en hann undi þar ei meir en hálfan mánud, ok fór vestr aptr þegar ok er á Breidabólstad um veturinn. Þennan vetur var veginn Gudmundr Biarnason at Kleifum í Gilsfirdi, hann var vinr Jóns Branzsonar, ok fór hann til at mæla eptir víginu.

3. Nú stefnir Gudmundr Kolloddi ok sækir hann til sektar, ok er hann er sekr ordinn, þá tekr vid honum Jón Húnraudarson. Gudmundr fór af þíngi vestr í Saurbæ at heya fèránsdóma á Stadarhóli eptir Odd, þadan fór hann á Breidabólstad at finna Jón frænda sinn, ok er þar á kynnisvist, þadan fer hann nordr í Hvamm at beida Sturlu mág sinn at leita eptir skógarmanni sínum; en þat var þá til tídinda, at Sturla lá í banasótt, ok lifdi 2 nætur þadan frá er Gudmundr kom þángat, ok bídr hann þar til at Sturla var grafinn, ok var þá farit þat traust er þar var von, en kapp hans var ei farit, ok leitadist hann þá um í huga sèr hvört hann skyldi leita til framgaungu síns máls, þess er honum yrdi ei at svívirdu, er hann hafdi mann sekan giört, enda lagdi hann ei á sig þá ábyrgd, at hann tyndi fyrir því vígslum edr kénnimannskap, ok gèfr sá honum rádit, er honum veitti flest, er almáttkr gud var [2]). Hann heitir þá at gèfa þat fè allt gudi, er hann tæki í þá sekt af Oddi ok yrdi sæzst á mál hans, at honum yrdi ekki at sálarháska. Nú er þar komit þessari sögu sem ádr er fráhorfit heidarvígs sögu ok hafa þær leingi iafnt framgeingit. Þessi misseri urdu Bæar-Högna mál, er hann gipti Sniólaugu dóttur sína Þórdi Bödvarssyni med tvöföldum meinum, þann rádahag bannadi Þorlákr biskup med svo miklu guds trausti, at hann gèkk til lögbergis med klerkasveit sína ok lèt vinna eida,

1) ordum, *EV*.

2) ok snyr hann því í skap at heita á almáttkan gud, bætir *EV* vid.

at sá rádahagr væri móti guds lögum. Þá nefnir hann votta at ok segir í sundr rádahagnum ok forbodar þá alla er rádit höfdu þessu. Þetta sumar tyndust 5 hafskip, ok var kallat úfarasumar. Þessi misseri átti Sverrir kóngr orustu á Iluvöllum, nú hefir Gudmundr 22 vetur. Eptir andlát Sturlu fór Gudmundr til Þíngeyra, þá var þar fyrir Þorgrímr Alikarl vinr hans ok fóstbródir. Hann bidr Gudmund fara med sèr til hestaþíngs vestr til Vatnsenda í Vestrhóp, en hann svarar: ei veit ek hvat vel þat hæfir, þvíat þar munu koma þeir menn sem mèr er lítit um, Oddr skógarmadr minn ok þeir sem honom halda, en mèr er þat skapraun at siá þá, en þó skal ek fara ef þú vilt, en gud mun tilsiá ok gæta. Þeir fara nú ok eru á mannamóti, þar kèmr Jón Húnraudarson med mikla væríngia sveit [1]) ok glens [2]) mikit, þar var Oddr seki, þar kèmr ok Þórdr Ivarson frá Þorkèlshvoli [3]), ok med honum fiölmenni mikit, þar kom Biarni Hallason ok margir Midfirdíngar med honum. Þá skilr á Kollodd ok Húnraud systurson Jóns, ok hlaupast á móti, ok höggr Húnraudr til Odds, ok verdr hann sár á hendi. Þá vard Jón ódr vid, ok vildi vinna á Húnraudi frænda sínum, þá verdr þraung mikil, ok höggr Húnraudr þá annat sinn til Odds, ok verdr at mishöggum son Jóns er Eyólfr hèt, ok fèkk þar bana, ok þar vann Jón á húskarli Þórdar Ivarssonar er Þóroddr hèt, margt annara manna vard þar sárt. Nú fór Gudmundr vid þat af manna móti, at gud hefndi óvinum hans ok lèt Jón þar son sinn fyrir sakir Odds, en Oddr vard sár miök ok hlutust þessi vandrædi öll af Oddi. En gud gætti svo Gudmundar at hann hafdi ei lagt hèr til ord nè verk. Hann fer sídan nordr til Stadar til Þorgeirs biskupssonar, ok er med honum í gódu yfirlæti um veturinn, svo at hann vottadi þat sídan, [at eingi vandalaus madr hefdi sèr þar svo gódr verit sem Þorgeir [4]). Um vorit eptir voru búin mál af Þórdi Ivarssyni á hendr Jóni Húnraudarsyni um áverka, ok verdr Jón sekr um sumarit, en at málum veittu þeir bádir Brandr biskup ok Þorgeir sonr

[1]) ræníngiasveit. *EV.*

[2]) gèms. *EV.*

[3]) Þórólfshvoli. *C. St.*

[4]) at honum hefdi eingi úskyldr madr iafngódr þótt sem Þorgeir. *EV.*

hans ok frændr þeirra ok vinir [ok fiölmenna þeir nordan, ok urdu þær málalyktir at lagit var í giörd Brands biskups ok sonar hans Þorgeirs, ok kvad Þorgeir þat [1]) skyldi fyri sáttum standa at ei fylgdi mál Gudmundar um sekt Kollodds ok biargir, ok syndi svo mikla ást ok einörd vid hann í þessu, at eingi kostr var sátta ella, ok vard þó sæzt á þessi mál undir dóm biskups ok Þorgeirs. Á þessum misserum vard þat tídinda at Magnús kóngr Erlíngsson fèll í Sogni, þá andadist Tumi Kolbeinsson, þá brann bærinn á Mödruvöllum ok á Bakka í Midfirdi, þá hafdi Gudmundr 23 vetur. Þetta sumar fór Gudmundr Arason til alþíngis ok af þíngi sudr í Nes til Magnúsar Amundasonar ok Þorfinns, er sídan var ábóti, at heimbodum, ok med honum Gèllir prestr Höskuldarson, ok var hann því ei staddr vid sáttarfundinn at Asgeirsá, [þadan [2]) fór hann nordr til Stadar til Þorgeirs, ok er þar þau misseri ok Ingimundr prestr fóstri hans. Um vorit eptir bregdr Þorgeir biskupsson búi sínu ok snyst til utanferdar ok rèdst til skips í Eyafirdi, þat skip átti Ögmundr Rafakollr [3]), hann var fadir Helga prests, er sídan var biskup á Grænlandi, þar fóru til skips med honum Þórólfr prestr Snorrason, Þorsteinn ok Þorkèll Eyrikssynir ok margt annat íslenzkra manna. Þat sumar fóru ok utan í Eyafirdi á ödru skipi Karl ábóti ok Ingimundr prestr Þorgeirsson ok Ögmundr Þorvardsson ok margt annat íslenzkra manna. Þá átti bú at Stad sá madr er Hesthöfdi hèt Gunnarson [ok Sigrídr Sæmundardóttir systir Branz biskups [4]). Þetta vor [5]) andadist Einar Þórgilsson á Stadarhóli. Þessi misseri hófust Kuflúngar, tyndist Einar Káti ok margt gódra dreingia med honum allraheilagramessu dag, ok þenna vetur hlióp skrida austr [6]) í Geiradal, ok tyndust 18 menn, ok hefr Gudmundr nú 24 vetur.

[1]) ok fiölmennu þá nordan til fèránsdóma, ok urdu þau mál lögd undir giörd Branz biskups, en Þorgeir biskupsson segir at þat *o. s. fr. EV.*

[2]) en er hann hafdi verit á kynnisvist sudr þar. *EV.*

[3]) Rapakollr. *C. St. þ.* Kappakollr. *A. B. Gr.*

[4]) ok Gudrúnar Sæmundardóttur systur Branz biskups. *St.*

[5]) þenna vetur ádr. *EV.*

[6]) vestr. *EV.*

4. Þetta vor um lángaföstu var Gudmundr vígdr til prests af Brandi biskupi, 4 nóttum eptir [1]) Gregoríusmessu, en Ingimundr prestr gaf honum bækr þær allar er hann átti bestar ok fródastar ok messuföt at skilnadi þeirra, ok skildist svo vid hann at hann var prestr ok fullkominn í gódum sidum, ok fóru þá burt þeir menn 2 er hann unni mest Ingimundr ok Þorgeir. Nú fara skip þessi utan í Eyafirdi ok rata [2]) Norveg, ok eru í Þrándheimi um veturinn. Þorgeir son Branz biskups var med Eysteini erkibiskupi um veturinn, en Ingimundr prestr hafdi bæarsetu, ok var honum gèfin Jóns stúka at Krists kyrkiu til saungs. En um hátídir iól ok páska var hann med erkibiskupi ok hafdi góda virdíng af honum. Um vorit eptir fór Þorgeir til Islanz ok fèlagar hans, en Ingimundr prestr er eptir í Noregi, ok tekr Maríukyrkiu til saungs at Stadi, ok er þar annan vetur, ok var þat til marks hve vel erkibiskupi reyndist hans klerkdómr, at þá er Jón biskup hinn fyrri, er Knútr var kalladr, andadist á Grænlandi, þá vildi Eysteinn erkibiskup vígia Ingimund þángat til biskups, en þat fèkst ei af honum [3]). Þann vetur enn fyrra er Ingimundr var utan, var Gudmundr vistum at Hofi hiá Grími mági sínum þíngapresti [4]) þar [5]), nú er Gudmundr hálfþrítugr. Um sumarit tekr Þorgeir sótt í hafi ok liggr svo þar til er þeir voru landfastir [6]), ok andadist tveim nóttum fyri Maríumessu fyrri ok var lík hans fært til Hóla, ok spyr biskup ei andlát hans fyrr en þeir koma þar med líkinu. Þau tídindi þóttu mikil frændum hans ok vinum ok biskupi med, ok svo segir Gudmundr prestr Arason, at hann hefdi eingis þess manns mist, er honum þótti iafnmikit at missa, ok fèll þat honum svo nær, at svo náliga mátti kalla, at hann skiptist í allan annan mann. Hann var þá at Hofi. Lík Þorgeirs biskups var grafit virdugliga at Hólum.

1) fyrir. *C. St.*

2) taka. *EV.*

3) ok í því mátti metnadarleysi hans vita ok varúd, at þat fèkkst ekki af honum. *EV.*

4) þíngaprestr. *EV.*

5) þenna vetur andadist Bödvar Þórdarson ok Þorvardr audgi, bætir *EV.* vid.

6) þá vex sótt hans er hann kèmr á land, bætir *EV.* vid.

5. Gudmundr prestr giördist þá svo mikill trúmadr í bænahaldi ok tídagiördum, í örlæti ok hardlífi, at sumum mönnum þótti vid of edr vanstilli ok ætludu at hann mundi ei bera mega alltsaman hardlífi sitt ok úyndi af andláti Þorgeirs, hann tók heim til kènnslu klerka [1]), ok var þat athöfn hans hvörsdagliga tída í millum at kènna ok rita, hann var ok at kyrkiu mikinn hluta nátta, bædi öndverdar ok ofanverdar, en gèkk til tída [2]) iafnan er hann nádi kènnimönnum. Hann ransakadi bækr manna [ok henti úr þeim þat hann hafdi ei ádr [3]). Öllum mönnum þótti mikilsverdt um trú hans, ok þeim öllum mest er vitrastir voru. Marga hluti tók hann þá upp til trúar sèr, er eingi madr vissi ádr at nè einn madr hefdi kènt fyrr hèr á landi; en í annat sinn þóttust menn hafa mestan mun á fundit, at skap hans hefdi skipast vetur þann er hann lá eptir skipbrotit á Ströndum, því þá undi hann sèr hvorki nótt nè dag, þartil er hann hitti fóstra sinn, ok kom þadan frá nokkut vid á hvörium misserum til sidabótar honum, ok þar kom, at nær þótti hann vera allr annar madr í atferd sinni en fyrst þótti tilhorfast, þá er hann var úngr. Þat fylgdi ok þessu, at mörg merki urdu at vatnsvígslum hans ok yfirsaungvum, svo at mönnum þótti þá þegar mikils umvert, ok þat mátti áfinnast, at gudi líkadi atferd hans, [ok var hann kalladr Gudmundr gódi [4]). En þat var sem iafnan er vant, at ei lagdi iafnt í þökk vid alla, þótt gódu væri tilvarit, sumir þökkudu gudi þeir er þurfendr voru ok bædi höfdu gagn af honum andligt ok líkamligt, en sumir öfundudu þat er þeir voru minni tignamenn [5]) af meirum efnum en hann var, ok því fór fram hvört ár at eydt var offri [6]) því öllu, er hann tók á veturinn, ok gaf hann þat til klæda ok matar fátækum mönnum ok frændum sínum, ok voru þat siö úmagar er hann fæddi med þessum hætti. Nú var bædi

1) prestlínga. *EV.*

2) skripta. *EV.*

3) ok hvörs manns hendr á þeim, þar er hann kèndi slíkt er hann hafdi ei ádr, ok heimti þat útúr þeim. *EV.*

4) en alþydu manna syndist þat í því, hvört efni í þótti vera um athöfn hans, at honum var þat gèfit kènníngarnafn, at hann var kalladr Gudmundr hinn gódi. *EV.*

5) nytiamenn. *EV.*

6) kaupi. *EV.*

þess [í leitat [1]) at skipt var þíngum vid hann, ok skyldi hann þau hafa er fèminni voru, ok þá kalladi Brandr biskup til bóka ok messufata í hendr honum, ok kvad stadinn á Hólum eiga arf eptir Ingimund prest, en þeir feingu hvorki hnekt örlæti hans nè meinleikum [2]), þvíat nokkut bar til þess iafnan af tilstilli gódra manna, at hann fèkk því haldit er hann hafdi upptekit. þessi misseri vard margt til tídinda: þá var Jórsalaborg unnin af Serkium, svoat allir kristnir menn þeir er þar inni voru, urdu annattveggia at flya, eda vóru drepnir ella, ok allr kristindómrinn nidrbrotinn: þá dró myrkur fyrir sól um middegi, svoat margir vitrir ætludu verda mundu heimsslit. þá var kalladr fellivetur, kom grasleysi mikit ok úáran um sumarit, ok kom ekki skip til Islanz þat ár af Noregi. þá hafdi Gudmundr 26 vetur.

6. Um vorit eptir fór Gudmundr á Miklabæ [til vistar, þar bió þá Biörn enn audugi [3]), ok var hann þar tvo vetur, ok hinn fyrra vetur er hann var þar andadist Eysteinn erkibiskup, þá hafdi hann ádr vígdan Jón til biskups Sverrisfóstra til Grænlands. þá hafdi Gudmundr 27 vetur. En hinn sídara andadist Henrekr kóngr á Englandi, þann vetur var Jón Grænlendínga biskup á Islandi í Austfiördum, þá druknadi Ögmundr ábóti um vorit, þá andadist Kári ábóti. þessi misseri var Ingimundr prestr í Biörgvín, ok reyndist vitrum mönnum ok göfugum því merkiligri hans atferd er hann vard kunnari, ok fèkk hann mikla virdíng af Jóni Kuflúngi ok hans mönnum. þat bar ok svo til, at þar var þá fyrir Ögmundr þorvalzson ok hafdi þar virdíng mikla ok tekr hann bádum höndum vid Ingimundi födurbródur sínum [4]). En um vorit ádr hafdi Ingimundr prestr farit kaupferd vestr til Englands, ok kom um haustit vestan til Biörgvínar. En er þeir komu med mikil gædi af Englandi víns, hunángs, hveitis ok klæda ok margs annars, þá vilia menn Jóns Kuflúngs taka upp frá þeim ok

[1]) leitat, at honum væri þat úhægt, ok mætti hann minna athafast til þurftar ödrum, af þeim er hann öfundudu. bætir *EV.* vid.

[2]) meinlætum. *EV.*

[3]) vistarfari til Biarnar, er Audbiörn var kalladr. *EV.*

[4]) ok baud honum allt sitt fulltíngi er hann mátti tilleggia, bætir *EV.* vid.

ræna þá. Þá geingr Ögmundr fyrir Jón Kuflúng ok mælti svo: þat mundi satt vera ef Ingi kóngr væri á lífi, þá mundi hann ei ræna láta bródur Þorvardar Þorgeirssonar, ef hann kæmi á vald þeirra, ei heldr Magnús kóngr fyrir sakir Ara. Nú vænti èk þess af ydur, at þèr munud giöra fyrir sakir þeirra ok bænir mínar, at láta fè hans frid hafa. Jón svarar: vel mælir þú, ok skal þat satt vera, at hvörr peníngr skal sá frid hafa, er hann á, ok gakk til siálfr med frænda þínum, ok skal hann gudi velkominn ok oss. Nú geingr Ögmundr til skips ok segir ummæli Jóns, þá geingu menn Jóns at átta [1]) víntunnum stórum, er kaupmenn áttu, ok spurdu hvör ætti tunnurnar? Ingimundr prestr kèndi sèr fiórar eda fim, ok margt annat, þat er þeir spurdu eptir, þar til er þá grunadi, at hann mundi ei svo audigr madr vera, sem hann segdi, ok mæltu vid hann: Nú siánm vær, prestr, at þú munt ei eiga allt þat fè, er þú eignar þèr, ok muntu kènna þèr þat adrir eigu, ok nennum vèr ei at missa alls, ok taka þar sídan tunnu eina ok lauzt svo til at þá átti Ingimundr, ok enn tóku þeir sextán álnir klædis raudbrúnat, þat var allgott klædi, en þat vildi hann ei segia, ok vildi heldr missa en þá skildi á. Þar eptir leitar Ingimundr prestr sèr herbergis, ok er þar um veturinn. En er áleid, þá bar þat vid, at hann kènnir klædi þat í kyrtlum hirdmanna, er hann hafdi rændr verit um haustit; honum verdr þá rædt um fyrir Ögmundi at hann kènnir klædit, en bad hann þó láta vera kyrrt, ok kvèdst ei vilia nokkut hark giördist af því, ok kvad sik ekki mundu fè skorta. Biörn Bríkarnefr gèstahöfdíngi hafdi rádit fyrir ráni vid Ingimund prest, þá er hirdmenn vildu uppgèfa.

7. Þat bar vid um dag einn, at Ögmundi ber fyrir augu menn þá er geingu í kyrtlum þeim er giörvir voru af klædi því er rænt hafdi verit frá Ingimundi presti, ok sagdi hann frá vinum sínum Bárdi Sálu ok Pètri Glipsu ok Indrida, ok mælti vid þá: eigi eru nú gód efni í, mèr ber þat fyrir augu at Biörn Bríkarnefr ok sveitúngar hans gánga í kyrtlum af klædi því, er ræntr

[1]) sex, *EV*.

var Ingimundr prestr frændi minn á hausti. Indridi mælti: því lætr þú þat kyrt vera ok kallar ei til. Ögmundr svarar: ei vill hann siálfr heimta láta, ok vill hann at ei giörist íllt af. Indridi mælti: þat skal aldrei verda, at svo vondir menn gángi yfir oss, ok giöri vinum vorum slíkar skapraunir, ok skulum vèr víst eptirleita, þótt hann vili þat ekki Ingimundr frændi þinn. Spretta þeir upp þegar, taka exar í hendr sèr ok gánga út; þeir Austmennirnir geingu til drykkiustofu ok Ögmundr med þeim, þar er Biörn Bríkarnefr drakk inni, ok gèstasveit med honum nær fiörutygi manna, ok vildi Indridi þegar inn gánga at þeim, en Bárdr kvad þat ei hæfa, þar sem fyrir voru 40 manna, en þeir fiórir einir, ok bad þá bída þess er þeir geingi út. En þat hagast sva til, at þeir geingu út fiórir, sem þeir væru valdir til, er klædi þessi höfdu; ok höggr Indridi þegar Biörn banahögg, en þeir Bárdr ok Ögmundr vógu hina þriá, sva at ekki vard vidrnám. Þá kvad vid gèstalúdur, ok safnast saman nær fiögur hundrud manna, þá koma þessi tídindi fyrir Jón Kuflúng, ok kvad þá vid hirdmannalúdur, ok sögdu hvorutveggiu Jóni Kuflúngi sögu sína. En þeir Bárdr ok Pètur voru náfrændr Eysteins erkibiskups, ok virdi Jón þá svo mikils í þessu máli, at hann giörir í burtu sveit þá alla frá fylgd vid sik, en þeir Ögmundr tóku klædin til sín, ok er kyrt um þetta hèdan ífrá. Um vorit eptir rædst Ingimundr prestr til skips þess, er kallat var Stángarfoli, ok bióst til Islanz, þar var á skipi Bergþór son Þórdar Ivarssonar, ok margt íslenzkra manna, ok svo norrænna gódra dreingia. Skip þetta kèmr í úbygdir á Grænlandi, ok líkr því máli svo, at þar tynast menn allir, en þess verdr sva víst, at fiórtán árum sídar fanst skip þeirra, ok þá fundust menn siö í hellis-skúta einum; þar var Ingimundr prestr, hann var heill ok ófúinn, ok svá klædi hans; en sex manna bein voru þar hiá honum, vax var ok þar hiá þeim, ok rúnir þær er sögdu atburd um líflát þeirra. En þetta þótti mönnum mikil merki, hve gudi hafdi líkat atferd Ingimundar prests, er hann skyldi svo leingi legit hafa úti med heilum líkama ok ósköddum. Þat sumar, er tyndist Stángarfolinn, kom af Grænlandi Asmundr Kastanrasti, nú hefr Gudmundr tuttugu ok átta vetur.

8. Þá er Gudmundr var á Miklabæ, þá átti hann brottsaung á bæ þeim, er á Marbæli hèt, þar saung hann einn hátídisdag, þar var á vist góð kona ok skynsöm, er Hallfrídr hèt ok var Ofeigsdóttir; hún var stödd at messu Gudmundar prests, ok hugdi at sèr um messuna, sem hún var vön, ok horfdi hún iafnan á prestinn; en er lesit var gudspiall, ok hann snèrist utar ok sagdi: Dominus vobiscum, þá sá hún eld fara fram úr munni hans í lopt upp biartara miklu en hún hafdi fyrr slíkan sèd. Eptir þat fór hann af Miklabæ ok í Vidvík, ok er hann þar um nóttina, ok þá bydr Már Finnsson honum þar at vera um veturinn, ok þat þá hann. Þat var eitt sinn, þá er Gudmundr prestr var í kyrkiu úti á bæn sinni, þá kom Már bóndi í kyrkiu; en er hann kemr í kyrkiudyr, þá sèr hann at fugl lítill fló upp af öxlum Gudmundar í loptit ok hverfr þar. Þau misseri tyndist skip Asmundar Kastanrasta, ok fórust þar margir íslenzkir menn, þeir er mikill var skadi at. Þá andadist Hallr ábóti ok Eyríkr jarl, ok þá var bardagi í Vík austr, margt bar þá einnin annat vid í Noregi, Danmörku, ok annarstadar í löndum, þó ei sè hèr ritat. Nú er Gudmundr vetri midr en þrítugr.

9. Nú tek ek þar til frásagnar, er tvennum fer sögum fram, at Gudmundr hefir madr heitit, hann var Eyólfsson, ok bió á þeim bæ er heitir á Helgastödum í hèradi því er Reykiadalr heitir. Hann var audigr madr at fiárlutum ok vinsæll, heldr var hann sínkr kalladr. Hann átti son þann er Teitr hèt, hann var vænn madr ok vinsæll. Gudmundr átti brædur tvo, hèt annar Haldór, en annar Biörn, þeir voru fèminni en Gudmundr, en voru þó bændr bádir í dalnum, þar var þá gott bændaval. Þá bió í Fellsmúla Sigurdr Styrkársson lögsögumanns, en á Grenjadarstödum Eyólfr Hallsson Rafnssonar lögsögumanns Ulfhèdinssonar lögsögumanns Gunnarssonar lögsögumanns. Sigrídr dóttir Halls Rafnssonar var módir Gudlaugar módur Ketils prests Þorlákssonar [1]). En er Teitr vóx upp, var honum kvonfángs leitat. Þórólfr hèt bóndi, hann var Sigmundarson, hann bió í Eyafirdi á bæ þeim er

[1]) módurfödur míns, einnin módurfödur Narfasona, bætir *EV.* vid.

í Mödrufelli heitir. Hann var í gódra bænda virdíngu, hann var dótturson Haflida Márssonar. Þórólfr átti konu þá er Steinun hèt, hún var dóttir Þorsteins Ránglàts, þau áttu 3 sonu, ok er þeirra hèr ei vid gètit. Dóttur áttu þau eina er Oddkatla hèt, hún var harla væn kona ok kunni allt vel fyrir sèr. Þeirrar konu var bedit til handa Teiti, þat þótti iafnrædi, hann var kynstærri, en hún fèmeiri, ok hvorutveggiu hit vinsælasta. Nú er hún föstnud Teiti, ok eptir þat fór hún heim til bús þess er þau áttu, tók hún þegar til búsforráda, en ádr höfdu ymsar matseliur verit, sídan kona Gudmundar andadist; þat var öllum vel at skapi. En nokkru seinna seldi Gudmundr af hendi sèr búit ok alla fiárhluti, ok tóku þau vid, en Gudmundr rèdst á brott med þat er hann þurfti til forlagseyris, ok rèdst til Þverár ok tók múnks vígslu, en þar var þá Hallr Rafnsson ábóti. Brátt snèri fiárhagnum fyri Teiti, er Gudmundr var í brottu. Eitt sumar komu skip í Eyafiörd, ok stódu þar uppi 3 skip um veturinn, en þá var hallæri mikit, þá var Kolbeinn Tumason höfdíngi í Skagafirdi, ok hafdi hann fund at því vid hèradsmenn, at þeir skyldu ei taka minni forgipt þar í hèradinu en hann kvad á, ok lagdi fè vid, en Austmönnum þóttu þegar heldr miklar forgiptir ok vistudust þeir því ei vestr um heidi. Teitr Gudmundarson tók vid 3 Austmönnum, hèt einn Grímr er kalladr var Raudr, Erlíngr ok Hrafn, þat var þann vetur er bærarbruni vard á Mödruvöllum í Eyafirdi ok á Bakka í Midfirdi ok vídar. Teiti líkadi vel vid veturtaksmenn sína ok þótti fýsiligt at fara á brottu med þeim, því hann hafdi ekki ádr af landi farit, ok rèdst hann til skips med þeim, þá fóru ok utan fleiri menn. Teitr hèt ok madr, hann hafdi búit af Kèldum ok í Gunnarsholti, hann átti Vilborgu Gissurardóttur Hallssonar. Ok þat sumar fór utan Þorgeir son Branz biskups ok sá madr er Gudmundr hèt af Audkúlustad. Annat sumar ádr hafdi farit utan Þorvardr Asgrímsson hinn audgi, ok um hvörn þeirra í sinni sveit þótti hinn mesti skadi þeim er eptir voru, en eingi þeirra kom aptr híngat til lanz. Þat var þá sidvani, at Brandr biskup fór hvört sumar um fiórdúng sinn ok gisti [at annari hvorri kyrkiu [1]),

[1]) annathvort sumar at flestum kyrkium. *EV.*

ok átti þá at gista á Helgastödum at búi Teits. Þá hafdi Oddkatla þar bod inni ok baud þángat frændum sínum ok vinum, Þórólfi födur sínum ok Olafi Þorsteinssyni módurbródur sínum, ok Eyólfi Hallssyni, er átti Gudrúnu Olafsdóttur sytrúng Oddkötlu. Þann dag er biskup sat þar, þá urdu þar nokkrir kynligleikar, þá er konur geingu um beina um dagverd; þá syndist Oddkötlu Teitr bóndi sinn sitia millum manna nokkrum sinnum, en þá hún hugdi at, sá hún aungvan honum líkan, ok mátti hún ei gánga at beina sökum þess, ok ádr menn færu braut, þá heimti hún til sín födur sinn ok trúnadarmenn sína, ok bad at skipta skyldi fè med þeim Teiti bónda hennar, en þat þótti kynligt, þvíat þau untust miök vel medan þau voru ásamt. En þá hún sagdi þeim þetta, voru þeir ótraudari. En hún átti at hafa mund sinn ok heimanfylgiu, ok var ákvedit hvat hún skyldi hafa í löndum ok lausum aurum, en hún kvadst hvorki mundi skilia vid Teit bónda sinn fè nè samvistir, ef hann kæmi til. En þat sumar hit sama, er skip komu, þá var sagt út lát Teits, hann hafdi andast um vorit í Noregi, þau áttu ekki barn saman. Þá tókst upp umræda, hvörr erfíngi Teits væri, þótti þar veidi í höndum ok fiárvon mikil, var þat margra manna mál, at fadir hans mundi erfa hann, en brædur Gudmundar Haldór ok Biörn kölludu at Gudmundr ætti ei fè at taka nè annast, er hann hefdi tekit múnksvígslu; þar geingu menn at sveitum ok hèldu sitt hvorir [1]), en Eyólfr Hallsson á Greniadarstödum lèt synna, at bera mundi undir Gudmund. Eyólfr átti syni tvo ok vildi fá hvoriumtveggia stadfestu ok fór til Þverár, ok faladi at Gudmundi löndin ok erfdina ok keypti sídan litlu ok nær hálfvirdi [2]), ok skyldi siálfr ábyrgiast hvat lög bæri. Ok er þeir Haldór ok Biörn frèttu þetta, þá þoldu þeir illa vid ok þótti sín eign vera, unnu Eyólfi illa at nióta, en voru miök fèþurfa. Eyólfr keypti fèit milli ióla ok föstu, en í páskaviku fóru þeir brædur inntil Eyafiardar til Hörgardals at finna godordsmenn sína, annar þeirra var í þíngi med Þorvardi Þorgeirssyni, hann bió þá á Mödruvöllum í Hörgardal, en annar med Ögmundi Þorkèlssyni á Laugalandi, ok báru fyrir þá vandrædi sín ok bádu þá ásiá, ok

[1]) ok voru margir hvorirtveggiu, *EV.* [2]) litlu betr en hálfvirdi, *EV.*

þar kom at hvörr þeirra handsaladi sínum godordsmanni heimtu fiárins, hvatki þeirra hlutr verdr af siálfra, ok fóru þeir vid þat brott, ok spurdust þessi tídindi. En um vorit eptir páska skipar Oddkatla lönd sín ok tók þá til þess fiárskiptis, er verit hafdi hit fyrra sumarit, ok fór af Helgastödum med allt sitt inn til Mödrufells til födur síns, ok er hún úr þessari sögu.

10. Eptir þetta hittust þeir höfdíngiarnir Þorvardr ok Önundr, ok rèdu þat med sèr at hverfa at bádir saman, ok fóru heiman ok nordr til Reykiadals ok höfdu nær 50 manna, ok settust í bú á Helgastödum, en þat frètti Eyólfr brátt, því hann átti skammt at spyria, ok safnadi at sèr mönnum, ok rèdst þar til med honum Sigurdr búi hans Styrkársson ok Isleifr ok Asbiörn brædur Eyólfs, ok Kleppiárn Klængsson, hann átti Ingigèrdi systur Sigurdar. Þángat rèdst ok med þeim Eyólfi Hiálmr Asbiarnarson úr Vestrhópi ok Asgrímr Gilsson úr Vatnsdal, er átti Járngèrdi systurdóttur Eyólfs, ok Már Gudmundarson náfrændi Eyólfs, hann átti Helgu Snorradóttur Kálfssonar. En med Önundi var Einar Hallsson frá Mödruvöllum, þeir áttu bádir godord saman ok frændsemi, þá höfdu hvorutveggiu setur fiölmennar, þá fór Eyólfr til Helgastada, ok máttu þeir ekki sættast, þvíat hvorutveggiu kölludust allt [1]) eiga þat er þeir deildu um, ok urdu eingin midlunarmál med þeim, þvíat hvorugir vildu láta nè eitt af sínu máli, ok var þat sídan at stefnuför, ok stefndi Eyólfr Önundi um afneyzlu fiárins, ok kallar síns neytt vera; Þorvardr stefndi Máfi Gudmundarsyni, stefnt var ok tveimr sonum Önundar Hámundi ok Vígfúsi, ok þeim manni er Valgardr hèt. Þeir biuggu þessi mál til Vödluþíngs.

11. Madr er nefndr Gudmundr ok var Þorvalzson, hann var kalladr hinn dyri, hann bió í Öxnadal á þeim bæ er á Bakka heitir, hann var bródir Asgríms födur Þorvardar ens audga ok Alfheidar, er átti Gissur Hallsson, ok Vígdísar, er átti Forni Sökkólfsson, er Fornúngar eru vidkèndir, ok var sammædri vid Þórd Þórarinsson at Laufási. Gudmundr hafdi godord at medför, er átt

[1]) margt, *EV.*

hafdi Asgrímr bródir hans ok Þorvardr audgi, hann var med hvorigum at þessum málum. Hann safnadi at sèr mönnum bædi sínum þíngmönnum ok annara, ok fór vid þat til vorþíngs. En er menn voru til þíngs komnir, var ekki um sættir at leita, þvíat hvorutveggiu kölludust allt eiga cinir, þat er um var deilt. Þeir Önundr ok Þorvardr heitudust þess at leita [1]) ekki lögvarna fyrir sik, ok veria málit med bardaga, en Gudmundr gèkk sva ímilli med flokk sinn at hvorki vard bardagi nè saksóknir, en þeir, er saksóknir höfdu tilbúit, nefndu at því votta, sem lög stódu til, at taka sva búin mál upp á alþíngi sem til vorþíngs voru búin, er þar mátti ei sækia at lögum, ok sleit vid þat þínginu. Þá biuggust menn til alþíngis, er at því kom, ok fór hvorgi þeirra til þíngs Önundr nè Þorvardr. Einar Hallsson fór med godord Þorvardar, en med godord Gudmundar sá madr, er Snorri hèt ok var Grímsson frændi Þorvards, þeir beiddu þá ekki svara fyri sik edr leggia þar hlut sinn vid, sögdust mundu klappa um ef málin kæmi aptr heim í hèrad. Olafr Þorsteinsson baud Kleppiárni hvört er hann vildi heldr fara til þíngs ok veita Eyólfi, edr vera heima ok gæta hèrads. — Kleppiárn fór til þíngs, en Olafr var heima, en þeir Önundr ok Þorvardr sátu í búum sínum um þíngit, hlífdu svo setunni ok giördu aungvum manni til meins. Ok er menn komu heim af þíngi, þá voru þeir Önundr ok Þorvardr kalladir sekir, ok fóru þá í setu hvorutveggiu, ok söfnudu mönnum at hvörinm sem þeir feingu. Nú dró at fèránsdómum ok sóttu menn lángt til, þá kom austan úr fiördum Teitr Oddsson mágr Þorvardar at veita honum, þá var kominn til ráda í Skagafiörd Sigurdr Ormsson med Þurídi Gissurardóttur, er átt hafdi Tumi Kolbeinsson, èn Kolbeinn Tumason var utan farinn, ok skyldi Sigurdr hafa mannaforrád eptir. Gudmundr sendi Sigurdi ord at hann skyldi fá honum nokkut lid, ok fèkk Sigurdr honum 40 manna alla vel búna. Ok þann dag, er fèránsdómar skyldu vera, fór Gudmundr heiman med 2 hundrud [2]) manna ok fór á hálsa milli Hörgárdals ok Kræklíngahlídar ok mætti þar flokki Eyólfs, en fèránsdómar voru nefndir annar á Mödruvöllum, en annar á Laugalandi. Nú fara þeir Önundr ok

[1]) leggia. *EV.* [2]) hálft annat. *A. Gr.*

Þorvardr med flokki sínum á móti flokki Eyólfs, en er Gudmundr hafdi stödvat flokk Eyólfs, þá sneri hann aptr þartil er hann mætti flokki þeirra Önundar ok Þorvardar ok stödvadi þá ok gèkk þar ímilli, þvíat Eyólfr kalladi þat lög, at þeir hoidu þar fèránsdóma í lidi sínu er þeim væri óhætt fram at koma, en þeir Þorvardr ok Önundr hètu því at þegar skyldi bardagi vera. Þá geingr Gudmundr milli ok segir at hann mundi þeim í mót, er ei vildi hlyda því er hann mælti, ok vard eingi fèránsdómr ok eigi bardagi, ok fóru menn vid þat á burt þá er á dag var lidit, þvíat þat var mælt í lögum, at fèránsdómsgögn skyldu framkomin, er sól væri í sudri, ok fóru menn vid þat á burt ok fè setur hvorutveggiu, en þeir menn til hèrada sinna, er leingst voru atkomnir, sátu þá hvorutveggiu vid fiölmenni. Víst var miklu betri á Helgastödum at atbúnadi [1]), ok vard því betra til einhleypínga, en fór um tilfaung sem verda mátti, þá er búit stódst ei. En at Eyólfi var borinn hvalr ok egg, ok var neytt alls þess er ætt var, ok haft þat eitt er Eyólfr átti. Þá er fættast tóku faung á Helgastödum, urdu rán, ok var ræntr sá madr, er Þorgeir hèt ok var kalladr Hlífarson, hann bió á þeim bæ er í Nesi heitir, ok annar sá er Hallr hèt ok var Isleifsson, ok hann vildu þeir taka siálfan, en hann komst út um glugg á húsum sínum, ok reid vid þat á burt hesti þeim er þeir áttu, en þeir báru burt þadan mat ok tóku fè. En er þeir fóru aptr, þá ádu þeir í túni á Greniadarstödum, ok eggiudu menn ofan úr virki, þvíat hvorutveggiu höfdu virki um bæ sinn. Isleifr Hallsson vildi ofan gánga, ok beriast vid þá, en nádi ei fyrir sínum mönnum, ok fóru þeir Þorvardr ok Önundr til Helgastada med faung sín. Þá þótti Eyólfi oflidfátt, ok tèkk ei menn í nánd sèr. Þá fór Isleifr vestr til Skagafiardar, þvíat hann átti þar bú í Gèlldíngaholti, ok er hann kom vestr, þá fór til hans madr sá er Grímr hèt ok var Snorrason ok bió at Hofi út á Ströndinni frá Hialtadal, ok átti Þórnyu Þorgeirsdóttur systur Þorvardar, ok var hann ekki í setunni med þeim. Hann giördi heimanför sína, ok fór á Bakka til Gudmundar ens dyra ok þadan med honum, ok voru fimtan [2]) saman nordr til

[1]) at búnadi. *EV.* [2]) tuttugu. *B. C. EV. Gr.*

Reykiadals til Helgastada, ok þadan til Greniadarstada ok hittu hvorutveggiu ok leita um sættir, ok sagdi þeim þat at ei mætti setan haldast, svo at ei giördist rán edr annar ófridr med þeim. En Grímr var madr rádleitinn ok vitur ok kom á sáttum med þeim, ok þeir Gudmundr dyri. Þar fylgdi bónord, ok kom Grímr því upp, ok bad Klængr Kleppiárnsson sèr konu, Gudrúnar dóttur Þorvardar Þorgeirssonar. Þat rèdst alltsaman sætt þeirra ok þetta rád. Þar voru aungvir menn til giördar teknir, var þar allt ákvedit, skyldu hvorugir hafa lönd þau er þeir deildu um, en búfè allt var uppetit, skyldu þeir hafa land fedgar Klængr ok Kleppiárn, ok þótti Þorvardi þá bera undir sik med mægdum, skyldu þeir þó verd fyririnna þeim, er lög bæri, geingu menn til handsala fyrir rán þau, er verit höfdu, ok eru nú sáttir, rufu sídan seturnar, ok vistudust menn þeir er þeim höfdu fylgt, ok fóru vid þat í burt, ok höfdu hvorigir metord af þessum málum, þeir er um deildu, hurfu þá til Gudmundar, ok lykr þar þessum málum ádr Isleifr kom aptr, ok þóttist Eyólfr þá at eingu þurfa manna en hvörium þeirra var heitit veturvist, er teknir voru frá sumarbiörg sinni. Skildi þá á um þat brædr Isleif ok Eyólf. Sídan leysti Isleifr þá alla af hendi, ok gèkk í hvalgrafir Eyólfs, ok reiddi hverium þeirra þriár vættir, ok fóru þeir vid þat burt, en rádahagr sá tekst um haustit, ok var bod á Mödruvöllum, fór Gudrún þegar til Hrafnagils med Klængi. Þá var Asbiörn Hallsson bródir Eyólfs stadfestulaus, ok faladi hann Helgastadi, en þeim fedgum Klængi ok Kleppiárni vard iafnan búskylt, ok seldu þeir fyrir þat landit á Helgastödum Asbirni. En er Þorvardr Þorgeirsson frètti þat, þótti honum verr er landit var komit undir þá Hallssonu, en þeir kölludu sèr heimilt at selia þat fè sitt, sem adra eign sína, ok fór Asbiörn búi sínu á Helgastadi, ok lykr þar þessum deildum, hafdi Gudmundr hinn dyri mesta virdíng af málum þessum.

12. Biörn hèt madr ok var Gèstsson, hann bió í Olafsfirdi, þar er á Sandi heitir, hann var fylgdarmadr Önundar ok þíngmadr, hann var mikilmenni ok óeirinn um allt bædi menn ok fiárhluti, ok drógust opt þeir menn á hendr honum, er úskilamenn

voru, hann hafdi þat sumar allt fylgt Önundi ok kom sva úr förinni heim til bús síns, er lokit var þessum málum, ok var lítit forverk ordit, en hann átti ómegd, ok fiárhlut lítinn. Þann vetur giördust ill tídindi í hèradinu, at menn hèldu illa kvikfè, ok sva voru vída búr uppbrotin í Fliótum ok í Olafsfirdi, en þá hafdi þar mannaforrád Jón Kètilsson bródir Asgríms skálds, ok átti Jón bú at bæ þeim er í Hollti heitir, en hann var vistum at Hólum med Brandi biskupi, þá urdu menn vid varir, at illrædamenn voru í húsum Biarnar, þá fóru heiman úr Fliótum tveir bændr, hèt annar Már ok var Runólfsson, en annar Þorvardr ok var Snæólfsson [1]), inn til Hóla at hitta Jón ok sögdu honum til vandræda sinna, en hann leitadi ráds vid Brand biskup, en hann kalladi þat rád margra manna at hreinsa hèröd, ok væru þeir menn afteknir er leingi hefdu reynst at úskilum, en þat var þar er Biörn var. Sídan fór Jón út í Fliót med þeim Máfi ok Þorvardi, ok þadan fóru Fliótamenn med honum, ok voru nær 50 manna, ok fóru til Olafsfiardar, ok komu á Sand, ok var Biörn róinn. Þeir tóku skip tvö ok reyru at leita þeirra, ok hittust á sió ok var vid því búit at Biörn mundi ekki tekinn verda. Eyólfr hèt madr er á skipi var med Birni. Þeir tóku Biörn ok bundu hann á skipi, ok fóru sva til lanz med hann. Valdi hèt madr ok var Mársson [2]), hann var illrædismadr, hann höfdu Fliótamenn tekit á úrádum, ok höfdu hann med sèr, hann veitti Birni at vígi [3]) ok skyldi vinna þat til lífs sèr, ok vanust illa at, ok sídan dysiudu þeir Biörn. Nú frèttir Önundr aftöku Biarnar ok kallar sèr miök misbodit í þessu, því hann virdi menn eptir því er honum þóttu sèr fylgia, en minnr at vinsæld vid adra, ok lèt fullt eptirmál um víg Biarnar, ok kalladi hann at eingum úskilum hafa stadinn verit, er þeir tóku hann. Nú leid vetur sá til lángaföstu, ok midvikudaginn í sæludögum kom sá madr útí Fliót er Sölvi hèt ok var Biarnarson, hann kom á þann bæ er á Gili hèt, þar bió Þorvardr Biarnarson er kalladr var Skèriabiörn. Þorvardr hafdi verit at vígi Biarnar ok var Sölvi sendr til höfuds honum, en er menn fóru

[1]) Sunnólfsson. *A. B. C. Gr. E.*
[2]) Unasson. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[3]) deyddi Biörn. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

heiman til nóntída, þá rèdst Sölvi í brott ok vildi ei verda stadinn þar ok þóttist vera fálidadr. Sídan fór hann til saudahúss Jóns í Hollti, ok sat þar um aptaninn. Glúmr hèt sá madr er gætti sauda, ok um kveldit er hann kom til saudahússins, vá Sölvi hann. Eptir þetta lióp Sölvi um nóttina inn til Svarfadardals, ok kól hann á fætr miök, ok komst hann inná Strönd frá Svarfadardal, en þá var honum fylgt hús frá húsi, uns hann kom á Laugaland til Önundar, ok var hann þar sídan; ok eptir um vorit heitist Önundr at fara út í Fliót ok búa mál til á hendr þeim öllum, er verit höfdu at aftöku Biarnar, um víg hans, [því þeir voru allir vel fiáreigandi ok þóttu málin fèvænlig [1]). Eptir víg Glúms átto at mæla þeir brædur Jón ok Asgrímr, ok hafdi sá einn tilfarit er þeim þótti ekki undir hvort sekr var edr ekki, ok þóttust Fliótamenn siá, at þeir mundu ei fullnad hafa or málunum vid Önund, [ef ekki nytu þeir vid annara, ok fóru þeir brædur Jón ok Asgrímr til fundar vid Brand biskup ok leitudu ráda undir hann, en biskup kallar um þau mál, er verit hefdu mikilvænligust hid fyrra sumarit, at þar hefdi Gudmundr feingit öll hin beztu rád til, ok bad þá fara til fundar vid hann, ok hann vera fyrir málum þeirra [2]). Nú fóru þeir brædur til fundar vid Gudmund, ok bádu hann vera at málunum med sèr, en Gudmundr kvad sik ekki tilskylda, ok kvad sèr at hvorigum lángt. Siá þeir nú at þeir munu ekki af honum fá um þetta mál. Þá gáfu þeir honum Fliótamanna godord, þat var bædi fiölmennt ok velskipat, þessa giöf þá Gudmundr at þeim, ok urdu nú hans þíngmenn allir þeir er sakirnar höfdu til. Sídan var stefndr sáttarfundr med þeim Gudmundi ok Önundi, ok sættust á mál sín, ok voru menn teknir til giördar, Hallr prestr Gunnarsson af Mödruvöllum ok [Biörn prestr Steinmódarson af Yxnahóli [3]), ok giördu þeir iafnmikla sekt fyrir víg Glúms ok aftöku Biarnar, [ok kölludu þeir því fèvænna málit eptir Biörn, sem þeir voru fleiri vid, ok kölludu hann þó eingra bóta verdan, ok skildu at því, at hvorirtveggio skyldu bæta sínum mönnum [4]).

1) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
3) adrir bestu menn. *A. B. C. E. Gr.* þ.
4) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

13. Gudrún hèt kona ok var þórdardóttir, hún átti bú á þeim bæ er heitir á Arnarnesi útá Strönd frá Hörgárdal, hún var bædi væn ok kurteislig, [hún átti þar bædi lönd ok bú; hún var úng kona ok hafdi tekit vid födrleifd sinni [1]), hún þótti þar bestr kostr iafnborinna kvenna. Hennar bad sá madr er Símon hèt, son þorvardar er kalladr var Kamphundr, hann var vinsæll madr ok þótti þetta iafnrædi med henni, ok var þat rád or giört, ok eptir þetta fór Símon í bú med henni; ekki var samlag þeirra hægt, ok sva giördist brátt, at Gudrún fór stundum frá búinu, en stundum heim, en Símon var hinn hógværsti madr, þau varo saman tvo vetur, ok var hinn sídara veturinn hægra med þeim, ok var hún þá heima. þá var föstumatar fátt. Ok er lángafasta kom, mælti hún at hann skyldi sækia föstumat út á Siglunes, er hún átti at födur síns, þá fór hann ok sigldi út eptir firdi, ok sigldi á stein upp er kalladr er Svarthöfdasteinn, þar druknadi Símon ok húskarlar hans tveir, ok var þá Gudrún ekkia eptir. þat sama sumar bad hennar sá madr er Rafn hèt ok var Branzson vestan úr Skagafirdi úr sveit Gríms Snorrasonar, ok gèkk hún med þessu máli, en þorvardr þorgeirsson var til umsiár med henni, ok færdu þeir mágar þau mál saman, at Gudrún var föstnud Rafni, ok var brúdkaup þeirra at Gríms, ok var þat sagt, at hún hliöp úr hvílu ena fyrstu nótt er Rafn var innar leiddr. þá fóru þau nordr til Arnarness til bús síns, ok tók Rafn vid umsyslu, en Gudrún er ei enn allskapvær vid bónda sinn, hliöp hún brott um sumardag vestr til Hofs, ok tók Grímr vel vid henni, ok var hún þar um ríd, þá var hún vör vid at Grímr ætladi til skips er kvamit var í Eyafirdi med hana, en hún vildi ei þat, hliöp hún þadan brott á laun, ok vard eptir fararskióti hennar, hún nam ei stadar fyrr en hún kvam út á Siglunes til þorvardar Kamphunds, kvam hún þar grátandi ok kvedst unna hvívetna af Símoni. þorvardr tók vel vid henni, ok var hún þar leingi. þorvardr var því vanr hvört sumar at færa [2]) föstumat inn til Eyafiardar ok selia bændum, ok enn giördi hann sva at hann sigldi inn eptir firdi ok hafdi Gudrúnu med sèr, hann fór til Gása, þar voru kaupskip. þor-

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ. [2]) feria. *A. B. Gr. E.* þ.

vardr tialdadi þar, ok var Gudrún í tialdi med honum. Þeir menn voru þar fyrir, er nokkut er vid gètit, Þórdr Þórarinsson úr Laufási ok synir hans Hákon, Hildibrandr ok Dagstyggr. Eittsinn bar saman fundum þeirra Hákonar ok Gudrúnar, sva þeim vard at málserindum, en opt höfdu þau sèzt, en af því tali gèkk Hákon hvörn dag til máls vid hana, medan þau voru þar. En er Þorvardr hafdi keypt slíkt er hann vildi, bióst hann í brott ok hafdi Gudrúnu med sèr, ok er hann kom vid Arnarnes, gèkk hann þar á land ok fylgdi Gudrúnu til húss ok bús ok til bónda síns. Sídan fór hann heim, ok er hann or sögunni. En þadan frá vöndust komur Hákonar í Arnarnes, ok fór sva fram allan þenna vetur. Einn dag mælti Gudrún til Hákonar ok kvedst ei vilia komur hans, medan Rafn væri á lífi, en giör sem þeir synist sídan. Þess er gètit einn dag, at þau sátu á þverpalli þriú, Hákon ok Hildibrandr bródir hans ok Gudrún ámilli þeirra, ok töludu margt [1]), en Rafn lá í bekk ok reist span, því hann var hagr, sídan rísa þeir upp brædur, ok er þeir geingu utar eptir gólfinu, þá lagdi Hákon til Rafns med spióti [2]) lágskèptu, ok kom lagit fyrir bríóst honum, ok í annat sinn lagdi Hákon til Rafns, ok var þat svödusár. Sídan geingu þeir út brædur, en Rafn tók til axar, er hiá honum lá, ok reis upp, en Gudrún tók til hans ok bad hann ei framgánga [3]). Hann mælti, skamt mun farit verda, þó bröstuliga [4]) sè látit. Þá spurdi hún, hve miök hann var sár. Hann svaradi, grunn verda svödusárin, en svída gèt ek bríngspala dílann um stund. Rafn lá 3 nætur í sárum ok fèkk alla reidu, ok andadist sídan ok var færdr á Mödruvöllu. Nú þótti höfdíngium ærinn uppgángr Gudmundar, giördist hann þá fiölmennr. Hann hafdi tekit af Vödluþíng, skyldi þat [5]) ei sóknarþíng heita, þóttu honum þar verda stórdeildir, sem á alþíngi. Höfdíngiar hugdu gott til at taka eptirmál um víg Rafns. Gudmundr var fyrir málinu, því Hákon var bródurson hans. Þá leitadi Gudmundr sèr ráds, ok sendi mann er Valgardr hèt vestr til Skagafiardar á fund

[1]) lágt. *A. B. E. Gr.* þ.
[2]) hió — med öxi. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[3]) útgánga. *C. St.*
[4]) hreystiliga. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[5]) þar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Erlends, hann var Branzson ok bródir Rafns, ok átti eptirmál ok fèbætr at taka eptir Rafn. Gudmundr lèt bióda honum til sín ok bad hann segia, at hann mundi þannveg mestar bætr taka eptir bródur sinn. Erlendr fór vestan med Valgardi ok tveir prestar, Flosi prestr Þóroddsson, er bió á Silfrastödum, ok Biörn prestr Olafsson, er bió undir Felli í Skagafirdi, ok komu þeir á fund Gudmundar, ok tók hann allvel vid þeim, ok sendi eptir Þórdi ok sonum hans, ok fóru þeir til Steinastada, þar átti Gudmundr bú, þat er þar ödrum megin ár. Sídan leitadi Gudmundr um sættir, en Þórdr kvèdst ei bæta Rafn fè, nema Gudrún bætti at helmíngi, kalladi hana ráda [1]) bana Rafns, en Gudmundr vildi þat ei heyra nè ofrast láta, ok sættust at því, at þeir Gudmundr ok Flosi prestr giördu, ok giördu þeir 15 hundrud um víg Rafns þriggia álna aura, ok gallt Gudmundr hvörn eyri þá þegar, hann gallt lönd tvö fyrir vestan heidi, hèt annat í Hálfdánartúngu, en annat at Uppsölum hid næsta Silfrastödum. Sídan gaf Gudmundr þeim giafir prestunum, voru þá ok veittar trygdir eptir víg Rafns, ok urdu höfdíngiar ei varir fyrr en þessu var lokit. Sídan fèkk Hákon Gudrúnar, ok var vid hana hardr, ok kvad sèr skyldi ei þat verda, at hennar menn stædu yfir höfudsvördum hans, ok verdr þar nú frá at hverfa.

14. Helgi hèt prestr, hann var Haldórsson, hann beó á bæ þeim er heitir í Arskógi inn á Strönd frá Svarfadardal, hann beó vid konu þá er Herdís hèt, er átt hafdi Brandr Gèllisson, er þar hafdi búit ok veginn var í kyrkiudurum. Þórdís hèt kona sú er Helgi prestr átti, en Þorgèrdr hèt módir hennar ok var Þorgeirsdóttir. Þorgèrdr beó á bæ þeim er á Brattavelli heitir ödrum megin ár þar er Þorvalzdalr er kalladr, hún átti land þat er hún beó á, ok vildi hún láta giöra upp stofu sína. Helgi prestr sysladi um med henni ok annat þat er hún þurfti. Sá madr var þar í sveit er Ingimundr hèt, hann var einhleypíngr ok hagr, hann rèdst þángat til stofusmídar, hann giördi stofuna ok dvaldist þar um veturinn, sídan var hann þar miök leingi, ok var þat mælt, at hial væri á med þeim, taldi eingi at því, af því at meinalaust var, ok var þá lidligra hans rád ok sva bú hennar, þar

[1]) rádit hafa. *B, C, E, Gr, St.*

kvam þá, [at honum endist ei gæfa til þess [1]), ok elskadi hann þá adra konu er Asgèrdr hèt, ok var hún vistum á Kálfskinni, ok fer Ingimundr þángat opt, ok vard þeim Þorgèrdi þetta at sundrþykki [2]), ok stökk Þorgèrdr í brott stundum af því ok ofan í Arskóg, ok föstudaginn næstan eptir iól fór Ingimundr at hitta Asgèrdi, ok er hann kvam heim, urdu þau Þorgèrdr sundrorda, ok liόp hún í brott um kvöldit ok ofan í Arskóg, ok var þar um nóttina, ok um aptaninn er menn sátu at [3]) náttverdi, þá kvam Ingimundr þar ok vildi hafa Þorgèrdi í brott med sèr, en hún vildi ei fara med honum. Þá spurdi Ingimundr Helga prest, ef hann vildi sèr nokkru afskipta um þetta rád. Prestr mælti, þat vilda èk, at Þorgèrdr sè aldrei dregin hèr naudug milli húsa, ok skal vist hennar heimil, hvört hún vill heldr vera, ok voru þau bædi þar um nóttina. Þar var karlfátt heima ok hvíldu allir menn í stofu, ok er menn voru sofnadir, þá gèkk Ingimundr út, hann hvíldi í lángbekk, en konur í þverpalli, liós brann í stofunni ok var dregit upp, ok er Ingimundr kvam inn, gèkk hann at Helga ok hió í höfud honum med exi, ok vaknadi hann ekki híngat í heim, sva menn vissu. Sídan liόp Ingimundr brott ok kvam í Arskóg hinn ytra ok kalladi á Sumarlida er þar beó, ok mælti, at hann skyldi bidia fyrir Helga presti. Sídan fór hann til þesss er hann kvam vestr til Hóla ok hitti Brand biskup, ok bar upp fyrir honum vandrædi sín, en biskup vildi ei skripta honum, ok kalladi hann þess verdan, at hann væri tekinn af lífi, en kvad þat ei sitt at giöra, en taldist ei til fær at skripta honum, en lèzt mundi leggia til umrád med honum. Sumarlidi hèt madr ok var Asmundarson, er beó at Tiörn í Svarfadardal, hann var frændi Ingimundar, ok sendi biskup hann [4]) ok tók Sumarlidi vid honum. Helgi prestr var frændi Þorvardar Þorgeirssonar, en þíngmadr Önundar Þorkèlssonar, ok fèkk sinn mann hvor þeirra at sitia í búinu at Þorgèrdar, ok skyldu þeir vinna fyrir búi hennar, ok sitia fyrir at Ingimundr væri þar ei,

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) sundrlyndi. *C. St.*
[3]) yfir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) þángat bæta *A. B. C. E. Gr. St.* þ. **vid.**

ok veida hann ef þeir mættu. Madr hèt Þórarinn ok var kalladr Ofláti, er Önundr fèkk til, annar hèt Jón [ok var Olafsson er kalladr var Skólpa [1]), hann fèkk Þorvardr til. Nú sátu þeir í búinu, en er voradi, þá ei Ingimundr sva vistina af Sumarlida, sem vera átti, ok lióp hann inná Strönd at hitta Asgèrdi, ok hafdi hana brott ok út til Svarfadardals á bæ þann er heitir á Reykiarhamri, þar bió sá madr er Eyólfr hèt ok var kalladr Sópi. Nú urdu þeir varir í Hörgárdal, hvar Asgèrdr var nidrkomin, ok fóru heiman átta menn ok kvamo á Brattavöll. Þeir fóru þá þadan Þórarinn ok Jón, ok voru þá tíu, ok kvamo á Reykiarhamar snemma um myrgininn, ok urdu varir vid at Ingimundr var þar í útihúsi einu, ok eggiudu hann útgaungu. Hann svaradi ok kvad vera lidsmun mikinn. En Jón Olafsson sagdi, at hann skyldi af honum einum eiga úfridar van, en ekki af ödrum mönnum. Þá giördi Ingimundr skeid at durunum, ok hugdist mundi sæta áverkum vid Jón, [því hann var beint fyrir durunum [2]), ok lióp hann út sídan, en Jón va hann þegar er hann kvam út. Sídan grófu þeir hann í skafl [3]), ádr þeir geingu frá. Eyólfr lióp í brott af bænum ok til Tiarnar, ok sagdi Sumarlida svabúit, en hann fèkk sèr menn [4]) ok fór eptir þeim vid fimtánda mann, ok hittust ekki, ok var þat vel, ok urdu þessar einar bætr eptir Helga prest, ok þat er þeir feingu á biörgum Ingimundar, en þeir feingu ekki af Sumarlida, ok taldi hann sèr miök misbodit í vígi Ingimundar, ok hafdi ætlat at gèfa fè til utanferdar honum. Þat var ed sama var bónord í Svarfadardal, ok bad konu sá madr er Snorri hèt ok var Grímsson vestan úr Skagafirdi frá Hofi, hann bad þeirrar konu er Þurídr hèt systir Sumarlida, ok var hann fyrir svörum med systur sinni ok módir þeirra. Grímr fadir Snorra var vitur madr ok lítill vexti, ok var kalladr Ref-Grímr [5]). Sumarlidi svaradi svívirdiliga at því er þeim þótti, ok kvadst ei mundo gèfa systur sína þeim Reflíngum, ok bar [6]) í sundr. Gudmundr Arason var þá stadarprestr á Völlum í Svarfadardal. Hann lèt bera

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vantar í *C. St.*
[3]) í skafli, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) manna. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) Grímr Refr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) skyldi þá, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Ingimund brott upp í Uxadal [1]), ok lá hann þar til þess er menn kvamo af þíngi [2]), þá lèt Gudmundr prestr hann upptaka ok færa heim á Völlu ok grafa.

15. Runólfr hèt madr er beó á þeim bæ er at Gardshorni hèt skamt frá Tiörn; hans sonr hèt Brandr, hann var úngr madr ok fráligr. Þar var ei lángt [3]) milli húsa, ok einn dag helgan fór Brandr til tída þángat, ok reid ótömdu rossi, ok vard laust rossit um hámessu, ok gèkk í tún; fór Brandr þá til ok tók rossit ok mátti ei rída, ok fór þat vídar en ádr. Þá hlióp Sumarlidi at med lurk ok bardi bædi Brand ok rossit, ok kvamst hann med illann leik brott, sva at hann var trautt einfær. Þá voru enn skip at Gásum, ok var þar mikil kaupstefna. Þá bar kyrkiudag [4]) á Yxnahóli á annan dag viku, ok kvamo menn drottinsdag til bodsins. Þar kvam Gudmundr hinn dyri ok Önundr, ok voru ross manna færd til gæzlu, en Önundr lèt hafa hesta sína í höptum vid bæ heima. Mánadaginn var rúmheilagt annarstadar, en þar at skipunum var fiölmennt, beoggust þá adrir í brott er adrir kvamo. Sá madr bióst í brott er Flosi hèt ok var prestr at Silfrastödum, ok hófu menn upp klifiar med honum, ok var þar at Sumarlidi fra Tiörn, ok studdi klifina. Þá reid madr at honum á folaldi, ok var í feldi [5]) grám, ok hafdi grímu fyrir andliti; hann stè af baki óg lypti upp grímunni, var þar Brandr Runólfsson, hann mælti, at Sumarlidi skyldi þá vid horfa, ok er nu ei verr en um sumarit, er þu rakst mik úr túninu, ok þá hió Brandr á herdar honum med breidexi, ok var þat allmikit sár. Þar var hiá Þorsteinn Eyólfsson er kalladr var Urdarsteinn, ok vildi hann taka Brand, ok þar var hiá Snorri Grímsson, ok tók hann Þorstein ok annar madr sá er Biörn hèt ok var Olafsson, þeir hèldu Þorsteini bádir. Þóroddr hèt prestr, hann var Grímsson, heimamadr Önundar ok frændi Branz, hann skaut hesti undir hann ok reid hann í brott. Sídan rída menn eptir honum ok vard hann ei

[1]) Efstadal. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) alþíngi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) mart. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[4]) var kyrkiudagr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) kufli. *C. St.*

nádr. En tídindi þessi kvamo á Yxnahól, þá er menn fóru til aptansaungs, en er hann var súnginn [1]), þá voru södladir hestar þeirra Önundar, hann lèzt fregnat hafa, at prestr hans var vidridinn, ok reid til skips, en er hann kvam aptr, spurdi Gudmundr tídinda fra skipum, en Önundr sagdi særdan [2]) Sumarlida ok kvad hann skammæligan [3]). Gudmundr spurdi at Brandi, en Önundr sagdi, at Kolbeinn Tumason hefdi geingit útá skip ok mart manna med honum, ok kvad sagt vera, at Brandr hefdi þar verit í flokki hans. Sídan reid Gudmundr til skips ok var þar um nóttina, ok mælti þar um slíkt er hann þurfti, þvíat Sumarlidi var þíngmadr hans ok frændi. Sumarlidi lifdi til iafnleingdar annars dags ok andadist þá, ok var færdr á Völlu í Svarfadardal, en Biörn Olafsson fylgdi Brandi á Vídimyri til Kolbeins Tumasonar, en Kolbeinn lèt fylgia honum austr til Svínafells, en Sigurdr Ormsson kvam honum utan, ok andadist hann á sudrvegi. En um varit [4]) eptir beó Gudmundr mál til á hendr Brandi um víg Sumarlida, en á hendr Snorra Grímssyni um fiörrád ok vetfángsbiargir, ok fóru mál þessi öll til þíngs, ok veitti Önundr Gudmundi þá at málum ok var sæzt á málin, nema á víg Sumarlida, þar svaradi eingi fyrir Brand ok vard hann sekr. Snorri gallt tólf hundrud ok var brott giör or Skagafirdi, ok fór hann sudr í Odda. Biörn Olafsson gallt sex hundrud ok skyldi vera hèradssekr, Þóroddr prestr gallt þriú hundrud ok skyldi vera þar er hann vildi.

16. Nú hefir fleira ordit senn en einn hlutr ok verdr þó frá einum senn at segia fyrst. I þann tíma var bónord í Hörgárdal, ok bad Þorfinnr Önundarson konu er Ingibiörg hèt ok var dóttir Gudmundar hins dyra, hún var laungètin, ok hèt Valdís módir hennar. Gudmundr taldi henni fullkostá þar sem Þorfinnr var, ef þat væri at guds lögum giört, en þar var frændsemi med þeim ok kallar Gudmundr þat ei sitt rád at gèfa hana Þorfinni, þar er hvorki voru til þess guds lög nè lanz. Þeir fedgar möttu þessi svör til svívirdíngar ok virdu einskis hvat Gudmundi gèkk til. Sá

[1]) búinn. *C. St.*

[2]) líf. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) skammædiligan. *A. B. Gr.* þ. mædiligan. *C. St.*

[4]) sumarit. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

skapsannmarki lagdist á fyrir Gudmundi, at hann elskadi konur fleiri en þá er hann átti, hann átti Arnúísi dóttur Páls prests Sölvasonar or Reykiaholti. Gudmundr átti fiölda þíngmanna úti Svarfadardal ok náfrændr, ok fór hann þángat bædi haust ok var at heimbodum. Eitt vor var þat þar at heimbodi, at honum bar fyrir augu konu þá, at honum leizt bædi væn ok oflátlig [1]), er Þorgerdr hèt ok var Asbiarnardóttir, er kalladr var Valfrekr, hann var bródir Eyólfs Ofláta. Gudmundr tekr hana ok hefr med sèr, ok setr hana nidr í Myrkárdal. Þat sumar kvam [2]) skip ok voru á margir íslenzkir menn, þar var á sá madr er Bergr hèt ok var Þorsteinsson, annar Illugi ok var Jósepsson, hann var kalladr Hallfrekr [3]), þridji Þormódr ok var Einarsson, ok voru þeir allir sveitarmenn. Fóru þeir Bergr ok Illugi til Gudmundar at vistarfari, en Þormódr á Hrafnagil til Kleppiárns, en þeir skildust ekki sáttir, ok sagdi Þormódr sèr horfit lèrept ok annan varníng ok kèndi þat Illuga, at hann mundi annattveggia vita eda valda ella siálfr. Þat haust fór Gudmundr út í Svarfadardal, þar var sá madr er Þorsteinn hèt ok var Skèggiason, hann var skrínsmidr, ok [hvörium manni hagari [4]), ok tók mikit kaup á skammri stundu, honum vardist þat sva, at hann háfdi mat ok klædi ok ekki um þat fram. Hann hafdi ádr talat vid Þorgèrdi en Gudmundr tæki hana til sín. Þá fór Gudmundr til fundar vid Þorstein ok baud honum til vistar med sèr ok ödrum manni med honum er enn hèt Þorsteinn Skèggiason ok var kalladr Skáldsteinn. Þeir voru þar allir senn ok þeir menn er ádr komu út ok nefndir voru. Þorfinnr fór þángat iafnliga ok taladi vid Ingibiörgu þann vetur, en um varit reid Illugi til Hrafnagils ok hitti Þormód, ok spurdi ef hann vildi halda á því er hann hafdi mælt um haustit, edr vildi hann þat aptrmæla. En Þormódr kvedst ætla, ef hann væri valdr eda vitandi um haustit, at þat mundi ei hafa skipast um varit. Þá hió Illugi til Þormódar af rossbaki ok kvam á herdar honum, ok vard þat mikill áverki. Sídan reid Illugi í brott ok lupu menn

1) kurteyslig, *A, B, C, E, Gr, St,* Þ

2) út, bæta vid; *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

3) vantar í *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

4) ok gagnadist mörgum manni, *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

eptir honum allt til bæar þess er at Kroppi heitir, þar var fyrir Þorsteinn Urdarsteinn ok Þorsteinn Arnþrúdarson, ok höfdu þeir hans þá ekki er eptir fóru. Þormódr vard græddr ok aldrei alheill. Sídan var sæzt á málit ok skyldi Illugi bera iárn ok færast undan þessu illmæli, ok skyldi Brandr biskup giöra skírslo ok sva sáttina eptir, ok fór þat fram, at Illugi bar iárn ok vard hann skír miök [1]), en sætt var lítil giör, ok þótti mikils vert illmælit, er hann hafdi aldrei verit vid þat kèndr ádr nè sídan. Illugi fór utan þat sumar ok kvam út um haustit þat sama ok rèdst hann á Mödruvöllu í Hörgárdal, ok beó þar þá Þorgrímr Vígfússon er kalladr var Alikarl, hann átti Gudrúnu dóttur Önundar Þorkèlssonar, ok var Illugi med Þorgrími þann vetur, ok um vorit kvongadist Illugi ok fèkk þeirrar konu er Finna hèt, er þar bió er á Hlödum heitir. Þann vetur voru skip at Gásum, ok um vorit var kaupstefna mikil, þar voru þeir Fornúngar ok áttu þeir sèr einir tiald teingdamenn Sökkúlfr Fornason ok Höskuldr. Þar var Þordís, [er Sökkulfr átti [2]), dóttir Dada Illugasonar vestan úr Skagafirdi, ok Þrándr Dadason, hann átti Signíu Gudmundar dóttur ens dyra, ok þar var Ingibiörg systir hennar, ok þar var Gudmundr iafnan er hann var vid skip. Þá fór Gudmundr inn í fiörd, ok er hann var í brott, þá kvam Þorfinnr um daginn í tiald þeirra, ok sat á tali vid Ingibiörgu, ok gèkk hann ei fyrr í brott en at náttverdar máli, ok er þeir biuggust til rekna, þá kvam þar Þorfinnr ok þeir þrír saman ok töludu vid Ingibiörgu, ok vard þeim þat vid búdardvöl. Þá mælti Sökkúlfr, bidia vildum vær þik Þorfinnr, at þú hefdir ei híngatkvamor edr náttfarir til tialds vors medan Gudmundr er ei hèr, en þá manom vèr oss eingo afskipta, er hann er hèr. Þorfinnr svarar, ekki mein man þèr at kvamom mínum, ef þú vilt þèr ekki mein at giöra. Sídan reis Þorfinnr upp ok tók í hönd Ingibiargar ok vildi leida hana brott. Sökkúlfr seildist til ok hnykti henni aptr í tialdit, þá brá Þorfinnr sverdi ok vildi höggva til Sökkúlfs, ok hió hann í tialdtriónarnar [3]), er ímilli þeirra voru, ok hió í sundr buklarafetil,

[1]) vel. *A. B. E. Gr.* þ. vantar í *C. St.*
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) tialdtrönurnar. *A. B. C. E. Gr. St* þ.

er þar hèkk á, ok fèll hann ofan ok tók Sökkúlfr hann ok hlífdi sèr med, en Þorfinnr ok förunautar hans hörfudu út or tialdinu, ok hiuggust þar til um tialdtriónarnar at þeir skeindust bádir nokkut, en hvörgi sva at þat mætti áverki heita, ok fóru vid þat í brott, en eptir voru buklarar þeirra þriggia, ok sótti þá Þóroddr prestr ok mælti til vel, ok voru þeir honum í hendr seldir. En annan dag eptir kvam Gudmundr til skips ok hafdi Ingibiörgu heim med sèr, ok lögdu hvorugir ord til um þetta, heldr en ekki hefdi i ordit. Á þeirri viku fóru þeir heiman Önundr ok Þorfinnr ok voru þeir fimtan saman ok ridu uppá Bakka. Gudmundr var heima ok fátt annara manna, ok voru húskarlar á verki ok unnu lángt í brottu. Ei veit ek ummæli þeirra, en frá erindis lokum er þat sagt, at Ingibiörg var föstnud Þorfinni ádr þeir færu brott ok kvedin á brúdkaupsstefna ok sva á fè hvat hann skyldi hafa med henni. Sídan tókust rád þeirra, ok hafdi Gudmundr bodit inni, ok fór Ingibiörg þá brott med Þorfinni, ok voru samfarir þeirra hægligar. En annat sumar eptir lysti biskup því, at börn þeirra skyldu ei vera skilgètin. Önundr tók upp bú þess manns er Þórir hèt ok var Bárdarson á bæ þeim er heitir í Laungulíd, ok kalladist þar eiga mála á landi, ok var sá ríkis munr þeirra, at Þórir vard í brott at fara naudugr. Þá fór Önundr bústad sínum í Laungulíd, en Þorfinnr beó á Laugalandi.

17. Í þann tíma kvam út sá madr er gèta verdr vid, er Ögmundr hèt Þorvardsson ok kalladr var Sneis, hann hafdi utan verit leingi, hann kvam út í Austfiördum ok var med Teiti mági sínum um veturinn. Þá þóttist Teitr hafa haft hann ærit leingi í lotu, þá fór Ögmundr í Fnióskadal ok baud honum heim sá madr er Brandr hèt, hann bió á Draflastödum, hann átti Ingibiörgu Þorvardsdóttur [systur Ögmundar [1]), ok var med Brandi um veturinn; þar var kona sú í vist med Brandi er Þorrídr hèt, hún var systir Branz, hún var væn kona og garpr mikill í skapi. Hana lagdi Ögmundr í sæng [2]) hiá sèr um veturinn, ok kvam þat þá illa vid, þvíat sá madr átti hana er Biörn hèt ok var Hallsson Asbiarnar-

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.  [2]) rekkiu, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

sonar, er búit hafdi á Fornastödum, ok höfdu þeir verit fylgdarmenn ok vinir Þorvardr, Hallr ok synir hans. Þau Ögmundr ok Þorrídr voru úþakklát Brandi, þvíat hvorutveggi var úskapsmadr, ok giördi Ögmundr henni barn [1]), en Biörn bóndi Þorrídar var ei hèr á landi. En at vardögum þóttist Brandr fullleingi hafa haft Ögmund med sèr, þá baud honum heim Þórdr Þórarinsson í Laufási, ok hafdi Þórdr verit fylgdarmadr ok vin Þorvardar födur hans, fór Ögmundr þá til Þórdar, ok hafdi þar ei leingi verit ádr kallat var at hial væri á med þeim Margrètu konu Þórdar dóttur Odds Gissurarsonar. Þat sumar kvam út Biörn Hallsson, ok færdi Ögmundr honum þá Þorrídi konu sína ok baud honum siálfdæmi ok sættust at því. Ögmundr var med Þórdi þau misseri, en at vari fór hann brott ok tók Brandr enn vid honum, ok skyldi Ögmundr eiga þá helmíng í búi, ok hafdi hann opt kvamit í Laufás, ok vard þeim þat at sundrþykki hiónum Þórdi ok Margrètu, ok fór hún austr í Fiördo til Teits bródur síns ok var þar. Þá var Hákon Þórdarson í Laufási, þvíat Þórdr bad hann þess. Eittsinn átti Ögmundr för útí Höfdahverfi, ok lá leid hans opt um gard í Laufási, ok fylgdi honum sá madr er Þorsteinn hèt ok var Kètilsson, þeir voru tveir saman, en er þeir voru útfarnir, kvöddu synir Þórdar húskarla sína med sèr ok kvádust vilia fara í skóg til vidar [2]). Madr hèt Gissur [ok var Haldórsson [3]) mikill ok knár, annar hèt Bergr, þridji Sölvi ok var Þóroddarson. Sídan geingu þeir upp til dals á brekku þá er sídan var köllud Ögmundarbrekka, ok vard ekki af vidarverki; þá sagdi Hákon þeim deili á húskörlunum, at þeir ætludu at sitia þar fyrir Ögmundi ok taka hann af lífi, ok spyr, hvört lid þeir mundu veita? Gissur svarar: ei man ek vinna á Ögmundi, en dvelia [4]) má èk fyrir föruneyti hans. Bergr veitti eingi orslit, en Sölvi lèzt ei mundi vera í móti Ögmundi, ef hann veitti honum ekki, kvadst honum ei eiga verr at launa en þeim. Nú siá þeir at Ögmundr fer utan, sídan spretta þeir upp úr sátrinu [5]), en þeir Ögmundr laupa af baki, ok tók Gissur förunaut

[1]) giördi — hana med barni. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) ok vida sèr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) dolsa. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) sátinni. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Ögmundar ok hèlt honum aptan um hann, en Bergr um herdar honum, ok hörfudu þeir þann veg um hrísin, en þeir sóttu at Ögmundi þrír Þórdarsynir, en Sölvi sat hiá. Ögmundr vardist vel, þvíat hann var vígfimr ok vel vidbúinn, þá lagdi Dagstyggr til hans undir höndina med spióti, ok ætludu þeir hann mundi sár til úlífis, en þat var þó lítit sár, þvíat hann hafdi panzara örуggan. Ögmundr var ok sár í andliti ok blæddi í augun, ok mátti hann ei vega; þá settist Ögmundr nidr ok bad at hann mætti ná prestsfundi, ef þeir vildu hann af lífi taka. Þeir Hildibrandr ok Dagstyggr vildu drepa Ögmund, en Hákon vildi þat ei. Þá kvadst Sölvi mundi tilfara, ef þeir hættu ei at veita Ögmundi. Þá baud Hákon at binda sár Ögmundar, ok ætludo hann særdan til úlífis, en Ögmundr vildi ekki. Sídan fóru þeir heim. Þórdr var útí ok spurdi hvat þeir hefdu syslat? en þeir segia áverka vid Ögmund ok líflát [1]), ok at hann vildi prestsfund. Þórdr kvad þat ekki utan slægd hans, ok kvadst mundi geingit hafa milli bols [2]) ok höfuds, ef hann hefdi vid verit. Sídan fór prestr þadan heiman sá er Erpr hèt ok madr med honum, ok er þeir kvamo þar er fundrinn hafdi verit, þá var Ögmundr í brotto ok hafdi hann sár úhættilig [3]), enda fylgdi honum sá madr er heill var ok fluttust þeir vid þat heim á Draflastadi, ok fór kona sú at græda Ögmund er Alfheidr [4]) hèt, er átt hafdi Hallr Asbiarnarson á Förnastödum. Þorvardr Þorgeirsson var þá á Vídimyri med Kolbeini Tumasyni, ok þegar hann frá þessi tídindi, þá lèt hann södla sèr hest, ok reid hann þat á nótt er hann mátti ekki á dag, allt til þess hann kvam á Draflastadi, [ok hafdi hann ei verit snærri [5]). En er Ögmundr var heill sára sinna, þá var lagdr sáttarfundr med þeim, ok sættust þeir at kalla, ok var þó at eingo haldit, ok ortust þeir um sídan. Þetta kvad Ögmundr um Dagstygg:

Mèr rèd á bak bródir
bödvarstirkr í myrkri,
hæg raun var þat honum,
Hildibrands at standa.

[1]) líf. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. [3]) úhæglig. *E.* [4]) Alfrídr. *C. St.*

[2]) spords. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. [5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

þá er læbrygdr [1]) lagdi,
lidinn stormr var [ormi [2]),
ádr var ek felldr til foldar,
[fóthrumr med [3]) spióti.

þá kvad Dagstyggr vísu:

því em ek hliódr, er hrídar
hyrsveigir fekk eigi
endr at orum fundi
aldurtión, rodins skialdar.
En því gladr, at grædi [4])
geirrídar sá ek skrída
sæki sáran reyka [5])
sunnan lángt [6]) medal runna.

þann vetur andadist Dagstyggr úr sótt. En er þat var ei efnt, er þeir höfdu ásæzt, þá beó Ögmundr mál til vid þá sem eptir lifdu, ok fóru mál til þings, ok veitti þá Ögmundi at málum Jón Loptsson ok Sæmundr son hans, ok var þá enn sæzt ok giör tólf hundrud til handa Ögmundi, en þriú hundrud til handa þorsteini fyrir þat er hann var haldinn. Sídan tóku Laufæsíngar þann málshátt, at þeir sögdu þá er manni var haldit: Stattu kyrr, hafa skaltu þriú hundrudin. Gudmundr hinn dyri handsaladi sættina, ok skyldi [goldin þridiúngr [7]) er menn kvæmo heim af þíngi, en [annar [8]) á þverárleid í Eyafirdi. Ögmundr kvam á fund Gudmundar, þá menn kvamo heim af þíngi, ok galt hann ekki, en til þverárleidar kvam Ögmundr ekki, ok verdr þar ok ekki goldit. þá nefndi Ögmundr sèr votta ok sagdi sundr [sættinni allri [9]), ok verdr þar stadar at nema.

18. Á bæ þeim er í Brekko heitir í Olafsfirdi, beó sá madr er þorsteinn hèt ok var Haldórsson, en á annari Brekko beó Ey-

[1]) lèbrygdir. *A. B. Gr.* þ.
[2]) þá orma. *E.*
[3]) fótrunnr á mik. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) gædi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) sárn ríka. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) lágt. *B. E. Gr.* þ.
[7]) giöldin gialdast. *A B C. E Gr St* þ.
[8]) helmíngr *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[9]) gridum ok sáttum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

vindr Biarnarson ok Sigrídr módir hans, þat var mælt at Þorsteinn [kvæmi opt at tali vid Sigrídi [1]), þá var Sighvatr hinn mikli útkvaminn bródir Eyvindar. [Hann hafdi verit utan nokkra vetur ok verit í víkíngum [2]), ok var hann þar á Brekko. Þeir gáto fyrr lokit heyverki síno brædur, en Þorsteinn átti úti nokkut, ok hafdi hann fært heim á tún þat er úti var, en meystaulpa ein gætti fiár þeirra brædra, ok einn dag rak hún naut at túni Þorsteins, en hann fór á móti henni ok bad hana þángat ei reka at heyino ok vísadi brott fèno, en hún kvadst skyldo fara heim ok segia, at hann ræki bædi nautin ok hana í brott, ok sva gèrdi hún. En sídan geingo þeir brædur á Brekko til Þorsteins, en hann leiddi ross or gardi, þeir fundust þar ok ræddu um, at hann hefdi látit meyuna fara skyndilíga, en Þorsteinn kvad þat ekki, ok kvad ærna haga annarstadar en í túni þar hann ætti hey. Þeir kvádu sva kvamit sumri, at fè ætti heimilt at gánga þar er þat vildi. Sighvatr hafdi exi í hendi ok lystr til Þorsteins, en rossit var ímilli þeirra er Þorsteinn hèlt á, ok lagdist hann nidr hiá rossino ödrum megin, ok kvam exarskaptit í herdatoppinn ok brotnadi þat í sundr, en refdismunnrinn [3]) kvam á herdarblad Þorsteini ok vard honum ekki mein at því, en hann skauzt ödrum megin hiá rossino ok at Sighvati ok hió til hans med bolexi, ok kvam á hendina, ok var þat mikill áverki, sva at honum var höndin únyt sídan, ok skildust vid þat. Sídan stökk Þorsteinn í brott [ok mátti þar ei vid vera [4]), en þeir voru brædur Arnoddr hinn mikli er beó at Kvíabekk [5]). Nú fór Þorsteinn til Gudmundar hins dyra, hann var hans þíngmadr, ok var hann þar um veturinn, en Þórdr húskarl hans annadist búit eptir. Þeir Biarnarsynir [kvádust ekki fè þadan færa [6]) mundo, en um varit fóru þeir út þángat Sökkúlfr Fornason er beó í Myrkárdal [7]) ok Urdarsteinn ok Arnþrúdarsynir, ok tóku upp eigu Þorsteins alla ok höfdu til Gudmundar, ok vard eingi forstada veitt. Sídan beó

1) væri vel til Sigrídar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

3) öxin. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) Kvíalæk. *A.*

6) kvádu — rakna. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

7) Myrká. *A. C. St.* þ.

Gudmundr mál til á hendr Sighvati, [um frumlaup vid Þorstein [1]), en Önundr Þorkèlsson [beó til um áverka vid Sighvat [2]) á hönd Þorsteini, því þeir Biarnarsynir voru hans þíngmenn. Sídan fóru þau mál til þíngs, ok var leitat um sættir, ok gèkk Þorfinnr Önundarson til ok bad Gudmund at sættast, baudst hann til giördar, ok hèt því at giöra lut Gudmundar gódan, ok lèt hann leidast at því, ok sættust þar. Þau mál varo öll senn á alþíngi ok Ögmundarmál. Sídan fóru menn heim af þíngi ok á mannamóti um sumarit í Skeidhólmum í Hörgárdal, þá giördi Þorfinnr þessa sætt, tólf hundrud til handa Sighvati um áverkann, en ekki til handa Þorsteini, ok vard sú sættargiörd úvinsæl, en þó gallst þetta fè at mestum luta á því sama sumri.

19. Annat sumar í Fliótum út skyldi vera hestaþíng þar er heitir at Hamri, hèt hvortveggi Nikolás þeirra er etia skyldo hestunum, var annar Runúlfsson, hann var fèlítill ok heldr kynsmár, hann átti þriá sonu, hèt enn elzti Runúlfr, Leifr ok Halli, [þeir voru allir fulltídamenn [3]). Annar Nikolás [var sun Skrattabearnar Þorvalzsonar, hann átti vel fè ok var í gódra Lónda virdíngo; þeir átto bádir grá hesta at lit [4]). Nú varo hestarnir samanleiddir ok beizt hvortveggi vel, medan þeir átto siálfir med sèr at skipta. Þá þótti Nikolási frá Mióafelli úiafnt keyrdir hestarnir ok þótti giört at mannvirdíng, hann hafdi staf mikinn í hendi ok vildi lió̈sta hest nafna síns, en Nikolás Biarnarson lióp undir höggit ok kvam á hann stafrinn, hann gat feingit sèr handexi af manni ok hió í höfud nafna síns, ok var þat lítill áverki, þá var slegit í þraung, þar var Runúlfr son Nikolásar frá Mióafelli, ok var honum haldit heldr lausliga, ok gat feingit sèr exi af manni, ok hió medal herda Nikolási Biarnarsyni mikinn áverka, ok var þá skilit mannamótit. [Nikolás frá Mióafelli hafdi lítinn áverka, ok mælti er hann reid heim: ei veit ek hvat ek mundi snúa, þá er mèr var á lèttara skeidi en höggva í höfud sextugum manni, ok ridi sá med hefndalaust höfud í brotto [5]). Eptir þetta stökk Runúlfr

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) vantar í sömu.
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) vantar í sömu.

í brott, en Nikolás Biarnarson var græddr, hann var náfrændi Kolbeins Tumasonar, en þíngmadr Gudmundar hins dyra, ok var sæzt á málit, var þat iafnt látit er þeir höfdu vidáttst nafnar, en Runúlfr vard hèradssekr ok skyldi hvorgi vera þar er þeir ætto mannaforrád Gudmundr ok Kolbeinn. En um sumarit eptir kvam Runúlfr sunnan yfir heidi. Madr hèt Bödvar ok var Þorbiarnarson [1]), er beó at þeim bæ er í Felli heitir í Skagafirdi. Bödvar var lítill madr vexti ok kurteys [ok var kalladr Lítilskeyta [2]), hann tók vid Runúlfi, ok var hann þar um sumarit til þess at Kolbeinn Tumason fór at heimbodi til Hofs til Gríms Snorrasonar. [Kolbeinn sendi ord Bödvari, at hann skyldi þángat kvama, ok hann kvam [3]), sídan vard hann at láta lausan Runúlf, ok fór hann þá inní hèrad á þann bæ er Þverá heitir til þess manns er Dálkr hèt ok var Þorgeirsson, ok tekr hann vel vid honum, ok var hann þar um veturinn. En um varit leitadi Runúlfr vid Dálk, hvat hann skyldi ráds taka. Dálkr mælti, at hann skyldi fyrst fara til fundar vid Kolbein Tumason, ok beóda honum bætr fyrir [þat at hann hefdi verit þar úlofat [4]). Nú fer Dálkr med honum, ok [er þeir kvamo á Vídimyri [5]) vildi Kolbeinn ei útgánga. Þá gèkk Dálkr inn ok beiddi Kolbein, at hann vildi útgánga. Hann kvadst ekki hafa [at malþurfa [6]) vid Runúlf. Dálkr mælti: þá manto þykiast meiri madr fyrir þèr en fadir þinn, med mèr var skógarmadr hans um vetur, ok reid ek í tún hans um varit med hann, ok gèkk hann út ok reid ek med manninn syknan á brotto sva sem þá mátti verda. Kolbeinn segir: þykir þèr rád at ek gángi til fundar vid Runúlf? Dálkr mælti: þat þykir mèr rád at hafa af Runúlfi sem betr er at hafa en ei. Nú gèkk Kolbeinn út, ok baud Runúlfr honum stódross at þiggia. En Kolbeinn mælti, at hann skyldi fára til fundar vid Gudmund, [ok bióda honum yfirbætr. Þá sendo þeir Kolbeinn ok Dálkr menn til Gudmundar med Runúlfi at hann skyldi þekkiast bæturnar [7]). Sídan kvam

1) Biarnarson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) vantar í *A. C St.* þ.
3) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) hèrvist sína. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
5) vantar í sömu.
6) vantalat *A. B. C. E Gr. St.* þ.
7) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Runúlfr til Gudmundar ok baud honum ross at þiggia, en hann tók vid, en Runúlfr var þar nokkrar nætr, þá fór hann í brott ok ofan í Laungohlid ok varo þar kvamnir brædur hans Leifr ok Halli til Önundar. Nú segir Halli, at Runúlfr hefdi gèfit Gudmundi rossin, Önundr tók kynliga [1]) á rossgiöf þeirri, er hann skyldi þá ei tekinn í frid greidliga, en þar kvam, at Runúlfr fór eptir rossunum ok tók á brott, því hann vissi hvar þau varo, ok hafdi í Laungohlíd ok gaf Önundi, ok tók hann vid hvoriutveggia Runúlfi ok rossunum, ok var Runúlfr kalladr Snúinbryni [2]). Gudmundr lèt sem hann vissi ekki, ok þurru miök metord Gudmundar í þessu, ok þótti hann miök samangánga vid þat er tilkvam, ok kölludu menn Önundar, at Gudmundr sæti á fridstóli upp í Yxnadal, ok kvádust mundi hlada vegg í dalinn fyrir ofan ok nedan, ok tyrfa yfir sídan ok kasa þar metord Gudmundar, med ödru fleira gabbi er þeir giördu hèr at. Þá fór Gudmundr aldrei til mannamóta um sumarit ok eingir hans menn, ok ei til leika um veturinn. En fyrsta drottinsdag eptir jól, var leikr at Bæisá, þar beó sá madr er Þorvaldr hèt náfrændi Gudmundar, fóru þeir þángat Lánghlídíngar til leiks, en ekki kvam ofan or Yxnadal. Þar kvam sá madr er Olafr hèt til leiks ok var kalladr Tiöruskinn [3]), ok sat hann þar hiá leik á þverpalli; en hann var vistum vestr í Skagafirdi med Kolbeini Tumasyni. En þá er leik var lokit, gèkk hann fram ok veitti Runúlfi áverka, er hann gèkk utar eptir gólfino, ok hió á hönd honum, ok var hann einhendr sídan. Þá kvamst Olafr fram or stofunni, en ei út, ok kvamust þeir Lánghlídíngar fyrir durin, ok hèlt þar madr manni. Konur urdu þar vidridnar, ok gáto þær kvamit Olafi undan í matarbúr, ok þar út um vindauga, en á var úti fiúkrenníngr mikill nedan eptir dalnum. Þá mælti Þorvaldr, at menn skyldu hætta þæfo þessari, en þeir kvádust þegar hætta mundo, ef þeim væri Olafr framleiddr [4]), ok kvádust vilia leida hann fyrir Önund um kveldit, ok vita hvör viti hann skapadi honum. Þorvaldr kvadst ei hafa færi [5])

[1]) litt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) Brúni. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) Kiörskinn, *B. E. Gr.* vantar í *C. St.* þ.
[4]) framseldr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) rád. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

á því at selia Olaf fram, en ei örvænt ef brátt væri atsnúit, at þeir mundu siá hann. Þeir kvádust ekki framar beidast. Þorvaldr kvad þá siálfa valda, ef hann ræki lángt undan; sídan laupa þeir út allir ok siá hvar madr fór, ok var kvaminn at Bæisá sydri ok fór hvatliga, en Lánghlídíngar hèldu eptir. Fiúkit tók at vaxa, ok giördist vedur íllt ok myrkt. Olafr kvam hvergi til húsa í dalnum fyrr en til sels Gudmundar þar sem heitir at Varmavatni, ok lagdist hann þar nidr í selit. Þá er hann hafdi sofit svefn, stód hann upp ok fór brott úr selino, ok þá kvamo menn Önundar til selsins er Olafr var í brotto farinn. Sva fór þrisvar um náttina er hann flydi úr selino, at þeir kvamo hvört sinn er hann var í brotto. Sídan fóro þeir ofan eptir dal, ok ætludu hann mundi farinn vestr yfir heidi, en þegar hann sá at lysti af degi, þá fór hann ok kvam heill heim á Vidimyri, en Lánghlídíngar færdu Runúlf ofan til Bæisár hinnar sydri, þar beó Þorsteinn gullsmidr, hann átti Sigrídi Þióðólfsdóttur, er þar hafdi leingi búit, ok kvam Gudmundr því rádi í hendr Þorsteini ok sva landinu. Þorsteinn tók vid Runúlfi ok batt sár hans. Þá beó Biörn prestr á Yxnahóli Steinmódsson, hann átti þá kono er Birna hèt, ok var Gudmundardóttir; hann giördi skilnad vid kono sína, ok fèkk henni bústad í efri Laungohlíd. Þau átto dætur tvær ok hèt Birna hvortveggi, bádar varo þær vænar ok oflátligar. Þorvaldr frá Bæisá kvam þángat stundum, ok taladi vid Birno ena yngri, hann hafdi húskarl þann er Gudmundr hèt (ok var Tassason [1]), honum þótti ok gaman at tala vid Birnó hina eldri, ok fóru þeir bádir saman þángat. Þat var hálfum mánadi sídar en Runúlfr hafdi feingit áverkann, at þeir geingo enn í Laungohlíd, ok sáto enn á tali vid konurnar, sem þeir átto vanda til. Þar kvamo um daginn þeir Nikolássynir Leifr ok Halli, en vid rökkur kvam þar Þorfinnr Önundarson ok madr med honum sá er Tiörfi hèt, hann beó at Rauđalæk, ok var hann leingstum med Önundi. En er þeir kvamo í stofo, þá spratt Halli upp ok hió til Þorvalds ok kvam í fángit, ok var þat svödusár, en þeir Leifr ok Tiörfi hèldo Gudmundi, sídan fóru þeir Þorfinnr í brott, en Birna hin eldri batt

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

um sár þorvalds, en Gudmundr fór heim. En er Gudmundr hinn dyri spurdi þetta, fór hann heiman af Bakka ok ofan til Laungohlídar ennar efri ok vildi vita ef þorvaldr væri færandi upp þángat til hans, ok varo þeir fiórtan saman. Önundr fór ok heiman til Bæisár ok vildi vita hvat lidi um hönd Runúlfs, ok var þat einn dag ok hitt er Gudmundr fór, ok vissu hvorugir búníng annara. þeir Önundr voro fimtán, þeir farast í móti ok kènna hvorir adra. Hákon þórdarson var í för med Gudmundi ok tók til orda: þat er vel, at hèr skal fund vorn samanbera, ok er nú einsætt at láta sverfa til stáls med oss, ok ei víst hvört [færi manna ódinndælla verdr en sva [1]), þvíat skamt man at bída. Gudmundr svarar: ei er sá lidsmunr sem ek munda kiósa. Hákon svarar: slíkan vildak helst lidsmuninn, þvíat nú má gánga allt sem audit verdr, þótt þeir sèo tveimr mönnum fleiri. Gudmundr svarar: ei vil ek vekia láta or mínum flokki ordalag nè álaup, en taka vid sem menn hafa faung ok færi á, ef þeir vekia, en audsynt var á Hákoni at hann sparar ekki at vekia. þeir Önundr námo stadar á hæd litilli, en þeir Gudmundr geingo fram hiá ok átto hvorugir vid adra. Sídan fór Gudmundr í Laungohlíd ena efri, ok hafdi þorvald frænda sinn heim med sèr um kveldit, ok hittust þeir þá ekki, en þorvaldr vard heill.

20. Erlendr hèt madr ok var þorgeirssón, hann var kalladr Ugæfúngr [2]), [hann hafdi verit utan med þorvardi audga Asgrímssyni [3]), hann beó at Myrká, hann var vinsæll madr, mikill ok sterkr, hann var fylgdarmadr Önundar, ok var þó vistum at búi sínu. þat var um varit snimma at Erlendr fór at finna Önund, ok kvadst verda var vid, at menn Gudmundar færi flokkum hvört sem þeir fóru, hann kvadst ok vita at Sökkúlfr Fornason í Myrkárdal hefdi iafnan fiölmennt, ok bad hann Önund at hafa á sèr meiri vörd en ádr. þeir Leifr ok Halli varo hiá ok segia: fyrir skömmu geingum vid um allan Yxnadal ok könnudum haga allt hid efra ok fundum ekki sauda, nema eina á kollótta ok var af

1) færri mönnum fyni til en nú, *B, E, Gr.*

2) úhæfu — Geir, *A. B. C, E, Gr, St, þ.*

3) vantar í *E.*

fallin ullin öll, ok man hún úvída gánga á varum, ok ætlum vèr at Gudmundr mani fast sitia á fridstóli sínum. Önundr svarar, þat má vera, at hann sitji um stund, en ef hann rís upp, þá er ei víst hve lítt [1]) hann stígr fram. Sídan fór Erlendr heim. Þat var um varit at húskarlar kvamo inn í Launguhlíd um liósan dag, ok vildo hitta Önund at því er þeir þurftu, þá siá þeir hann ekki, ok fór sva tvisvar edr þrisvar, ok sat hann þó í rúmi sínu. At Sökku í Svarfadardal beó þá Arnþrúdr Fornadóttir ok synir hennar. Þat vard til tídinda einn morgin er menn hvíldu í skála, at exar tvær þuto hátt á exatrè, þá varo þær ofan teknar ok áttu þeir brædur Snorri ok Þorsteinn Arnþrúdarsynir, þær þúto ei at sídr, þótt á þeim væri haldit. Þá var farit eptir Gudmundi presti Arasyni, ok þá þögnudu þær, er hann stökti [2]) á þær vígdo vatni. Þat var viko sídar en Erlendr kvam í Laungohlíd, at hann þóttist verda var vid samansöfnud manna, ok fór hann þá heiman, þat var þridia aptan viko fyrir gagndaga. Sá madr fór med honum er Haukr hèt stiúpson hans, þeir fóru út til ár þeirrar er Barká heitir, þá varo þar menn fyrir, ok var þar Sökkúlfr Fornason ok þeir átta saman. Hann spurdi, hvört Erlendr ætladi at fara? hann segir í Laungohlíd. Sökkúlfr mælti, þat rád vildak eiga med þèr, at þú farir ei leingra en nú ertu kvaminn, ok ætlak heilrædi. Erlendr svarar, ei veit ek at þær torfærur sèo á götunni, at ek megi ei fara leid mína. Sökkúlfr kvad þat vera sem tiltækist. Erlendr fór leidar sinnar ok kvam á Yxnahól ok dvaldist þar um stund, ok fóru þadan ok varo átta saman, ok er þeir kvamo út um Hallfredarstadi, þá var þar fyrir þeim Sökkúlfr annat sinn, ok varo þeir fimtán saman, ok ræddi Sökkúlfr enn, at hann vildi at Erlendr færi ei leingra, ok veit ek, segir Sökkúlfr, at þú mant þykiast var vid, at mannsafnadr dragist at Önundi ok ótti nokkur, ok er þat þó því dreingiligt, at þú vilir giöra hann varan vid, en þat man nú þó fyrir ekki kvama, en vera má at þú hafir þik í voda, ok er nú ei þess at dylia, at nú muno varir fundir verda, mátto nú ok siá yfir fyrir Yxnadal [3]) hiá Granabrú [4]), at [þar

[1]) lètt. *B. C. Gr. St.* [2]) dreifdi. *C. St.* [4]) Grænabrú. *B. E. Gr.* Grafarbrú. *A. C. St. Þ.*
[3]) Öxnadalsmynni. *B. E. Gr.*

kèmr fram lid, ok þar sólskin er í hamra ofan, mátto siá at [1]) skildir blika vid, ok ero þeir þar útan or Svarfadardal, ok man þetta lid allt hittast ok sækia Önund heim í nátt. Erlendi þótti ei at minni þörf at fara ok keyrdi hestinn sporunum, en Sökkúlfr tók í taumana, þá lióp Erlendr af baki ok vildi laupa, þá hió Snorri til hans Arnþrúdarson, en Haukr stiúpsonr hans brá fyrir búklara, ok vard þat eingi áverki. Erlendr hió í móti, ok brá Brandr búklara fyrir, ok vard þat ok eingi áverki. Þá liópat Sighvatr Sökkúlfsson ok lagdi spióti til Erlendar, kvam lágit í lær honum ofarliga ok skar út or innan lærino, ok var þat svödusár, ok urdu þeir Erlendr vid þat aptr at hverfa á Yxnahól. Sídan kvam flokkr þeirra Gudmundar saman á eyrunum fyrir ofan Laungohlíd, ok var Kolbeinn Túmason kvaminn vestan med fimtygi manna ok höfdu þeir Gudmundr nær hundrad [2]) manna. Þeir siá nú Lánghlídíngar flokkinn, ok þóttust vita, at úfridr mundi vera, þeir höfdu þar fyrir nær fimtygi manna. Nú ræddu þeir um, at þat þótti rádligt at búast um úti til varnar. [Þar var virki nokkut hiá húsum, ok kölludu þeir at leingi mundi vörn deilast af úti [3]). Önundr kvadst þess dæmi vita, at illa sættist þar er menn væri innsóttir í hús. Þeir svara ok kvádust ætla, at þá mundi eldr at borinn. Önundr lèt sèr þat ekki í eyru falla ok vildi ráda, ok geingu menn inn allir ok biuggust til varnar.

21. Nú stigu flokkarnir af hestum útangards ok lètu þeir eptir hesta sína, geingu sídan til húsa heim allir, ok skiptu flokkinum, ok geingo sumir á bak húsum ok ætludo tveim megin at at gánga, ef þeir verdust úti. En er þeir kvamo fyrir durin, varo menn allir inngeingnir, en einar dur opnar. Önundr spurdi, hvörr fyrir flokkinum rèdi? Gudmundr svarar: lítil er foristan, hèr er nú kvamin ær ein kollött, geingin or dal ofan, ok þó af ullin harla miök, ok er ei foristosaudrinn feingiligri en sva, en þó ætlar hún nú at annathvort skal verda, at hún skal láta af sèr allt reifit eda gánga med fullu reifi heim. Önundr spurdi, ef nokkut skyldi

[1]) vantar í *E.*

[2]) níu tugum. *B. E.*

[3]) vantar í *E.*

sættum vid kvama fyrir mönnum þar. Gudmundr svarar: leingi hefir nú ekki ordit af sættum, þótt sva sè látit, man nú ok ekki af þeim verda. Ekki skal þá leita, segir Önundr, ok sídan skutu þeir inní durin menn Gudmundar, ok var þá lokit aptr hurdinni. Þat þóttust þeir Gudmundr seá, at húsin mundo seint sækiast, ef eldr væri ei at borinn. Þar voru margir menn inni vel vapnadir, en eldr fèkkst eingi heima þar. [Þá fóru þeir á þann bæ er Grund heitir ok nádo þar eldi, en ei á ödrum bæum, en sumir brutu hús, fiós ok hlödu ok nádo heyi ok vidi, ok báru at húsum heim, ok er eldr kvam, gáto þeir ei kveikt fyrir durunum sökum varnar hinna. Þá geingu þeir á húsin upp Þórdr Laufæsíngr ok þeir menn er med honum varo, ok rifu þakit af húsunum ok giördu eldana at riáfronum, en þurr var vidrinn undir, ok var því ekki hægt at veria innan or húsunum, heyi var ok trodit í glùggana. Þá var beidt útgaungo bædi konum ok karlmönnum, þeim er ei voro í sökum vid þá. Þá lèt Gudmundr brióta vegginn hiá durunum vid stafngluggana [1]), ok geingo menn þar út allir er leyst var út at gánga, því þeir varo þar margir inni er þeir vildo ekki grand giöra. Þá giördist reikr mikill ok siá þeir úglöggt. Þar var sá madr er Þóroddr hèt ok var kalladr Lángnefr, hann hafdi vapn mörg í fángi sèr ok vildi út bera, en Hákon Þórdarson stód þar úti fyrir ok hió Þórodd þegar banahögg, [ok miskèndist hann ekki, því þeir höfdu honum ætlat líflát ok [2]) lèzt hann þar fyrstr manna. Þar var inni sá madr er Galinn [3]) hèt ok var gódr bóndi, hann var Grímsson ok beó þar er í Dynhaga heitir, hann var vin þeirra allra ok eingis meir en Kolbeins Tumasonar. Hann gèkk at durum ok mælti vid þá, ok var þá enn ei sóttr af eldi, at enn mundi öllu borgit verda. Hann bad þá Gudmund ok Kolbein, at þeir skyldu fráhverfa at því sinni, ok baud þeim til þess öll fè sín, en hann var madr vellaudigr ok átti hit bezta bú. Kolbeinn svarar ok kvadst gèfa mundo Galni sva mikit fè sem hann vildi, at hann geingi siálfr út ok lèti sik ei inni brenna. Galinn svarar: leingi hafi þèr hlegit at því, at mèr hafi þótt bad gott,

[1]) staflægiuna, *A, B, C, E, Gr, St.* Þ. [3]) Gálmr, *B, E, Gr,*

[2]) vantar í *B, E.*

ok ek hafi opt drukkit miök [1]). Nú man kostr bads, en mèr þykir úsynt hversu um miöddrykkinna fer, ok gèkk hann ei út. Þá áttust þeir tal vid Þorfinnr ok Gudmundr. Þorfinnr segir þat illa at ei var þar Ingibiörg dóttir hans. Gudmundr svarar: þat er vel, at hún er ei hèr, en þó mundi þat fyrir eingo standa, þótt hún væri hèr inni. Þá hlióp út Halli Nikolásson ok var hann miök kostadr [2]) af hita, ok leggst hann í læk einn ofan, er þar var fyrir durum, en ætladr var til áverka vid hann Snorri Arnþrúdarson, ok lióp hann at ok va Halla þar í læknum. Sídan lióp út Tiörfi, ok var þar til ætladr Þorvaldr frá Bæisá, ok lagdi Tiörfa ígegn med sverdi. Sídan gèkk Tiörfi ofan á völlinn ok at þar er Gudmundr stód. Gudmundr mælti ok hafdi ei sèd er hann fèkk áverkann: gèfa skal Tiörfa grid, ok ertu úmakligr, segir hann. Tiörfi mælti: vettki er um gridin [3]), ok fèll hann þá nidr ok var þegar örendr. Þá lióp Leifr Nikolásson út, ok var ætladr til áverka vid hann Gudmundr Tassason. Leifr var vapnlaus ok þrífr hann upp mann þann er Sveinn hèt ok var Jónsson, ok hlífdi sèr med honum, þat sá Hákon Þórdarson, ok hió á öxl Leifi ok frá alla öxlina ok ofan, ok kvamst hann í kyrkio med áverka sinn. Vindr var á um náttina, ok þótti þeim vid því búit at leggia mundi at kyrkiunni eldinn, þá hèt Gudmundr at gèfa kú kyrkiunni, ef hana sakadi ekki, þá fèll þegar vedrit í logn, ok þvínæst kvam gustrinn af kyrkiunni, ok lagdi brott eldinn allan, ok mátti hann þá hvergi í nánd kvama kyrkiunni, því honum kastadi miök upp or húsunum, sva hátt, at hvar fiarri kvam nidr er húsin tóku at losna hvert frá ödru. En þar er skard var á kvamit, þá sáu þeir at útkastadi nokkro, ok siá ei víst hvat var, en þá siá þeir at hrærdist, ok spurdo hvat væri? Madr svarar ok segir, at Þorfinnr var, en ætladr var til áverka vid hann Þorsteinn Urdarsteinn, en hann vard ei tilbúinn, fyrir því allt logadi á honum bædi hár ok klædi. Sídan laupa þeir til Arnþrúdarsynir Þorsteinn ok Snorri ok vinna á honum. Þorfinnr mælti, at þeir skyldo bædi höggva stórt ok mart, ok kvad ekki mundo þeim úþarfara mann

[1]) miöd. *A. B. C. E. Gr. St.*

[2]) kumladr. *B. E. Gr.*

[3]) vakka èk of gridin. *B. E. Gr.* vantar í *A. C. St.* þ.

til en sik, ef hann lifdi. Þorfinnr komst í kyrkio med áverkann, ok lifdi þriár nætr sídan. Þat var mál manna er þar varo, at Þorfinnr mundi ei lífat hafa, þótt hann hefdi einga áverka feingit, sva miök var hann kostadr af eldinum. Þar brann Önundr inni ok Galinn, en lokit var brennunni fyrir dagmál. Þeir Þórdarsynir fóru ok staungodo atgeirum allt þar er þeim þótti van at þau fylsni væri er menn mætto vidhaldast. Eptir þat fóro þeir í brott, ok höfdu dagverd at Bakka, ok er þeir fóro frá brennunni, þá kvad Kolbeinn vísu:

Lágo limskodriúgir
lundræknom [1]) Gudmundi
hiörva els á hálsi
herdendr um skapferdi.
Nú hafa randvidir reyndan
ríkmenni veldr brenno
æsirunn um annat
eggþeys ok biargleysi [2]).

Hinn sama dag fór Kolbeinn vestr ok heim, ok svördu þeir allir at skilnadi, at hverr skyldi annars hefna, ef á væri sótt um þessa sök, nema einn madr skarst undan, þat var [Bersi Vermundarson [3]) frá Móbergi, hann kvadst ei mundi leggia lut sinn vid at hefna hvers illmennis þótt þar væri í för med þeim.

22. Nú þótti Gudmundi ærnir mótstödumenn sínir, ok sendi hann ord Ögmundi Þorvardssyni, at hann skyldi kvama á vit [4]) fiár þess er haldit hafdi verit fyrir honum, ok segir þá mundi verda goldit, ef á vit væri kvamit; en þá var sva kvamit, at ei þótti synt hvat Gudmundr lèti úgiört vid þá menn er honum þótti ábóta vant vid. Ögmundr hafdi þá sett bú saman af litlum efnum, þar sem heitir at Hálsi, hann þóttist ei tilfær at hafa sva marga menn med sèr, at hann ætti ei minna undir sèr en Gudmundr, ok fór því ei. Sidan tók Gudmundr siálfr, ok virdi fè til

1) lundrökkum. *A. B. Gr.* Þ. lundröskum. *C. St.*

2) í biarkleysi. *A. C. St.* Þ. en kiarkleysi. *B. E. Gr.*

3) Vermundr. *B. E. Gr.*

4) ok vitia. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

gialds tólf hundrud, sem á var kvedit, ok lagdi vid þriú hundrud ok lèt færa honum, ok sendi þau ord med, at hann skyldi ei vera mótstödumadr hans um þau mál er nú hafa giörst. [Þeir færdo honum fèit, en hann tók því vel. Þeir Hörgdælir varo ordnir sva limhlaupa [1]) fyrir Gudmundi, at þeir sendo mann vestr til Hóla á fund Branz biskups, ok bádu at hann kvæmi vestan ok semdi frid med þeim. Biskup fór þegar upp til heidar, ok höfdu þeir med sèr húd ok reip, ok ætludu at setia biskup þar á, ef hann mæddist í gaungo, ok er hann kvam nordr, gat hann kvamit á gridum ok nokkurri sáttarnefno [2]) þeirri, at Jón Loptsson skyldi giöra á alþíngi. Þá sendi Þorgrímr Alikarl ord Sæmundi Jónssyni, þvíat börn Sæmundar Páll ok Margrèt voru syskinaborn [3]) Þorgríms. Þá safnadi Sæmundr at sèr mönnum ok fiölmennti miök til þíngs, ok var allmikil þíngreid, ok var þíngheimr allr í tveim stödum. Med þeim Gudmundi ok Kolbeini var Þorvaldr Gissursson ok þeir allir brædur, ok med þeim var Sigurdr Ormsson, en med Sæmundi varo Sturlusynir allir, en Eyólfr Hallsson af Grenjadarstödum reid sudr til Kèldna, ok hitti þar Jón Loptsson; hann ætladi ekki til þíngs at rída, ádr Eyólfr segir honum, at þar var helst til sætta stofnat at hann giördi um mál þessi. Jón svarar: ei em ek til þess fær, segir hann, því ek hefir aldrei átt um slíkt at mæla fyrr. Eyólfr mælti: þat man þó til liggia at leita vid at menn sættist, [ok er ei synt hver þá má giöra, ef þú þykist ei tilfær. Þá bad Eyólfr fyrir guds sakir, at hann skyldi ei undanskorast [4]), en þat vard um sídir, at Jón fór til þíngs. Um þíngit var vedurhátta ill ok ofanföll. Jón fór til þíngs ok taladi um sættir ok biskupar bádir Páll ok Brandr, ok vard sættum ákvamit ok skyldi Jón einn giöra úskorat allar sættir, ok nú voru trygdir veittar, ok lauk Jón upp giördinni þar á þínginu, ok giördi hann fyrir brenno [5]) Önundar med þeim atburdum sem ordnir varo, sextygi hundrud þriggia álna aura, en fyrir víg Þór-

[1]) linhlaupa. *A. B. C. Gr. St.* Þ.

[2]) sáttarstefnu. *B. E. Gr.* sáttum. *A. C. St.* Þ.

[3]) systurbörn. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) vantar í *E.*

[5]) víg. *A. B. C. Gr. St.* Þ.

odds tólf [1]) hundrud þriggia álna aura, ok fyrir hvörn mann annan fimtán hundrud þriggia álna aura, ok var þat allt hundrad hundrada med því er giört var fyrir víg þorfinns. Þá varo virdar gagnsakir, ok þótti mönnum sumir hafa unnit sèr til úhelgis þeir er þar lètust. Gudmundr ok Kolbeinn sögdust ei fè bæta mundo Galinn, því þeir hefdu bedit hann útgaungo ok bodit fè til. Gudmundr skyldi kaupa landit í Laungohlíd þvílíko verdi sem úbrunnit væri; þar skyldi Gudmundr bæta fiárhlut þann allan, er Önundr hafdi áttan [ok inni hafdi brunnit, hann skyldi bæta fiörutygi hundrud þriggia álna aura, en þann fiárlut, er adrir höfdu inni áttan til fimm hundrada edr minna, þá skyldi hann bæta hálfu meira; en sá, er átt hafdi til tíu hundrada edr meira, skyldi taka iafnmikit [2]). Þar voru ok giörvar mannsektir nokkrar, þeir skyldu fara utan Arnþrúdarsynir Snorri ok þorsteinn, ok vera utan þriá vetur annar, en annar kvama ekki út, ok skyldu þeir kiósa hvor þat skyldi. Þórdarsynir skyldu ok utan vera annar þriá vetur, en annar kvama ekki út, ok skyldo þeir ráda hvort hvor giördi. Þat var ok mælt, at þórdr Laufæsíngr skyldi utan ok vera utan þriá vetur edr gialda fimtán hundrud, ok kvadst hann hvorki giöra mundo. Þá skyldi ok greida fyrir hvern mann er verit hafdi at brennunni eitt hundrad, ok voro þat tíu tygir hundrada, ok skyldi Kolbeinn greida [3]) at helmíngi ok bæta Önund at helmíngi. Þeir Kolbeinn ok Gudmundr skyldu vera brott or búum sínum þriá vetur, ef hvor þeirra vildi, ok fella nidr fimm hundrud á hverjum vetri. Eptir þetta fóro menn heim af þíngi, ok tók Gudmundr þegar at gialda fè þat allt er hann mátti midla or búi síno; hann gallt bædi ross ok adra gripi allt þat sumar ígègnum sva sem hann mátti af standa [4]). Þann vetur öndverdan næstan eptir andadist Jón Loptsson, þá mátti kalla at kyrt væri í hèrödum.

23. Erlendr hèt madr er kalladr var hinn raudi, hann var vistum [5]) í Skialdarvík; eittsinn bar saman fundum þeirra Illhuga

1) fimtán. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) vantar í *E.*
3) reida. *A. C. St.* þ.
4) midla. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
5) bió. *A. C. St.* þ.

frá Hlödum [1]), ok vard þeim þat at tali, at þeir tóku manniafnad, kvad Erlendr eingan mann iafnkurteysan sem Kálf Guttormsson ok vaskan at sèr, hann var þá nykvaminn út; en Illhugi kalladi Þorgrím Alikarl eingo úvaskari at sèr. Sva lauk tali þeirra, at Erlendr vá Illhuga, ok vard ei annat til en þetta. Sídan hlióp Erlendr til þeirra Kálfs ok Gudmundar, en um varit eptir sendo þeir hann sudr til Þorvalds í Runa, ok skyldi hann koma honum utan. Þorvaldr tók Erlendi far á Eyrum ok vard hann þar strandarglópr, en vígsmálit tókst á hendr eptir Illhuga sá madr er Sigurdr hèt ok var kalladr [Grikkr [2]), [hann var Oddsson [3]), ok var þat únytt fyrir honum, ok urdo eingar bætr eptir Illhuga. Þá tók Þorvaldr Erlendi far í annat sinn á Eyrum med Hiöltum, en þeim gaf ei byr brott um haustit. Þá nennti Þorvaldr ei at hafa Erlend sudr þar leingr fyrir skapshafnar [4]) sakir, ok fór hann aptr til Gudmundar, ok tók þá Erlendr at feria farma milli lanz ok Grímseyar, þartil er sá madr er Brandr hèt ok var bródir Illhuga hitti hann í Grímseyu, hann var ei alls tvítugr; Brandr vann á Erlendi mikinn áverka, ok bad hvör madr honum góds fyrir þat. Erlendr vard aldrei alheill, þá fór hann til fundar vid Brand biskup ok leitadi ráds vid hann, hversu hann skyldi medfara. En biskup mælti, at hann skyldi fara í fiárbón ok rádast til múnklífis. Þá fór Erlendr í fiárbón um sumarit, ok rifnudu aptr [5]) sár hans ok urdo seint grædd. Sídan var hann vígdr til múnks at Þíngeyrum, en þeir þóttust ei mega hafa hann þar leingi fyrir skaps sakir, ok fór hann yfir hèröd vída.

24. Brennusumarit ok annat eptir kvamo eingi skip í Nordlendíngafiórdúng, ok dvöldust utanferdir þeirra manna er til varo ætladir. Þá bió Þorgrímr Alikarl á Mödruvöllum í Hörgárdal, hann átti Gudrúno dóttur Önundar. Gudmundr hinn dyri fór at fèfaungum allavega, hann fór á Slètto nordr ok til Grímseyar med feriu. Þá er hann átti, [at fá í bú sitt ok til gialda [6]), hann fór

[1]) Hlídum. *A. C. St.* Þ.
[2]) vantar í *A. B. C. St* Þ.
[3]) vantar í *E.* [4]) skaps. *E. Gr.*
[5]) upp. *A. B. C. Gr. St* Þ. urdu illa. *E.*
[6]) vantar í *E.*

ok víða í fiárbón, ok sva lèt hann fara. Kolbeinn Tumason var ok brott or búi síno enn fyrsta vetur ok var at Þíngeyrum, þá giördi Þorgrímr flugomann, ok kvam sá eingo fram, en Kolbeinn gallt eingi fè sídan. Um haustit þá er lidit var frá brennunni tvö sumor, varo komnir menn á Mödruvöllu þeir Önundar synir allir, Vígfús Hámundr ok Þórdr, honum höfdu verit gèfin grid í brennunni ok var nyvígdr til prests, [hann var barn at aldri [1]). Vígfús var ok prestr ok hafdi til sætta geingit [ok látit sem honum væri ekki at lángt [2]). Þar var ok at búi Fálki Dálksson, ok sá sekr madr er Starkadr hèt medr honum, en at dagverdar máli um daginn kvamo fram fyrir þá diskar, ok var ekki annat á en höfud svidin ok fætr af fèi því er slátrat hafdi verit um haustit. Þorgrímr spurdi ok mælti, [hvi sætir harkagèta siá [3])? Þætti mèr nú heldr til hins um varit fyri manna sakir at vel væri feingit. Gudrún svarar, ekki verdr mèr iafndriúgdeilt sem svidin. Vígfús svarar bródir hennar, ei er þat, at þú minnir oss á hvat vid eigum, þar er svidin ero; ok þann sama dag fóru þeir Þorgrímr fimtán saman út í Arnarnes, þar átti Hákon bú Þórdarson. [Þeir fóru á beggia vit fiár edr mannveida [4]). En er þeir kvamo þar, var Hákon ei heima. Þeir ræntu þar ok tóku brott tólf [5]) hundrud vöru mórendrar [6]), er Hákon hafdi valit til utanferdar sèr, en þar var forstada eingi önnur en Gudrún mælti mart hraparliga [7]) vid þá kona Hákonar. En er þeir kvamo á Mödruvöllu, þá stód Gudrún dóttir Önundar í durum ok kvadst ei vilia [láta bera þar inn um sæti [8]) þat er ránsfè væri. Þeir færa þat á Laugaland, þar beoggo þeir þá Biarnarsynir Sighvatr [9]) ok Eyvindr. Þeir menn er í Arnarnesi varo vissu hvar Hákon var, þó þeir hefdu ekki til hans sagt, ok var hann á skipi út vid Hialtaeyri ok þeir fimm saman Hildibrandr bródir hans ok Þorsteinn Urdarsteinn ok

1) vantar í *C. St.* 2) vantar í *E.*

3) hvöriu þat sætti at hún gæfi slíkan harka. *A. B. C. St.* Þ. harkafæda. *E. Gr.*

4) mannhefnda. *B. E. Gr.* vantar í *A. C. St.* Þ.

5) tíu. *E.*

6) mórendra vadmála. *A. B. C. St.*

7) misiafnt. *A. C. Gr.* Þ.

8) innhysa. *B. E. Gr.* gættir. *A.* Þ.

9) Sigurdr. *A. C. St.* Þ.

þeir Arnþrúdarsynir, þorsteinn ok Snorri. [Sídan var þeim giör niósn um farir þorgríms [1]), ok þegar þeir urdu þess varir, fóru þeir út med landi til Svarfadardals ok lendu þar vid ósinn ok drógu upp skip sitt, ok fóru þadan upp til Sökko, ok fór þadan med þeim Klængr ok Brandr Arnþrúdarsynir, fóru sídan upp eptir dal um náttina [ok ætludu til fundar vid Kolbein, því þeim þótti þat audveldara en finna Gudmund, er hann var farinn nordr á Melrakkaslètto [2]), fara nú þar til er þeir kváma þar sem heitir litla Skard í ofanverdum dal. þar hnekkia þeir för sinni ok snúa ofan eptir dal ok höfdu dagverd at Urdum, þar beó þá Grímr [3]) prestr Fornason, ok þadan til Sökko, vard Klængr þar eptir, fóru nú til skips síns sex saman ok rero austr um Hriseyo þar sem kalladr er Laugakambr, ok lögdust þar til svefns á skipino. En er Brandr vaknadi, þá voro þeir sva hámæltir, at honum þótti sèr annars hugar vid verda; þeir töludu um þat, at [þórdi mundi ei fridt at [4]) Laufási, ok þeir mundo fara þángat ok hafa hann nordr med sèr; lenda nú skipi síno í poll þann er þar geingr nordan at túni, geingo til húsa ok höfdu þar náttverd, sídan var búit um þá í stofu, ok lögdust nidr til svefns, ok var hún lukt innan sídan, en þórdr bóndi var ei heima.

25. Nú er at segia frá þeim þorgrími ödrum megin fiardarins, þeir fóro til skips tólf saman, þar var annar madr Vígfús Önundarson, þridji Hámundr bródir hans, fiórdi Sighvatr [5]) hinn mikli, fimti Eyvindr bródir hans, siötti Fálki Dálksson, siöundi Starkadr hinn seki, áttundi Asmundr, níundi Eyólfr [son Eylífs Ristarbeins [6]), tíundi Sölvi þóroddarson Lángnefs, ellefti Sigurdr Grikkr, tólfti þorgrímr bródir hans. Sídan reyro þeir yfir fiördinn til Laufáss, ok lendu hiá skipi þeirra Hákonar ok kèndo skipit, ok geingo til húss ok fyrst í skála, ok fundu þar einga búmenn, þá vildo þeir í stofu, ok var hún lukt, þá fóru þeir á skiána ok rifo af stofunni. þá vaknadi Brandr vid úkyrrleikinn

[1]) vantar í *E.*
[2]) vantar í *E.*
[3]) Ormr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) þórdr — ei frètt hafa. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) Sigurdr. *A. C. St.* þ. [6]) vantar í *E.*

ok spratt upp ok spurdi, hverir þar væri, edr hvat vilit þèr? Þorgrímr heyrdi [1]) mál hans ok kalladi á förunauta sína ok mælti, hèr eru þeir inni fiandarnir Arnþrúdarsynir. Sídan köstudu þeir grióti innum skiávindaugun [2]) ok vard þeim at því ekki mein er inni voro. Þá spurdi Hákon, hve margt þeir hefdu manna? Þorgrímr svarar, vart hundrad. Hákon beiddi þeim þá útgaungo ok var þeim ei leyfd, þá tóko þeir Þorgrímr eld ok báro at stofodurum ok kveikto í arkarskrifli [3]), því er þeir mátto þegar í burt kippa er þeir vildo, en er þeir kèndo reykiarins er í stofunni varo, þá bádu þeir, at ei skyldi brenna bæinn, ok þá bad Hákon þeim grida, en Þorgrímr hèt gridum Hákoni ok Hildibrandi. Sídan brutu þeir stofuna um skiána, ok drógu þá út alla þar í festi, neima Þorstein Urdarstein, hann kvedst aldrei láta sik þar útdraga, þó þar væri allr bærinn brendr til hans, ok er þeir kvamo út, þá voru þeir allir haldnir nema Hákon, hann var laus ok var úti þar. Þá kvam út Erpr prestr ok mælti, at Hákon skyldi fara í kyrkio ok forda sèr. Hákon mælti: eigi þarf ek þess, því mèr er gridum heitit. Prestr svarar, þat mano þeir ei efna er þeir heita gridum [4]). Hákon mælti: ei er mèr lofat í kyrkio at gánga. Prestr svarar: ek man þat ábyrgiast, þótt þú fordir lífi þínu þángat. Hákon mælti: ei man ek í kyrkio gánga, því mèr er ei lofud kyrkiugángan, en ef þeir giöra mèr nokkut, þá er þat þeirra. Þá lauk prestr upp kyrkio ok lèt opna standa. Þeir Arnþrúdarsynir þrír höfdo prests fund, þá þóttist Brandr vita, at hann var laust haldinn, ok vazt [5]) vid ok vard laus ok kvamst í kyrkiu, en þeir lupu eptir honum allt at kyrkiunni. En þeir brædur Þorsteinn ok Snorri biuggust vid lífláti síno, kèmbdu sèr ok þógu [6]) ok biuggust um sem til fagnadar væri at fara. Þá mælti Snorri: þat vildak, at ek væri fyrr af lífi tekinn en Þorsteinn, þvíat ek treystumst honum betr at hann mundi fyrirgèfa þótt hann sæi mik af lífi tekinn. Þá mæltu menn Þorgríms, at festa skyldi fyrir augu þeim nokkut, en þeir svörudu ok kvádust, ekki þurfa láta

[1]) kèndi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) gluggana. *A. C. St.* Þ.
[3]) kistuskrifli. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[4]) gódu. *E. Gr.*
[5]) brást. *B. Gr. E.*
[6]) hendr sínar, bæta *E. Gr. B.* vid.

binda fyrir augu sèr sem þiófum, ok kvádust opt hafa vapn sèd. Nú var Snorri fyrr höggvinn, ok va hann Hámundr Önundarson. Vígfús Önundarson kvad þat makligast, at hann vægi at þorsteini, en [taldist illa tilfallinn, af því hann var prestr. Fálki Dálksson kvedst fá mundi mann til þess [1]), ok va Starkadr hann hinn seki. Sighvatr [2]) hinn mikli gèkk þá at fast, ok bad at þeir væri bádir drepnir þórdarsynir, kvad einga mundu þorgrími verri. Sídan bad þorgrímr taka þá brædur. Hildibrandr kvamst at kyrkio ok gat fadmat kyrkiostodina, ok slitu þeir hann af stodinni, ok va Sölvi hann sídan. þá bad hann, at af Hákoni væri höggvin hönd edr fótr, ok skyldi hann fara utan vid þat ok bæta fyrir sèr ok ödrum ok gánga sudr. þorgrímr kvedst ei vilia pína hann sva. [Hákon bad at þeir skyldu stánga hann til bana, en höggva hann ei [3]). þorgrímr vildi þat ei, þá vard eingi madr til at vega at Hákoni, [þvíat Sölvi vildi ei vega hann, því hann hafdi veitt Hákoni trygdir um víg þórodds [4]). þá svarar Sigurdr Grikkr, ek man or því vandrædi ráda at vega at Hákoni. Hákon svarar: þat mundak helzt kiósa, þvíat frá þèr er ek úmakligastr þeirra manna er hèr ero, ek tók vid þèr fèlausum er þú kvamst út, ok veittak þèr vist, en ek stód [5]) þik þrisvar í hvílu hiá Gudrúno kono minni. Hákon gaf upp vapn sín öll Sölva þóroddssyni. Sídan va Sigurdr Hákon. Sídan rèdu þeir inní stófuna menn þorgríms, ok bruto upp til þorsteins, ok sóttu hann þar, en hann vardist allvel. [þar var innangeingt or stofunni í matarbúr, ok stökk upp hurdin fyrir þorsteini er hann kvam at, ok hörfadi hann þángat [6]), ok var hann særdr miök til úlífis. þá gèkk út kona til kyrkio ok hafdi sveinbarn í fadmi sèr, þat er Hildibrandr var fadir at. Sighvatr [7]) tók til orda ok bad þat höggva. þá lióp þorgrímr at ok mælti: hvörki skal her vinna á kvonum nè börnum, þótt sá sveinn verdi oss öllum at bana. Sídan fóru þeir þorgrímr í brotto, en þórdr bóndi kvam heim, þá er þeir varo í brotto, ok sá hvat þar var syslat, ok mælti: ny slátur er hèr nú at höndla. Sídan var búit

[1]) vantar í *E.*
[2]) Sigurdr. *A. B. C. Gr. St.* þ.
[3]) vantar í *A. C. St.* þ.
[4]) vantar í *E.*
[5]) fann. *C. St*
[6]) vantar í *E. Gr.*
[7]) Sigurdr. *A. B. C. Gr. St.* þ.

um lík þeirra, ok varo þeir greptradir heima þar Þórdarsynir, en þeir Þorsteinn ok Snorri voro færdir á Völlu [1]) í Svarfadardal. En er þeir Þorgrímr kvamo yfir um fiörd, feingo þeir sèr hesta ok rido á Bakka til Gudmundar ok rænto þar, tóku vapn öll ok hlífar ok báro í brott, en þeir fundo ei skiöldu þá er Gudmundr átti besta; sídan tókó þeir Valgard Starkadarson [2]) húskarl hans ok vildu naudga honum til sagna, vann Sighvatr [3]) hinn mikli á honum ok hió á hönd honum, sva at hann mátti kalla einhendan sídan; en þeir feingu ekki af honum, ok fóru brott sídan ofan í Skeidhólma vid sva búit, ok reisto þar [4]) tiald, því at þeim var van at Gudmundr mundi kvama heim at nordan, ok ætludo þeir at sitia fyrir honum, er hann ridi frá skipi. Þá fóru heiman frá Bakka [Sighvatr Sökkúlfsson ok Gissur son Höskuldar Fornasonar [5]), þeir fóru Skiálgdalsheidi til Eyafiardar ok sva nordr, ok tóko annat ross er annat þraut, ok námo ei stadar fyrr en nordr á Slètto, ok hitta Gudmund ok segia honum sva skapat [6]). Gudmundr fèkk þar menn at fylgia skipi sínu, en hann fór nordan landveg ok þeir fiórir saman, ok fóru sem þeir mátto skiótast, ok urdo þeir Þorgrímr ei fyrr varir vid Gudmund en hann var heima ok hafdi mart manna. Sídan fóru þeir á Laugaland Þorgrímr ok menn hans, ok söfnudust þar saman margir, ok lögdo þá þíngmenn þángat kost, ok sáto hvorirtveggio fiölmennir ok giördu hvorigir til annara. Þá kvam Brandr biskup vestan, ok fysti þá at hafa ei setur. Nú fóru þeir Þorgrímr brott at rádi biskups inn til Eyafiardar ok sudr um heidi þadan til þess er þeir kvamo á Rángarvöllu þar er í Klofa heitir, þar beó Einar Bárdarson [7]), er átti Gudrúno Gísladóttur systir Þorgríms Alikarls, þar voro þeir um hríd. Sídan fylgdi Einar þeim ofan í Odda, ok tók Sæmundr vel vid þeim, ok varo þar hálfan mánud, þadan fóru þeir upp í Skard hid eystra til þeirra brædra Eyúlfs hins óda ok Halls prests Þorsteinssonar, en þeir voru syskinasynir Hallr

[1]) Sökku. *A. B. C. Gr. St.* Þ.
[2]) Hiartarson. *B. E. Gr.*
[3]) Sigurdr. *A. C. St.* Þ.
[4]) slógu — upp. *A. B. C. St.* Þ.
[5]) tveir menn. *A. C. St.* Þ.
[6]) skipat. *B. E. Gr.*
[7]) Þórdarson. *A. B. C. E. Gr. St* Þ.

prestr ok Önundr Þorkèlsson. En er þeir voro brott farnir or Odda, hittust þeir brædur Sæmundr ok Ormr, ok spurdi Ormr vandliga tídinda, en Sæmundr sagdi slíkt er spurt var. Þá spurdi Ormr, ef Sæmundr hefdi heitit at veita Þorgrími at þessum málum, er nú voro ordin til nytídinda? Hann taldist heldr hafa innt [1]) honum ásiá, edr hvörsu lízt þèr á? eda hvöriu manto þèr afskipta? Ormr svarar: vita mátto þess van, at ek man aldrei vid þik skiliast, en ei ero þau mál, at mèr sèo úskapligri [2]) en þessi. Sæmundr spurdi, hví þat sætti? Ormr svarar: þat ætlak at ágángi metnadr, segir hann, vèr áttum födur þann er hafdi mikil metord hèr á landi, sva at ei var sá madr at ei þótti síno máli vel kvamit, ef hann skyldi um giöra; nú veit ek ei hvort meira er frá dæmum um málefni þessi er seld varo, edr sættirnar [3]) þær er hann giördi nú sídast, nú hafa þeir uppgoldit fèd, er þat var ákvédit, en hinir rofit þau grid er giör varo á móti, en hafa þó vid fèino tekit, er menn hugdu at aldrei mundi goldit verda, [ok þat mundi at sættabrygdi verda [4]), [hafa þeir nú rofit ok bláferlat [5]) allt þat er fadir okkar mælti um, er vid hafa tekit gialdino [6]), ok er mèr úskapfellt at veita Þorgrími en svívirda ord födur vors ok hann siálfan ok alla oss syni hans. En þadan í frá kölludu menn at dvínadi lidveizla Sæmundar vid Þorgrím. Eyúlfr or Skardi fór til fundar vid Sæmund ok mælti ef hann mundi nokkut tilleggia vid hann ok Þórgrím um veturinn, ok fèkkst þar ekki af. Sídan baud Eyúlfr þeim öllum þar at vera um veturinn. Hallr var fèmadr mikill bródir hans, en Eyúlfr var audmadr ekki mikill, ok beó þá sèr hvor þeirra, sá Hallr at bú Eyúlfs mundi skamma stund standast, ok kaupmángadi [7]) hann vid Þorgrím, ok því keyptō þeir at Þorgrímr tók vid búi hans, [sva sem hann hefdi vid tekit at fardögum [8]), ok skyldi hann hafa af þurd ok vöxt, ok hafa sva mart manna sem hann vildi um veturinn, ok var Hallr á vist

[1]) veitt. *A B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) uskapfeldri. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) sektirnar. *A. C. St.* Þ.
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) bakferlat. *E. Gr.*
[6]) vantar í *A. B. C. St.* Þ.
[7]) keypti. *E.*
[8]) vantar í *E.*

med Þorgrími, en Hallr veitti Vígfúsi Önundarsyni, en Hámundr var vestr í Stafaholti med Eyúlfi Þorgeirssyni um veturinn.

26. Nú er at segia frá Gudmundi, at um veturinn eptir allraheilagramesso kvam sú saga sunnan ok innan or Eyafirdi, at Þorgrímr væri kvaminn [1]) med hundrad manna, ok væri í Gnúpufellsskógum ok ætladi at giöra til Gudmundar [2]). Þá sendi Gudmundr menn til Kolbeins, ok bad hann kvama vestan med því lidi er hann feingi til; en Kolbeinn safnadi lidi þegar ok fór nordr um heidi, en Gudmundr fór medan á Laugaland ok rænti þar, ok tók upp bú þat ok fè, er þar var eptir, ok sva fór hann um dalinn ok tók fè af bóndum þeim er til höfdu lagt um haustit vid Þorgrím, ok sva kvam hann á Yxnahól til Biarnar prests, ok hafdi hann burt med sèr, ok sva Gudrúno Önundardóttur fylgikono hans, ok var þat vid ord at leggia hana í rekkio [3]) hiá einhverium gárúngi, en giöra þat nokkut vid Beörn prest, at þat þætti ekki minni svívirdíng, þvíat hann hafdi tillagt um haustit med Þorgrími, ok þar hafdi verit Steinmódr sonr hans í setunni; ok þann sama aptan, er Gudmundr kvam heim, kvam Kolbeinn at vestan med fimmtygi manna; en er hann vissi at Gudrún var þar, þá kvadst hann ekki skyldi giöra henni til svívirdíngar vegna Brúsa bródur hennar. Þá kvad Kolbeinn vísu:

Lèt ek [4]) gèdsnara [5]) gotna
grænist fridr [6]) ræna,
lítt man böl at betra,
bóndr [7]) enn um dal þenna;
en ef aptr kvama sunnan
unndyrs um kiöl runnar,
þá er snarrædi sídan
seggiom þörf at eggia.

[1]) at sunnan bæta *A. B. C. Gr. St.* Þ. vid.

[2]) ok ætladi at Gudmundi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) leggia — nidr. *A. B. C. Gr. St.* Þ.

[4]) Leit. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. Leit ek at. *C. St.*

[5]) godsnara. *B. E. Gr.*

[6]) at bæta *A. B. C E. Gr. St.* Þ. vid.

[7]) bóndum. *C. St.* Þ.

En um kveldit, er menn fóru í rekkiur, þá bygdo sitt set hverir. Þá liόp Beörn prestr or seti til Kolbeins, ok bad at hann skyldi veita honum ásiá, at ei væri svívirdíng giör at honum, ok bad Kolbein hafa fè af sèr í móti sem hann vildi. Hann tók vid Birni presti, ok þótti þeim Gudmundi þat trautt einn veg, en Kolbeinn þóttist hafa veitt Gudmundi þvílíkt, þótt hann rèdi þesso, ok var sva at Kolbeinn rèdi þessu, ok fór Biörn prestr heim um myrgininn med þeim ok Gudrún, ok gaf hann Kolbeini yxn tvö. Sídan spurdist, at Þorgrímr var ei sunnan kvaminn. [Kolbeinn var þar nokkra ríd [1]). [Þeir Kolbeinn ok Gudmundr urdu ei á allt vel sáttir, sem ætlat var [2]), ok áttust menn þeirra íllt vid, þeir [bitust bædi um tafl ok kotro [3]) ok stálust frá, ok skildo vid þat at hvorigum líkadi vel. Sídan fór Kolbeinn um dalinn ok tók af bóndum þat syndist, ok skyldo þeir þó sitia í fridi fyrir Gudmundi, er Kolbeinn væri brotto. Eptir þat fór hann vestr heim ok sleit flokk sinn á Miklabæ.

27. Bödvar Lítilskeyta hèt madr ok Þorvaldr hèt bródir hans; þeir fóro eittsinn út eptir Strönd, ok kvamo á þann bæ er á Tiörn heitir, þar hitta þeir mann á leid, er Þorsteinn hèt ok var kalladr Ragnheidarson [4]), hann var sekr madr, hann hafdi tvær kvígur med at fara [tvævetrar [5]), er hann hafdi keypt til veturbiargar. Þorsteinn hafdi verit um haustit med Þorgrími í seto á Laugalandi, en þó í eingum fiörrádum med þeim. Þeir brædur sækia þegar at Þorsteini ok vildu drepa hann. Þorsteinn gètr tekit Bödvar, hann var lítill, en Þorsteinn sterkr, ok hafdi hann Bödvar fyrir sèr ok vardist med honum, ok gát Þorvaldr ei særdan [6]) Þorstein, en Bödvar særdist [7]) af vapnum Þorvalds bródur síns. Þá bad Bödvar at þeir skyldo hætta, ok skildu þeir sva, at Þorsteinn hafdi skiöld þeirra, en þeir spiót hans ok kvígur,

[1]) vantar í *E.*

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) vantar í *A. C. St.* þ. deildu um tafl ok konur. *B. E Gr.*

[4]) Rannveigarson, *A, B, C, E, Gr, St,* þ.

[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) sóttan. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) skeindist. *A, B, E, Gr,* þ. skèmdist. *C, St.*

ok kvamst Þorsteinn undan á vatnit ok gèkk þar yfir ís einnættan, en þeir ráko kvígurnar heim ok drápu. Þorsteinn fór til Hóla, ok hitti Brand biskup ok segir, at Bödvar hafi tekit biörg frá honum. Madr hèt Olafr, hann var Vígfússon, hann beó í Laxárdal, þat er fyrir vestan Skagafiörd utarliga, hann var frændi Þorsteins ok hafdi handsalat fyrir hann um sumarit á þíngi, en ekki var goldit, ok var hann því ei sykn. Þat lagdi biskup til ráds, at Þorsteinn færi at hitta Olaf, [ok legdi þat til veturbiargar sèr er ei hefdi goldist til syknunnar. Þángat fór hann ok kvam hinn sama aptan aptr til Hóla ok segir biskupi [1]), at þar fèkst ekki af. Þá kvedst biskup ei kunna til at leggia med honum, ok voro honum þá fengin vapn, sva hann var fær fyrir því med ödrum mönnum. Madr hèt Hermundr gódr bóndi, hann beó þar sem mætist Fliót ok Skagafiödr er á Heidi heitir. Hann átti dóttur er Gróa hèt [er köllud var Heidar-Gróa [2]), hún var væn kvona ok kurteyslig. Bödvar or Felli fór opt þángat ok taladi vid Gróu, ok virdu menn sva sem henni væri lítit um þat. Madr hèt Beinir, hann var Sigurdarson [3]) Asólfssonar þess er búit hafdi í Næfurholti á Rángárvöllum, hann var [úkvæntr [4]) madr ok kurteys, hann var vistum í Haganesi [5]) í Fliótum med Illhuga syni Asgríms skálds. Beinir kvam stundum á Heidi, ok þótti gaman at tala vid Gróu, ok virdu menn at þetta væri henni nær skapi. Þorsteinn hinn seki var skyldr Gróu, ok kvam hann þar er hann fór frá Hólum, ok töludu þau Gróa stund þá. Þadan fór hann í Haganes ok hitti Beini, sídan fóru þeir á leid þá er van var at Bödvar mundi fara, ok sátu fyrir honum þartil er hann kvam ok Þorvaldr bródir hans med honum. Þá tók Beinir Þorvald ok hèlt honum, en Þorsteinn va Bödvar. Sídan tók Þorsteinn hest þann er Bödvar hafdi ridit ok reid í brott ok til Olafs. Þá tók Þorsteinn stódhest [6]) er Olafr átti, en lèt eptir hinn er hann hafdi ádr. Sídan reid hann vestr í Dali til Sveins Sturlusonar, en þeir Hermundr

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) vantar í sömu.

[3]) Sigmundarson. *A B. E. Gr. Þ.* Gudmundarson. *C. St.*

[4]) stirkr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) Hegranesi. *Gr.*

[6]) hest. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

ok Illhugi handsöludu fyrir Beini tólf hundrud, ok skyldi hann vera þar er hann vildi.

28. Nú leid sá vetur, ok fóru þeir Þorgrímr sunnan um Kiöl til Skagafiardar ok drifu þegar til þeirra harkamenn þeir er vistlausir varo. Þá fóru þeir upp í Goddali ok hit efra inn til Eyafiardar, ok kvamo á þann bæ er í Leyníngi heitir. Sá madr hèt Bergr [1]) er þar beó, þar rændu þeir ok tóku þadan mat, lèrept ok vadmál til klæda sèr, sídan fóru þeir vída um hèradit ok tóku búendr vid þeim, ok er þat spurdi Eyúlfr [2]) nordan af Grenjadarstödum, þá fór hann at hitta Gudmund ok gat hann kvamit saman sættarfundi med þeim. Kolbeinn kvam vestan ok ekki fiölmennr, ok er hann kvam til Gudmundar, kvad hann vísu:

Víst er hèr med hraustom
hródr feinginn gædíngi
nyta [3]) sèr til slátra
seggir mart at leggia.
Heimkynni mano hreinni
hafa opt verit þópto
freyr strykr fast at árum
flódbundinn Gudmundi [4]).

Þeir höfdu sáttarfund vid Glerá, ok kvamo sínum megin at hvorir, þar var brú á ánni ok gliúfur undir. Eyúlfr gèkk á millum ok gat sáttum á kvamit, ok geingu þar allir menn til sætta [5]) þeir er vid varo, sva Vígfús sem adrir, ok skyldi giöra um víg Þórdarsona Teitr Oddsson austan or Fiördum, sva ok um rán þat er rænt var í Arnarnesi, en um víg Arnþrúdarsona skyldi giöra Þorvaldr Gissursson, ok sva um þat er Gudmundr var rændr ok um áverka Valgards [6]) húskarls Gudmundar. Þorsteinn Urdarsteinn var þá heill ordinn, ok skyldi Þorvaldr þarum giöra. Sídan fóru menn heim af fundinum. Þá fór Þorgrímr á Laugaland ok hafdi

[1]) Brúsi. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) ok Þórólfr bæta *A. B. C. E. Gr. St. Þ.* vid.

[3]) nytra. *C. St.*

[4]) flódbundins Gudmundar. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) handsala. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[6]) vantar í sömu.

þar ei fleiri kyr um sumarit en tíu. Þat sumar fór Vígfús utan ok Sölvi, ok urdu þeir ekki vid ridnir þessi mál, en um sumarit [nær eingiverki kvam Hallr prestr sunnan á Laugaland [1]), ok galdt Þorgrímr honum upp þat er eydst hafi í búino um veturinn. Sídan fór Hallr prestr heim ok skildust þeir allvel, ok voru heima nokkra stund.

29. Þá er Hallr prestr hafdi skamma stund heima verit fór hann í Odda, ok vissu menn ei [2]) erindi hans, en litlu sídar fór Þorsteinn Jónsson sunnan ok ætladi utan at því er hann sagdi, ok Þórdís kona hans, allfáir menn voro med honum, hann fór til Eyafiardar ok var fyrst í Miklagardi med Jóni Örnúlfssyni, en er menn spurdu at Þorsteinn var í Miklagardi, þá drifo innfirdíngar til hans flokkum. En er Þorgrímr spurdi þat, þá færdi hann inn bú sitt allt ok slæst í sveit med Þorsteini, ok fóru þeir út stundum á Laugaland miök margir saman edr til skipa, ok voro þar náttum saman. Þá beó í Audbrekko Kálfr Guttormsson, hann átti Osk dóttur Þorvards hins audga, ok hafdi Gudmundr gèfit hana, þvíat Þorvardr var bródir hans, ok var Gudmundr ymist heima á Bakka edr í Audbrekko, ok þótti þat varligra ef í nokkurn vafa slægi, en þat var um helgan dag, at þeir Þorsteinn varo á Laugalandi ok rída þeir nú til skips, þá var Gudmundr í Audbrekko ok beoggust þeir Kálfr med sinn flokk. Þeir Þorsteinn kvamo fyrri med sinn flokk ok stigo af baki ok stódu þar ödrum megin búda. Þá kvamo þeir Gudmundr ok Kálfr med flokk sinn ok stigu þeir ok af baki ok stódu gègnt þeim Þorsteini ok horfdust á. Þá hlógo Austmenn at þeim ok sögdu, at Islendíngar lètu bröstuliga. Sídan geingu nokkrir menn af hvoriomtveggiom at kaupmönnum ok tóku sèr veturtaksmenn, tók Gudmundr þann mann er Asbiörn hèt ok var kalladr Líri, en þeir Þorsteinn tóku vid þeim manni er Þorbiörn hèt ok var kalladr Grænlendíngr. Þá mælti Kálfr vid Gudmund, því skulum vèr nú ei atgángast? er nú vel ákvamit ok meiri van at ödrum hvorium mani þykkia nokkut undir at eiga nokkurn lut. Gudmundr svarar, ei vil ek

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. [2]) ógiörla. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

láta vekia or mínum flokki álaup nè áköst. Þá stigo þeir Þorsteinn á bak ok ridu milli tialda ok skipa ok sva á bak lidi Gudmundar, ok keyrdu hart hestana eptir sandinum, en Kálfr skèlldi sverdskèpti á skiöld sinn, ok skirpti vid, er þeir ridu í brott. Sídan stigo þeir Gudmundr á hesta ok rída, ok er þeir kvama á brekkurnar upp, þá var þar fyrir flokkr þeirra Þorsteins. Þá mælti Kálfr, nú er einsætt at láta ei undan lída at vèr eigumst saman, ok erum vèr nú hálfu verr kvamnír en ádan. Gudmundr kvad ei vekia skyldi or sínum flokki, en bad taka vid sem bezt ef þeir vekto. Sídan rída þeir Gudmundr heim ok áttust ekki vid, en þeir Þorsteinn höfdu því þar stadar numit, at sumir vildo vid taka, en sumir ekki [1]). Þá kvam Þorvaldr sunnan um sumarit, ok giördi sættir þær er hann var til tekinn, ok kvam þar Þorgrímr til Þorvalds. Þorvaldr giördi þriátíu hundrud þriggia álna aura fyrir hvörn þeirra Arnþrúdarsona, ok kalladi þá iafna vid Þorfinn Önundarson. Hann giördi tíu hundrud þriggia álna aura fyrir áverka vid Valgard, ok fimtán [2]) hundrud fyrir rán ok heimsókn vid Gudmund, skyldu þeir bera heim allt þat er rænt var, hlífar ok vapn. Hann giördi tólf hundrud fyrir áverka vid Þorstein Urdarstein. Þorgrímr reid í brott af sáttarfundi, ok er þeir varo skamt kvamnir, leypti madr eptir [þeim nidr frá Audbrekko [3]) er Máni hèt ok var Grímsson. Víga-Starkadr var í för med Þorgrími. Hann spurdi Mána, hvi hann gandi sva? Máni kvedst leita hests síns. Starkadr mælti: hyggr þú hann vera í varri ferd? Máni kvedst ei mundi leita vídar, ef hann vissi hvar væri. Sídan hió Starkadr á lær honum [á södulreiminni med handexi [4]), ok var þat mikill áverki. Sídan rak Þorgrímr hann or föruneyti síno, ok kvedst siá at hann vildi þeir væru aldrei [til frids [5]). Þá fór Starkadr [austr í Fiördu [6]) ok sudr um land. Þá kvam Teitr austan or Fiördum, ok giördi þær sættir er hann skyldi giöra. Hann giördi þriátíu hundrud þriggia álna aura fyrir

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) nítián. *C. St.* tuttugu. *A. B. E. Gr.* þ.

3) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

4) vantar í *A. C. St.* þ.

5) í fridi vid menn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

6) vantar í sömu.

hvörn þeirra Þórdarsona, ok kalladi þá enn iafnmenni hinna, ok at færa aptr rán í Arnarnes, [er þeir Þorgrímr höfdu rænt [1]). Þeir Teitr fóro leid sína, ok gistu föstunátt í ymbrodögum at Gudmundar um haustit. Þá lètust þeir Þorvaldr verda varir vid [kvitt þann [2]), at þeir innfirdíngar ætludo at giöra til hans hratt, ok fóro þeir þadan laugardaginn.

30. En drottinsnáttina [3]) var Gudmundr at kyrkio, sem hann átti vanda til, en er áleid, þóttist hann heyra, at ridit var yfir ána hiá túni ei allfám hestum, ok fóru ákaft rossin; vedur var á kyrrt; þá gèkk Gudmundr inn ok vakti upp húskarla sína. Þá lupu þeir út fyrst Klængr Arnþrúdarson ok annar madr med honum; [þeir lupu á bæinn upp ok fram á duraveggina, ok hugdu at þadan mundi atsótt [4]). En þeir voru þar atkvamnir innfirdíngar Þorsteinn Jónsson ok Þorgrímr med þriá tygi [5]) manna, þá lupu af lidinu fiórir menn, Sigurdr Grikkr, Fálki Dálksson, Þorgeir Helgason [sunnlendr madr [6]) ok Hallr Þorbiarnarson [7]) skagfirzkr madr [8]), hann var sekr. Þeir kvamast upp í virkit allir ok vildu leita laundura er á varo virkino ok fundo ei. Þá gèkk Gudmundr út þær dur, ok sá madr næstr honum er Þorkèll hèt, en þá var dagat, ok átto þeir at siá í gègn dagsbrúninni, er til varo kvamnir undir húsin. Gudmundr sá mennina ok kèndi ei, þvíat hann var úskygn madr, ok spurdi hvörir væro. Fálki svarar: gèstir ero hèr. Ei mano ófúsu gèstir, segir Gudmundr. Hann hafdi skiöld fyrir sèr ok sverd [9]) í hendi, ok var girdr saxi [10]). Þá sótti Gudmundr at þeim, en þeir hörfudu undan í einn gardskrók [11]) í virkino, ok þegar urdu þeir Klængr varir vid, at [úkyrrleikinn var [12]) á bak húsum, ok lupu þeir þángat til. Þá fèll Fálki ok [vard Gudmundr

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) drottinsdag um nóttina. *C. St.*

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) tíutíu. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) vantar í sömu.

[7]) Biarnarson. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[8]) vantar í sömu.

[9]) svidu. *A. B. E. Gr.* Þ. spiót. *St.*

[10]) sverdi. *A. B. E. Gr. St.* Þ.

[11]) eitt gardsbrot. *A. B. E. Gr.* Þ. gardshorn. *C. St*

[12]) hark lókat. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

skadamadr hans [1]), þá hió Klængr Hall banahögg, þar fèll ok þorgeir, ok þá mættust þeir Sigurdr Grikkr ok Gudmundr, [ok va hvortveggi med sverdi [2]), sóttust þeir um ríd ok vard hvorgi sár. þá drifo at menn Gudmundar, en Sigurdr hopadi út af virkino. þá fèll ofan af virkino húskarl Gudmundar [í læk er fèll undir virkino [3]), sá hèt Grímr, en þeir sáu er fyrir utan varo, ok ætludu sinn mann hafa ofanfallit. Sídan gèkk Grímr til dura, ok voro konur þar fyrir at byrgia at durum, ok gèkk hann inn. Sídan veittu þeir atsókn snarpa er til voro kvamnir, ok þá urdu þeir sárir Gudmundr ok Klængr ok nokkrir adrir. En þá er lióst var ordít, gaf þeim glámsyni [4]) er til varo kvamnir, ok syndist þeim sem menn færo hvadanæva [5]) at þeim, en þar sáo þeir torfhrauka ok stakkgarda, því hèluþoka var um myrarnar, ok mændu upp or kollarnir, ok leystust þeir sva í brott, at þar láu eptir förunautar þeirra þrír. Sídan ridu þeir ofan eptir dal ok ætludo í Laungohlíd [ok taka þann mann med sèr er þorgeir hèt, hann var frændi Gudmundar. þeir ridu hvatliga ok visso ei fyrr en þeir varo kvamnir lángt um bæinn í Laungohlíd [6]), þá giördu þeir þat rád af at fara í Audbrekko ok taka Kálf Guttormsson af lífi. þá reid frá þeim Sigurdr Grikkr ok kvam Kálfi í kyrkio, sídan stód hann fyrir kyrkiunni ok lèzt veria mundo medan hann mætti uppi standa. þá vildi þorsteinn Jónsson láta brióta kyrkiona edr brenna, en þorgrímr vildi þat ei. Sídan brutu þeir upp búr er Kálfr átti, tóku einn hest hans ok klifiudu af mat, ok fóro vid þat inní feörd, en Gudmundr lèt færa Fálka til Bæisár [ok jarda þar [7]), en Hallr ok þorgeir voro færdir [þángat er Hallsgrafir heita [8]) ok iardadir þar. Annan myrgin er lysti, kvamo þeir í Audbrekko ok ætludo at taka Kálf, en hann var farinn upp til Gudmundar, en þar kvam í stadinn þórdr or Laufási med níu tygi manna, ok varo allir uppí virkino med hesta sína. þeir veittu

[1]) va Gudmundr hann. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) vantar í sömu.
[4]) missyni, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) allavega. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) vantar í *C. St.*
[7]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[8]) til hvalgrafa. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

þar atsókn harda er til varo kvamnir, ok feingo ekki fáng á þeim er fyrir varo; þeir fóru þá til fióss ok leiddu í brott kyr átta, ok höfdo med sèr; þat máttu þeir ei banna er í virkinu varo, þvíat þeir höfdu ekki lid til ofangaungo. Þá fóro þeir upp [1]) á Grund ok höfdo þar seto, þá safnadi Gudmundr mönnum at sèr þeim er hann fèkk, hann sendi ord Kolbeini ok þeim öllum er honum þótti vænligast, ok nú fer hann inn á Grund med lid sitt ok reisir þar tiöld í túni, ok sátu þeir fyrir tilfaungum öllum þadan frá er þeir kvamo. Þar kvam Ögmundr Sneis til lids vid Gudmund med fiörutíu manna. Þeir Gudmundr [lèttu at þeim atsóknum [2]) þar til er Kolbeinn kvam, þá varo med Gudmundi nær sex hundrud manna, þá gèrdu þeir fleka yfir sèr ok höfdu liái í lángorfum [ok króka [3]) ok kræktu í virkisgardana, ok brutu sva virkit, ok þeir brendo hús eitt edr tvö af virkino. En þeir höfdu í virkino nær hundrad manna ok vel búna at vapnum ok hlífum, en þat vafdi fyrir þeim, at þeir rèdu allir iafnmiklu [ok var eingi fyrir þeim annar heldr en annar [4]), en þó tókst atlaga fyrir þeim greidliga, er allir varo tilkvamnir, ok geingo menn þá til skots er þar varo til færir, ok er skothrídin tókst, mælti diákn einn er í virkino var, at þyrma [5]) skyldi Gudmundi; en litlu sídar brast [6]) honum ör diákninum [er mælt hafdi [7]), þat var lásör er madr hafdi [8]) ok mella [9]) í, ok kvam [örvarbæmit [10]) í brúnarbeinit ok lióp í gègnum þegar, ok feingo þeir ei brott kvamit ádr þeir hètu á Þorlák biskup; þá sáu þeir, at þeir mundo unnir verda ok budu þá Gudmundi at sættast. Hann mælti: ei stodar vid ydr at sættast, fyrir því þèr haldit eingar sættir, ok man nú ekki af verda nema èk rádi einn. Sídan sættust þeir at því, at þeir seldu Gudmundi allir siálfdæmi ok höfdu handsöl þar at, ok er sæzt var, gèkk Þorsteinn Jónsson ofan or virkino til fundar vid Kolbein

[1]) ofan. *C. Gr. St.* inn. *A. B. E.* þ.

[2]) sóttu at þeim um daga. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) vantar í sömu.

[4]) vantar í sömu.

[5]) setia. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) kom. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) vantar í sömu.

[8]) hæfdi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[9]) malla. *B. E.* þ.

[10]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

ok töludu þeir um stund. Sídan lauk Gudmundr upp giördum ok giördi sættir þær allar fyrst til gialda, er ádr voru giörvar um sumarit ok ekki hafdi verit af goldit. En þá giördi Gudmundr fyrir þat er sídan hafdi tilgiörst, ok voru þá goldnar sektir þær allar, enda var þá Þorgrímr kalladr fèlaus, ok guldu þeir allir nokkut [er þar höfdu verit ok nokkur midmundi var at [1]). Hann giördi or hèradi brott Þorstein Jónsson ok Þorlák Kètilsson, ok fór hann sudr í Hítardal, þvíat hann átti þar vid stadfestu at taka. Sídan fór Þorgrímr vestr til Skagafiardar ok var med Isleifi í Gèldíngaholti hinn næsta vetur.

31. Þórdr kvam heim af fundi í Laufás med húskarla sína, ok þann sama aptan hitti hann Þorvard húskarl sinn hiá læk úti er kalladr var Kamphundr, hann hafdi hvatt eggsi sína ok syndi Þórdi. Hann mælti, bíta man nú, ef þú þorir [2]) at neyta. Þar varo á vist med Þórdi Austmenn tveir, er brædur voro, hèt annar Sörli [3]), en annar Þorkèll, þeir voro Bassasynir [4]), er kalladr var Handar-Bassi, þeir höfdu [verit illa vid Þorvard um sumarit [5]), ok haft hann at athafnarmanni; þá gèkk Þorvardr inn, ok sátu menn vid elda, ok þá hió Þorvardr Sörla banahögg. En er Þorvardr vildi út laupa, þá sat Þórdr bóndi á stóli [6]) ok rètti sik heldr lángt, ok fèll Þorvardr um fætr honum, en Þorkèll Bassason lióp at ok annar madr med honum ok vann á Þorvardi, en hann kvamst út ok til skips ok kvam því á siá ok reri yfir fiörd ok kvamst í Audbrekko, ok lá þar í sárum ok vard græddr. Þórdr hèt madr ok beó á þeim bæ er hèt í Fagraskógi, hann hafdi kú þá eina er Gudmundr dyri átti at búi. En um haustit hió hann kú Gudmundar, en markadi hònum adra, ok lofadi Gudmundr honum þat. En um varit sendi hann [eptir þann mann er Hafr hèt ok var Þórarinsson, ok annan mann vígdan er Gudmundr hèt ok var ei alltvítugr. En er þeir kvamo í Fagra-

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) dugir. *B. C. St.* Þ.
3) Sölvi, *C. St.* ok framvegis.
4) Bángsasynir. *C. St.*
5) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) stökk. *B. E. Gr.*

skóg, þá vildi [1]) Þórdr ei forláta [2]) þá kúna er mörkud var ok baud fram adra [þá er feingminni var, ok kalladi þá betri en gialdfaung. En Hafr vildi þá hafa er Gudmundi var mörkud [3]). Þórdr var mikill ok sterkr ok úiafnadarmadr í skapi, sídan kiptust þeir um kúna ok nádu ei. Þá hlióp Gudmundr [4]) at ok vann á Þórdi mikinn áverka, ok skildu þeir vid þat hiá torfgröfum þeim er þar voro skamt frá húsi, en höfdu kúna med sèr, ok sögdu til Þórdar á ödrum bæ, hvörs hann þyrfti vid, ok lifdi Þórdr frá dagmálum til middegis, en þeir fóru heim um kvöldit til Gudmundar ok sagdi Hafr tídindin. Gudmundr svarar, þat er audsèt at þid vildut ei fara erindislaust. Sídan bætti Gudmundr hinn dýri víg Þórdar.

32. Þá er Gudmundr prestr hinn gódi Arason var [í Vidvík ok var [5]) vetri midr en þrítugr at aldri, þá rèdst hann á Völlu í Svarfadardal, þvíat þess beiddist Arnþrúdr Fornadóttir er þar bió frændkona hans, hún var ekkia, bóndi hennar hèt Eyúlfr er hana átti sídar, ok átto þau tvo sono Brand ok Klæng. Sá madr hèt Snorri er hana átti fyrr, þau átto ok syni tvo Þorstein ok Snorra, en Austmadr va Snorra bónda hennar, er hann vildi ei lúka skuld fyrir húskarl sinn, en húskarl hafdi ekki til. Þá tók vid Austmanninum Önundr Þorkèlsson ok kvam honum utan, ok þat var upphaf saka þeirra er Arnþrúdarsynir varo at brenno Önundar. Ok önnur misseri er Gudmundr prestr var at Völlum um haustit var veginn at tiöldum Sumarlidi Asmundarson [6]), en völd þess vígs varo kènd Snorra Grímssyni brædrúngi Gudmundar prests Arasonar, en til lidveizlo um eptirmálit giördist Brandr biskup, ok vildi hann láta bera kvidu á Snorra á alþíngi um fiörrád ok vetfángsbiargir vid Brand, er va vígit. En af ordum Gudmundar Arasonar ok margra annara merkra manna er Snorra veitto lid, þá lèt Þorlákr biskup bera kvid af Snorra um fiörrád. Nú hefir

[1]) menn tvo eptir, hèt annar Hafr, en annar Þórarinn. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) láta. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) vantar í sömu.

[4]) Hafr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í sömu.

[6]) Önundarson. *B. E. Gr.*

Gudmundr vetur um þriátíu, ok er Gudmundr hafdi tvo vetur um þriátíu annan veturinn tveim náttom fyrir [1]) iól andadist Þorlákr biskup hinn helgi í Skálaholti, hafdi hann nokkro ádr bodit þángat til vistar Gissuri Hallssyni, þá er honum tók rádahagr sinn at þyngiast, ok var Gissur þar medan hann lifdi. Þá menn virdi Þorlákr biskup mest ok hafa þeir trautt ordit all-líkir ödrum mönnum velflestum; einn var Páll systurson hans, er sídan var hinn næsti biskup eptir hann í Skálaholti; annar var Þorvaldr Gissursson, [er sídan var hinn mesti höfdíngi, ok varo honum flestir hlutir betr gèfnir en hinum ödrum er honum voru samtída [2]); þridi var Gudmundr Grís, [er fleira veitti fyrir guds sakir en flestir menn adrir, en giördi sídan eptir gudspialla bodordum [3]), ok skildist vid á einum degi allt fè sitt ok ástmenn ok gèkk þá í múnklífi [4]). Son Gudmundar Gríss var Magnús hinn gódi, annar Þorlákr fadir Arna biskups hins fyrra, er einn hefir verit mestr merkismadr á Islandi. Þessir varo enn synir Þorláks Gudmundssonar, Ormr prestr kanúki í Þykkvabœ ok Magnús kanúki í Videy. Dœtur Þorláks varo þær Asbiörg [5]) nunna módir Arna biskups hins sídara ok Agatha abbadís, þridia Þorgèrdr, fiórda Gudrún systir í Kyrkiubæ. Alla virdi Þorlákr biskup mikils syni Gissorar, hann veitti ástsamligt fóstur Magnúsi syni hans, medan hann vildi þar verit hafa, [hafdi hinn sæli Þorlákr biskup miök trúar hendi tekit á honum [6]), [af því hann var forvitri ok vel lærdr ok hinn málsniallasti [7]). Þorlákr biskup vígdi þá til presta Þorvald ok Magnús. Þorlákr biskup rèd ok stadfesto undir Orm systurson sinn Jónsson Breidabólstad í Fliótshlíd, [þá stadfesto er honum þótti best þeirra er hann átti forrád [8]). Þat sumar eptir er Þorlákr biskup andadist um veturinn ádr, andadist Snorri Þórdarson Vatnsfirdíngr Remigíusmesso.

33. Nú er at segia frá Gudmundi presti Arasyni, at þá er hann hafdi verit á Völlum í Svarfadardal nokkra vetur ok Arn-

[1]) eptir. *E.*

[2]) vantar í *E.* [3]) vantar í *E.*

[4]) gudspiallamanna ordum, *A. B. C. Gr. St.*

[5]) Arnbiörg *A B C. Gr. St* þ.

[6]) vantar í sömu.

[7]) vantar í sömu.

[8]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Þrúdr húsfreya var kvamin á Sökku ok synir hennar Brandr ok Klængr, þá var þat eitt sumar á þíngi, at Haldóra abbadís Eyúlfsdóttir or Kyrkióbæ baud Gudmundi presti at hann skyldi rádast austr þángat til foristu med henni, ok játti hann því, ok skyldi hún senda menn í móti honum um sumarit. En eptir Olafsmesso kvam skip at Gásum, ok var þar á Páll biskup. Þá reid Brandr biskup á Grund ok finnast þeir Páll biskup þar, þar kvam ok Gudmundr prestr, ok tók þá leyfi af þeim bádum biskupunum at rádast í Kyrkiubæ. En er sveitarmenn urdu þess varir, þá fara þeir til fundar vid Brand biskup, ok bidia at hann banni Gudmundi presti í brott at rádast, ok giördi hann sva, ok er sveitarmenn fundu Gudmund ok segia honum ord biskups, þá hittir hann biskup þegar, ok segir biskup, at hann bannadi honum í brotto at fara, reid Gudmundr þá á Völlu, ok var þar um veturinn. Þenna atburd virdi Brandr biskup sva mikils, at honum þótti þat þvílíkt ok um Gregorium páva. Um veturinn eptir giördist þverúd mikil milli Gudmundar prests ok Þorsteins Þraslaugarsonar er beó á Völlum, því sveitarmenn baru fè í hendr Gudmundi presti er þeir hèto á helga menn; en þat fè kalladi Þorsteinn at hann tæki. Þat var vandi Gudmundar prests, at um hátidir lèt hann upp bein helgra manna ok lèt menn kyssa þau. En Þorsteinn kvedst ei vita hvort þat væri helgra manna bein edr rossabein. Nú giördist af þessu úþykt mikil med þeim, sva at Þorsteinn sótti at því Brand biskup, at hann skyldi kvama Gudmundi presti í brott þadan. Um varit eptir fer Brandr biskup nordr á Völlu ok kannadist þat af því af alþydu manna nordr þar, at þeir vildu Gudmund prest fyrir eingan kost í brotto. Þá bydr biskup honum stadinn á Völlum til vardveizlo, en hann vildi þat ei. Þá rèd biskup annan prest þángat. Þá stefnir Gudmundr prestr Þorsteini tveim stefnum um varit, annari fyrir þat er hann kèndi honum stuld á heitfè manna, en annari um gudlastanir, er hann kalladi bein helgra manna rossabein, ok rèdst í brott í fardögum ok til Upsa. Ok um sumarit rídr Gudmundr til þíngs, ok voro honum seld siálfdæmi um mál þessi. Af þíngi bydr honum heim Sigurdr Ormsson til Svínafells, ok fór hann af þíngi sudr til Haukadals, ok sva austr til Svínafells, þadan austr í Fiördu, sva í Flióts-

dalshèrad ok til Vapnafiardar, sídan til Eggsarfiardar, ok sva nordr til Eyafiardar, ok kèmr heim til Upsa nær veturnáttum. En á farleid [1]) hans þessari urdo fleiri hlutir merkiligir en ek kunni telia af yfirsaungvum hans ok vatnsvígslum.

34. Þeir Arnþrúdarsynir Brandr ok Klængr voro [2]) at Sökku í Svarfadardal, en Eyúlfr fadir þeirra hafdi búit at Völlum, ok hafdi tekit handsölum stadinn at í erfd skyldi hverfa. En þá er Eyúlfr andadist kallar Brandr biskup sonu hans ei tilfæra, ok bygdi hann þá Þorsteini [Þraslaugarsyni [3]), hann átti frændkonu biskups. Nú kalla Arnþrúdarsynir til stadarins, en Þorsteinn vill ei lausan láta. Þat var drottinsdag einn á Völlum, at hvor þeirra lióp til annars Brandr ok Þorsteinn, ok gætto menn sva til at hvorgi vard fyrir áverkum. Sídan fór Þorsteinn vestr til Hóla ok sagdi biskupi til, en biskup bad hann fara heim ok fèkk honum mann til fylgdar þann er Snorri hèt ok var Þórdarson, hann var systurson Víga-Starkadar, en Starkadr hafdi vegit Þorstein Arnþrúdarson. Þá áttu þeir reppstefnu krossmesso um haustit á Hálsi í Svarfadardal, ok um daginn er menn sáto í stofo, hió Klængr fót undan Snorra fyrir ofan knè, [þá vann á Snorra annar madr sá er Grímr hèt [4]), ok lèt Snorri þar líf sitt. Þá fór Þorsteinn enn vestr til Hóla ok segir biskupi hvat í giördist, en Arnþrúdarsynir fóru til fundar vid Gudmund hinn dyra, ok bádu hann fara til ok sitia med þeim á stadnum, en hann kvedst ekki mundu tilfara, ok bad at þeir skorudu á Ögmund Sneis, þvíat hann var þeim iafnskyldr, en hann lèzt mundu fá til Þorvald son sinn med honum. Þá fóru þeir til fundar vid Ögmund, ok fór hann med þeim, ok lèt bera úr húsum allt þat er fèmætt var í kyrkio ok kyrkiogardinn þat ei mátti í kyrkio vera. Kyrkiogardrinn var bædi gódr [5]) ok mikill, ok ei sva nær húsum at þadan mætti sækia. Sídan víggirdo [6]) þeir kyrkiogardinn med röptum, ok biuggust þadan til varnar, sídan skiptu þeir gardinum med sèr

[1]) farleingd. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) biuggu. *A. C. St.* þ.

[3]) vantar í *A. B. C. St.* þ.

[4]) vantar í *St.*

[5]) stór. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) vígirdludu. *B. E. Gr.*

hvar hverir skyldo veria, ef þyrfti, ok voro þar þriátíu manna, ok hafdi Ögmundr forrád med þeim, en Brandr biskup lèt safna mönnum í annan stad, ok var Hiálmr Asbiarnarson lengst vestan þeirra manna er nokkut merki var at. Biskup ætladi at fara med þeim siálfr, en þá nátt er þeir varo at Hólum, þá laust verk í andlit honum, ok [var hann ei fær [1]). Sídan fóro þeir þadan nær [hálfu ödro hundradi [2]) manna, ok var Kolbeinn Arnórsson Kaldaliós fyrir því lidi ok Hafr Branzson fóstri hans. Þeir kvamo á Völlu ok átto tal vid Ögmund, hann kalladi þar van vidnáms af þeim er fyrir varo, ok kölludust ei mundo gánga af stadnum. Hafri syndist ok ei efniligt at sækia kyrkiogardinn, ok taldi til þeirra kvama er sóttu, þó saurgadist kyrkiogardrinn, en ei til þeirra er hendr sínar átto at veria. Þeir voro þar tvær nætr ok feingo sèr þar ei gistíngar, því hèradsmenn allir voro meir med Ögmundi. Þá gaf Ögmundr þeim kú til sláturs, ok feingo þeir ei katla til at sióda ok steikto þeir kúna vid elda. En þeir systo [3]) þat eitt, at þeir sættust á víg Snorra ok var hann fèbættr, ok fóro vid þat í brott. Sídan fór Gudmundr hinn dyri til ok tók brott Arnþrúdarsonu af stadnum ok fór til fundar vid biskup, ok sættust þeir á þat, at biskup skyldi fá mann til at vardveita stadinn medan hann lifdi, en þá skyldo þeir vid taka Arnþrúdarsynir, en Þorsteinn skyldi ok ekki af hafa. Þá rèdst til stadarins sá madr er Þorkèll hèt ok var Bergdórsson [4]), ok beó hann þar medan biskup lifdi. Sídan tóko þeir vid Arnþrúdarsynir. Sá madr vard enn fyrir áverka er Skæríngr hèt ok var Hróalzson diákn at vígslu ok frændi Gudmundar hins dyra, ok hiuggo Austmenn af honum hönd. Sídan [veitti Gudmundr eptirmál ok [5]) var honum selt siálfdæmi fyrir áverkann, en þeir Hafr Branzson ok Gudmundr giördu þriátygi hundrud, ok skyldi þá þegar gialdast. Sídan reid Gudmundr brott frá skipi, en Austmenn settust at Hafri eptir ok þótti giört ofmikit, ok bádu hann giöra annathvort, mínka sektina eda vinna eid, en Hafr giördi hvorki. Þá var ridit eptir

1) fór hann hvergi. *A. B. C. St.* Þ.
2) tvöhundrud. *C. St.* Þ.
3) sysludu. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
4) Þórarinsson. *E.*
5) vantar í *B. E. Gr.*

Gudmundi ok segia honum til sva giörds, þá snèri hann þegar til skips ok spurdi, hvat þá væri um? en Hafr segir honum hvar þá var kvamit. Gudmundr mælti: vinn þú eid [en ek man ella [1]), skulo þeir þá gialda sextíu hundrud, skal iafndyrt vera eidr annarshvors okkar sem hönd Skærings, en Austmenn vildo þat ei. Gudmundr mælti: þá skal giöra ydur kost annan, at ek man gialda þriátíu hundrud Skæríngi er giör voro, en ek skal velja mann til af lidi ydro þann er mèr þykir iafnmenntr Skæríngi ok höggva af hönd [ok bæti þèr sva litlu sem þèr vilit [2]), en Austmenn vildu þat ei, ok guldu þegar fèit. En Gudmundr hafdi brott Skæríng med sèr frá skipi; sídan beó hann [ei leingi á Bakka ádr hann rèdst [3]) vestr til þíngeyra til múnklífis, ok andadist þar [4]), ok lægdi [5]) sva metord sín. Hann var madr vel vaxinn, hrokkinhærr, fagureygr, mikill ok sterkr, ok hinn mesti höfdíngi [6]), ok hverf ek sva frá þessari sögo.

35. Hit næsta var ádr [7]) er þeir varo vegnir um haustit í Laufási þórdarsynir ok Arnþrúdarsynir, fór Gudmundr prestr Arason til vistar til Stadar í Skagafiörd, þvíat Kolbeinn Arnórsson baud honum þángat, ok eptir þíng sendi Páll biskup menn sunnan eptir Brandi biskupi ok Gudmundi presti Arasyni, at þeir skyldo kvama sudr í Skálaholt þegar eptir þíngit [8]), en þat hafdi rádit verit á þíngino at taka upp helgan dóm þorláks biskups or iördo, ok fara þeir eptir þíngit ok kvama í Skálaholt Margrètarmesso. En í þiónusto þeirra er þar var giör gudi til dyrdar ok hinum sæla þorláki biskupi, þá setti Páll biskup Gudmund prest Arason nærsta þeim biskupum í allri þeirri þiónusto, ok lètu hann bera kistuna med sèr, er hún var í kyrkiu borin, ok hann rèd miök

[1]) vantar í *A. C. St.* þ.

[2]) vantar í *B. E.* miklu edr litlu: *A. C. St.* þ.

[3]) á Bakka til elli, þareptir rèdst hann *o. s. fr. A. C. St.* þ.

[4]) þá hann hafdi þar nokkur ár verit, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) lagdi. *A. B. E. Gr.* þ.

[6]) af þeim er honum voru samtída, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) þat vor hit næsta eptir. *A. B. E. Gr.* þ. þat sumar hit næsta at vori eptir þat *o. s. fr. St.*

[8]) alþíng. *A. B. C. Gr. St.* þ.

fyrir hvat súngit var, er helgidómrinn [1]) var upptekinn, urdo þar margar iartegnir af verdleik hins sæla Þorláks biskups. Eptir þetta fór Gudmundr heim ok var at Stad med Kolbeini þau misseri, en um varit eptir rèdst hann á Vídimyri til Kolbeins Tumasonar. Þat sumar fór Gudmundr prestr til þíngs, en af þíngi fór hann vestr til Borgarfiardar, ok bióda honum þá heim margir menn um allt hèrad. Þadan fór hann vestr í Hvamm ok var at brúdlaupi Snorra Sturlusonar, þadan fór hann í Fagradal ok sídan til Hóla [2]), ok vígdi þar brunn, er menn migu í sídan, ok giördu þat til hádúngar vid hann, ok batnadi þá ei sídr en ádr vid þat vatn. Þadan fór hann til Steingrímsfiardar [ok sva til Midfiardar [3]), ok heim um haustit á Vídimyri, ok var þar um veturinn í gódu yfirlæti, ok lagdi Kolbeinn sva mikla virdíngo á hann ok ástúd, at hann kalladi hann sannhelgan mann ok sagdi sik margar raunir af því hafa. Um sumarit ádr var Þorláksmessa í lög leidd. Þann vetur, er Gudmundr prestr var á Vídimyri, var vetur mikill, ok horfdi mörgum mönnum þúngliga. Þá bar í drauma um helgi Jóns biskups, at hann vitradi þat, at vedurhátta mundi batna [4]), ef helgr dómr hans væri upptekinn. Þá var þat rádit af Brandi biskupi ok sendi hann ord Gudmundi presti Arasyni at hann skyldi tilkvama ok vera forrádsmadr [5]) fyrir þeirri þiónusto, þvíat biskup lá í rekkio siálfr. Stefnir biskup at sèr mönnum, ok [varo sva hörd vedur [6]) at Gudmundr prestr kvam nátt sídar en á var kvedit, ok var hans þó bedit. En er hann kvam, þá var upptekinn helgr dómr Jóns biskups med störum jartegnum siö náttum eptir Matthiasmesso. Um varit fór Gudmundr prestr nordr í Eyafiörd, en medan hann var heiman, andadist Ulfheidr módir hans, ok var líki hennar fylgt til Hóla, ok tók biskup vid því med mikill ástúd. Nú kèmr Gudmundr prestr heim ok rædst enn heiman, ok reid til þíngs um sumarit. Þá var leidd í lög Jónsmessa biskups, at bæn Brands biskups ok af tölum Gudmundar prests, er hann taladi í lögrèttu. Af þíngi budu honum heim Vestfirdíngar, ok fór hann fyrst til Borgarfiardar

1) heilagr dómrinn. *A. E.* Þ.

2) Reykinhóla. *B. E. Gr.*

3) vantar í *E.*

4) mínka. *C. St.*

5) forvorkemadr. *C. St.*

6) var — vedurátta. *A. B. C. Gr. St.* Þ.

ok þadan til Breidafiardar, af Reykianesi var hann fluttr til Flateyar [ok gistu á leidinni [1]). Þórgils Gunnsteinsson lèt syni sína flytia Gudmund prest ok einn húskarl, hann bad Gudmund prest gèfa sveinunum byr, er þeir færo aptr, því þeir ero úkröptugir, segir hann, ok því fel ek þá þèr á hendr. Bidia skal ek gud, segir prestr, at hann gèfi þeim byr. Þá var logn er þeir kvamo í Flatey. Nú búast synir Þórgils þegar í brott ok geingu til skips ok búa til seglreida sinn, ok bidia prest at efna vid sik um byrinn. En hann gèkk til kyrkio. En er þeir varo búnir, draga þeir upp segl, ok kastar þegar vindi eptir þeim, ok lægia ei fyrr segl en heima, ok höfdu því betra byrinn sem þeir sigldu leingr.

36. Nú fer Gudmundr prestr vestr í Fiördu, ok er hann var í Saudlauksdal, þá vígdi hann vatn er kona bar heim í húfu sinni. Þadan fór hann nordr í Fiördu, þar til er hann kèmr í Kèldudal til Þórdar Arasonar, hann hafdi hönd visnada ok lá verkr í, sva at hann mátti ei skèra mat fyrir sik, en um náttina er hann þóttist ei mega liggia, gèkk hann út, en er hann kvam inn, sá hann á rekkio Gudmundar prests liós mikit, sem skini ofan geisli, hann rètti höndina þá hina vanmegno í liósit [2]), ok var þá liósit jafnbiart á höndinni sem ádr, en eptir þat var hún ordin heil ok verklaus, ok lídr þá af liósit. Þadan fór hann í Haukadal til Arna Raudskèggs, ok um kveldit, er hann var kvaminn í hvílu, var feingin til kona at klá honum fót sinn; hún var handhölt [3]), sva at þrír fíngur lágo í lófa, en er honum þótti kleigit ofkyrrt [4]), þá spyrnir hann vid fætinum ok miök hart, ok kèmr hællinn í bug fíngranna þeirra er kreptir varo, [ok spyrnir hann þar í sva, at henni verdr sárt vid nokkut [5]), en fám náttum sídar kvam hún á fund hans ok syndi honum hönd sína heila, ok þökkudu allir gudi, þeir er sáu. Þá fór Gudmundr prestr til Isafiardar, ok kèmr at Matteusmesso í Súdavík, ok þar gèfr hann Bárdi frænda sínum þriátíu hundrud til kvanarmundar, ok

[1]) vantar í *B. E.*
[2]) geislann. *A. B. C. Gr. St.* þ.
[3]) handmeidd. *E.*
[4]) oflint. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) vantar í *E.*

var honum fest dóttir Steinþórs prests Biarnarsonar. Ok þar kèmr kona sú [laupandi er Þorrídr hèt [1]), er fylgt hafdi Arna Raudskègg ádr í banni [2]) Páls biskups, ok fèkk hann ei skilit þau. En er hún heyrdi sagdar kènníngar Gudmundar prests, þá giördist hún eingis iafnfús sem at finna hann, ok verdr at leynast í brott frá Arna, því hann unni henni mikit, áttu þau ok börn saman, hún var fríd synum. Hon kèmst nú á fund Gudmundar prests Matteusmesso, ok bad hann med idranargráti sèr miskunar ok vidtöko, at hon mætti skiliast vid vandrædi sín, [ok hlaut hon sva mikit gott af fundi hans, at hon vitiadi aldrei aptr hins sama vandrædis [3]), ok fylgdi honum iafnan sídan, þá er þau skildi ei úfridr manna. Þadan fór hann til Vatnsfiardar ok sva til Steingrímsfiardar til Jóns Branzsonar, ok var þar lid mikit med honum, ok var mælt, at sendir mundo menn fyrir at segia, at þeir kvæmi ei úvart, en hann kvad ei þurfa mundo, ok man gud senda fyrir oss hval, ok gèfa þeim ádr vèr förum brott; en þessi hans ord fyldust sva, at þann sama dag kvam reidr á reka Jóns þar er hann átti einn, [ok var sögd hvalkvaman um myrgininn eptir [4]). Jón gaf Gudmundi bók þá er gèrsemi var í ok Páll biskup hafdi gèfit Jóni. Þadan fór hann á Broddanes ok sva nordr um Flóa til Midfiardar ok sva til Vatnsdals, ok er hann var at Hofi þetta haust, þá bar sva til, at hann saung yfir siúkum kararmanni ok bar yfir hann helga dóma sína, hann lá í bekk hiá hinum siúka manni, ok sofnadi hann á bæninni, at því er þeim þótti er vid varo. Diákn hans lá í bekk hiá honum, ok hnè Gudmundr prestr á hann ofan er hann sofnadi; en er hann hafdi skamma stund legit, þá kèndi diákninn ei at hann lægi á honum, en hann sá ok sva adrir at hann lá þar, þat var miök lánga stund, en er hann vaknadi, spurdi diákninn, hví hann kèndi hans ei, er hann lá á bríósti honum? en hann vildi ei frá segia. Þá kèmr sú saga vestan or fiördum um veturinn, at madr sá er Snorri hèt vestr í Skálavík, var leikinn af flagdi eino, ok sótti hann tröllkona sú sva miök, at hann hugdist ei mundo undan kvamast. En þessa nátt

[1]) vantar í *E*.

[2]) forbodi, *A*, *B*, *C*, *Gr*, *St*, *Þ*.

[3]) vantar í *A*. *C*. *St*. *Þ*.

[4]) vantar í *E*.

hina sömu er fyrr var frá sagt, þat var laugarnótt, þá fór Snorri einnsaman til tída, ok var miök lángt at fara, þá kèmr at honum tröllkonan ok sækir hann ok bægir honum til fialls, þá bidr hann at Gudmundr prestr skyldi duga honum, ef hann er sva mikils rádandi vid gud sem hann hygdi, ok leysa hann af flagdi þessu, en í því syndist honum sem liós kvæmi yfir hann, en liósinu fylgdi madr í kyrkiokápo [1]), ok hafdi vatnsstökkul í hendi, ok stökti á hann, en þá hvarf tröllkonan sem hon sykki nidr, en honum fylgdi liósit heim til bæar, ok þóttist hann giörla kènna, at liósino fylgdi Gudmundr prestr Arason. Nú bar þat saman, at á einni stundu [2]) birtist hann Snorra ok diákninn kèndi ei þúnga af honum. Sá hinn sami diákn hafdi sull í höfdi sèr, ok eitt sinn er hann stód undir hendi Gudmundar prests í messo, ok lá olnbogi hans á sullinum, ok vard honum sárt vid miök, en er lokit var messonni kèndi hann hvergi sullsins. Sídan fóro þeir til þíngeyra, ok kvamo þar fyrir Allraheilagramesso, þar var fyrir Karl ábóti ok Gunnlaugr múnkr, þeir gèrdu prócessíu móti honum um daginn, ok var hann þó prestr, ok súngo þeir í móti honum *R*: [3]) *Vir iste in populo suo mitissimus apparuit* [*benedictione et gratia plenus* [4]). Nú bar þetta saman mikit vitni um, hvílíks menn virdu hans rád, ádr þeir urdu af metnadi blindir. Þá prèdikadi hann lengi Allraheilagramesso. Þadan fór hann út á Blöndubakka, ok er hann þar miök leingi, þá var hann ekinn þadan upp eptir Lángadal, ok varo menn sendir eptir hesti þeim er stirkvastr var í dalnum ok feitastr, ok var ei lèd, en um náttina gèkk hestrinn í heimabrunn ok dó þar. Nú fer Gudmundr prestr þartil er hann kèmr heim á Vídimyri [5]), ok vard Kolbeinn honum allshugar feginn, ok er hann heima um veturinn í gódu yfirlæti, en fór um varit nordr at heimbodum um hèrad í Eyafirdi ok í Flatey, ok nordan at alþíngi, ok reid til þíngs. Af þíngi budu honum margir menn heim Sunnlendíngar ok Austfirdíngar, sem enn man sídar sagt verda.

[1]) kórkápu. *B. Gr.* kápu dökkri. *E.*

[2]) nótt. *A C. St.* þ.

[3]) *Responsorium. Gr.*

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) at Nikolásmesso bæta vid *A. B. E. Gr.* þ.

37. Sturla son Þórdar Gilssonar beó í Hvammi vel þriátíu vetur [1]), hann andadist þá er hann hafdi átta [2]) vetur hins siöunda tugar. Þá var lokit deilum þeirra Páls prests í Reykiaholti, hafdi Jón Loptsson sætta þá, ok bodit til fósturs Snorra Sturlusyni, var hann þá fimm vetra, er Sturla andadist, Sighvatr þrettán vetra, Þórdr átián vetra, voro þeir heima bádir. Þá höfdu enn ei lokist mál þau er þeir Einar Þórgilsson deildu um fè Birníngs Steinarssonar [3]), var hann þá í Hvammi, en Gudbiörg ok Þorleikr [4]) son þeirra beoggo at Heinabèrgi. Eptir andlát Sturlu vandi Ari enn sterki ferdir sínar í Hvamm ok giördust med þeim Gudnyo kærleikar miklir. Ari beó at Stad á Snæfellsnesi [5]), hann átti Kolfinno dóttur Gissurar Hallssonar, Helga hèt dóttir þeirra. Einum vetri eptir andlát Sturlo andadist Tumi Kolbeinsson í Skagafirdi höfdíngi mikill, hann átti þá Þorrídi Gissorardóttur. Tveim vetrum [6]) eptir andlát Sturlo reid Einar Þórgilsson út til Heinabergs med siöunda mann, ok kalladi þar til fiár vid Gudbiörgo, en hún syniadi þess þverliga. Eptir þat ridu þeir Einar til fiárins ok ætludu at reka brott, þá hlióþu konur heiman ok sveinninn Þorleikr, hann var ei alls tvítugr ok lítill vexti, annar hèt Snorri [fóstri þeirra [7]) ok var yngri. Konur hlióþu til fiárins ok vilia elta or höndum honum [8]), en Gudbiörg ok sveinarnir snúa at Einari, tók Gudbiörg tveim höndum í káþuna ok hèlt honum á baki, en sveinarnir heoggo til hans bádir senn, kvam annat höggit á þunnvángann fyrir ofan eyra, en annat á kinnina, ok var þat meira ásyndum. Eptir þat hlióþu menn til, en sveinarnir í brott, þar var unnit á kono þeirri er Valgèrdr hèt [dóttur Branz læknis [9]). Þeir Einar fóro heim, en láta eptir fèit. Þetta var um haustit nær Matthíasmesso. Einar lá í sárum ok var Helgi prestr Skèl-

[1]) sem ádr er ritat, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) siö edr átta. *A. C. St.*

[3]) vantar í *A. C. St.* Þ.

[4]) Þorleifr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. ok framvegis í þessum kap.

[5]) Snæfellsströnd. *A.* Þ. Snæfjallaströnd. *C. St.*

[6]) nóttum. *B. E. Gr.*

[7]) vantar í *B. E. Gr.* fóstri hans. *A. C. St.* Þ.

[8]) þeim. *A. B. E. Gr.* Þ.

[9]) vantar í *E.*

íúngsson at græda hann, grêro fyrst sárin, en fyrir iólaföstu sló verkium í ok rifnudo aptr sárin, hann andadist tveim náttum eptir Magnúsmesso. Þá var Asbiörg Kètilsdóttir fyrir búi at Stadarhóli, ok var búit feingit í hendr Þorsteini Gydosyni um veturinn, lögdust þá ok Akureyar í búit. [Steinvör Ingialdsdóttir var þar fyrir búi [1]). Eptir áverka vid Einar fóro þeir Þorleikr ok Snorri út til Skards ok varo þar um náttina, var Þorleikr ordinn sár nokkùt. Um myrginn eptir láta þeir brædur synir Snorra Húnbogasonar lögsögumanns [2]) Narfi ok Þórgils fylgia þeim sudr yfir fiall í Hvamm, þá var Ari þar, ok tóko þau Gudny vid þeim. Voro þeir stundum í Hvammi, en rídum at Stad.

38. Eptir Einar Þórgilsson átto at taka arf systur hans. Þá hafdi Þorvaldr Gissursson feingit Jóru dóttur Klængs biskups ok Ingveldar Þórgilsdóttur, þeim var meinud samvista af kènnimönnum, fór Þorvaldr utan nokkro sídar, ok leifdi erkibiskup at þau skyldo ásamt vera tíu vetur þadan frá, en at lidnum tíu vetrum skyldu þau skilia, hvort sem þeim væri þat þá blídt edr strídt [3]), en þau unnust allmikit, ok þó iátadi hann þesso. Ingveldr [4]) var med Þorvaldi, þá er Einar bródir hennar var veginn, ok sótti hún hann at eptirmáli. Þorvaldr fór á fund Jóns Loptssonar, ok leitadi ráda ok lidveizlo undir hann. Jón svarar sva: þat eitt var vinfeingi okkar Einars, at fyrir þá sök er mèr eingi vandi á þessu máli, en þó þykir mèr í úvænt efni kvamit, ef þat skal ei rètta, er skillitlir menn drepa nidr höfdíngia, ok vil ek því heita þèr at vera atveitandi um þetta mál, þá er til þíngs kèmr. Um varit ridu þeir Þorvaldr ok Magnús bródir hans vestr í sveitir, ok er þeir kvamo í Breidafiörd, kvam [nordan or Midfirdi [5]) Kálfr Snorrason til móts [6]) vid þá. Þeir fóro vestr í Saurbæ ok biuggu til vígsmálit, þá fændo þeir Asbiörgu naudga brott af Stadarhóli. Þórgils Gunnsteinsson tók þar þá vid stadnum ok ómögum. Þeir

[1]) vantar í *E.* Steinun. *A. B. C. Gr. St.* þ.
[2]) vantar í *A. C. St.* þ.
[3]) óblídt. *A. C. St.*
[4]) módir Jóru. bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.
[5]) vantar í sömu.
[6]) til máls. *B. Gr.*

Þorvaldr fóro þá í Hvamm, ok stefndu þar nokkrum mönnum um biargir, þar var Bödvar fyrir, ok baud þeim til dagverdar, því þá var íllt til matar í hèradi, þat var kallat ílla var. Þorvaldr þakkadi honum bodit ok lèzt vita búrysno hans, en kvedst þó ei vilia þar mat hafa; þeir Þorvaldr voru átián saman, ok geingo [1]) allir sudr ok sunnan. Þessi mál fóro til þíngs, ok var Ari fyrir svörum, en þeir veitto honum Þorleifr Beiskaldi ok Bödvar, urdu þeir Þorleikr ok Snorri sekir, ok var gèfit fè til farníngar [2]) þeim. Þar var sætzt á öll mál er til voru búin, ok gèkk Þorleikr Beiskaldi til handsala fyrir Ara, ok greiddi upp fè mikit. Þat sumar brá Ari til utanferdar, ok seldi stadinn í hendr Þórdi Sturlusyni, ok gipti honum Helgu dóttur sína, tók Þórdr þá vid búi ok mannaforrádi. Gudny seldi búit í Hvammi til handa þeim manni er Oddr Dignari [3]) hèt, en þau Ari bædi rèdust til skips vestr í Vadil ok fóro þar utan, þar fóru þeir ok utan Þorleikr ok Snorri. Ari andadist í Noregi, gèkk hann til med mönnum at bera lángskipsrá [4]), en med því þeir vissu at hann var sterkari en adrir menn, þá liópu þeir undan ránni, en Ari lèt ei nidr falla. Eptir þat tók hann sótt þá er hann andadist af. Eptir þat fór Gudny til Islands, ok tók vid búi í Hvammi. Þórdr Sturluson tók arf eptir Ara ok þau Helga dóttir hans. Þórdr bar ei audnu til at fella sva mikla ást til Helgu, sem vera átti, ok kvam því sva at skilnadr þeirra var giör. En Þórdr tók þá til sín Hródnyu Þórdardóttur, er átt hafdi Bersi [5]) hinn audgi Vermundarson, ok hèlst þeirra vinátta leingi.

39. Þat var einn vetur [6]) eptir andlát Einars Þórgilssonar er Sighvatr Sturluson giördi bú á Stadarhóli ok Oddr Dignari med honum. Sighvatr nam þar ei yndi, ok fór hann út til Stadar, því þá var sva ástúdligt med þeim brædrum, at hvorgi þóttist mega siá af ödrum. Þann vetr vagu þeir Þorgrímr Ingimundarson

[1]) ridu. *A. C. St.* Þ.

[2]) utanferdar. *A. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) vantar í *A. C. St.* Þ.

[4]) lángskipsmastur. *A. C. St.* Þ.

[5]) Brúsi. *C. St.*

[6]) sex vetrum. *B. C. E. Gr. St.* Þ. siö vetrum. *A.*

ok Bersi Uspaksson Jón Biarnarson hinn óda á Stadarhóli eptir messo í stofu inni. Þeir voro systrasynir Jón hinn ódi ok Biörn Sturluson, ok vinir gódir, ok því sótti Biörn Þórd bródur sinn at eptirmáli um víg Jóns. Þeir fóru fiórir brædur Sturlusynir ok nokkrir menn adrir vestr til Saurbæar, þeir gistu í Hvammi at Gudnyar, ok fóro þau öll saman til laugar í Sælíngsdal, þá beó Hallr Arason [1]) á Höskuldstödum, hann var þar kvaminn ok synir hans. Þeir förunautar Þórdar höfdu þar tekit þiófs, ok ætlndo at festa upp, en Hallr ok synir hans skutu honum í brott, vid þat vard Þórdr sva reidr, at hann bad gánga at þeim. Gudny módir hans hèlt honum ok fleiri konur, þá eggiadi hann brædur sína Svein ok Sighvat. Þeir Hallr lupo á heydis ok vördust þadan; þar va Amundi Bergsson þann mann er Þórhallr hèt, en er Þórdr vissi þat, þá bad hann þá Svein hætta atsókninni, ok sva var giört, fóru þeir þá vestr til Saurbæar ok sættust á víg Jóns. Þórdr bætti ok þat víg er Amundi hafdi vegit ok sættust at því máli öllu. Þórdr Sturluson fèkk Gudrúnar dóttur Biarna Biarnasonar, er átt hafdi Þorvardr hinn audgi, ok tók hann med henni fè mikit; giördist Þórdr þá höfdíngi. Sighvatr bródir hans var med honum lengstum.

40. At Lundi í Reykiadal bió þá sá madr er Hámundr hèt ok var Gilsson, hann átti Kolþerno Kleppsdóttur [2]) systur Þorvardar prests, þeir beoggo bádir saman, ok var Hámundr þíngmadr Þórdar Sturlusonar. Þórdr Raudr hèt madr er beó á Oddsstödum upp frá Lundi, gildr bóndi; Finnr hèt son hans, þeir varo þíngmenn Kolbeins Tumasonar, ok var Finnr laungum med honum. Þorsteinn Brásteinn [3]) beó á Reykium í Reykiadal, hans synir voro þeir Gudmundr ok Steinn. Þá Þórd Raud ok Hámund skyldi á um vidarrif á fialli uppi, ok mart vard þeim til úþyktar [4]). Þórgils Skèggiason var frændi Hámundar, hann beó í Túngo, Þórdís hèt dóttir hans, hana leiddi Gudmundr Brásteinsson á göto frá tídum. Þórgils lióp eptir þeim, ok er hann [kvam eptir þeim, [5]),

[1]) Höskuldsson. *A. C. St.* þ.

[2]) Klængsdóttur. *B. E. Gr.*

[3]) Brattsteinn. *B. E. Gr.*

[4]) at sundrþykki. *A. B. C. St.* þ.

[5]) bar at. *E.*

stakk Gudmundr á bak sèr eggsí, sva at hann leít ekkí til, ok kvam í auga Þórgilsi, ok vard hann einsynn. Sídan hlutdeildi Hámundr þetta mál, ok vard ei á sæzt, en Gudmundr var í vingan vid Þórd Rand, ok varo þá dylgiur miklar millum þeirra allra. Öndverdan vetur átti Gudmundr för út á Hvítárvöllu, hann bad Finn Þórdarson at fara med sèr. Gunnar [1]) Erlíngsson [2]) fór [hinn þridji [3]), þeir gengo um gard at Lundi, þar kvam inn saudamadr Hámundar er Finnbogi hèt, ok segir, at þeir Gudmundr þrír gengo þar um gard. Þeir Hámundr liópu eptir þeim, ok Hafgrímr Kolbeinsson ok Þórgils; þeir Gudmundr námo stadar er þeir siá eptirförina, ok mættust fyrir utan gard, ok laupast þegar at. Hafgrímr hió á öxl Finni mikit sár, Gudmundr lagdi til Hafgríms ígègnum búklarabólu ok höndina, þá lupo þeir Hámundr ok Þórgils bádir at Gudmundi, hann lagdi á móti í lær Hámundi ok rendi í smáþarma, en hann hió í hönd Gudmundi ok í sundr tvær fíngurnar vid spiótskèptit. Grímr stód hiá, þá kvam Þorvardr prestr ok heimalid ok skildi þá. Þeir Gudmundr voro fluttir til Skards, en Hámundr lá leingi í sárum, hann sendi mann til Stadar at leita ráda vid Þórd. Þórdr sendi Sighvat bródur sinn ok Haldór son Odds Jósepssonar sudr þángat, ok höfdu þeir um veturinn mannfleira en at vanda. Um varit var sæzt vid Reykiamenn, en áverkar Finns ok Hámundar voru búnir til alþíngis. Högni prestr hinn audgi bió í Bæ, hann var teingdamadr Lundarreykiamanna [4]) ok vinr Þórdar Sturlusonar, Högni bad Þórd til lids vid þá Hámund, ok fyrir þá sök fiölmennti Þórdr til alþíngis [5]). En á þíngi var sveitardráttr mikill, veitti Kolbeinn Tumason Þórdi Raud, en Þorvaldr Gissurson veitti Kolbeini, ok allir Haukdælir ok Svínfellíngar ok Gudmundr hinn dyri, en Oddveriar veitto Sturlúngum, ok Önundr Þorkèlsson ok mágar Þórdar, Einar Brúdur ok Flosi, ok Ögmundr Sneis, Þórdr Bödvarsson ok margir adrir. Jón Loptsson var [6]) at búd, en Sæmundr fór med flokkinum. At

1) Grímr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

2) Erlendsson. *C. St.*

3) hinn fiórdi. *E.* ok Indridi *A. B. C. Gr. St.*

4) Lundarmanna. *E. Gr. Þ.*

5) Högni prestr — til alþíngis, vantar í *C. St.*

6) sat. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

dómum vard þraung mikil; þá slóst þórdr Raudr á bak þórdi Sturlusyni ok hió medal herda honum med breideggsi, sem honum var hægst, ok beit ekki, ok hafdi hann hvorki brynio nè treyo. En er Sighvatr bródir hans sá höggit, hióp hann fram at þorvaldi Gissurssyni ok hió til hans, en Haldór [1]) fylgdarmadr hans hióp fyrir hann, ok hió Sighvatr undan honum fótinn, ok var þat banasár; eptir þat tókust atlaupin, þá særdu þeir þórdr Sturluson ok Einar Brúdur Finn þórdarson til úlífis. Fleiri menn urdu þar sárir ádr medal var gengit sva at þeir skildust. Mágar þórdar særdu þórd Raud, en Eyúlfr Oddsson vann á Beini or Næfraholti, þorsteinn Urdarsteinn vann á Jóni Lág [or flokki Sæmundar [2]), vard þá gridum ákvamit, en eingar urdu sættir á því þíngi, en Páll biskup átti þar mestan lut í at skirra vandrædum þeirra. þessi misseri eptir varo dylgiur miklar med mönnum ok úfridr á landi; ūm haustit var veginn [3]) Markús á Raudasandi, en um varit eptir var brenna Önundar í Laungohlíd, en sæzt var á brennuna um sumarit á þíngi ok giördi Jón Loptsson, þá var ok sæzt á Raudsmál ok hèlt þórdr bótum uppi fyrir Sighvat bródur sinn. Voru mælt giöld á þíngvelli at midio [4]) sumri, færdi giöldin af hendi Haldór Oddsson, en vidtók Leidar-Ormr.

41. þat var hit sama er Önundarbrenna var, giördi Sighvatr Sturluson bú í Hiardarholti, fèkk Magnús prestr Gudmundarson stadinn í hendr honum, en hann hafdi ádr handsalat Sturlu födur hans stadinn eptir sinn dag. Sighvatr hafdi til búsefna födurarf sinn fiörutygi hundrud. Hann tók fyrst Galtardalstúngu ok seldi hana, en keypti hálfan Stadarhól. Sídan seldi hann Stadarhól til lausafiár, ok hafdi þat fè ávöxtum ádr hann giördi búit. þorleifr Skeifa ok þorrídr systir hans rèdust til bús med honum med fè sitt ok varo fyrir búino. En um sumarit á þíngi þá er sæzt var á Raudsmál, hóf Sighvatr bónord sitt ok bad Haldóru Tumadóttur, var þar fyrir svörum Sigurdr Ormsson ok þor-

[1]) Hálfdán. *C*, þ.

[2]) úr Flóa, *A*, *C*, *St*, þ.

[3]) dó. *C*. *St*.

[4]) ödru. *A*. *B*. *C*. *Gr*. *St*. þ. Voru mælt — sumri vantar í *E*.

rídr Gissursdóttir módir hennar, [Haldóra var međ þeim at Svínafelli, Kolbeinn Tumason [1]) bródir hennar ok adrir ágætir menn [2]) frændr hennar [3]). Þorvaldr Gissursson átti eingan lut at, því hann var eingi vin Sturlusona í þann tíma. [Þorrídr Gissursdóttir svarar sva, at hún unni Haldóru dóttur sinni því hærra en Alfheidi, at hún mundi hana þeim einum manni gèfa, er frændum þótti iafnrædi, en Alfheidi lèzt hún gèfa mundi, ef ei þætti úsæmiliga fyrir henni sèd. En öllum forsiármönnum Haldóru þótti þetta forlag sæmiligt [4]), ok var Sighvati heitit konunni. Sturlusonum þótti torveldt at sækia brúdlaup til Svínafells, ok var þá umleitat at kvama nidr annarsstadar. Magnús prestr Gissursson beó þá í Túngu uppfrá Skálaholti; þar var haldit brúdlaupit at því er Magnús baud Sighvati, ok sóttu þángat hverirtveggi til, kvam þar saman allgott mannval, fór Haldóra med Sighvati til bús í Hiardarholt, ok voro þeirra samfarir gódar, tóku þau um varit vid búi síno ok rèdu ein fyrir, vard þeim gott til fiár ok mannords. Þórgils prestr son Snorra lögsögumanns fèkk Þórdi Sturlusyni Þórnesínga godord hálft, en hálft hafdi Ari átt hinn sterki, en Sighvatr tók þá erfdagodord þeirra er Sturla hafdi átt. Sighvatr átti vináttu vid Helgu Gydudóttur, hon beó á Briámslæk. Helga hafdi tekit arf eptir Þorstein Gyduson, en Gèllir son Þorsteins hafdi Flatey af arfinum, ok beó hann þar ok átti Vígdísi Sturlodóttur. Helga hafdi búfè fátt, en lendur gódar. Sighvatr rèd iafnan stórfè til bús hennar, en tók slíkt í mót af löndum sem hann vildi, ok drógust med því móti stórfè undir Sighvat.

42. Madr hèt Kètill Eyúlfsson, en Liótr son hans, þeir beoggo á Eyri í Kiós. Kètill var bródir Kols hins audga á Mödruvöllum. Markús Skèggiason beó þar hiá þeim, hann var frændi Þórdar Bödvarssonar, [kvaminn af ætt Markúsar Lögsögumanns [5]). Þá skildi á um búsifiar sínar, ok dreitto [6]) þeir fedgar Markús inni, eptir þat fór hann á fund Þórdar Bödvarssonar frænda síns,

[1]) vor bæta vid *A. B. C. Gr. St.* Þ.
[2]) varo bæta vid *A. B. C. Gr. St.* Þ.
[3]) vantar í *E.*
[4]) vantar í *E.*
[5]) vantar í *E.*
[6]) deyddu. *A. B. Gr. E.* Þ. deildu þeir Markús. *C. St.*

ok er hann kvam aptr va hann Kètil, en særdi Liót. Markús var þíngmadr Sæmundar Jónssonar ok vin Sighvats Sturlusonar, fór hann um varit sudr í Kiós med siöunda mann, ok sóttu frændr Kètils hann at málum, ok bió hann mál þessi til alþíngis, ok var um þetta mál alltídrætt, því mönnum þótti þat hin mesta nyúng, ef nokkrir vildu deila þíngdeildum vid Oddverja í þann tíma. Kolbeinn Tumason ok Sigurdr Ormsson veittu Sighvati at málum þessum, ok höfdu þeir fiölmenni mikit. Þórdr Sturluson var í vináttu vid Sæmund, ok hlytti hann miök fortölum hans um þessi mál, þótti Sæmundr ok lítill slægr til Markúsar, ok urdu þær sættir á þíngino, at Markús skyldi fara utan ok kvama aldrei út. Fèkk Sighvatr af þessum málum mikla sæmd, ok voro Kiósveriar iafnan vinir hans sídan.

43. Madr hèt Þórdr ok var Kollason Dalamadr, er va Þórd Þorhallsson [1]) ok Helgu Erlendsdóttur, bródur Brands Þorhallssonar frá Fellsenda, er þeir fóru or Snóksdal frá leik. Eptir þat lióp Þórdr vestr í Fiördu, ok tók vid honum Þorvaldr Vatnsfirdíngr, ok var hann med honum at vígi Lióts [2]) Eyríkssonar. En um sumarit eptir reid Þorvaldr til þíngs ok var í búd med Þorvaldi Gissurssyni frænda sínum, ok var med honum Þórdr Kollason, hann hafdi gengit í búd Skardveria, er Austmenn höfdu tialdat, hann sat á kisto, þá kvam í búdina Brandr Þórhallsson ok hió á háls Þórdi, sva at nær tók af höfudit, ok hefndi sva bródur síns. Eptir þat lióp Brandr í búd Sighvats Sturlusonar ok sagdi honum tidíndin. Sighvatr lèt kalla á Pál Þíngmann sinn Kollason bródur Þórdar, hann var adali málsins, ok sætti Sighvatr þá Brand fyrr en Þorvaldr vard þess var, ok þóttist hann miök uvirdr i þessari sætt, ok var lengi fæd á med þeim Sighvati.

44. Þau Sighvatr ok Haldóra átto son er Tumi hèt, hann var fæddr um sumarit er þau höfdu vetur ásamt verit, en annan vetur eptir gèkk Haldóra med barni ok laukst seint um hag hennar. Gudny Bödvarsdóttir bió þá enn í Hvammi, hon leiddi miök at

[1]) Þrágiarnsson, *E.*

[2]) Sela bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

frèttir um mátt Haldóru, ok eina nátt dreymdi hana, at madr kvæmi or Hiardarholti, ok þóttist hon spyria at mætti Haldóru, hann kvad hana barn hafa fædt ok kvad vera sveinbarn. Gudny spurdi, hvat hann hèti? Hann heitir Vígsterkr, sagdi draummadrinn. En um myrgininn eptir kvam madr or Hiardarholti ok sagdi, at Haldóra væri lèttari ordin. Gudny spyr, hvört væri sveinn èdr mær? hann kvad vera svein ok heita Sturlu.

45. Snorri Sturluson fæddist upp í Odda med Jóni Loptssyni medan hann lifdi. Var Snorri þá nítián vetra, er Jón andadist, var hann þá med Sæmundi fóstbródur sínum, þartil er þeir Þórdr Sturluson bádu til handa honum Herdísar dóttur Bersa hins audga frá Borg á Myrum, hún átti átta hundrud hundrada, en Snorri var þá fèlaus, því módir hans hafdi eydt þeim fiörutygi hundrudum, er hann tók í arf eptir födur sinn, lagdi Gudny þá Hvammsland til kvonarmundar Snorra, ok var brúdlaup þeirra í Hvammi, ok var mælt, at Snorri skyldi eiga bú vid módur sína, en þau Herdís fóru um haustit sudr í Odda ok voru þar um veturinn. Eptir andlát Jóns Loptssonar tóku til deilur þeirra Sæmundar ok Sigurdar Ormssonar; þeir deildu um arf þess manns er Glædir hèt, hafdi Jón Loptsson haft handsöl á fiám hans, en erfíngiar varo austr í sveit Sigurdar, ok tók hann fèit undir sik ok setti í þann mann er Kári hèt, varo þarum deilur á þíngi, baud Sæmundr á giörd Þorvalds Gissurssonar, er þá átti Þóru dóttur Gudmundar Gríss ok Solveigar Jónsdóttur Loptssonar systur Sæmundar ok Páls biskups, en Sigurdr vildi þat ei, því at þeir Sighvatr Sturluson ok Kolbeinn Tumason löttu hann sætta, ok hèto honum öllum sínum stirk, ok urdu þessi mál ekki greidd á þíngi. En um veturinn er áleid, þann er Snorri Sturluson hafdi kvangast um sumarit ádr, fóru þeir Sæmundr austr á Sídu [med þriátygi manna [1]), ok lèt Sæmundr drepa Kára, er sat í fiánum er Glædir hafdi átt, en um varit stefnir Snorri Sturluson Sigurdi til varþíngs at Þíngskálum. Sigurdr sendi snimma um varit Árnór Tumason stiúpson sinn á fund þeirra Sighvats ok Kolbeins Tuma-

[1]) med nítiánda mann, *A, B, C, E, Gr, St.*

sonar, ok bad þá kvama til sín med allan afla þann er þeir fengi, [þvíat hann þóttist vita um málatilbúnadinn [1]). Sæmundr sendi Snorra til Borgarfiardar at kvedia upp þíngmenn sína, er Jón fadir hans hafdi þar átt, bædi marga bóndr ok góda, fèkk hann þar gott mannval. Þá er Snorri Sturluson kvam í Skálaholt med föroneyti sitt, var Arnór Tumason þar fyrir kvaminn or lidsbón frá þeim Sighvati ok Kolbeini, ok þóttust þeir ei fá dregit flokka um vardag [2]) sva mikit torleidi. Þá var Snorri [tuttugu ok tveggia vetra [3]), en Arnór átián vetra. Sigurdr vard sekr á þínginu, ok eptir þat safna hvarirtveggio lidi at nyu, ok var Sæmundr miklu fiölmennari. Sigurdr fèkk tvö hundrud manna, en Sæmundr hefir tólf [4]) hundrud manna, fer hann uppá eyna Há [5]) med lid sitt, ok byst þar fyrir. En vid þenna voda fer til Páll biskup ok Þorvaldr Gissursson ok leita um sættir, en vid þenna aflamun giördist Sigurdi sá einn kostr, at láta síga til samþykkis vid Sæmund, ero þá grid sett, ok fundust at [6]) Forsá hiá Skógum, ok vard þar sú sætt, at Páll biskup skyldi giöra á þíngi. Fara þeir nú til þíngs hvarirtveggio, ok lykr biskup upp giördum med rádi hinna bestu manna. Giörir hann eignir allar til handa Sæmundi [7]), en stillir sva giördum at bádir mátto vel vid una. En Sæmundr hafdi virdíng af málum þessum. Kolbeini líkudu illa þessar málalyktir, [en Sighvati verr [8]).

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) Vatnsdal, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

3) tvítugr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

4) siö, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) Há-ey. *B. Gr.* þ. eina háa ey. *A. C. St.*

6) vid. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

7) bródur sínum, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

8) vantar í *St. C.*

Nokkrar ættartölur frá norskum ok til Gissurar hvíta, ok frá honum hafa þeir fyrstu Skálholts biskupar sinn uppruna, sva ok Þorvaldr Gissursson ok hans synir. Gissur son hans, sem sídar vard jarl, átti hann vid sinni sídari konu Þóru dóttur Gudmundar Gríss ok Solveigar dóttur Jóns Loptssonar.

1. Kètilbiörn Kètilsson madr norrænn ok miök frægr fór til Islands, þá er land var vída bygt med siá, módir hans hèt Æsa Griótgardsdóttir systir Hákonar Hlada jarls, hann átti Helgu dóttur Þórdar Skèggia Hrappssonar, ok var med honum hinn fyrsta vetur á Islandi fyrir nedan [1]) Bláskógaheidi, ok fór upp í landaleitan um varit eptir, [sva segir Teitr [2]), en þeir giördu sèr skála þar er þeir höfdu náttból, ok kölludu þat af því Skálabrekku. En er þeir varo þadan skamt farnir, þá kvamo þeir á árís, ok hiuggu þar á vök, ok feldu í exi sína, ok kölludu af því Exará, sú á var sídan veitt í almannaginu [3]), ok fèllr nú eptir Þíngvelli. Þá fóru þeir þar til sem nú er kalladr Reidarmúli, þar urdu þeim eptir reidar þær, er þeir fóru med, ok kölludu þar af því Reidarmúla. Kètilbiörn giördi bú undir Mosfelli, ok nam þar land umhverfis, sva vídt sem hann vildi átt hafa. Frá þeim Kètilbirni ok Helgu eru Mosfellíngar kvamnir. Son þeirra Kètilbiarnar ok Helgu var Teitr fadir Gissurar hvíta ok Jórunnar módur Asgríms Ellidagrímssonar, ok Sigfús fadir Þorgèrdar [4]) í Odda módur þeirra Gríms ok Sigfúss födur Sæmundar prests hins fróda. Fleiri voru börn Teits en hèr eru nefnd. Gissur hinn hvíti var fadir Isleifs biskups, ok er frá honum saga mikil, sem gètit er í sögu Olafs [konúngs Tryggvasonar [5]), ok sva frá því er hann fór út híngat med kristnibod til Islanz ok þeir Hialti Skèggiason or Þiórsárdal.

1) nordan, *A. St.*

2) vantar í *A B, C. E. Gr. St.* Þ.

3) almannagiá edr gliúfur. *A, C, St,* Þ.

4) Þórdísar. *E.*

5) hins helga, *A, B. C, E. Gr, St.* Þ.

2. Isleifr var vígdr til biskups á dögum Haralds konúngs Sigurdarsonar. En þat sáu höfdíngiar, at Isleifr biskup var meiri nytiamadr en adrir kènnimenn hèr á landi, þá seldu margir honum syni sína til læríngar, ok lètu [vígia til [1]) presta. Þeir voru sídan vígdir til biskupa, Kolr er var í Vík austr, ok Jón [2]) hinn helgi er sídan var biskup á Hólum. Isleifr var vígdr til biskups þá er hann var fimtugr, þá var Leo pávi, sá er hinn níundi verit hefir med því nafni; en hann var hinn nærsta vetur í Noregi [3]), ok fór sídan til Islanz, en hann andadist í Skálaholti, þá er hann hafdi verit alls biskup fióra vetur ok tuttugo, ok þat var á drottinsdag siö náttum eptir Pèturs messu ok Páls, áttatygi vetrum eptir fall Olafs konúngs Tryggvasonar.

3. Gissur son Isleifs biskups var vígdr til biskups á dögum Olafs konúngs Haraldssonar kyrra [4]) at bæn lanzmanna tveim vetrum eptir þat Isleifr biskup andadist, þann var hann annan á Islandi, en annan á Hialtlandi [5]), [en þat var nafn hans rètt, at hann hèt Gisraudr, sva sagdi hann Ara presti [6]). Gissur biskup var betr þokkadr af öllum lanzmönnum en adrir menn á Islandi, ok af ástsæld hans ok fortölum Sæmundar prests ok umbrádi Markúsar lögsögumanns ok annara spakra manna var þat í lög tekit [7]), at allir menn á landi hèr þeir er ei varo frá munum [8]), töldu ok virdu allt fè sitt, ok svördu at rètt virdt væri, hvort sem væri í landi eda lausum eyri, ok giördu af tíund sídan, var þat med miklum iartegnum, hve hlydit allt fólk var honum, er hann kvam því fram at fè allt var virdt med svardögum, þat er hèr á landi var, ok landit siálft, ok tíund afgiör ok lögleidt, at sva skyldi vera medan Island er bygt. Gissur biskup lèt ok leggia lög á, at stóll biskups þess er á Islandi væri skyldi vera í Skálaholti, ok gaf hann til þess Skálaholts land ok mörg önnur audæfi

[1]) verda. *A. C. St.* þ.

[2]) Jóhannes. *A. C. St.* þ. hinn helgi vantar í *E.*

[3]) Nidarósi. *B. E. Gr.*

[4]) vantar í *A. B. C. St.* þ.

[5]) Gautlandi. *A. B. E. Gr.* þ.

[6]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) lagit. *E.* leidt. *A. B. C. Gr. St.* þ.

[8]) fránumnir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

í löndum ok lausum aurum, en þá er honum þótti sá stadr vel þróast at [1]) audæfum, þá gaf hann meir en fiórdúng biskupsdæmis síns til at heldr væru tveir biskupsstólar á Islandi en einn, en hann hafdi látit ádr telia bændr á Islandi, ok varo í Austfirdínga fiórdúngi siö hundrud, en í Rángæínga fiórdúngi þúsund, en í Breidfirdínga fiórdúngi níu hundrud, en í Eyfirdínga fiórdúngi tólf hundrud, en þeir varo útaldir er ei átto þíngfararkaupi at gègna. Ulfhèdinn Gunnarsson tók lögsögu eptir Markús, ok hafdi níu sumur, þá hafdi Bergþór Rafnsson sex sumur. Fyrsta sumar er Bergþór sagdi lög [2]), þá var Gissur biskup ei þíngfær, þá sendi hann ord til alþíngis vinum sínum at bidia skyldi Þorlák Runúlfsson [3]), at hann skyldi láta vígiast til biskups, ok sva giördu allir er ord hans kvamo til, ok fór hann utan þat sumar, en kvam út hit nærsta eptir, ok var þá vígdr til biskups. Gissur var vígdr til biskups þá er hann var fertugr. Þá var Gregoríus pávi, sem hinn siöundi hefir verit med því nafni, en sídan var hann hinn nærsta vetur í Danmörku, ok kvam um sumarit eptir til Islanz. En þá er hann hafdi verit biskup tuttugu ok fióra vetur, sem fadir hans, þá var hann fiórum vetrum [yngri en fimtogr [4]). En tólf vetrum sídar, þá er Gissur hafdi verit biskup þriátíu ok sex vetur, var Þorlákr vígdr til biskups í Skálaholt, at Gissuri biskupi lifanda, en Gissur biskup andadist í Skálaholti. A því ári hino sama andadist Paskalis papa [fyrr en Gissur biskup, ok Baldvín Jorsalakonúngr ok Arnhaldr patríarki at Jörsölum ok Filippus Frakkakóngr [5]) ok Alexius [6]) Grikkiakóngr, þat var hundrud ok átián vetrum eptir fall Olafs konúngs Tryggvasonar, en tvö hundrud fiörutíu ok fiórum [7]) eptir þat Ingúlfr landnámsmadr kvam til Islanz.

4. Isleifr biskup átti syni þriá, þeir voru allir höfdíngiar, Gissur biskup ok Þorvaldr, Teitr hèt hinn þridji, hann fæddist

1) eignum ok bæta vid *A. B. Gr. St. Þ.*

2) hafdi lögsögu. *A. C. St. Þ.*

3) bródur Halls í Haukadal, bæta vid *B. E. Gr.*

4) meir en fertugr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

5) vantar í sömu.

6) Alexander. *A. B. C. E Gr. St. Þ.*

7) tvö hundrud ok fimtíu. *A. C. B. E. Gr. St. Þ.*

upp í Haukadal med Halli hinum milda, ok kvam til hans siö [1]) vetra gamall, vetri eptir þat er Gèllir Þorkèlsson andadist, en Hallr segir sva Ara presti hinum fróda, at hann kvadst muna þá hann var skírdr þrèvetur, en þat var vetri fyrr en kristni væri lögtekin á Islandi, en hann giördi bú þrítogr, ok beó i Haukadal sextíu ok fióra vetur, hann hafdi fióra vetur hins tíunda tugar er hann andadist, þat var Marteinsmessu tíu vetrum eptir andlát Isleifs biskups. Eptir Hall beó í Haukadal Teitr prestr fóstri hans son Isleifs biskups, ok var mikill merkismadr, frá honum er mart manna kvamit, þat er Haukdæla ætt er köllud, hann andadist ellifu hundrud ok ellifu [2]) vetrum eptir burd Krists, en fiórum [3]) vetrum fyrr en Hvamm-Sturla var fæddr. Sonr Teits prests var Hallr prestr biskupsefni, mikill höfdíngi, hann bió í Haukadal eptir födur sinn Teit [4]), þá lidnir voru frá burdi vars herra Jesú Krists ellifu hundrud ok fimmtíu vetur.

5. Hallr Teitsson átti Þorrídi dóttur Þorgeirs á Myri. Gissur lögsögumadr var son þeirra, hann bió í Haukadal eptir födur sinn, hann var bædi vitur ok málsniallr, hann vár stallari Sigurdar kóngs födur Sverris kóngs, hann var ok hinn besti klerkr þeirra er hèr á landi hafa verit. Opt fór hann af landi brott, ok var betr metínn í Róma [5]) en nokkur annar íslenzkr madr hafdi verit fyrir hann af ment sinni ok framkvæmd. Gissuri vard vída kunnugt um sudrlöndin, ok þaraf giördi hann bók þá er heitir *Flos peregrinationis*. Hann átti Alfheidi dóttur Þorvards hins audga Gudmundarsonar, börn þeirra varo þau Þorvaldr ok Hallr ábóti, ok Magnús biskup, Þorrídr er átti Tumi Kolbeinsson, Kolfinna er átti Ari hinn sterki, en sídan Garda-Snorri. Haldóra var dóttir Gissurar ok Þorrídar Arnadóttur er átti Bersi Haldórsson, þeirra börn voru þau Teitr biskupsefni ok Þorgèrdr. Vilborg var dóttir Gissurar ok Þorbiargar Reinsdóttur, er átti Teitr Asláksson [6]). Val-

[1]) sex edr siö. *A. B. C. Gr. St.* þ.

[2]) eitt þusund níutygi ok einum vetri. *A. B. C. Gr. St* þ.

[3]) fimm. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) ok andadist, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) Rómaborg. *A. B. C. Gr. St.* þ.

[6]) Sigandason. *A. B. C. E. St.* þ.

gèrdr var dóttir Gissurar ok Þórnyar Vígfússdóttur [1]), Þordís var enn dóttir Gissurar ok Þórnyar, hana átti Þorsteinn Jónsson. Hallr Gissursson átti Herdísi Sveinbiarnardóttur, þeirra dóttir Hallfrídr. Magnús var sonr Halls laungètinn, hann átti Steinvöru Sámsdóttur, Sámr var son þeirra. Magnús biskup átti Haldóru Hialtadóttur, Hialti ok Gissur voru synir þeirra.

6. Þorvaldr Gissursson bió í Runa, hann átti Jóru Klængs dóttur biskups, þeirra synir voru þeir Gudmundr, Klængr, Beörn, Einar, Teitr. I þann tíma beó Gudmundr Grís á þíngvelli, hann átti Solveigu Jónsdóttur Loptssonar, þau átto tvær dætur er Þóra hèt hvortveggi, [ok varo sva skilin nöfn med þeim, at [2]) önnur var köllud Þóra hin eldri, en önnur Þóra hin yngri, þær varo bádar hinar giörfiligustu konur ok vel mentar, þær þóttu þá kvennkostir vænstir af úgiptum konum, þær fóru iafnan uppí Almannagiá til ár þeirrar er þar fellr med lèrept sín, ok er sagt einhvörn dag, er þær varo þar staddar at skèmta sèr vid ána, þá tók Þóra hin eldri sva til orda: Hvat ætlar þú, systir, hvörsu leingi þetta mani vera, at ei verdi menn til at bidia okkar, eda hvat ætlar þú fyrir okkur mani liggia? Þar ber ek litla hugsan fyrir, segir Þóra hin yngri, þvíat ek uni allvel medan sva er búit. Sva er ok, segir Þóra hin eldri, at hèr er sæmiligt at vera med födur ok módur, en ekki er hèr gladværi edr sva unadarsamligt at vera fyrir þat. Sva er víst, segir Þóra hin yngri, en eigi er víst, at þú unir þá betr er þessu bregdr. Nú er vel þá, segir hin eldri Þóra, giörum okkur hèr at gaman ok reynum hugspeki okkra, seg þú mèr, hvat þú mundir kiósa, hvör mann helst bædi þín, þvíat þat þykkiumst ek vita, at ei munum vid allan aldur okkar úgiptar heima sitia. Einga þörf atlak á þessu, segir Þóra hin yngri, þvíat allt man þat ætlat fyrir, ok man því ekki giöra hugsan fyrir slíku at bera, eda geipa þarum nokkut. Nú er þat víst, segir hin eldri Þóra, at þat er ákvedit er minna háttar er en eru forlög manna, en þó vil ek ei at sídr at þú segir mèr, hvat þú hyggr at fyrir þèr mani liggia, edr hvat þú mundir kiósa. Hitt ræd ek, segir

[1]) er átti Teitr Asláksson, bæta vid. [2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

hin yngri Þóra, at vid látum þetta tal hèr nidrfalla, því brátt fer ord þat er um munn lídr. Ekki þykkir mèr undir, segir eldri Þóra, þótt hèr giörist nokkut söguligt af, ok man ek segia þèr fyrri hvat ek vilda kiósa, ef þú vilt þá sídan segia mèr. Þú ert fyrir okkur, segir hin yngri Þóra, ok skaltu nú þá fyrri segia víst, med því at þú vilt at ei falli nidr geipan sú. Þat vilda èk, segir hin eldri Þóra, at Jón Sigmundarson ridi híngat ok bædi mín, ok værik honum gèfin. Hin yngri Þóra svarar, víst hefir þú at því hugat, at láta þann ei undangánga, er nú þykir bestr karlkostr [1]) vera, ok vildir þú því fyrr kiósa, at þú sást at þá vandadist mèr kiörit. Nú er þat miklu torveldara ok úlíklegra er ek vilda væri. Þat vildak, at Jóra biskupsdóttir andadist, en Þorvaldr Gissursson færi híngat ok bædi mín. Hættum þessu tali, segir hin eldri Þóra, ok gètum ekki um. Sídan gengo þær heim. Nú varo lidnir þeir tíu vetur, frá því er Guttormr erkibiskup hafdi leyft þeim saman at vera Þorvaldi ok Jóru, ok segir hann sva, at aldrei hafdi hann henni meira unt en þá, [ok hann vissi ei víst, hvört hann fengi af sèr at skilia vid hana eptir því sem hann hafdi heitit erkibiskupi [2]). En þau sömu misseri andadist Jóra, ok um varit eptir átto þeir Þorvaldr ok Jón bádir erindi vestr til Borgarfiardar. Þeir ridu ok bádir samt, ok gistu at Þíngvelli. Ok um daginn er þeir ridu vestr, vard þeim mart talat til þeirra Gudmundar dætra. Þær systur láu iafnan í einni hvílo, ok hvíldi hin eldri Þóra iafnan vid stokk, ok er þeir kvamo vestan Þorvaldr ok Jón, þá gistu þeir enn á Þíngvelli. Þá mælti hin eldri Þóra til systur sinnar: Nú man ek skipa þeim í hvílu okkra í kvöld Þorvaldi ok Jóni, ok med því þeir bidia okkar nú, þá skal ek þann eiga er í minni hvílu liggr, en þú þann er vid þil liggr. Þat vissi hún, at Þorvaldr var vanr at hvíla vid stokk, ok vildi þá hvortveggi hann heldr eiga. Hví mantu ei slíko ráda, segir hin yngri Þóra, hvòrsu þú skipar hvílum, en þat man verda um forlóg okkar sem ádr er fyrirætlat. Ok um kvöldit er þeir Þorvaldr ok Jón kvamo til hvílu, þá spurdi Jón: Þorvaldr bóndi, hvort viltu heldr liggia vid stokk edr þil? Þorvaldr svarar, iafnan em ek vanr at liggia vid

[1]) klerkkostr. *A. C. St.* Þ.

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

stokk, en þó skaltu nú kiósa. Þá man ek vid stokk hvíla, segir Jón, ok sva var, ok um myrgininn eptir höfdu þeir uppi bónord sín, ok fór þat fram, at Þóra hin eldri var gipt Jóni Sigmundarsyni, en hin yngri Þóra Þorvaldi Gissurssyni. Þessi varo börn þeirra Þorvaldar Gissurssonar ok Þóru hinnar yngri, Haldóra var elzt barna þeirra, þá Gissur [1]), þá Kolfinna. Haldóru Þorvalzdóttur átti Kètill prestr Þorláksson lögsögumadr [2]).

7. Einum vetri eptir deilur þeirra Sæmundar Jónssonar ok Sigurdar Ormssonar andadist Brandr biskup at Hólum, en þá rèd Kolbeinn Tumason einn ölln fyrir nordan land, hann kaus vid rád vina sinna Gudmund prest Arason hinn góda til biskups, er þá var prestr á Vídimyri med Kolbeini. Þau voru brædrabörn Geirrídr [3]) Þorvardsdóttir kona Kolbeins ok Gudmundr prestr hinn gódi, var hann madr vinsæll ok hógvær, ok varo þau ordtök margra manna, at Kolbeinn vildi því Gudmund til biskups kiósa, at hann þóttist þá ráda bædi leikmönnum ok kènnimönnum fyrir nordan land. Þetta sumar hit sama fór Gudmundr prestr hinn gódi til þíngs, en af þíngi budu honum heim Sunnlendíngar ok Austfirdíngar, ok fór hann af þínginu sudr í Skálaholt. Þá nátt er hann var þar, andadist Kètilbiörg nunna, ok lèt Páll biskup Gudmund prest syngia yfir líki hennar, en biskup stód yfir ok Gissur Hallsson, ok var sú þiónusta sva merkilig, at Gissur vottadi þat í tölu sinni [yfir greptinum [4]), at hann þóttist ekki slíkan saung heyrt hafa, ok virdi henni til heilagleiks, er henni mátti slíks líksaungs audit verda. Þadan fór hann austr yfir ár, þá bydr honum heim Arni prestr á Skúmstödum. Þar var fall mikit, sva at siö menn varo fallnir, ok bædi naut ok ross. Hann gistir þar ok vígir vatn ok geingr med helga dóma, ok stökkr siálfr vatnino um akra, hús ok tún ok vída um eingiar, ok tók af sídan fall allt. Þadan fór hann austr um Eyafiöll, ok sva austr á Sído ok í Ver austr, ok þá kèmr hann á bæ þann er á Lómagnúpi heitir, þar

[1]) iarl bæta vid *A, B, C, E, Gr. St.* Þ.

[2]) lögsögumanns. *A, B, C, E, Gr, St.* Þ.

[3]) Gyrídr. *A. B. E Gr.* Þ.

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

var þá laup í ánni Lómagnúpsá sva mikit, at Arni bóndi kvamst vid íllan leik af, ok drukknadi madr fyrir honum af laupi árinnar ok braut hún land vída, [menn sátu vid ána fyrir austan, ok mátto ei yfirkvamast, því áin var berliga úfær [1]), en er þeir Gudmundr prestr kvamo til árinnar, þá stíga þeir af baki, ok siá at áin er úfær. En er þeir höfdu lánga stund setit vid ána ok treystust eigi á at rída, þá sáu þeir er fyrir austan ána sáto, at áin fèll fram, ok ráda til at rída. Þá rída þeir Gudmundr prestr ok sveit hans á ána, ok hittust í ánni nær midri ok þeir er austan kvamo at, ok fórst hvoriumtveggium vel. En er hvorirtveggiu kvamo yfir ána, þá vóx hún þegar, ok var úfær nokkra daga.

8. Þadan fer Gudmundr prestr til Svínafialls til Sigurdar Ormssonar. Þar var þá kvaminn Kolbeinn Tumason til heimbods, ok voru þeir þar allir saman þriár nætr. Þá fer Kolbeinn brott, ok rída þeir Sigurdr ok Gudmundr prestr á leid med honum, en er þeir varo skildir, þá rída þeir Gudmundr prestr ok Sigurdr tveir saman, þvíat Sigurdr vildi tala vid hann einsliga um vandrædi sín þau er leiddi af málum þeirra Sæmundar, at hann lèzt varla þola vansa þann ok ámæli, er leiddi af málum þeirra, ok leitadi ráds undir Gudmund prest, ok kvedst eingis iafnfús en leita til hefnda vid Sæmund. En Gudmundr bad hann þat mest varast, því þú mátt vid þat vel una, segir hann, at þú hafir af því ámæli er þú hefir vel giört; nú man ek bidia gud, at hann stirki þik ok gæti þín. Hins vil ek þik bidia, segir Sigurdr, at þú beidir þess gud, at hann láti þik þess rádandi, at þú mættir sysla mèr nokkra stadfestu nordr þar í sveitum, þá er höfudburdr [2]) væri at, því at mèr synist sva mikit yfir þèr, at mèr bydr þat í skap, at þú munir meira verda rádandi en nú erto, en ek vilda þessa stadfestu selja í hendr Jóni Sigmundarsyni frænda mínum. [Nú man ek annathvort undanleita, ef þú vilt mèr þessu heita, edr ella man ek eptirleita vid Sæmund hvörnveg sem fer [3]).

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) upphæd. *A. B. E. Gr.* þ. upphaf. *C. St.*

[3]) Nú, ef þú vilt mèr ei þessu heita, þá man ek eptirleita vid Sæmund. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

En Gudmundr prestr kvedst heldr vilia þessu heita, at bidia at gud lèti hann þessu verda rádandi. Ok þann hinn sama dag er þeir ræddust þetta vid, þá andadist Brandr biskup, ok fyldust nú beggia þeirra ord um yfirbragd þat er Sigurdr þóttist siá á honum, ok gódvilia heit þat er Gudmundr prestr hèt Sigurdi, ef hann mætti stödva missætti þeirra Sæmundar, at sysla honum stadfestu, en þennan dag bar undir hann rád biskupsdæmis, þó hann vissi þat ei.

9. Sá atburdr vard þar, at Steinn prestr bad Gudmund prest gèfa sér helgidóma, ok sva giördi hann, ok er hann gaf honum af beini Jóns biskups, segir Steinn prestr at sèr þætti ei vel litt beinit ok úheilagt, en Gudmundr prestr spyr miúkliga, hvört hann trydi ei? Steinn prestr svarar, ok kvad sèr ei þykkia Jón biskup taka Þorláki biskupi hærra en í midiar sídur. Gudmundr prestr mælti: þá bidium vèr allir gud ok hinn helga Jón biskup, at hann syni helgi sína í nokkurri iartegn [1]). Þá fèllu allir menn á knè med Gudmundi presti, en eptir þat lèt hann alla menn kyssa á beinit. Þar kèndu þá allir sva sætan ilm af beininu, sem reykelsi væri, nema Steinn prestr, hann kèndi eingan ilm. Þá skammadist hann sín, ok sá þá reidi guds ok hins helga Jóns biskups vid sik, er hann var nú giör fráskila þessari dyrd, ok bad þá gud ok hinn heilaga Jón biskup fyrirgèfníngar. Þá bad Gudmundr prestr at gèfa Steini presti af beini Jóns biskups, ef hann vildi af öllu hiarta dyrdka hann. Hann kvadst vilia feginn, ok var rædt um hvört Jón biskup vildi þiggia dyrdkun hans. Þá segir Gudmundr prestr, at allir skyldu bidia fyrir honum, ok sva var giört, ok þá kèndi hann sva sætan ilm sem adrir. Þá þökkudu allir gudi ok hinum heilagi Jóni biskupi, var þá hríngt öllum klokkum ok súngit *Te Deum laudamus*, ok lyst sva þessari iartegn. Sá atburdr vard enn þar, at laup kvam í á þá er þar fellr vid bæinn, ok braut [akur ok tún [2]) sva stórum sködum gègndi. Þá bad Sigurdr Gudmund prest fara til ok syngia yfir ánni. [Hann fór med helga dóma sína ok klerka, ok saung lengi

[1]) at svefia útrú Steins prests, bæta [2]) vída á land. *A, B, C, Gr, St,* þ, vid *B, E, Gr,*

yfir ánni [1]), en um morgininn eptir, þá var hún horfin or þeim farveg, ok hafdi brotit sèr nyan farveg austr um sandana. Kèrlíng ein var þar at Svínafelli ok sva sem kvamin at bana, hún hafdi siö nætr mállaus verit, ok eingum mat bergt, ok ekki hrært á sèr nema framanverda fíngur ok tær, en þó skildist ei önd vid hana, en þó hafdi henni giör verit öll þiónusta, hún var gódmenni. En er Gudmundr prestr var brottbúinn frá Svínafelli ok kvaminn til hests síns, mælti hann, at hann hefdi ei gád at kvedia [2]) kèrlínguna siúko inni, þat skal þó ei, segir hann, ok sva geingr hann inn ok alþyda manna med honum. Hann kèmr í stofu þar sem kèrlíng liggr, þá var hún nær andláti, hann [3]) mælti, ver nú heil ok sæl kèrlíng mín, ok manto nú fara til guds, ok heilsa frá mèr Maríu guds módur ok Mikaeli engli [4]), Jóni [5]) Baptista, Pètri ok Páli póstula [6]), ok Ambrosio biskupi [7]) mínum. þá segir kèrling sva hátt, at iafnvel heyrdu þeir er lángt varo fram frá, já, já! sagdi hún þetta at middegi, en andadist at nóni þann sama dag.

10. þá fer Gudmundr prestr til Austfiarda ok föroneyti hans, ok kèmr at Barthólómeusmesso til Stafafells [8]). þar spyr hann þau tídindi um óttusaung andlát Branz biskups Sæmundarsonar, en vid tídindi þessi vard honum svo úsvipt sem hann væri steinlostinn. þá lèt hann þegar syngia sálumessu, en um daginn eptir allar sálutídir ok líksaung med allri vandvirkt [9]). Sídan fóru þeir ok kvamo í Fliótsdalshèrad til Valþiófstadar til Jóns Sigmundarsonar at Egidíusmessu, þá var þar kyrkiudagr, þar váro vidtökur gódar. En er Jón leiddi Gudmund prest inn frá kyrkiu um kvöldit, þá spyr Gudmundr hann tídinda, Jón segir: tídindi mikil ok gód, hèradsmenn í Skagafirdi eigu fund á myrgin ok kiósa biskup, ok mantu kosinn verda, því at gud man þat vilia, en

1) vantar í *A. C. St.* þ.
2) edr kyssa, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.
3) kyssi hana ok, bæta vid *B. E. Gr.*
4) yfirengli. *B. E. Gr.*
5) Jóhanni. *A. E.* þ.
6) Olafi kóngi, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) vin. *B. E. Gr.*
8) Stafafiardar. *A. C. St.*
9) ok allri ást. bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

þadan frá var honum svà mikil hrædsla í bríósti, at hann mátti hvergi med hallkvæmd neóta svefns ne matar fyrir ugg ok ótta slíkra luta. En aptaninn [fyrir krossmessu [1]) kvam Gudmundr á þann bæ er í Hlíd heitir í Fliótsdalshèradi, þá dreymdi hann um náttina, at hann þóttist kvama í kyrkiu á Völlum í Svarfadardal, ok þótti honum altarid falla í fáng sèr ok vera skrydt hinum besta skrúda. Um daginn eptir fara þeir nordr yfir heidi til Vapnafiardar, ok kvamo í Krossavík [2]) um aptaninn. En er þeir voru undir bordi, þá kvamo þar sendimenn Kolbeins Tumasonar, ok geingr Einar Forkr innar [3]) fyrir Gudmund prest ok kvaddi hann vel. Hann spurdi tídinda. Einar svarar: gód tídindi, þú ert kosinn til biskups af Kolbeini ok öllum hèradsmönnum, nú fer ek med brèfum ok þeirri ordsendíngu, at þú skulir sem fliótast heim kvama. En vid þessi tídindi vard hann sva úsviptr [4]), at hann mátti lánga stund ekki mæla, þá bad hann gud at láta þat uppkvama er öllum gègndi best.

11. Um daginn eptir fór Gudmundr prestr til Hofs til Teits Oddssonar, þar var þá vistum Haldór prestr Hallvardsson. Þá ræddi Gudmundr prestr vid Haldór prest, ef nokkur van væri á, at hann leysti hann or þessum vanda ok gengi siálfr undir, en hann taldist undan, ok kvadst miök aldri farinn ok þó at ödru ei tilfeldr, kvadst vita þykiast, at honum mundi ei tiá undan at mælast, man þat bædi guds vili ok manna, at þú sèrt biskup, en ek vil beina til med þèr bænum mínum ok öllu því er ek má þèr til fulltíngis. Þadan fer hann nordr í Exarfiörd [um Mödrudalsheidi [5]), ok kvam á fyrir þeim vedur mikit ok hart ok kafaríd, [ok skilst lid þeirra, þartil Gudmund prest ránkar vid, at þeir mano ei rètt fara [6]), kèmr hann fyrst til húss [7]) ok med honum diáknar tveir Sturla Bárdarson [ok Lambkár Þórgilsson [8]) ok fleiri adrir kvamo miklu síðar. Nú fara þeir nordan ok kvama

[1]) vantar í *E.*

[2]) Krossanes. *A. C. St.* Þ.

[3]) inn. *A. B. C, Gr, St,* Þ.

[4]) hriggr. *E.*

[5]) vantar í *A. C. St.* Þ.

[6]) vantar í *E.* kannast vid. *A. B. C. Gr. St.* Þ.

[7]) bygda. *B. E.*

[8]) vantar í *A. C. St.* Þ.

á Greniadarstadi, þar beó þá Eyúlfr Hallsson. Þá talar Gudmundr prestr um vid Eyúlf, ef hann vill gánga undir ok verda biskup, en hann kvad ei um þat at leitast, ok kvad Skagfirdínga ok Eyfirdínga eingan annan vilia en Gudmund. Nú fara þeir nordr ok kvama á Háls Mikaelismesso til Ögmundar Þorvardssonar, ok spyr Ögmundr hvört þat sè satt, at hann telist undan at verda biskup. Hann kvad þat satt vera. Hví sætir þat, segir Ögmundr? Hann svarar, þvíat mèr þykkir vandi mikill at eiga vid marga menn úhlydna ok öfundarfulla ok ríka [1]), eda mantu frændi vera oss hlydinn, ef vèr vöndum um rád þitt? Ögmundr svarar: hvörs vandrædi skaltu heldr ábyrgiast en mín, en sva sem ek er þèr úhlydinn, þá man ek mörgum ödrum úhlydnari, ok eingum man stoda um at vanda, ok man þèr ei tiá undan at teliast, því þèr man fara sem Ambrosió biskupi, þvíat þèr spádu barnleikar fyrir sem honum, at þú mundir biskup verda, [nú tèdi honum ei undan at teliast, enda man þèr sva, því [2]) vèr vilium eingan annan biskup en þik. Nú fer Gudmundr prestr vestr ok heim á Vídimyri, ok er þat at veturnáttum, ok urdu allir menn fegnir heimkvamo hans.

12. Laugardaginn geingr Þorvardr Þorgeirsson til máls vid Gudmund prest einnsaman, ok spyr, hvört þat væri satt at hann vildi [giörast einhverfr í því at teliast undan [3]) biskupsvígslu, ok hlyta ei hans forsiá ok annara vitra manna, en hann kvad þat vera. Þorvardr svarar, ek þykiumst eiga at vera forsiámadr ydar, ok vil ek ráda. Gudmundr mælti: Hví man þat sæta, at ek muni ei eiga at ráda fyrir mèr? Þorvardr svarar, veiztu þat frændi, at ek hefir verit höfdíngi fyrir ætt varri, ok fadir minn fyrir mik. Nú hlytti [4]) þinn fadir minni forsiá, sva ok adrir frændr mínir, enda ræd ek þèr þat, nú man þèr ætladr höfdíngskapr eptir mik. Gudmundr svarar: ei baudstu mèr at taka fè eptir födur minn, ok lítillar virdíngar hefir þú mèr leitat hèrtil, nema láta beria mik til bókar, enda synist mèr sem þú vilir heldr kvama mèr í

[1]) ok stolta, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í *E.*

[3]) skorast undan. *A. B. C. Gr. St.* þ.

[4]) hlyddi. *Gr. E.*

vanda en í virdíngo [1]). Þorvardr svarar: [hvar hefir ek slíkt heyrt, at drepa hendi vid virdíngu sinni [2]), enda man ekki stoda, þvíat þú mant biskup verda, ok mik hefir sva dreymt til. Hvat hefir þik dreymt, segír Gudmundr? Mik dreymdi, segír Þorvardr, at ek skyldi gánga inní hús mikit ok hátt, en ek hafdi ei iafnmikit sèd, ok sva miklar dur á, at þat var ei med minna móti, en er höfud mitt kvam í durin, þá nam vid herdunum ok gèkk ekki leingra, en ek ræd þann draum sva, at vegr þinn man verda sva mikill, at öll kristnin man ei hyggia mega sva mikla virdíng þína sem verda man. Þá dreymdi mik enn annan draum, at ek þóttumst vera kvaminn nordr í Nidarós í höllu Olafs kóngs, ok þótti mèr hann sítia í hásæti ok alskipud höll hans, mèr þótti hann standa upp í móti mèr ok bióda [3]) fadminn ok kvedia mik sva: kvam þú heill ok sæll Þorvardr minn [4]), þú mant blessadr um öll nordurlönd. Nú veit ek, at þú átt þessa drauma, vili gud at þú sèrt vígdr í höll Olafs kóngs, þat er í Krists kyrkiu, þar mantu verda vígdr til biskups. Nú man þetta framgánga, hvort þú vilt edr ei. Þá skilr med þeim, ok segir Þorvardr Kolbeini vidtal þeirra, ok geingr Kolbeinn til hans ok segir honum at þeir átto fund Egidíusmessu á Vídivöllum, ok þar varo á fundinum ábótar frá Þíngeyrum ok frá Þverá, ok þar var Gissur Hallsson ok Gudmundr hinn dyri, ok mart hèradsmanna, ok var látinn í kosníngi þú ok Magnús Gissursson, ok dró Gissur fram mál sonar síns, ok þóttu meiri stodir renna [5]) at med honum til fulltíngs, ok meir reynd fiárvardveizla hans en þín, en ek lèt mèr vel líka hvor ykkar til væri kosinn. En þá segir Hiálmr Asbiarnarson, at sèr væri lítit um, at or ödrum fiórdúngi væri madr kosinn. Slíkt sagdi ok Hafr ok margir adrir, enda þótti þat öllum sva vel, at eingi vard til mótmæla ok samþyktu þik þá allir, ok ertu því nú kosinn fastliga bædi at guds kiöri ok manna. Nú væntum [6]) vèr, at þú manir giöra vilia bædi guds vilia ok varn, ok skèrast eigi

[1]) vegsemd. *A. C. St.* Þ. ok man ek ei þessu ísta, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) hvöriu sætir, at þú drepir — þinni. *A. C. Gr. St.* Þ.

[3]) breida. *E. Gr.*

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) rísa. *E. Gr.*

[6]) vitum. *C. St.* Þ.

undan. Hann svarar: þat vil ek vita ok heyra, hvört sva er ödrum hèradsmönnum umgèfit sem þèr, þvíat mèr þykkir stór vandi vid liggia, ok em ek því tregr undir at iátast.

13. Þá var stefndr fundr drottinsdag á Vídimyri, ok kvamo þar þá hèradsmenn, ok lögdu þá at nyu til umbrædo, ok kvam þar þá í sama stad nidr, [senda þá eptir Gudmundi presti, ok segir Kolbeinn honum, at þeir bidia hann til [1]) samþykkis ok jáyrdis, at gánga undir vanda þann er þeir hafi hann tilkiörit at vera biskup. En er hann sá hve horfdi af Kolbeini, at hann vildi ekki annat, [ok hugdi sèr mundi verda þetta dælst [2]), þá svarar hann: heldr vil ek hætta [3]) á guds miskun um þat at iáta þessum vanda, en ábyrgiast þat, at eingi sè tilkosinn, [ok þykki ydr ei öllum eitt [4]). Þá mælti Kolbeinn: mæl þú allra manna heilastr. Þökkudu honum þá allir at nyto [5]), ok fara menn heim um kvöldit, er þá Gudmundi presti búit þar bord ok hásæti, ok bar Kolbeinn siálfr mat fyrir hann, ok breiddi dúk á bord, en er skiótt þurfti til at taka, var dúkrinn slitinn miök ok ræddi Kolbeinn um ok mælti: miök kènnir nú dælleiks [6]) af varri hendi meir en verdleiks ydvars, er sva vondr dúkr er á bordi ydru. Hann svarar: ekki sakar um dukinn, en þareptir man fara biskupsdómr mínn, ok sva man hann slitinn vera sem dúkrinn. Kolbeinn rodnadi vid ok svaradi eingo. Um myrgininn eptir beoggust þeir Kolbeinn ok Þorvardr med biskupsefni til Hóla ok klerkar hans siálfs. Kolbeinn gaf honum uxa gamlan er þeir fóru, ok kvadst vilia hefia upp giafir vid hann [7]), fara sídan um daginn út til Hóla, ok kvamo út um [aptaninn fyrir [8]) Kolnismeyamessu, ok er þá giör prócessió móti honum. En er þeir eru þar kvamnir, þá tekr Kolbeinn þegar rád öll undir sik ok búsfar [9]) at eingu lofordi biskupsefnis. Þá var þar fyrir Kygri-Beörn at Hólum. En

[1]) bádu hann þá allir. *E.*
[2]) vantar í *A. C. St.* þ.
[3]) heita. *B. E. Gr.*
[4]) vantar í sömu.
[5]) af nyu, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) dæligleika. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[7]) en hann þakkadi honum vel, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[8]) morguninn. *B. E. Gr.*
[9]) baud fyrir. *B. C. E. Gr. St.* þ.

ádr þeir kvœmo til Hóla, þá hafdi Lambkár [1]) diákn ritagiördir Kolbeins allar iafnliga, þá er hann var heima, en er hann kvam til Hóla, þá var hann at vidsiá hafdr um ritagiörd alla, en Kygri-Beörn tekinn til brèfagiördar í stadinn, ok giördi Kolbeinn sèr vid eingan mann kærra en Beörn, en Biörn sló þegar fæd á vid biskupsefni, þvíat hann þóttist oflítils metinn af honum, ok spádi biskupsefni þegar fyrir því er sídar framkvam um Beörn, þvíat sú öfund fæddist med honum, ok var þess meiri sem hún hafdi leingr stadit. Nú fer sva fram um veturinn, at Kolbeinn rèd þar einn öllu, en biskupsefni var sva rádum borinn at hann skyldi ei ná at þar væro brædursynir hans, giördi hann þeim bú á Kálfstödum af því er honum var gèfit um sumarit, en Kolbeinn giördi sèr heimilt at setiast vid siöunda mann á stadinn [2]). Biskupsefni vildi ok láta gèfa fátækum mönnum mat í tvö mál, en Kolbeinn rak þá í gèstahús ok lèt gèfa í mál [3]). En er iól lidu af höndum, þá kvam Þórarinn briti Geisladags aptan til máls vid biskupsefni, ok segir sva: ei erto forvitinn um búfar þat, er vær höfum med höndum. Gudmundr svarar: ei þykkir mèr [sá beztr [4]) at lutast [5]) til ok ráda eingu. Ek vil þá segia þèr deili á, segir Þórarinn, [at ek hefi slíkan örkost ætlat til iólavistar mönnum, sem hèr hefir leingi vant verit [6]) ok hvern vetur fyrr krefti at sióda til ióla, en nú hefir endst viku leingr, ok hefir aldrei verit fiölmennara um iólin en nú. Þat er synt, segir biskupsefni, at Maríu þykkir betr þat veitt er en Kolbeini. Kolbeinn sat hiá ok þagdi. Þá gèkk briti í brott, ok kèmr nautamadr [at segia frá fiárfódri því er hann hafdi hendr yfir [7]), ok segir, at þat hafi aldrei ordit iafndriúgt sem þá, en biskupsefni svarar hinu sama: hvör veit nema Maríu þykki betr þat veitt er en Kolbeini.

14. Eptir iólin sendir biskupsefni mann er Þórdr hèt ok var Vermundarson at stefna [8]) Rafni Sveinbiarnarsyni á fund vid

[1]) Lankar. *A. C. St.* þ. Laundiákni. *B. E. Gr.*

[2]) stóliun. *A. C. St.* þ.

[3]) einmælt. *B. E. Gr.*

[4]) at bættara. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) siá. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) þann kost hefek ætlat til ióla, sem vant er. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) vantar í *B. E. Gr.*

[8]) boda. *E.*

sik í Midfiörd, ok vildi biskupsefni krefia hann til utanferdar med sèr, en þá er at þeirri stundu lídr, bióst biskupsefni heiman, en er hann var kvaminn í kèrru sína, þá geingr Kolbeinn at honum ok mælti vid hann: nú vil ek at vid leggium nidr þá fæd er í hefir verit í vetur med oss, [þvíat þat eitt er til [1]), ok skulum vèr þat eingis virda hvorir vid adra. Biskupsefni svarar, ekki köllumst ek til saka hafa giört, er ok vel ef þèr hafit sva giört, en ábyrgist siálfir ef ödruvís er en ydur þykkir. Kolbeinn svarar: hvorirtveggio manum vèr valda, því sva verdr optast. Nú er glíkligt at vèr völdum meira af, vilium vèr af því bidia ydr fyrirgèfníngar, vilium vèr ok fyrirgèfa ydr ef þèr hafit í nokkru oftekiur haft. Hann svarar: góð eru góð ord, ok manu þar nú hvorir at sínum giörníngi duldir, þvíat ek dyliumst vid at ek hafi vid nokkut hèr oftekiur hafdar í vetur, þvíat ek hefir ekki kosti átt. Nú fer hann vestr í sveitir ok gistir at þíngeyrum. þar var góð einsetukona [2]) ok skynsöm er Ulfrún hèt, hún var módir Símonar prests hins mikla, hún hèlt sva ríkt [3]) einsetuna, at hún vildi eigi siá son sinn er hann sótti hana heim. Hún segir biskupsefni sva, at María drottníng [4]) hefdi þat vitrat henni, at gud ok hún vildi at hann væri biskup, ok skaltu ekki undanteliast, ef þú vilt guds vilia giöra, sem þú mant vilia, þvíat þèr man ætlat. þessi sögn þótti honum merkilig ok vann [5]) á trúnad. Fer hann sídan vestr í Midfiörd ok kèmr á nefndum degi á Stadarbakka, ok þann sama aptan kvam þar Rafn or fiördum vestan, sem ákvedit var. þá taladi biskupsefni lánga tölu ok merkiliga á drottinsdag, ok lysti því, ef nokkur madr væri þar kvaminn er þess manns vissi vanir, at undir þenna vanda vildi gánga er hann væri ætladr edr sá er honum vildi hnekkia, þá vil ek feginn uppgèfa ef þat mætti verda med samþykki manna, en þess treystist eingi at vera hnekkíngarmadr, ok því var á þeim fundi rádin utanferd Rafns Sveinbiarnarsonar ok biskupsefnis. Af fundi þeim fara hvorirtveggio heim, biskupsefni til Hóla, en Rafn vestr. Um veturinn hafdi

[1]) vantar í *B. E. Gr.*

[2]) nunna, *B. E. Gr.*

[3]) trútt, *B. E. Gr.*

[4]) vantar í *E.*

[5]) nam, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

biskupsefni sendt mann med brèfi austr til Svínafells, þat mælir sva: «Guds kvediu ok sína sendir Gudmundr er nú er kalladr «biskupsefni [1]) Sigurdi [2]) ok Þorrídi. Gud hefir miklar iartegnir «giört, at vèr skyldum heit vart efna mega sem vèr erum skyldir «til vid ydur at fá oss stadfestu. Nú er ek skyldigr [3]) þíns full-«tíngs, því ek hefir meira vanda á mik iátt en ek sè til fær at «bera, nú bid ek ykkur til stadarforráda med mèr ok fiárvard-«veizlu, ok kvamit sem fyrst má, því þat gègnir betr stadnum ok «öllum oss vel [4]).» Nú fer hann austan eptir iól, ok hittast þeir [biskupsefni á leidinni er hann fer heim nordr, ok fer Sigurdr fyrir skiótara til Hóla nordr [5]). [En er biskupsefni kvam heim [6]) til Hóla, þá var lagt í umrædo hvöria kosti Sigurdr skal hafa. Hann kvedst ei mundu til rádast, nema honum væri handsölud stadarforrád, en biskupsefni var leingi tregr til handsala, [en kvadst gèfa mundi stadarforrád [7]) í hendr Sigurdi. Þá bádu vitrir menn [Kolbeinn Tumason ok Hafr Branzson ok margir adrir, at biskups-efni skyldi heldr handsala Sigurdi stadinn til forráda en at hnekkia slíkum manni frá er Sigurdr var, ok þótti mönnum ei betr mega fyrirsiá stadarforrádum en selia í hendr Sigurdi ok Þorrídi, ok rædst þat or, at hann handsalar Sigurdi stadarforrád. Sídan fer Sigurdr med brèf biskupsefnis í Skálaholt til Páls biskups, þat er sva mælir:

15. «Páli biskupi sendir kvediu guds ok sína Gudmundr «prestr er nú er kalladr biskupsefni. Ek hefir iázt undir meira «vanda en ek sè til fær at bera, ok haft ei ydvart rád til edr lof «sem vera átti. Nú vil ek bidia ydur álíta af guds hálfu, sem «þèr erut skyldir til, at segia hvat ydur er næst skapi, vilit þèr «annan mann kiósa til þessa vanda ok vegs, er ek hefir úmakligr «undir iátast, þá vil ek feginn uppgèfa [ok fráfara [8]), þviat ek «verd þess af nokkrum var, at þeir þykkiast ofmælt hafa, ok hefir «ek því rádit Sigurd Ormsson til fiárforráda med mèr, at menn

[1]) *electus. B. E. Gr.*
[2]) Ormssyni, bæta vid *B. E. Gr.*
[3]) þurfi. *B. Gr.*
[4]) *valete*, bæta vid *B. E. vale. Gr.*
[5]) at Hólum. *E.* [6]) vantar í *E.*
[7]) stór forrád. *A. C. E. St.* þ. vantar í *Gr.*
[8]) vantar í *St.*

«kvíddu fiárforrádum mínum. Nú kiósit skiótt annathvort, þat sem «gud kènnir ydur, ok sendit mèr brèf um sem fyrst [hvort þêr «kiósit mik til eda frá [1]). *Vale.*» En er Sigurdr færir Páli biskupi brèf þetta, þá sendir hann mann þegar med brêfi austr í Odda til Sæmundar [2]) þat er sva mælti: «Páll biskup sendir kvediu guds «ok sína Sæmundi bródur sínum. Brèf biskupsefnis kvam til mín, «at ek skuli kiósa annan mann til biskups, [ef ek vil [3]), hann «læzt búinn upp at gèfa kosnínguna, hann hefir râdit Sigurd Orms«son til stadarforráda, því menn hugdu [4]) þat helzt ádr at fiár«vardveizla hans mundi ei med forsiá. Ek þykkiumst þess kènna «á brêfi hans, at hann man ætla utan í sumar, ef hann er ei frá«kosinn, því hann bad mik skiótt atkveda, hvort ek vildi kiósa «hann til edr frá. Nú vil ek at þú segir hvort ek skal atkveda.» Sæmundr sendi brèf ímóti, ok mælti sva: «Páli biskupi sendir «Sæmundr [5]) kvediu guds ok sína. Veiztu, bródir, at Gudmundr «biskupsefni hefir ei mikill vin verit í málum varum Sigurdar, en «þó er hann miök leyfdr af mörgum mönnnm, ok líkligt at því «muni kosníngr undir hann kvaminn, at þat mani guds vili vera, «spyr ek at hann man fyrir margs sakir vel tilfallinn, bædi gæzku «sinnar ok sidvendis [6]) ok hreinlífis er mest um vardar, en ef «nokkut er annat í, þá færi þat vanda at Nordlendíngum, at þeir «ábyrgist siálfir kiör sitt. En þat er mitt rád, kiós hann heldr til «en frá, svíat ei er víst hvör líkligri er til at gudi líki vel en sá, «ok er nú vonum best at hætta, ok úrádit at sá finnist sem eigi «megi atfinna. Einhlytir giördust Nordlendíngar at um kiör sitt, «bèri þeir nú ábyrgd fyrir hve verdr. [*Vale*» [7]). Nú kèmr brêfit í Skálaholt. Þá sendir biskup bod [8]) Þorvaldi Gissurssyni ok Halli ok Magnúsi brædrum hans ok Sigurdi Ormssyni, ok eiga þeir fund, lysir biskup yfir því, at kosníngi vàr orpit undir hann, ok hann hefdi rádit fyrir at kiósa Gudmund heldr til en frá. Binda

[1]) vantar í *E.*

[2]) bródur síns, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) vantar í *A. C. St.* þ.

[4]) ugdu. *B. E. Gr.* voru uggandi, *A. C. St.* þ.

[5]) Jónsson bæta vid *B. C. Gr. St.* þ.

[6]) sidsemi. *St.*

[7]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[8]) brèf. *A. C. St.* þ.

þeir þá allir med fastmæli þetta med sèr. Sendi þá ok biskup Sigurd Ormsson med brèfum nordr til Gudmundar biskupsefnis, þat mælti sva:

16. «Páll biskup sendir kvediu guds ok sína Gudmundi «biskupsefni. Gud hefir kosit þik til biskups ok vær, [ok ertu «fastliga kosinn at guds lögum ok manna, sva sem á þessu landi «man fullligast [1]). Nú er gud ok gódir menn hafa þenna vanda «á þik lagt, þá ber oss naudsyn til at finna þik sem brádast, því «ek kènda þess í brèfi ydro at þú mant ætla utan í sumar, [ef sá «vill [2]) sem þú mundir kiósa. Nú vil ek kvama til móts vid þik «þar er þú vilt, en kunna þökk ef þú sækir mik heim, en skylda «þik ei til, þvíat ek á mörg naudsynia erindi til erkibiskups, þau «er ek vil at þú flytir fram ok kvamir á minn fund, ádr þú farir «utan.» [3]) Nú lídr veturinn af höndum ok fer biskupsefni eptir hvítadaga sudr á Skálaholt at hitta Pál biskup, ok tekr vid brèfum hans, þeim er hann sendi erkibiskupi, fer sídan heim til Hóla. Þá kèmr Sigurdr austan ok þau Þorrídr [med mikinn fiárlut [4]) ok giöra þann kost biskupsefni at fè þeirra skyldi ei þverra, ok kölludu tvö hundrud hundrada, en þat var allskonar fè bædi frítt ok úfrítt, ok var því iátat. Gudmundr biskupsefni var búinn til skips med tíundavöru sína, en er hann var til skips kvaminn, þá kèmr Rafn at vestan ok var búinn med honum til farar, sem þeir höfdu ætlat. Þar var ok Tómás Ragnheidarson, Ivar Jónsson, Grímr múnkr, Eyúlfr [5]) Snorrason, fimtán voru þar íslenzkir menn.

17. Þeir lètu út drottinsdaginn um myrgininn *Divisionis Apostolorum*. Biskupsefni hafdi sendan Kollsvein Biarnason frá skipi nordr um fiördu at sækia vatnskèröld þeirra, ok kèmr hann nordan at firdi þá er skipit siglir út, ok er ordinn strandaglópr. Þar kvamo at inn menn róandi Narfi or Brekku, ok varo kvamnir

1) vantar í *E*.

2) ef sva er. *A*. *B*. *C*. *Gr*. *St*. Þ. vantar í *E*.

3) *vale*, bæta vid *B*. *E*. *Gr*.

4) vantar í *A*. *B*. *C*. *E*. *Gr*. *St*. Þ.

5) Runólfr, *A*. *B*. *C*. *Gr*. *St*. Þ.

med fiska austan or Flatey. Kollsveinn segir þeim til vandræda sinna ok skorar á þá til flutníngs. Illa ertu kvaminn, kvad Narfi, ok er þetta bædi þín naudsyn ok biskupsefnis, ok skal at vísu vid verda. Þeir kasta þegar faungum af skipi [ok taka vid Kollsveini ok faungum hans [1]), ok róa út undir segli eptir firdinum, tekr vindr at vaxa, ok geingr kaupskipit undan. Þá tekr Narfi til orda, er hann sèr at kaupskipit ber undan: hvörsu leingi [2]) róum vèr nú eptir kaupskipinu, ádr þèr þykir klækislaust eptir sótt varrar handar? hann svarar útí fiardarkiapt, þar er haf tekr vid. Sva er iafnt, segir Narfi, ok skal sva vera. En er kaupskip kèmr út at Hrísey, tekr biskupsefni til orda: nú skal leggia [3]) segl ok vil ek ei sigla frá manni mínum þeim er á landi er, enda vil ek hafa messu í dag í eyunni. Austmenn mæltu, at öllum væri þetta miök á móti skapi at únyta gódan byr, en hann segir, at þeim muni hefna, ok man gud ei láta minni seinkan farar varrar en þetta. En er þeir siá at honum mislíkar, þá var lægt segl ok kastat akkèri, gèkk biskupsefni á land at syngia messu. Nú þurftu þeir Narfi ekki leingra, ok stígr Kollsveinn þar á skip. En um myrgininn eptir, þá var byr ok vilia þeir heimta upp akkèri sitt, ok er þat fast, ok gánga þar til adrir at ödrum, ok leita þess er þeim kèmr í hug, ok geingr ei upp. Þá er sagt biskupsefni, ok geingr hann til ok blessadi ok mælti: Drottinn minn, leystu akkèrit, [ok tekr í streinginn [4]), þá losnar akkèrit ok taka þeir til segls ok sigla til Grímseyar, ok liggia þar viku. Þá kèmr á byr, ok sigla þá nordr fyrir Gnúpa. Þá kèmr andvidri á ok rekr þá aptr allt vestr til Skaga, þá lèttir þeim rètti [5]), ok kvamast þeir tvö sinn nordr fyrir Lánganes, ok kèmr þá enn andvidri, ok rekr þá enn vestr í haf. Þá dreymdi konu um nátt á skipi þeirra mann í biskupsbúníngi ok gèkk eptir skipinu ok þar at er biskupsefni hvíldi ok blessadi yfir hann, hún þóttist vita, at þat var Jón biskup. Um daginn eptir rædir biskupsefni, þat væri rád mitt at taka til segls ok sigla vestr fyrir landit, [því at á gánga landnyrdíngar ok

1) vantar í *E.*
2) lángt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) lægia. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) vantar í *E.*
5) reki. *B. E. Gr.*

man ei gánga vilia fyrir nordan landit[1]). Þetta er ráds tekit, ok sigla vestr um landit ok sva fyrir Vestfiördu ok sudr fyrir Snæfellsnes ok sudr fyrir Reykianes, þá fyrir Eyafiöll[2]). Þá gánga á landnyrdíngar, ok rekr þá sudr í haf, ok verda varir vid Sudreyar ok bera kènsl á, ok eru kvamnir vid eyar þær er Hirtir heita. Þar spyria þeir andlát Sverris kóngs. Þá ber þá sudr í Irlanzhaf ok sudr fyrir Irland, ok hafa storm vedurs ok heyra grunnföll allavega fyrir sèr. Þá rædir biskupsefni, at allir menn skulu gánga til skripta ok kènnimenn allir skyldo gèra krúnur sínar, ok skyldu stofna heit, ok sva var giört sem hann bad. Þeir heita at gèfa alin af sekk hvorium, ok giöra mann til Róms ok gèfa hálfa mörk vax madr hvör [til kyrkna[3]). Þá fèll þegar vedrit ok feingu byr til Noregs, ok faun biskupsefni Hákon kóng í Biörgvín, ok tók hann allvel vid honum, fór hann sídan nordr til Nidaróss, ok vígdi Eyríkr erkibiskup hann til biskups.

18. Þann vetur er Gudmundr biskupsefni var fyrir kènnimönnum á Hólum, sendi Kolbeinn Tumason ord Sigurdi mági sínum ok Þorrídi módur sinni, iafnframt sem biskupsefni sendi menn sína austr til Svínafells, bad hann þau ok til at rádast med biskupsefni [til fiárforráda ok stadar[4]), sagdi hann, at þeirra sæmdir mundu miklu meiri fyrir nordan land en austr þar. Seldu þau þá Svínafells land ok mannaforrád Jóni Sigmundarsyni brródursyni Sigurdar, hann átti Þóru hina eldri dóttur Gudmundar Gríss ok Solveigar Jónsdóttur, ok voru þeirra börn Ormr ok Solveig er átti Skèggi í Skógum, ok Steinun er átti Ögmundr Helgason. Þau Jón biuggo á Valdiófstad, ok seldu þat land Teiti Oddssyni Gissurssonar, hann átti Helgu Þorvardsdóttur brædrúng Gudmundar[5]) biskups. Ok þá er Jón reid burt af Valdiófstad ok sudr á Eyrarheidi[6]), snèri hann aptr hestinum ok mælti: hèr skiliumst ek vid Fliótsdalshèrad, ok á ek hèr nú ekki eptir. Þá svarar Þóra

[1]) vantar í *E.*
[2]) vantar í *E.*
[3]) vantar í *A. C. St.* þ.
[4]) vantar í *E.*
[5]) Gissurs. *A. C. St.* þ.
[6]) Öxarheidi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

kona hans: þú átt eptir, en ek á ekki eptir; ok birtist þat [1]) med því, at nokkru sídar var sveinn sá kèndr Jóni er Þórarinn hèt í Fliótsdalshèradi, hann vard sídan mikill madr, sem enn man frásagt verda. Þetta sama sumar, er kaup þessi rèdust, fóru þau Sigurdr ok Þorrídr til Hóla, ok voru þar tvo vetur, þá budu þau til fósturs Tuma syni Sighvats Sturlusonar.

19. Þá er Gudmundr var vígdr til biskups ok hann hafdi einn vetur verit í Noregi, fór hann til Islanz ok heim til stóls síns, voru þeir Sigurdr þar bádir um veturinn. Um varit eptir bad Gudmundr biskup Sigurd at hann skyldi rádast nordr til Múnkaþverár ok hressa [2]) stadinn, er miök var af sèr kvaminn [3]) at húsum. Ormr fadir Sigurdar var systurson Biarnar biskups er stadinn hafdi sett at Þverá, ok andadist Ormr þar múnkr, ok hafdi Sigurdr því elsku mikla á stadnum, ok fór til vid bæn biskups ok Orms ábóta frænda síns, ok snèri áleidis stadnum at húsum ok gánganda fè. Bersi prestr hinn audgi Vermundarson [4]) andadist á því ári sem Brandr biskup, [þá lidit var frá burdi Krists tólf hundrud ok einn vetur [5]), tók Snorri Sturluson arf eptir hann, rèdst hann þá til bús til Borgar, ok bió þar nokkra vetur. Þá beó Þórdr Bödvarsson módurbródir hans í Gördum, ok átti hann þíngmenn um Akranes ok marga upp um hèrad, honum þótti Þórdr Sturluson systurson sinn [giöra þá skuldseiga [6]) þá er honum varo næst, gaf hann þá Snorra hálft Lundarmanna godord, ok skyldi hann halda þíngmönnum í fridi fyrir Þórdi ok ödrum þeim er áleitadi. En er Snorri hafdi tekit vid þíngmönnum, þá þótti Þórdi Bödvarssyni [7]) hann meira leita á vini sína en ádr hafdi Þórdr [bródir hans [8]) áleitat.

20. Þá er Snorri Sturluson bió at Borg, kvam skip í Hvítá Orkneyafar, ok var styrimadr Þorkèll Rostúngr son Kol-

[1]) þetta spámæli. *A. C. E. St.* þ. spakmæli. *B. Gr.*
[2]) reisa. *E.*
[3]) genginn. *B. E. Gr.*
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) vantar í *A. B. E. Gr.* þ.
[6]) leggia þíngmenn sína undir sik. *A. B. C. E. Gr. St* þ.
[7]) Sturlusyni. *A. C. St.* þ.
[8]) Bödvarsson. *A. C. St.* þ.

beins [1]) Karls bródur Biarna biskups, hann fór til Borgar um veturinn, ok lagdist lítt á med þeim Snorra, lèt Snorri taka miöl fyrir honum um veturinn, ok lèzt vilia siálfr ráda lagi [2]) á, en Þorkèll vildi ráda hve hann seldi varníng sinn. Varu miölin tekin or útibúri, en Þorkèll stód ok sá á, ok lèt sem hann vissi eigi, en sá madr hèt Gudmundr er mest gèkk at ok var diákn at Borg ok átti bú í Þíngnesi, ok þeir tveir brædur ok Gudmundr hinn úngi er sídan átti Haldóru dóttur Snorra [3]) Ofeigssonar. Sveinn Sturluson lá þá í banasótt sinni, er miölin varo tekin, ok þótti illa, er honum var sagt, ok kvad ei mundu tekin ef hann væri á fótum, ok kvad Snorra ei mundu at sæmd verda þessa upptekiu. En um sumarit eptir, er Orkneyíngar voru búnir til hafs, vann Þorkèll á Gudmundi diákni ok særdi hann til úlífis. En er Snorri spurdi þetta, sendi hann ord brædrum sínum Þórdi ok Sighvati ok kvamo þeir til Borgar bádir, eggiadi Snorri þá at þeir skyldu leggia at kaupmönnum, var Sighvatr audveldr í því, en Þórdr latti, en þó senda þeir upp í Hvítá, er Rosmhvelíngar átto þar feriur tvær, ok fleiri drógu þeir skip at sèr ok söfnudu lidi, en kaupmenn varo út vid Seliaeyri [4]), ok höfdu hvört fat á skipi, ok lögdu útá álinn ok lágu þar um streingi. Sturlusynir lögdu at feriunum ok vildu höggva streingina, en kaupmenn höfdu reyrt iárn vid streingina ok vördust dreingiliga med skotum ok grióti, ok feingu Sturlusynir ekki atgiört, ok urdu vid þat frá at hverfa, en þeir Þorkèll sigldu á haf, ok urdu apturreka um haustit á Eyrum, en þá þeir urdu landfastir, reid Þorkèll frá skipi sudr í Odda, ok hèt á Sæmund til vidtöku, ok tók hann vid Þorkèli, ok mest fyrir vináttu sakir vid Biarna biskup födurbródur hans. Snorri sendi flugumenn þriá saman, ok kvamo þeir eingu fram, fór Þorkèll utan sumarit eptir. Þá er Snorri bió at Borg, bió Magnús prestr í Reykiaholti, hann átti Hallfrídi dóttur Þórgils prests frá Stad, Brandr prestr ok Ari prestr voru synir þeirra. Magnús prestr var son Páls prests Sölvasonar, ok var Páll ei skilgètinn, því þóttist Þórdr Bödvarsson ok Helgu Þórdardóttur or Reykia-

[1]) Kolkins, *C. St.*

[2]) verdi, *A. C. St.* Þ.

[3]) Skèggia. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) Seleyri, *B. E. Gr.*

holti vera nærst erfdum um stadarforrád [1]) í Reykiaholti, ok tveir adrir varo iafnkvamnir til sem Þórdr. En Magnúsi presti eyddust fè, er hann tók at eldast, en synir hans þóttust ei færir til stadarforráda. Snorri Sturluson feldi mikinn hug til stadarins, ok fær heimildir af Þórdi ok ödrum er erfdum varo næstir á stadnum. Sídan átti hann vid Magnús prest, at hann gæfi upp stadinn, ok sömdu þeir med því móti, at Snorri skyldi taka vid stadnum ok þeim hiónum, ok kvanna sonum þeirra til þroska þess sem audit yrdi. Madr hèt Eigill [Haldórsson, hann var af Myramanna lángfedgum [2]), hann var heimamadr Snorra. Þá er hann var í þessum rádabrotum, dreymdi Eigil, at Eigill Skallagrímsson kvæmi at honum, ok var miök úfrynligr ok mælti: ætlar Snorri frændi var í brott hèdan? Mælt er þat nú, segir Eigill. Brott ætlar hann, segir draumnadurinn, ok giörir hann þat ílla, þvíat lítt hafa menn setit yfir lut vorum Myramanna, þá er oss tíngadist, ok þurfti hann ekki ofsiónum yfir þessu landi at siá, [en þó er sva sem ek segi þèr at [3])

Seggr sparir sverdi höggva,
sniöhvítir blód líta
skæruöld [4]) gátom [5]) skíra,
skarpr brandr fèkk mèr [6]) landa,
skarpr brandr fèkk mèr landa.

Ok snèri þá brott, en Eigill vaknadi. Þau Herdís ok Snorri átto tvö börn þau er or barnæsku kvamust. Hallbera [7]) var elzt barna þeirra, þá Jón, hann var fiórum vetrum yngri en Sturla Sighvatsson, hann var lítill madr í barnæsku, því var hann Murti kalladr. Snorri Sturluson fór búi síno í Reykiaholt, [eptir samníng þeirra Magnúsar prests [8]), giördist hann þá höfdíngi mikill, þvíat ei skorti fè at, var hann hinn mesti fiárgæzlumadr ok fiöllyndr, ok

[1]) vardveizlu. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í *E.*

[3]) Egill kvad vísu. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) skær-öld. *A. B. C. Gr. St.* Þ. skæöld, *E.*

[5]) gètum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) þar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[7]) Haldóra. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[8]) vantar í sömu.

átti börn vid fleirum konum en Herdísi. Son átti hann er Urækia hèt, Þorrídr dóttir Halls Urækiosonar var módir hans. Hann átti ok börn vid Gudrúno dóttur Hreins Hermundarsonar, ok kvamst Ingibiörg ein or barnæsko þeirra barna. Þordís var enn dóttir Snorra, Oddny var módir hennar.

21. Sæmundr Jónsson þótti göfgastr madr á Islandi í þenna tíma, hann hafdi í Odda rausnarbú mikit, [hann átti ok mörg bú önnur [1]). Eigi var Sæmundr eiginkvæntr, ok fóru ord milli þeirra Haralds jarls Maddadarsonar [í Orkneyum [2]), at hann mundi gipta honum Lánglíf dóttur sína, ok var [3]) í milli, at Sæmundr vildi ei sækia brúdkaup í Orkneyar, en jarl vildi ei senda hana út híngat. Þau voru elzt barna [4]) Sæmundar Margrèt er átti Kolbeinn Koldaliós ok Páll, voru þau systrabörn [5]) Þorgríms Alikarls. Sæmundr átti dóttur er Solveig hèt, ok var Valgèrdr dóttir Jóns Lodmundarsonar módir hennar, hún vardveitti bú á Kèldum, var þat ok hit mesta rausnarbú. Vilhiálmr ok Haraldr, Andreas ok Filippus voru synir Sæmundar; Ingveldr Eindridadóttir var módir þeirra. Hálfdán ok Biörn ok Helga voru enn börn Sæmundar. Þorbiörg var þeirra módir. Öll varo börn hans fríd ok vèlmennt. Ormr Jónsson beó á Breidabólstad í Fliótshlíd bródir Sæmundar, hann var spekíngr mikill at viti ok hit mesta göfugmenni, hann hafdi fyrst þá fridlu er Þóra hèt Eyreksdóttir systir Kolskèggs hins audga í Dal. Jón hèt son þeirra ok Hallveig dóttir. Ormr var vellaudigr at fè, því hann hafdi af fè Kolskèggs slíkt er hann vildi, þvíat Þóra var arfi Kolskèggs, en börn hennar eptir hana. Borghildr var enn fridla Orms, ok voru synir þeirra Sigurdr ok Andreas ok margar dætur, er enn man gètit verda. I Skardi enu vestra beó Loptr son Páls biskups [hinn frídasti madr [6]) ok þótti vænn til höfdíngia. Kètill var hinn yngri son biskups ok enn vinsælli. [Sva

[1]) vantar í *C. St.*

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[3]) bar. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[4]) þau voru börn *o. s. fr. A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) sykinabörn. *A. C. St. Þ.*

[6]) vantar í *E.*

sagdi þorvaldr Gissursson, at sonum biskups væri úlíkt farit, kvad Kètil vilia mönnum hvervetna gott, en Lopt kvad hann mæla til manna hvervetna gott [1]).

22. Sighvatr Sturluson beó í Hiardarholti nokkra vetur, sídan keypti hann Saudafell ok fór þángat nautfellisvetur [2]) ok beó þar, hann giördist mikill höfdíngi ok vinsæll vid sína menn, medr þeim Kolbeini Tumasyni var hin mesta vinátta med teingdum. Kolbeinn rèd þá mestu fyrir nordan land, ok hafdi öll godord fyrir vestan Yxnadalsheidi til móts vid Avellínga [3]) godord. En þorsteinn Ivarsson gaf Snorra Sturlusyni Avellínga godord þat er hann átti. En Melamenn átto sinn luta godorda. Fyrir nordan Yxnadalsheidi átto þeir godord Ögmundr Sneis ok Hallr Kleppiárnsson. þorvaldr son Gudmundar hins dyra fèkk Sigurdi Ormssyni þau godord sem frændr hans höfdu átt. Sigurdr gaf þau godord Tuma Sighvatssyni, ok kvamst hann sva at þeim sídan.

[1]) vantar í *A, B, C, E, Gr, St*, þ.
[2]) saudfellisvetur, *St*.
[3]) Eyvellínga, *E*.

# Sturlúnga-Saga

edr

# Islendínga-Saga hin mikla.

---

Nú útgengin á prent

ad tilhlutun hins íslenzka bókmentafèlags,

eptir samanburd hinna merkiligustu handrita er fengist gátu.

---

## Fyrra bindinis sídari deild.

---

Kaupmannahöfn 1818.

Prentad ad forlagi fèlagsins hiá prentara Þorsteini Einarssyni Rangel.

## Fiórdi þáttr.

Ok er fyrst af Gudmundi biskupi, Kolbeini Tumasyni ok þeirra vidskiptum, iafnframt þessu er sagan af Þorvaldi Vatnsfirdíngi ok Rafni Sveinbiarnarsyni ok þeirra deilum; item hvörnin þeir helstu höfdíngiar settu sik upp i móti biskupi eptir fall Kolbeins.

1. Þá er Gudmundr biskup kvam út ok tók forrád kènnimanna ok stiórn kristni fyrir nordan land, urdu margar greinir med þeim Kolbeini Tumasyni, [þær er sinn veg [1]) þótti hverium þeirra, ok vard med þeim mikit sundrþykki, var biskup minni leidíngamadr ok allt rádgiarnari en sva sem Kolbeinn ætladi. Sigurdr Ormsson var skamma ríd at Þverá, ádr Gudmundr biskup skipadi honum stadinn á Mödruvöllum, var þá skipuliga med þeim í fyrsto, en greindist brátt. Tumi Sighvatsson var iafnan med Sigurdi ok dætur Arnórs Tumasonar tvær. Medr því upphafi reis deila med þeim Gudmundi biskupi ok Kolbeini Tumasyni ok hans venzlamönnum. Asbiörn hèt prestr sá, er Kolbeinn hafdi fyrir sökum um fornt fèmál, ok kölludu sumir menn þá fiárheimto ei rèttiliga. Nú sækir prestr biskup at máli síno, en biskup [2]) þóttist

[1]) þat er sitt. *A, C, St, Þ.*

[2]) Kolbeinn. *A, C, St, Þ.*

eiga dóm á prestinum ok kalladi hann friálsan fyrir Kolbeini. Nú sækir Kolbeinn prestinn til dauda útlegdar, því þat var þá ei fyrirbodit, ef þeir fyrirnæmust rètt [1]) at giöra [2]). En er þeir [vælto um dóminn [3]) á alþíngi, þá gèkk biskup til dóms med staf ok stólo, ok fyrirbaud þeim at dæma prestinn, en þeir dæmdu ei at sídr. En annan dag eptir fyrirbaud biskup Kolbeini ok öllum þeim er í þeim dómi hafa verit, ok þar höfdu eida unnit edr vætti borit, alla guds þiónustu. Eptir þetta tekr biskup prest til sín, en kona prestsins gaf Kolbeini fè til at bú þeirra mætti [4]) vera í fridi. Um haustit eptir veitir Kolbeinn biskupi heimsókn ok stefnir húskörlum hans skóggángsstefno um samneyti vid prestinn, vard vid þetta biskup sva styggr, at hann bannfærir [5]) Kolbein. Nú kvamo til vinir þeirra ok vilia sætta þá, ok verda sættir med því móti, at Kolbeinn festi biskupi eindæmi [6]) til skripta ok fègialda, en búendr festu Kolbeini at halda uppi fègiöldum slíkum sem biskup vildi giört hafa. Um sumarit eptir á þíngi giördi biskup giörd þessa vid rád Páls biskups ok Sæmundar or Odda, tólf hundrud vadmála á hendr Kolbeini, þat fè galzt hálft, en hálft ekki, því Kolbeinn vildi at biskup heimti at bóndum þeim er fest höfdu gialdit, en biskup vildi heimta at siálfum Kolbeini, er til festu gèkk vid hann.

2. Þetta sumar hit sama hafdi biskup í stórmælum tvo höfdíngia Sigurd Ormsson ok Hall Kleppiárnsson fyrir þat, er þeir höfdu tekit mann or múnkaklaustri til [meidíngar ok [7]) limaláts, þeir höfdu kúgat mikit fè af einum bónda, ok kölludu þat höfudmund hans, ok höfdu þat fè allt. Hallr sættist vid prest ok vildi ei biskups dóm á þessu máli, ok varo þeir nú í stórmælum. Kolbeinn varadist samneyti vid þá fyrst, en þó kvam sva, at hann ok öll alþyda samneytti vid þá, ok sva bönnudu þeir kaup öll til stadarins ok sölur, en þessi mál lukust sva, at um haustit Matteus-

[1]) fèit. *E Gr.*

[2]) því þat var — at giöra, vantar í *A. B. C. St.* Þ.

[3]) vilia dæma prestinn, *A. C. St.* Þ.

[4]) standa ok, bæta vid *C. St.* Þ.

[5]) bannsetr. *B. E. Gr.*

[6]) siálfdæmi. *A. C. St.* Þ.

[7]) vantar í *E.*

messo [1]) sættust þeir Sigurdr vid biskup ok lögdu sitt mál allt á biskups dóm. Kolbeinn sitr hiá þessari sætt, því at hann vildi ekki fè gialda, en biskup vildi þvílíka sætt af honum sem hinum. Nú kallar biskup Kolbein í banni fyrir samneyti vid þá Sigurd, en Kolbeinn ok öll alþyda metr þat eingis, en um veturinn fyrir iól, þá bannfærir biskup Kolbein af þessum tveimr sökum: er hann hafdi samneytt bannsettum mönnum, ok er hann hèldt fè því hálfu er biskup hafdi giört á hendr honum, ok um varit eptir páska veitir Kolbeinn adra heimsókn á stadinn vid átta tygi manna, ok stefnir til Hegranessþíngs skóggángsstefno [2]) heimamönnum biskups, prestum ok diáknum ok leikmönnum, ok flestum fyrir litlar sakir. Biskup ok hans menn varo á húsum uppi, ok var hann skryddr, ok las hann bannsetníng á norræna túngo, sva at þeir skyldo skilia, ok ef Kolbeinn væri þá verr stilltr í því sinni, þá hefdi þar bardagi ordit. Kolbeinn fer þá í brott ok kvad vísu.

Báls kvedr hlynr at Hólum
hvern mann vera í banni
gilfa láds sá [3]) er greidir
gèdrakkr fyrir mèr nakkvat.
Trautt kann hóf sá er hattar
hödd lestir vel flestom [4])
medr ero at [5]) því adrir
úsælir stórmæla.

Ok enn þessa:

Bannar biskup mönnum
ber stríd af því vída
lyda kind á landi
laungum kyrkiogaungur.
Geystr man gègn at flesto
Gudmundr fara um stundir
trautt má ek enn fyrir annan
enda siá hvar lendir.

[1]) Marteinsmessu. *A. C. St.* Máríziusmessu. *B. E. Gr. þ.*

[2]) vantar í *E.*

[3]) þann. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[4]) flestu. *A. C. St. þ.*

[5]) módir — af því, *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

Um varit dregr Kolbeinn lid saman [1]) til varþíngs, þá kvam sunnan Þorvaldr Gissursson, ok höfdu þeir mál fram á hendr mönnum biskups, en Gudmúndr biskup kallar undirrét þess úfridar þat er Kolbeinn giördi honum ok hans mönnum, en þau varo ord á, at þeir mundu fara af þínginu at biskupi med öllum flokkum þessum, ok taka menn þá er þeir höfdu sótta [2]). Þá fara til [vinir þeirra [3]) ok leita um sættir, ok urdu sættir med því móti, at öll mál skyldu vera undir erkibiskupi, gáfo þeir Kolbeini þá upp sektir allar, en biskup tók þá alla menn or banni. Biskup hafdi iafnan menn Kolbeins fyrir sökum um ymsa luti, tíunda mál edr kyrkiufiárhald ok vidtöku vid fátæka frændr sína. Bændr tóku því þúngliga ok virdu sva sem eingir mættu vera í fridi fyrir biskupi. Nú ber sva til, at klerkr einn sá er Skæríngr hèt akolúthus at vígslu ok úsidvandr at vapnaburdi [ok klædnadi [4]), hann var einhendr, þenna höfdu Austmenn handhöggvit at Gásum, þá er Gudmundr hinn dyri mælti eptir hann. Þessi gat barn vid kono, en brædur konunnar sótto Kolbein at þessu máli. Klerkrinn sótti biskup at síno máli, [en Kolbeinn kallar eptir ok vill ei biskups dóm [5]), biskup bydr at gialda sex hundrud fyrir málit, ok kallar þat meir en tvö lögrètti, en Kolbeinn neitar því, ok kvad ei tiá at sættast vid biskup, kalladi hann riúfa hveria sætt. Lætr Kolbeinn sækia klerkinn til sekta, en biskup forbodar Kolbein ok alla þá er at dómi höfdu verit, en hálfum mánadi sídar hádo [6]) þeir Kolbeinn ok Sigurdr fèránsdóm eptir klerkinn ok tóku upp fèd, en er biskup spyr þetta, þá bannsetr hann þá báda, þvíat honum var fèit handsalat. Biskup var heima um alþíng, en þeir Sigurdr ok Kolbeinn sækia þíngit ok samneyta mönnum þeim, en þeir ödrum. Þeir sækia sex heimamenn biskups um biargir vid klerkinn.

3. Eptir þíngit safnar Kolbeinn lidi um öll hèröd, ok ætlar at heya fèránsdóm at Hólum eptir þá er sekir varo kalladir, ok

[1]) um öll hèröd, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) sekta. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) menn. *A. C. St.* Þ.
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) vantar í sömu.
[6]) höfdu, sömu.

ætladi at taka upp fè þeirra. Biskup var fálidadr fyrir á stadnum ok bádu menn hann undan rída[1]), ok segia úsynt hver fridr gèfinn væri mönnum hans. Biskup var þess traudr, ok giördi þó vid rád vina sinna, ok fór nordr í syslu sína. Hann mat eingis sekt manna þeirra er Kolbeinn hafdi sótta[2]), lèt þá gánga í kyrkiur sem friálsa menn, þeir Kolbeinn giördu ok sva, ok geingo í kyrkiur allir þeir er biskup kallar bannsetta. Prestar tóku þat upp er þeir hèldu leingi sídan, at samneyta þeim er biskup bannsetti[3]), bædi í þiónustugiörd ok ödrum lutum, þeir súngu ei at sídr messur at biskup bannadi þeim ok bannsetti þá fyrir slíka úhlydni. En er áleid sumarit ok biskup vendi aptr, þá dreif til hans mart manna, Ögmundr Sneis frændi hans ok margir adrir röskvir menn varo med biskupi, Vígfús kènnimadr Önundarson, Konáll Sokkason ok margir adrir, giördist hann þá fiölmennr miök, þvíat [þau ord varo úvina[4]) hans, ef hann færi á stadinn med seka menn, [at þeir mundo drepa þá er sekir varo[5]), en þeir þordu ei vid hann at skilia, því þeir vísso sèr ei annat traust. Þá er þeir biskup fóru nordan um Eyafiörd, liópo nokkrir úspektarmenn or flokki biskups til Gása, ok rændu útlenda menn, þá er biskup kalladi í banni af samneyti vid þá Kolbein ok Sigurd, en er þeir biskup ok Ögmundr [urdu vid varir[6]), þá rèttu þeir mesta lut ránsins. Sídan fór biskup med flokkinn heim á Mödrovöllo, ok hafdi í brotto skrín ok helga dóma, [ok bækr nokkrar[7]), þvíat honum þótti úmakliga kvamnir helgir dómar þeir er bannsettir menn vardveitto. Arnór Tumason var þar fyrir med Sigurdi ok mart manna. Nú rídr biskup brott, en Sigurdr giörir ord Kolbeini, kalla þeir nú biskup hefia rán ok hernad. Nú draga hvarirtveggio flokka saman Sigurdr ok Arnór ok Hallr Kleppiárnsson, en í ödrum stad Kolbeinn, ok ætla allir at biskupi, sem þeir giördu. Biskup kèmr heim á stadinn snimma kyrkiodag[8]) ok

[1]) halda. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) sekta, sömu.

[3]) kallar bannsetta. *C. St.*

[4]) þar voru þá nær úvinir. *A. C. St.* þ.

[5]) vantar í *A. C. St.* þ.

[6]) vissu þat. *A. C. Gr. St.* þ.

[7]) vantar í *A. C. St.* þ.

[8]) sinn, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.

syngr þá messo, en um daginn eptir var Maríumessa sídari, ok vill biskup giöra þiónusto þann dag, þvíat Maríu er stadrinn helgadr. Þann dag kèmr Kolbeinn med þriú hundrud manna ok sezt um stadinn, fóru menn þá í millum þeirra ok leita um sættir, var þat þá sva þvert af Kolbeini, at hann vildi ei annat en þeir menn, sem sekir varo, væro feingnir í vald hans, en biskup vildi ei selia menn sína undir exi, ef þeim væri ei fridi heitit. Ögmundr átti allan lut í at [skirra [1]) vandrædum, en draga saman sættina, er hvortveggi var hans venzlamadr, en med því at Kolbeinn var miök úleidíngasamr, þá var um leitat, at biskup skyldi rída af stadnum med menn sína í fridi, en Kolbeinn iátti því ekki, en þó tóku þeir biskup ok Ögmundr þat rád, þvíat mönnum þótti sem þannveg mundi [helst úhæfa vid berast [2]). Maríumessu kveld var hríngt á stadnum öllum klokkum til aptansaungs, ok er sva sagt, at þeir Kolbeinn heyrdo ei klokknahliód. Nú rídr biskup af stadnum vid þriú hundrud manna, med honum varo þrír ábótar, tveir múnkar ok nær fiörutíu prestar ok mart klerka, þar var ok mart röskra manna, en sumt varo strákar ok stafkarlar ok gaungokonur. Nú er þeir Kolbeinn siá, at þeir biskup ridu brott, þá tók til orda Brúsi prestr ok mælti: Kolbeinn, þar rídr biskup í brott med virdíng ykkar beggia. Kolbeinn bad menn taka hesta sína ok lèzt ei þola at biskup ridi brott med skógarmenn hans. Hann rídr fyrir á veginn med fiögr hundrud manna, ok fylkir lidi síno. Biskup víkr þá af veginum ok vildi rída fram annarstadar. Þeir Kolbeinn snúa þar í mót, ok er flokkarnir mættust, þá lystr þegar í bardaga. Biskup sat á hesti ok med honum ábotar ok nokkrir prestar ok kalladi at ei skyldi beriast, en at því gǻfu eingir gaum. Bersi Vermundarson frá Móbergi gèkk fram fast ok spurdi at Ögmundi. Naddr var fylgdarmadr Ögmundar, hann rèdst á móti Bersa, ok fóro þeirra skipti sva, at Bersi vegr Nadd. Þá tók Ögmundr til orda: fast geingr þú nú fram, Bersi. Þat skaltu finna, segir Bersi at ek skal gánga enn nær þèr. Þá snýr Ögmundr móti Bersa, ok höggr hann banahögg. Biskupsmenn bördust allir diarfliga, Konáll Sokkason, Sveinn Jónsson, Vigfus

1) styra af. *A. C. St.* þ.

2) minni — vidbera. *A. C. St.* þ.

kènnimadr [1]) ok margir adrir. [En er bardaginn var sem fastastr [2]), fèkk Kolbeinn steinshögg í ennit ok fèll vid, þat var banasár, en þó hafdi hann vit sitt, ok beiddist prestsfundar, ok vildi biskup at hann nædi því. Svardi hann þá sáttareid, ok var husladr ok dó sídan, ok vard ei víst hvör steininum hafdi kastat. Þar fèll med Kolbeini Brúsi prestr, Þórdr prestr Einarsson, [ok Bersi [3]), Bödvar Tannason, Eyólfr Halldórsson, [Glúmr, Styrbiörn, Biörn Steinþórsson [4]), Stari Sveinsson. En af biskupi fèll Naddr Þórarinsson ok Einar [5]) Olafsson [ok nokkrir adrir [6]), en annat lid Kolbeins flydi þat er mátti fyrir sárum, sumir geingo slippir á vald biskups ok svördu honum eida, festu honum fègiöld ok skriptir í hans dóm. Nú siá biskupsmenn hvar fer flokkr þeirra Sigurdar ok Arnórs, ok snúa þegar í móti þeim, ok hafa nú vapn Kolbeins manna. Þeir Sigurdr snúa undan ok aptr, en biskupsmenn eptir ok heldr tómliga í fyrstu, þvíat sumir lötto, en sumir fysto eptirreidar. En adra nótt eptir, þá er þeir Sigurdr ok Arnór urdu varir vid at flokkr biskups var miök eptir þeim kvaminn, þá leyndust þeir Sigurdr ok Arnór fiórir saman frá flokkinum ok ridu sudr um land, ok varu þar um veturinn med vinum sínum, frændum ok mágum, en Hallr Kleppiárnsson ok flokkrinn gánga til sætta vid biskup ok iáta med eidum hans dómi hvör á sínum málum. Kolbeinn hafdi stefnt til móts vid sik ok atfarar vid biskup Þorvaldi Gissurssyni, hann frètti fall Kolbeins á Kili ok snèri aptr. Hann fann Snorra Grímsson frænda þeirra biskups ok Ögmundar, vitran mann ok vinsælan, súbdiákn at vígslo. Þorvaldr lèt taka hann, ok hafdi ætlat mann til áverka vid hann, en þeim vard bilt vid. Þá lióp at Klængr son Þóris [7]) messudiákns [8]) ok höggr hann banahögg. Nú er biskup at stóli sínum um veturinn, ok bydr erkibiskups dóm á öllum málum þessum, því var ei iátat. Ögmundr bydr [þá sem iafnan hafdi hann fyrr bodit [9]),

1) Önundarson, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) vantar í *B. E. Gr.*

3) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

4) vantar í *E.*

5) Reimr. *B. E. Gr.*

6) vantar í *Gr.*

7) Þorvalds. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

8) messudiákni. *A. B. E. Gr.* þ.

9) vantar í *E.*

sinn fiárlut til sætta med þeim ok margir adrir. Biskup leggr nú giald á þá menn er at honum höfdu farit þriú hundrud vadmála á mann, edr fimm edr tíu, svá sem sakbitnír þóttu honum til, á einn mann [1]) lagdi hann tuttugu hundrud. Biskup sendir menn sína at draga saman fè þetta, ok treystast þeir ei fámennir at fara, en þeir er fyrír sátu, þordu ei annat en gialda slíkt er þeir kröfdu, en kölludu rán. Nú var illr kurr í bóndum, þóttust hafa látit höfdíngiann, en farit siálfir sneipoför, látit frændr sína ok vini, en sumir limo, ok gialda fè á þat ofan. Kalla þeir þetta allt hernad ok rán er þeir láta. Hinir verda ólmari [2]) því meir er yfirfara med flokkum ok gèfa adrar sakir hiá fram bændum. Þeir gánga ok yfir bú þeirra Arnórs ok Sigurdar ok giöra marga luti þá er biskup baud ekki þeim, heldr bannadi hann þeim; þeir brendu bæ einn ok unnu á nokkrum mönnum þeim er þeir þóttust sakir vid eiga [ok þóttu um sitt líf sitía [3]), ok einn mann drápu þeir. Drepinn var ok prestr einn af þeim, en þat sem biskups menn giördu úspakligt, þá kèndu bændr þat allt biskupi. Biskup kallar bændr í sama banni sem ádr þeir sættust, þvíat þeir vildu ei halda þat er þeir höfdu fest ok svarit, ok vildu allt í móti honum þat er þeir máttu, sem raun bar á sídan. Þeir voru margir sem stukku nordan í Dali til Sighvats Sturlusonar, ok kærdu mál sín fyrir honum.

4. Um veturinn eptir Vídirness-bardaga fæddi Þóra Gudmundardóttir kona Þorvalds í Runa sveinbarn, töludu menn þá um vid Þorvald, at hann skyldi láta kalla eptir Kolbeini. Þorvaldr svarar: ei man minn sun verda iafnvel menntr sem Kolbeinn, en þó hafa þat vitrir menn mælt, at menn skyldu ei kalla syni sína eptir þeim mönnum er skiótt verda af heimi kalladir, man ek sun minn láta heita Gissur, en lítt hafa þeir örkvisar [4]) verit í Haukdæla ætt, er sva hafa heitit hèr til.

[1]) bónda. *A. C. St.* Þ.

[2]) ylmast, *E.* ólmast, *A. B. C. Gr. St.* Þ.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) audkvisar. *B. E. Gr.*

5. Þenna vetur er áleid fara menn milli höfdíngia med þeim rádagiördum [1]), at þeir skyldu draga flokka at biskupi, var þar Þorvaldr Gissursson, Arnór Tumason, Jón Sigmundarson, Sighvatr ok Snorri Sturlusynir, Magnús Gissursson [2]), Þorvaldr Vatnsfirdíngr. Sighvatr sendi ord Þórdi bródur sínum, ok fundust þeir í Hítárdal, bad Sighvatr Þórd til farar med sèr. [Þórdr spurdi, hverio hann skyldi ráda ef hann færi? Hví manto ei ráda því er þú vilt, segir Sighvatr [3]), edr hve fiölmennr manto vera? Med fimta mann, segir Þórdr. Hvat skal mèr þú þá heldr en annar madr, ef þú ert sva fámennr, segir Sighvatr. Þú sèr þat, segir Þórdr. Sighvatr vard þá reidr ok lióp á bak, ok skildi þar med þeim, ok sagdi Þórdr sva [4]), at sídan hefdi honum aldrei þótt frændsemi þeirra slík sem ádr. Um veturinn eptir bardagann í Vídinesi varo dreymdir draumar margir. Þat dreymdi mann í Skagafirdi, at hann þóttist kvama í hús eitt mikit, þar sáto inni konur tvær blódigar ok reyro áfram, honum þótti rigna blódi í liórana. Önnur kvonan kvad:

Róum vid ok róum vid,
rignir blódi,
Gudr ok Göndul
fyrir gumna falli.
vid skulum rádast
í rapta hlid [5]),
þar manom blótadar
ok bölvadar.

En í Vestfiördum dreymdi mann, at hann þóttist kvaminn í litla stofu, ok sátu uppi tveir menn svartklæddir ok höfdu grár kollhettur á höfdi ok tókust í hendr, sat á sínum bekk hvor ok reyro, þeir ráku herdarnar sva fast í veggina, at þá reiddi til falls, sídan kvádu þeir vísu þessa ok kvad sitt ord hvor:

Höggvast hart seggir,
hallast veggir,

[1]) úrádum. *B. E. Gr.*

[2]) Gudmundarson. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) vantar í *E.*

[4]) sagdist — siá. *E.*

[5]) rekka lid. *B. E. Gr.*

ílla erum settir
at inn kvama hettir [1]),
verk mano upp innast
þá [2]) er aldir [3]) finnast
eingi er á sómi
á efsta dómi.

6. Um varit eptir páska draga þeir siö höfdíngiar er ádr ero nefndir flokka saman ok fara [4]) at biskupi. Þorvaldr Vatnsfirdíngr var vid þriátygi manna, ok geingu þeir allir, hann hafdi eggsi í hendi ok studdi ei nidr skaptino er hann gèkk nordr eda nordan. En er flokkarnir kvamo saman, höfdu þeir siö hundrud manna, er biskupi veittu heimsókn á stadinn. Biskup hafdi fyrir fátt lid utan heimamenn sína, þvíat menn geingo miök undan honum [ok vilia náliga ekki veita honum [5]). Ögmundr vildi til ok veita honum, ok kvamst ekki, þvíat flokkr var giör móti honum, Ögmundr kvamst undan, en þeir tóko skiöldu hans or kyrkio ok hesta hans, sva at hann gat hvorgi farit. Þeir Sigurdr ok Hallr varo fyrir þeim flokki. Þá er flokkarnir ridu á stadinn, [var biskup ok menn hans [6]) á húsum uppi ok höfdu búizt þar til varnar, var þar mart röskra manna, geingo þeir höfdíngiarnir um bæinn ok hugdu at hvar audveldast væri at at sækia. Þórdr Bödvarsson lagdi þat [7]) til, at þeir skyldu um kveldit æpa heróp, en gánga ekki at fyrr en um myrgininn, ok lèzt ætla at þá mundi þunnskipadra á húsunum en um kveldit. Fór þat fram sem hann gat, at margir menn leyndust frá biskupi á þeirri nátt, sumir til úvina hans, en sumir á annan veg í brotto, sva at fátt var eptir um morgininn hiá biskupi. Um morgininn geingu í kyrkiu til fridar þeir menn er sèr þótti úvænt til grida, en þá er fátt biskups manna var eptir, þá [liópu þeir á þá til bardaga [8]). Þorkèll [9])

[1]) þá er inn koma gráir hettir, *A, B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) þau. *E.*

[3]) aldrei. *E.*

[4]) ætla. *A, C, St.* Þ. ætla at fara. *B. Gr.*

[5]) vantar í *E.*

[6]) voru biskups menn. *E.*

[7]) rád, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* Þ.

[8]) slógu þeir á bardaga sköfum, *A. C. St.* Þ.

[9]) Kètill, *E.*

prestr Bergþórsson [1]) er Naddr var kalladr [2]) vardist alldreingiliga [3]) ok fèll þar á húsum, þar varo fleiri menn drepnir, en sumir í húsum inni, [þó hèr sèo ei nefndir [4]). Einn drápo þeir í kyrkiugardinum, sva at blódit hraut á kyrkiuna. Sex [5]) menn lètust þar af biskups mönnum. Þeir Arnór lètu ok sex menn. Sídan lupo þeir í húsin inn ok brutu upp hurdir ok hirzlur, lok ok lása, ok leita manna. Nú giöra þeir Arnór biskupi tvo kosti, annan at hann skyldi taka þá or banni, en þeir mundo gèfa grid sumum þeim er í kyrkio varo, en biskup skyldi fara af stadnum [ok kvama þeir aldrei sídan, ella mundu þeir drepa þá alla er í kyrkio varo ok eira eingo vætta, en hafa þó biskup af stadnum [6]) svívirduliga. Biskup kaus hvarigan kostinn ok sagdist ei mega leysa þá, en þat vard vid bæn þeirra manna er daudamenn voro þá, at biskup vann þat til lífs þeim, at hann saung [7]) yfir þeim *Miserere*, ok segir þeim þó at þá varo þeir ei lausari en ádr. Eptir þetta bydr Snorri Sturluson biskupi til sín, ok þat þá hann ok fer brott med honum þann dag af stadnum. En er biskup var í brott, geingo þeir Arnór í kyrkio med vapnum ok eggia hina út er inni varo ok þeir þóttust mestar sakir vid eiga, ella kvádust þeir mundo sækia þá edr svelta í kyrkio inni. Þá tók Sveinn Jónsson til orda: giöra man ek kost á út at gánga, ef þèr limit mik at höndum ok fótum edr þèr hálshöggvit mik, ok þessu var honum iátat. Gèkk hann þá út ok þeir allir, þvíat þeir vildu at kyrkian saurgadist ei af þeim eda þeirra blódi. Allir þeir geingo slippir út. Var Sveinn þá limadr ok saung medan *Ave Maria*, sídan rètti hann hálsinn undir höggit, ok var allmiök lofud hans hreysti [8]). Þá var ok hálshöggvinn Skæríngr klerkr ok hinn þridi sekr madr. [Þessir menn höfdu ádr látizt af biskupi: Þorkèll prestr, Leifr Þorgeirsson [9]), Bárdr ok Steingrímr, Hnúdleifr [10]),

[1]) Naddsson. *A. B. C. Gr. St. Þ.* vantar í *E.*

[2]) vantar í *A. B. C. Gr. St. Þ.*

[3]) alldiarfliga. *A. C. St. Þ.*

[4]) vantar í *E.*

[5]) tólf. *A. B. C. Gr. St. Þ.*

[6]) vantar í *B. C. St.*

[7]) las. *E.*

[8]) sem gud hiálpi honum, bæta vid *B. E. Gr.*

[9]) Þórgilsson. *B. E. Gr.*

[10]) Handarleifr. sömu.

Einar Hallvardsson [1]) ok Þórarinn, ok er nú taldr sá er í kyrkiugardinum var drepinn. En af þeim er tilsóttu lètust þessir: Bergþór ok Gissur, Sigmundr Svalr ok Einar Birkibeinn ok Símon prestr [2]). Þeir er sekir varo varo færdir í urd ok lágu þeir tvo mánudi, en sína menn þá er þar fèllo án idranar ok lausnar, þá grófu þeir at kyrkio, ok kölludust þat allt líkia eptir biskupi, er hann lèt seka menn í kyrkio gánga. Biskup lèt ok einn mann þann er fallit hafdi af Kolbeini idrunarlaus ei at kyrkio leggia mánnd. Mörgu var þar rænt ok stolit því er stadrinn átti [ok þat er menn átto í hestum ok herbúnadi [3]) ok flest þat er utan kyrkio var. Þá er manndrápum var lokit, tóko höfdíngiar til sín menn þá er þeim líkadi ok gáfu grid, giördi þat hvör í [þrá ödrum [4]). Sighvatr gaf grid Konáli Sokkasyni, en Snorri gaf grid Vígfúsi [5]) kènnimanni. Þeir varo flestir af hinum stærrum mönnum er nokkurn mann tók hver til sín. En er biskup var ridinn af hèradi, giördu þeir Arrór allavega ord frá sèr ok lètu presta taka menn or banni ok tídir syngia ok giöra alla þiónusto bædi þar á stadnum ok at öllum kyrkium ok sögdu þat biskups leyfi. Alla þá menn er biskupi höfdu fylgt ok fullting veitt [ok þar varo eptir [6]), kúgudu þeir til siálfdæma vid sik, sva vígdan sem úvigdan, ok leggia fègiöld á ofan, þriú hundrud edr fimm hundrud edr tíu hundrud [edr tuttugu hundrud edr þriátíu hundrud edr fiörutíu hundrud edr sextíu hundrud [7]). Ögmundr lèt eitt hundrad hundrada ok hèradsvist ádr lètti, fór hann þá austr í Hofteig. Suma menn giördu þeir útlæga [8]) bótalausa. Fiórir gódir menn, prestar tveir ok leikmenn tveir, varo til iárns færdir um þat at þeir hefdu ekki unnit á Kolbeini, ok urdu þeir allir vel skírir um þat mál.

1) Hámundarson, *B. E. Gr.*

2) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

3) vantar í *E.* tóku — húsbúnadi, *A. B. C. Gr. St.* þ.

4) þrá-rádum, *C. St.*

5) Önundarsyni, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.

6) vantar í *E.*

7) þeir ríku þriátíu eda sextíu hundrud, *A. B. C. Gr. St.* þ.

8) útlaga, *A. B. E. Gr.* þ.

7. Nú setiast þeir Arnór ok Sigurdr yfir stadinn ok alla stadar eign ok skipa menn til at taka tíundir biskups ok alla hans eign. Um varit eptir sendir biskup brèf sín til stadarins ok bad læsa kyrkio ok kalladi hana saurgada af manndrápi ok grefti bannsettra manna, ok sva var giört. Þá var tiald reist utan kyrkiugards ok þar messur súngnar. Þeir Arnór ok Sigurdr þola ekki at kyrkian sè tídalaus, fara til ok þraungva prestum til at syngia í kyrkio, ok er messat fyrst, en þá nokkru sídar var þar framin öll þiónusta ok lík iördud. Aumlig ok hörmulig kristni var þar þá at siá, sumir prestar lögdu messusaung fyrir hrædslu vid gud, sumir frömdu fyrir hrædslu sakir vid höfdíngia, sumir at sínum siálfs vilia. Höfudkyrkian módirin sat í sorg ok sút ok sumar dæturnar med henni, en sumar [gugnudu ekki yfir [1]) hennar harmi ok lifdu [2]) sem lysti, en eingi þordi um at vanda nè satt at mæla. Gudmundr biskup var um veturinn eptir í Reykiaholti med Snorra, en um varit fór hann nordr til Rútafiardar ok ætladi á skipi [3]) nordr til stadarins edr allt til Austfiarda. En er þeir Arnór fregna þat, ætla þeir at biskup mani ætla á stadinn ok draga lid saman ok setia menn fyrir hiá höfnum þeim er glíkligast þótti at hann mundi í lenda, en Arnór ætlar at snúa flokkinum til móts vid biskup þegar er hann frèttir til hans. En er Gudmundr biskup frèttir lidsafnadinn [4]) vendir hann aptr ok [fer á skipi til [5]) Steingrímsfiardar, frèttir hann þá medferd prestanna ok tídagiörd bædi á stadnum ok annarstadar. Biskup bannsetr [6]) alla þá presta er messur höfdu súngit í úleyfi hans ok átto allt samneyti vid bannsetta menn. Biskup fer um sumarit yfir Vestfiördu, en um veturinn var hann á Breidabólstad í Steingrímsfirdi med Bergþóri Jónssyni, ok urdu þar margir lutir þeir er frásagna væru verdir ok iartegnum þóttu gègna, þó þat sè ei ritat í þessa bók, bædi þat er biskup átti vid flagd þat er þeir kölludu Selkollu, ok mart annat. Prestarnir fóru sínu fram um þiónustu-

[1]) sumir gleymdu. *A. B. C. St.* þ. glúpnudu yfir. *E. Gr.*
[2]) lifdi hvör *o. s. fr. E. Gr.*
[3]) vantar í *E. Gr.*
[4]) lidsdráttinn. *E. Gr.*
[5]) snyr til. *C. St.* þ.
[6]) bannsyngr. *A. C. St.* þ.

giördina hvat sem biskup sagdi ok höfdu helzt rád um sinn vanda vid Gunnlaug múnk, er mestr klerkr ok gódviliamadr þótti vera þar í sveitum. Um varit eptir var fundr lagdr med þeim biskupi ok Arnóri til sætta, ok baud Arnór marga kosti sæmiliga [1]), en þó vildi hann ei at biskup færi á stadinn sva at hann styrdi fleira en klerkum [2]) ok tídum. Um sumarit eptir fór biskup vestan med tuttugu manna ok kèmr í Eyafiörd á úvart til Halls Klepp-iárnssonar, ok tekr hann vel vid biskupi, þvíat þeir höfdu sæzt ádr. Nú frètta þeir Arnór [3]) þetta ok draga lid saman, ok sva þeir Hallr ok biskup í mót, ok finnast þeir. Nú vard sva til-hagat [4]) at þeir skildu úhappalaust, en sætt vard eingi. Vendo þeir Hallr ok biskup þá undan ok vildu ei úfrid, fer biskup þá nordr í syslu sína ok syngr í tiöldum messur, en ei i kyrkium, medan ei var höfudkyrkian hreinsud.

8. Þá kvam út brèf Þóris erkibiskups sva mælandi [5]): «Þórir «erkibiskup sendir hörmúngar ord. ok heilrædi Arnóri Tumasyni, «Sigurdi Ormssyni, Þorvaldi Gissurssyni, Jóni Sigmundarsyni, Halli «Kleppiárnssyni [6]), Sighvati ok Snorra Sturlusonum. Sæmiligt [7]) «þykir oss at byria brèf vart ok erindi af hörmúng ok heilrædum, «þvíat sva sem vèr eigum at fagna ydar fagnadi, sva eigum vèr «at úfagna ydar úfagnadi [8]), þvíat sysla var ok Páll [9]) postuli «skylda oss at fagna þeirra fagnadi er fögnud giöra gudi, en gráta «hina er vid hann gremiast, en eptir guds ordum siálfs, þá gremst «sá vid gud er vid hans erindisreka gremist, þat er biskupa ok «presta. Hann segir sínum postulum: [*qui vos audit me audit*, «*qui vos spernunt* [10]) *me spernunt* [11]), sá er ydr hlydir hann hlydir

1) miúkliga. *A. C. St.* Þ.

2) tíundum, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* Þ.

3) ok Sigurdr, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) tilgætt. *E. Gr.*

5) látandi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

6) Þorvaldi Snorrasyni, bæta vid *A. B. Gr. St.* Þ.

7) sannligt. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

8) eptir því sem segir Páll postuli: *gaudete cum gaudentibus et flete cum flentibus*, bæta vid *B. E. Gr.*

9) Pètur. *A. C. St.* Þ.

10) *spernit. B. E. Gr.* i bádum stödum.

11) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

«mèr [1]), en sá ydr forsmáir [2]) hann forsmáir mik. Sömu ord «taka til vor, af því at þeir varo varir forfedur [3]), en vèr þeirra «synir sem Propheta [4]) segir: [*Pro patribus nati sunt tibi* [5]) *filii* [6]). «Þá kènníng kènnum vèr er þeir lètu [7]) oss, med sömu umbun «ef vèr flytiom vel, med sömu giöldum ef vèr flytium ílla. Háleitr «er var vandi ef vèr þegium ok [heptom ei glæpi [8]), [þvíat ef þat «giörum vèr [9]), þá er tynd sálin þess hins synduga, en gud heimtir «hana af oss, ok er úlíkr kostr at falla í nokkra grimd vid menn-«ina, hve máttkir þeir eru edr grimmir, heldr en grèmiast vid «gud. En hèdan [10]) spyrst hörmuligr grimmleikr ok fatídr, gudi «ok öllum [guds lögum [11]) gagnstædligr, er Gudmundi biskupi er «veittr, ef sva er vöxtr á sem margir segia, at úlærdir menn hafi «hann fyrirdæmdan, þar sem eingi madr á dóm á honum nema «pávinn ok vèr af páva hendi, ok hann nú settr af síno biskups «ríki, [hætt af mörgum sálum til ábyrgda [12]), en af honum drepnir «menn ok nokkrir prestar í þeirra tölo, en þennan vanda á eingi «at leysa nema pávi siálfr, adrir ok í móti teknir. Nú er þannig «kvamit, at þessi mein verda aldrei med ordsendíngum slökt, vèr «höfum þess freistat, en yfirbætr hafa frestast, ok veldr því [vansí «sumra [13]), ofskap [14]) ok þrályndi þeirra er í öllu [15]) þrályndast, «en þá er vèr leitum vid at ransaka hvadan þessar sakir rísa, eda «hvörir med kappi leita til heldr at næra þessi mein en slökkva, «þá vísa sumir sökum í einn stad, sumir í annan, ok siáum vèr «fyrir því ekki annat heilt í þessu máli en biskup sæki á fund «varn, ok þeir med honum er hèr eru ánefndir. Þat bodum vèr

[1]) en hvör ydur er úhlydinn, hann er mèr úhlydinn, bæta vid *A. C. St.* þ.
[2]) fyrirlítr. *A. C. St.* þ.
[3]) fedur. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) Préfetinn. *A. C St* þ.
[5]) vantar í *B. E. Gr.*
[6]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
[7]) lærdu. *B. E. Gr.*
[8]) hegnum ei glæpa. *B. E. Gr.*
[9]) þeirra er giör vitum, þvíat. *A. C. St* þ.
[10]) híngad. *A. B.*
[11]) mönnum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[12]) vantar í *A. C. St.* þ. hætt af, vantar í *B. E. Gr.*
[13]) vansi trúar. *A. B. C. E. St.* þ. vantrú. *Gr.*
[14]) ofkapp. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[15]) illu. sömu.

«ydur til [1]) [í hlydni [2]), gudi til þakka, heilagri kristni til frelsis, «syndum [3]) ydrum til lausnar, en öllum lanzlyd til þyrftar, at þèr «sækit á sumri á fund varn, en vèr skulum alla stund [4]) áleggia «at úsátt falli, sátt rísi, sálin [5]) hiálpist, ok lángr fridr standi [6]) í «þessu landi. Til lángra meina man standa, (eptir því er gud «kènnir oss [7]), ef þetta rád er fyrirlitit. En þèr Arnór ok þeim «ödrum er þú hefir yfir guds eign ok biskupsstól setta, þá biódum «vèr þeim af guds hálfu fastliga í hlydni, at þèr fáit honum sva «mikit af stadarins fè, at hann megi sæmiliga utan fara ok hvorki «kènni hann hneiso í utanför nè aptrhvarfi, en ef þèr afrækit «þetta vort bod, þá [vitit þat víst, at ydar vandi eykst marg«faldliga" [8]).

Nú kyrdust þeir Arnór vid brèfin, en biskup fór til Hóla um haustit ok sat þar um veturinn í fridi at kalla, ok áttust þeir Arnór ekki vid þann vetur, þá geingo margir menn til sætta vid biskup. Þann vetur er Gudmundr biskup var í Steingrímsfirdi andadist Páll biskup *III Kalendas Decembris*, en kosinn [9]) var til biskups Teitr Bersason systurson Þorvalds Gissurssonar, ok fór Þorvaldr utan med honum. Teitr andadist í Noregi ok vard ei biskup. Þá andadist Gudmundr hinn dyri ok Jón Sigmundarson.

9. Þenna tíma beó Kálfr Guttormsson á Grund í Eyafirdi, hann átti Ósku [10]) Þorvardsdóttur hins audga, Guttormr hèt son þeirra, en Jórun dóttir. Kálfr þótti þá mestr bóndi í Eyafirdi. Þá beó at Rafnagili Hallr Kleppiárnsson, hann átti Ingibiörgu dóttur Gudmundar hins dyra, Einar ok Kleppiárn varo synir þeirra. Med þeim Halli ok Kálfi var úþókki mikill, ok vard þeim mart til, hafdi Hallr þó [11]) mannaforrád mest í Eyafirdi, þótti honum Kálfr

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
2) undir hlydni guds. *A. B. Gr.*
3) sálum. *A. B. C. St. Þ.*
4) ok kapp, bæta vid *A. C. St. Þ.*
5) sálir. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
6) haldist. *A. B. C. Gr. St. Þ.*
7) vantar í *E. Gr.*
8) eykst ydar vandi margfaldliga. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
9) kiörinn. *E. Gr.*
10) Æsu. *B. E. Gr.*
11) þá. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

ekki trúr at [leita ei á [1]) þíngmenn sína. Þeir deildu ok um hvalmál nokkut ok færdu þat til alþíngis, ok var hvertveggi mesti flutníngsmadr síns máls, þótti þat æ sannara er sá taladi er þá flutti sitt erindi, en þó feingu þeir ekki samit, því at þeim vard mart til. Rafngilíngar ortu mart um Kálf, ok giördu um hann spott mikit. Þetta var kvedit:

Vetrúngs fædist efnit eitt
öllum er þat mönnum leidt
tvennar liggia til þess bætr,
tveir einir ero undir fætr,
helst hefir þat [2]) leingi lifat,
láti menn þat höndum þrifat,
ei er þat sem annar smali,
eingi [skaptr fyrir [3]) arsinn [4]) hali.

[Ok enn þetta:

Reidk fyrir dur ok dúdak [5])
dyn [6]) háskutils brynio
eldr liggr [7]) yggs und skildi
úskiálfandi Kálfi.
Mælt varo [8]) mót [9]) þá er gèlto [10])
menn Grundar [11]) sem hundar,
þys [12]) var í þrælom hiassa [13])
þeim í virki [14]) heima.

Ok enn var þetta kvedit:

Hefir um hreppinn efra,
hann er giör at þrotsmanni,
þat er kotmanna kyni,
Kálfr matgiafir hálfar [15]).

[1]) leita á. *B. E. Gr.* seilast ei á. *A. C. St.* þ.

[2]) hann. *A. B. C. Gr.* þ.

[3]) er vid. sömu.

[4]) rassinn. sömu. [5]) dugdag. *Gr.*

[6]) dyl. *B. E. Gr.* [7]) lèt. *B. E. Gr.*

[8]) vara. sömu. [9]) gott. sömu.

[10]) vid gyltu. *B. E. Gr.*

[11]) Grundarmenn. sömu.

[12]) þusl. sömu. [13]) kusla. *B. E. Gr.*

[14]) virdi. sömu.

[15]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ. Fleiri vísur voru enn kvednar Kálfi til spotts, þó hèr sèu ei ritadar, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.

10. Þenna tíma bádu þeir Arnór Tumason ok Sigurdr Ormsson Sighvat Sturluson at hann skyldi rádast þángat nordr í sveitir, vildi Sigurdr at Sighvatr tæki vid godordum þeim er hann hafdi gèfit Tuma syni hans, en Arnór hafdi þá lyst utanferd sinni af málum þeirra biskups. Sigurdr beó þá at Mödruvöllum í Hörgárdal, ok varo þau Sighvatr ok Haldóra þar iafnan á kynnissókn, ok eitt sinn er Sighvatr var á Mödruvöllum kvam Kálfr Guttormsson at hitta hann ok kærdi fyrir honum missætti þeirra Halls. Sighvatr lèt sèr fátt um finnast ok kvedst ei vilia fysa Kálf vandræda, en lèzt vin hans skyldi vera ok lidveizlomadr [1]) hvat er honum kynni til handa bera, ok mæltust þeir vel vid at skilnadi. Þat var fimm vetrum eptir bardagann á Hólum á jólaföstu er Kálfr vard þess vís at Hallr Kleppiárnsson átti leid til [Múnkaþverár. Þángat fór ok um daginn [2]) Jón Eyúlfsson er átti Valgerdi systur Kálfs, hann beó í Mödrufelli, ok er þat sumra manna sögn, at þat væri rád þeirra Kálfs beggia. Kálfr fór sídan um daginn ok med honum [Styrbiörn Klokkunef [3]) módurbródir hans er beó í Gnúpufelli, ok þeir tveir Steingrímssynir Eldiárn prestr ok Þorgeir, þeir varo dóttursynir Tuma-Kolbeinssonar. En er þeir kvamo til Þverár, geingu þeir Hallr Kleppiárnsson tveir nedan á völlinn. Snèru þeir Kálfr þegar í móti þeim ok sættu áverkum vid Hall, en hann hörfadi undan ok vardi sik. Menn varo úti á bænum, ok taladi austmadr um hvort þeir berdust þar á vellinum nidri? Jón Eyúlfsson svarar: skilmar mönnum [4]) þar, ok var því ekki til laupit er hann tók þann veg á. Þeir Kálfr unnu allir á Halli, ok lèt hann þar líf sitt. Snèro þeir Kálfr þá í brott ok fór hann heim á Grund um kveldit, en heimamenn á Þverá beóggo um lík Halls. Kálfr stefnir at sèr vinum ok frændum ok hafdi fiölmennt á Grund, ok leid sva fram til jóla. Synir Halls voro úngir ok var Klængr [5]) vígssakar adili. Þá er víg Halls spurdist vestr [6])

[1]) ok lèzt honum veita skyldu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) Múnkaþverár at þíngför um daginn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) Þorbiörn Kúlunefr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) skilmast menn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) bródir hans, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) vantar í *A. C. St.* þ.

í dali til Saudafells, segia menn, at Sighvatr Sturluson kvædi vísu þessa:

Nú spurdum vèr nordan
[nú er [1]) Rafn at [2]) því tafni,
heipt hefir her [3]) fyrir giptu
Hall Kleppiárnsson fallinn.
Þar er Eyfirdíngs ordit
allmargs hins forsnialla,
gunnmána [4]) hnè [5]) grennir [6])
gèdhraustr lokit trausti.

Þat var iólaðag hinn fyrsta at Kálfr spurdi at Klængr Kleppiárnsson væri kvaminn á Espihól med flokk mikinn ok gèkk þar til matar. Kálfr sendi þá menn upp til Mödrufells ok vídar á bæi at stefna mönnum at sèr. Guttormr Jónsson lióp þegar ofan til Grundar er ordsendíngin kvam, ok varo þeir Klængr þá kvamnir á bæinn. Guttormr lióp at virkinu ok lángt upp í vegginn, sva at hann nádi eggsinni uppá virkit, ok las sik sva upp. Þeir Kálfr varo fyrir í virkino, ok beoggust til varnar bædi konur ok karlar. Þeir Klængr sóttu at ok hofdu á ödru hundradi manna, feingo þeir Kálfr lítt vörn vidkvamit fyrir lidsfiolda ok stukku or virkino ok inní húsin, urdu nokkrir menn sárir af Kálfi, en einn lióp í kyrkiu, ok var sá særdr af Klængs mönnum [innar vid reidstól [7]). Menn átto þá lut í at þeir skyldu sættast [8]), kvam þar ekki ödru vid en Kálfr seldi Klængi siálfdæmi fyrir víg Halls, ok skildu þeir vid þat. Klængr giördi giörd þessa um varit, tvö hundrud hundrada fyrir vígit, Kálfr skyldi vera utan þriá [9]) vetur hèradsekr or Eyafirdi. Þetta fè allt galdt Kálfr er giört var ok fór utan ok gèkk sudr ok tók lausn allra mála sinna, hèldt ok alla sætt vel.

1) nár. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) sf. sömu.
3) hvör. *A. C. St.* þ.
4) gunnmara. *B. Gr.*
5) fèll. *C. St.*
6) grefnir. *A. C St.* þ.
7) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
8) ok hlyddi Klængr á þat, bæta sömu vid.
9) tvo. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

11. Nú um sumarit eptir víg Halls búast þeir til utanferdar Gudmundr biskup ok Arnór Tumason, lá [1]) biskup til hafs sex vikur ok sigldi út tvisvarsinnum ok vard aptrreka ok var borinn siúkr af skipi, en tveir menn fóru utan af þeim er erkibiskup hafdi utan bodat med biskupi. Arnór fór [2]) utan um sumarit af þeim sex er med honum voro nefndir. Þá fór ok utan Þorvaldr Gissursson ok Teitr biskupsefni. En Gudmundr biskup fór utan vetri sídar ok var hinn fyrsta vetur í Vík austr ok leingstum hiá Nikolási biskupi.

12. Nú er þar til máls at taka er fyrr var frá horfit, at þá er [þeir Gudmundr biskup ok Rafn Sveinbiarnarson kvamo út ok höfdu ádr einn vetur verit í Noregi [3]), fór Rafn vestr í Arnarfiörd á Eyri til bûs síns, ok ádr þeir skildu gaf biskup Rafni stódross góđ ok sólarstein. En er Rafn hafdi ei lengi heima verit, fór hann í Vatnsfiörd at heimbodi til Þorvalds Snorrasonar ok þá af honum [stódross gód [4]) ok mælti þá at nyu til vináttu. Litlu sídar fór Þorvaldr á Eyri at heimbodi ok þá at Rafni gódar giafir. Ragnheidr hèt kona dóttir Arons [5]) Bárdarsonar hins svarta, hún bió í Selárdal, þar kvam reidarhvalr [6]), ok er Þorvaldr frètti þat fór hann ok bad Ragnheidi selia sèr hval, en hún lèt hann hafa tólf vættir ok mælti, at hann skyldi gialda henni iafnmikit þá er ræki á fiörur hans. Þann hval galdt Þorvaldr aldrei sídan, [ok er hann fór brótt or Selárdal, þá [7]) gisti hann á þeim bæ er í Lokinhömrum heitir, þar var stolinn í brott sumr hvalrinn, en sá stuldr ræmdist [8]) sídan á hendr þíngmanni Rafns þeim er bió útá Slèttanesi [9]). Ok er Rafn vard þess var, þá baud hann Þorvaldi at gialda fyrir þíngmann sinn slíkt er hann vildi giöra fyrir tökuna.

1) lagdi. *C. St.*

2) einn, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

3) Gudmundr var fyrst til biskups kiörinn ok kom af Noregi ok Rafn Sveinbiarnarson, skildu þeir. *A. C. St.* þ.

4) önnur stódross. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) Arnórs. *B. E. Gr. St.*

6) reidr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

7) vantar í sömu.

8) reyndist. sömu.

9) ok Alptamyri, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.

En þorvaldr vildi ei þiggia fèbætr af Rafni ok rænti þann mann er hvalinn tók, ok gèkk hann þá á hendr þíngmönnum Rafns at ödru hveriu.

13. Madr het Haukr er kalladr var Vígahaukr son Orms Fornasonar, hann var nordlenzkr af kyni, hann kvangadist vestr á Raudasand ok fèkk Hallbero dóttur Markúsar Gíslasonar ok fór þángat vistfari til Lopts. þá er Gísli var fulltída Markússon, beiddi hann Lopt bródur sinn at gialda fè þau er þeir Magnús brædur átto. Loptr greiddi sem Gísli beiddi bædi lönd ok lausa aura, [því at Loptr var laungètinn [1]). [Nú er Loptr var stadfestulaus, þá fór hann nordr í Dyrafiörd á Myrar [2]). þar beó sá madr er Mögr hèt ok var þíngmadr Rafns, ok átti hann mála á Myralandi [3]). Loptr keypti landit sva at hann spurdi ei Rafn at ok fór þángat búi síno. Vígahaukr rèdst á Myrar med Lopti. Rafni mislíkadi landkaupit ok búgiörd, því at Loptr var hávadamadr ok údæll. Loptr hafdi ord rygilig [4]) vid Rafn ok þíngmenn hans ok kvadst aldrei hirda hvort þeim þætti vel edr illa hans bygd. þá fór Rafn á Myrar med fiölmenni. þá kvam þar þorvaldr Snorrason [med siötta mann [5]) ok baud Rafni lid sitt ok gèkk í flokk hans. Sídan var leitat um sættir, ok var Loptr tregr, þá fóru þeir Rafn til ok veitto frá læk þeim er inn fèll í húsin á Myrum, þá grunadi Lopt at þeir mundu [bera eld at húsunum ok [6]) brenna bæinn, þá leitadi Haukr um sættir, ok vard þat at þeir sættust á þat at Sighvatr [7]) skyldi um giöra. Eptir þenna fund yfdust þeir Loptr ok Haukr vid þorvald fyrir þat er hann hafdi [giörst ber í lidveizlu vid Rafn [8]). Um sumarit eptir á alþíngi lióp Haukr til þorvalds ok hió medal herda honum, en þarvid skeindist þorvaldr ei, því at hann var í brynio, þá hió Haukr til förunauts þorvalds þess er Teitr hèt, hann var son Arna [9]) Raudskèggs,

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) Loptr fór nordr á Myrar. sömu.
3) landinu. sömu.
4) útygilig. sömu.
5) vantar í sömu.
6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) Sturluson, bæta sömu vid.
8) giört lidveizlu Rafni. *A. C. St.* þ.
9) Arnórs. sömu.

þat högg kvam á hönd Teiti [ok var kallat í fyrstu ekki mikit sárit, en höndin fèll af honum sídan í hreifanum [1]). Fyrir þau mál var sæzt þar á þíngino, en þat kvam sídan upp at þeir Loptr ok Gísli hefdu verit í fiörrádum vid Þorvald ok þeir hefdu heitit at halda uppi fèbótum fyrir Hauk ef hann ynni á Þorvaldi, en er Loptr vissi at Þorvald hafdi ekki sakat, þá vildi hann ekki giöldum [2]) uppi halda, en Hauki þótti þeir [giöldum eiga uppi at halda [3]) þar sem hann rèd til þess. Nú syndist Lopti sèr úvarligt at sitia í Dyrafirdi fyrir úfridi Þorvaldar, því fór hann sudr um land er menn kvamo af þíngi til Eyúlfs hins óda [4]) Þorsteinssonar mágs síns [födur Alfdísar kono hans [5]), ok var þar um sumarit [ok öndverdan vetur [6]). Þetta sumar fór Þorvaldr vestr í Dyrafiörd [til leidar [7]) at vitia [gialda þeirra [8]) er gialdast skyldo fyrir Hauk, [en fèit kvam ei fram [9]), þá beiddi Þorvaldr Rafn at hann vildi fara med honum á Myrar ok ræna þar, en Rafn vildi ei í þeirri för vera, kvadst veita mundi Þorvaldi til laga ok mælti at hann skyldi sækia Lopt at lögum edr Gísla um fiörrád edr fiárhald [10]) ok lèzt mundu veita honum lid til þess. Eptir þat fór Þorvaldr á Myrar ok rænti þar mörgu ok lagdi ámæli til vid Rafn. Þá var þetta kvedit:

Rekkar frá ek at rækio
rád var [11]) þat mikit dáda
kynnist [12]) kappgirnd manna
kyr fimtán af Myrom.
[Nú hefir hrínbirkis [13]) hverki
hlynr [14]), veit ek á því skyniar,

[1]) ok leysti af honum sídan í úlfliidnum, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) fègiöldum, *A.*

[3]) bæta eiga, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) audga. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í sömu.

[6]) vantar í sömu.

[7]) vantar í sömu.

[8]) fiár þess. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[9]) vantar í *A. C. St.* Þ. fèin kome. *B. E. Gr.*

[10]) fègiöld. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[11]) vard. *Gr.*

[12]) kynnti. *A. C. St.* Þ.

[13]) hyrbirkil. *B. E. Gr.*

[14]) hlunr. *E.* hlyn. *Gr.*

fillr man kostr hans [1]) kallast [2])
kyr nè land [3]) á Myrom [4]).

Um veturinn eptir iól fór Loptr vestr á Myrar med rádi Sighvats Sturlusonar ok Eyúlfs mágs síns, ok er Þorvaldr frètti [5]) Þat, fór hann á Myrar med fiölmenni. Vinir Lopts spurdu til fara Þorvalds ok söfnudu lidi ok kvamo á Myrar er Þorvaldr var nykvaminn ok leitudu um sættir, ok er Þorvaldr sá at Loptr [hafdi Þar fleiri fulltíngsmenn en hann vætti [6]), Þá sættist hann vid Lopt ok fór brott sídan, [ok er Þeir varo í brott farnir [7]) treystist Loptr ekki at vera á Myrum, fór hann Þá til Rafns á Eyri ok kvad Sighvat hafa ord til sendt um ásiá vid sik, [Þá var Sighvatr kalladr vinr Rafns [8]), tekr hann Þá vid Lopti. Þetta líkar Þorvaldi illa, eptir Þat sendi hann Rafni ord, at hann skyldi kvama til fundar [9]) vid hann í Dyrafiörd á Þann bæ er í Granda heitir, Þar kvam Rafn vid Þridia mann fyrr en Þorvaldr ok beid hans Þar inni. Þorvaldr kvam med marga menn ok bad Rafn útgánga, ok er Rafn gèkk út ok hans förunautar Tómás Ragnheidarson ok Sturla Bárdarson, Þá höfdu [menn Þorvalds skipazt [10]) fyrir durum ok brugdit sverdum í midiar slídrir, en Þeir Rafn geingo eptir kvínni at Þorvaldi ok heilsadi Rafn honum ok seildist [11]) til hans, [Þorvaldr tók kvediu hans [12]). Þorvaldi vard nær ekki at ordum vid Rafn, ok Þat Þótti Rafni undarligt, ok ekki sá hann erinda vid sik í Þat sinn. Loptr keypti sídan [bæ Þann á Raudasandi er at Stokkum heitir [13]) ok giördi Þar bú. Vígahaukr ok Hallbera kona hans fóru brott af landi, fyrst til Noregs ok Þadan til Grænlands, ok Þótti hann mikill [mannhafnar madr vera [14]) hvargi er hann

[1]) sá. *B. E. Gr.*
[2]) kaldr. sömu.
[3]) kyr veldr sömu.
[4]) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.
[5]) frá. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[6]) var fiölmennari en Þeir, sömu.
[7]) vantar í sömu.
[8]) vantar í sömu.
[9]) móts. *E.*
[10]) Þeir Þorvaldr giört kví at Þeim. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[11]) mynntist. sömu.
[12]) vantar í sömu.
[13]) Stakkaland á Raudasandi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[14]) madr fyrir sèr. sömu.

kvam. Magnús Markússon fór ok til Grænlands ok kvam ekki [1]) þeirra aptr sídan. Gudmundr hèt madr ok [var Hallsson [2]), [einleypíngr ok hávadamadr [3]), hann giördist fylgdarmadr [4]) Gísla Markússonar. Gallti hèt vin Lopts, hann átti hest gódan, hann föludu þeir Gísli ok Gudmundr, en hann vildi ekki selia þeim ok gaf Lopti, en er þeir Gudmundr ok Gísli vissu, þá ætladi Gudmundr at taka í brott hestinn. Loptr sá [at Gudmundr tekr hestinn hiá gardi [5]) ok fór eptir honum vid fiórda mann. Þeir Loptr vágu Gudmund, þat vígsmál var lagt undir giörd Sighvats Sturlusonar, giördi hann fyrir víg Gudmundar Lopt í brott or Vestfirdíngafiórdúngi ok [förunauta hans þá er til vígsins voru [6]) ok þar med mikil fègiöld. Þá fór Loptr brott or Vestfiördum ok sudr um land til handa Eyúlfi mági sínum ok var leingi sídan undir trausti Oddveria.

14. I þann tíma tók at vaxa sundrþykki miök med þeim Rafni ok Þorvaldi af þeim ágángi er Þorvaldr tók at hafa á hendr [7]) þíngmönnum Rafns. Þorvaldr færdi ómaga þíngmanni Rafns, sá fór at finna Rafn ok bad hann af sèr flytia ómagann, þá safnar Rafn lidi ok fer med áttatygi manna nordr til Isafiardar ok færdi úmagann þeim manni er Jósep hèt, hann bió í Súdavík. Þorvaldr vard var vid ferd þeirra Rafns ok tók hann skúto þar í Súdavík ok lagdist í einn leynivag ok var þar medan Rafn var í Súdavík. Eptir þat fór Rafn heim, þá er hann hafdi látit þar eptir ómagann. Þetta kvad förunautr hans:

Færum gódan
grip Jósep,
sá skal ráda ríkr [8]),
reikum til Súdavíkr.

[1]) hvorgi. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) Hallr son hans. *A. C. St. Þ.*

[3]) vantar í sömu.

[4]) þeir voru fylgdarmenn. *A. C. St. Þ.*

[5]) þat. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[6]) þá er at höfdu verit med honum. sömu.

[7]) vantar í sömu.

[8]) ríkum. *A.*

Þá urdu í Vestfiördum mörg kyn í draumum ok synum [1]. Einusinni þá Rafn hafdi verit á kynnisleitum [2] í Selárdal, fór hann brott snimma um myrgin ok tveir menn med honum, þá sáu þeir liós mikit fara á móti sèr or austri frá bænum á Eyri. Rafn sá í liósinu þriá menn, þar þóttist hann kènna sik í liósino ok tvo menn adra. Þessa syn segir hann fám mönnum. Þórdr hèt madr, hann var heimamadr í Selárdal, hann dreymdi at madr kvæmi at honum [3] svartr ok ílliligr, Þórdr þóttist spyria hver hann væri, hann kvad:

Faraldr ek heiti,
fer ek of aldar kyn,
einka sætik [4]) svíkia [5].
Döprom dauda
ek man dreingi vega
ok nyta nái [6].

Gudmundr hèt madr, hann dreymdi at madr kvam at honum mikill ok svartr ok ílliligr, hann þóttist spyria hvat manna hann væri? sá svarar: hèr er nú kvaminn Vígúlfr [7], sá er þèr vitradist fyrir vígi Markúsar. Gudmundr spurdi, fer þú nú med iafn íllum tídindum sem þá? hann kvad:

Fagnak [því at er [8] egnir [9]
ymr þióda [10] böl glymia
allr tekr svarmr at svella
svell [11] þat er mannkyn hrellir.
Fara man ek sudr hit sydra
snákranns med lid manna,
verit hefik nordr hit nyrdra [12]
návaldr of [13] far aldar.

[1]) fyrirburdum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) kynnisleikum. *A. B. C. Gr. St.* þ.
[3]) um nóttina, bæta vid *C. St.* þ.
[4]) einka sakir. *C. St.* einka sættir. *A. B. Gr.* þ. einka ek sættir. *E.*
[5]) svika. *B. E.*
[6]) mèr ná. *St.*
[7]) Ingólfr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[8]) þá er. *A.* því er. *B. E. Gr.* þar er. *C. St* þ.
[9]) ógnir. *A. B. E. Gr. St.* þ. ögnir. *C.*
[10]) im þiódar. *B. C. E. Gr.* þ. um þiódar. *A.*
[11]) svellr. *B. E. Gr.*
[12]) nedra. *B. C. Gr. St.* þ.
[13]) ok. *A.*

Eyúlfr hèt madr, hann var Snorrason, hann dreymdi at hann þóttist út kvama, hann þóttist siá túngl sva mörg á himni sem stiörnur væro, honum syndust vera sum full [1]) sum hálf, sum meir edr minur [vaxandi edr þverrandi [2]), ok er hann undradist þessa syn þóttist hann siá mann standa hiá sèr, sá kvad:

Sè þú hve hvarfla
heima midli
syndaudigra
sálir manna,
kveliast andir
í orms gini
skèlfr rammr rődull,
rædk þèr at vakna.

Hann mundi vísuna er hann vaknadi [3]). Jón hèt madr, hann var Þorsteinsson [4]), hann [var heimamadr [5]) á þeim bæ er at Kúlo heitir, þar bió sá madr [6]) er Kiartan hèt. Símon hèt madr ok var Biarnason, hann var heimamadr Rafns. Símon átti fridlo [ok barn [7]) á Kúlo, Jón fipladist [8]) á [9]) þeirri kono. Einn helgan dag fór Símon til fundar vid fridlu sína [10]), en Jón gèkk at honum ok hió hann banahögg, fyrir þat víg giördi Rafn Jón sekan skógarmann. En nokkru sídar færdi Jón Rafni höfud sitt, en hann gaf honum höfudit, Jón vard íllu höfdi feginn ok þakkadi Rafni giöfina. Rafn bætti sídan fè fyrir víg Símonar frændum hans ok færdi siálfr fram síkno Jóns. Þat var eitt var er Þorvaldr fór med fiölmenni til Arnarfiardar ok er þeir kvamo ofaní heidarbrún í Arnarfiardarbotn, þá sá för þeirra kona sú er Astrídr hèt, hon var dóttir Gunnars Bárdarsonar hins svarta, hon beó á einum litlum bæ, ok er hon sá manna förina sendi hon son sinn [á Eyri at segia Rafni [11]), ok þegar er hann spurdi, sendi hann

1) heil. *A. C. St.* Þ.
2) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
3) vantar í *Gr.*
4) Steinúlfsson. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
5) átti heima, sömu.
6) böndi, sömu.
7) vantar í *A. C. Gr. St.* Þ.
8) fifldist, *B. E. Gr.*
9) at. sömu.
10) ok sat á tali vid hana. bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
11) tilEyrar at giöraRafn varan vid, sömu.

ord í Selárdal sonum Ragnheidar Eyvindi ok Tómási, at þeír kvæmu til fulltíngs [1]) vid hann med þá menn er þeir fengio. Þeir söfnudu þegar mönnum ok flotudu skipum. Þorvaldr kvam á Eyri litlu sídar med flokk mikinn. Rafn skipadi mönnum fyrir í húsum inni med vapnum ok lèt vera opnar allar dur ok skaut slám fyrir innan, Rafn hafdi boga ok skaut. Þorvaldr bar elld at húsum ok kveikti [fyrir þeim durum er honum þótti minst vörn fyrir vera, ok festi [2]) í þekiunni vída, en þeir er inni varo báro vatn ok syro í eldinn ok slökto sem þeir mátto. Rafn spurdi hvör fyri eldinum rèdi. Þorvaldr svarar ok [sagdi at hann rèd [3]). Rafn spyr at sökinni [4]) er Þorvaldr bar eld at húsum hans. Þorvaldr kvad Rafn hafa verit í fiörrádum vid sik, þá er hann færdi ómagann í Súdavík, Rafn kvad þat ei satt vera, þvíat ek vissa hvar skip þitt var edr þú, er ek var í Súdavík, ok hafdak sva mikit fiölmenni at ek átta alls kosti vid þik þess er ek vilda. Sva vissak ok er þú vart í Holti í Önundarfirdi, ok hafdak þá enn nógt fiölmenni at giöra þinn lut slíkan er ek vilda. Nú er á hitt at líta [5]), hvat vèr skulum til þess vinna at þú brennir oss ei inni edr bæinn. Þorvaldr svarar, þú skalt handsala mèr siálfdæmi fyrir þá luti alla er ek vil giört hafa þèr á hendr. Rafn kvedst ei mundi Þorvaldi siálfdæmi handsala, þvíat mik man ei skorta menn at [6]) stundu. Þeir hádust vid um stund ok gátu þeir Þorvaldr ei bæinn brent fyrir varnar sakir. Þá siá þeir hvar skip fóro utan eptir Arnarfirdi, skipud mönnum ok vapnum. Þorvaldr spurdi þá Rafn, ef hann vildi þeirra málaferli í nokkurs manns gard [7]) leggia, en Rafn giördist til þess tregr, þar hann vissi sèr lidsvan. Þá átto margir menn lut í at þeir sættust ok hefdi Rafn þá nefno um þeirra mál er honum þóttu gód. Þorvaldr var þá fús til sátta. Þau urdu málalok at Þórdr Sturluson skyldi giöra um öll þeirra mál. Eptir þetta fór Þorvaldr brott med skyndíngo, dreif þá lid at Rafni bædi Seldælir ok margir adrir. Þeir voru sumir er fysto

1) fundar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) vantar í *A. B. E. Gr.* þ.
3) segir sik valda. *C. St.*
4) sökum. *C. St.*
5) minnast. *C. St.*
6) af. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) dóm edr giördir. sömu.

at þá skyldi ríða eptir Þorvaldi ok drepa hann, sva ber sem hann vard at fiörrádum vid Rafn, þat vildi Rafn ekki, hèr af fèkk hann ámæli mikit, sva sem Gudmundr Galtason svaradi [Gudrúno systur hans, er hon spurdi hvat hann heyrdi rædt um málaferli Rafns [1]):

[2]) Heyrdak [3]) Hrafni firda [4])
Hyrtalandi [5]) ámæla
þiód er [6]) limsk á ládi [7])
línspaung of atgaungu.
Raun man segia sína
seinn [8])-hriódandi góda
vígs er ullr at öllu
eiturþreyngs [9]) fyrirleitinn.

Þá er Þorvaldr kvam til Isafiardar sagdi hann allt annat frá fundum þeirra Rafns en verit hafdi.

15. Um sumarit eptir ridu þeir Rafn ok Þorvaldr til alþíngs med fiölmenni. A þíngi [varo tölud [10]) mál þeirra, ok voro í fyrstu borin öll vitni [11]) í hag [12]) Rafni, en Þorvalds menn báru med honum allir nema einn madr, [sá hèt Vermundr [13]), hann bar med Rafni, þá vard ei giört [14]) um mál þeirra á því þíngi. Um vetrinn eptir kvam hvalr nordr á Strandir [á land þat er Rafn átti [15]), en sá madr er fann hvalinn segir Þorvaldi hvalkvamuna. Þá gèrdi Þorvaldr rád, at sá er fundit hafdi hvalinn skyldi segia at hvalrinn hefdi kvamit á almenninga ok hefdi hann þar [fest lögfesti [16]), þá fór Þorvaldr til ok lèt skèra hvalinn

[1]) vantar í *A. C. St. Þ.*
[2]) vísuna vantar í sömu.
[3]) heyri èk *B. E. Gr.*
[4]) fióra. sömu.
[5]) hyrtælendr. sömu.
[6]) til, bæta sömu vid.
[7]) landi. sömu.
[8]) senn. sömu.
[9]) eiturþveings. sömu.
[10]) var knyat. *A. B. E. Gr. Þ.*
[11]) mál. *A. C. St. Þ.*
[12]) í vil. sömu.
[13]) vantar í sömu.
[14]) greidt. *B. C. E. Gr. Þ.* greint. *A. St.*
[15]) á reka Rafns. *A. C. St. Þ.*
[16]) fyrst lögfesti afskorit. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

ok flytia heim. Nú er Rafn spurdi þetta, sendi hann menn sudr um land til Halls lögsögumanns mágs síns ok Þorvalds Gissurssonar bródur Halls, ok hafdi hann rád vid þá, hvörsu hann skyldi þetta mál leidrètta vid Þorvald, en þeir lögdu þat til at hann byggi mál til á hendr Þorvaldi [1]) ok þeim mönnum er neytt höfdu af hvalnum til Dyrafiardar þíngs ok sæki þar at lögum. Sendimenn kvamo aptr ok segia Rafni þessi tillög. Um varit eptir bió Rafn mál til á hendr Þorvaldi ok þeim mönnum ödrum er neytt höfdu hvalsins. Sturla Bárdarson Snorrasonar [ok Þordísar Sturludóttur [2]) hafdi mál á hendr Þorvaldi á því þíngi. Vard Þorvaldr sekr skógarmadr ok níu menn adrir þeir er at hvaltökunni höfdu verit. Um sumarit eptir reid Þorvaldr til þíngs [3]) med fiölmenni, þat sumar fór Rafn ei til þíngs. Sturla Bárdarson fór til þíngs fyrir hönd Rafns ok í flokk Þórdar Sturlusonar. Sturla sagdi til sektar Þorvaldar ok þeirra manna er sekir höfdu ordit of hvalmálit. Þat sumar fór Rafn nordr til Isafiardar ok tók upp sektafè fyrir þeim mönnum er sekir voro. Ok er Þorvaldr kvam heim af þíngi safnar hann brátt mönnum um allan Isafiörd ok fèkk hundrad manna [4]). Margir fóro naudugir í þá för, Kolbeinn hèt fylgdarmadr Þorvaldar. Þorvaldr sendi hann til fundar vid einn fátækan bónda er Amundi hèt, hann var ómagamadr ok þíngmadr Rafns, hann mælti sva vid Kolbein ok hans förunauta, at þeir skyldu bidia Amunda at fara med þeim ok vera í heimsókn med Þorvaldi til fundar vid Rafn, en ef hann vildi þat ekki, þá mælti Þorvaldr at þeir skyldu taka hann af lífi. Þeir Kolbeinn finna Amunda á heyteig, þar er hann sló, en kona hans rakadi liá eptir honum ok bar reifabarn á baki sèr þat er hon fæddi á briósti. Þeir Kolbeinn beiddo Amunda at hann færi med Þorvaldi á Eyri til Rafns. Amundi kvadst i eingri för vera mundu þeirri er Rafni væri til úþykktar. Þá vágo þeir Kolbeinn Amunda ok fóru til fundar vid Þorvald ok segia honum vígit. Þá er Þorvaldr kvam í Dyrafiörd fór kona nokkur af skyndíngo á Eyri til Rafns ok sagdi honum

1) ok heimamönnum hans, bæta vid *B. C.* Þ.

2) vantar í *A. E. C. St.* Þ.

3) alþíngis. *E.*

4) lids. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

til farar Þorvaldar, ok þegar sendi Rafn menn Eyvindi í Selárdal ok bad hann kvama til lids vid sik. Rafn sendi ok menn á Bardaströnd [Eyúlfi presti Liótssyni ok Gèlli Þorsteinssyni [1]), þeir kvamo med þá menn er þeir fengo. Rafn hafdi látit giöra virki af grióti kríngum bæ sinn. Sídan kvam Þorvaldr á Eyri med hundrad manna, ok er hann sèr umbúníng Rafns lízt honum torsóttligt, settist hann þá nidr med flokk sinn á brekko einni skamt frá virkino. Eyvindr Þórarinsson hafdi safnat lidi um Tálknafiörd ok dali í Arnarfirdi ok fór skipaleidi [2]) til Eyrar. Nú er Þorvaldr sèr hvar skipin fara fer hann til sævar [3]) med flokk sinn. Eyvindr sá hvar flokkr Þorvaldar var í vörum fyrir, ok mælti vid menn sína at þeir skyldu ei at landi leggia. Þorvaldr spyr hver fyri skipunum rèdi, en honum var sagt at Eyvindr Þórarinsson rèd fyrir. Þorvaldr kalladi á Eyvind ok bad hann leggia skipum at landi, ok vil ek tala vid þik. Eyvindr bad hann þadan tala ef hann ætti nokkut vanmælt, en ekki á ek vid þik vantalat. Þorvaldr svarar þá eingu, ok er þeir siá er í virkino varo flokk Þorvaldar ok sva skipamennina, þá gánga þeir brædur Eyvindar Tómás ok Haldór [4]) or virkino med mikinn flokk ímóti Eyvindi. Ok er Þorvaldr sèr þessa för, geingr hann brott or fiörunni, þá leggia þeir Eyvindr at landi ok gánga í flokk þeirra Tómásar ok fara med þeim í virkit til Rafns. Hafdi hann þá þriú hundrud manna, þá mæltu nokkrir vid Rafn, at þeir skyldu gánga at þeim Þorvaldi ok drepa hann [ok kvádust ekki kvamast mundu í betra færi [5]), en Rafn kvedst vilia virda hinn heilaga Jacobum postula, at beriast ei vid Þorvald. Þetta var um aptaninn fyrir Jacobsmessu. Þá kalladi Þorvaldr á Steinúlf prest at hann skyldi kvama til hans. Hann fór til fundar vid Þorvald, ok töludu þeir leingi hliótt. Sídan fór Steinúlfr prestr á virkit ok leitadi þadan frá um sættir. Um myrgininn eptir kvam Oli [6]) Oddsson hinn audgi ok leitadi um sættir med Steinúlfi. Ok þá sættust þeir Rafn ok Þorvaldr,

[1]) Steinólf prest Liótsson ok Gèlli Þorsteinsson. *A. C. St.* Þ.

[2]) skipalidi. *B. E. Gr.*

[3]) strandar, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) Hallr. *B. E. Gr.*

[5]) vantar í *A. C. St.* Þ.

[6]) Ali. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

Sú var sátt þeirra at giöra skyldu um öll málaferli þeirra Þorvaldr Gissursson ok Þórdr Sturluson. Þorvaldr þakkadi þá öllum mönnum þeim er um sættir höfdu leitat, em ek, segir hann, feginn ordinn at vid erum sáttir, synist mèr sem vid munum ei uppnæmir fyrir einum höfdíngia, ef vid erum bádir at einu rádi. Þeir Þorvaldr höfdu þar allir dagverd at bodi Rafns, hann fèkk þeim ok fararskióta [1]) nordr yfir heidi til Dyrafiardar. Þorvaldr mynntist til Rafns ádr þeir skildu. Þá voru málaferli kyrr um sumarit ok vetrinn eptir.

16. Um varit eptir fór Rafn sudr til Borgarfiardar í Reykiaholt til sættarfundar þess er þeir Þorvaldr [2]) höfdu ákvedit med sèr. Til þess fundar kvam Þorvaldr ei. Þar kvam Þorvaldr Gissursson ok Þórdr Sturluson er giöra skyldu um mál þeirra Rafns ok Þorvaldar, en þeim syndist sem ekki mundi stoda at giöra um mál þeirra er Þorvaldr var ei vid staddr. Syndist þeim Þorvaldr riúfa sætt er hann kvam ei sem ákvedit var. Um haustit eptir sendi Þórdr Sturluson þeim ord Rafni ok Þorvaldi, at þeir skyldu kvama á Skardsströnd í Fagradal, ef þeir vildu sættast. Til þess fundar kvam Rafn, en Þorvaldr ei, þá fór Rafn á Bardaströnd til brúdlaups þess er Haukr Þórgilsson gèkk at eiga Oddnyo dóttur Steinúlfs prests Þar var ok Eyvindr prestr Þórarinsson or Selárdal. Eyvindr fór frá bodino út yfir heidi til Arnarfiardar, ok er þeir fóru med Forsfirdi siá þeir eld brenna or sævarbökkum sva vídan sem stakkgardsvídd. Þeir siá leingi ok ætludu til at fara, en flód var í ánni nidri, fóru þeir sídan upp med ánni ok siá iamnan eldinn. Þetta var um kveld ok var fiúkvidri ok áin uppgeingin, en er þeir kvamo yfir ána þá var eldrinn horfinn. Menn voru rónir á sæ í Selárdal, þeir sáu eld til hafs á sænum, en litlu eptir siá þeir blód á klædum sínum ok vissu ei hvadan at var kvamit, blód sást vída þar menn vissu einga van til. Þorbiörn hèt madr, hann var Magnússon, hann bió í Valþiófsdal, hann gèkk út um nátt fyrir Ambrosiusmessu þann vetur er Rafn lèzt,

[1]) reidskióta, *A, B, C, E, Gr, St,* þ.

[2]) ok Rafn höfdu *o. s. fr, A, B. C, E, Gr, St,* þ.

hann sá í landsudur í loptinu hvar eldr fór or landsudri í vestr, en eptir eldinum sá hann mann rída hvítum hesti í standsödli, hann hafdi skiöld hvítan, hiálm á höfdi ok höggspiót mikit í hendi, ok lagdi hann fram spiótit milli eyrna hestinum, ok sá hann at spiótit tók lengra fram en hestrinn ok sva aptr. Þar eptir sá hann annan mann rída, sá hafdi hest svartan ok hálflitan skiöld, hálfan raudan ok hálfan hvítan, sá hafdi ok hiálm á höfdi, girdr sverdi ok spiót mikit í hendi, ok fór sá med sínu spióti sem hinn fyrri. Hann sá rída hinn þridia mann med slíkum hætti sem hina fyrri, utan hann hafdi brúnan hest ok svartan skiöld ok öll klædi kolmerkt [1]), hann hafdi á höfdi sem biskups mítur væri. Þenna atburd sá Þorbiörn sva giörla, at hann sá allan fótaburd hestanna ok sva þat at mennirnir stódu í stigreipum. Þann vetur hinn sama vard sá atburdr á Eyri átta aptan [2]) ióla at sá madr er Þórarinn hèt sá mann standa fyrir matbordi Rafns, hann var mikill ok hafdi hiálm á höfdi ok sverd í hendi ok studdi nidr blódreflinum í bordit fyrir Rafni. Hann stód þar um stund ok gèkk í brott sídan. Þórarinn sat hit nærsta Rafni þá hann sá þenna atburd. Hallkatla Einarsdóttir sá ok liós mikit einusinni er hon var í kyrkio undir virki heim. [Jón hèt madr þar, hann sá ok liós ok enn fleiri menn sáu liós þenna sama vetur [3]). Um vetrinn eptir iól fóru þeir Pètur ok Sturla Bárdarsynir nordr í Súdavík ok tóko þar höndum bónda þann er Jósep hèt ok Einar son hans, þeir höfdu sekir ordit um hvalmál. Þeir Sturla færdu þá Rafni, en hann gaf þeim bádum grid, ok kunni einga þökk er þeir höfdu þángat færdir verit,

17. Um vetrinn á lángaföstu fór Þorvaldr nordan or Isafirdi med tvo menn hins fiórda tugar, þeir fóru Glámuheidi til Arnarfiardar, ok er þeir kvamo ofan í Arnarfiardarbotn til bygda, þá bundu þeir menn alla á bæum þar þeir kvamo, at ei færi niósn undan þeim Þorvaldi til Eyra, en þeir báro illa sitt meinlæti, börn grèto, en mædur eda fedur máttu þeim ei biarga, þvíat allir varo

1) kolsvört. *A. B. C. St.* þ. 2) vantar í *A. C. St.* þ.
3) dag. *A. C. St.* þ.

bundnir. A einum bæ hètu þeir er bundnir varo á hinn heilaga Þorlák biskup at þeir skyldu lausir verda lögum [1]) nokkrum, ok er þeir höfdu fest heitit, þá sprutto bönd af einum þeirra er bundnir varo, sá leysti adra, ok sídan fóru þeir á adra bæi ok leystu alla or böndum. Rafn var vanr at láta halda vörd hveria nótt, ok þann aptan er þeir Þorvaldr kvamo af heidinni spurdi Rafn heimamenn sína hverir þá hèldu vörd, en þeir kvádo ei þurfa mundu þá at halda, er fiúk var ok vondt vedur, segia eingum manni fært milli hèrada í því íllvidri er þá var úti, segia ok, at menn mundu ei til þeirra giöra um lángaföstu. Rafn kvadst synast at haldinn væri, en þó var ei þessa nátt vördr haldinn [2]), en allar þángat til. Þá er Rafn var kvaminn í rekkio mátti hann ei sofa, hann bad [þann mann er Steingrímr hèt [3]) kveda Andresar drápo, ok eptir hvert stef [4]) ræddi Rafn mart um þá atburdi er giörst höfdu í pínsl hins heilaga Andresar postula. Þá sömu nátt dreymdi Tómás í Selárdal, at hann sæi pínsl Andresar postula, þat sama dreymdi hann [alla nótt iafnan er hann sofnadi [5]). Þá sömu nátt kvam Þorvaldr á Eyri, ok er þeir kvamo at virkino, þá settu þeir mann er Bárdr hèt á skiöld ok lyptu skildinum upp á spióta oddum sva at hann mátti klifa upp í virkit af skildinum. Sídan fer Bárdr til virkisdura ok rennir frá lokum, þeir Þorvaldr geingo þá í virkit [6]), í því reis Rafn upp, þvíat hann mátti ekki sofa, ok sá út, ok er hann lauk upp hurdina sá hann at menn varo kvamnir med vapnum í virkit. Rafn lauk aptr hurdir ok gèkk inn ok sagdi mönnum til at menn varo kvamnir í virkit margir med vapnum, ok hafit þèr ei vel vördinn haldit í nátt. Þeir Þorvaldr vidudu fyrir dur öll ok lögdu eld í ok sva vída í þekiona. En er menn Rafns varo kvamnir í klædi, þá geingu þeir til dura, ok spurdi Rafn, hverr fyrir eldi rèdi? en honum var svarat, at þeir rèdu fyrir er kveikto, en Þorvaldr var höfdíngi þeirra. Rafn spurdi ef Þorvaldr vildi taka nokkrar sættir af þeim, kvad Þorvald skyldu ráda

1) saungvum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) at verr fór, bæta vid *A. B. C. St.* þ

3) mann einn er þar var, *A. B. C. St.* þ.

4) erindi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) tvísvar ok vaknadi á milli. *C. St.* þ.

6) med vapnum, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.

siálfan fyrir sættum, ef hann vildi gèfa mönnum grid öllum þeim er þar varo inni. Menn Þorvaldar svara ok segia Rafn úmakligan grida ok hans menn. Þorvaldr svarar eingu, en menn Þorvaldar hofdu mörg ord heimsklig um þetta mál þeirra. Rafn spurdi hvar Þorvaldr væri ok hví hann svarar eingo. Væntik, segir Rafn, af Þorvaldi best ydvar, þvíat ek þykiumst frá honum góls verdr vera Þorvaldr svaradi eingo. Þá mælti Rafn vid prest sinn þann er Valdi hèt ok klerka þá er med honum varo, at þeir skyldu gánga til stofu ok syngia óttusaung, ok þá saung Rafn óttusaung med þeim, ok er súngit var giördist reykr mikill í húsunum, þá gèkk Rafn til dura ok beiddi Þorvald gèfa grid konum ok börnum til útgaungo, en ek vil bióda þèr, Þorvaldr, fyrir mik slíka sætt er þú vilt giört hafa, man ek þèr handsala at fara í brott af landi ok gánga sudr til Róms til hiálpar bádum okkur, ok kvama aldrei til Islands, ef þèr þykir þá þinn sómi meiri en ádr. Þorvaldr svarar: ek man lofa hèr öllum mönnum út at gánga ef þeir selit af höndum vapn ydar ok leggit á mitt vald, ok giörik slíkt af hverium ydar sem ek vil. Þá seldu þeir Rafn af höndum öll vapn sín, geingu sídan út karlar ok konur, ok er Rafn kvam út var hann þegar tekinn ok haldinn, Sturla Bárdarson systurson Sturlusona [1]) var ok haldinn, þridi madr Þórdr Vífilsson, en adrir menn allir karlar ok konur varo leiddir í kyrkio ok byrgdir þar. Þá lysti Þorvaldr yfir því, at Rafn skyldi taka af lífi, ok er Rafn heyrdi þann dóm, þá beiddist hann at gánga til skripta ok taka þiónustu. Sídan gèkk hann til skripta vid Valda prest ok mælti trúord fyrir honum ok skriptargáng ok tók *corpus domini* ok fèll til bænar, ok feldi tár med mikilli idran. Þá kvaddi Þorvaldr Kolbein Bergsson at vega at Rafni, en hann vildi ekki, þá mælti Þorvaldr vid Bárd Bárdarson at hann skyldi vega at Rafni. Lagdist Rafn þá nidr á olnbogana, ok lagdi hálsinn á eitt rekatrè, en Bárdr hió af hönum höfudit þar vid trèno. Sá atburdr vard þar undir virkino er liósit hafdi sèzt opt um vetrinn ádr. Þorvaldr lèt höggva fót undan Sturlu Bárdarsyni ok sva Þórdi Vífilssyni. Þessir atburdir urdu annan dag viku í annari viku lángaföstu átta nóttum

[1]) systurson hans, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

eptir Mattiasmesso, allan sama vetur [1]) ok veginn var Hallr Klepp-iárnsson [2]) á iólaföstu. Þá er Rafn var veginn rænto þeir Þorvaldr bæinn á Eyri öllu lausafè því er innan veggia var, vapnum ok klædum, húsbúníngi ok mat. Í því ráni tóku þeir sólarsteininn er Gudmundr biskup hafdi gèfit Rafni. Þeir tóko skip er kyrkian átti á Eyri, ok báru þar á fiárlut er þeir höfdu rænt, ok er þeir varo brott farnir fundo heimamenn á Eyri sólarsteininn [vid siá nidri [3]), [þann er þeir höfdu upp tekit [4]) [þá er þeir höfdu skipit fengit [5]), þann atburd virdu margir menn sva, at Þorvaldr ok hans förunautar mátto því ei sólarsteininn med sèr hafa er Gudmundr biskup hafdi átt hann.

18. Um varit eptir páska fór Þorvaldr annat sinn til Arnarfiardar ok rænti þar marga þíngmenn sona Rafns. Pètur Bárdarson lèt drepa þíngmann Þorvalds þann er Hermundr hèt, sá hafdi opt verit í andskota flokki Rafns. Þorvaldr sendi ord Kári múnki at hann skyldi leita um sættir vid frændr Rafns. Þá var lagdr sáttarfundr at rádi Þórdar Sturlusonar ok Kárs múnks á Þíngeyri í Dyrafirdi. Þar var sæzt á þessi mál, at Þórdr skyldi giöra á þann veg sem hann vildi. Tólf menn handsöludu fyrir Þorvald fègiöld slík at gialda sem Þórdr vildi giöra, ok til þeirrar sykno Þorvalds sem Þórdr vildi vera láta. Annat sumar á alþíngi lauk Þórdr upp giördum. Sú var sættargiörd Þórdar Sturlusonar á hendr Þorvaldi Snorrasyni, at hann skyldi fara utan þá samsumars ok vera utan fimm vetur, nema hann færi á fund páva ok sættist vid hann ok fengi af honum lausn, þá skyldi hann þriá vetur utan vera, en ef hann kvæmi út ok hefdi sva í brott verit, þá væri vist hans heimil í Vatnsfirdi, bústadr ok þíngmanna vardveizla, en Þorvaldr skyldi iafnan vera úhelgr milli Vatnsfiardar ok Breidafiardar [6]) ok Stiga í Isafirdi, ok allir þeir menn er med honum fóro til af-

[1]) þann sama vetur. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) fyrir nordan, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.

[3]) í fiörumáli. *A. St.* þ. flædarmáli, *B. C. Gr.*

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) þar er þeir höfdu skipit hladit. sömu

[6]) Vatnsfiardarár í Breidafirdi, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

töko Rafns, þeir skyldu aldrei kvama í þetta takmark, nema þeir yrdu sæhafa naudgir, þá skyldu þeir sem fyrst fara á brott med sekt fullum dagleidum. Allir menn skyldu vera or þíngi því er Þorvaldr hafdi átt þeir er bygdu í því takmarki. Þessir menn skyldu fara brott af landi ok kvama aldrei út: Þórgils Austmadr, Steingrímr Asgeirsson, Þórdr Gunnarsson ok Bárdr Bárdarson, ok vera brott or Vestfirdínga fiórdúngi á hinum nærstum hálfum mánadi þadan frá er þeir spurdo. Biarni diákn skyldi vera sekr um allt land ok brott or Vestfirdínga fiórdúngi. Ormr Skèggiason skyldi hvorki vera í Arnarfirdi nè í Isafirdi, ok sva Þórdr Steinsson [1]), en allir menn adrir hèradssekir sem fóro med Þorvaldi án utanfarar, en gialda þó fè fyrir alla þriú hundrud fyrir hvern mann til þess at þeir ætto landvært. Medr þessum mannsektum giördi Þórdr Sturluson hundrad hundrada fyrir víg Rafns, þat fè skyldi gialda í vöru eda gulli edr brendu silfri, ok því at eins annat fè er þeim er vid skyldu taka þætti þat ei verra en annat fè. Fyrir afhögg vid Sturlu varo giör sextygi hundrud, fyrir afhögg Þórdar Vífilssonar þriátygi hundrud, fyrir adild vígssakar eptir Rafn varo giör þriátygi hundrud til handa Magnúsi Þórdarsyni systursyni Rafns er vígsakar adili var eptir Rafn, því synir Rafns varo sva úngir at þeir varo ei vígssakar adilar, en þó man sagt verda nokkut frá þeim sídar. Þessi tvö hundrud hundrada guldust eptir því sem at giört var. Rán þau er Þorvaldr hafdi rænt á Eyri ok annarstadar í Arnarfirdi varo aptr goldin sva sem Þórdr skildi fyrir. Þorvaldr fór utan ok gèkk sudr til Róms ok var utan þriá vetur. Medan Þorvaldr var utan lèt Pètur Bárdarson drepa Má Þorkèlsson ok höggva fót af Jóni Þorsteinssyni, fyrir þat er þeir höfdu farit med Þorvaldi til aftöko Rafns ok höfdu ekki fè fyrir sik goldit. Þorvaldr kvam út þá er hann hafdi þriá vetur utan verit ok beó í Vatnsfirdi.

19. Þenna tíma rèdst Sighvatr Sturluson nordr til Eyafiardar ok var hinn fyrsta vetur á Mödruvöllum í Hörgárdal med Sigurdi [Ormssyni [2]), annan vetur átti hann í búi vid hann, eptir

[1]) vantar í *A*, *B*, *C*, *E*, *Gr*, *St*. þ.

[2]) mági sinum. *A*. *C*. *St*. þ. ok Halldóru Ormsdóttur, bæta vid *B*, *E*, *Gr*.

Þat keypti hann Grundarland í Eyafirdi med því móti at Runúlfr prestr sem sidar var vígdr til ál-óta gèkk í borgun [1]) vid [2]) Kálf Guttormsson ok gallt fyrir landit, en Sighvatr giördi þá bú á Grund ok beó þar til elli. Kálfr Guttormsson keypti Miklabæ í Skagafirdi ok beó þar medan hann lifdi. I þann tíma varo í Eyafirdi margir stórbændr ok yfdust þeir heldr vid Sighvat, þótti þeim hann hvorki eiga erfdir [3]) nè ódòl þar í hèradi. Þá beó Haldór [4]) Örnúlfsson á Mödruvöllum, en Þorvardr bródir hans í Miklagardi, hann átti sverd þat er Bryniobítr var kallat, þat hafdi Sigurdr Grikkr [5]) or Miklagardi, en Sveinn Jónsson Sveitarbót hafdi þat í Vídinesi ok hió stórt med. Synir Sighvats Tumi ok Sturla föludu sverdit ok nádu [6]) ekki at kaupa, en Þorvardr dróst á [7]) at liá Sturlu sverdit, ok fórst þat fyrir. Þá var Sturla seytián [8]) vetra gamall er hann reid [9]) upp í Miklagard, ok tveir Eyfirzkir menn kvamo í för hans, þeir ridu at durum [ok gèkk Sturla inn, en hinir sáto á baki úti [10]). Sturla gèkk til rúms bónda ok tók sverdit ok gèkk í önddyri ok [ætladi at siá ok bregda [11]), þá kvam prestr til ok þreif sverdit ok vildi ei bregda láta, kalladi hann þá á heimamenn, kvam þá at Þorvardr bóndi, ok bad hann ei taka sverdit. Sturla bad hann liá sèr. Þorvardr kvad hann ei sva med fara at þess væri van, ok kvad hann med eingo móti skyldu fá þat, drifu þá at heimamenn, konur ok karlar, ok vildu allir á sverdino halda, reidir þá þraungina [12]) út or durunum, ok var þá snarat af honum sverdit. Sturla hafdi eggsina Svedio [13]) í handarkryka, tók hann þá til hennar ok reiddi upp ok rèd til Þorvardar, hann gádi ei hvört fram [vissi eggsarinnar [14]), ok kvam

1) skuldina *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
2) fyrir. sömu.
3) eignir. sömu.
4) Jón. sömu.
5) hasst, bæta vid *A. B. E. Gr. þ.* keypt. *C. St.*
6) feingu. *A. B. C. St. þ.*
7) iátti. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
8) átián. *A. C. E. St. þ.* nítián *B. Gr.*
9) fór. *A. B. C. E Gr. St. þ.*
10) vantar í *A. C. St. þ.*
11) vildi skoda ok bregdr. *A. C. Gr. St. þ.*
12) þvögunn. *A. B. C. Gr. St. þ.* vantar í *E.*
13) vantar í *A. B. C. St. þ.*
14) horfdi á öxinni. *A. B. C. E. Gr. St. þ*

hamarinn í höfud Þorvardi, ok sprakk [1]) miök fyrir, en hausinn rifnadi, fèll Þorvardr í úvit ok lá lengi sem daudr væri, styrmdu heimamenn yfir honum, en Sturla reid brott ok heim á Grund ok förunautar hans med. [Sighvatr spurdi tídinda er hann kvam heim. Sturla kvadst eingi segia [2]), en förunautar hans segia Sighvati í hliódi hvat títt var. En er hann vissi hvat tídinda var, spurdi hann Sturlu, hvort þat væri satt, at hann hefdi vegit eda særdan hinn besta bónda í Eyafirdi? Sturla lèzt ætla ad því mundi verr at hann mundi ei daudr. Sídan tók Sighvatr á hinum mestu hrakníngum vid Sturlu ok hèt honum í brott. Sídan átti Tumi lut í ok segir at þeir skyldo sva fleiri fara at þeir væru bardir, segir reynt at bændr megi ei med gódu tryggia. Snemma um morguninn var Sturla á fótum, ok gèkk eptir gólfi. Sighvatr spurdi hverr þar færi. Sturla nefndi sik [3]). Sighvatr bad hann gánga í lokrekkiuna til sín, en er hann kvam þar, tók Sighvatr til orda: ekki þykkir mèr þetta sva ílla sem ek læt, man ek nú klappa um aptr [4]), en þú lát sem þú vitir ekki. Sídan sendi Sighvatr eptir Þorvardi í Saurbæ ok fèkk hann sætta þá, ok voro giör þriátygi hundrud, ok kvam þat fè seint fram.

20. Þessu nær edr [litlu fyrr [5]) varo skorur [6]) þeirra vestr í sveitum Midfirdínga ok Víddæla, þá beó á Breidabólstad í Vatnsdal Eyúlfr Kársson sun Kárs múnks ok Arnleifar Jónsdóttur Húnraudarsonar, hann var mikill madr vexti ok allra manna knástr ok vaskastr um alla [athöfn sína [7]), tvo brædur átti hann sammædra Jón ok Eyúlf, þeir varo Ofeigssynir. Þá beó Þórdr módurbródir þeirra at Asgeirsá, en Illhugi Bergþórsson [8]) at Þorkèlshvoli [9]), Þorsteinn Hiálmsson á Breidabólstad í Vestrhópi frændi þeirra, ok í hveriu húsi varo þeir Húnraudlíngar í þann tíma. En á Mel í Midfirdi beó Þórgils Kálfsson, hann átti Þórunni

[1]) spratt, *E. Gr.* Þ.
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) sagdi til sín, *A. C. St.* Þ.
[4]) eptir, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) um þetta skeid, *A. C. St.* Þ.
[6]) skærur. *A. B. C. Gr. St.* Þ. skèrur. *E.*
[7]) luti, *A. B C. E. Gr. St.* Þ.
[8]) bródurson þeirra. sömu.
[9]) Bergþórshvoli, *E.*

Magnúsdóttur Olafssonar ok Gudrúnar módursystur Sturlusona. Þar á Mel varo brædur Þorúnnar Olafr, Kodrán ok Egill, miklir menn ok sterkir. Gils [1]) Bergsson beó at Reykium, hans synir varo þeir Kálfr, Gudmundr, Steingrímr, Eyrekkr, Ulfhèdinn, dætur hans varo Þórhildr módir Gudrúnar fridlu Biarnar Sæmundssonar, ok Vígdís fridla Sturlu Sighvatssonar. Þorbiörn Bergsson beó at Osi [fadir Teits ok Margrètar [2]). Mikit var þá röskra manna í Midfirdi. Þórhildr Gilsdóttir var þá ekkia, ok var þá mælt, at Eyúlfr Kársson slægi á nokkru marglæti vid hana, en brædrum hennar líkadi þat ílla, ok var úþykkt mikil milli sveitanna. Sá madr var í Midfirdi er Tanni hèt ok var son Biarna Kálfssonar, hann var ordíllr, hann orti ok var nídskárr, eingi var hann sættir manna. Vísa þessi kvam upp í Midfirdi er kvedin var til Gilssona.

Upp hafa ekki heppnir
ullstakks godar [3]) vaxit
fimm [4]) ok fullir vamma
fleinvedurs á bæ einum.
Olust [eiki dólar [5]),
allr fylgir þeim galli,
opt er á gumna giptu —
. . . . . . . . .

Fyrir þessa víso vágo Gilssynir mann. Eptir þetta hófst at nyu úfögnudr ok ordasveimr [6]). Þá höfdu Víddælir þat spott at þeir kölludust giöra meri or Midfirdíngum, ok var Þorbiörn Bergsson hriggrinn í merinni [ok gredgi [7]), en Gilssynir fæturnar [8]), Olafr Magnússon lærit, en Tanni Biarnason arsinn [9]), hann sögdu þeir dríta á alla þá er vid hann átto af hrópi síno. En af þessum ordasveim ok mörgum ödrum er á medal fór giördist sva mikill fiandskapr, at eigi var úhætt med þeim, en Snorri Sturluson átti

[1]) Gísli *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) vantar í *A. C. St. Þ.*
[3]) bodar *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[4]) finnast. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[5]) ekki döla *C. St.*, ekki dæla *B. Gr.*, ekki dala *A. E. Þ.*
[6]) ordasukk. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[7]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[8]) en Gils bródir Þorbiarnar gregrinn bæta vid *B. E. Gr.*
[9]) rassinn *C. St.*

flesta þíngmenn í hveriotveggia hèradí, ok þótti mönnum til hans kvama at sætta þá. Reid Snorri þá til ok þeir fáir saman, giordi hann þá ord til Vídidals ok stefndi þeim öllum [1]) á Mel, Eyulfi Kárssyni, Þorsteini Hiálmssyni, [Þórdi ok [2]) Bergþóri. Þeir ridu til Midfiardar ok varo nær siötygi manna. Midfirdíngar kvamo til Mels ok höfdu þeir fiölmennt, leitadi Snorri um sættir vid þá, en þeir tóko því seinliga. En þá er þeir Víddælir kvamo ok stigo af hestum sinum, gengo þeir heim á völlinn, þá laupa Midfirdíngar á móti þeim ok slær þar þegar í bardaga, ok varo hvorirtveggio allákafir. Snorri hèt á þá at þeir skyldu ei beriast, en eingi hirdi hvat hann sagdi. Þá gèkk Þorliótr [3]) frá Bretalæk [4]) til Snorra ok bad hann milli gánga. Snorri kvadst ei hafa lid til þess vid heimsko þeirra ok ákafa. Þorliótr veitti Snorra hörd ord ok lióp sídan millum rossanna ok leysti ok rak millum þeirra, ok hèldu Víddælir undan ok ofaneptir vellinum ok sva fyrir melinn. Þeir nádu hestum sínum ok ridu yfir á. I bardaganum fèll Þorbiörn Bergsson, Bergþór hèt sá madr er hann vá. Sva segia Víddælir at merin jysi, þvíat riggrinn væri sundr í henni. Illhugi Bergþórsson [5]) lèt fót sinn. Sárir urdu menn af hvorumtveggium. Þar kalla Midfirdíngar Þorsteins-stig er hann lióp fyrir melinn, en Girdinefs-götu [6]) þar er Þórdr lióp ofan. Midfirdíngar eggia Snorra til eptirreidar ok veitti Teitr honum hit mesta ámæli er hann vildi ei [7]) auka vandrædi þeirra. Eptir þetta varo dylgiur miklar milli sveitanna, en atfaralaust var þadan í frá. Madr hèt Þórarinn er beó í Snóksdal son Gríms Eldiárnssonar, gódr bóndi, hann átti Steinunni [8]) dóttur Brands frá Fellsenda. Þórarinn var vin ok frændi Gilsúnga [9]) ok gaf þeim til setunnar mat mikinn ok lèdi þeim vapna ok giördi sik beran í lidveizlu vid frændr sína. Snorri fèkk sætta Midfirdínga ok Víddæli ok giördi um sakir [10])

[1]) til Midfiardar, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) Þorlákr. *A C. St.* Þ.
[4]) Brekkulæk. sömu.
[5]) Þorsteinsson. sömu.
[6]) Gardarnefsgötu. *A. C. St.* Þ.
[7]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[8]) Steinvöru. *A. C. St.* Þ.
[9]) Gíslúnga. *A. C. E. St.* Þ.
[10]) sektir. *A. C. St.* Þ.

allar þær er giörzt höfdu á Mel ok medal þeirra bædi um víg ok áverka. En eptir þat rèdst Eyúlfr Kársson vestr í fiördu ok fèkk Herdísar dóttur Rafns Sveinbiarnarsonar. Henni fylgdi heiman land at Stokkum á Raudasand. Þá er Eyúlfr var á Eyri med mágum sínum fystist hann at fara nordr í Vídidal at eyrindum sínum. Hann hafdi sveit manna [1]). Þeir fóru nordan [2]) Haukadalsskard ok dvöldust fyrir nedan [3]) gard í Snóksdal, þá sendi Eyúlfr heim eptir Gelli presti Höskuldssyni er þar saung. Eyúlfr kalladi á tal vid sik Þorberg fylgdarmann sinn, ok taladi vid hann einmæli. Sídan bad hann þá fara heim ok krefia Þórarinn bónda rossa út á Hólmslátur. Þeir ætludu at fara út á Eyri ok þadan vestr á skipum. Sveinbiörn Rafnsson fór med honum ok Ögmundr [4]) nordlenzkr madr, ok enn var hinn fiórdi, ok er þeir kvama heim kalla þeir út Þórarinn bónda. Hann gèkk út ok Helgi [diákn sonr Einars Biarnasonar [5]) frá Kvennabrekko. Þorbergr bad Þórarinn hestanna, en hann segir vera uppi á hálsi. Þorbergr lióp af baki ok bad hann vísa sèr til hestanna. Þórarinn gèkk fyrir vegginn ok hafdi eggsi í hendi, hann rètti eggsina til hestanna, en Þorbergr hió á höndina ok af fyrir framan olnbogann, lióp eggsin á nárann fyrir ofan miadmarhöfud ok þar á hol. Þá lióp diákn til ok vildi veita bónda, hann hafdi sverd ok búklara. Gudmundr Nordlendíngr lagdi til hans, kvam þat í búklarann ok rendi í bríóstit fyrir ofan geirvörtur. Snèro þeir þá inn, en þeir Þorbergr ridu ofan til þeirra Eyúlfs ok sögdu presti, at bónda þætti mál at hann kvæmi heim. Ridu þeir Eyúlfr í brott, en þeir Þórarinn höfdu prestsfund, ok öndudust bádir um daginn, ok lifdi Þórarinn leingr. Steinun kona Þórarins sótti Þórd Sturluson at eptirmálum um víg bónda síns ok fal honum á hendr alla forsiá fyrir sèr, þvíat Sighvatr var þá nordr, en Tumi ok Sturla varo úngir. Dugfús Þorleifsson átti bú [6]) at Saudafelli, ok var ílla med þeim

[1]) Sveinbiörn mágr hans var med, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) nordan. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) annar. sömu.

[5]) diákni Biarnason ok Einar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) var þá úngr, en átti þó bú. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. Þorleifsson, vantar í *C. St.*

Þórarni. Þórdr lèt búa mál þessi til alþíngis, ok urdu þeir sekir Þorbergr ok Gudmundr. Sveinbiörn vann eid at hann hefdi ei vitat vígit, en Eyúlfr gallt fè fyrir þat er honum varo fiörrád kènd. Sighvatr var heldr andstreymr um eptirmálin, þvíat honum þótti verr er Þórdr lutdeildi, ok hann kvam Þorbergi utan í fiördum austr. Þetta var giördi Eyúlfr bú at Stokkum á Raudasandi, þá var Gudmundr hinn seki fylgdarmadr hans ok Tanni hinn væni nordlenzkr madr. I Saurbæ á Raudásandi bcó þá Gísli Markússon, ok lagdist lítt á med þeim Eyúlfi, vard þeim mart til í bygdarlagi um fiárbeit ok annat. Gísla þóttu fylgdarmenn Eyúlfs [glepia konur þær [1]) er honum gazt [2]) at, ok giördist med þeim hinn mesti fiandskapr. Þat var á iólum er Stokkamenn kvamo til tída, þá var Gísla sagt at þeir væri í kyrkio, þá sendi hann mann til at læsa kyrkiunni, var Eyúlfr þar, en Gudmundr var í skotinu, þvíat hann átti ei kyrkiogeingt. Gísli ok hans menn laupa til vapna ok til kyrkiunnar ok bad Eyúlfr sèr grida, en þess var varnat. Gudmundr gèkk út or skotino ok færdi Gísla höfud sitt, en Gísli lèzt þiggia mundu ok kvaddi til heimamann sinn þann er Gudmundr hafdi ádr ílla leikit ok glapt konu fyrir, at hann skyldi drepa hann. Leiddu þeir hann þá upp um gard, ok var hann þar drepinn. Eyúlfr kvamst út um glerglugg austr or kyrkiunni ok lióp út til Stokka í kastala er hann átti þar. Þeir Gísli fóru út þángat ok sóttu hann í kastalann. Þar var nautamadr [3]) hans hiá honum er Þorsteinn Stamr [4]) hèt, ok Þorbiörg gridkona hans. Eyúlfr vardist alldrengiliga, en Þorsteinn spurdi hvert hann skyldi ei gèfa nautum. Eyúlfr bad hann fara ef hann vildi, ok tók hann þat orlof. Þarum var þessi vísa kvedin:

Sendir rann af sandi
sundreins frá bör fleina
hræddr sva at hiartat hoddi
happlaust vid þióknappa.
Framar kvádo þar fura [5])

1) kveda þat. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) ei, bæta sömu vid.
3) húskarl, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
5) fuma. *St.*

fleyvángs [naut um [1]) gánga
sókn var hörd er ek heyrda
hreinláta [2]) Þorsteini.

Eyúlfr vard ei sóttr, ok hurfo þeir Gísli frá. Grid fengu menn Eyúlfs þeir er í kyrkiu varo. Eptir þetta fór Eyúlfr nordr á Eyri til mága sinna, ok voro þá dylgiur miklar milli þeirra, var þá leitat um sættir milli þeirra ok lagdr sættarfundr med þeim um varit í Tálknafirdi, ok varo grid sett þar til er hvarir kvæmu heim. En þeir urdu ekki sáttir, lupu þeir Gísli upp ok fóru heim, en þeir Eyúlfr fóru eptir þeim út á Sand, ok er þeir kvamo í Saurbæ höfdu þeir Gísli búizt um á húsum uppi ok giört sèr þar gott vígi med vidum, fengo þeir Eyúlfr lítt atsókn [3]) vidkvamit ok settust þeir um virkit, kvamu menn þá ok leitudu um sættir med þeim. Þeir Eyúlfr höfdu matfátt ok fóro til fióss ok ætludu at taka naut nokkur, gèkk Jón Ofeigsson bródir Eyúlfs fyrst í fiósit, þar var fyrir nautamadr Gísla ok stód í uxabási, hann hió í móti Jóni, ok kvam á kinnina ok rauf á hvoptunum ok or iaxlana tvo, fèll hann út í fáng mönnum sínum, en nautamadr hlióp innar í fiósit ok út í hlöduvindauga ok sva upp í virki, ok er þat mál manna at þeir hafi úlíkast borit sik nautamenn þeirra Gísla ok Eyúlfs. Eptir þat fèkk Steinúlfr prestr sætta þá, skyldi Snorri Sturluson giöra um málin ok áverka Jóns. En eptir sætt þeirra rèdst Eyúlfr brott af Raudasandi ok kaupir Flatey á Breidafirdi ok fór þángat at búa. Þar kvam til hans Aron Hiörleifsson ok Sigrídr Hafþórsdóttir [4]) Aronssonar Bárdarsonar hins svarta. Herdís kona Eyúlfs var Rafnsdóttir Sveinbiarnarsonar Bárdarsonar hins svarta. Aron hafdi vaxit upp at fóstri med ágætum manni Þorláki Kètilssyni í Hítardal, voro þeir Sturla Sighvatsson fóstbrædur, þartil er Sturla fór brott or Hítardal fimtán vetra gamall til födur síns, en Aron í Flatey til Eyúlfs, kvamu þá í greinir med þeim nokkrar ádr þeir skildu. Þeir Aron voru brædur ok Olafr er sídan var ábóti at Helgafelli.

[1]) mærin. *A. C. St.* þ. mörum, *B. E. Gr.*

[2]) hreinlát *A. B. C. Gr. St.* þ.

[3]) vapnum. *St.* vantar í *A. C.*

[4]) Hafursdóttur, *A. C. St.* þ.

21. Nær þessu var þat tídinda eitt sumar á þíngi, at búdir þeirra Snorra [1]) Sturlusonar stódu hit nærsta ok allsheriarbúd er Magnús gódi átti son Gudmundar Gríss ok Solveigar Jónsdóttur Loptssonar [ok tialdadi [2]). Þeir voru fylgdarmenn Snorra Valgardr Styrmisson ok Herburt, hann var sudrmadr ok kunni allra manna best vid búklara. Þeir gengu med nokkra menn til búdar Magnúsar ok hioggo kylfur or vidkösti sem þá var títt at bera til dóma, en sá hèt Erlendr [Bakrauf Hialtr einn [3]) er þar var heitumadr ok geymdi vidarins, hann lióp til ok vildi ei láta draga vidinn, þá var sagt Magnúsi at þeir hèldust á úti [ok þar var laupafór [4]), bad hann menn sína út fara ok lióp út fyrstr [5]), en er hann kvam út hafdi Herburt brugdit sverdi [ok vildi höggva Hialtinn [6]). Magnús [tók sverdit berum höndum ok [7]) stödvadi höggit, hann skeindist miök á höndunum [8]). Þá var sagt Sæmundi at unnit var á Magnúsi, en Sæmundr lèt tómliga vid, ádr Páll sonr hans kvam til ok spurdi hvert hann mundi sitia þótt Magnús systrson væri drepinn úti. Þá bad Sæmundr alla menn taka herklædi sín. Nú var ok sagt Snorra at menn hans væru bardir úti, ok lupo allir til vapna ok út í búdarsundit ok fylktu þar. Snorri sendi ord brædrum sínum Þórdi ok Sighvati, kvamo þeir ok bádir med alla sína menn, ok þótti Sighvati Snorri ei vel haldit hafa stödunni ádr hann kvam til. Dreif nú til allr þíngheimrinn ok veitti hver sínum vin. Voru hvarirtveggio miök fiölmennir, en þó var Sæmundr miklu aflamestr, Þorvaldr Gissursson rèd til medalgaungo ok margir menn med honum, en þeir Páll Sæmundarson ok Loptr biskupsson [9]) eggiudu mest til atgaungo, en Þorvaldr fèkk kvamit á gridum um nokkurra nátta sakir. Sendu þá allir höfdíngiar heim eptir lidi. Þórdr Sturluson sendi Þórd Kolbeinsson [10]) eptir Bödvari syni sínum, ridu þeir föstudaginn af Þíngvelli út til Stadar, en Bödvar kvam at nóni á laugardaginn á

[1]) Þórdar. *B. Gr.*
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) vantar í sömu.
[4]) vantar í sömu.
[5]) prestr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[6]) vantar í *A. C. St.* Þ.
[7]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[8]) herdunum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[9]) sonr Páls biskups. sömu.
[10]) Kolbiarnarson. *B. E. Gr.*

Eyarsanda [1]) med tvö hundrud [2]) manna, kvam þá ordsendíng í móti honum, at þeir væru sáttir, en þær urdu málalyktir at Sæmundr skyldi giöra fè slíkt er honum líkadi, en sektir allar fráskildar. Bændr gengo til handsala [fyrir Snorra [3]) af Akranesi. Þá er Sæmundr kvam í búd sína [4]) taladi einn hans madr, at þá færi sem optast at Sæmundr hefdi einn virdíng af málum þessum. Sæmundr [5]) svarar: hvat tiáir slíkt at mæla, draga brædr þessir sik sva fram, at nær eingir menn halda sik til fulls [6]) vid þá. Eptir þetta fóru menn af þíngi, ok líkadi Snorra heldr lítt [7]). Jórun hin audga hèt kona, hún beó at Gufunesi. Atli hèt sá madr er á búi var med henni. Þeir voru [8]) brædur Svartr ok Eyrekkr synir [Eyúlfs Ublaudssonar [9]). I þenna tíma andadist Jórun, hún átti eingan erfíngia, þann er skil væri at, en hún var í þíngi med Magnúsi, ok ætladi hann sèr fè hennar, en skipta erfíngium af [10]) slíkt er honum líkadi. [Hafdi hann um haustit af Gufunesi miöl, slátur ok fè, sem honum líkadi [11]). En er Snorri spurdi þetta sendi hann sudr á nes Starkad Snorrason, en er hann kvam sunnan hafdi hann med sèr þann mann er Kodrán hèt, strák einn, þenna kalladi Snorri erfíngia Jórunnar, ok tók þat fèmál af Kodráni. En um varit um stefnudaga fór Snorri sudr á Seltiarnarnes ok hafdi feriur tvær af Akranesi ok fiörutygi manna á hverri. Þeir lètu fáeina menn siá er þeir fóru sudr at nesinu, ok kvamu miök á úvart Magnúsi. Stefndi Snorri Magnúsi skóggángsstefnu til Þverárþíngs. Magnús kalladist þar utanþíngsmadr, en Snorri bad hann þar vörn framfæra. Eptir þat fór Snorri heim, hann hafdi mál fram á Þverárþíngi, ok vard Magnús sekr skógarmadr. Eptir þetta fiölmenna hvarirtveggio til alþíngis. Snorri lèt giöra búd þá upp frá lögrètto [12]) er hann kalladi Grytu [13]).

[1]) Eyasand. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) hálft annad hundrad. *B. C. E. Gr.*
[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[4]) Snorra. *A. St.*
[5]) Snorri. sömu.
[6]) iafns. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[7]) illa. sömu.
[8]) þrír, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[9]) Eyreks Ublauds. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[10]) frændum hennar til handa. sömu.
[11]) vantar í sömu.
[12]) lögbergi. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[13]) Grilu. sömu.

Snorri reid upp med sex [1]) hundrud manna á þíngit, ok voru áttatygi manna [2]) í lidi hans alskialdadir. Brædur hans voru þar bádir ok höfdu mikit lid, allir voro þeir fyrir vestan á [3]). Dylgiur miklar varo um þíngit. Magnús biskup fèkk sætta þá. Hann leysti [4]) landit á Gufunesi til handa Atla ok lagdi þá miölskuld á landit. Snorri hafdi virdíng af málum þessum, [ok í þessum málum gèkk mest virdíng hans vid hèr á landi [5]). Hann giördist skáld gott, var hann ok hagr á allt þat er hann tók höndum til, ok hafdi hinar besto forsagnir á öllu því er giöra skyldi. Hann orti kvædi um Hákon iarl Galinn, ok sendi iarlinn giafir í móti, sverd ok skiöld ok brynio þarum [kvad Máni þetta [6]):

Ör [hefir sendar Snorra
siklíngr giafir híngat [7]).
Unni afreks manni
iarl görsema snarla.
Gædíngr hlaut sem gátom.
giöf [8]) af tignum iöfri,
þat fèkk skáld med skildi
skiniat sverd ok brynio.

Jarlinn ritadi til Snorra at hann skyldi utan fara, ok lèzt til hans giöra mundu miklar sæmdir, ok var þat miök í skap Snorra, en iarlinn andadist í þann tíma, ok brá þat för hans um nokkurra vetra sakir, en þó hafdi hann rádit för sína þegar tími væri til.

22. Þenna tíma fór utan Páll Sæmundarson, ok er hann kvam til Biörgyniar [9]) giördu Biörgyníar menn at honum spott mikit ok sögdu at hann mundi ætla at verda kóngr eda iarl yfir Noregi. Sumir lètu sem heitast skyldu vid hann ok kölludu úrád at bída þess er hann efldi flokk nokkurn til ufridar. En vid sköll

[1]) siö. *A. B. C. Gr. St.* þ. sex *E.*
[2]) Austmanna. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) Öxará. sömu.
[4]) keypti. *A. C. St.* þ.
[5]) óx nú hagr hans upp hèr á landi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) var þetta kvedit. *A. C. St.* þ.
[7]) miklar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[8]) gáfr. *A. B.* þ. göfugr. *E.*
[9]) Biörgvinar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

þau er Páli þótti giör at sèr rèd hann sik í byrdíng er ætladi nordr til þrándheims á fund Inga kóngs þeir sigldu siö [1]) byrdíngum fyrir [2]) Stad. Aslákr Hauksson var [þá á Eyrum er mest var fyrir þeim [3]). þessir byrdíngar tyndust allir ok hvört mannsbarn, [lèt þar Páll líf sitt [4]). En er þetta spurdi Sæmundr fadir hans, vard hann reidr miök ok tók þannig upp at Páll hefdi látizt af völdum Börgvinar manna, safnadi at sèr lidi miklu ok fór út á Eyrar ok bar þessar sakir á Biörgyniarmenn, var þar nú eingi kostr annar en Austmenn skyldu festa honum giöld sva mikil sem hann vildi á þá leggia. Atto þar margir menn lut í at svefia [5]) Sæmund, ok Ormr bródir hans mestan, ok fór honum best af öllum Oddaverium, en ekki stodadi. Tók Sæmundr þar upp þriú hundrud hundrada fyrir kaupmönnum. I Vestmannaeyum kvam knörr mikill ok hafdi verit Grænlandsfar, þar varo þeir styrimenn Grímr [6]) ok Sörli, hann var or Hardángri, lagdi Sæmundr á þá giöld sem adra. Sörli var um vetrinn med Ormi, ok þótti Grími allíllt fèlát sitt. Fór Grímr um varit í Odda ok þeir ei allfáir Austmennirnir, ok lètu alltortryggiliga, höfdu menn þat fyrir satt at þeir mundu hafa ætlat at ráda á Sæmund, ef þeir þættust afla til hafa, en þar var mart manna fyrir. Illir voru þeir vidskiptis vid landsmenn. Ormr keypti vid at þeim til þaks á kyrkiu sína ok var ei á land fluttr. Magnús biskup Gissursson kvam út tveim vetrum [7]) ádr. Um sumarit er [8]) þeir Grímr biuggust utan fór Ormr Jónsson út í eyar ok ætladi at sækia vid þann er hann hafdi keypt. Ok er hann kvam út spurdi hann Sörla hvört hann vildi liá honum bát, en hann lèzt liá mundu ef þyrfti, ok um daginn er Ormr ætladi at búast, hlióp Grímr at honum ok hió hann banahögg. þá snèru þeir at Jóni syni hans ok sögdu at sá skyldi skèmst eiga at gráta eptir födur sinn ok vágu hann. Bádir varo þeir messudiáknar at vígslu. Skèggi prestr laust til Ivars Sörlasonar ok lióp sídan upp á raptabudlúng ok vardist þadan. Ivar Sörlason vá hann. þor-

[1]) tólf. *Gr.*
[2]) út frá. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
[3]) fyrirmadr á eintúm, sömu.
[4]) vantar í sömu.
[5]) sæfa. *A. B C. E. Gr. St. þ.*
[6]) Grímar. *A. B. Gr. þ.*
[7]) nóttum. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
[8]) ádr en, sömu.

leifr or Kollabæ lèzt ok þar, hann var diákn ok átti Gydu [1]) dóttur Eindrida prests Steingrímssonar. Eptir þetta lèto Austmenn eingi skip or eyunum á land gánga ádr þeir sigldu á haf. Þetta þóttu mikil tídindi ok íll þá er spurdust. Fór Sæmundi þat drengliga at hann gaf allan arf börnum Orms úskilgètnum. Þá hafdi Beörn sonr Þorvalds Gissurssonar fengit Hallveigar dóttur Orms, bioggo þau á Stokkseyri ok áttu son er Klængr hèt. En um varit eptir víg Orms rèdst Beörn á Breidabólstad ok tók vid búi því er Ormr hafdi átt ok Dalveriagodordi. Hafdi hann þá ok vald yfir fè Kolskèggs ok stórfè er Ormr hafdi átt, giördist hann rausnarmadr í búi ok þótti vænn til höfdíngia, var hann ákafamadr í skapi, hann reid nordr til Midfiardar til þeirra Kálfssona frænda sinna. Þadan fór hann til Biargs, ok dró þar Austmann or kyrkio ok lèt drepa, sá var honum sagdr frændi Sörla. Borghildr er verit hafdi fridla Orms hafdi Vallaland ok mikit fè annat. Hon giördi heiman dóttur Orms, [en synirnir höfdu sumt [2]). Gudrún hèt dóttir Orms, hon var sèr um módur, hon var gipt Hólmsteini Grímssyni. Þeirra son var Grímr prestr. Sæmundr var vel til allra barna Orms. Sumar þat er Ormr var veginn rèdst Snorri Sturluson til utanferdar, handsaladi hann þá Þórdi bródur sínum fè sitt allt til vardveizlo, en fyrir búit í Reykiaholti setti hann Gudnyo módur sína, hon hafdi verit ádr fyrir búi Þórdar sonar síns at Stad edr á Eyri. Þat sumar ádr Snorri fór utan gipti hann Hallberu [3]) dóttur sína Arna Magnússyni Amundasonar [4]), var brúdlaup þeirra í Reykiaholti. [Hafdi hon Brautarholt til fèlags vid hann [5]) ok mikit annat fè, voru þau í Reykiaholti lengstum þau misseri, þviat ekki nytti af henni um samvistir ef þau varo ei þar. Snorri spurdi ei víg Orms fyrr en hann kvam í Noreg, en hann fór utan í Hvítá, ok lagdist þúngr ordrómr á um mál Oddaveria ok fiárupptektir þær er verit höfdu á Eyrum. Um víg Orms var þúngliga svarat þeim mönnum er þar beiddu bóta fyrir. Þá er Snorri kvam utan varo ordnir höfdíngiar í Noregi Hákon kóngr

[1]) Gudníu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í *A. C. St.* þ.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) vantar í *A. C. St.* þ.

[5]) hún hafdi heiman Brautarhollt. *A. C. St.* hann hafdi — vid hana. *B. E. Gr.* þ.

ok Skúli jarl. Tók jarlinn forkunnar vel vid Snorra, ok fór hann til jarls. En þeir menn er utan höfdu farit med honum rèdust til sudrferdar, Ingimundr Jónsson ok Arni prestr [1]) Brandsson Gunnhvatssonar. Snorri var um vetrinn med jarlinum, en sumarit eptir fór hann austr á Gautland á fund Askèls lögmanns ok frú Kristínar er átt hafdi Hákon jarl Galinn. Snorri hafdi ort um hana kvædi þat er Andvaka heitir fyrir Hákon jarl at bæn hans, ok tók hon allvel vid Snorra ok veitti honum margar sæmiligar giaflr. Hon gaf honum merki þat er átt hafdi Eyrekkr Svíakóngr Knútsson [2]), þat hafdi hann þegar hann felldi Sörkvi kóng í Gèstilsveini [3]). Snorri fór um haustit aptr til Skúla jarls ok var þar annan vetur í allgódu yfirlæti.

23. Þat sama sumar er Snorri fór utan kvam út Gudmundr biskup ok fór til stóls síns, sètti hann þá skóla at Hólum ok var Þórdr [4]) Upsi skólameistari, dreif þá lid mikit at biskupi ok horfdi til kostnadar. Arnór dró þá lid saman ok kvamo um nátt til Hóla, tóko þeir biskup í hvílu ok draga hann ofan eptir húsum. Hann setr hendr edr fætr í durastafi edr þil, en þeir drógo því hardara, sva [vid stórum meidslum var búit [5]). Þeir kvamo honum um myrgininn út or húsum, lögdu þeir hann þá í vagar ok óku med hann í As til bús Arnórs. Þeir ráku af stadnum allt lid þat er biskupi var hendilángt, sva meistara ok alla skólasveina, en heitast at brenna skólann ok lid þat er inni var. Þá fór meistari á Völlu ok Eyúlfr son Vallabrands, ok kèndi hann þar mörgum sveinum um vetrinn. Þann vetur var biskup í Asi ok látinn [6]) sem úspektarmadr í myrkvastofu Einn þión var hiá honum ok aldrei var hann friáls at gánga at naudsynium í burt. Um sumarit eptir báru þeir hann í börum til Hvítár, í þeirri för þoldi hann sva hart at hèldt vid beinbroti [7]), hestar varo keyrdir undir honum sva at börurnar hrutu í sundr, en biskup dragnadi um griót ok

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[2]) vantar í *A, C. St. þ.*

[3]) Geitahreimni *C. St.* Geitihreini. *A, B. þ.* Geitisheimi. *Gr.*

[4]) vantar í *A, B, C. E. Gr, St, þ.*

[5]) at lá vid beinbroti ok meidslum. *A, C. St. þ.*

[6]) haldinn. *A, B, C, E. Gr. St. þ.*

[7]) at flestra manna sögn, bæta vid *A. B. C. Gr, St. þ,* at því menn hugdu, *E,*

móa ok hafdi af eingum hiálpir. Um sumarit eptir tók Arnór sèr far, ok ætladi at biskup skyldi fara utan hvort honum líkadi vel edr ílla. Sat Arnór þar um sumarit ok var biskup þar í geymslu. Þá beó Eyúlfr Kársson í Flatey sem fyrr er sagt, honum fannst mikit um at biskup var í nokkru naudbeygdr, ok sendi sudr sveinpilt þann er hèt Skúmr [hinn litli [1]), hann var röskr ok ei sva úngr sem hann var lítill, hann var á Hvítárvöllum um sumarit, ok lióp þángat sem hann var sendr, var hann lengstum í búd [2]) Nordlendínga þar sem biskup var, þær varo fyrir vestan Hvítá undir Þióðúlfsholti þar sem nú ero húsakotin [3]), varo dur á midri búd ok horfdu at holtino, var biskup í þann arm búdarinnar er vissi at [4]) ánni, ok stód húdfatit vid gaflinn ok vissi höfdafiölin ofan til Feriubakka. Um sumarit [5]) eptir Maríumesso fór Eyúlfr Kársson vestan or Flateyu ok sudr til Eyrar til Gudrúnar mágkono sinnar ok fèkk sèr þar hesta, ok varo þeir fimm edr sex, ok ridu um heidi ok sva sudr um Myrar til þess er þeir kvamo í Eskiholt. Þar beó sá madr er Gudmundr hèt, hann vardveitti Eyúlf þar í saudahúsi ok hann segir biskupi at Eyúlfr var kvaminn. Þat var eina nátt er laust [6]) á forrádsvedri [7]) regni ok krapadrífo, þá ridu þeir Eyúlfr á Völlu ok sendo fyrir einn förunaut sinn til móts vid Skúm, ok segir hann þeim hvat títt var, at sex menn vekto yfir biskupi, ok hrukko þeir inn í búdina, ok þá er þeir Eyúlfr kvamo varo þeir sofnadir ok hruto miök, ok var þá vott vedur. Eyúlfr spretti tialdskör at höfdi biskups ok tók af húdir er tialdat var bædi utan ok innan. Hann tók biskup í fáng sèr ok bar í burt frá búdinni, ok færdu þeir hann þar í klædi þau er þeir höfdu haft í mót honum, kórkápu ok kyrtil hvítan, ok rido brott med hann ok út á Myrar, ok segia þeir sva at þeir fengo hvergi blautt um Valbiarnarvöllu, en hrælog brunno af spiótum þeirra sva at lysti af. Skúmr hinn litli lagdist í húdfat biskups ok segia vardmenn at kampi svæfi lengi um morgininn, sumir segia at hann

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) flokki. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) húsabærinn. *B. E. Gr.*
4) uppfrá. 6 ö m-u.
5) daginn. *B. E. Gr.*
6) á hausti. *E.*
7) forrátsvedri. *Gr.*

mundi vera siúkr er hann gádi ei tída sinna. Gengu menn þá til ok leitudu orda vid hann. Skúmr segir þá at biskup væri í brottu ok Eyúlfr Kársson hefdi sóttan hann, kalladi þá ei mundu kvamna skèmra [1]) en vestr Lángavatnsdal. Var þá sagt Arnóri, ok líkadi honum allílla, en þó vard ei eptirreidin, þvíat þeir visso ei hvort biskup hafdi ridit út á Myrar edr í dali vestr. Arnór brá utanför sinni ok fór nordr til Skagafiardar ok var þar um vetrinn. Þeir biskup fóro í rídinni vestr á Eyri til Gudrúnar Sveinbearnardóttur, ok gengo þar á skip ok fóro vestr til Flateyar. Þar varo þeir litla ríd ádr þeir fóro inn í Kèrlíngarfiörd ok lágo þar í skógum, þartil þeir spurdu at eingin vard eptirleitin [2]) þeirra Arnórs.

24. Þetta sumar fyrir Maríumesso hina sídari sendi biskup mann í Múla á Skálmarness til Oddleifs prests, at hann vildi veita þar tídir Maríumesso ok vera þar med níunda mann, en prestr taldist undan ok sagdist ekki mega veita honum vidtöko. Þá beiddist biskup at vera med þriá menn [ádr þeir skildu [3]), en prestr taldist undan ei at sídr. Þá segir biskup at hann mundi henda meira misferli á þeim misserum, en þó hann æli biskup vid þridia mann. En þat gèkk sva at annnat sumar [náttina fyrir [4]) Maríumesso brann þar upp bærinn allr at köldum kolum. Gudmundr biskup var í Kèrlíngarfirdi um ríd ok bætti þar miök at reimleikum þeim er menn þóttust þar ei mega úti búa ádr, en sídan vard eingum manni at því mein. Biskup fór þadan út í Flateyo ok var þar um vetrinn med fiölmenni, hafdi Eyúlfr allmikinn kostnad ok fèkk skörugliga til. En um varit fór biskup nordr í sveitir ok med honum Eyúlfr Kársson ok Einar Rafnsson. Þar var ok Kètill Ingialldsson ok Jón Ofeigsson bródir Eyúlfs. Þeir kvamo til Hóla ok dvöldust þar um ríd, sídan fóro þeir nordr til Svarfadardals ok ætladi biskup nordr í syslu sína, en Eyfirdíngar vildu ei taka flokk biskups á bú sín. Fór biskup yfir fiörd til Höfda [5]), ok sídan fór hann tómliga nordr til Reykiadals. Þar dvaldist hann lengi

[1]) lengra. *A. C. St.* þ.
[2]) eptirreidin, sömu.
[3]) vantar í *A. B. C. Gr. St.* þ.
[4]) um. *A. C. St.* þ.
[5]) Heida. *A. C. St.*

um sumarit, dreif þá til hans fólk mart. Bergþór Jónsson var þar med biskupi, hafdi hann nær hundrad manna, þótti bóndum þúngt undir at búa, en þoldu um ríd. Fer biskup í Múla ok tekr Ivar vid honum lidliga [1]), er þar sæmilig veizla þess er siá mátti at eingi ástsemd var veitt af Ivari, skilia þeir þó vel ok fór biskup í brott ok settist á Einarsstadi um ríd. Flyr Ögmundr prestr ofan í Múla med málnyto sína, en Höskuldr Gunnarsson, er beó á hálfu landinu, var eptir, þvíat hann baud biskupi þat er hann hafdi til. Litlu sídar gisti biskup á Greniadarstödum, var þá þat ord á, at hann mundi fara þadan í Múla í annat sinn. Ivar vill nú víst ei vid honum taka ok hafdi fiörutygi manna búit sem til bardaga ok skipadi mönnum í stödur. En at þeim vidrbúníngi rídr biskup í tún, spyria þeir Eyúlfr hvat safnadr sá skuli, en Ivar segir nú at þeir skulu at keypto kvamast ádr þeir fái eign hans, ok segir at nú skal fara allt saman karl ok kyll [2]). En er biskup heyrdi þetta, þá mælti hann: rídum vèr sveinar ok eigum ekki vid Ivar, þvíat nú er úhreinn andi med honum. Biskup rídr yfir til Kinnar ok gistir at Stad. Búendr fara heim ok giöra ord Sighvati ok Arnóri at þeir hrindi af þeim úfridi þessum. Þeir bregda vid skiótt, safnar Arnór mönnum um Dali, en Sighvatr um Eyafiörd. Mánadaginn er biskup var undir Fialli [3]) rídr Ivar ofan í Valahrís ok med honum Ögmundr prestr af Einarsstödum ok Oddr sonr hans, finna þeir þá á veginum Þorvard or Saurbæ ok stíga af baki ok talast vid. Þá rídr þar at Höskuldr Gunnarsson. En Ivar mælti: hví rídr þú hèr Höskuldr? ríd ekki í glett vid oss, þvíat úsynt er hversu vèr þolum [4]) þèr þat. Ek hlyt at ráda ferdum mínum, segir Höskuldr, en þèr manut ydur ráda. I því hióp at Oddr Skeidkollr ok höggr til Höskuldar, stefnir á fótinn, en Höskuldr brá undan fætinum ok á hesthálsinn ok kvam á sídu hestsins. I því reid Höskuldr undan, en hestrinn fèll nidr daudr er hann kvam á völlinn undir Felli. Fór hann á fund biskups, en þeir Ivar heim í Múla. Sídan fór biskup á Einarsstadi ok þadan á Helgastadi ok

[1]) blídliga. *A. C. Gr. St.* þ.

[2]) kyr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) Felli. *A. C. E. Gr. St.*

[4]) þökkum. *E.*

ætladi at vígia þar kyrkiu krossmesso [1]) um haustit sem hann giördi. Eyúlfr Kársson reid í Múla ok baud Ivari at biskup vígdi þar kyrkiu um daginn eptir, en Ivar vildi ei ok lèzt vígi mundu veria, ef biskup vildi tilkvama. Nú kèmr biskupi niósn at flokkar dragast at öllummegin, lykr hann þó kyrkiuvígslu. Sídan búast menn til varnar þar í kyrkiugardinum ok báro at sèr griót. Sídan siá þeir at flokkrinn rídr ofan at Einarstödum, er þá sveit biskups í kyrkio ok kyrkiogardi, en Þorliótr bóndi ok Sigurdr sonr [2]) hans varo sèr einir ok heimasveitin. Þá mælti Sigurdr: siáit nú sveinar flokk þeirra höfdíngianna hvar rídr, enda skèllr þar nú lás fyrir búin Reykdæla. Sídan siá þeir annan flokk rída nedan eptir Vatnshlíd. Flokkarnir varo miök iafnskiótir. Þá var nón dags. Var þá slegit upp herópi ok skipat til atgaungo, gèkk Arnór sunnan at med sína sveit, en Sighvatr at hlidinu or túnino, Ivar nordan. Biskup er í kyrkiu. Gengr nú hörd ríd med grióti ok lögum. Sturla Sighvatsson fèkk þá steinshögg. Þá mælti Sighvatr: [engo eira þeir [3]) nú biskups menn, nú beria þeir sveininn Sturlu sem adra menn, eda hvar ertu Gudmundr Gilsson? sèrdu hvörgi Eyúlf Kársson í kyrkiugardinum eda mansto ekki bardagann á Mel? Vid þessa eggian knúdust [4]) Sighvatar menn fast til atgaungo. Fèll þá madr af biskups mönnum sá er Gísli hèt. Litlu sídar fèkk lag í augat af spióti madr Arnórs sá er Hámundr hèt Þorvardsson [5]), hann andadist um myrgininn. Eptir þetta gèkk biskup or kyrkio ok til sinna manna, varo þeir þá allákafir ok beriast diarfliga, ok eingi einn betr en Jón Ofeigsson. En vid þat leggia þeir frá at sinni ok lètust heldr vilia vinna med rádum en mannháska, vildu ok ei beriast sva at biskup væri fyrir þat í lífsháska. Setia þeir menn til at eingir af biskupsmönnum kvæmust í brott án þeirra vilia. Sídan gengo þeir sudr á völlinn fyrirmennirnir. Spurdi Arnór Sighvat: þykir þèr ei hörd lota [6]) gengit hafa, mágr? Hörd víst, segir Sighvatr. Arnór mælti: í sumar hefir mèr verit kvellíngasamt [7]),

[1]) iónsmessu. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) brédir. sömu.
[3]) ódir eru. *A. C. St.*
[4]) biskups menn á móti, en. bæta. vid *A. B. C. Gr. St. Þ.*
[5]) vantar í *A. C. St. Þ.*
[6]) hríd. *B. E. Gr.*
[7]) kveldíngasamt. *E.*

en er mèr kvamo ord Reykdæla at þeir þyrfto lids vid, þá hóf af mèr vimur [1]) allar, sva at ek kènni mèr nú hvergi íllt. Þat man þèr þykkia iartegn, segir Sighvatr. Arnór mælti: slíkt kallak atburd en ei iartegn. Sídan setiast þeir um kyrkiogardinn ok var leitat um sættir, ok var sem þat giördi ekki. Lídr nú af náttin, var biskup ok hans menn í kyrkio, en hinir sáto umhverfis [2]). Einn biskups madr kvamst or kyrkio [ok yfir um á [3]), sá hèt Eyúlfr Rídarefni úspakr madr, var hann þar tekinn ok bardr, drógo þeir hann heim hálfdaudan ok drápo sídan. Drottins myrgininn snimma giördu þeir vígfleka [4]) af röptum ok bera hann at lundi þeim er stód sunnan á gardinum ok grafa þar nú gardinn undir flekanum. Var þat miök iafnskiótt at hlid var á gardinum ok biskups menn gáfust upp ok fóro í kyrkio. En Isleifr Hallsson var þá kvaminn, ok höfdu eingir menn hans barizt, ok beó þá á Þverá í Laxárdal. Isleifr baud biskupi heim med sèr, ok fór hann med honum. En þeir er eptir varo gengo þá til grida, gaf Arnór grid Eyúlfi Kárssyni, en Sighvatr [5]) Jóni Ofeigssyni. Tveir menn varo drepnir [6]), [hèt annar Þorgeir Háleygr, en annar Þórdr Arason [7]). Reid Sighvatr þá í brott, en Arnór nátt sídar. Biskup fór frá Þverá nordr yfir Reykiaheidi ok allt á Saudanes ok giördi þar vígslur á sæludögum. Eptir þat fór hann nordr til Eyafiardar [8]) ok sva um Reykiaheidi. En er hann kèmr í Reykiadal, er honum sagt at Eyfirdíngar mano vid honum rísa. Fór hann þá til Bárdardals ok upp Króksdal ok sva sudr um sand ok lèttir ei fyrr en hann kvam í Odda, ok tekr Sæmundr allvel vid biskupi ok bydr honum þar at vera medan hann vill, ok þiggr biskup þat. Er hann þar um vetrinn vid nokkra menn, en suma vistadi Sæmundr annarstadar þar í nánd.

25. Snorri Sturluson var tvo vetur med Skúla iarli, sem fyrr er ritat, giördu þeir Hákon kóngr hann skutilsvein sinn. En um

[1]) vomur. *B. E. Gr.* væmurnar. *A. C. St.* Þ.

[2]) umbergis. *B. E. Gr.*

[3]) vantar í *St.*

[4]) vidflaka. *A. B. C. Gr. St.* Þ.

[5]) Tumi Sighvatsson. *B. E. Gr.*

[6]) af mönnum biskups, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[7]) vantar í *A. C. St.* Þ.

[8]) Öxarfiardar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

varit ætladi Snorri til Islands. En þá varo Noregsmenn miklir úvinir Islendínga ok mestir Oddaveria af ránum þeim er verit höfdu á Eyrum, kvam því sva at þat var rádit at heria skyldi til Islands um sumarit, varo rádin til skip ok menn er [fyrir skyldu vera [1]. En til þessarár ferdar varo flestir hinir vitrari menn heldr úfúsir, ok [töldu margir latar [2]) á. Gudmundr Oddsson skáld var þá med Skúla iarli, hann kvad vísu þessa:

Hvat skal ek fyrir mik hyriar
hreggmildr iöfur leggia
gram fregni [3]) at því gègnan
geirnets sumar þetta?
Byriar hafs at heria
hyr sveigir mèr eigi
sárs vard [4]) iarl [5]) á orar [6])
ættleifdir svan reifdan [7]).

Snorri latti ferdarinnar ok kalladi þat rád at giöra sèr at vinum hina besto menn á Islandi, ok kalladi skiótt sva mega kvama sínum ordum, at [mönnum mundi synast at snúast [8]) til hlydni vid Noregshöfdíngia, hann sagdi ok sva, at þá varo adrir ei meiri [9]) menn á landino en brædur hans þegar Sæmund leid, en kalladi þá miök sínum rádum hlyta mundu, þá er hann kvæmi til, en vid slíkar fortölur sliógadist [10]) skap iarlsins, ok gaf hann þat rád til, at Islendíngar skyldu bidia Hákon konúng at hann bædi fyrir þeim at ei yrdi herförin. Kóngrinn var þá ungr, en Dagfinnr lögmadr, er þá var rádgiafi hans, var hinn mesti vin Islendínga, ok [var þá þat rád afgiört, at kóngr rèd at ekki vard herförin [11]), en þeir Hákon kóngr ok Skúli iarl giördu Snorra lendan mann sinn, varo þat mest rád þeirra Snorra ok iarlsins, at Snorri skyldi leita vid

1) fara skyldu. *E.*
2) töldu flestir latir á. *A. C. St.* þ. töldu — margar sakir. *B. E. Gr.*
3) fregn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) vidr. *B. E. Gr.*
5) iarla. sömu.
6) oran; sömu.
7) reyndan. *A.*
8) at Islendíngar gæfi sik. *A. C. St* þ.
9) betri. sömu
10) sefadist. *A. C. St.* þ. slæpadist. *B. Gr.* slæfadist. *E.*
11) var því rádit, at ei skyldi á Islandi heria af konungi ok iarli. *A. C. St.* þ.

Islendínga at þeir snèrust [1]) til hlydni vid Noregshöfdíngia. Snorri skyldi ok senda utan Jón son sinn ok skyldi hann vera í gíslíngu med iarlinum, at þat endist sem mælt var. Snorri vard heldr sídbúinn ok fèkk harda útivist, lèt trè sitt fyrir Austfiördum ok tók Vestmannaeyar. Jarlinn hafdi gèfit honum skip þat er hann hafdi út ok fimtán stórgiafir adrar, Snorri hafdi ort um iarlinn tvö kvædi, varo klofastef í drápunni ok alhend:

Hardmúla [2]) vard [3]) Skúli
rambliks framar miklo
gnaphiarls skapadr iarla.

En er Snorri kvam í Vestmannaeyar, þá spurdist brátt inn á land útkvama hans ok sva med hverium sæmdum hann var útkvaminn, yfdust Sunnlendíngar þá miök vid hann ok mest teingdamenn Orms Jónssonar, þótti þeim sem hann mundi vera settr til þess af Noregsmönnum at standa í móti, sva at þeir mætti eingum eptirmálum framkvama um víg Orms, var mest fyrir því Beörn Þorvaldsson er þá beó á Breidabólstad ok þótti vænn til mikils höfdíngia. Sunnlendíngar drógu spott mikit at kvædum þeim er Snorri hafdi ort um iarlinn ok snèro afleidis. Þóroddr í Selvogi keypti gèldíngi at manni, at þetta kvædi:

Oss lízt íllr at kyssa
iarl sá er rædr fyrir hiarli,
vör er [4]) hvöss á hara,
hardmúladr er Skúli.
Hefir fyrir hoska iöfra
hrægamms kvamit sævar
þiód finnr löst á liódum
leir aldreigi meiri.

Snorri gisti í Skálaholti er hann reid frá skipi ok þeir tólf saman ok höfdu meir en tylft skialda ok alla miök vandada ok lèto alldræmt [5]) yfir sèr, þá kvam þar Beörn Þorvaldsson med fylgdarmenn

[1]) sværust. *A. C. St* Þ.
[2]) hardmúladr. *B. E. Gr.*
[3]) var. *A. B. E. Gr.* Þ.
[4]) til, bæta vid *A. C. St.* Þ.
[5]) allvænt. *A. B. C. Gr. St.* Þ.

sína ok varo allgèmsmiklir [1]), Steingrímr Skinngeifloson [2]) ok adrir þeir er voru með honum, ok kvam sva, at Beörn gèkk í berhögg vid Snorra ok spurdi hvert hann ætladi at standa [3]) fyrir sæmdum þeirra um eptirmál Orms. Snorri duldi þess. Beörn lèt sèr þat ei skiliast ok hèlt þar vid heitan. Magnús biskup átti lut at med þeim, en þó skildu þeir heldr stuttliga. Snorri fór heim í Reykiaholt ok var þar um vetrinn eptir.

26. Þenna vetur var Gudmundr biskup í Odda med Sæmundi eptir bardagann á Helgastödum [4]). Þenna vetur spratt upp fiandskapr mikill med þeim Birni Þorvaldssyni ok Lopti biskupssyni, vard þeim mart til, skildi þá fyrst á um skóga Kolskègg hinn audga ok Lopt. Kolskèggr átti bú at Leirubakka ok lágu saman skógar þeirra Lopts, ok þótti Lopti húskarlar Kolskèggs hafa höggvit skóg sinn ok beiddist þar bóta fyrir, en Beörn Þorvaldsson vildi eingo bæta láta ok taldi Lopt liúga allt til um skógarmerki, ok hèr med færdu Breidbælíngar Lopt í flymtan ok giördu um hann dansa marga ok margskonar spott annat. Sættarfundr var lagdr med þeim í Arnesi, skyldu þeira giöra Þorvaldr Gissursson ok Sæmundr Jónsson, en er Loptr innti sitt mál segir hann at Páll biskup fadir hans segir þau sömu skógamörk sem hann. Kolskèggr svarar: eingi þótti fadir þínn iafnadarmadr í fyrsto ok heldr fylginn síno máli, þótt hann yrdi nú gódr madr er hann vard biskup. Loptr liór þá upp ok mælti: heyr þar til, þú rassragr madr, mundir bregda [födur mínum [5]) rángindum, skal nú aldrei sættast. Sæmundr svarar: ekki, ekki [6]). Þorvaldr tók þá til orda: ekki man nú eitt vid þurfa ef duga skal, sendu þeir þá eptir Lopti ok bádu hann halda sættir þær er handseldar varo, en Loptr vildi þat víst ei nema Þorvaldr ynni eid at giörd þeirra. Þeir giördu skóga til handa Kolskèggi, bad Sæmundr Lopt gèfa upp eidinn Þorvaldi, en hann vildi þat víst ei. Þorvaldr vann eid, ok skildu þeir vid þat ok líkadi þá hveriomtveggiom verr en ádr, þat var

[1]) glensmiklir. *A. C. St.* þ.
[2]) Skinngrîluson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) sitia. sömu.
[4]) Einarstödum. *A. C. St.* þ.
[5]) mèr födur mínum ok honum. sömu.
[6]) svarar eingo. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

ok mikil rót undir fiandskap þeirra Lopts ok Bearnar, at Oddaveriom þótti þúngt at Haukdælir hæfust þar til ríkis fyrir austan ár, varo miök í þessu med Lopti synir Sæmundar Haraldr ok Vilhiálmr er þá voru mest á fætr kvamnir. Þat var háttr Sæmundar, at hann hafdi hvern vetur veizludag Nikolásmesso ok baud til öllu stórmenni [1]) þar í sveit. Sæmundr sat iafnan á midian lángbekk, en skipadi Lopti frænda sínum hit nærsta sèr utar í frá, en Beörn sat í öndvegi ödrummegin gègnt Sæmundi. Þar var drukkit fast ok talat mart vid drykkio. Sló þá í orda hendíngar [2]) med þeim Lopti ok Birni, ok varo vinir hans mest fyrir því ok Steingrímr Isfirdíngr, fór þá upp sumr kvedskaprinn ok skildu þeir med hinum mesta fiandskap, ok hèr eptir sendi Loptr menn til Snorra ok kærdi mál sitt fyrir honum, ok er þat sumra mál at hann letti lítt Lopt uppreistar imóti [3]) Birni. Um varit eptir fardaga [4]) sendi Snorri Valgard Styrmisson fylgdarmann sinn sudr til Lopts ok dvaldist hann þar um ríd. Þá sendi Loptr mann á Breidabólstad at segia Birni, at hann mundi þar kvama í annari viko, ok bad hann sva vidbúast, at hann ætladi at þá skyldi endir verda á deilum þeirra. Eptir þetta höfdu hverutveggio vidbúnad um vapn ok herklædi. Einar Gíslason var á Breidabólstad nokkrar nætr ok bió vapn þeirra Bearnar, hann var vin Lopts ok segir Birni at hann mundi þar kvama med Lopti at ákvednum tíma ok vera þeim þat úþarfr sem hann mætti, ok nú er at dró stefnudegi sömnudo hverirtveggio lidi, voru med Lopti þrír synir Sæmundar, Haraldr, Vilhiálmr ok Andreas, ok þrír synir Þorsteins Jónssonar, Andreas, Amundi ok Gunnar, þar var ok Gudlaugr af Píngvelli sonr Eyúlfs Jónssonar bródur Kèldna Valgèrdar ok Ingibiörn bródir hans [ok Finnr Þorgeirsson frændi hans [5]). Gudlaugr var mest fyrir med Lopti af öllum mönnum hans, en hann hafdi þó hit besta mannval ok ei færri en hundrad manna. Beörn hafdi siötygi manna fyrir, þar var Markús Mardarson utan frá Gnúpi ok Páll or Steinshollti, Arni Magnússon var þar kvaminn til gistíngar. Þeir Beörn

[1]) enum stærstu bændum. *A. C. St.* þ.

[2]) ordaheimtíngar. *A. C. E. St.* þ. himpíngar. *B. Gr.*

[3]) atfarar at. *A. C. St.* þ.

[4]) páska. *B. E. Gr.*

[5]) vantar í *C. St.*

höfdu búizt um fyrir sunnan kyrkio ok höfdu lagt stórvidu frá stodum þeim er varo vid húsamótin forkyrkiunnar ok adalkyrkio ok adra þar er mættist saunghús ok kyrkian sudr á kyrkiogardinn ok skipudu sèr þar ímilli, ok horfdu sumir austr en sumir vestr. Þá er Loptr reid í tún kvad hann þetta:

Hèr fer gríla
í gard ofan
ok hefir á sèr
hala fimtán.

Þá hríngdi til messo er þeir kvamo á bæinn. Sæmundr or Odda var þar kvaminn ok sátu þeir á hestum, hafdi hann tvö hundrud manna, hann giördi menn heim til kyrkiugardsins ok segir sva, at þeir menn skyldo allir grid hafa er gánga vildo í flokk hans, hvört er þeir vildu til þess taka fyrr eda sídar, hann lèt ok bióda Arna grid einsliga, en hann lèzt med Birni hafa mat etit um kveldit ok sagdist þar vera mundi um daginn. Loptr spurdi ok ádr þeir veittu atgaungo, hvört þar væro nokkrir vinir eda teingdamenn Orms Svínfellíngs eda Snorra Sturlusonar, ok sagdist þeim vilia öllum grid gèfa. Þa svarar Arni Öreida: hèr kènnik mitt mark á þesso, en þó man ek ei vid Beörn skiliast at sinni. Beörn svarar þá ok kvad enn ekki víst hvör fyrir gridum ætti at ráda þann dag, slær nú í bardaga ok gengr allhörd ríd af hveriomtveggiom, ok varo hinir áköfustu leingi. Loptr gèkk vestan at þeim, en Gudlögr at austan ok var þar Beörn fyrir, hann var í pansara digrum ok bardist [1]) alldiarfliga, þeir höfdu borit at sèr griót ok báru á þá. Loptr bad sína menn ei kasta ímóti ok bída þess er griótit eyddist þeim. Madr lèzt af Lopti snimma fundarins. Beörn var módr miök af vörninni ok mælti til Arna Öreydo at hann skyldi veria dyggilega [2]) rúm beggia þeirra medan hann gèngi upp at kyrkiunni at hvíla sik. Allir leitudu þeir heldr á Arna um vörnina, en Steingrímr mest. Beörn spretti frá sèr pansaranum er honum var erfidt ordit [3]), sá þeir þat Gudlaugr at hann var ber um hálsinn, hióp Gudlaugr þá fram ok lagdi til Bearnar

[1]) vardist, *A. C. St.*
[2]) drengiliga, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) en er hann kom aptr, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

med spióti því er þeir kölludu Grásído ok sögdu átt hafa Gísla Súrsson, lagit kvam í óstinn ok snèri hann nú at kyrkiunni ok settist nidr. Gudlaugr gèkk til Lopts ok segir honum, at Beörn var sár ordinn. Loptr spyr, hvör því volli? Vid Grásída, segir Gudlaugr. Hve miök man hann sár? segir Loptr. Gudlaugr syndi honum þá spiótit ok var feitin ofarliga á fiödrinni, þóttust þeir þá vita at þat mundi vera banasár. Var þá Loptr spurdr, hvört þeir skyldu sækia at lengr? Loptr svarar þá: enn er eptir Steingríms lotan, var þá veitt allhörd atsókn, en Steingrímr vardist alldrengiliga ok fèll þar. Eptir þat lióрu allmargir menn or kyrkiugardinum til grida í flokk Sæmundar ok þeir Markús ok Páll í fyrra lagi. Þat veitti þeim Bearnar mönnum þyngst at þeir tóku griótit þat í millum herda sèr er bökin hörfdu vid, en hinir fengu ei nidrdrepit med hlífum er móti þeim Lopti horfdo. Hèdinn prestr lèzt þar med Birni ok alls siö menn. Arni Öreyda lagdi lík Bearnar út á kyrkiugard ok bad Sæmund þar taka vid mági sínom, ok er nú verr en fyrr. Kolskèggr hinn audgi var þar med Birni, ok er hann lióp til grida í flokk Sæmundar sletti Andreas Þorsteinsson beru sverdi flötu um herdar honum ok spurdi, hve dyr þá skyldi matar vætt? Halda lagi, segir Kolskèggr. Öllum mönnum varo þá grid gèfin. Loptr gèkk þá til Sæmundar ok spurdi hvert lid hann vildi þeim veita? Sæmundr spurdi hvers þeir beiddo. Þeir svara, at þess beiddo þeir, at hann færi heim í Odda ok hefdi þar setu, en þeir lètust mundo hafa adra í Skardi ok bída sva þíngs ok fiölmenna sídan til þíngs ok vita hverir þá yrdo aflameiri. Sæmundr vard ei búinn til þessa ok kvad sèr ei sóma at deila vid Þorvald mág sinn, en þeir Loptr veitto honum stórar átölur ádr þeir skildu, reid Loptr þá heim med sveit sína. Tídindin fliúga þegar um náttina út yfir á, ok er Þorvaldr spurdi í Runa reid hann þegar í Skálaholt ok bióst þar til varnar, þvíat mönnum þótti þá sem Loptr mundi ekki úgiört láta, en Sæmundr mundi veita honum med allan sinn afla. Fundrinn á Breidabólstad var Bótólfsmessu, en Loptr reid fyrir þíngit vestr til Borgarfiardar ok gisti í Stafaholti, var Snorri þar þá kvaminn búi síno, þvíat hann vildi ei sitia í Reykiaholti, ef hann átti úfrid vid Sunnlendínga. Snorri tók allvel vid Lopti ok hèt honum síno lidi á

þíngi, ef Sæmundr eda nokkrir adrir höfdíngiar vildu veita honum. Reid Loptr þá út á Kolbeinsstadi [at finna þorlák módurbródur sinn ok Kètil son hans er þá beó í Hítardal ok átti Haldóru dóttur þorvaldar Gissurssonar ok slævudu þær mægdir [1]) miök lidveizlu þeirra fedga vid Lopt. Oddr Sveinbearnarson ok fleiri þíngmenn Sæmundar fóru sudr um heidi til fundar vid hann ok ætludu at hann mundi veita Lopti. Loptr reid ok sva sudr um þíngit, ok var Sæmundr ekki á þíngi, en þorvaldr var þar allfiölmennr. Treysti Loptr þá ekki á þíngreidina ok fór sudr á Eyasand ok útí Vestmannaeyar ok var þar um ríd. þorvaldr mæltist miök einn vid á þíngino, þvíat eingir menn gengo í berhögg vid hann um lidveizlu vid Lopt. Gissur þorvaldsson var þá tólf vetra gamall, hann sótti Lopt til sektar, fleiri varo þar sóttir er mest slægia [2]), þótti til. En er þorvaldr spurdi at Loptr var farinn í eyar út, þótti þorvaldi sem hann þadan mundi veita álaup nokkur þá er honum þætti tími til, var því ok ekki trúat, at Sæmundr mundi ekki veita honum í þraut. þorvaldr tók þat rád eptir þíngit, at hann dró lid saman ok sendi ord vinum sínum ok teingdamönnum ok ætladi at draga skip saman ok fara í eyar út at Lopti. Kvam Arnór Tumason til lids vid hann. Sighvatr sendi til lids þorvaldi sonu sína, var Tumi fyrir Eyfirdíngum, hafdi hann mikla sveit ok varo þeir allúspàkir er þeir kvamo sudr um land, en Sturla var fyrir Dalamönnum, hann hafdi þat var tekit vid búi at Saudafelli, reid Sighvatr til Borgarfiardar med honum ok bad hann sva segia þorvaldi, at hann man finna Snorra ok letia hann at fara til lids vid Lopt, [sem ádr var ord á, en ef hann fengi ei latt hann, [3]) þá báda fara mundo. Snorri var allmiök snúinn á lidveizlo vid Lopt [4]), þvíat illa hafdi verit med þeim Birni, líkadi honum ok illa spott þat er Sunnlendíngar höfdu giört at kvædum hans, voru þá kvednar í Stafaholti vísur nokkrar. þessi var ein:

Beörn frá ek bryndo [5]) iárni
bragd gott var þat lagdan

[1]) mædgur. *B. C. E. Gr. St.*

[2]) mestr slægr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) sagdi, bæta sömu vid.

[4]) vantar í *C. St.*

[5]) bryndr. *C. St.*

giördi Gudlaugr firdom
geysi hark í barka.
audkyfíngr lèt æfi
úblídr fyrir Grásídò
hvöss var hún heldr at kyssa,
hardmúladr vard [1]) Skúli.

Snorri var heldr úfrynn er Sighvatr kvam í Stafaholt, en samdist þó vel med þeim brædrum ok skildo vid þat at lokit var lidveizlu Snorra vid Lopt. En er Sighvatr kvam vestr í Dali spurdo vinir hans hvörnveg farit hefdi med þeim brædrum. En Sighvatr segir, at Snorri hefdi eggsi reidda um öxl sva hvassa, at hann ætladi at hvervetna mundi bíta þá er þeir fundust, sídan tók ek hein or pússi mínum ok reid ek í eggina, sva at eggsin var sva slæ at hló á móti mèr ádr en vid skildum. Þá er Sæmundr spurdi lidsdrátt Þorvalds reid hann heiman or Odda, ok visso fáir menn hvar hann var, ok hafdi hann af því allþúngt ord er hann vard at eingo lidi frændum sínum. Þá var þetta kvedit:

Loptr liggr í eyum,
bítr lunda bein,
Sæmundr er á heidum,
etr [2]) berin ein.

27. Þá er Loptr spurdi lidsdrátt Þorvalds ok þat at hann ætladi út í eyar, þóttist hann þar kvaminn í botaholu [3]), fór hann þá inn á land ok reid austr undir Eyafiöll fyrst [í Holt [4]) til Hallgèrdar [5]) mágkono sinnar. En er Þorvaldr spurdi til Lopts, hèllt hann flokkinum austr undir fiöll ok beoggo þeir þar heldr úfridliga ok í Holti mest. Loptr var þá ridinn austr undan, varo þá sendir menn med sáttarbodum, Loptr var fús til sætta þegar er hann vissi at kostr var, varo þá grid sett ok fundr lagdr vid Forsá út frá Skógum þar beint sem þeir höfdu fundist Sæmundr ok Sigurdr Ormsson. Sæmundr var í Skógum ok vildi ei nær kvama.

[1]) var. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) bítr. *A. B. C. Gr. St.* þ.
[3]) brunnholu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr.*
[5]) Þorgèrdar. *C. St.*

Ormr Svínfellíngr var med þriátygi manna, hann gèkk mest í millum ok fór vel med sèr [1]), en þeir mæltu mest ímóti at sættast skyldi manndrápalaust Tumi Sighvatsson ok Arnór Tumason, en er um sætt var talat fannst þat á at Þorvaldr var sáttvandr, segir hann þat, at honum þætto [þær sunarbætr [2]) verstar [3]) ef hann yrdi opt at reida eggsi úvinum sínum, en til þess lèzt hann ei spara þá, at þeir ynni honum fèbóta ok mannsekta slíkra sem honum líkadi, urdu þar þær málalyktir, at Þorvaldr skyldi hafa siálfdæmi, en menn allir lífsgrid ok lima. Loptr skildi undan í fyrsto godord sitt ok stadfestu [ok lengr en þriá vetur utan at vera [4]), en Þorvaldr skoradi þat ímót at Loptr skyldi þegar gánga á vald þeirra ok Haraldr son Sæmundar, Gudlaugr, Ingibeörn, Amundi ok Andreas Þorsteinssynir. Lopti þótti þat þúngt, en þó vard sva atdregit, at Arnór tók vid þeim öllum, ok vard Loptr því þá öllu at iáta sem Þorvaldr vildi. Arnór lagdi þat til, at Loptr skyldi standa í þeim sporum þá er handsöl færi fram sem Sigurdr mágr hans stód þá er þeir lögdu þar virdíngo sína fyrir Oddaverium. Eptir þat fóru handsöl fram, sídan varo flokkar skildir ok lagdist sá ordrómr á, at eingi flokkr hefdi verit iafn úspakr [5]) sem sá er fylgdi Tuma Sighvatssyni ok sva siálfr hann, en eingi flokkr þótti betr sidadr en sá er Sturla hafdi, lagdi hann ok allt vel ok gègniliga til þessara mála ok fèkk af því mikla vinsæld sudr þar, ok hefir þat mælt verit sídan, at hann hygdi þá til mágsemda þeirra er sídan kvamo fram vid Oddaveria. I þessari för sá Sturla Solveigu ok taladi fátt vid hana edr ekki. Þorvaldr giördi giördir þessar eptir hinum stærstu giördum er verit höfdu hèr á landi. Sumar þetta fóro þeir utan Loptr Pálsson ok Haraldr Sæmundarson, Gudlaugr ok Ingibeörn brǿdir hans. Loptr fór med Arnóri Tumasyni, hann braut fót sinn um sumarit, ok þá er festr var þótti honum illa af sèr horfa [6]), lèt hann þá brióta annat sinn ok sagdi siálfr fyrir hve binda skyldi, fór þá vel ok vard hann lítt haltr. Arnór Tumason skipadi mannaforrád sitt í Skagafirdi

[1]) sik. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) þunnar bætr. *A. C. St.* Þ.
[3]) bestar. *B. E. Gr.*
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) óstödugr. *A. C. St.* Þ.
[6]) standa. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

Þórarni [syni Jóns Sigmundarsonar [1]), hann var settr nidr á Vídimyri ok skyldi gæta hèrads fyrir mönnum Gudmundar biskups, ef þeir kvæmo til. En Gudmundr biskup hafdi verit í Odda um vetrinn, sem fyrr var ritat, en um sumarit fór hann vestr til Borgarfiardar, fór hann þar yfir um haustit er miök var á lidit, fylgdi Þórdr Sturluson honum nordr til Skagafiardar ok heim [2]) á stadinn, settist biskup þar. Vildu hèradsmenn þá enn sem fyrr útlaga hann af síno [3]) ok guds.

28. Sumar þetta er þá var frásagt sendi Snorri Sturluson utan Jón son sinn, fór med honum Arni Öreyda mágr hans. Þeir kvamo á fund Skúla iarls ok tók hann allvel vid Jóni, en Arni fór til Hákonar konúngs, þvíat kóngrinn var hinn mesti vin hans. Þá er Loptr biskupsson kvam utan fór hann til Hákonar kóngs ok Haraldr Sæmundarson, Hákon kóngr sat í Biörgvin. Þat var einn dag er konongr gèkk til bords, stód hann fyrir bordino ok tók laugar ok þeir menn er þar mötudust. Sá madr liöp í stofuna er Eyrekr úngi hèt, brædur hans höfdu verit á Eyrum þá er Sæmundr tók upp fè fyrir kaupmönnum. Eyrekr hafdi eggsi í hendi ok setti á háls Haraldi Sæmundarsyni, sva at hann fèll fyrir fætr konúngi. Eyrekr tók út or stofunni, en konúngr bad menn laupa eptir honum, ok hvar sem hann yrdi fánginn bad konúngr drepa hann. Eyrekr kvamst or bænum ok vard tekinn miök lángt utan frá Mylnodal ok var þegar drepinn, en Haraldr var miök sár ok vard græddr. Gudlaugr fór af landi brott ok andadist á sudurvegum. Þenna sama vetur tók Arnór Tumason sott ok andadist á iólum, en Asdís kona hans var þar í Noregi ok börn hans tvö Kolbeinn ok Arnbiörg, var Kolbeinn þá þrettán vetra, en hon sex vetra. At Arnóri þótti mikill skadi vinum hans, var þat ord á at hann hefdi verit hinn besti drengr ok mikill einardarmadr.

29. Gudmundr biskup sat heima at Hólum sídan Þórdr [Sturluson fór heim [4]), dreif þá heim mart manna ok gèkk upp

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) til stólsins, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) gótsi, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) fylgdi honum þángat. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

allt sumarbúit. Var þá mikit ord á af bóndum at til audnar [1]) þætti horfa, en bændr þóttust ei hafa foristo [2]) mikla, þvíat Þórarinn var úngr þá ok ei reyndr at höfdíngskap edr hèradstiórn. En í Eyafirdi var tídt at Tumi Sighvatsson kærdi þat fyrir Sighvati födur sínum, at hann vildi láta sèr bú fá ok mannaforrád sumt edr allt þat er Sighvatr átti ok Sigurdr gaf honum, sagdist ei verr til manns kvaminn en Sturla brédir hans er þá hafdi tekit bú at Saudafelli í Dölum ok mannaforrád, en Sighvatr vildi ei þverra [3]) kost sinn nordr þar. Reid Tumi þá vestr til Skagafiardar ok átti fund vid bóndr ok [kærdi þat fyrir þeim at biskupsmenn mundu giöra únádir þá er faung mundo þverra á stadnum, en kalladi þá hafa fyrirmann úreyndan ok úngan. Bændum fellst þat vel í eyro [4]) er hann segir, ok verdr þat tiltæki þeirra at þeir giöra ord biskupi ok segia at þeir vilia ei fiáraudn á stadnum ok lètust til mundo fara at rydia flokki hans brott med úfridi, ef hann vildi ei siálfr af sèr rydia. En er biskup heyrdi þetta ok vissi at Nordlendíngar varo honum úliúgheitir [5]) þá er þeir hèto illo, þá tók hann þat rád at fara í útlegd heldr en selia menn sína í dauda ok undir vapn sinna úvina, fór biskup þá brott af stóli sínum ok í Málmey at iólaföstu, þar var þá mart röskra manna med honum, Einar Skèmmíngr, Pètur Bárdarson, Eyúlfr Kársson, Kètill Yngialdsson, Aron Hiörleifsson ok margir adrir. Tumi sezt nú á stadinn [6]) med sveit sína, sem hann væri hans födurleifd, ok hafa þá hvorirtveggio vardhöld sterk ok niósnir trúar ok lídr sva fram um iól ok allt til kyndilmesso, en Blasiusmesso [var vedur þykkmikit [7]). Þá fara þeir or eyunni þriátygi manna ok varo allir hinir röskvari menn, nema Pètur Bárdarson, hann vildi ekki fara at Tuma frænda sínum. Biskup bad ok þess at þeir skyldo ekki giöra Tuma, en færa biskupi ef þeim líkadi. Biskup lèzt ok ætla at ei mundu þá niósnir gánga fyrir þeim. Þeir fóro á tveim skip-

[1]) eydslu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) forstödu. sömu.

[3]) mínka. sömu.

[4]) gèd. sömu.

[5]) óliúfheitir. *C. St.* þ.

[6]) at Hólum, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) voru vedur þykk ok myrk. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

um ok kvamo til Hóla um náttina ok miök úvart, þvíat Tumamenn sögdu at landnyrdíngr skyldi vörd halda. Þeir vissu at Tumi svaf í biskups búri, báru þeir at eld sunnan at brióstþilino, en riúfa nordan ok bádu þar alla menn til gánga er vildu á vald þeirra [1]) ok þat þætti rádligra en brenna inni. Var þat rád þeirra Tuma at gánga út ok láta ei brenna stadinn, eru þeir allir uppdregnir þeir er inni voru. Þeir velktu Tuma lengi, þvíat sumir mæltu hann undan, giördi honum þá kallt miök ok ræddi at þeir skyldi ei kvelia hann, sagdi vera mega at nokkrir mæltu at hann skylfi af hrædslu, lofudu þá margir hreysti hans ok mæltu hann undan. Einar Skèmmíngr kvad hann sva hafa godordum skipt fyrir nordan heidi at hann skyldi ei lifa ok hann vá at honum, þvíat ekki urdu [2]) adrir til. Þar voru ok drepnir tveir menn adrir, Þorgeir Steingrímsson ok Bergdór Oddason. Tva fóthiuggu þeir, Jón Þórdarson ok Haldór Klasason, en ödrum voru grid gèfin. Eptir þetta fóru biskupsmenn brott, en heimamenn slöktu eldinn. Fylgdarmenn Tuma slást saman ok fara eptir biskupsmönnum, en þeir undan sem hardast ok sáu hvarir adra ok var í hendíngum med þeim ádr þeir kvæmust á skipin, einn vard seinni ok var sá drepinn tveim náttum sídar, hann hèt Jón, annar dó af kulda er Þórarinn hèt. Þeir Einar kvamu til eyarinnar, ok lèt biskup illa yfir þeirra för er þeir höfdu drepit Tuma, en fært ei honum, þeir kvádu þar sagt allt um. Biskup sitr í Málmey um fram páska [3]). Þar andadist Einar Skèmmíngr af nefdreyra. En eptir páska fór biskup nordr til Grímsseyar.

30. Sighvatr Sturluson hafdi nokkut öfundarsamt setur fyrst er hann kvam í Eyafiörd, en flestum bóndum líkadi því betr til hans sem hann hafdi verit lengr. I þann tíma beó Ingibiörg dóttir Gudmundar hins dyra at Rafnagili med sonum þeirra Halls, en sá madr var at rádum med þeim er Hafur hèt, hann var bródir Einars Skèmmíngs er vegit hafdi Tuma Sighvatsson, þar var fátt medal húsa ok Grundar, þótti Rafngilíngum Sighvatr sitia miök

[1]) en grid vildu hafa. *A, B, C, E, Gr, St, Þ.*
[2]) nádu. *B. Gr.*
[3]) páskir. *A. B. E. Gr. Þ.*

yfir sæmdum þeim er Hallr hafdi haft medan hann lifdi, en þeir menn sem ei varo vinir Sighvats mæltu, at honum hefdi ei heilliga farit í skiptum þeirra Kálfs Guttormssonar ok Halls. Þat var einn tíma er Sighvatr gèkk um völl sinn upp frá húsum, hann var í kyrtli ok hafdi kápo yfir sèr, hann sá þriá menn rída utan at gardi alvapnada ok kèndi at þar var Hafur ok snèri hann í móti þeim ok brá at hendi sèr kápunni. Þeir Hafur ridu at túngardinum ok varo eingar kvediur. Hafur spurdi, hví er godinn var sva fámennr? Ek vissa nú ei at ek þyrfta manna vid, segir Sighvatr. Þeir Hafur horfdust á um rid ádr þeir snèro á brott, en Sighvatr gèkk heim. Gunnar Kumbi hèt madr, hann var gildr madr fyrir sèr, var hann iafnan í Grímsey, hann tók sèr víst at Rafnagili, segia sumir menn at Hafur brygdi vid hann, en sumir at hann hèldi kaupi hans. Gunnar sótti Sighvat at þesso máli, en hann vísadi af sèr ok bad hann finna Haldóru, hon var skyld honum, ei vissu menn tal þeirra, en Gunnar var hèr ok þar um vetrinn þar í hèradi. Þat var tídinda at Rafnagili [hinn sídasta dag gói, þá varo tvær vikur til páska [1]), at þar var kvaminn til gistíngar Jón Birnoson, hann var lausamadr ok var vistum at Stokkahlödum, en þar var vistum Hoskuldr Gunnarsson, þetta var hinn nærsta vetur eptir er hann hafdi vegit Ögmund prest ok Gunnstein son hans. Þeim Jóni var skipat í eina hvílu bádum innar af seti, en þar gègnt í annari hvílo [2]) lá Hafur rádamadr, hann átti vardhund gódan ok lá hann iafnan fyrir hvílo hans. Einni nátt ádr hvarf hundrinn ok faunst aldri sídan. Hafur gèkk út hveria nátt til kyrkio til bænahalds, ok er hann kvam inn ok hafdi skamma hríd hliódr verit heyrdo þeir Höskuldr snörl til hans ok fara til ok fundu þá at Hafur var sár fyrir bríóstino, hann hafdi verit lagdr med eggsi, [ok var hon þar [3]) ok hafdi Hafur hana átta, hon hafdi hángt þar hiá hvílunni. Þeir lètust heyrt hafa at madr lióp utar eptir skálanum ok til útidura ok sudr med vegginum, var nú liós tendrat ok var Hafur örendr ok beoggu

[1]) einn dag þrimr vikum fyrir páska. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) stafnhvílu. *A. C. St.* þ. stafahvílu. *B. E. Gr.*

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

þeir um lík hans. Um myrginðinn var samkvama á Grund, varo þá sögd þar tídindin. Þar kvam Gunnar Kumbi ok bar á sik víg Hafurs. Sighvatr hafdi nokkut í flymíngi [1]) ok kalladi sumrúnga [2]) údæla ok ei rádligt at halda kaupi þeirra. Gunnar var í umsiá Haldóru þat er eptir var föstunnar, en hann tyndist um varit, þá er þeir Sighvatr fóro or Grímsey. En um sumarit eptir kvam Jón Birnoson sudr í Stafaholt til Snorra ok segir Sighvat hafa sendt sik, fastadi hann þar kárföstu. Lagdist þá sá ordrómr á, at hann hefdi vegit Hafur, ok hèlzt sá ordrómr lengi sídan.

31. Um varit eptir páskaviku sendi Sighvatr ord vestr í Dali til Sturlo ok bad hann kvama nordr med fiölmenni ok kalladi rád [3]) at hann leitadi eptir bródurhefndinni. Brá Sturla þegar vid ok stefndi mönnum at sèr ok fór nordr med mikla sveit manna. Þar var Gudmundr skáld Oddsson í för, hann kvad vísu:

Nordr bera gæti gotar [4])
geira stígs at vígi,
hamdís vedur á heidar
hagl snyr á vit bagla.
Skyldo ei flærdar fylldir
festendr lagar hesta,
hardr gèt ek víst at verdi
var fundr, reka undan.

Sturla fór nordr til Skagafiardar, var Þórarinn Jónsson þar fyrir ok hafdi hann lidsdrátt um Skagafiörd, en Sighvatr lèt safna lidi um Eyafiörd ok Dali, sídan drógu þeir skip at sèr ok fóru til Grímseyar, þeir höfdu nær þriú hundrud manna. En er biskupsmenn siá at úfridrinn fór at þeim, liópu þeir saman ok tóku vapn sín, var þar siötygi manna er vapnfærir varo, en þriátygi varo konur ok stafkarlar. Biskup gèkk til kyrkio ok nokkrir klerkar med honum. Eyúlfr Kársson var mest fyrir biskupsmönnum, sumir menn skriptudust vid biskup ádr þeir gèngo ofan. Aron Hiörleifsson spurdi Eyúlf Kársson, hvar [væro vapn Tuma? [5]) Þau

[1]) flymti. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) Snorrúnga. *C. St.*
[3]) mál. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[4]) gautar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) væru Tumanautar. *A. C. St.* Þ.

hánga yfir [1]) rúmi míno í skála, segir Eyúlfr. Manum vèr ei medþurfa vapnin, segir Aron? Eingan ætlak fúsan at bera þau ímóti þeim Sturlu, segir Eyúlfr. Aron fèkk þá sín vapn einum þeirra fèlaga ok gèkk eptir vapnum Tuma [2]) ok fór í. En er hann kvam heim at kyrkiogardi gèkk biskup á móti honum ok spurdi ef hann vildi skriptast. Aron kvad nú ei tóm at því, ver gódr vid fátæka menn, segir biskup, [en siást manom vid enn [3]). Aron kvad sik dreymt hafa at hann legdi yfir hann skikkio sína um náttina. Aron lióp í vík eina ok varo þar ellifu [4]) til varnar, en Eyúlfr var í annari vík med þriátygi manna. Þá varo enn sumir í hinni þridio vík. Sturla stakk þar stafni vid er þeir Aron varo fyrir, hann var í raudum kyrtli yfir brynionni ok hafdi uppdrepit blödunum. Þeir Sturla liópo þá fyrir bord er skipin stódu grunn ok gengu þeir upp. Þar var brúk ok möl fyrir ofan, þar stódu biskupsmenn á ofanverdu brúkino. Sturla tók til orda: þar er Aron fiandinn uppi, látum vèr hann ei undandragast. Lióp Sturla þá uppá brúkit ok Sigmundr Snagi á adra hönd honum. Aron lagdi til Sturlu ok bad hann þar at sækia, kvad þar vera merki [5]) Tuma bródur hans. Sturla lagdi ímóti í kinn Aroni ok um þveran munninn ok út um adra kinn. Aron lagdi þá ímót til Sturlu, sva at hann fèll á hlidina á brúkino ok bar bryniona af lærino, vildi Aron þar þá tilleggia, en Sigmundr kastadi skildi yfir hann ok kvam þar í lagit. Eptir þat lióp Sturla upp ok var þá sótt at Aroni ok stódu spiót sva þykt á honum, at hann fèkk trautt fallit ok vard vída sár, en þó minnr en þeir hugdo. Runno þá biskupsmenn upp or fiörunni, en þeir Sturla eptir þeim, en Aron lá þar eptir [6]). Fóru þeir Sturla þá heim til kyrkiogards, voru þar teknir prestar tveir ok gèldtir, Snorri ok Knútr. Aron lá í brúkino þartil Eyúlfr Kársson kvam til hans ok mælti: hvert lifir þú mágr? Hann lèzt lifa ok leika ekki. Eyúlfr tók hann í fadm sèr ok bar til sævar, þar var skip fyrir ok Arni prestr ok

[1]) hiá. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) Tumanautum. sömu.
[3]) því siást manum vèr ei. sömu.
[4]) níu. *A. C. St. Þ.*
[5]) vapna, bæta vid *B. E. Gr.*
[6]) ok meintu þeir hann dauđan, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

þrír menn adrir. Eyúlfr bar Aron á skipit ok hratt út skipinu. Þeir bádu Eyúlf fara med sèr, hann lèzt vilia meida skipin sva ei væri eptirróit, en bad þá ei á land gánga fyrir vestan Tiörnes. Eyúlfr lióp þá til Rimanausts [1]) er feria var ok bardi um hana. Þat heyrdu þeir menn þeirra Sighvats ok lupu til naustsins níu saman ok sóttu hann. Eyúlfr vardist med eggsi, þartil er þeir hiuggo af skapti eggsina, þá tók hann feriu árar ok vardist med ok hioggo þeir fiórar sundr fyrir honum. Þá lagdi sá madr til hans er Brandr hèt undir hendina ok út undir adra, lióp hann þá út á milli þeirra, flædr var sævar ok skamt at fara. Madr hèt Þórir er hió eptir honum, kvam á fótinn vid öklann ok tók af sva at lafdi vid, hnekkti hann þá á siónum [2]) ok lagdist í skèr eitt, þat var tólf fadmar, lupu menn Sighvats þá á skip, en er þeir kvamo í skèrit lá Eyúlfr á grúfu ok hafdi lagt hendr í kross á sèr, ekki blæddi þá er þeir lögdu til hans, um vörn hans var þetta kvedit:

Varizt hefr Eyúlfr árum
örfengr níu lengi
fræg er ordin sú firdom
fleyvángs í Grímseyo,
ádr útí skèr skreytir
skordublakks hinn rakki
briótr med beniar heitar
brynflagda þar lagdist.

Þessir menn lètust þar med Eyúlfi: Arni ok Kètill prestr, Sveinn ok Marteinn Jónssynir ok Skèggi Snorrason, Gunnar ok Einar ok enn tveir eda þrír adrir af biskupsmönnum [3]). Þeir Sighvatr lètu leggia hendr á biskup ok fór hann á því skipi or eyunni er Sighvatr var á. Gudmundr biskup bad gud hefna, því ek má ekki [4]) segir hann. Þat er sögn manna, at þriátygi ok tveir menn lètust af þeim er farit höfdu at biskupi med þeim Sighvati, þá er þeir

[1]) Runanausts. *B.*

[2]) hliόp hann þá í siόinn. *A. C. St.* Þ.

[3]) fleiri biskupsmenn fèllu ok annarstadar af biskupi, bæta vid *A. C. St.* Þ.

[4]) vesalíngrinn minn! bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

fóru or Grímsey. Sturla fór vestr heim eptir fundinn, þá kvad Gudmundr skáld:

Stórlátr hefir Sturla,
stendr rafn á ná iafnan,
Kristr rædr tíri ok trausti,
Tuma hefndir vel efndar.
Skapa[1]) vann hinn er höppum
hestrennir veldr[2]) flestom[3])
hár fyrir hernad stóran
höfudvíti gridbítom.

32. Þetta sumar hit sama lètu þeir Sighvatr Gudmund biskup fara utan hardliga leikinn af úvinum sínum. Var hann þá nokkra vetur í Noregi ok giördust þar þá margir merkligir lutir um hátto hans ok spásagnir. Biskupsmenn flestir er brott fóro or Grímseyu, tóku land fyrir nordan Eyafiörd. Var Aron sár ok kumladr miök, fór hann seinliga austr í fiördu. Hann kvam til Svínafells ok madr med honum síd um kveld, ok er Ormr vissi þat lèt hann læsa þá í lítilli stofo, ok var þat ord á at hann mundi láta drepa þá Aron fyrir vináttu sakir vid þá Sturlu. Þar var þá Þórarinn Jónsson bródir Orms er verit hafdi í Grímsey, hann mælti Aron undan ok fylgdi sva fast at, at hann lèzt mundi veria Aron, ef hann fengi ei grid fyrir flutníng hans, ok nennti Ormr ei at vinna þat til hans. Þar lèt Aron eptir hiálm Tuma[4]) ok brynio, en hann fór med saxit. Ormr fèkk honum önnur vapn. Þadan fór hann vestr í sveitir, fyrst á Raudamel til Sölva prests födurbródur síns ok módur sinnar, þadan fór hann vestr á Eyri í Arnarfiörd ok tóko Rafnssynir vid honum. Gudmundr Olafsson var þá med honum er sídar var at brenno Þorvaldar Snorrasonar.

33. Þorvaldr Snorrason bió í Vatnsfirdi í þann tíma[5]), var hann þá kalladr sáttr vid alla menn ok hafdi heldr mannfátt, var þá

[1]) skapat. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vel. *B. E. Gr.*
[3]) flestar, *A. C. St.* þ.
[4]) Tumanaut, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) sem fyrr var ritat, bæta sömu vid.

skipuliga med honum ok sonum Rafns, höfdu þeir þá bú á Eyri. En í Steingrímsfirdi á Breidabólstad beó Bergþór [1]) Jónsson, en brædur hans Brandr ok Ingimundr beoggo á Reykiahólum. Ingimundr hafdi farit utan med Snorra, sem fyrr var ritat, var med þeim frændum allkært. Þá var med Snorra [2]) Sturla Bárdarson er Þorvaldr lèt fóthöggva á Eyri, var hann mikill úvin Þorvaldar ok kærdi þat opt fyrir Snorra. Þat bar vid í þann tíma at Bárdr Snorrason [bródir Þorvaldar [3]) gat barn vid Helgo Asgrímsdóttur kono Bergþórs, hèt Jón son þeirra. [Líkadi Bergþóri þessi barngètnadr allilla ok sva brædrum hans [4]) ok sóttu at því Snorra Sturluson. En hann segir sva, at þeir mundo ei fá rètt lut sinn vid Bárd medan Þorvaldr væri uppi, kalladi hann sitia yfir hvers manns sæmdum [5]) vestr þar, en kalladi þá sva vel mennta ok ættada, at þeir mætto halda lut sínum vid flesta menn. En er þeir heyrdo þvílík ord fylldust þeir upp af fiandskap vid Þorvald ok [var mest rót undir því med þeim [6]) Sturla Bárdarson. Þeir brædur Jónssynir safna til sín nokkrum mönnum, varo þeir þrír brædur Bergþór, Brandr ok Ingimundr ok Asgrímr son Bergþórs, Filippus Kolbeinsson, Einar Naut Gamlason, Sigurdr ok Rögnvaldr Kárssynir. En þessir kvama sunnan frá Snorra, Sturla Bárdarson, Eyrekkr Birkibeinn, Tafl-Bergr ok Dansa-Bergr, Brandr Arnórsson, þeir varo þrettán saman. Þessir menn ridu vestr til Isafiardar á Nautaeyri ok tóko þar skip, en lètu eptir hesta sína ok södla. Þeir fóro yfir fiörd til Vatnsfiardar ok gengo þar upp, en er þeir kvamo í túnit heyrdu þeir at hundr gó [7]) vid á bænum ok kèndu at Búski [8]) var, er iafnan var vanr at fylgia Þorvaldi, þóttust þeir þá vita at Þorvaldr mundi heima vera, skipudu þeir þá mönnum til inngaungo, en sumir gættu dura. Ingimundr Jónsson ok Asgrímr gengo inn vestri dur vid nokkra menn. Brandr Jónsson var fyrir þeim durum er nærst varo stofo. Þorvaldr var heima ok siö

[1]) Bárdr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) Sturlusyni, bæta sömu vid.
[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[4]) eirdi Jóni — hans, en Bergþóri verst, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[5]) lut, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[6]) olli því mest. sömu.
[7]) kvád. sömu.
[8]) Búlki. *A. C. St. Þ.*

karlar, hann lá í lokhvílo ok fridlur hans tvær Haldóra dóttir Sveins Helgasonar ok Lofneidr [1]). Þeir Ingimundr hiuggo uppí setit þá er þeir kvamo í skálann ok unnu á [Þóri syni Biarna Merarleggs ok ödrum [2]) mönnum. Þorvaldr lióp upp er hann vard var vid úfridinn ok tók yfir sik kvennskikkio ok lióp fram á gólfit ok innar eptir skálanum til stofo ok kastadi þá af sèr kvennskikkiunni ok lióp út í durin ímilli stofu ok skála þar er þeir Brandr varo fyrir. Nidmyrkur var á. En er hann kvam á völlinn bad hann þá geyma at Þorvaldr kvæmist ei út. Þorvaldr rann af túnino ok kvam fyrst á bæ þann er Þúfa heitir ok tók þar klædi, fór sídan í Reykianes [3]) ok stefndi þar at sèr nokkrum mönnum. Þeir Asgrímr liópo í lokhvílnna ok var þá Þorvaldr í brotto. [Lofneidr vard særd nokkut [4]). Þeir leitudu Þorvaldar um húsin ok fannst hann ekki sem líkligt var. Brandr lèt aldri ásannast at hann hefdi þær dur út laupit er hann hafdi fyrir verit. Skamma ríd dvöldust Jónssynir í Vatnsfirdi sídan er þeir vissu at Þorvaldr var í brott, fóro þeir þá til skips ok reyro út eptir firdi til Skutilsfiardar ok fengo þar hesta ok rido [út í fiördo [5]). Þá er Þorvaldr var í Reykianesi sendi hann Hallbiörn Kalason út yfir Glámo, fyrst á Sanda til Odds Olasonar [6]), bad Þorvaldr at Oddr skyldi fara á fund Rafnssona ok letia þá þess at þeir gengi í þetta vandrædi med Jónssonum. Þorvaldr fór ór Reykianesi út til Sniáfialla til Bárdar bródur síns, giördi hann þar þat rád, at hann lèt fara Bárd bródur sinn ok Þórd son sinn sudr í Skálaholt til Magnúsar biskups ok bad þá þar vera um vetrinn ok eiga eingan lut at skiptum þessum á þeim vetri. Eptir þat fór Þorvaldr heim í Vatnsfiörd. Jónssynir fóro þartil er þeir kvamo á Eyri í Arnarfirdi ok bádu Rafnssono at þeir skyldu gánga í mál med þeim, segia þeir at lítit mundi leggiast fyrir Þorvald, ef þeir legdist allir at honum. En med því at Rafnssonum þótti ei efnst hafa giörd sú er Þórdr Sturluson giördi um víg Rafns eda sekt Kollabœar-Bárdar [7]) edr

[1]) Hafneidr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) Reykiafiörd. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) vantar í sömu.

[5]) vestr yfir heidi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) Alasonar. sömu.

[7]) Kol-Bárdar. sömu.

enn fleiri manna er hèradssekir varo giörvir, ok fyrir mikla áeggian er Jónssynir eggiudu þá, nú fyrir slíkt gengo Rafnssynir í þetta vandrædi ok sva Oddr Olason mágr þeirra ok flestir hinir betri bóndr utan or fiördum, fóro þeir þá þegar til Isafiardar ok rido Hestfiardarheidi med níutygi manna. Þeir kvamo í Kálfavík í Skötofirdi ok drápu tvo menn þar, en í Heydal í Miófafirdi [1]) drápo þeir einn mann.

34. Þeir rido snimma [2]) or Miófafirdi á hálsinn til Vatnsfiárdar helgan dag. A hálsinum var á hestverdi Þorfinnr Kumbi [3]) son Sela-Eyreks, hann var hinn gildasti madr ok hafdi digran pansara. Þeir Ingimundr siá hann ok rída eptir honum. Þorfinnr rídr í kèldu ok gèkk af hestinum. Ingimundr bad sína menn eingan lut at eiga med þeim ok vildi at þeir ættust tveir vid. En er Ásgrímr Bergþórsson kvam til, sá hann at eingi vard afburdrinn, hann fór þá til med Ingimundi, ok vardist Þorfinnr þeim allvel, en vapn festi ei á pansaranum. Þá kvam at Oddr Olason ok vann á honum med þeim, hioggo þeir hann á fætr ok vagu hann sídan. Eptir þat ridu þeir heim á bæinn, var Þorvaldr þá genginn til messo [4]) ok hans menn ok hlíópu þeir þegar or kyrkiunni ok kvamust á skip naudugliga, en Rafnssynir ok Jónssynir ridu ófarí fiöruna ok skorti þar ei eggian ok stór ord, er hvorir mæltu til annara. Þorvaldr fór þá út eptir firdi, en Jónssynir fóro heim í Vatnsfiörd ok giördu rád sín, vildu Rafnssynir at þeir færu út í Arnarfiörd ok hefdu [5]) þar setu, en Jónssynir vildu at þeir færu allir á Hóla ok byggist þar fyrir, kölludu þadan gott at veita álaup til Isafiardar. En þeir urdu á ekki sáttir, ok lauk med því at Rafnssynir fóro út í fiördu, en Jónssynir á Reykianes ok vard fèlag þeirra ei sídan. Þorvaldr fór nordr til Adalvíkr, ok visso fáir menn hvar hann var nidrkvaminn. Jónssynir beoggust fyrir á Hólum ok höfdu haft þángat skiöldu Þorvaldar.

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) sunnan. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) Kumli. *E.*

[4]) kyrkiu. *A. C. St.* Þ.

[5]) efldi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

35. Um haustit litlo sídar beoggust Jónssynir at fara til Isafiardar til rána ok forvitnast ef þeir yrdo varir vid Þorvald, þeir váro nær þriátygi manna ok rido flestir, en umrenníngar gengo. Þeir fóro Vadil um Þorskafiörd ok ridu inn eptir Þorgeirsdal. En er þeir fóru upp or dalnum á brekko brúnina yfir fiálldal þeim er gengr upp frá Isfirdíngagili, laupa menn fyrir þeim upp, var þar Þorvaldr ok nær fimtygi manna, varo þeir flestir í gaungo. Jónssynir köstudu um hestum sínum ok [1]) rída í fiall upp, en þeir Þorvaldr snero ofan eptir dalnum. Rútr hèt madr, en annar Tyrfíngr, þeir rido vestr á fiallit, ok reid Þorvaldr fyrst eptir þeim ádr [2]) hestr hans dróst, sídan sneri hann ofan eptir dalnum. Þeir Rútr varo vegnir bádir. [Haldór son Eyúlfs Snorrasonar ok Skökulálfr [3]) snèro sudr á fiallit ok urdu teknir ok særdir til úlífis. Jónssynir rido sem mest mátto þeir. Bergdór kastadi skildi sem frægt er ordit, en Filippus Kolbeinsson tók upp, leypto þeir þar til er þeir kvamo yfir Þorskafiörd, þar skildo þeir, fór Bergdór ok Einar Naut útá Hóla ok tóko þar skip ok fóro útí Akureyar. Þeir Brandr ok Ingimundr snèro til Króksfiardar ok námo ei stadar fyrr en í Saurbæ ok fóro þadan til Saudafells til Sturlu Sighvatssonar ok dvöldust þar litla ríd, þadan fóro þeir sudr til Stafaholts, ok tók Snorri vid þeim Ingimundi, en Brandr var at Saudafelli lengstum þann vetur, en Bergdór á Eyri med Þórdi Sturlusyni. Hèrum var þetta kvedit:

Hlógo hildidraugar [4])
healdr skyzt at Þorvaldi
meidr vann miúkt [5]) fyrir lydom
mordrödla [6]) sèr forda [7]),
nú kná [8]) alls [9]) sídst [10]) eltir
eldnárúngar váro

[1]) bad Ingimundr þá, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) þartil. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) tveir adrir. *A. C. St.* þ.
[4]) hirdidraugar. *A.* þ.
[5]) var miúkr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) mordrödlar. *C. St.*
[7]) fordar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[8]) kva, sömu.
[9]) allir. *B. Gr.*
[10]) vera. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

hlífar geims [1]) í hömrom
hót [2]) annan veg þióta [3]).

En er Sturla Bárdarson heyrdi þetta, kvad hann vísu:

Oss hefir elta vída
eydir bölverks [4]) skída,
margr spyr seint hit sanna,
sveit hrædumst [5]) vèr manna.
Hitt var bóti fyrra
heldr telium þat dyrra
stökk á grundar [6]) girdi
godinn siálfr or Vatnsfirdi.

Þetta var enn kvedit:

Brást um Bergdór nærsta,
Brandr kalladi feanda,
vard at íllum ordum
Ingimundr of fundinn.
En er mótför manna
meidendr lito skeida,
hver rann sudr til Snorra
sáttalaus sem mátti.

Þá er Jónssynir drógu undan Þorvaldi fór hann út á Hóla ok tók þar skiöldu sína, fór sídan heim vestr ok dvaldist litla ríd heima ádr hann fór út í fiördo med fiölmenni. [Rafnssynir urdo vid varir ok söfnudu mönnum fyrir á Eyri ok höfdu hvorirtveggio mikit fiölmenni [7]). Þorvaldr kvam á Eyri, en bóndr gengo á millum þeirra ok leitudo um sættir, ok vard þat at sætt, at Magnús biskup skyldi um giöra med þeim mönnum er hann vildi vid hafa; en Rafnssynir gengi frá lidveizlo vid Jónssyni. En er Rafnssynir gengo til festo vid Þorvald, stódu þeir Oddr Ólason ok Aron Hiörleifsson uppi undir virkino ok töludu ok vildo ei gánga [til festunnar med þeim [8]).

[1]) gyms. *B. C. E. Gr. St.* þ. gins. *A.*
[2]) hóts. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) þrióta. *E.*
[4]) bödvar. *B. E. Gr.* þ. bödvars. *C. St.* bödnar. *A.*
[5]) hrædrum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) grindar. *B. E. Gr.* grimdar. *A.*
[7]) vantar í *St.*
[8]) til festu vid Þorvald. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

þat virdi þorvaldr sídan til fiörrada vid Odd, sem enn man gètit verda. Eptir sætt þessa fór þorvaldr heim í Vatnsfiörd ok sat í búi síno um vetrinn.

36 þetta haust er nú var frásagt tók sótt Sæmundr í Odda ok andadist hinn *VII idus Novembris.* þat sama haust ok öndverdan vetur sást opt stiarna sú er *Cometa* heitir, [þá syndist ok sólin raud sem blód [1]). En þat var tilskipan Sæmundar, at Solveig dóttir hans skyldi hafa iafnmikinn arf sem einnhver sona hans, fór Solveig þá til Kèldna til Valgèrdar módur sinnar ok sóttu þær þá þorvald Gissursson at því at hann skyldi draga [2]) fram lut Solveigar um fèskipti vid brædur hennar. Synir Sæmundar urdo á þat sáttir, at þeir skyldo [því vidhlyta um [3]) fiárskipti er Snorri Sturluson skipti med þeim, ok sendu þeir eptir honum um vetrinn at hann skyldi kvama sudr til fiárskiptis. Fór Snorri þá sudr ok med honum Ingimundr Jónsson ok Asgrímr Bergdórsson ok hafdi hann gott föroneyti. Hann gisti at Kèldum, var hann þar í kærleikum miklum med þeim mædgum ok fór Solveig í Odda med honum ok þótti Snorra allskèmtiligt at tala vid hana. En er þau rída frá Kèldum, reid kona ímóti þeim ok hafdi flókaólpu [4]) blá ok saumadr flókinn [5]) at höfdi henni, hafdi hon þat fyrir hötttinn [6])., einn madr var med henni, en þessi kona var Hallveig Ormsdóttir er þá var fèríkust kvenna á Islandi. Snorra þótti hennar ferd heldr hædilig ok brosti at. Snorri fór í Odda ok stillti sva til, at Solveig hafdi [sva nær allan koseyri [7]) af arfi þeim er hon rètti hendr til, en mest hèllt hann fram lut Hálfdánar af öllum sonum Sæmundar. þær Solveig mædgr lèto faung sín fara út í Runa í vald þorvaldar Gissurssonar ok bundu [8]) á hendr honum allt sitt rád. þenna vetur fóru ordsendíngar margar á milli þeirra þorvaldar Gissurssonar ok Sighvats Sturlusonar. Um varit eptir páska kvam Sighvatr Sturluson nordan í dali ok Haldóra kona

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
[2]) halda. *A. C. St.* þ.
[3]) halda þau. sömu.
[4]) flakahólpu. *B. E. Gr.*
[5]) saumud flókin. *B. E. Gr.*
[6]) hattinn. *A. B. C. Gr. St. þ.*
[7]) Kossey. *A. C. St. þ.*
[8]) budu. sömu.

hans, en sídan reid Sighvatr sudr yfir heidi ok þeir níu saman Sturla sonr hans, Brandr Jónsson. Kvam Sighvatr í Runa, var þar Kèldna-Valgèrdr ok Solveig dóttir hennar, var þá talat bónord Sturlu ok laukst med því, at Þorvaldr hafdi heima [1]) brúdlaup þeirra Solveigar. Þess er vidgètit, at þann dag er at brúdlaupino var setit lèt Þorvaldr kalla fram fyrir þá Sighvat börn sín, fyrst börn þeirra Jóru biskupsdóttur, ok segir hann at honum þætti miklo skipta at Sighvati litist vel á börnin. Sighvatr horfdi á börnin um ríd ok segir, at færri mundo menniligri [2]). Þá gengo Þóru börn fram ok stód Gissur fyrir þeim frammi ok hèllt Þorvaldr í hendr honum ok mælti: hèr er nú ástin mín, Sighvatr bóndi! ok þat þætti mèr allmiklo varda, at þèr litist giptusamliga á þenna mann. Sighvatr vard um fár ok horfdi á hann lánga stund, en Gissur stód kyrr ok horfdi einardliga í móti. Sighvatr tók þá til orda ok heldr stutt: víst er hann gæfumadr, en ekki er mèr um yglibrún þá. Ok er Sighvatr tók þannig ordum í, þá hvarf Þorvaldr af þessu tali: veizlan fór allvel fram ok var veitt med miklum kostnadi, ok skildu þeir allir med blído. Þær mædgr fóro vestr med þeim Sturlu. Þat er sagt, at Þorvaldr reid á leid med þeim vid nokkra menn, ok ádr þeir Sighvatr skildo, stigo þeir af baki ok ræddo þá enn mart um vináttu sína. Þá mælti Sighvatr: þess vil ek bidia þik, Þorvaldr, at vid gætum sva til med sonum okkrum, at þeir haldi vel vinátto med frændsemi. Þorvaldr leit nidr fyrir sik heldr áhyggiosamliga ok mælti: gætt man medan vid lifum bádir. Þetta virdust mönnum sídan hin mesto spakmæli [3]) at því er sídar vard, því at Þorvaldr var andadr ádr Apavatnsför var. Eptir þetta rída þeir Þorvaldr heim, en er Solveig kvam til Saudafells, tók hon þar vid búi, en Haldóra lèt fylgia Vígdísi Gilsdóttur til Midfiardar [4]) er ádr hafdi verit fridla Sturlo, Þorrídr hèt dóttir þeirra. Sighvatr fór heim nordr eptir þetta. Fár vard Snorri um er hann spurdi kvanfáng Sturlu, ok þótti mönnum sem hann hefdi til annars ætlat. Sturla fór vestr til Saurbæar fyrir

[1]) inni. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) mannligri. *B. E. Gr.* mannvænligri, *A. C. St.* þ.

[3]) mesta spásaga. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) Midfells. *E.*

þíng ok kvam þar til móts vid hann Þorvaldr Vatnsfirdíngr, var vid tal þeirra Snorri [1]) prestr Narfason frá Skardi ok Torfi [2]) prestr Gudmundar son, lögdu þeir saman vináttu sína, hèt Þorvaldr því at hann skyldi veita Sturlu vid hvergan mann er hann ætti málum at skipta á Islandi ok skiliast aldrei vid hann, en Sturla hèt í mót at veita Þorvaldi. Festu þeir þetta med sèr med því at Sturla lèt Torfa prest rída med godord beggia þeirra til þíngs ok syndo í því samband sitt.

37. Þetta sama sumar lèt Snorri Sturluson lysa hernadarsök á hendr Þorvaldi. Fór med málit Urækia Snorrason fiórtan [3]) vetra gamall, vard Þorvaldr á þíngino sekr skógarmadr ok sekt fè hans allt ok godord, þóttu þetta mikil tídindi ok horfdist til stórvanda. En eptir þíngit kvam Sighvatr Sturluson til Saudafells, þar kvam þá ok Þorvaldr Vatnsfirdíngr ok sótti Sturla födur sinn at því at hann kvæmi sættum á med þeim Snorra ok Þorvaldi þeim er Þorvaldr mætti vel-vid una, fór Sighvatr þá sudr í Stafaholt á fund Snorra ok leitadi eptir hvernveg þat mætti verda at Snorri hefdi virdíng af málum þessum, en Þorvaldr yrdi alls sykn saka afarkostalaust, en Sturla hefdi slíka sæmd af sem hann beiddi. Sighvatr reid í Stafaholt, en bad þá Sturlo ok Þorvald rída degi sídar ok senda mann til sín ádr þeir ridu á bæinn ok sva giördu þeir, en er sendimadr Sturlu kvam í Stafaholt, bad Sighvatr þá heim rída ok sagdi Snorra í gódu skapi, lèzt vænta at vel mundi takast. Snorri gèkk út í móti þeim ok tók vid Sturlu sem frændsamligast, en vid Þorvaldi sem hann væri vin hans fyrir sakir Sturlu. Varo þá grid sett sem Snorri sá rád fyrir. Þeir varo þar tvær nætr í allgódum fagnadi, en þær urdu málalyktir sem Sturla baud [4]), at Snorri skyldi skipa einn, en Þorvaldr vera alsykn. Þat varo undirmál med þeim brædrum, at hverki skyldi giöra fè nè mannaforrád. Eptir þetta rída þeir Sighvatr í Dali, en at skilnadi vid Þorvald veitto þeir fedgar honum sæmiligar giafir, hèt Þorvaldr þá at vera slíkr vin [Sighvats sem þeir Sturla hefdu [5]) bundit med

[1]) Torfi, *A. C. St.* þ.

[2]) Snorri. sömu.

[3]) átián, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) kvad. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) Sturlu, er þeir höfdu ádr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

sèr, ádr þeir skildu í Saurbæ, [herdi Sighvatr at því at Þorvaldr skyldi [1]) selia grid Jónssonum, sva at þeir mættu sitia kyrrir í búum sínum ok var Þorvaldr þess alltregr, en þó fór þat fram ok skildust med kærleikum, tók Þorvaldr vid godordi síno ok fór heim sídan. Sturla reid til Eyafiardar med födur sínum ok var hann þann vetur á Grund med Sighvati ok Sølveig kona hans. Jón Ofeigsson brôdir Eyúlfs Kárssonar fèkk Gudrúnar dóttur Odds á Alftanesi ok var hann opt sudr þar ok var med Snorra í gódu yfirlæti.

38. Vetur þann er Sturla var á Grund lèt Jón Ofeigsson [2]) drepa tvo menn í Vídidal, þeir er verit höfdu í Grímseyarför med Sturlu. Þótti Sturlu þetta giört til fiandskapar vid sik, en Jón hafdi traust af Snorra til þessa samt annars þess er hann giördi. Af slíkum tilfellum tók heldr at yfast med þeim frændum Snorra ok Sturlu. Í þann tíma fór Þorvaldr Snorrason at Oddi Olasyni ok tók hús á honum ok var þat ord á, at hann mundi láta drepa hann, en vid bæn Steinunnar húsfreyo fèkk hann grid, ok þó med þeim kosti, at Þorvaldr giördi af honum hundrad hundrada. Þenna vetur er Sturla var á Grund lèt Þorvaldr færa vingiarnlig ord til Snorra ok eptirleitan um mágsemd ok samband ok tók Snorri því skipuliga [3]) sva at Þorvaldr þóttist skilia at Snorri mundi unna honum hinna mestu sæmda, ef hann vildi skyldr þess vera er Snorri legdi fyrir hann, hvergir sem í væro. En um varit fór Þorvaldr til Borgarfiardar ok bad Þórdísar dóttur hans, tók Snorri því vel ok var honum konan föstnud, en brúdlaupit skyldi vera í Stafaholti um haustit. Þetta var fór Sturla í bú sitt ok spurdi nokkurn grun af vinum sínum hvort Þorvaldr mundi vera iafntraustr vinr hans sem þeir hefdu vidmælzt [4]) í Dölum bádir samt ok Sighvatr.

39. Þetta var hit sama fór Snorri Sturluson sudr um heidi ok fundust þeir Þorvaldr Gissursson ok töludu mart, litlu ádr hafdi andazt Kolskèggr hinn audgi er einn var audgastr madr á Islandi,

[1]) bad Sighvatr Þorvald, *A. B. C. E.* Gr. St. Þ.

[2]) Eyúlfsson. *St.*

[3]) sæmiliga, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) hit fyrra sumarit, bæta sömu vid.

en fè allt tók eptir hann Hallveig Ormsdóttir. Þorvaldr kærdi Þat fyrir Snorra, at hann vildi setia klaustur nokkut, segir at Kolskèggr hefdi heitit at leggia Þar fè til, beiddi hann Snorra at hann skyldi eiga lut at med honum, er Þat hèr skiótast af at segia, at Þeir Þorvaldr ok Snorri bundo vinátto sína med Því móti at Gissur son Þorvaldar skyldi fá Ingibiargar dóttur Snorra, en Þorvaldr skyldi eiga lut at vid Hallveigo Ormsdóttur, at hon giördi fèlag vid Snorra ok færi til bús med honum, en brúdlaup skyldi vera í Reykiaholti um haustit Þeirra Gissurar ok Ingibiargar. Eptir Þetta kaupir Þorvaldr Videy ok var Þar efnat til klausturs, [en Þat var sett [1]) vetri sídar, var Þorvaldr Þá vígdr til kanúka. Annat sumar ádr Þetta var kvam út á Eyrum [2]) Loptr biskupsson ok fór fyrst austr yfir ár, en med Því hann var hèradssekr sudr Þar, en kvam Þó vetri sídar [3]) út en mælt var, Þá treystist hann ekki at vera sudr Þar ok fór hann Þá vestr til Borgarfiardar á fund Snorra ok baud hann Lopti til sín ok var hann Þann vetur í Stafaholti, en um varit giördu Þeir Snorri ok Þorlákr módurbródir Lopts ok Kètill son Þorláks Þat rád fyrir Lopti at hann tók vid Stad í Hítardal, en Kètill keypti land í Skardi at Lopti vid verdi. Settist Loptr Þá í Hítardal ok hafdi Þar bú sæmiligt, kalladist hann Þá hinn mesti vin Snorra [ok allra mála hans [4]). Þetta var er nú var frásagt andadist Þóra [5]) fridla Þórdar [6]) Sturlosonar, en hann tók til sín Valgèrdi dóttur Arna or Tialdanesi ok giördi brúdlaup til hennar um sumarit. I Þenna tíma var heldr fátt med Þeim brædrum Þórdi ok Snorra, vard Þeim til um módurarf sinn. Gudny hafdi andazt med Snorra, tók hann alla gripi Þá er hon hafdi átt ok var Þat mikit fè, en hon hafdi gèfit ádr allt fèit Sturlu syni Þórdar fóstra sínum, en Sighvatr tók til sín Glerárskóga er honum varo nærstir. En Þetta sumar fyrir Þíng sendi Snorri ord Þórdi bródur sínum ok baud honum heim af Þíngi ok kvadst vilia at Þeir legdu nidr alla fæd med sèr, en tækio upp ástúdar frændsemi. Kvam

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) vantar í *C. St.*

[3]) fyrr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) vantar í sömu.

[6]) Snorra. *B. E. Gr.*

Þórdr at þíngi [1]) í Stafaholt, var Snorri þá allkátr ok kvad þá brædur aldrei skyldu deila um fè, en med því at þá tók heldr at fættast med þeim Sturlu [2]) ok Snorra, þá spurdi Snorri Þórd, hve lengi hann ætladi at Sturla Sighvatsson skyldi sitia yfir sæmdum þeirra, en þat mælti hann til Snorrúnga godords er átt hafdi fadir þeirra Sturla, en Sighvatr hafdi einn medfarit, en fengit þá Sturlu til kvanarmundar. Þórdr svarar ok kvad Bödvar son sinn hafa gnógt mannaforrád út þar í sveit, en lèzt eiga adra sonu únga ok úskírgètna [3]), ok kvad úsynt at þeir yrdu til þess færir at hafa mannaforrád, en þó kvam sva, at Þórdr bad Snorra siá fyrir um slík tilköll, en þar vard ekki af á því sumri. Þá er Þórdr Sturluson var í Stafaholti kvamo þeir Rafnssynir á nádir Snorra, en hann sá þat rád fyrir, at Sveinbiörn ok Grímr rido til þíngs med godord þeirra ok fèkk hann þá Þórdi bródur sínum ok voro þeir med honum um þíngit ok Helgi ok Þórarinn Sveinsson, en Einar ok Krákr fóro vestr med sveit þeirri er þeir höfdu vestan. Þetta sumar kvam Þórdr snimma á þíngit ok tialdadi hladbúd er fylgdi Snorrúnga godordi, en Sturla tialdadi Saurbæíngabúd ok var þá skipuliga med þeim frændum á því sumri. Þorvaldr Snorrason [4]) kvam upp at dómum ok fiölmennr. Um sumarit eptir midt sumar kvam skip í Hvítá, þar kvam út Jón Murti Snorrason, [þá var hann tvítugr [5]) ok Kolbeinn Arnórsson fimtán vetra ok Jatgeir skáld, Arni Óreyda ok Kygribeörn ok margir adrir íslenzkir menn, þá var þegar giört fiárskipti þeirra Arna ok Haliberu Snorradóttur, lèt Snorri sèr ekki líka annat en hon hefdi Brautarholt or skipti, en Arni keypti Saurbæ á Kialarnesi.

40. Magnús biskup fór þetta sumar yfir Vestfirdínga fiórdúng, en þann tíma sem hann var í Dölum hafdi Snorri inni brúdlaup þeirra Gissurar Þorvalzsonar ok Ingibiargar dóttur Snorra í Reykiaholti, því at honum var þángat hægast til at sækia, en Þorvaldr vildi fyrir hvörn mun at hann væri þar at brúdlaupinu.

1) er hann fór af þíngi, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) Sighvati, sömu.

3) úskilgètna. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) Vatnsfirdíngr, bæta sömu vid.

5) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

Þar var ok Þórdr Sturluson ok hit bezta mannval um Borgarfiörd ok sunnan med Þorvaldi, var þar hin virdugligasta veizla ok med hinum bestu faungum er til varo á Islandi. En litlu fyrir brúdlaupit hafdi Snorri heim Hallveigo Ormsdóttur ok giördi vid hana helmíngafèlag, en tók heim til vardveizlo fè sona hennar Klængs ok Orms átta hundrud hundrada, hafdi Snorri þá meira fè en nokkur madr annar á Islandi, en ekki hafdi hann rád Þórdar bródur síns vid þetta, ok sagdi Þórdr sva, at hann lèzt ugga at hèraf mundi honum aflurtíla leida hvort sem yrdi at skada vötn edr menn. Sídar um haustit sótti Þorvaldr Snorrason brúdlaup í Stafaholti ok var sú veizla hin vegligasta Eptir þat fór Þorvaldr heim í Vatnsfiörd ok fann ei Sturlo vin sinn [er verit hafdi [1]) í þessari ferd. En at veturnáttum fór Þorvaldr út á Eyri í Arnarfiörd, en Rafnssynir stukku undan fyrst í Mosdal ok varo þar á laun í Skógum, en Þorvaldr tók upp búit á Eyri ok leggr giöld á alla þíngmenn þeirra ok kastadi sinni eign á marga þíngmenn Rafnssona. En er Rafnssynir frètto þetta fara þeir sudr yfir Breidafiörd, fyrst á Eyri til Þórdar Sturlusonar, ok rèd hann þeim at fara til Helgafells á fund Halls ábóta er verit hafdi mágr þeirra, var Sveinbeörn þar um vetrinn, en Einar á Eyri med Gudrúno födursystir þeirra, en Grímr ok Krákr varo í Flatey.

41. Eptir Grímseyarför lèt Sturla Sighvatsson sækia Aron Hiörleifsson til sektar, en sídan var hann med frændum sínum í Vestfiördum ok lengst med Rafnssonum, þartil er Sturla lèt búa mál á hendr honum ok þeim um biargir vid hann, en þá handsaladi Stadar-Bödvar [2]) fyrir þá á þíngi ok galdt tíu hundrud ok eptir þat vörndust menn at innhysa hann, var hann þá í leynum hèr ok hvar, hann var laungum á Geirþiófsfiardareyri med litlum bónda er Þórarinn hèt, en er Sturla hafdi grun af því sendi hann vestr í fiördo Rögnvald Kársson, Þorvald [3]) Sveinsson ok Dansa-Berg, þrír varo þeir saman. Þetta var þat haust hit sama er nú var ádr frásagt. Sturla sendi ok Ingimund Jónsson vestr [4]) til

[1]) vantar í *C. E. Gr.*
[2]) Þórdr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[3]) Þorvard. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[4]) í Eyri, bæta sömu vid.

Arnarfiardar at leita eptir Aroni. Aron var þá á Eyri í Geirþiófsfirdi ok var í nausti ok giördi at báti Þórarins, hann fann ei fyrr til en menn tveir vapnadir gengo at naustino ok suèro inn er þeir sáu manninn. Aron heilsadi þeim ok spurdi hverir þeir væro. Annar nefndist Egill digri, hann hafdi ætlat at finna Aron, en annar hèt Sigurdr, þeir höfdu verit med biskupi bádir ok sögdust vera heimamenn í Vatnsfirdi Aron tók til eggsar, því Þorvaldr var eingi vin Arons, brynia hèkk á skipstafninum ok tók Sigurdr til hennar ok fer í. Aroni hvarfladi hugrinn ok hugsadi hve lengi hann skyldi bída þeirra. Sigurdr frètti hvört hann spyrdi eingar mannaferdir? Eingar nema þid segit, segir Aron. Heyrdum vid, segia þeir, at menn Sturlu væro hèr í firdi ok niósnudo um ferdir þínar. Vera má sva, segir Aron, þvíat mik dreymdi Gudmund biskup ok lagdi hann yfir mik skikkio sína. Egill bad þá fara leid sína. Sigurdr sá út ok mælti: menn rída þar þrír innan med firdi ok mano þykkiast ei úvígligir. Ekki mano þeir vígligri en vèr, segir Aron, ef vèr veitumst [1]) vel, en ei veit ek til hvörs ek má um þat ætla. Sigurdr mælti: drengsbragd er þat at skiliast ei vid þik, en ei veit ek hve Egli er umgèfit. Eigi man ek renna frá þèr, segir Egill. Þá ætladi Sigurdr af bryniomni. Aron mælti: far ei af bryniomni ef þú vilt mèr veita. Sídan geingo þeir út, ok í því ridu þeir Rögnvaldr á völlinn ok liópo af baki ok snèro á midli þeirra ok húsanna, gengust þeir þá í mót, var Egill [2]) þeirra mestr ok gèkk í milli, [snyr Rögnvaldr í móti honum [3]), hann var bryniadr [4]) ok hafdi hálsbiörg vid stálhúfuna ok særdi Egill hann á fæti. Sigurdr snyr á móti Dansa-Bergi, en Aron á móti Þorvaldi ok hrökkr Þorvaldr þar fyrir, en Rögnvaldr vann á Egli, þá har Aron þar at ok laust hann med hamri eggsarinnar aptan á stálhúfuna ok steyptist húfan fram fyrir andlitit, bar hálsbiörgina upp af bryniomni ok beradi hálsinn á midli, snèri Aron þá eggsinni í hendi sèr ok hió á hálsinn, sva at afiók höfudit. Sigurdr var ok sár ordinn. Þeir Þorvaldr runnu þá til hestanna

[1]) veriumst. *B. E. Gr.*

[2]) Rögnvaldr. *B. C. Gr. St.*

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[4]) berbryniadr. *A. C. St. Þ.* berbríngadr. *B. E. Gr.*

ok kvamst hann á bak ok keyrdi hestinn undir Bergi, en hann lá á grúfu í södlinum, þar þá sva upp á leitit. Aron rann eptir þeim, en er Þorvaldr sá þat kalladi hann ok mælti: upp þar [1]) Sturla, hèr rennr Aron eptir okkur. Þá nam Aron stadar, en þeir drógu undan. Sídan fór Aron aptr ok fletti Rögnvald vapnum ok klædum ok flutti hann sídan út á sió ok sökti honum þar nidr. Þeir Sigurdr ok Egill varo á Eyri ok varo þar grœddir, fóru sídan heim í Vatnsfiörd, ok lèt Þorvaldr ei illa yfir þeirra för. Aron stökk þá til Bardastrandar ok var í helli í Arnarbælisdal á kost kono þeirrar er bió í Túngumúla. Um haustit tók Aron skip fyrir Jóni Audunarsyni at Vadli ok fór á því sudr yfir Breidafiörd vid annan mann, sídan hratt hann út skipino ok rak þat á Eyri til Þórdar. Aron var þá um haustit í ymsum stödum sudr þar, kvam þá til hans Hafþór módurbródir hans. Um haustit fór Sturla út til Helgafells at finna Hall ábóta ok med honum Vígfús Ivarsson ok Kolbeinn [2]) Jónsson ok Þorkötlu dóttur Þorgeirs frá Brunná ok var hon á Eyri med Þórdi, en Aron var í skógi út frá Vatnshamri [3]), en þeir Sturla ridu þar um, vildi Aron leita á þá [er þeir varo þrír hverir [4]), en Hafþór hèllt honum, þeir Sturla urdu ekki vidvarir. Sturla sendi Beörn frá Eyri at niósna um Aron ef hann væri þar í sveit. Þat var sídar um haustit, at Sturla hafdi niósn af at Aron væri at Vatnshamri [á kosti Vígfúsar er þar bió, reid Sturla þá út á strönd med fimtán menn, þá var Aron á Vatnshamri [5]) ok þeir Hafþór tveir ok varo í saudahúsi á vellinum. Þeir Sturla ridu at bænum ok vard um háreysti mikit, en þá var myrkt, tóko þeir af hestum sínum ok fóro inn, var þá liós giört í stofu. Eyrekkr Birkibeinn var þá miök nykvaminn til Sturlu ok var umrenníngr, gèkk hann út ok inn ok niósnadi hvers hann yrdi vís. Þeir Aron giördu þat rád, at Hafþór skyldi fara heim ok niósna hvat kvamit væri, hann fór hliódliga á bak húsum, en hlidskiár var á stofo ok lagdi hann þar vid hlustina, þá kvam Eyrekkr Birkibeinn ok hió á adra kinn honum ok var þat bana-

1) þèr. *A. B. C. E Gr. St.* þ.

2) Kolbiörn. sömu.

3) Valshamri. sömu.

4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) vantar í sömu.

sár, lióp Eyrekkr þá inn ok segir at hann hefdi drepit einn fiandann, liópu þeir þá til vapna ok út. Aron hafdi þá gengit heim at nióna um Hafþór, var hann þá kvaminn á völlinn ok miök at húsunum er þeir Sturla kvamo út ok fengo þeir slegit um hann ríng. Sturla lióp á hest, Aron leitadi af túnino til árinnar, því Sturlu mönnum syndist sem lysu nokkurri brygdi fyrir hamarinn ok lito þeir þar til. Aron lióp þá at Kolbeini ok hió til hans med saxino Tumanaut [1]) ok brá ekki, Beörn rasadi vid, en Aron lióp af túnino ok yfir ána ok hvarf þeim þar í myrkrino, hann lióp sudr yfir heidi ok lètti ei fyrr en hann kvam til Raudamels til módur sinnar ok var miök þrekadr. Þeir Sturla fóro brott ok hafdi hann siálfdæmi af Vígfúsi ok giördi Sturla af honum [tuttugu hundrud eyar þær er heita Valshamarseyar [2]), en Beörn laust hann eggsarhamarshögg, fór Sturla heim eptir þat, en Aron sudr um heidi, sem ritat var, ok dvaldist á Raudamel til þess hann var fær, sídan fór hann í Eyarepp ok var hann á Berserkseyri med Halldóri Arnasyni [3]), þar var fridla Hiörleifs födur hans ok fundust þeir þar opt fedgar. Þá kvam til Arons Starkadr Biarnason er Kiapti var kalladr ok fór hann sudr fyrir iól í sveit ok voro þeir Aron hèr ok hvar á laun. En á iólum segir Aron, at hann vildi at þeir sæto um Sigmund Snaga er hèr er settr til höfuds mèr; hann beó á Eydihúsum út frá Fáskrúdarbakka. Þeir Aron voro hinn fimnda dag ióla í stakkgardi einom, en þadan skamt var annar gardr er Sigmundr færdi hey or ok annar madr ok vildi Aron ei á hann leita, en um kvöldit er nidmyrkt var á fóro þeir heim til Eydihúsa, var Aron úti hiá durum ok stód vid kampinn er hladinn var af vegginum. Starkadr fór inn ok kvaddi sèr greida. Sigmundr var einn karla heima ok hafdi háttat í dagsliósi, þvíat friádagr var. Helga fridla Sigmundar kvad ekki vott [4]) inni, en börn vildu drekka. Sigmundr bad fá sèr skiólu ok lèzt mundi taka vatn. Starkadr baud at fara med honum, hann iátti því, gengu þeir þá til dura. Starkadr var hámæltr ok bad Sigmund

[1]) vantar í *B. E. Gr.*

[2]) tuttugu hundrada eyar, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[3]) Eyrekssyni Arnasonar, *A. B. C. Gr. St. Þ.*

[4]) vatn, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

gánga fyrir. En er hann kvam út or durunum lagdi Aron í gègnum hann med saxino Tumanant, var þat banasár. Sídan fóro þeir ok ráku fólk allt í stofo ok bioggo búi sem þeim líkadi ok varo þeir þar médan myrkt var, ok fóro sídan í brott sudr í hraun til Raudamels ok varo þar um ríd. Sídan for Aron sudr á Hvalsnes til Þorsteins ok var þar um ríd, þadan fór hann í Odda til Haralds Sæmundarsonar ok var þar í skjóli um stund. Haraldr kvam Aroni utan, fór hann á fund Hákonar konungs, sídan fór hann til Jórsala ok aptr til Noregs, ok giördi Hákon konúngr hann þá hirdmann sinn. Sva segir Olafr Hvítaskáld:

Fór sá er fremd ok tíri
flein fyrir gat [1]) styra,
mest lofak mikla hreysti
manns, Jórsali at kanna.
Nafn rak út hid [2]) ytra
Jordan med þrek stóran
skialdarfreyr hinn skíri
skógarmadr [3]) at gnógo.

42. Þórdr Sturluson hafdi keypt land í Hvammi at Sturlu Sighvatssyni, en Sturla hafdi haft af Svertíngi Þorleifssyni ok goldit ekki fè fyrir, en þá skyldi Þórdr gánga í skuld vid [4]) hann, en sídan seldi Þórdr landit Gunnsteini Hallssyni, en hann beó tvo vetur ok galdt ekki fyrir, enda vildi Þórdr þá ei annat en taka vid landino, en Gunnsteini var ekki um þat. Þórdr fór þá til Hvamms um varit, en Gunnsteinn fór þá til Brunnár ok beó þar ádr en hann keypti Garpsdal. Þetta var fundust þeir Sturla Sighvatsson ok Hallr ábóti at Vördufelli. Þá bad ábóti fyrir Rafnssono at Sturla skyldi taka vid þeim ok halda fyrir Þorvaldi, en hafa slíkt af eignum þeirra er honum líkadi. Sturla tók vid þeim fyrir ord ábóta at þeim kosti at hann tók vid godordi þeirra sèr til eignar, en skyldi veita þeim til sætta þeirra er ábóta ok ödrum vitrum mönnum þætti þeir mega vid una. Um varit er Þórdr Sturluson

1) nam. *A. B. C. Gr St* þ.
2) vid. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) skógarmanns. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) fyrir. sömu.

kvam búi síno í Hvamm, lèt Sturla efna til virkis í Dölum sem enn sèr stad, safnadi hann þar til mönnum um dali ok hafdi þar fyrir allmikit verk [1]) ok kostnad. Þetta sumar reid hvergi þeirra til þíngs frænda ok hafdi Þórdr ok húsastarf mikit í Hvammi, fátt var med þeim frændum þá, þvíat Sturlu þótti sem þeir Snorri mundo bádir at honum setiast er þá hafdi uppkvamit godords tilkallit af Snorra. Um sumarit fór Snorri at heimbodi í Hvamm med þriátygi [2]) manna, en þann dag er hann ætladi heim af heimbodi kvam þar Ingimundr Skídúngr or Dölum handan ok sá menn ekki eyrindi hans, var mönnum grunr á hvört Sturla mundi ei vilia finna Snorra er hann færi sudr, því reid Þórdr med honum vid adra þriátygi menn upp undir Sópandaskard, en Sturla sat heima ok [giördi eingan gyss á sèr [3]) ok hafdi þó heldr fiölmennt.

43. Ríki Þorvaldar Vatnsfirdíngs giördist sva mikit í þenna tíma, at hverki Rafnssynir nè Jónssynir mátto vera fyrir vestan Gilsfiörd fyrir honum, voro Rafnssynir med Sturlu, sem ádr er ritat, Ingimundr Jónsson var ok þar med Sturlu, en Brandr í Midfirdi edr at Fiallsenda ok stundum at Saudafelli. Ingimundr hafdi bedit Jóreidar Hallsdóttur, en hon vildi ekki giptast, [þvíat hon vildi ei ráda fè undan dóttur sinni [4]). En vetur þann er Þórdr beó fyrstan í Hvammi fór Sturla med Ingimund ok nam Jóreidi frá búino yfir til Saudafells, leitadi Sturla þá eptir ef hon vildi giptast Ingimundi, en med því ekki fèkkst af henni vid þat ok hon vildi ekki mat eta þar, þá lèt Sturla hana heim fara, en þetta líkadi stórilla vinum hennar ok frændum. Páll prestr beó þá á Stadarhóli bródir hennar, hann var hinn mesti vin Þórdar Sturlusonar ok sótti hann at þessu máli. Um sumarit eptir fiölmennto þeir allir til Þíngs [5]), Snorri ok Sturla, Þórdr ok Bödvar son hans, Þorvaldr Vatnsfirdíngr ok Sighvatr nordan, kvam þá upp godords tilkallit af þeim brædrum vid Sturlu, þá tók Snorri vid Jóreidar málum, þá lysti Jón Murti hernadarsök á hendr Sturlu, fleiri menn

[1]) starf, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) tuttugu, sömu.
[3]) guss. *E. Gr.* lèt sik þó ei merkia edr neitt á sèr festa. *A. C. St.* Þ.
[4]) vantar í *A. C. St.* Þ.
[5]) alþings. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

varo þar fyrir málum hafdir, horfdist þá til hinnar mesto deilo med þeim, Sturla lèt þá leita eptir vid Þorvald Vatnsfirdíng, hvört lid hann vildi honum veita, eptir því sem þeir höfdu bundit í Dölum. En Þorvaldr svarar sva Þorvaldi Gissurssyni er þetta mál flutti, at hann vildi veita Sturlu allt slíkt er hann hefdi honum veitt [1]), ef hann vildi leggia á Snorra dóm öll sín mál, en hann segir, at hann mundi aldrei skiliast vid Snorra, ef Sturla vill ei unna honum siálfdæmis. Þá fór Þorvaldr á fund Sturlu ok segir honum svör nafna síns. Sturla mælti: ei man ek hafa rád Þorvaldar um þetta at selia Snorra siálfdæmi, fadir minn skal vera fyrir þessu máli ok siá lut mèr til handa, þvíat hann lèt godord þetta kvama mèr til handa, ok þykiumst ek vid hann eiga ef ek missi nokkurs, en ek vil at þú farir á fund Snorra ok beidir at hann eigi lut at vid Þorvald at vèr semium mál hans ok Rafnssona ok greidum þeim or vorum málum, þvíat þau eru sár, ok mættu þeir sættir verda. Þá fór Þorvaldr á fund Snorra sem Sturla bad, en Snorri svarar sva: eingi efni hefir Þorvaldr til þess at bæta sakir þessar allar, verdr hann nú at veriast Rafnssonum eptir því sem audit má verda, ok vard ekki af þessum sættum, en Sturla lèt reka heim hesta sína ok reid af þíngi fyrir dóma ok gisti í Reykiaholti, fór sídan heim í Dali, en Sighvatr Sturluson handsaladi fyrir Jóreidar mál, en Magnús biskup giördi tuttugu hundrud. Ei var samit um godordsmálit á því sumri med þeim frændum.

44. Kolbeinn son Arnórs Tumasonar er sídan var kalladr Kolbeinn úngi kvam út í Hvítá, sem fyrr var ritat, fór hann um haustit nordr til Eyafiardar ok var um vetrinn med Sighvati mági sínum á Grund, en um varit fór Sighvatr til Skagafiardar ok leitadi vid þíngmenn hans at þeir skyldo giöra honum bú, ok vikust menn vel undir þat, var honum giört bú í Asi í Hegranesi ok giördist hann skiótt ofsamadr mikill [2]) ok vænn til höfdíngia. Sighvatr rèd mestu med honum medan hann var úngr. Sumar þetta var íllt ok votvidrasamt ok kvamo vída eldar upp or siónum fyrir Reykia-

[1]) heitit, *C*, *St*, Þ.

[2]) þótti, bæta vid *A*, *B*, *C*, *E*, *Gr*, *St*, Þ.

nesi. Þá kvam skip í Rútafiörd ok var þar á Gudmundr biskup ok fór heim til stóls síns. Þeir frændr Þórdr ok Sturla fuudust vid skip ok fór þá skipuliga med þeim, átu ok drukku bádir samt ok tók sinn austmann hver þeirra, fór í Hvamm Bárdr Gardabriótr [sonr Þorsteins Kúgads [1]), en Bárdr Trèbót til Saudafells med Sturlo.

45. At Hiardarholti beó þá Dugfús Þorleifsson, hann þótti þá mestr bóndi í Dölum, hann átti Höllo Biarnadóttur [2]). Synir þeirra varo þeir Svarthöfdi ok Beörn Drumbr, Kægil-Beörn [3]) ok Kolbeinn Grön. I Skoravík beó þá Þorgils Snorrason, honum kèndi barn skillítil kona er Gudbiörg hèt, en hann gèkk ei vid, en hon sótti Dugfús at þessu máli. Þat þókti þeim Strendunum miök hædiligt ok giördu spott at. En um sumarit fór Dugfús ok med honum Biarni Arnason fylgdarmadr hans ok nokkrir menn adrir í Skoravík ok tóko Þórgils í hvílo ok drógu hann út ok hèto honum fóthöggi ef hann lèti ei Dugfús einn ráda þeirra á milli. Þórgils vildi ei kúgast, þar til Þorkèll Fánakèli Austmadr taladi um fyrir honum ok bad hann leysa limo sína, fór þat þá fram, at hann seldi siálfdæmi ok skildu at vid þat. Þá beó í Asgardi Þióstar Austmadr, hann hafdi sellt Biarna Arnasyni varning til tveggia hundrada [4]) ok var ekki fyrir goldit, ok svarar Biarni illa þá er hann heimti. Þeir varo at bodi í Höfn er Sveinn Snorrasòn kvangadist, þá heimti Þióstar enn at Biarna skuldina, en Biarni svarar ílla. Þióstar var vel stilltr ok sagdi slíkt smá rída [5]). Dugfús spurdi Biarna hversu farit hefdi med þeim? Biarni svarar: lifa vildi Þióstar nú er hann heimti vel ok stilliliga. Um vetrinn midli ióla ok fösto fóru þeir Dugfús ok Biarni í eyar út eptir skreid ok gistu í Höfn er þeir fóru utan. Þá kvam þar Þorgrímr bóndi Þórdarson [6]) af Kètilstödum ok segir at hann hefdi kvamit á mannaspor er gengit hefdu inn hit efra. Hallbera húsfreya segir

[1]) vantar í *A. C. St. Þ.*

[2]) Bárdardóttur. *B. Gr.*

[3]) Kegil-Biörn. *B. E. Gr.* Kètilbiörn. *A. C. St. Þ.*

[4]) hálfs annars hundrads. *Gr.*

[5]) í slíku smátt rída. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[6]) vantar í sömu.

þat Dugfúsi ok kvad verit mundo hafa þórgils. Dugfús kvad þórgils vita, at þórdr móđurbródir hans var í Hvammi, en Sturla at Saudafelli frændi hans ok segir honum slíkt ofrád. þórgils hafdi farit utan ok med honum þrír Erlíngssynir Gudmundr ok Biarni ok Hallkèll ok Húnbogi Hauksson hinn fimti. þeir fóro inn í Asgard ok rèdst þióstar med þeim til ferdar at þeim kosti at þeir festo honum at giöra Dugfúsi ekki mein, en búa vid Biarna sem þeim líkadi. þeir fóro út ok settust í Víkíngsgil útfrá Skarfsstödum. Hallbera húsfreya lèt alla heimamenn sína fara med Dugfúsi á leid. þar varo þórgils ok Oddr synir hennar, [þorkèll ok Húnbogi húskarlar hennar [1]) ok Asbiörn hinn blindi ok konor. þat bar saman er þeir Hafnarmenn hurfo aptr ok þeir þórgils lupu upp fyrir þeim, þá liópo þeir Dugfús fyrir þeim undan ok vildo til saudahúsa ok liópo þá hvorir sem mátto ok fundust miök iafnsnimma. Dugfús laust til þióstars ok kvam á stálhúfubardit ok sva í andlitit. Eptir þat lióp þióstar at Biarna ok haldast þeir á, en Dugfús höggr til þórgils nokkur högg ok beit ekki á, þvíat hann var vafdr lèreptom. þá rennast þeir á ok verdr þúfa fyrir fótum þórgilsi ok fellr hann ok Dugfús á hann ofan. Asbiörn hinn blindi hèldt Gudmundi Erlíngssyni ok öllum var haldit förunautum þórgils af mönnum Hallbero, en Oddr sonr hennr var sudr í Hvammi [2]) at segia þórdi. þorkèll húskarl or Höfn var laus, honum baud Dugfús framfærslu ok syni hans til þess at hann fengi honum eggsi sína, en hann vildi þat ekki [3]). Gudmundr Erlíngsson færdist þángat at er hinn blindi madr hèllt um hann midian, en hendr hans voru lausar. Hann fèkk brugdit sverdi ok hió á *fót* [4]) Dugfúsi tvö högg ok varo þat mikil sár. Sídan fèkk Asbiörn hann brottdregit, en þeir Dugfús kvamust þá til eggsarinnar ok fèkk Dugfús brotit skaptit vid augat, ok snèri þá upp egginni. þá mæddi Dugfús blódrás, ok kvamst þórgils upp ok þægdi honum á eggsar eggina, vard hann þá sár á baki ok úvígr. þá kastadi

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[2]) sendr i Hvamm, *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[3]) þá bad hann þórgils Oddsson, en hann vildi ei, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[4]) vantar í *B. E. Gr.*

Þióstar ordum á Þórgils ok mælti: deya vildi Biarni nú Þórgils. Hann lióp þá til ok lagdi spióti medal herda honum ok kvam út um bríóstit. Fleiri hafdi hann sár ádr hann fèll. Þá kvam at Þorsteinn Austfirdíngr heimamadr Þióstars ok ætladi at höggva til Dugfúsar, en Þióstar bannadi honum þat, þá hió hann í höfud Biarna, ok var þat hans banasár. Eptir þat fóro þeir í brott ofan til siáfar ok sva inn hit nedra, en Þórdr Sturluson ok heimamenn hans fóru hit efra, ok urdo hvorigir varir vid adra. Þórdr kvam á vettváng [1]) ok lèt bera Dugfús heim til sín ok var hann þar græddr. Þeir Þióstar fóru í Asgard ok átu þar mat, sídan fóro þeir yfir til Dala átta saman, er Olafr Bryniúlfsson ok Þorsteinn varo tilkvamnir. Þeir kvamo til Saudafells, þá er Sturla var mettr at náttverdi ok kölludu út Torfa prest Gudmundarson ok sendu hann til Sturlu at bidia hann ásiár. En er Torfi prestr segir Sturlu áverkann á Dugfúsi var hann hinn beiskasti ok segir þá diarfa er þeir dirfdist þángat at fara, ok bad þá verda í bróttu adra; en Þióstar bad hann eptir vera ef hann vildi, en Þióstar vildi þat ekki, ok fóro þeir allir sudr med fialli ok ætludu austr á Sídu til Orms Svínfellíngs, hann var vin Þióstars, en Torfi prestr bad fyrir þeim vid Sturlu ok flutti þat, at þar mundi eptir fara hollusta Gudmundar undir Fialli mágs Þórgils ok annara Strenda, kvad þá sva mundi skipta trúnadi med þeim Þórdi frændum sem hann gæfist nú Þórgilsi. Þá fór sva at [Sturla bad Torfa rída [2]) eptir þeim, ok kvamo þeir aptr um náttina. Um myrgininn fór Sturla med átián [3]) menn inní Asgard ok myrgininn eptir í Hvamm, kvamo þar þá synir Dugfúsar ok margir Laxdælir, varo þeir þá sáttir giörvir at því at þeir frændr Þórdr ok Sturla skyldo giöra í midli þeirra, ok giördu þeir sextíu [4]) hundrud fyrir áverka Dugfúsar á hendr Þórgilsi, en tuttugu hundrud fyrir víg Biarna, ok skyldi Þióstar þat gialda at helmíngi. Þórgils skyldi ok vera hèradssekr af Strönd ok var hann í Öxneyo [5]) hin nærsto misseri.

[1]) vætfáng. *E.* vettfáng. *A. B. C. Gr. St.* Þ.

[2]) Torfi prestr reid. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) sextán. *B. Gr.* fiórtan. *A. C. E. St.* Þ.

[4]) fiörutíu. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) Öxneyri. *B. C. E.*

Eptir þat keypti Dugfús Baugstadi ok rèdst þángat, en Þórgils gaf þá eingan gaum at hèradssektinni. Þetta kvad Amundi [1]) Smidr Arnason:

Sitt rèd selea
saudaudigt [2]) land
fiölsvidr [3]) flosi
fús Dugfúsi.
Nú hefir keypta
kvalrádr fala
geirs glymstærir
gladr Baugstadi.

Þá er tídindi þessi kvamo í Reykiaholt um áverka vid Dugfús ok sættirnar, var þar kvedin vísa þessi:

Els vard mynd á málum
meir á hann skyldt til þeirra
stála hiarls en Sturlu
strá reifandi skeifo.
Seggr vard samr at þiggia
sárbætr, en þímætir
margr verdr hræddr um hodda
halld en [4]) tregr at giallda.

Þessi vetur var kalladr saudvetur ok var fellivetur mikill, þá dó hundrad nauta fyrir Snorra Sturlusyni í Svignaskardi. Snorri hafdi um vetrinn ióladrykkio eptir norrænum sid, þar var mannmart, þar var Jón ok Urækia synir Snorra ok synir Hallveigar Klængr ok Ormr ok synir Þórdar Sturlusonar Olafr ok Sturla, Þórdr son Þorvaldar Vatnsfirdíngs, Sigurdr Ormsson bródir Hallveigar, Sturla Bárdarson, Styrmir Þórisson or Goddölum, Bárdr hinn úngi [hirdmadr bródir Dags [5]) er átti dóttir Dagfinns lögmanns, ok margir adrir gódir menn. Þá var fæd mikil med þeim Sturlu frændum, hafdi hann ok [6]) mannmart.

[1]) Önundr. *A.* þ. Ögmundr. *C. St.*

[2]) sandaudigt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) fiölsnídr. *A. B. C. Gr. St.* þ. fullsnidr. *E.*

[4]) haldinn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) vantar í sömu.

[6]) ok höfdu hvarirtveggio. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

46. Um varit eptir hafdi Þórdr uppi Þórnessþíng [1]) sem þeir höfdu rád fyrir giört brædur, ok sendi Snorri Jón son sinn vid siöunda mann ok höfdu einn hest. Þá tók Þórdr upp Snorrúnga godord er var erfda godord Sturlúnga, ok tók Jón vid tveim lutum, en Þórdr hafdi þridiúng. Þetta líkadi Sturlo Sighvatssyni allþúngt ok sat hann heima um þíngit. Leid sva fram til alþíngis. Snorri reid til þíngs eptir vanda med fiölmenni. Þórdr kvaddi nokkra menn til þíngreidar ok ætladi ekki til öndverds þíngs, en sendi Sturlu son sinn til Snorra med godord sín, iónsmessu. Um þíngit stefndi Sturla at sèr mönnum, varo þeir á fiórda tugi, þar voro tveir synir Rafns Sveinbiörn ok Einar, Arni Audunarson, Ingimundr ok Skídi brædur [2]), Lauga-Snorri, Asbiörn ok Eyúlfr brædur, Þórgils ok Birníngr brædur, Vígfús Ivarsson ok Eyrekkr Birkibeinn, ok enn varo fleiri heimamenn ok umsitèndr. Sturla snyr inn til fiöro, þá spurdi Sveinbeörn Rafnsson hvert hann ætladi? Hann lèzt ætla inn í Hvamm, þeir löttu þess flestir. Sturla kvad ei þurfa letia sik, þvíat ek vil at ei talist Þórdr nú einn vid um Snorrúnga godord sem á Þórnessþíngi [3]), en eingi minna manna vil ek at mein giöri Þórdi födurbródur mínum edr sonum hans edr Ingimundi Jónssyni, en ráda vil ek at sinni. I Hvammi var fyrir mart manna med Þórdi, Olafr son hans, Ingimundr Jónsson, [Bárdr Gardbriótr, Páll ok Magnús brædur, Hallvardr Þórkèlsson, Einar Naut [4]). Páll vakti ok annar madr ok sáto á virkisvegg fyrir lopts durum. Þeir siá ei fyrr en þeir Sturla rido í Hvammsdalsgèrdi, vöktu þeir menn upp ok ráko aptr hurdir. Þeir Sturla kölludu at loptino ok segia, at Sturla vildi finna Þórd, en þagat var í mót. Þórdr ræddi at menn skyldo gánga út, en Ingimundr kvad þat ei rád vera, segir vera lidsmun ok búníngsmun. En er þeir Sturla fengo eingi svör tóko þeir hlöduás ok báru at durum ok bruto upp dyrnar, þeir luko aptr skálanum er þar varo í anddyrum, Þorkèll prestr, Olafr Bryniúlfsson ok Þorsteinn Fimbogason; þeir Vígfús Ivarsson ok Skídi Þórdarson [5]) gengo fyrstir inn

[1]) Þíngnessþíng. *A. C. E.* þ.

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) Þíngnessþíngi. *A. C. E.* þ.

[4]) ok margir adrir röskir menn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) Þorsteinsson. *B. E. Gr.*

ok sídan hver at ödrum. Þorsteinn Fimbogason hörfadi í anddyri fyrir kamarsdur, ok særdu þeir hann mörgum sárum. En þeir prestr ok Olafr Bryniúlfsson hörfudu í stofo ok gengo þeir Lauga-Snorri ok brædur hans sex saman í stofuna, vann Snorri á Olafi ok lagdi sverdi því er Hákon iarl Galinn hafdi sent Snorra Sturlusyni í óst Olafi ok rauf á barkanum, hann hió ok í andlitit ok or stálhúfu bardino ok or augat ok í sundr kinnarkiálkann, hann hió ok mikit sár á fótinn, en Birningr annat, Þorvaldr [Rennari hió á [1]) hálsinn sva at sá mænuna; gengo þeir þá út ok segia Sturlu hvat í hafdi giörst ok spurdu hvort hann vildi láta gánga at skálanum. Sturla lèzt þat ei vilia, ok er ærit at giört, segir hann. Sendi hann þá Arna Audunarson til loptsins ok baud Þórdi grid ok öllum mönnum, sagdi Arni sva sídan, at honum þótti sem Sturla sæi þegar missmídi á för sinni. Þórdr gèkk út ok allir þeir er inni varo, þá varo grid sett ok mælti Olafr fyrir son Þórdar, reid Sturla þá þegar í brott ok vard eingi vidræda [2]) þeirra ok ekki um sættir talat. Þórdr reid annan dag til þíngs med sextygi [3]) manna, ok er þeir Snorri brædur fundust baud hann at fara í Dali med sva mikinn afla sem Þórdr vildi. Þórdr segir at grid stódu til midsumars. Sídan lèzt Þórdr vilia vita hver svör Sturla hefdi fyrir sèr, þá er gódgiarnir menn leitudu um sættir med þeim. Sturla sendi nordr at segia födur sínum hvat í hafdi giörzt, en Sighvatr hafdi í flemíngi ok segir sva er hann fann bændur í Eyafirdi, at sveinninn Sturla hefdi ridit í Hvamm ok kastat daus ok [4]) ás. En er þetta kvam í Reykiaholt kvad Gudmundr Galtason:

Öld [5]) segir [6]) upp at felli [7])
ás gunnvita runni
fridslit [8]) kvama flotnom [9])
fram ok daus í Hvammi.

[1]) Renn. *E.* Ren á. þ. ben á. *B. Gr. C. St.* rèri á. *A.*

[2]) vandrædi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) fiörutíu. sömu.

[4]) á. *A. C. St.* þ.

[5]) öll. *C. St.*

[6]) hefir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) fialli. sömu.

[8]) fridskil. sömu.

[9]) flokknum. *A. C. St.* þ.

Ok má af efnom slíkom
alls ekki vel falla
mèr er um mart þat ek heyri
margrætt, nema lok hætti.

47. Sumar þetta er nú var frásagt kvam nordan til alþíngis Gudmundr biskup med þriátygi manna, ok tók Snorri vid honum um þíngit med alla sína sveit. En eptir þíngit reid hann vestr til Borgarfiardar ok fór þar yfir um sumarit, dreif þá til hans mannfiöldi mikill [1]), fór hann út um Snæfellsnes ok sva inn til Dala ok fór þar ekki at gistíngum, þadan för hann í Hvammssveit ok á Strönd ok á Reykianess ok til Steingrímsfiardar ok þadan aptr til Saurbæar ok kvam á Stadarhól um haustit fyrir vetur ok hafdi þá hundrad manna. Sighvatr var þá kvaminn [2]) í Dali ok höfdu þeir Sturla sextygi manna at Saudafelli, þvíat eingar sættir höfdu ordit um sumarit med þeim Þórdi ok Sturlu. Var Þórdr þá kvaminn utan í Hvamm, en hann hafdi verit á Eyri um sumarit, höfdu þeir Bödvar sonr hans þar sextygi karla. Þeir brædur fundust í Liáskógum ok var Sighvatr hinn kátasti medan þeir töludu um hesta ok lausnartídindi. En er þeir skyldo tala um mál þeirra, mátto þeir ekki vidtalast ok skildo úsáttir. Sighvatr sendi þau ord til biskups, at hann skyldi ekki ætla sèr þat at fara nordr til sveita. Biskup var á Stadarhóli þá er hann frètti at honum var bönnud yfirferd. Var þá sendt eptir yxnum þeim er biskupi höfdu gèfnir verit nær tuttugu, varo þeir fyrst etnir. Þá fóro menn biskups til þeirra manna er farit höfdu at biskupi til Hóla ok fengo þeir mikit fè. En er leid at iólaföstu tók biskup sótt, enda mátti þá ei lengr vera ránalaust [3]). Þórdr fór þá ok baud biskupi til sín, ok vard hann því feginn ok bar Bödvar biskup í börum sudr í Hvamm, ok var hann þar til fösto. Var þá í Hvammi aldrei færra en hundrad manna alls sídan biskup kvam. Þeir Torfi prestr Gudmundarson ok Kolli Þorsteinsson [4]) fóro opt milli

[1]) en þó tóku menn vel vid honum ok gáfu honum mikit fè, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) at nordan, bæta sömu vid.

[3]) rádalaust. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) Þorsteinn Kollason, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

þeirra frænda um vetrinn at léita um sættir, ok vard samantalat fyrir fösto. Skyldi biskup fara nordr til stadar [1]) síns med þá menn sem verit höfdu í Hvammi um vetrinn, en þorlákr Kètilsson ok Bödvar [2]) skyldo giöra med þeim þórdi ok Sturlu. Fór Sighvatr þá nordr þegar, en biskup fór litlo sídar ok fann Sturlu í Hiardarholti ok sættust þeir þá í annat sinn, en þeir þórdr ok Sturla fundust á þorbergsstödum ok sættust þar. Var nú kyrt um vetrinn þat er eptir var. Um varit eptir luku þeir upp giördum þorlákr Kètilsson ok Bödvar á þorbergsstödum ok giördu sextygi hundrud þriggia álna aura fyrir fiörrád vid þórd, en tuttugu hundrud til handa hverium þeirra er sár vard, en þriú hundrud fyrir hvern þann mann er fór í Hvamm. Sturla svarar sva giördum þessum, ei er ofmikit giört til handa sáramönnum ok skal þat vel gialda, ok þat man sannara at bæta fyrir þá menn er fólsku för þessa fóru med mèr, en fyrir fiörrád þykiumst ek ekki eiga at bæta þórdi födurbródur mínum, þvíat ek vildi ekki dauda hans, sem ek lysta þá fyrir mönnum mínum, en ekki vil ek deila vid hann hèdan í frá um fè þat er vid höfum ei ordit ásáttir hèr til, Glerárskóga edr annat. Sturla greiddi þórdi þá Valshamarseyar er hann hafdi giört af Vígfúsi fyrir biargir Arons Hiörleifssonar. Vetur þann er Gudmundr biskup var í Hvammi kvam nordan í Reykiaholt Kolbéinn úngi Arnórsson ok fór bónordsför ok bad Hallberu dóttur Snorra, ok var þá þegar brúdlaup þeirra ok fór hon nordr med Kolbeini. Þá fór ok nordr Jón Murtr ok kvamo þeir til Stadar í Rútafiörd, þar beó þá Brandr Jónsson. Snorri Sturluson hafdi látit sækia Brand til sektar um fornt fèmál, þat er hann hafdi átt at Steinunni systur sinni módur Brands. En þeir Brandr höfdu vígása í durum, ok vard þar ei inngengit ok hurfu þeir Kolbeinn vid þat frá ok fóro heim nordr. Jón hafdi málit haft á hendr Brandi.

48. Þat sumar eptir reid Snorri til alþíngis eptir vanda, en þeir rido ekki til þíngs þórdr ok Sturla. Hafdi þórdr bú á Eyri, en setti Sigurd Olafsson fyrir búit í Hvammi, ok var hann ekki

[1]) stóls, *A. C. St. þ.*

[2]) þórdarson, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

þar. Snorri sendi ord Þorvaldi Vatnsfirdíngi, at hann skyldi rída til þíngs med honum. Þorvaldr kvam vestan med þriátygi manna ok Þórdr son hans ok Urækia Snorrason er eptir honum var sendr, ok reid á þíng ok tialdadi Valhallardilk. Sighvatr Sturluson var til þíngs kvaminn at nordan ok áttust þeir fátt vid brædur um þíngit ok lítt fóro menn millum þeirra. Þínglausnardag reid Snorri til lögbergis, sem hann var vanr ádr hann reid af þíngi. Sighvatr var at lögbergi. Þorvaldr spurdi Sighvat, hvat þeir brædur skyldu tala um Snorrúnga godord. Ekki man ek um tala, segir Sighvatr. Vilia manto reyna vitni um, segir Þorvaldr. Mèr þykia eingi merkiligri en þau er ek ber, segir Sighvatr. Eigi skyldut þid brædur deila um slíkt, segir Þorvaldr. Ekki þarftu hèr til at leggia, segir Sighvatr, því ekki man fyrir þín ord giört. Eptir þetta skildo menn, rido þeir Snorri heim til Reykiaholts. Fóru þá vestr föronautar Þorvaldar, en hann var eptir vid siöunda mann. Þat var eitt kveld er Snorri sat í laugo at talat var um höfdíngia, segia menn, at þá var eingi slíkr höfdíngi sem Snorri, ok þá mátti eingi höfdíngi këppa vid hann sakir mægda þeirra er hann átti. Snorri sannadi at mágar hans væro ekki smámenni. Sturla Bárdarson hafdi haldit vörd yfir lauginni ok leiddi hann Snorra heim, hann skaut fram stöku þessari [sva at Snorri heyrdi [1]):

Eigut áþekkt [2]) mægi
ordvitur sem gat fordum
úiafnadi [3]) gèfst [4]) iafnan
ílla leidar stillir.

Þá er Sturla spurdi at styggliga [5]) hafdi farit med þeim brædrum á þíngi, en Þorvaldr var eptir í Reykiaholti þá er lid hans för vestr yfir, sendi hann Torfa prest sudr til Þorvalds ok bad hann leita um sættir med þeim Snorra, en Þorvaldr lèzt fara mundo, ef Snorri vildi. Snorri segir úrádligt [6]) at Þorvaldr færi fyrir sakir Rafnssona ok Jónssona, en kalladi þó Sturlu úvinligan [7]). Þor-

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) áþekk. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) úiafnadr. sömu.
[4]) gèf. *B. Gr.*
[5]) stuttliga. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) rádligt. *E.*
[7]) þá — útrúliga. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

valdr segir at annat lítit mundi fyrr verda [1]) en Rafnssynir mundu standa yfir höfudsvördum hans, en þó vard ekki af ferd Þorvalds. Snorri fór út undir Raun til Skúla til móts vid Þórd bródur sinn ok segir at hann vildi fara í Dali ok leita eptir lut sínum vid þíngmenn Sturlu ok bad Þórd fara med sèr med fiölmenni. Þórdr kvadst vera mundi til umbóta med þeim, ef hann mætti, ok lèzt vilia giöra Sturlu ord. Snorri bad hann slíko ráda. Eptir þat sendi Þórdr mann til Sturlu ok fysti hann ei heima vera. Reid Sturla þá nordr um heidi til Midfiardar ok hèllt sva frèttum vestr í Dali um ferdir Snorra. Eptir þetta drógu þeir lid saman Snorri ok Þorleifr Þórdarson ok höfdu þríú hundrud manna. Þórdr ok Bödvar kvamo utan med tvö hundrud [2]) manna. Þorgrímr Hauksson segir draum sinn sonum Þórdar Olafi ok Sturlo er þeir rido um Vatnsheidi. Hann dreymdi, at hann þóttist rída med flokkinum inn til Dala, hann þóttist siá at kona gèkk ímóti flokkinum mikil ok heldr stórleit, ok þótti honum kènna af henni þef íllan, hon kvad þetta:

Mál er at minnast
mörnar hlakkar,
vid tvö vitum
viltu enn lengra [3]).

Þeir Þórdr ridu í Hördardal ok fundust þar flokkar þeirra, [ridu sídan til Middala [4]), ridu þeir Snorri ok Þorvaldr til Saudafells, en adrir flokkar dreifdust þar um dali. Var þá stefnt til Saudafells öllum bóndum fyrir sunnan Fáskrúd, gengo þar allir menn til eida vid Snorra ok sögdust í þíng med honum. Þorvaldr leitadi eptir vid trúnadarmenn Sturlu hvar hann væri, edr hve skiótt hann mundi heim kvama? Þeir spurdu hvert honum mundi fridt ef hann kvæmi heim? Skammseta [5]) ætlak honum þau lög, segir Þorvaldr. Flokkarnir skildu einn midvikudag, en Olafsmessa hin sídari var um daginn eptir. Þórdr Sturluson gèkk at Þorvaldi ádr þeir skildu ok bad hann fara varliga ok varast Rafnssono,

[1]) fyrir liggia. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) hálft annat hundrud. *A. B. E. Gr.*
[3]) meira. *A. C. St.* Þ.
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) skammsæta. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

lèzt ei vita hvar þeir væro, kvad Þorvald dvalizt hafa sva lengi þar í sveitum, at hver madr mætti nióśna um ferdir hans er vildi. Gud þakki, bóndi! er þú varar mik, segir Þorvaldr, en annar lutr man fyrr verda en Rafnssynir sèo banamenn mínir. Opt veldr [1]) lítil þúfa miklo [2]) hlassi, segir Þórdr.

49. Einar Rafnsson var á Eyri [at Gudrúnar födursystur sinnar [3]) er hann spurdi at Þorvaldr ætladi vestr or Dölum, steig hann þá þegar á skip ok fór vestr til Flateyar. Sídan gengo þeir á skip allir brædur ok med þeim Gudmundr Olafsson, Olafr Vardason, Kár biskupsmadr ok Fotalda-Narfi, Þorsteinn hèt einn; þeir reyro [4]) inn í Þorskafiörd ok sátu í dælu einni inn frá Kinnarstödum, þar sem leidir skilia til Vadils ok inn med firdi. Þorvaldr reid inn í Hús um aptaninn, [en til dögurdar Olafsmesso í Túngo til Jóreidar ok vestr til Saurbæar um daginn [5]) ok ádi [6]) í Holti. Hann stefndi til sín Arna or Tialdanesi, ok bar á hann sakir um þat er Arni hafdi keypt Olafseyar at Jónssonum ok þar hefdu Jónssynir gist opt. Þorvaldr reid um kveldit í Olafsdal, en friádaginn í Bæ, þá giördi hann þar frá sèr menn sína Þórd son sinn ok Þórd Henreksson til Isafiardar, en adra tvo út yfir Þorskafiörd, ok skyldu þeir beóda mönnum til hestavíga í Þorskafiörd sunnudaginn. Rafnssynir siá þá ok kèndu ok skeytto því ekki um þá, at þeir ætludu at Þorvaldr mundi rída eptir, [ok vildu þeir at þá bæri undan [7]). Þorvaldr var laugardaginn í Bæ, en um kveldit bad hann taka hesta sína ok lèzt vilia rída fram til Gillastada til Skèggia vinar síns, sem hann giördi. Snorri hèt húskarl Skèggia, hann fann tvo menn um kveldit í skógi ok sögdust [8]) vera heimamenn í Vatnsfirdi ok spurdo at ferdum Þorvaldar. Snorri kvad hans skamt at leita ok segir hann vera á Gillastödum. Snorri kvam sídan heim ok lagdist nidr í útihúsi ok giördi ekki vart vid þetta.

[1]) veltir. *E.*

[2]) þúngu. *A. B. C. Gr. St.* þ.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) ridu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) vantar í *C. St.*

[6]) fór. *A. B. C. Gr. St.* þ.

[7]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[8]) vida, en bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

50. Í Sveinbearnartúngo [1]) kvam madr um náttina ok tók glædr af arni. Kona ein spurdi, hvat eldrinn skyldi til bæar? At elda Þorvaldi bad, segir hann. Þorvaldr var á Gillastödum, sem fyrr var ritat, ok Þórdís kona hans, Guttormr Henreksson ok Högni son Haldórs Helgasonar, Skèggi bóndi hinn fiórdi karlmadr, húskarl [2]) hinn fimti. Skèggi gèkk út ímóti elding [3]) ok sá at naut varo í túni, snèri inn ok spurdi at húskarli ok í því kvam dynr undir húsin, snèri hann [4]) til dura ok sá fimm menn úti, heyrdi hann þá blót, ok varo nefndir ymsir menn til atgaungo, Sturla Sveinsson [5]) ok adrir fleiri. Skèggi segir Þorvaldi at úfridr væri ok kvadst ætla at fáir mundo mennirnir, Þorvaldr kvad hitt líkara at ei væro fáir. Kèndu þeir Þorvaldr þá reyk. Skèggi segir at roftorfs veggr væri undir kamri sá er ei væri fyrir undan at gánga. Högni eggiadi útgaungo, en Þorvaldr kvad menn fyrir ok snèri hann frá, tóko þá þegar at loga húsin. Snèri Guttormr þá til útidura ok vardist, fèkk hann lag í óstin, en annat í kvidinn ok fèll þar. Þorvaldr gèkk í eldahús þá er eldrinn sótti at ok húsin logudu, hann lagdist yfir eldstó [6]) ok lagdi hendr í kross ok þar fannst hann sídan [7]). Eptir þetta beiddi Skèggi grida ok útgaungo mönnum þeim er inni varo, var Þórdís þar útdregin um vegginn. Högni gèkk þá ok út ok allir heimamenn. Meystaulpa [8]) ein lèzt þar í eldhúsinu hiá Þorvaldi. Sídan biuggust Rafnssynir í brott ok tóko hesta þá er þeir kvamo höndum á, tvo tóko þeir ok vapn nokkur, ridu þeir þá inn til Gilsfiardar ok nordr á Kleyfar [9]) ok sváfo þar um daginn, ridu um kveldit inn til Hvalsár, en mánadaginn inn med Rútafirdi ok fundo Sturlu Sighvatsson inní fiardarbotni ok segia honum tídindin, en er því var lokit,

1) Steinstúngu. *A. C. St.* þ. Steinbiarnartúngu. *B. E. Gr.*

2) Snorri: *A B. C. E. Gr. St.* þ.

3) í nætur elding. s ö m u.

4) Snorri rann: *St.*

5) Sighvatsson. *A. B. C. E. Gr.* þ.

6) eld, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

7) *A. B. E St.* þ. bæta vid:
Hvör sem ödrum grefr gröf,
ok giörir ei allt hit rètta,
ei má vita þó á sè töf,
nema í hana giöri detta.

8) meystelpa. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

9) at Kleyfum, *A. C. E. Gr.* Klifum *B. St.* þ.

gengo þeir brædur á tal vid Sturlo ok töludu um ríd, eptir þat skilia þeir ok rída Rafnssynir nordr til Eyafiardar á Grund, ok tók Sighvatr vel vid þeim öllum. Sturla reid heim ok sendi Torfa prest sudr í Reykiaholt at beida sèr grida ok sínum mönnum ok Snorri skyldi selia [1]) fyrir sik ok sonu sína, Þórd bródur sinn ok Vatnsfirdínga. Snorri svarar sva, at hann lèzt ætla at Rafnssynir væro í Dölum, ok vildi ei grid selia, ef þeir væro þar. En þá er spurdist at þeir væro med Sighvati, var fund lagdr í Nordrárdal med þeim frændum til grida. Kvam þar til Sturla, en Snorri ekki ok sendi Þorleif Þórdarson ok Styrmi prest hinn fróda at taka sèr grid til handa, en Sturlu þótti þat ei trúligt ok vildi hann ei gridin selia ok lèt Kálf Gilsson taka í hönd Þorleifi, en Torfa prest í hönd Styrmi presti, mælti þá Styrmir fyrir gridum, ok skildu vid þat.

[1]) sveria. *A. C. E. Þ.*

# Fimti þáttr.

Ok segir fyrst um heimsókn, rán ok manndráp Þorvaldssona á Saudafelli, ok þeirra sátt vid Sturlu; af Gudmundar biskups ofsóknum ok mótgángi. Sturla lætr drepa Vatnsfirdínga, hans siglíng ok Rómgánga, útkoma aptr. Þræta Sighvats ok Kolbeins ok sátt, siglíng Kolbeins ok aptrkoma. Af yfirgángi Urækiu ok afdrifum, samt ödrum þrætum ok manndrápum, er á þeim árum hafa tilfallit.

1. [1]) Drottinsdaginn eptir brenno Þorvalds kvam Þórdr Þorvaldsson í Þorskafiörd ok spurdi þar tídindin, frètti hann þá eptir hvort nokkut mundi ríá eptir þeim at ríđa, en menn ætludu at þeir mundo undan kvamnir [2]), vard ekki af eptirreidinni, en Þórdr reid vestr í fiördu ok giördist höfdíngi yfir ríki födur síns ok þeir Snorri brædur. Illhugi hèt son Þorvalds iafngamall Snorra, Kètill ok Páll varo yngri, Einar var veturgamall son þeirra Þórdísar [3]). Snorri Sturluson sendi Jón son sinn til Vatnsfiardar at beóda Þórdísi [4]) sudr þángat, en hon rèdst þá út á Myrar til bús þess er þau Þorvaldr höfdu þar átt. Vetur þann er Gudmundr biskup var í Hvammi var unnit á Koli hinum audga Arnasyni [5]), vann á honum Dagstyggr son Jons lítils bónda, er var landseti þeirra Snorra ok Hallveigar, því tók Snorri vid Dagstyggi eptir áverkana. Dagstyggr var manna mestr ok sterkastr ok heldr úgiptosamligr. Þá var med Snorra Jón er kalladr var sterkastr madr á Islandi, þeir Dagstyggr slógu bádir um sumarit. Þat var einn dag um sumarit, at Jón Murtr kalladi heim alla sláttumenn af verki ok tóko þeir hesta sína. Mönnum þótti þetta undarligt. Þá tók Gudmundr Galtason til orda:

[1]) *A. B. C. E. Gr. St.* þ. bæta hèr framanvid: Hèr byria ek sögu af at sonum Þorvalds í Vatnsfirdi.

[2]) bornir, *A. C. E. St.* þ.

[3]) *Snorradóttur*, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) dóttur sinni, bæta sömu vid.

[5]) á Kolbeinsstödum, bæta sömu vid

Hvat kvedr[1]) um? hví sætir? [2])
heim gengr sterkr af verki,
vito rekkar nú nokkut
nyligs [3]) um för grílo?

Þeir Jón ridu nordr til Stadar í Rútafiörd ok veittu Brandi Jónssyni heimsókn, þeir tóku Vandrád [4]) fylgdarmann [5]) Brands ok hió Jón sterki fót undan honum ok var þat banasár. Þeir tóku Brand ok höfdu hann sudr í Reykiaholt, þvíat hann vildi ekki kúgast láta. En Snorri giördi þá sátta ok gaf Brandi upp fégialdit ok skildu þeir þá vel. Þetta haust hit sama fór Brandr Jónsson nordr í Vídidal ok med honum Teitr Þorbiarnarson mágr hans ok brædur hans Filippus ok Ögmundr ok Eyvindr, þeir fala þar slátur at bóndum, Gunnari Klængssyni, hann beó at Þorkèlshvoli, ok enn fleirum ok heldr med úiafnadi, þá fór til Þorsteinn Hiálmsson ok mágar Gunnars Rögnvaldr ok Ari, varo þeir ei allfáir, ok vildi Brandr ekki giöra fyrir þeirra ord ok sló [í hlaupaför med þeim [6]), sóttu þeir fiórir Brand, hann var í pansara þeim er ei gèkk at [7]), en svad [8]) var á vellinum ok skridnadi hann ok studdi [9]) nidr hendinni, þá hlióp Rögnvaldr at honum ok hió á handlegginn vid hreifann [10]), sva ekki hèldt nema sinar þær er gengo af þumalfíngri, Eyvindr var ok sár ílla [11]), var hönd Brands bundin ílla [12]) sva at af var leyst, ok skildu úsáttir. Sturla Sighvatsson sendi um haustit menn til Vatnsfiardar ok lèt beóda Þorvaldssonum sátt fyrir Rafnssonu ok brenno [13]), en Þórdr tók ei undir þat, en bar feörrad á Sturlo vid födur sinn ok sva á Sighvat. Um vetrinn sendi Snorri til Vatnsfiardar Starkad [14]) Snorrason ok

[1]) er. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) hví kvedr sóta. *C. St.* kvedum. *A. B. E. Gr.* þ.

[3]) nyligt. *Gr.* þ.

[4]) vantar í *A. C. St.* þ.

[5]) heimamann *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) í þræta fyrir þeim. sömu.

[7]) á. sömu.

[8]) svadi. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[9]) stakk. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[10]) í höndina ok hreifann. *A. B. E. Gr. St.* þ. ok af hreifann. *C.*

[11]) vantar í *A. B. E. Gr.* þ.

[12]) ok lauk, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[13]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[14]) Starkar. *A. B. C. E. Gr.*

í annat sinn Gèst Karlsson [1]) ok var mart talat um þeirra eyrindi af þeim mönnum er ei varo vinir Snorra, slíkt sem sídan kvam fram. En um vetrinn varo dylgiur miklar med Reykhyltíngum ok Saudfellíngum.

2. Um vetrinn eptir geisladag stefna Þorvaldssynir þeim mönnum til sín, er þeim þóttu röskvastir, ok fóru vestan med fimtygi manna, fyrst til Steingrímsfiardar, en þadan til Kollafiardar ok sva til Bitro. At Brunngili beó þá Svartr Narfason ok Bóthildr Henreksdóttir systir Þórdar er þar var í för. Þeir höfdu þat ord á at þeir mundo fara til Rútafiardar ok sva sudr til móts vid Snorra, þar tóku þeir til leidsagnar þann mann er Klakk-Alfr hèt, þeir fóro Gaflfellsheidi ok sva til Laxárdals ok kvamo til Hamra ok tóko þar menn alla ok gætto, en giördo elda stóra ok þurkudo sik, þeir beoggo þar ok branda marga ok höfdu þá med sèr, þeir fóro þadan öndverda nátt ok bundo þar menn alla nema Gudmund Þórgilsson [2]) bródur Helga læknis er þar beó, hann höfdu þeir med sèr. Þeir fóro á háls hiá Dönustödum [3]) ok sva ofan eptir hálsinum med [4]) Þverdal ok ofan hiá Audnatúni þar er á Einarsteigi heitir vid Þvergil upp frá Köldukinn. Þann dag ádr sendi sú kona er Rachel hèt kona Márs Kumbalda [5]) frá Gnúpi Sturlu ord, at hann skyldi ei heima vera ok segir, at úfridar fylgiur væro kvamnar í hèradit. Sturla reid heiman um daginn nordr til Midfiardar ok ætladi at sætta Þorstein Hiálmsson [6]) ok Brand Jónsson.

3. Þá er Sturla hafdi heiman ridit um daginn, kvamo Vatnsfirdíngar til Saudafells ok dvöldust hiá högum [7]) ok skipudu til atgaungo. Sá madr var kvaminn til Saudafells er Raudsveinn hèt [8]), hann hafdi tekit lokur frá hurdum ok gengit út, segia Dalamenn at hann væri niósnarmadr, en hann duldi þess, ok hyggium vèr sannara vera, þvíat hann var kvaminn at utan af Snæfellsnesi.

[1]) Kársson. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) vantar í sömu.

[3]) Dunustödum. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[4]) at. sömu.

[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[6]) Vilhiálmsson. *C. St.*

[7]) í fiárhögum. sömu.

[8]) er Sveinn hèt ísfirzkr madr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

At Saudafelli varo þá hybyli gód, skáli tialdadr allr ok skipadr skiöldum utan á tiöldin, en bryniur varo fyrir framan kvennarekkiur [1]). Solveig húsfreya hafdi fædt barn skömmu ádr, ok var hon þá risin af hvílunni ok lá í stofu ok Þurídr dóttir hennar ok Valgèrdr módir hennar ok mart annara manna. Nú giöra Vatnsfirdíngar atgaungo til bæarins nedan frá Grafargèrdi, var þat þá ætlan þeirra at veita atgaungo hvört er Sturla væri fyrir fímennari eda fiölmennari ok sækia med vapnum bæinn, ef kostr væri, ella eldi. Sva var flokkr sá ákafr, at hver eggiadi annan, en eingi var til latanar [2]), ok er þeir kvamo heim á hladit vard gnyr mikill af för þeirra. Kona sú hafdi gengit til kamars er Arngèrdr hèt Torfadóttir [3]), hon fóstradi Gudnyo Sturludóttur, ok er hon vard vör vid úfridinn slökkti hon liós í skálanum ok lióp til hvílunnar er mærin lá, hon tók dynuna ok breiddi á sik, en meyuna lagdi hon vid stokkinn hiá sèr ok undir sik ok giördi krossmark yfir ok bad gud gæta. Þeir liópo inní durnar, Þórdr Þorvaldsson í dyrshöfudsdur med tólf menn, en Snorri ok þeir Hiálmssynir í brandadur fimtán saman, fimm gættu hverra dura, en einn var á húsum uppi. Þórdr gleidr [4]) ok fiórir menn adrir varo fyrir sunddurum til kyrkio. Nú gengo þeir í skálann med höggum ok blóti ok hioggo þá allt þat er fyrir var ok ruddo hveriumtveggia megin lokrekkio, ok urdo eingir menn til varnar med vapnum, í þat eitt rúm kvam ekki högg er mærin Gudny lá í. Þeir er úti varo tendrudu log [5]) í eldahúsi ok varo þau borin í skálann. Koll-Bárdr [6]) hafdi haft eld frá Hömrum ok kvam þat liós fyrst í skálann er hann kveikti. Þar var aumligt at heyra til kvenna ok sárra manna. Þeir Þórdr gengo at lokrekkiunni ok heoggo upp ok bádu Dalafrey þá ei liggia á laun, en þá er hurdin lyptist gèkk Þórdr í lokhvíluna ok lagdi í rúmit, fann hann þá, at eingi madr var í hvílunni ok sagdi hann sva sídan, þá er um var talat, at því hefdi hann fegnastr ordit er hann kvam í lokhvíluna ok hann hugdi at Sturla mundi vera þar fyrir, en hinu úfegnastr, er hann var ei þar, snèri hann þá ofan.

[1]) rekkíur. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) til at afletia. sömu.
[3]) vantar í sömu.
[4]) gledr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) liós. *B. Gr.*
[6]) Kol-Brandr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

Sveinn prestr lá nærst lokrekkio, hann tók hægindi ok bar af sèr er þeir lögdu ok hioggo til hans, ætludu þeir at vera mundi einn af fylgdarmönnum Sturlu [er sva snöggliga vard vid [1]). Snorri Saur [2]) hèt sá er lá nærstr honum utarfrá, hann tók til orda: sækit þèr at oss hinum úlærdu mönnum, en látit prest vera í fridi, var þá sótt at Snorra ok var hann særdr til úlífis. Þær Solveig húsfreya ok Valgèrdr módir hennar [3]) vöknudu í stofunni ok ræddu um hvort út mundi at heyra vedrgny edr mundi úfridr at kvaminn, þær sendu fram þann mann er hèt Þorvidr [4]) Valskr [5]), ok þegar er hann kvam fram í stèttirnar var höggvit í fáng honum ok var hann særdr til úlífis, en er hann kvam ei aptr sendi Valgèrdr fram konu ok segir hon at úfridrinn var, ok er þeir brædur þóttust vita at Sturla væri ei í skálanum, gengo þeir í stofu med logbröndum ok ransökudu bædi klefann ok stofuna, þeir gengo at hvílu Solveigar med brugdnum ok blódigum sverdum ok hristu at henni ok sögdu, at þar væro þau vapn er þeir litat hefdu lokkinn á hanum Dalafrey med, en fyrir allt saman skapraun hennar ok siúknad [6]) þá brá henni nokkut sva vid þvílík ord. Valgèrdr húsfreya mælti: ekki munut þèr hèr þurfa at leita Sturlu, undir tiöld edr veggi at stánga, ok er þat hugbod mitt at til meira muni draga um ydar skipti ádr lètti, en þótt þèr hafit hèr unnit á konum ok verkmönnum. Þeir sögdust þá ei fyrr lètta skyldu en þeir hefdu höfud hans, hon sagdi þat sva undan hafa borit í því sinni, at ei væri rádit hvert þeim yrdi audit at standa yfir höfudsvördum Sturlu. En er þeir höfdu leitat í stofunni sva at þeir vissu at Sturla var þar ei, þá leita þeir um allan bæinn, birtist þá hvat unnit var í skálanum, varo þar margir menn sárir, en sumir hraktir, var þá allt fólk fært í stofu ok geymt [7]), þar voru upphöggnar hirzlur ok rænt því er í var. Vapnakistu Sturlu gátu þeir ei uppbrotit ádr þeir brutu [8]) botninn, þeir tóku þar eggs-

[1]) er vardist sva röskliga, *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[2]) vantar í *A. C. St. þ.*

[3]) ok Þurídr dóttir hennar. *B. E. Gr.*

[4]) Þorfidr, *A. B. C. E. St. þ.*

[5]) vaskr madr. *St.* vaskr. *A. B. C. þ.*

[6]) siukleika. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[7]) ok lukt þar. sömu.

[8]) klufu. sömu.

arnar Hûntelgio [1]) ok Snögo ok spiót tvö gullrekin, til siötygi hundrada tóku þeir or þeirri kistu [2]), þeir brutu ok upp gripa kistu Solveigar, þá kvam þar at Eyvindr Brattr austmadr, hann sá hvar upp var svarfat [3]) gullhúsi því er ríngar þeirra mædgna varo í, hann tók til ok fèkk Kristrúno farkonu, þá seildist madr til ok vildi taka af henni, hon bad hann heilan sva at taka ei af sèr ok sagdi þó lut sárra manna yfrit þúngan þótt hon nædi um at binda ok smyrslum á at rída, hon sagdi kono þeirri [4]) er bædi bríóstin varo afhöggvin yrdi [5]) þúngt attekta [6]), þótt þau nædi smyrslum þeim er til væro, [en sú kona var Þorbiörg Isia.[7]), lèt hann þá af hendi ok lèzt ei vita hvat hon segdi. [Kristrún gèkk þá í stofu [8]) ok færdi Valgèrdi gullhúsit. Þeir ræntu öllu því er þeir kvamo höndum á ok bundu skiöldu í klifiar ok tóku ross öll þau er þeir fengu, þá var nærri allióst er þeir varo búnir, gèkk Þórdr þá til stofu, hann tók til orda: þeir lutir tveir hafa hèr ordit annan veg en ek ætladi, sá eini, at ek fann ei Sturlu, en hinn er annar, at þú ert eptir, Solveig, ok ei mundi þat vera ef ek mætti med þik kvamast. Þórdr gengr þá út ok varo eingar vináttu kvediur at skilnadi, fóro þeir þá leid sína, var þá þoka mikil um hèrad, en þokulaust um fiöll, [þeir tóku ross hvar sem þeir fengu [9]) En er þeir varo brott frá Saudafelli sendu þær mædgur Þrasa Þrasason [10]) at segia Sturlu hvat títt var, fór hann um Haukadal ok stefndi mönnum á Þorbergstadi um daginn, [en Hallr Arnason [11]) var sendr nordr med Þrasa [12]), madr var ok sendr til Hördardals [13]) at kvedia þar upp menn. Ingimundr Jónsson kvam til Saudafells ok eggiadi Solveig hann til eptirreidar, en Valgèrdr latti, kvad bædi vera mundo at Sturla mundi sèr unna hefndarinnar, enda mundi ekki audit verda nema hann

1) himintelgiu. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) or kistum. sömu.
3) hvarflat. *C. St.* hvarfat. *A.* Þ.
4) þá. *E.* Þ.
5) yfrit. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) aftekna. *E. B.* aftekian. *A. C. St.* Þ.
7) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
8) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
9) vantar í *E.*
10) vantar í *A. C. St.* Þ.
11) Arason. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
12) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
13) Hördadals. *B. C. E. Gr.* Hördudals. *A.* Þ. Haukadals. *St.*

hefndi. Ingimundr fór þá ok kvam á Þorbergstadi, þar kvamo nær siötygi manna ok eggiadi Þórir Jökull ok sumir adrir eptirreidar, en Ingimundr lèzt ætla at þeir mundo farnir til Saurbæar, ok vard ekki af eptirreidinni. Þeir Þórdr Vatnsfirdíngr fóro í Hvamm um kveldit ok þadan til Saurbæar ok sva heim vestr, ok var um þessa för allmart talat.

4. Nú er þar frá at segia [1]), at þeir Hallr Árnason ok Þrasi kvama til Stadar í Rútafiörd, var Hallr þar eptir, en Brandr Jónsson er þar beó fèkk Þrasa annan mann, kvamu þeir snimma um myrgininn til Reykia, þar var Sturla í laugu [2]) er þeir sögdu honum tídindin. Sturla spurdi hvort ekki var giört Solveigu, þeir segia hana heila, sídan spurdi hann eingis, en Gilsúngar ok margir adrir eggiudu lidssamnadar, en Sturla kvadst ei mundu hvata [3]) at því, en hver annar lagdi til eptir sínu skaplyndi. Sturla reid heim eptir þat ok varo þar miök kæld [4]) hybyli. Þar voru fimtán menn sárir, en þeir varo ellifu [5]) er sèr máttu einga biörg veita, þrír [6]) öndudust or sárum, lifdi Þorbiörg Isia þriár [7]) nætr, en Bergdór Kollsson lifdi lengr, en Snorri Saur lifdi þeirra lengst, Klængr Hallsson lifdi vid örkumbsl ok Brandr Austfirdíngr, Þorvidr Valskr hafdi mikit sár á bríngu ok enn fleiri, en Sveinn prestr ok Eyvindr Brattr, Kristrún farkona, Helga Asbiarnardóttir ok Oddny varo lítt sár, þá voru enn sárir karlar þrír ok konur tvær. Þat var mælt at þeirra hybyla var næsta lagi munr hversu gnóglig varo ok góð fyrir klædasakir ok annars ádr Vatnsfirdíngar kvamu um nóttina, ok hvörsu úræstilig [8]) ok fátæk varo, þá er þeir fóru brott, blód flaut um öll húsin, en nidr var slegit drykk öllum ok spillt öllu því er þeir mátto ei nytium á kvama [9]). Á þiltriám [10]) í skálanum hafdi legit bordfiöl mikil, þar hafdi Gudmundr skáld laupit uppá þá er hann heyrdi höggin, ok lá þar sva at hann vard ei fundinn.

[1]) þar til máls at taka. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[2]) vantar í *St.*

[3]) rapa. *A. B. C. E. St. þ.* ráda. *Gr.*

[4]) köld. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[5]) níu. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[6]) þeir. sömu.

[7]) tvær. sömu.

[8]) úrækilig. sömu.

[9]) med komast sömu.

[10]) þvertriám. sömu.

Menn spurdu Gudmund hvar hann hefdi þess verit, at hann var ei sár. Hann kvad víso:

Vard ek, þar er víganirdir
valskód rudu blódi
gnyr óx göndlar skúra,
gagnhræddr sva af bar magni.
Siálfr lagdak, sveigdar
sárs fèll blód á árar,
lítt var ek heldr í hætto,
haus minn á fiöl stinna.

Sturla iók ei fiölmenni er hann kvam heim, en hafdi neósnir frá sèr ok mest sudr til Reykiaholts, þvíat hann hafdi þá virdíng [1]) á at Snorri hefdi rót verit undir þessum úfridi. Snorri hafdi ok nokkut í flymíngi [2]) er hann spurdi þessi tídindi, ok kvad víso:

Raun er at ekki einir
Eyfirdíngar heya
drótt er sein til sátta
svertíngs fetils stínga.
Er [3]) þíngvidir þordu
þramskys [4]) í gny [5]) byar [6])
títt gèkk öld í ótto
inn, harmsakar minnast.

Gudmundr Galtason var þá med Snorra, hann kvad vísu:

Hvert mano hyggia [7]) biartir
hneppr er fridr med greppom,
öld byst enn vid deildum,
Eyfirdíngar virda.
En [8]) dádframir [9]) dauda
diarfmælts skörúngs arfar
und var egg sú er kèndo
innt harmsakar minntust.

1) þann ugga. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
2) flæmíngi. sömu.
3) en. sömu.
4) þram syrs. *Gr.*
5) gyn. *E.*
6) biriar. *A. B. C. Gr. St. þ.*
7) hyggio. *B. E. Gr.*
8) af. *B. E. Gr.*
9) dádframar. *Gr.*

En er vísur þessar kvamo til Saudafells, kvad Gudmundr Oddsson víso:

Víst hafa minnst [1]), þeir er mesto
menn ofstæki nenna,
ferd raud flein at mordi,
födur síns, ok sky bödvar.
þá hafa lítt í för fréttnir
fyrr giörd synir byriat
her gæti [2]) hrepps til Snorra
haldkvæma þorvaldi.

5. Tídindi þessi fóro um allt land af atför vid Sturlo, ok þótti flestum mönnum hann audno hafa á haft, er hann var ei heima, en flestir menn lögdu þúngt til Snorra, ef hann hefdi verit vitandi ferdar þeirrar. Ormr Svínfellíngr var mikill vin þeirra Sturlu fedga í þenna tíma, hann kvad þetta er hann heyrdi atförina:

Mikil var ös, þá er Isio
aldurtión budu leónar [3])
sárs rudu seggir dreyra
svell ádr þorbiörg félli.
Födur dauda rak fædir
fálublakks med saxi,
þórdr var hættr [4]) í hördum [5])
hiörleik gumna fiörvi.

Arni Magnússon var lítill vin Vatnsfirdínga, hann kvad vísu:

Öld hefir Isiu fellda
úframliga gamla,
þar er brandr vid rif rendi
raudr kèrlíngo snaudri.
minntust mest þá [6]) er rænto,
mikill svarmr var [7]), barmar,

[1]) mist. *St.*
[2]) gèzt. *B. E. Gr.*
[3]) liómar. *A. B. E.* þ.
[4]) hardr. *B. E. Gr.*
[5]) höndum. *B. Gr.*
[6]) þar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[7]) þár, bæta sömu vid.

skiöld bar her [1]) at [2]) healdri,
happsnaudir födur dauda.

Þessi vísa var enn kvedin um vetrinn ok kènna sumir Sturlo:

Risu þar [3]) er önd [4]) lèt Isia
aldræn í gny skialda
sterk frá ek stáli myrkri
stórtídindi rída.
Synt var at seggir minntust
síns, þá er fridr nam [5]) dvína
opt rekr öld til heipta
ofnaud, födur dauda.

Svertíngr Þorleifsson beó í Fagradal, hann var vin Vatnsfirdínga, en lítill vin flestra frænda sinna, nema Sighvats, hann kvad vísu:

Hörd er heimsókn ordin,
hafa man svinn at minnum [6])
öld, hve ítar guldo
yfirmanns bana sannan.
En ráfáka ráko
reidendr gota meidi
bords [7]) or Breidafirdi
braut sialdfarnar [8]) lautir.

En er Svertíngr heyrdi víso Snorra, kvad hann vísu:

Felld er [9]) Isia [10]) aldrei [11]),
íllverk fridi spilla,
ádr nema ólmo rædi
(Jóns fedur) nikars [12]) vedri.

1) hár. *A. C. St.* Þ.
2) or. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
3) þá. sömu.
4) öld. *St.*
5) tók. *A. B. E. Gr.* Þ.
6) minnast. *Gr.*
7) bards. *A. C. St.* Þ.
8) skiöldu fánar. *A. C. St.* Þ. skiald-fánar. *B. E. Gr.*
9) felldir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
10) Isiu. sömu.
11) aldir. *A. B. C. St.* Þ.
12) ímar. *A.* Þ. myar. *C. St.*

Víst hefir mínnst [1]) hit [2]) mesta
mágs brenno arngrennir,
þverr þó [3]) þinn vegr Snorri,
þíngreks [4]) med kvidlíngom.

Þá var med Svertíngi Olafr Bryniúlfsson, hann hafdi sik iafnan til þess at flymta sèr betri menn, hann kvad víso:

Síns mágs hefir sveigir
snákhaudurs rekit dauda,
hör [5]) lèt [6]) hyr of styri
hiörþíngs, med kvidlíngom.
Þá er eldvidom ála
ættstórs at brag Snorra
eldr fór afla giöldum
íturmennis stod lítil [7]).

6. Sturla Sighvatsson sætti þá Þorstein Hiálmsson ok Brand Jónsson, ok var skilit í sætt þeirra, at Þorsteinn skyldi fara med Sturlu ferdir þær er Sturla vildi, [skyldu þeir brædur Rögnvaldr ok Ari ok sva [8]). Þeir Þorsteinn kvamo nordan um vetrinn [9]) til Saudafells. Stefndi Sturla þá at sèr mönnum, var þá giört á ord at farit mundi at Snorra ok borit upp í stofo fyrir alþydo, en menn urdu hliódir vid þat. Rögnvaldr Árason [10]) neitadi fyrst ok Halldór frá kvennabrekku, Þorsteinn latti ok, en Ingimundr Jónsson vildi ei í nánd koma, þegar er þeir Þorsteinn varo vid, ok raufst þá þessi ætlan. Sturla sagdi sva, at hann hefdi dreymt um náttina ádr fundrinn var, at madr kvam at honum ok mælti: vittu at Snorri skal fyrr í kistuna en þú? ok rèd hann [11]) þat sva, at Snorri mundi fyrr undir lok lída [en hann [12]), ok því vildi hann ekki fara, en ekki lèzt hann eiga mundi undir Dalamönnum

[1]) mist. *B. E. Gr. St.*
[2]) ok. *B. E. Gr.*
[3]) þverri *A. B C. E. Gr. St. Þ.*
[4]) þíng-ríks. sömu.
[5]) hár. sömu.
[6]) lèk. *B. E. Gr.*
[7]) lítit. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[8]) vantar í sömu.
[9]) tuttugu saman, bæta sömu vid.
[10]) Arnason. *St.*
[11]) ek. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[12]) vantar í sömu.

öll rád sín. Nokkru sídar reid Sturla í brott or Dölum ok nordr [um land [1]), hann kvam á Vídimyri til Kolbeins únga ok var þar um varit. A Vídimyri var kastali sá er Snorri Sturluson lèt giöra, þá er Arnór Tumason hafdi skipat honum ríki sitt er hann fór utan. Þeir Kolbeinn ok Sturla höfdu þat at skèmtan at renna skeid at kastala vegginum, ok vita hvor lengst fengi runnit upp í vegginn, en er Sturla rann í vegginn gengu í sundr sinarnar aptan í kálfanum [2]), ok mátti hann ekki öldúngis [3]) stíga á fótinn, hann lá fyrst eptir, en fór sídan nordr til födur síns þá er hann þóttist reidfær.

7. Um sumarit fiölmenna allir höfdíngiar til þíngs sem vidkvamast, ok reid Sturla nordan med födur sínum ok sendi eptir mönnum í Dali ok Midfiörd, en ei hafdi hann lid lengra vestan. Snorri hafdi ok mart manna or Vídidal ok Midfirdi ok af Sudrnesium ok um allan Borgarfiörd, hafdi hann ei færra en siöhundrud manna. Þorvaldssynir höfdu farit um varit sudr til Snorra med tuttugu manna, þeir fóru fyrst á Svínanes ok þadan á skipum á Eyri til Þórdar, var Snorri þar eptir, en Þórdr fór til Stadar ok lèt Bödvar rída med honum sudr á Alptanes [4]), þeir fóru ok sömo leid aptr ok kvamo þá í Stagley ok drápo þar yxn er Sturla átti. Þeir safna ok mönnum til þíngs ok höfdu tvöhundrud manna, Þórdr ok Bödvar veita Snorra ok höfdu þeir nær þriú hundrud. Þeir Sighvatr ok Sturla varo allfiölmennir nordan ok þeim veitto allir Austfirdíngar, Ormr ok Þórarinn brædur, Kolbeinn úngi var einn fiölmennastr annar en Snorri. Þar var med Kolbeini Hallbera kona hans, ok var þá audsèd á henni [at hon firdist heilindi [5]). Þá er flokkr Snorra reid ofan um raun frá Sledaási, ridu þeir Þórdr ok Bödvar fyrir med flokk sinn, en er þeir kvamo á völluna efri, sneru þeir vestr med raunino, var Sighvatr þá kvaminn ok sat flokkr hans fyrir sunnan völluna á raunino, [hann hafdi sent Rafnssyni austr undir Eyafiöll, flokkr Kolbeins var

[1]) til Skagafiardar, *A, B. C, E. Gr, St.* Þ.

[2]) fætinum, sömu.

[3]) nær ekki, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) Hítarnes. sömu.

[5]) at hana firrdist heilsa, sömu.

nidri á raunino fyrir sunnan götu [1]). Sighvatr sendi til Þórdar bródur síns eptir Halldóri presti Ormssyni [2]) ok Amunda Bergssyni fóstbrædrum sínum, ok er þeir fundu hann, sendi hann þá til Þórdar ok bad at hann ridi ei til Hladbúdar ok lèti Sturlu tialda hana, sagdi þat rád at sínum megin [3]) væro hvorir, bad ok þess, at hann vildi fyrr ofan rída ok kvad sik [4]) þat enn dvelia at þeir Sturla ok Ormr kvæmo ei austan af rauni, Þórdr bad Sighvat ráda um búd sem hann vildi, en Snorri man vilia ráda reidum þá er hann kèmr, segir hann. Bödvar gèkk med nokkra menn fram á völlinn, en af lidi Sighvats gèkk í mót Arni [5]) son Gils Kórmáks-sonar ok Gudmundr Gilsson. Gudmundr spurdi, eru Vatnsfird-íngar hèr ei? Ekki, sagdi Bödvar. Diarfir væru diöfuls hundarnir, ef þeir væru hèr, sagdi Gudmundr. Valgardr Styrmisson spurdi þá, hvort Rafnssynir væro þar. Hvat vilto því? segir Arni. Ekki þætti mèr þeir údiarfari diöfulsmenn [6]), ef þeir væro hèr, segir Valgardr. Ekki man þín þykkia vidhöfd, segir Gudmundr. Sighvatr sendi menn til, at þeir skyldu ei skattyrdast [7]). I því kvam Snorri or raunino ok reid þegar ofan. Fóru þeir Bödvar þá til hesta ok urdo þeir seinastir, ok er þeir varo á bak kvamnir ridu þeir Sturla ok Ormr or raunino, reid Sturla á lötum hesti er Alptarleggr var kalladr allra hesta mestr ok frídastr, hann var í raudri olpo [8]) ok hygg ek at fáir mano hafa sèd röskligri [9]) mann. Bödvar heilsadi honum, hann tók því. Solveig tók til orda: hygg at hve lángt frændum þínum gánga nedan kvediurnar vid þik. Þeir Gudmundr varo þar kvamnir, ok spurdi hann, hví þá skyldi ekki beriast? segir þá einga vedurvana til. Sturla bad þá fara til hesta sinna, rída nú hvarirtveggio á þíng, var þar fyrir Gissur Þorvaldsson med mikit fiölmenni, ok vissi eingi hverium hann ætladi at veita. Þorvaldr fadir hans var á þíngi ok var beggia

[1]) vantar í *C. St.*

[2]) Oddssyni. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) ír, bæta sömu vid.

[4]) Sturlu. *A. C. St.* þ.

[5]) Arnór. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) diöfuls hundarnir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) skakkyrdast. *A. C. St.* þ.

[8]) hólpu. *B. E. Gr.*

[9]) ok hofmannligri, bæta vid *A. C. St.* þ.

vin. Vatnsfirdíngar varo kvamnir í Reykiaholt, ok var þat rád fyrir þeim giört, at þeir skyldo ekki upp rída. Snorri tók ámusótt um þíngit ok mátti hann ekki gánga, en Sturla reid til kyrkio ok stódu öll spiót úti vid búdarveggi. Þeir Sighvatr lèto lysa hernadarsakir at lögbergi á hendr Vatnsfirdíngum, en Snorri lèt segia til sektar Rafnssona í lögrètto, þat giördi Jón Murtr, en synir Halls Kleppiárussonar sóttu Vatnsfirdínga, ok varo þeir sóttir í fiórdúngsdóm. Vidbárust vandrædi um þíngit, ok skildu menn úhappalaust. Fèránsdómar áttu at vera eptir Þorvaldssonu í Vatnsfirdi, en eptir Rafnssonu á Grund, ok varo hvorugir sóttir. Jón Murtr hafdi um varit bedit födur sinn, at hann skyldi leggia fè til kvanarmundar honum ok vildi hann bidia Helgu Sæmundardóttur ok vildi hann hafa stad í Stafaholti ok þar med fè, en Snorri vildi at hann hefdi Borgarland [1]) ok annat fè módur sinnar, en dró undan sitt fè [2]). Jón tekr þá þat rád, at hann bregdr til utanferdar ok heitir á vini sína [til vöru [3]). Þórdr Sturluson hafdi fengit honum hundrad hundrada fyrir arf Hródnyar Þórdardóttur ok vardi hann því sumo til utanferdar, hann tók sèr far í Hvítá ok Markús Þórdarson or Bæ, fór hann til skips eptir þíngit. En er Snorri vissi þat, þá gaf hann upp stadinn ok hèt fèno, en Jón vill þá ei uppgèfa ferdina ok fór utan um sumarit. Þá fór ok utan á Eyrum Gissur Þorvaldsson. Hallbera dóttir Snorra hafdi verit í búd födur síns. En er Kolbeinn reid af þíngi gaf hann eingan gaum at henni, ok fór hon í Reykiaholt var þar um ríd. Nokkro sídar lèt Snorri fylgia henni nordr í Hvamm í Vatnsdal, en þau Þorsteinn ok Ingun lètu fylgia henni nordr á Vídimyri, ok var hon þar skamma ríd ok kvam ei í hvílo Kolbeins, fór hon þá nordan til Borgarfiardar ok var med módur sinni. Þetta sumar [4]) fór utan Magnús biskup at stofníngo [5]) Þóris erkibiskups. Sturla Sighvatsson var í Dölum um sumarit ok batnadi í fæti sva sem áleid, hann hafdi heldr mannfátt ok lèt kyrrt um sik.

[1]) Bæarland. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) en dró sitt í hlè, sömu.

[3]) vantar í *A. B. C. E. St.* þ.

[4]) vor. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) ordsendíngu, sömu.

8. Gudmundr biskup var heima at Hólum þar til er Skagfirdíngar ráko hann brott med rádi Kolbeins únga af stadnum, fór hann þá nordr um sveitir ok heldr tómliga þar til er hann kvam í Húsavík til Gudmundar Húsvíkíngs, var þá fiölmennt med honum ok úspakt lidit. Þá setti biskup til Rafnssono at ei væri stolit or flokki hans, þeir fóro þá med biskupi, en átto heima med Kolbeini á Greniadarstödum. Ok um daginn er þeir ridu or Húsavík, sitia þeir brædur fyrir flokkstödum [1]) ok láta eingan mann um [2]) rída fyrr en þeir höfdu ransakad hvern mann iafnvel biskup siálfan, fannst þá mart þat er bændr átto, ok var þá sent hverium [þat er átti [3]). Biskup fór þadan til Eggsarfiardar ok heimti þar tíundarhval at mörgum mönnum ok drógust þar saman faung mikil hvalr ok slátur ok var þat fært á Skinnastadi ok þar uppfest, þar beoggo þau [4]) Jón ok Gudleif, kvam biskup þar at íólaföstu med lid sitt ok var þar miök sva til lángaföstu, varo þá uppgengin faungin, en bóndr ugdu þá at setit mundi þá á kosti þeirra ok kurrudu ílla, fór biskup þá af Skinnastödum ok vestr yfir Jökulsá, hann gisti í Kèldonesi, þá var íllr samgángr þeirra ok sveitardráttr ok laupafór. Þadan fór biskup undir Fiöll, ok um kveldit er hann var genginn til svefns ok þeir til bads er þat líkadi, þá var sleginn dans í stofo, en Knútr prestr sat á þverpalli, en liós var ofarliga, þá kvam Jón Birnoson or badi ok var hann í badkápo ok línklædum. Jón gèkk at Knúti ok mælti: þat vildak at vèr legdum nidr úþokka ok dylgiur þær er vèr förum med, þvíat ekki er biskupi oflaunadr velgiörníngr sinn, þótt vèr höfum ei úfrid í föroneyti hans. Knútr svarar: ekki em ek lymskari en þèr, þóat ek sè skapbrádr, ok í því lióp Sveinn Knútsson or koluskugga ok höggr á öxl Jóni mikit sár, en Jón slæmdi [5]) handeggsi á bak sèr ok vard sveinninn sár nokkut, varo þeir þá skildir ok lá Jón í sárum, en biskup fór undan Fiöllum med hit knárra lid um brekkur, en hitt úknárra var flutt fyrir nes á skipi. Biskup fer tómliga þar til er hann kèmr í Hrísey, [þar kvam Jón

[1]) flokkinum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) undan. sömu.
[3]) sitt. sömu.
[4]) mædgin, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) lamdi. *Gr.*

eptir honum, var þá álidin fastan [1]). Or Hríseyo fór biskup vestr til Olafsfiardar ok uestr lutr lids med honum, en Knútr prestr ok nokkrir þeir er eyrindi átto fórn til Svarfadardals, ok ætladi Knútr þadan út til fiardarins um heidi. Biskup var á gistíngo á Þóroddsstödum [2]) fyrir Benedictimesso, ok um kveldit eptir mat var biskup inni, en menn hans margir úti í túni, siá þeir nú at Knútr rídr af heidi ok þángat til bæar, þeir giöra nú rád sitt at heldr væri [3]) úrád, ok ætla honum at leggia á milli kyrkiogards ok fannar þeirrar er þar hafdi lagt sem leidin lá í túnit, standa nú sumir á kyrkiogardinum en sumir á skaflinum, fer nú sem þeir ætludo at Knútr rídr fram í milli þeirra ok vænti sèr eingis úfridar, hann reid iafnan vid vapn, þvíat hann var údæll ok embættislaus. Nú lystr [einn þeirra [4]) undir stálhúfuna aptan ok fer [5]) hon fyrir andlitit, en þá höggr hann þegar annat aptan undir hnakkann ok fellr Knútr þegar af hestinum örendr, þvíat heilinn var á eggsinni eptir. Nú er laupit inn ok sagt biskupi at unnit var á Knúti nykvamnum. Biskup sat í salerni [6]) ok sendi út Kètil prest, hann leypr út ok bidr hundana frá fara, þvíat þá vildu þeir höggva af honum daudum fíngrinn til gulls er á var ok nádu þá ei, er þá þvegit líkit ok grafit um myrgíninn [7]) eptir, en um kveldit er vígit [8]) var ordit, segir bóndi biskupi at bad er búit ef hann vill í fara. Biskup svarar: menn mínir hafa mèr giört bad at sinni ok launat veturvist. Þadan or ferdinni fóru þeir til Flióta um heidi [9]) ok sva inn eptir strönd ok kvama í Vidvík at skírdegi, var þar fyrir Kolbeinn úngi med flokk mikinn, hann rekr lid allt frá biskupi nema tvo klerka Þorkèl son Kètils Ingialdssonar ok Helga bródurson hans. [Kolbeinn lèt biskup fara heim til Hóla [10]), ok er hann þá tekinn í vardhald med því móti, at hann var í einni stofu ok klerkarnir hiá honum. Þar svaf hann ok þar mat-

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) Oddsstödum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) þó — væri, sömu.

[4]) Jón. sömu.

[5]) steyptist. sömu.

[6]) kamri. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) daginn. *B. E. Gr.*

[8]) myrkt. *A. Gr.*

[9]) med flokk mikinn, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[10]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

adist hann ok saung þar allar tídir [nema lága saungva [1]), eíngo rèd hann nema þeim fedgum [2]) ok eingar mátti hann ölmusur gèfa af líkamligri eign, heldr var hann haldinn sem arfsalsmadr, leid sva fram til þess er Magnús biskup kvam út á Gásum [3]) med brèfum erkibiskups þeim er Gudmundi biskupi budo af embætti síno. Sá atburdr vard [at sama sumar nær midiu sumri at Hólum, þá sat biskup sunnan undir kyrkio einn gódan vedurdag, en þar til stadarins var kvaminn Kolbeinn úngi ok Kleppiárn son Halls Kleppiárnssonar, þar var ok kvaminn Jón Birnoson at finna biskup ok stód hann fyrir framan kyrkio, en Kolbeinn var í klokknahúsi ok lèk sèr ad klokkum, en menn hans varo fyrir nordan kyrkio ok sva Kleppiárn. Nú siá þeir Jón ok laupa [4]) þegar at honum med vapnum, hann ver sik vel ok opar undan nordr um kyrkiona ok sva austr um, sídan sudr um saunghúsit [5]) ok fèll þar hiá stodinni ok vildi uppstanda, þá hió Kleppiárn medal herda honum ok gèkk frá sídan, en Jón gèkk fet frá kyrkiouni [ok fèll þá nidr [6]) ok lifdi skamma stund. Þat er sögn manna at hann bæri þá af sèr áverka vid Hafur. Stodin vard miök blódig. Sídan gánga þeir í brotto, en þeir biskup syngia yfir líkino. Fóru nú ord á midlum þeirra biskups ok Kolbeins til sættar, lykr því sva, at þeir Kolbeinn ok Kleppiárn leggia þetta mál allt undir biskup, en hann leysir þá or banni ok bad þá þat gialda hverium er á at rètto, þat frændum er þeir eiga, þat kyrkio eda biskupi sínum er þau eiga. Skilia þeir vid sva búit ok fara þeir Kolbeinn heim. At álidno sumri fer biskup at eyrindum sínum nordr um heidi ok yfir fiörd ok ætlar nordr í sveitir, hann kèmr undir Laufás, hann frèttir þá at Reykdælir ætla vid honum at rísa. Biskup snyr þá aptr yfir fiörd ok ætlar inn eptir strönd til Eyafiardar ok kèmr í Árskóg, frèttir hann þá at Eyfirdíngar vilia ekki vid honum taka. Þetta frèttir Brandr bóndi í Höfda, hann fer ok bydr biskupi til sín til veturvistar, ok þat þiggr biskup blídliga ok er þar tvo vetur,

[1]) utan messu med lágasaungum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) fèlögum, sömu.

[3]) vantar í sömu.

[4]) drepa. *A. C. St.* þ.

[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) vantar í sömu.

9. Vestr í Gufudal bcó í þann tíma Jón prestr Krókr son Þorsteins [1]) Skeifo ok Þorrídar Sturludóttur, hann átti Haldóru dóttur Þórgils Gunnsteinssonar. A Brekko í Gufufirdi bcó sá madr er Oddvakr hèt ok Helga Þormódsdóttir, þau átto tvo sonu, hèt annar Þórgils, en annar Ari, hann var vaskligr madr. Ari gat barn vid Haldóru kono Jóns prests ok var sæzt á málit, en þeim fedgum óx í augum fègialdit. Gudmundr son Arna Audunarsonar var á Brekko med Ara, hann sendi Ari nordr í Broddanes, þar bcó Sigurdr Olafsson, en Jón hafdi látit drepa födur hans, ok fór Sigurdr vestr med Gudmundi, en er þeir kvama á Brekko, var sent eptir Jóni presti at hann skyldi taka vid giöldum, fór prestr ok var í skinnfeldi, en þegar er hann kvam, lagdi Ari til hans med sverdi ok í gègnum hann, en Sigurdr hió á lendarnar mikit sár, Gudmundr hcó í krúnuna, var þat ok banasár. Ridu þeir þá sudr í dali á Harastadi [2]), þar beó Arni Audunarson, reid Arni þá yfir til Saudafells ok hèt á Sturlu at hann tæki vid þeim, en Sturla tók allþúngliga þeirra máli ok kvad alldiarfligt slíks at leita, bad Arna vel yfir láta ef hann dræpi þá ekki edr skildi at, kvad þess einga van at hann drægist þá á hendr, fóro þeir þá til Helgafells ok tóko skriptir af Hallkatli ábóta, fóru sídan á Harastadi ok vöfdust þar, en Sigurdr var í Liáskógum med Olafi Bryniúlfssyni framan til allrahelgramesso. Nær því fór Sturla heiman ok vestr til Saurbæar, hann hafdi nær siötygi manna, kvama þeir Ari fèlagar þá í ferdina ok reid Ari iafnan fyrir. Ekki gaf þá Sturla gaum at þeim. Sturla reid nátt ok dag þar til er hann kvam í Gufudal, [þángat reid [3]) hann til matar. Vígfús Ivarsson gaf sèr eyrindi út á Skálanes, þar var kvaminn Gudlaugr son Þorgríms Skarda [4]) [ok annar madr [5]). Vígfús laut at Gudlaugi ok mælti: þat væri nú drengiligt vinum þeirra brædra at giöra þeim niósn er Sturla er í Gufudal ok ætlar at þeim. Sídan fara þeir Gudlaugr á Klaufastadi ok fá þar skip til Bæar, en þar beó Einar bródir Þórdar sammædri, hann tók sig upp ok lióp vestr yfir heidi um náttina í Voga, en

1) Þorleifs. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
2) Hornstadi. sömu.
3) þar gèkk. sömu.
4) frá Skardi. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
5) vantar í sömu.

þadan fór bóndason til Vatnsfiardar ok kvam þar fyrir dag, var þórdr þá í badstofu ok nokkrir menn. Snorri var farinn nordr [1]) til Adalvíkr at eyrindum sínum. þeir þórdr ok menn hans lupu á skip, þá er hann hafdi sagt þeim um ferdir Sturlo. En þá fèll [2]) á stormr sva mikill, at þeir fengo ei betr en andæft. Sturla kvam í Vatnsfiörd þá er þeir þórdr varo á brotto, ok gèkk Narfi enn þarfi út, því ekki var karla heima, tóku menn af hestum ok gengo inn, en er lysa tók siá þeir skipin, ok lögdu þeir þar at ok gengo upp. Sendi Sturla þá menn til þeirra at leita um sættir, var þá kvamit á gridum, ok fundust þeir, fóro þeirra skipti sva at þórdr seldi Sturlu siálfdæmi um öll mál þeirra. þá kvad Gudmundr Oddsson vísu:

Höfdínginn fór híngat
hardgiör [3]) til Vatnsfiardar,
hugdi vætt á vægdir
vestr rausnar för mesta.
Mykt [4]) hefir málalyktir
menríranda [5]) hins dyra,
vegr Sturlu þvarr [6]) varla
vandan [7]) heilagr andi.

En þeir Sturla fóro heim eptir þetta, ok skildist Ari Oddvaksson vid hann í Isafirdi, en þeir Sigurdr ok Gudmundr fóro sudr. Hann tók grid af Svertíngi til handa þeim fram um páskaviko, ok fóro þeir utan um sumarit eptir [8]), ok tók þá heldr at þverra hinn mesta fiandskap med þeim Snorra.

10. Um varit beóst Sturla at fara í fiördu vestr, skyldi hann þá lúka upp giördum eptir því sem þeir höfdu talat Vatnsfirdíngar, þeir höfdu lagt fund á Skálanesi. Reid Sturla vestr til Saurbæar ok [tók þar tvö [9]) skip ok fór vestr til Skálaness med þriátygi [10])

[1]) vestr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) lióp. sömu.
[3]) hardgèdr. *B. E. Gr.* hardgædr. *A. C. St.* þ.
[4]) miök. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) menn rírandi. *B. C. E. Gr.*
[6]) þverr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[7]) verndi hann. *A. B. C. Gr. St.* þ.
[8]) Sturla var í kyrdum um vetrinn, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ
[9]) atè þar á. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[10]) tuttugu ok fimm. sömu.

manna. Þar kvamo þeir brædur med þriátygi ok fimm menn. Svertíngr Þorleifsson [1]) var þar fyrir med tíu menn, hann kvam saman fundi þeirra, þvíat Sturlu þóttu þeir vera heldr fiölmennir, gèkk Sturla í skèr eitt ok Torfi prestr. Þeir brædur gengo ok þángat ok töludu skamma stund, færdu þeir fundinn í Holt í Önundarfirdi, ok skildu þeir þar kvama med þriátygi manna hvorir. Fóru Vatnsfirdíngar vestr yfir heidi, en Sturla fór þar til er hann kvam á Sanda í Dyrafirdi. Þar beó þá Oddr Olason. Bödvar Þórdarson frá Stad kvam til móts vid Sturlu ok baud at fara med honum til fundarins, þar kvam ok Gísli af Sandi á Myrum, vard Gísli eptir ok allir Dyrfirdíngar. Steindór prestr or Holti fann Sturlo á Arnkèlsbrekko ok baud honum til sín, reid Sturla þá í Holt.

11. Þorvaldssynir varo þá í Valþiófsdal, ok var þeim sagt at Sturla væri í Holti ei allfámennr [med hundrad manna, treystust þeir þá ekki at sækia fundinn [2]). Fór Snorri þá nordr til Bolúngavíkur, en Þórdr ok Gudmundr Sigurdarson ok hinn þridi madr ridu inn til Holts, ok ridu þeir Þórdr í melana skamt frá gardi. Gudmundr rídr heim í Holt ok segir Sturlo hver efni í varo. Ok er Sturla vissi þetta gengr hann út í melana ok Torfi prestr ok Vígfús Ivarsson, tala þeir þar um ríd. Sídan fór Þórdr í Valþiófsdal ok hèt at kvama utan um myrgininn med fimtánda mann. Sturla var í Holti um náttina ok lèt átián menn vaka, níu hvern lut. Þá kvad Olafr þetta:

Höldum vèr um [3]) hildar
hyr riódanda fródan [4]),
nytir hann at hreyta [5]),
höfudvörd [6]), móins iördo.
medan [7]) hagstærir [8]) hyri [9])
hiálma þíngs í bíngi,

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) af. *B. E. Gr.*
[4]) fródum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) neyta. *A. C. St.* þ.
[6]) náhöfud. *A. C. St.* þ.
[7]) mæda. *B. E. Gr.*
[8]) hrægstærir. sömu.
[9]) hyra. sömu.

skaks [1]) hiá sinni [2]) leiko
sèr [3]) kátr una [4]) gáti.

Þórdr kvam um myrgininn ok lauk Sturla upp giördum um víg ok áverka á mönnum [sínum ok flestum ödrum [5]), galdt Þórdr þá níotío hundrud, hann greiddi skipstúfinn ok Ingunarstadi [6]) í Króksfirdi, átián hundrud í reka á Reykianesi ok í Skialdabearnarvík, ok í gulli ok silfri nokkut [7]), mæltu menn at þat fè væri skörugliga af hendi greitt ok þat mundi mikit kosta. Víst er fègialdit mikit, segir Þórdr, en vel ann ek þeim er vidtekr, unik betr vid þennan kost en at taka þetta fè vid þvílíkar tilgiördir, ef ek þættumst þvílíkr madr sem Sturla. Fátt fannst Sturlu um ord þessi, en þó skildu þeir skipuliga, fór Sturla þá til Dyrafiardar ok sva til Arnarfiardar á Alftamyri. Sturla faladi Alftamyri at Biarna Sverrissyni til handa Oddi Olasyni, en hann vildi ei selia. Menn Sturlu föludu ólpo góda at Biarna, vildi hann hana ok ekki selia, en þá hvarf ólpan, ok kèndi Biarni mönnum Sturlu, en þeir heitast í mót. Sturla gèkk þá at ok hrakti þá, en ólpan fannst ekki. Þá kvamst þat upp, at Biarni hafdi látit fela ólpuna, var Sturla þá sva reidr, at hann vildi láta drepa Biarna, átto menn þá lut at ok kvam sva, at Biarni lèt landit at því verdi sem Sturla vildi, sídan fór Sturla heim sudr ok hafdi bædi ordit gott til fiár ok virdíngar. Þetta sumar eptir var kyrrt ok fridr á landino [8]). Snorri reid ei til þíngs, en lèt Styrmi prest hinn fróda rída med lögsögo. Nú tók at batna med þeim Snorra ok Sturlu, ok var Sturla opt í Reykiaholti. Sturla lagdi mikinn hug á at láta rita sögubækr eptir bókum þeim er Snorri setti saman. Þetta haust fór Gudmundr biskup vestr til Rútafiardar ok þadan nordr til Steingrímsfiardar ok aptr til Saurbæar ok í Hvamm til Þórdar ok var þá fiölmennr. Kvamo þá ord frá Sturlo at hann vildi ei at hann færi lengra,

[1]) skads. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) skinni. *B. E. Gr.*
[3]) sva. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) med. *A. C. St.* þ. unir. *B. E. Gr.*
[5]) ok flestum ödrum sökum en fiörrádum vid sik. *B. E. Gr.*
[6]) Ingvararstadi. *E.*
[7]) item skyldi aptr leggiast þat er rænt var, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[8]) lítil þíngreid, bæta sömu vid.

reid Þórdr þá at finna Sturlu á Þorbergstadi, ok sömdu þeir at biskup skyldi fara nordr Laxárdal, en Sturla skyldi láta leggia til saudi or dölum á Dönostadi [1]) ok í Hiardarholt, þar sem biskup skyldi gista. Fór biskup sídan nordr heim til Hóla. Þetta haust fóro Vatnsfirdíngar um alla fiördu at fá til bús síns. Höfdo þeir bædi af Sturlu mönnum ok sínum slíkt er þeir kvádo, ok varo þeir vinir Sturlu er þat flutto til hans, at þeir mundo aldrei friálst höfud striúka er vinir hans væro, medan Þórdr væri höfdíngi í Isafirdi. Sturla lèt sem hann heyrdi ekki þó slíkt væri talat. Jón Murtr hafdi farit utan um sumarit, sem fyrr var ritat, hann kvam á fund Skúla iarls [2]), ok tók hann allvel vid honum ok giördist hann hirdmadr ok skutilsveinn, var hann med iarlinum um vetrinn, hann þroskadist vel. Um varit fór hann til Beörgyniar ok fann þar Hákon kóng ok ætladi út um sumarit, en kóngr gaf honum ei ordlof. Jón var þá miök fèvani ok giördi út [3]) Odd svein sinn eptir fè, en Arni biskup baud Jóni til sín, ok fór hann á biskupsgard ok hafdi herbergi fyrir nordan kristskyrkio þar er nú ero prestahús [4]), svaf þar í herbergi hiá honum Gissur Þorvaldsson mágr hans ok þiónustumenn þeirra Símon Knútr ok Valgardr Gudmundarson, þar var ok kvaminn til Jóns Olafr Svartaskáld [sonr Leggs prests [5]), hann var fèlaus ok hafdi Jón tekit hann á kost sinn. Þeir mágar Gissur ok Jón varo med Hákoni kóngi sem adrir um iólin skutilsveinar, en sídan gengo þeir í hiúkólb [6]) á kóngsgardi, þat var eitt kvöld nær geisladagi at þeir mágar kvamo or hiúkólbino miök drukknir, ok var myrkt í loptino ok ei uppgiörvar hvílurnar, en er uppkvam liósit var Jón illa stilltr ok ámælti þiónustumönnum, en Olafr skaut ordum fyrir þá, en Jón tók skído ok sló til Olafs, en Gissur tekr Jón ok heldr honum. Þá fèkk Olafr handeggsi ok höggr í höfud Jóni, var þat ei mikit sár ásyndom, en Jón brást vid hart ok spurdi, hví Gissur hèldi sèr undir högg? Olafr hióp or loptino ok fèll aptr hlemmrinn, Gissur fèll á hlemminn fyrst, en er hann vissi at Jón var sár,

1) Dunustadi. *A. E. C. E. Gr. St. Þ.*
2) heituga. *E.*
3) til. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
4) prestgardr. *B. E. Gr.*
5) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
6) hiúkólf. *B. C. E. Gr. St. Þ.* hiukólb. *A.*

þá laupa þeir bádir or loptino eptir Olafi, en hann var þá undanborinn [ok nidmyrkur var [1]). Snero þeir þá aptr í loptit ok bundu sárit, lèt Jón illa [2]) yfir sárino ok var á fótum. Leitudu þeir eptir Olafi um myrgininn ok fengo hann ei uppspurdan. Jón geymdi sín lítt, fór í bad ok drakk inni [3]) fyrst, sló þá í verkium ok lagdist hann nidr, hann andadist Agnesarmesso ok var iardadr at kristskyrkio þar sem nú er saunghúsveggrinn. Gissur hafdi út gripi þá er hann hafdi átta um sumarit eptir.

12. Um sumarit eptir víg Jóns var þat tídinda á Islandi, at Sighvatr Sturluson lèt af höndum Rafnssonu ok tók þeim far [4]) at Gásum, varo þeir þar vid skip um sumarit, en þá fóru vingiarnlig ord medal þeirra brædra. Reid Sighvatr til þíngs um sumarit ok fann þar Snorra bródur sinn ok taladist þeim þar vel. Sturla var ok til þíngs kvaminn ok var þá allkært med þeim Snorra. Um þíngit kvam í Reykiaholt madr sá er Brandr hèt, hann var landshornamadr ok var þá kvaminn austan or fiördum. Dagstyggr tók vid honum forkunnar vel ok var vid hann hinn beinasti [5]), var med þeim kaupamáng um hesta ok klædi. Um myrgininn bad Brandr Dagstygg fara á leid med sèr, þeir Dagstyggr fara út [6]) um Ulfsstadi, Brandr vælti [7]) hann af klædum ok hió hann banahögg er Dagstyggr dróg klædi fyrir andlit sèr, tók [8]) Brandr þá sudr á heidi ok fann Orm Svínfellíng er [9]) hann reid á þíng. Ormr hafdi sent Brand til höfuds Dagstyggi. Kolr hafdi keypt at Ormi at hann skyldi Dagstygg afráda. Ormr reid á þíng síd um kveldit ok hafdi nær hundrad manna, en Þórarinn bródir hans var fyrir med sextygi manna. Ormr lèt segia Sighvati víg Dagstyggs, en hann segir Sturlu. Gèkk Sturla þá til búdar Snorra, ok var hann kvaminn þá í hvílo er Sturla klappadi þar á dur. Kalladi Sturla þá Snorra í ölbúd ok segir honum þar vígit ok baud hon-

[1]) sva þeir fundu hann ekki, því — var á. *B. E. Gr.*

[2]) lítt. *B. C. Gr St.*

[3]) vín. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[4]) fari. *B. E. Gr.*

[5]) kálasti. sömu.

[6]) upp. *A. B. C. Gr. St. þ.* vantar í *E.*

[7]) velti. *C. þ.*

[8]) fór. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[9]) ádr. *E.*

um sína lidveizlo slíka sem hann vildi. Snorri kalladi þá til brynio sinnar. Lupo menn þá til vapna um alla Valhöll ok Þorleifr ok hans menn. Þá kvam Sighvatr í búdina ok bad Snorra vera stilltan vel ok auka ei vandrædi. Snorri kvad vel at þá reyndi hver þíngríkastr [1]) væri, kvad Orm lengi hafa öfundat [2]) sæmd sína. Sighvatr lèzt vera sva mikill vin Orms, at hann vildi ei láta hrekia lut hans þar á þíngi, ef hann bydr bod þau er mèr þætti sæmilig. Gèkk Sighvatr þá til Orms ok beoggust þeir brædur Þórarinn þá vid í búdarvirki Orms, Sighvatr spurdi hvat þeir bærust fyrir? Þeir segia at þeir ætludu at veriast þadan. Sighvatr kvad þat úrád, hefir Snorri meir en þriúhundrud manna, en vid Sturla höfum enn nokkurn afla ok manom vid ei vid Snorra skiliast at sinni, vil ek, Ormr, at þú bodir Snorra siálfdæmi, vil ek med því gánga ok [3]) halda þá fram þinn lut. Sídan gengu þeir Ormr brædur þá á tal ok bad Þórarinn Orm at siá fyrir lut þeirra sem hann vill. Ormr tók þá til orda: ek ætla vel vera [4]) at Snorri meti siálfr svívirdíngu sína, giöra þá mikla ef hann vill þat, en þá nokkro minni ef hann vill þat, man tíund mín ei þverra vid þetta. Eptir þat gengo þeir til fundar vid Snorra, hafdi hann fylkt á raunino medal Valhallar ok Allsheriarbúdar. Stód Snorri í midio lidi síno, ok lèt hann giöra kví þar sem þeir Ormr skyldo gánga til handsalanna [5]). Ormr gèkk í kvíina ok þeir brædur ok handsaladi Snorra siálfdæmi, lèzt hann giöra fyrir svívirdíng þá er honum þótti giör til sín, en Dagstygg lèzt hann ekki vilia bæta sekan mann. Snorri giördi fiörutygi [6]) hundrud, ok hafdi Kolr þat heitit at gialda.

13. Gudmundr biskup kvam nordan ok hafdi verit med Snorra um þíngit med mikla sveit. Snorri reid af þíngi ok þeir Sturla bádir saman. Þar var ok Kolbeinn Sighvatsson ok Urækia Snorrason, ok skyldo þeir bádir vera heimamenn Sturlu ok fóro til Saudafells med honum. Gudmundr biskup fór ok vestr af þíngi, med honum var prestr sá er Dálkr hèt, hann kalladist vera læknir

1) hverir þolríkastir. *A. C. St.* þ.
2) sik ok, bæta vid *B. E. Gr.*
3) at. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) fallit. *B. E. Gr.* þ.
5) festunnar. *B. E. Gr.*
6) sextygi. *A. B. C. St.* þ.

gódr ok atgiördamadr at meinom manna. En er biskup gisti [1]) at Borg, þá var talat um hvert Dálkr mundi nokkut kunna geöra at siúknadi [2]) Hallbero, hon var þá miök siúknud [3]). Dálkr lèzt kunna at giöra at henni laug þá er henni mundi batna, ef hon fengi stadizt. En hon var fús til heilsunnar, ok vildi hon hætta á laugina. Eptir þat rèdi hann til prestrinn at giöra laugina, en hon fór í. Sídan voro borin at henni klædi, sló þá verkinn fyrir brióstit ok andadist hon litlo sídar. En er þat spurdi Kolbeinn úngi reid hann sudr um land ok bad Helgo Sæmundardóttur, ok var hon gipt honum. Litlo ádr hafdi Hálfdán Sæmundarson fengit Steinvarar Sighvatsdóttur, ok beoggo þau at Kèldum, vildu þeir allir Averiar hafa hann til höfdíngia, en Hálfdán var úlutdeilinn ok hèldt sèr lítt fram [4]) um flesta luti. Beörn beó þá í Gunnarsholti, hann hèllt sèr mest til mannvirdíngar þeirra brædra. Þeir Haraldr ok Vilhiálmr beoggo í Odda, en Andreas at Eyvindarmúla, ádr hann kaupir Skard [5]) at Katli Þorlákssyni. Filippus beó at Hvoli, ok varo þeir allir brædur gódir bændr, en mikit var heimt at þeim fyrir sakir födur þeirra. Rafnssynir varo vid skip þetta sumar, sem fyrr var ritat, þeir lèto út ok urdu aptrreka undir Grímseyo, [þar var, er þeir kvamo at, miök skèriótt ok skuto þeir báti [6]), liópu þeir Grímr ok Einar í bát ok förunautar þeirra allir nema Gudmundr ok nokkrir Austmenn. Þeir tyndust allir, en skipit hèlzt ok var uppskipat [7]), [en Sighvatr sá fyrir þeim brædrum [8]).

14. Þetta sumar kvamo út á Eyrum Gissur Þorvaldsson ok fèlagar hans er verit höfdu í Noregi um vetrinn. Sögdu þeir út víg Jóns med þeim atburdum sem ordit höfdo. Reid Valgardr Gudmundarson í Reykiaholt ok segir Snorra tídindin, ok þótti Gissuri hann ei bera [sèr miök söguna [9]). En er Þorvaldr Giss-

[1]) var. *A. C. St.* þ.

[2]) meini. *B. E. Gr.* kránkleika. *A. C. St.* þ.

[3]) siúk *A C St.* þ. kraunk. *B. E. Gr.*

[4]) til. *A. C. St.* þ.

[5]) hit ytra, bæta vid *B. E. Gr.*

[6]) ok er þeir komu þar at skutu þeir báti út. *B. E. Gr.* vantar í *A. C. St.* þ.

[7]) uppsett um haustit. *B. E. Gr.*

[8]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[9]) söguna hit rèttasta. *A. B. C. Gr. St.* þ.

ursson vard var vid ordróm þann er álèk um víg Jóns, lagdi hann fund med þeim Snorra ok Gissuri, ok á þeim fundi svardi Gissur fimtardómseid at hann hefdi í eingum rádum eda vitordi [1]) verit med Olafi vid Jón, ok hann vildi þá rèttum skilnadi skilia í alla stadi. Snorri lèt sèr þat því allt vel skiliast er Gissur sagdi. Fóro þau Ingibiörg þá til einnar vistar, ok var þeirra hiúskapr iafnan úhægr, ok segia menn at hon ylli því meir en hann, en þó varo ástir miklar af henni [2]). Þeim vard nú barns audit ok hèt sveinn sá Jón ok lifdi skamma stund. Eptir þat dró til hins sama um samþykki [3]) þeirra, ok áttu þeir allan lut í at semia med þeim Þorvaldr ok Snorri, ok gáfu þeim til samþykkis sín tyttugu hundrud hvor þeirra ok var þó sem ekki giördi, ok kvam því sva sídar at þat kall var á at skilnadr þeirra væri giör. Gudmundr biskup fór út um sveit um sumarit. Þetta var kallat saudsumar [4]), því at eldr var uppi fyrir Reykianesi í scánum [5]) ok var grasleysa mikil. En er Gudmundr biskup kvam í sveit Þórdar Sturlusonr, fèkk hann til Sturlu son sinn at fara med biskupi ok skipa fólki hans á gistíngar, þvíat þá var mannfiöldi mikil med honum, hann var fluttr á [6]) Eyri á skipi því er Lánghúfr hèt ok annari ferio mikilli [7]) til Bearnarhafnar ok sva til Helgafells. Þadan var hann fluttr á Eyri til Páls [prests Hallssonar [8]), en er hann var þar kvam þángat Sturla Sighvatsson ok Kolbeinn ok Urækia ok ruddu frá honum flesto fólki, en hann lèt biskup fara til Dala ok sva nordr Haukadal [9]) ok sva í syslo sína. Um haustit fór yfir land allt sótt sú er köllud var hettusótt, af henni andadist Ingimundr Jónsson [10]) er hann var í för med Snorra [fyrir sunnan land [11]), hann átti þá bú á Skáney [12]) ok var fylgdarmadr Snorra.

1) vantar í *B. E. Gr.*

2) en þó unni hon honum mikit. *B. E. Gr.*

3) úsamþykki. sömu.

4) sandsumar. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

5) vantar í *A. C. St. Þ.*

6) af. *B. C. E Gr. Þ.*

7) lid hans, bæta vid *B. E. Gr.*

8) vantar í *A. C. St. Þ.*

9) Haukadalsskards. *B. E. Gr.*

10) ok mart annara manna, bæta sömu vid.

11) vantar í sömu.

12) at Reykiadal hinum nyrdra, bæta sömu vid.

15. Þeir Urækia Snorrason ok Kolbeinn Sighvatsson fóro bádir í brott frá Saudafelli um haustit. Fór Kolbeinn nordr til födur síns ok var þar um vetrinn, en um varit höfdu þeir fedgar heimildir á Greniadarstödum af Jóni Eyúlfssyni í Mödrufelli; ok giördi Kolbeinn Sighvatsson þar bú sæmiligt, ok rèdust þá Rafnssynir til hans ok varo med honum nokkra vetur sídan. Urækia fór í Reykiaholt ok var þar um vetrinn, þá var þar sveitardráttr mikill. Þá var Klængr [1]) á sextánda vetur, hafdi hann sveit adra, varo med honum Gudmundr Asbiarnarson, Kári son Kètils ábóta, Sturla Sveinsson [2]), Tanni Finnbogason ok enn fleiri. En med Urækiu var Valgardr Styrmisson, Játvardr Gudlaugsson, Tafl-Bergr ok enn fleiri. Þetta haust fóru Vatnsfirdíngar enn um fiördu vída at fá til bús síns, ok þóttust vinir Sturlu þar miök kulda af kènna. Kvam þá vestan Þórdr son Gudmundar Sigurdarsonar [3]), ok segir mikit frá, ok segia sumir at hann færdi ei miök í þurd [4]), en Sturlu fannst fátt um. Um vetrinn eptir iól sendi Snorri bod Þórdi bródur sínum ok Bödvari syni hans, at þeir skyldo kvama sudr til hans at heimbodi, þvíat hann vildi þá treysta vini sína, var þat fyrir því at horfdi til deilo med þeim Kolbeini [5]) um arf Hallbero ok godord fyrir nordan land. En er þeir kvama sudr, þá var þar fyrir Sturla Sighvatsson ok var þar fögur veizla, en ádr þeir færo brott, þá taladi Snorri til Sturlu ok bad hann selia Vatnsfirdíngum grid, þvíat hann lèzt vilia at þeir kvæmo þar fyrir fösto. Sturla kvad Snorra vita at þeir væro sáttir ok kvad þá ei grid þurfa. Snorri lèzt vita at ordasveimr margr færi á medal ok kvedst ei vita hvert hann kallar allt haldit, vil ek ok ei til þess hætta at þeir fari gridalausir. Sèr ek nú, segir Sturla, at þèr þykkir þeir ei allt haldit hafa [6]), man ek nú þik láta fyrir siá um grid, en láta höndina [7]) fram sem þú vilt. Sídan tóku þeir höndum saman, ok mælti Snorri fyrir gridum. Þórdr mælti til

[1]) Biarnason, bæta vid *B. E. Gr.*

[2]) vantar í *Gr.*

[3]) Sigrídarsonar. *B. Gr.*

[4]) í lag. *A. C. St.* þ. bæta vid, um þeirra atferdir.

[5]) Arnórssyni, bæta vid *B. E. Gr.*

[6]) vid mik heit sitt, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.

[7]) hönd mína. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Snorra brodur síns: ei þótti mèr Sturla frændi okkar med þeim svip er mèr gætist at, medan þid settut gridin. Ekki man þat, segir Snorri, allvel man Sturla grid halda. Eptir þetta sendir Snorri menn til Vatnsfiardar ok baud þeim brædrum sudr fyrir föstu, var þat eyrindi, at hann vildi treysta þá til lids vid sik um sumarit eptir. Þat var ok mælt, at þeir mundo fá systra Hallveigar er þá varo med Snorra Þorrídar ok Valgèrdar. Þann tima er Snorra var þeirra van vestan, sendi hann Urækio son sinn í móti þeim vestr, kvam hann í Sælíngsdalstúngo ok beid þeirra þar viko [1]), en þær kvamo ei. Fór Urækio þá sudr heim.

16. Þorvaldssynir fóro vestan á fösto [2]) ok átu dagverd á Stadarhóli drottinsdag eptir sæludaga [3]), en ridu um kveldit í Hiardarholt, þar beó þá Torfi prestr Gudmundarson, hann sendi um náttina Magnús Kollsson til Saudafells at segia Sturlu um ferdir þeirra sem hann hafdi mælt. Torfi prestr bad þess at þeir brædur skyldo rída til Saudafells ok finna Sturlu, fyrir því, segir hann, at nú hafa ordit greinir nokkrar sídan þèr sættuzt, farit þèr nú ok til þeirra manna, er ekki hafa verit vinir Sturlo, þótt nú sè skipuliga [4]) látit, er þat ok mælt, at hann hafi rót verit undir þessum lutum er til sættabrygda hafa ordit, kann vera at Sturlo þykki þèr ei trúligir ef þèr finnizt ei allir samt, vil ek beódast til at fara í midli ydar ok finna Sturlo, væntir ek at þá mani semiast rædur ydar ok vinátta, man ek taka grid af Sturlu til handa ydur at nyo, bid ek ydur fyrir guds sakir at þèr takit þetta af ok mano vel fara ydar skipti, ef þèr sækit hann at vinátto heim. Má ek þetta því í trausti mæla at vid Sturla höfum þetta talat, ef þèr færut vestan, en ef þèr vilit þetta ei, þá bid ek at þèr snúit vestr aptr edr nordr um heidi ok sva sudr Holtavörduheidi, en hættit ei til at rída um Dali ef þèr vilit einga vingan syna Sturlu, megut þèr sva ætla at honum mani skapraun í reidum ydrum medan sva búin standa mál ydar. Þórdr segir at þeir mano þeim gridum [5]) hlyta er Snorri tók til handa þeim, kölludust ok ei

[1]) nokkrar nætur, *B. E. Gr.*

[2]) lángaföstu, sömu.

[3]) sæludagaviku, *B. E. Gr.*

[4]) álitliga, sömu,

[5]) rádum, *St.*

mundo aptrhverfa, en þat kölludu þeir ámælissamt at rída ei leid sína, kvádust þeir ei mundo finna Sturlo, ef hann færi ei til móts vid þá. Torfi segir Sturlu vita um ferdir þeirra. Ekki mannum vèr leynast [1]) um Dali, segir Snorri, því vèr köllumst sáttir vid Sturlu. Þá er Sturla hafdi tekit [2]) tídindi af Magnúsi um ferdir Þorvaldssona, þá sendi hann Magnús upp í Haukadal ok stefndi ofan mönnum þeim er honum líkadi, sendi hann ok menn til Hördardals ok vídar um Dali ok stefndi mönnum at sèr. Um myrgininn snimma stódu Vatnsfirdíngar upp í Hiardarholti, ok kvad Snorri mart hafa fyrir borit um náttina. Þórdr kvad ei drauma skyldu marka ok bad þá rída. Vígfús Ivarsson [3]) var þá í för med þeim brædrum heimamadr Sturlu. Þeir ridu þar til er þeir kvamo til Midár [4]) fyrir nedan virki, reid þá Vígfús frá ok heim. Sturla stód í durum er hann kvam heim vid nokkra menn, heilsadi hann Vígfúsi ok gèkk til stofu fyrir Vígfúsi ok spurdi hann tídinda, en hann segir slík sem varo ok festi upp vapn sín. Sídan var Vígfús læstr í stofu ok konur hiá honum [ok Þióstar Austmadr, en þeir tóku vapn hans [5]), ok er hann vissi hvat títt var, þoldi hann allilla ok var illr vidskiptis. [Uvært var Sturlu [6]) er þeir rido fyrir nedan bæinn, en þá varo ei menn kvamnir. Þeir Isfirdíngar töludu um er þeir rido fyrir nedan bæinn at kyrligt væri á bænum ok mannfátt væri heima, ridu þeir þá yfir á ok til Hornagards er stód undir hlídinni [7]) nidr frá Hundadal ok ádu þar. Halldór frá Kvennabrekko kvam fyrstr ok bad hann Sturlo hafa þol vid ok bída manna sinna, en eiga ekki undir úvinum sínum. I því kvamo þeir Hallr Arason níu saman med Magnúsi, fóro þeir Sturla þá ok varo sextán saman ok höfdu sió [8]) hesta ok ridu [9]) tvímenníng, en er þeir kvama til Erpstada, þá mælti Sturla til þeirra Halldórs: vilit þeir heyra draum minn ok giöra or nokkut. Já, segir Halldór. Þat dreymdi mik, segir Sturla, at ek þóttumst hafa mör-

[1]) lædast. *A. C. St.* þ.
[2]) spurt. *B. E. Gr.*
[3]) Mársson. *B. E. Gr.* Jónsson. *A. C. St.* þ.
[4]) yfir Midá. *B. E. Gr.*
[5]) vantar í *E.*
[6]) Sturla vard var vid. *B. E. Gr.*
[7]) leitinu. sömu.
[8]) átta. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[9]) öllum, bæta vid *B. E. Gr.*

biúgalut í hendi heitan ok af sneysarhaldit [1]), ek þóttumst rètta [2]) medal handa mèr, [ok þá er ek hafda rètt [3]), gaf ek ydur öllum at eta af, ek þóttumst vita at þessi tíd var sem nú er. Audsær er draumr þinn, segir Halldór, þar manto rètta hlut þinn, ok kann vera at þú gèfir oss nokkurn bergibita af ádr lètti fundi þessum. Vera má at sva sè, segir Sturla, ok hló at. Þeir tala nú um vid stakkgardinn hvada mannaför vera mundi upp med feallino. Þórálfr bóndi or Hundadal var þar vid gardinn ok svarar: ei veit ek mannaferda van, ef Sandfellíngar fara ei til laugar í dalinn upp. Þeim brædrum var tídrædt um mannaförina, sáu þeir þá at snúit var á Kvíganseyri [4]) ofanverda ok sva yfir ána á Hundadalseyrar, þóttust þeir þá vita at úfridr var, leita þeir brædur þá ráds vid sína menn hvat tiltækiligast væri, lögdu menn þá til at þeir skyldo rída undan, en Þórdr lagdi þat til, at Snorri ridi undan hinum besta hesti, kalladi sèr þat vænast til grida ef hann bæri undan. En medan þeir töludu þetta, bar þá Sturlu at til hlídarinnar fyrir ofan gardinn, vard þá sem iafnan at þeim vard seint um tiltekiur er or vöndu átto at ráda, en hina bar skiótt at er skæligir varo [5]) ok skunda ferd sinni. Þá er Sturla kvam á holtit fyrir ofan stakkgardinn, sendi Þórdr Þorvaldsson mann at kalla Þorkèl prest þángat til tals vid þá, ok er hann kvam þar, spurdi Þórdr med hverio efni Sturla hefdi för þessa giört. Ei veit ek giörla, segir Þorkèll, en úfridlig þykir mèr sem vera mani. Hvat finnr hann til saka? segir Þórdr. Sættarof mörg, segir prestr. Nú vil ek, prestr, segir Þórdr, at þú farir til Sturlu ok flytir eyrindi var, at hann trúi ekki at þat sèo sakir [6]) er Þórdr Gudmundarson lygr á oss. Fór Þorkèll prestr þá at finna Sturlu ok segir honum rædu þeirra, at Þórdr afsakar sik um öll afbrygdi vid þik, Sturla. Nú gánga menn á milli um stund ok leita um sættir. Beid Sturla sva þeirra manna er ei varo kvamnir, enda vildi hann heyra hvat bodit væri, ok þí er Sturla sèr Hörddæli rída, sendi hann Þorkèl

1) afsnidit sneidarhaldit. *B. E. Gr.*
2) slíta þat. *A. C. St.* þ.
3) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) Kvígángseyri. *C. St.*
5) öruggir varo í sinni ætlan. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
6) sè satt, sömu.

prest til fundar vid þá brædur ok bad þá skriptast ok búast vid, ef þeir vildo veriast, segir at þá man ei grida kostr, ok er þeir heyrdo þetta, þá skriptast þeir, en Snorri Magnússon ok Hallbeörn Kalason heimamenn Snorra Sturlosonar gèngo út af gardinum, því þórdr Gudmundarson [1]) kalladi Snorra fèlaga sinn til tals vid sik, lèt þórdr sem hann mundi leita um sættir, ok trúdi Snorri því, en þat [2]) gafst ödrnvís, því þórdr tók hann ok lèt halda honum, en Sturla lèt halda Hallbirni. þá varo þeir átta eptir í gardinum, þeir brædur þórdr ok Snorri, [hann var átián vetra [3]), hann var vænn madr ok liós á hár ok rètthær, velvaxinn ok kurteys í ferd [4]), hár medalmadr at iöfnum aldri, frækligr, heitfastr, fagurordr, ok kalladi miök sinn þann er hann taladi vid [5]), úlutdeilinn, en ef hann lagdi til nokkut, þá vard hann at ráda [hvort er hann átti vid þórd bródur sinn edr adra [6]), ella fylgdi ber úgiæfa [7]). þórdr var hár madr ok herdabreidr, nefliótr ok vel farinn [8]) í andliti at ödru, miök eygdr ok fasteygdr, liósiarpr á hár ok [fagrir lokkarnir [9]), gódr vidmælis ok blídr, skapmikill [10]) ok líkligr til höfdíngia, sva sagdi Sturla, at sá þyrfti sèr ei til mannvirdíngar at ætla edr ríkis í Vestfiördum er í Dölum sæti, ef þórdr væri í Isafirdi. þórdr Henreksson var hinn þridi madr, hann var skrúfhær [11]) ok freknóttr, miök eygdr ok frammynntr, lángnefiadr, nærsynn, ridvaxinn ok vaskligr madr. Hinn fiordi var Snorri son Lopts Markússonar, hann var lítill madr ok svartr [ok vel farinn í andliti, kurteys umhendr sínar, ok um allt vel at sèr giör [12]). þorsteinn Gèllisson Höskuldssonar var hinn fimti, lágr madr ok svartr, [opineygdr ok miök eygdr ok miök knáligr ok lidadist hárit [13]). þar varo tveir synir Hiálms, var Atli lágr ok bríngobreidr, vel vaxinn, nefliótr

[1]) Grímsson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) þeim. sömu.

[3]) vantar í sömu.

[4]) vantar í sömu.

[5]) þá er hann taladi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) vid hvörn sem hann taladi. sömu.

[7]) úhæfa. sömu.

[8]) fallinn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[9]) lidadist í lokka. sömu.

[10]) vantar í sömu.

[11]) skróphærdr. *A. B. E. Gr.* þ. skarphærdr. *C. St.*

[12]) opineygdr ok knáligr ok lidadist hárit. *A. C. St.* þ.

[13]) eygdr miök ok kurteys. sömu.

ok sómagódr. Þórmódr var mikill ok knáligr, ferstrendr í vexti, stadfastligr [1]), liósiarpr á hár. Hinn áttundi madr var Þorkèll Magnússon, hann var lágr ok digr ok þó framligr madr. Þessir menn varo med þeim brædrum í gardinum.

17. Þá er þeir brædur vita kost sinn ok ekki fridar van ok þeir varo allir skriptadir, þá skipa þeir til varnar, þvíat þeir vildu fyrir eingan mun uppgèfast, sögdu [þat betra til frásagna um ríd [2]). Þórdr Þorvaldsson ok Þórdr Henreksson vördu þann lut gardsins [er til fialls vissi [3]) ok nærst þeim Sturlu var, var þadan best at sækia, en úhægst at veriast. Til hægri handar þeim í þann lut gardsins [er framvissi til bæar [4]), var Þormódr Hiálmsson ok Þorkèll Verpill [5]), en í þann lut gards er til árinnar vissi var Snorri Þorvaldsson ok Snorri Loptsson, [var þar úhægst atsókn vid at kvama [6]), en þann lut gards er til Hundadals vissi vördo Þorsteinn Gèllisson ok Atli Hiálmsson. Ok nú er Hörddælir ridu nedan med á, tók Snorri Þorvaldsson til orda: hví sækit þèr nú ei at? nu bídum vèr búnir ok þarf ei at þæfa [7]) oss lengr í þesso, en ef þèr bídit þeirra er hèr fara nedan med ánni, þá man þat sannast, sem mælt er, at Sturla þorir lítt at hætta á iafnadarfundi vid oss. Sturla svarar brosandi ok stilliliga [8]): Þess manum vèr nú vid nióta er vèr höfum vald meira en þèr, en sva lízt mèr á þá menn er þar ero í gardinum, sem ek mani þá menn í mínum flokki marga hafa er standa mætto iafnfætis ydur [9]), en hins man ek gèta [10]), at vèr fáum ekki mein af ydur, en ek ætla þó at kiósa menn af ydur, þá er ek þykkiumst mestar sakir vid eiga. Snorri kvad ei víst hversu þat tækist. Þá kvam Lauga-Snorri ok Hörddælir, skipadi Sturla þá til atgaungo ok lèt brióta upp griót

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) þá væri lítit til frásagnar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
3) sem fallinn var. sömu.
4) er til hægri handar þeim Þórdi var. sömu.
5) Þorkèll Magnússon. sömu.
6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
7) þirma. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
8) vantar í sömu.
9) þótt ei sè brekku munr, bæta sömu vid.
10) gæta. sömu.

af holtino [1]) þar er þeir stódu, skyldi Lauga-Snorri ok sveit med honum gánga þar at gardinum er Þórdr Þorvaldsson var fyrir. Þórdr Gudmundsson [2]) ok sveit med honum gèkk þar at er Þormódr Hiálmsson var fyrir. Haldór frá Kvennabrekko ok Haukdælir [3]) gèngo þar at er Snorrarnir varo fyrir. Eirekkr Birkibeinn ok sveit med honum gèngo þar at er þeir Atli varo fyrir. Þorkèll prestr ok menn med honum gættu þeirra er haldnir varo. Sturla siálfr ok menn nokkrir med honum gèkk hiá ok skipadi til þar er honum þótti mest þurfa. Skagi hinn hvíti Austmadr var med Sturlo, hann hafdi handboga, ok bad Sturla hann skióta í gardinn. Hann giördi sva ok skaut tveimr örum eda þremr, [ok flugo ei hættiliga [4]) ok geigadi þat allt, hann var þó mikill bogmadr. Sturla drap bogann or hendi honum ok kvad ekki gagns van at fylo þeirri. Nú er gèngit öllummegin at gardinum ok sótt med grióti, en fáir gèngo sva nær at vapnin tækio saman, ok var þat úvida gardsins at vapnum mátti sækia. Sturla gèkk um hit ytra ok tók upp stein, hann kastadi allra manna best steini ok var hæfinn, hann mælti: sva þætti mèr, ef ek vildi kasta steini, sem ek mundi kiósa heldr en þèr hvar á skyldi kvama, en ei skal þat nú reyna, ok lèt falla nidr steininn. Þat sá Snorri Þorvaldsson ok mælti: hví sækir Sturla ekki at, ok ætlak at Dalafreyr sanni nú nafn sitt ok standi ei nær. Rögnvaldr Arason svarar: ekki þarfto sva at eggia, er meiri van at ydur vinni þó at fullo, er þat makligt at vèr eigumst vid. Hallr Arason mælti þá til Snorra: vid erum hèr menn yngstir ok megum vid reyna med okkur ef þú vilt. Þat mandak giarna vilia, segir Snorri, ef ydur mætti til nokkurs trúa, en nú er þat reynt at ydur má til eingis trúa, svikut þèr nú einn varn mann or gardinum, ok nádi sá ei aptr at fara til var. Snorri tók þá upp stein ok reiddi, hann mælti: siá nú vid Hallr, en hann sendi Rögnvaldi stein þann, ok fèll hann vid höggit. Laut þar einn, segir Snorri, ok er ei einum at firr. Ok nú herda þeir atgaungo ok gèngo þeir at gardinum er gildastir

[1]) hólinum. *B. E. Gr.* hólminum. *A. C. St* þ.

[2]) Grímsson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) Hörddælir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) vantar í sömu.

varo. Atli Hiálmsson lagdi til Halldórs frá Kvennabrekko ok kvam í bryniuna, ok vard hann ekki sár vid. Þá kalladi Sturla: þraungvit [1]) þeim fast. Giördi Halldór þá atgaungo ofan at gardinum þar er helst mátti vapnum vid kvama hiá Lauga-Snorra, leitudu þeir Þórdr þá inn frá gardinum þar er þeir höfdo verit í fyrsto, sva ei mátti at kvamast, lèt Þórdr þá svífa þángat med gardinum sem þeir sóttu at Þórdr Gudmundarson ok Eyrekkr Birkibeinn. I þeirri svipan var Gudmundr Skáld [2]) lostinn steinshögg, sva at hann fèll ok kastadi yfir fótunum [3]), madr vildi taka til hans, Sturla mælti: látit þèr hann vera kyrran, ekki man hann saka, sva fer hann á hverium fundi ok skèlldi upp ok hló, hann mælti: sækit þèr at fast. Þá var sva mikill griótburdr í gardinn, at þeir fengu ei hlíft sèr vid, fèll þá Þórdr Þorvaldsson vid heysendann tvisvar sinnum fyrir grióti ok reis seint upp vid hit sídara höggit. Þá var sva kvamit, at þeir sem fyrir utan stódu gardinn höfdu búklarana á gardinum ok lögdu þadan undan med spiótum. Þá kalladi Þórdr [4]) á Halldór Jónsson ok Arasyni, at þeir skyldu leita um grid ok sættir fyrir hans hönd vid Sturlu. Halldór frètti hvert efni hann gæfi til þess? Þórdr svarar: ek vil bcóda utanferd mína ok sudrgaungo ok niótum þess bádir ok gèfa í hans vald ríki mitt ok siálfan mik þar til ek fer utan, man ek ok sveria at halda þetta allt. Þá gèngo þeir Halldór til móts vid Sturlo ok segia honum bod þessi, áttu þá margir lut at, sögdu ok at gott væri at þiggia [5]) af slíkum drengium áheyrilig ord, ok var þá eingi atsókn at gardinum medan. Þórdr Gudmundarson mælti: vel er bodit, en ekki mano þeir halda, ef þeir fá nokkurn kost til annars en deya, má þat ok nú meir til varkunnar virda en fyrr. Sturla lagdi ekki til medan þat var tídast at tala um bodin, ok var heldr áhyggiosamligr, sídan mælti hann til Halldórs: Trautt man ek trúa þèr, tröll [6]), kvad Hausköllr [7]). Fyrir hvat skal [þenna kvidlíng [8]) hafa, segir Hall-

[1]) gángit at. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í *A.*

[3]) sva at fótunum sló fram yfir höfudit. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) Þorvaldsson, bæta sömu vid.

[5]) heyra. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) trautt. *B. Gr.*

[7]) Höskuldr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[8]) þetta, sömu.

dór. Þat er mark at því, segir Sturla, at ei þarf grida at bidia, enda mano eingi fást, ok sækit þèr at fast. Ekki manum vèr at sækia hèdan frá, segir Halldór, ok ero menn nú miök unnir. Verdá mano þá adrir til, segir Sturla, þó þèr gángist hugr vid rædur þeirra. Giördi Sturla sik þá reidan, en Halldór segir Þórdi, at eingi kostr væri grida. Já, já, segir Þórdr, ei skal uppgèfast at heldr. Sóttu þá sumir menn at slæligar en fyrr, enda varo þeir ok minnr færir til varnarinnar, varo Hiálmssynir þar þá til kvamnir, varo þeir nokkru úmóđari, band Þormódr sik þar iafnan fram, er mannraun var mest ok atsókn var hördust. Þá vard enn á hvíld nokkur, þá mælti Þórdr Þorvaldsson: gætum vèr búklara varra, ok bregdum ei vid lögum edr höggum þeirra er oss ero ei hættilig um ríd, vèr þurfum enn hlífanna. Þá kvam Þórir Armódsson til gardsins. Sturla mælti: seinn vartu enn Þórir Svefn, ok sannadir nafn þitt. Þykkir þèr sva vera, bóndi? segir Þórir. Sva er víst, segir Sturla, ok gakk þu nú àt fast. Þórir hióp þá at gardinum, ok lagdi til Þorkèls Magnússonar í handlegginn ok var þat mikit sár. Ei giördi Þórir þar fleira á þeim degi [1]). Þórdr leitadi þá enn um ef Sturla vildi nokkrar sættir þiggia, en þat stodadi ekki, ok eggiadi Sturla þá miök atsóknar. Þormódr Hiálmsson lagdi til Þórdar Gudmundssonar ok sprakk brynian fyrir ok vard hann sár sva at stód á beini, var þá vörn hin hardasta. Þá kèmr steinshögg í andlit Þóroddi Márssyni, ræddu menn um at hann væri miök sár, [hann svarar: ei er sem vèr synum hamfaung á oss þótt í andlit blædi [2]). Þá fær Hermundr Hermundarson ok steinshögg á miödmina, er hann vildi laupa [3]) á gardinn upp, ok hratadi hann ofan aptr, Snorri Þorvaldsson veitti honum þat högg Hermundr var þá úngr ok heimamadr á Kvennabrekko. Í þenna tíma fèkk Þórdr Þorvaldsson steinshögg á stálhúfuna, sva at hon [4]) gèkk á hausinn, fèll hann þá vid, ok er hann rèttist upp vard litit af vörn hans, ok brátt eptir þat rètti hann spiótshalann [5]) út yfir gardinn. Þar er þeir Halldór ok Lauga-Snorri

[1]) fundi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) Hann sagdi ei mætti marka þótt úr andliti blæddi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) kriúpa. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) inn, bæta sömu vid.

[5]) spiótskaptit, sömu.

stódu fyrir, gaf hann þá upp vörnina, ok seldi af höndum vapnin. Þórdr Henreksson gèkk út eptir þetta ok gaf upp sín vapn, en Þormódr ok þeir adrir hèldo þá upp vörninni [1]. Halldór gèkk þá til Sturlu ok beiddi enn Vatnsfirdíngum grida. Sturla kvad ei þurfa þeim brædrum Vatnsfirdíngum grida at bidia, en adrir menn, segir hann, skyldu grid hafa. Halldór segir Þórdi hvers af væri kostr. Eptir þat gáfu þeir upp vörnina í gardinum ok seldu af höndum vapnin allir nema Snorri Þorvaldsson, hann [lèt sèr úgètit at er þeir gáfust upp [2]). Sturla lèt kalla til sín Þorvid [3]) Valsk ok Hermund Hermundarson ok taladi vid þá hliótt. Hermundr gèkk frá þegiandi, en Þorvidr bad hann fá annan mann til at vega at Þórdi, en Sturla kvad honum ei hlyda skyldi slíko móti at mæla, ok kvad hann úglöggt muna bríngosárit er hann fèkk at Saudafelli, [færdi hann þá upp búklarann ok reiddi [4]), bádu menn Þorvid þá ei mót mæla því er Sturla vildi. Gèkk Sturla þá ofan at gardinum, gengo þeir menn þá til grida er þess var kostr. Snorri Þorvaldsson settist á horn gardsins med vapnum sínum. Þá gèkk Hermundr at ok sveifladi til eggsinni, ok kvam á knèit Snorra, sva nær tók af fótinn. Hann hratadi af gardinum ok kom nidr standandi, ok vard sá lutr fótarins undir honum er af var höggvinn, hann leit ei til, þreifadi til stúfsins ok brosti vid ok mælti: hvar er nú fótrinn minn? Þórdr bródir hans sá til ok mælti til Þormódar Hiálmssonar [5]): gakk þú til sveinsins ok ver hiá honum. Hann blès vid ok fór til. Halldór segir [6]) at þat var íllt högg ok úmannligt. Sturla kvad vera gott ok drengiligt. Sturla bad Þórd þá nidrleggiast, hann giördi sva ok signdi sik, ok í því er hann lagdist nidr, heó Þorvidr [7]) um þverar herdar honum, ok var þat mikit sár. Sturla mælti: högg þú annat. Hann giördi sva, ok kvam þat utan á hálsinn. Högg þú hit þridia, segir Sturla,

[1]) enn um stund, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vildi ei uppgèfa. *A. C. St.* Þ.

[3]) Þormód. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) tók þá til búklarans, ræddu þeir er hiá voru ok. sömu.

[5]) Þórdar Henrekssonar. *A B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) í því er Hermundr hió, bæta sömu vid.

[7]) Þormódr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

ok er illa unnit at gódum dreing. Eyrekkr Birkibeinn þreifadi í sárit ok mælti: ei þarf nú meira vid, at fullu man þetta rída [1]). Snorri bródir hans sá á þessa atburdi ok brá sèr ekki vid, þar stód alþydan hiá er Þórdr var veginn. Hermundr snaradist þadan frá fyrir horn gardsins med reidda eggsi ok þar til sem Snorri sat. Sveinninn brá upp hendinni ok mælti: högg mik ei, madr, ek vil mæla ádr nokkut. Hermundr hafdi hit sama ridit ok heó á hálsinn, ok tók af höfudit sva ei hèldt meira en reipshaldi, annari hendi hafdi hann tilhöggvit. Þá var búit um líkin. Þá mælti Sturla vid Grím er beó í Snóksdal, at hann skyldi taka vid líkum þeirra, en hann taldist undan ok lèzt vera myrkhrædinn [2]) ok líkblaudr [3]). Sturla kvad hann vera audvirdismann at meira. Halldór frá Kvennabrekko bad Sturlu ei hrekia hann um þat ok man ek flytia líkin til nín. Giör þat sama, segir Sturla, því þú mant skiótt kalla þá helga. Stígu þeir Sturla þá á bak ok ridu heim, en Halldór flutti líkin heim med sèr. Isfirdíngar ridu til [Hundadals í Bæ ok til [4]) Hamraenda um kvöldit. Þá er þeir Sturla ridu hiá virki, var talat um hve Snorra Sturlusyni mundo líka víg þessi, edr hvert [5]) hann mundi yrkia um. Sturla bad Gudmund minnast [6]) vísna þeirra er Reykhyltíngar ortu um Saudafellsför. Þá kvad Gudmundr vísu:

Hvert mano hildar kèrta
hregg kvam æst [7]) at seggiom
raun sleit or því ránar [8])
ræfurs firdíngar virda.
At stál-hiarli [9]) Sturlu [10])
steinrunnins man kunna
valr fèkk blóds í [11]) biliom
brádir stórt at ráda.

[1]) vinna. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) myrkfælinn. sömu.
[3]) vantar í sömu.
[4]) vantar í sömu.
[5]) hvat. sömu.
[6]) vantar í *A. B. E. Gr. St.* Þ.
[7]) komist. *St.* komast. *C.*
[8]) raunar. *B. E. Gr.* ramar. *C. St.*
[9]) hiali. *St.*
[10]) Sturlo. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[11]) úr. *C. St.*

En er Sturla kvam heim, gèkk hann til stofu, ok festo menn upp vapn sín, spurdu menn þá tídinda, en er sögd varo, þá kvad Solveig Vatnsfirdínga vita mundo hveria grimd þeir hefdu synt þar í heimsókninni. Þá kvad Gudmundr:

Guldo grimdar fyldir
gliúfur bestíngia [1]) vestan
strætis stórar lautir [2])
stiklendr tíund mikla.
Lètust [3]) einn [4]) dag ítrum
arnspreingi [5]) framgiarnir
sva hygg ek fykins [6]) til tókust
tveir höfdíngiar þeirra.

Sídan gengu þeir Sturla til kyrkio ok varo teknir or banni, fóro menn sídan heim. Isfirdíngar fóro vestr, ok varo þrekadir miök af grióti, undu þeir ílla vid ferd sína sem van var at, en Hallbeörn Kalason fór heim til Reykiaholts ok segir Snorra tídindin, ok rann honum miök í skap sá atburdr. Arf ok bætur eptir þá brædur átti at taka Einar bródir þeirra dótturson Snorra, en Illhugi var adili [7]) bródir þeirra. Sturla sendi ord til Snorra ok baud honum sættir ok beiddist grida í mót, en Snorri seldi grid fyrir sik ok sína erfíngia, en ei lèzt hann sættir mundi taka til handa Vestfirdíngum [8]) fyrr en hann vissi skap þeirra. Illhugi Þorvaldsson fór sudr til Snorra brátt eptir þat er hann spurdi víg brædra sinna, [ok tók Snorri vid honum [9]). Allir stakkgardsmenn viku síno máli undir forsiá Snorra til sátta, en Þórdís tók vid búi í Vatnsfirdi at rádi födur síns. Snorri lagdi gott til um sættir med þeim, þvíat hann vildi ei missa lidveizlo Sturlu á þíngino um sumarit í málum þeirra Kolbeins únga. Þetta var fór Klængr [10]) í brott or Reykiaholti med sveit sína, ok giördi hann þá bú á Völl-

[1]) bæstíngia. *E.* hæstíngia. *A, B, C, Gr. St.* Þ.
[2]) sveitir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) liótust. *A. C. St.* Þ.
[4]) enn. *A.*
[5]) armspreingi, *E.*
[6]) fiknis, *B. E.* Þ. fíkns, *Gr.*
[7]) annar. *B. E. Gr.*
[8]) Vatnsfirdíngum. *St.*
[9]) vantar í *B. E. Gr.*
[10]) Biarnason, bæta vid *E.* Biarnarson. *B. Gr.*

um, er Snorri hafdi goldit honum. Rèdst þá sudr med honum Vigfús [1]) Kálfsson ok Tanni Finnbogason ok enn fleiri sveitúngar hans.

18. Urækia Snorrason giördi bú í Deildartúngo um varit [2]) ok Filippus mágr hans med honum. Um sumarit fyrir þíng varo rádnar sættir med þeim Sturlu ok Vestfirdíngum, ok skyldu þeir giöra brædur Snorri ok Sighvatr. En er leid at þíngi, reid Snorri med átta hundrud manna til þíngs, en margir adrir höfdíngiar veitto honum, brædur hans bádir ok Sturla. Ormr Svínfellíngr var þá kvaminn í vinátto vid Snorra, hafdi Snorri gèfit upp allt fègiald þat er hann hafdi giört fyrir víg Dagstyggs, ok gallt Kolr Arnason þó Ormi [3]) fiörutygi [4]) hundrud ríís [5]) feár. Kolbeinn úngi hafdi nordan sex hundrud manna, Þórarinn Jónsson veitti honum ok enn fleiri adrir [6]). Þorvaldr Gissursson gèkk mest í milli ok leitadi um sættir ok margir lærdir menn med honum. Gissur hafdi mikit feölmenni, ok visso menn úvíst hverium hann mundi veita, þvíat hann lèt vel vid hvarotveggio. Snorri beiddist helmíngaskiptis um fè ok godord fyrir nordan land, en Kolbeinn var seinn í isтordum [7]) ok tregr í sáttargiördinni, kvam sva at þeim Þorvaldi Gissurssyni ok Þórdi Sturlusyni þóttu eingis sín ord metin, ok gáfu þeir upp medalförina. En þá fóro í midli vinir ok trúnadarmenn þeirra Kolbeins ok Snorra, kvam þat þá upp litlo sídar, at sætt var samankvamit [8]) med þeim Snorra ok Kolbeini, en sú var sætt uppsögd, at Snorri skyldi eiga helmíng godorda þeirra er Kolbeinn átti at rètto, skyldi Kolbeinn med fara ok veita Snorra á þíngi, gialda skyldi Kolbeinn fè [at hægindum [9]) ef Snorri vildi heimta, þat fylgdi þessu at Kolbeinn skyldi gipta Arnbeörgo systur sína Urækio syni Snorra med sextygi hundrudum, en Snorri skyldi fá Urækio tvö hundrud hundrada ok stad á

[1]) Sigfús. *A. C. St.* þ.

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) Snorra. *C. St.*

[4]) sextygi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) fríds. *B. E. Gr.*

[6]) höfdíngiar. sömu.

[7]) isyrdum. sömu.

[8]) samandregin. sömu.

[9]) vantar í *E.*

Mel ok godordit Haflidanaut, ok skyldu þeir mágar velast [1]) um nordr þar bádir samt. Varo menn þá tilkalladir handsala ok tóku þeir höndum saman Kolbeinn ok Snorri.

19. Þorvaldr Gissursson spurdi Þórd Sturluson hvat hann ætladi, hví sættin mundi sva skeótt hafa saman gèngit, sídan er þeir gèngo or? Ei veit ek, segir Þórdr, en uggir ék, at Snorri brodir minn hafi giört vina skipti ok seldt vinátto Sighvats ok Sturlu, en tekit vid vináttu Kolbeins, er mik uggir at vèr frændr manum mesta rimmo [2]) athlióta ádr lýkr. Þorvaldr svarar, undarligt þykir mèr er Kolbeinn vill gipta systur sína skilgètna hórkono syni Snorra, en þat er satt, sem mælt er, at siálfr veit helzt [3]) hverium varníngi [4]) veria á. Þetta sumar um þíng fóru Isfirdíngar vestan í Dali, Þórdr Henrcksson, Högni Halldórsson ok Bödvar Steinarsson [5]) ok enn fleiri stakkgardsmenn, þeir gróíu upp lík þeirra brædra ok flutto vestr í Vatnsfiörd ok gróíu þar, þótti mönnum þat giört af mikilli elsko vid þá brædur Þorvaldssonu. Um sumarit fyrir Oláfsmesso fór Snorri vestr til Vatnsfiardar med tuttugu manna [6]), þar var Urækia sonr hans, Arni Öreyda [7]) ok Asvards synir [8]), ok gott mannval hafdi hann, hann gisti í Hvammi ok var Oláfsmesso í Vatnsfirdi, kvamo þar til hans bændr um Isafiörd [9]) ok bundust allir á hendr honum, þá kvam til hans Olafr Ædeyíngr, hann hafdi gètit barn vid Þórdísi ok seldi Snorra siálfdæmi fyrir, en hann giördi Ædeyo sva [10]), at frændr hans skyldo frelsa [11]) [þat er hann átti ei í eyunni [12]). En í þenna tíma var í kærleikum vid Þórdísi Oddr Olason [13]) ok fann hann ei Snorra í þessari ferd. Snorri fór heim aptr ok fann Sturlu heima ok fór skipuliga [14])

1) veliast. *A. C. St.* Þ. bælast. *B. E. Gr.*
2) mestar raunir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
3) giörst. sömu.
4) yta hefir edr, bæta sömu vid.
5) Hiálmssynir, bæta vid *B. E. Gr.*
6) sextánda mann. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
7) Ureida. *A. E.* Þ.
8) Asvardsson. *A. C. St.* Þ.
9) Vatnsfiörd. *St.*
10) sína. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
11) leysa. *B. E. Gr.*
12) ef þeir vildu. sömu.
13) Alason. *B. E. Gr.* Oddsson. *A. C. St.* Þ.
14) sæmiliga. *B. E. Gr.*

med þeim í þat sinn. Þetta haust hit sama bcóst Kolbeinn vid brúdlaupi Urækiu ok vænti Snorra þángat, en Snorri vildi ei fara. Setti hann fyrir ferdina Þorleif or Gördum ok Stadar-Bödvar, var þá ei rád fyrir giört um stadfestu í Midfirdi, en er þeir kvamo nordr ok Kolbeinn vissi þetta, vard hann styggr miök ok kalladi allt rofit vid sik, en því lauk sva at Þorleifr gèkk til handsala vid Kolbein at Urækia skyldi hafa tvö hundrud hundrada ok stad í Stafaholti ok kalladi Snorra at hafa iátat sèr því, ef Kolbeini þætti ei efnt vid sik ella. Tókst vid þetta rádahagr med þeim Urækiu ok Arnbeörgo, ok fór hon í Deildartúngo til bús med Urækiu um vetrinn.

Þetta haust kvamu út brèf Sigurdar erkibiskups er þá var nykvaminn í land, þau varo mælt hardliga [1]) til þeirra Sighvats ok Sturlu um Grímseyarför ok annan mótgáng vid Gudmund biskup, var þeim stefnt utan bádum fedgum, en þat rèdst af, at Sturla skyldi fara fyrir báda þá ok leysa mál þeirra beggia, lysti hann þá utanferd sinni um vetrinn, en Solveig skyldi fara á Grund ok börn þeirra ok vera þar medan Sturla væri utan. Sighvatr skyldi hafa umsiá um ríki Sturlu medan hann væri frá, var þá eingi höfdíngi í Vestfiördum, en þeir varo mestir af bóndum Oddr Olason ok Gísli af Sandi, ok varo þeir hinir mesto vinir Sturla ok Oddr. Baud Sturla þer hèlzt um Oddi at geyma vina sinna, ok rèdst hann þá [um varit [2]) á Eyri í Arnarfiörd ok hafdi mart röskra manna med sèr, hann hafdi mikit fè ok rausnar bú, ok gèkk þá skiótt vid rád hans ok sæmdir, ok giördist hann þá ofsamadr mikill ok ekki iafnadarmadr [3]).

20. Þessi vetur var kalladr hardr ok íllr ok hèldu menn ílla [4]) vídast um sveitir. Þórdís beó þá í Vatnsfirdi sem fyrr var ritat. Um varit eptir páska kvam þar Oddr Olason ok med honum Högni Halldórsson [frændi hans [5]) ok höfdu sveit manna. Þeir

[1]) voru þau hardmælt. *B. E. Gr.*

[2]) vantar í *A. C. St.* þ.

[3]) ok ei iafnadarsamr. *A. C. St.* þ.

[4]) fè sínu, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) vantar í *B. E. Gr.*

dvöldu þar um ríd, þvíat þá voro kærleikar miklir med þeim Þórdísi ok Oddi, ok einn myrgin snimma urdo þeir varir vid at bærinn var horfinn mönnum ok heyrdu vapnabrak. Högni gèkk til dura ok spurdi hverir úti væro, honum var sagt, at þeir væro þar mágar Oláfr Ædeyíngr ok Snorri Magnússon [1]) or Grunnavík ok bádu þá útgánga. Högni spurdi hvort þeim skyldi fiitt, þeir lètust því ei mundo heita, en er Oddr hafdi fengit vapn sín ok þeir skyniodo at ei var mannmart úti, rèdu þeir til útgaungo ok var lítill lidsmunr ok rèdu hvorigir á adra, skildu þeir at því at Oddr lysti fiörrádum á hendr þeim vid sik, en þar urdu eingi [laupaför [2]) edr áunnin verk [3]) at sinni med þeim. Fóru þeir heim, en Oddr úti fiördu med sveit sína.

21. Um varit heimti Urækia kvonarmund sinn at Snorra ok stad í Stafaholti, en Snorri sagdi sva at Urækia skyldi fara vestr í Vatnsfiörd ok taka þar vid stad ok mannaforrádi því er Einar átti, en lèzt mundi skipta hverium hinna til handa slíku er honum líkadi, þá er Einar þroskadist, en Þórdísi band hann til sín. Urækia vildi fyrir hvern mun hafa Stafaholt, en þó vard sva at vera sem Snorri vildi, fór þá Urækia vestr [med kono sína [4]) ok sveit manna med honum, en er hann kvam í Vatnsfiörd, þótti Þórdísi íllt upp at standa ok fór hon þá útá Myrar í Dyrafirdi [5]), en Urækia tók vid búi í Vatnsfirdi ok tók vid hverium manni friálsum er til hans vildi, ok dróst þar saman karlfeöldi mikill, en brátt var med hardindum fengit til búsins, sem lengi hafdi sidr verit í Vatnsfirdi. Sturla Sighvatsson bióst til utanferdar um varit [6]) ok dró vöro at sèr, hann lèt sèr fátt finnast um vestrferd Urækiu, var hann iafnan heima at Saudafelli, leid sva fram til þíngs, var Snorri á þíngi eptir vanda, því hann hafdi lögsögo. Sighvatr kvam um þíngit nordan í Dali ok var at Saudafelli um þíngit, en er Snorri kvam af þíngi [7]), sendi hann Sturlu Þórdarson

1) vantar í *A. C. St.* þ.
2) atlaup. *B. Gr.*
3) nè önnur vandrædi. *A. B. Gr. St.* þ. ny verk. *E.*
4) vantar í *B. E. Gr.*
5) vantar í *A. C. St.* þ.
6) sumarit. *B. E. Gr.*
7) á þíngit. *B. Gr.*

eptir Sighvati ok baud honum sudr þángat, fór Sighvatr þá sudr ok Þórdr Kakali ok Þorvaldr or Saurbæ, fiórir varo þeir, tók Snorri allvel vid þeim ok var þar veizla fögur. Giördu þeir brædur þá um víg Vatnsfirdínga ok urdu vel ásáttir, gaf Snorri Sighvati spiót gullrekit at skilnadi ok kvad úfellt [1]) at þeir skildu giafalaust, sva sialdan sem þeir fyndist. Þá er Sighvatr var í Reykiaholti, þá kvam austfirzkr madr þar ok heimti fè at honum, en Sighvatr greiddi honum hest þann er hann hafdi þángat ridit, en bad Valgard Styrmisson leá sèr hest í Dali vestr, hann var þá umsyslumadr [2]) í Reykiaholti [3]). Valgardr lèdi honum hest bleikalóttan, bædi mikinn ok sterkan, járnadan öllum fótum ok hinn besta fararskióta, en er Sighvatr kvam vestr í Brattabrekko, var hestrinn þrotinn [4]) sva at ei mátti standa. Sighvatr leit á hestinn ok mælti: þetta man vera fyrir feigd Valgards er hestrinn þraut, því þat er med úlíkindum. Þann dag er Sighvatr fór or Reykiaholti, reid Valgardr útá Myrar at bidia hesta nordr til Skagafiardar eptir vidum, þá var giör stofan í Reykiaholti. Med Valgardi var Ingialdr [5]) Geirmundarson [6]) ok Þórdr Tyrfíngsson ok Þórdr Steypir Grímsson, þeir kvamo í Eskiholt ok bádo þar hests Halldór son Gudmundar Eskhyltings, en hann syniadi, Valgardr setti örfalinn fyrir óst [7]) honum, sva at hann hnè at vegginum, en þeir tóku hestinn ok ridu upp í Svignaskard [8]) ok átu þar mat. Eptir þat fóru föronautar Valgards at búa hesta þeirra, en hann var í stofu ok klæddist, þá kvam Halldór í stofuna, er Valgardr hafdi dregit blátt kaprúns skrúd [9]) fyrir andlit sèr er hann hafdi um hálsinn undir stálhúfunni. Halldór hió í höfud honum ok var þat banasár, lióp Halldór þar út ok eltu föronautar Valgards hann til skógar, rann hann þeim þar hvarf. Halldór kvam í Vatnsfiörd at Oláfsmesso, þar var Magnús biskup þá at veizlo, hann flutti mál hans vid Urækiu sva at hann tók vid honum. Þetta sumar var veginn

1) úfallit. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
2) rádsmadr fyrir búi. sömu.
3) Stafaholti. *C. St.*
4) máttlaus. sömu.
5) Ingimundr. sömu.
6) Gudmundarson. *Gr.*
7) brióst. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
8) Sygnaskard. *Gr.*
9) kaprún. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

Vígfús son Kálfs Snorrasonar [fylgdarmadr Klængs Bearnarsonar [1]), hann var í för med Birni Sæmundarsyni. [Jon son Kráks [2]) frá Hídarenda beó á Egilsstödum, hann vildi ei gèfa þeim mat, en þeir höfdu ei at sídr, en um náttina gèkk hann í skála ok veitti Vígfúsi banasár ok lióp til skips ok reri [3]) sudr yfir á ok fordadi sèr, fór sídan austr um land, tók Sighvatr vid honum sídan ok kvam honum utan, en Beörn giördi til [4]) Haflida bródur hans ok lèt fóthöggva [5]) hann fyrir þetta. [Þessi Haflidi var fadir Magnúsar er beó at Eyvindarmúla ok Þorgèrdar at Hlídarenda er átti Magnús Andreasson ok varo þeirra synir Karla-Magnús, Vígfús ok Benedikt. Haflidi átti Ingibiörgo Loptsdóttur or Gaulveriabæ [6]).

22. Oddr Olason var med Sturlu um sumarit, ok var þat ord á at hann mundi utan fara, en þá er Sturla spurdi [at menn drógust at [7]) Urækiu í Vatnsfirdi, setti hann Odd eptir at gæta þíngmanna sinna í Vestfiördum, fór hann þá vestr ok fundust þeir Urækia ok lagdist allvel á med þeim, mælto þeir til vinátto med sèr. Þórdís fór ok vestr i Fiördu, ok er hon kvam í Saurbæ, fæddi hon þar barn á Stadarhóli, þat var mær er þau Oddr átto, hon lá þar [8]) þriár nætr ok fór sídan vestr heim á Myrar. Sá madr kvam til Urækiu um sumarit er Beörn hèt nordlenzkr madr, hann var kalladr Maga-Beörn [9]), hann hafdi verit í Grímsey ok barizt þar vid heimamenn Sighvats ok frændr hans Pál ok Magnús Magnússon. Med Birni var sá madr er Einar Kollr hèt sunnlenzkr at ætt, en er þeir kvama í Vatnsfiörd giördist Beörn þar fyrirmadr um atdrátto, hann var all-úspakr ok ei heimilda vandr [at faungum bónda [10]).

23. Sturla Sighvatsson fór utan um sumarit at Gásum ok nokkrir menn med honum, hann vard sídbúinn ok tók Noreg

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) Krákr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) hlióp. sömu.
4) lèt taka. sömu.
5) höggva. *B. E. Gr.*
6) frá [ vantar í *A. B. E. Gr. St.* þ.
7) fiölmenni. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
8) ei meir en. sömu.
9) Hrínga-Biörn. sömu.
10) um. þat er bændr áttu. sömu.

fyrir nordan Stad [ok héllt til Borgyndar[1]), þar var þá fyrir Alfr af Þórubergi[2]) mágr Skúla hertoga, hann tók allvel vid Sturlu ok bad hann þar bída þess er hertoginn[3]) kvæmi nordan ok sagdist vilia kvama honum í vinátto vid hertogann, segir Alfr Sturlu at hertoginn mundi geöra hann at hinum mesta manni, slíkt afbragd sem hann væri annara manna, en kalladi hertogann vera hinn mesta vin Islendínga, ok þó mestan Sturlúnga. Sturla vildi ei annat en fara sudr til Beörgyniar á fund Hákonar kóngs, en þá var sundrþykki mikit med þeim mágum, ok drógu þeir þá lid saman slíkt er þeir fengo, þeir fundust[4]) í Beörgvin ok sættust ok þótti hertoganum[5]) sèr þá heldr erfidt veita sættin. Þetta var kallat hákalla haust, þá var Sturla í Beörgvin ok sva öndverdan vetur, sídan rèd hann til sudrferdar, ok fór hann til Danmerkur ok fann Valdimar kóng hinn gamla ok tók hann allvel vid honum, var hann þar um ríd, gaf Valdimar kóngr honum hest gódan ok enn fleiri sæmiligar giafir, ok skildu þeir med hinum mesta kærleika, fór Sturla þá sudr á Þydversktland[6]); hann fann þar Pál biskup or Hamri, ok varo þeir allir [samt í för útí Rómam[7]) ok veitti biskup Sturlu vel föroneyti ok var hinn mesti flutníngsmadr[8]) allra hans mála er þeir kvamo [til páva fundar[9]). Páll biskup fór fyrir því út til páva, at hann vard missáttr vid Hákon kóng, deildu þeir um eyuna helgo er liggr í Miörs. Sturla fèkk lausn allra mála sinna í Rómaborg ok födur síns, ok tók þar stórar[10]) skriptir, hann var leiddr[11]) á milli kyrknanna allra í Rómaborg ok rádit fyrir flestum höfudkyrkium, bar hann þat drengiliga sem glíkligt var, en flest fólk stód úti ok undradist, bardi á bríóstit ok harmadi, er sva frídr[12]) madr var sva hörmuliga leikinn, ok máttu

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
2) Þornbergi. *A. B. C. E. St. þ.*
3) iarlinn. *B. E Gr.*
4) um haustit, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
5) iarlinum. *B. E. Gr.*
6) Þyzkaland. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
7) í einni för til Róm. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
8) fulltíngsmadr. sömu.
9) á páva gard. sömu.
10) vantar í sömu.
11) berfættr, bæta sömu vid.
12) gèrviligr, frídr ok faunguligr. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

ekki vatni halda bædi konur ok karlar. Þeir Páll biskup ok Sturla fóro bádir samt í nordrlönd ok skildu med hinum mesta fèlagskap, veittu hverir ödrum gódar giafir, fann Sturla Hákon kóng í Túnsbergi [1]) ok tók hann allvel vid honum, dvaldi hann þar lengi hinn sídara vetur er hann var í Noregi, [ok töludo þeir kóngrinn ok Sturla iafnan [2]).

24. Urækia var nú í Vatnsfirdi, sem fyrr var ritat, hann fór um sumarit sudr til födur síns, var þá í för med honum Högni Halldórsson, ok var hann þá í kærleikum med Urækio. En er þeir kvamo heim vestr, fór Högni út á Eyri til Odds, varo þá kærleikar med þeim öllum. Um haustit fóru þeir Oddr nordr í Grunnavík at þeim Snorra Magnússyni ok Oláfi í ÆEdey med mikla sveit manna, ok kúgudu þá til siálfdæmis fyrir för þá er þeir höfdu farit í Vatnsfiörd. Oddr ok Snorri deildu ok um fè kono einnar ok hlaut Oddr því at ráda, en er þeir kvamo nordan, fóro þeir í Vatnsfiörd at bodi Urækiu, ok varo þar í allmiklum kærleikum ok gáfust giöfum. Þá var gèfit sverdit Steypir er átt hafdi Pètur Steypir [3]), skildust þeir þá hinir mesto vinir at því er kallat var. Urækia sendi um haustit Maga-Beörn [4]) sudr til Breidafiardar ok kærdu þeir á [5]) hvers manns fè um nes ok fiördu [6]), en rænto at ödrum kosti, þeir tóko skip [frá sonum [7]) Þorbiarnar Hrana ok fóro útí eyar ok ræntu hvervetna um vestreyar. Þeir fóro í Svidnur ok vágu þar Játgeir [8]) bónda, Einar Kollr va hann. Þeir fóro sudr til Medalfellsstrandar ok rænto þar Svein at Heinabergi ok Þorbeörn í Búdardal ok at Hvalgröfum, var þá sent sudr í Hvamm eptir Þórdi Sturlusyni, ok fór hann vestr til Saurbæar, en þeir varo þá vestr farnir ok fóro sídan til Vatnsfiardar, ok lèt Urækia vel yfir þeirra för, en fáir lofudu sudr þar.

1) Biörgvin ok fór med honum til Túnsbergis. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) vantar í sömu.

3) Skeifir. *St.*

4) Mága-Biörn. *A. C. St.* Þ.

5) kvádu þeir á um. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

6) þverfiördu. sömu.

7) ok sonu. sömu.

8) Játmund. *B. E. Gr.*

25. Asgrímr Bergþórsson beó þá at Breidabólstad í Steingrímsfirdi, hann var vin ok frændi Urækio. Madr hèt Oddkèll, hann var Biarnason Þórissonar er búit hafdi at Hausthúsum í í Eyarepp. Oddkèll[1]) var reykunarmadr, hann fór med kono sína ok bar kèrölld af Ströndum[2]) til sölo, hann kvam til Asgríms ok færdi honum brèf, hann sagdist kvaminn or Isafirdi ok utan or fiördum ok segir Odd Olason hafa fengit sèr brèfit ok Þórdísi Snorradóttur. Asgrímr leit á brèfit, ok var þar á kvediosendíng til Asgríms þeirra Odds ok Þórdísar, en þat var ummáls á brèfino, at þau öll saman skyldo geyma ríkis Sturlu med rádi Sighvats, ok setiast at Urækiu, þau vestan, en hann nordan, sva at hann kvæmi eingu fram, segir sèr ekki fyrir því at hafa hann uppi ef þau geymdu til. Þenna sama tíma kvamo til Asgríms heimamenn Urækiu Gunnlaugr Hrollaugsson ok Bútr Þórdarson, ok fèkk Asgrímr þeim brèfit, en þeir færdu Urækiu, en er hann sá brèf þetta, virdist honum þat brèf fiörrád vid sik ok bar þetta upp fyrir vini sína ok trúnadarmenn, en med Isfirdíngum ok útfiardamönnum var forn úþokki ok lögdu þeir flestir þúngt til þeirra mála er í trúnadi varo hafdir. Eptir þetta lagdi Urækia fund vid Grunnvíkínga, ok rèdu þeir þá atför vid Odd, skyldo hvorir hafa fiórtán[3]) menn, fór Urækia Glámo, en hinir Hestfiardarheidi, þeir fundust í Arnarfirdi inn frá Eyri ok fóro heim á bæinn fyrir dag, þat var geisladags myrgin[4]), þeir tóku bæinn, þvíat hurdir allar varo læstar. En er menn urdu varir vid úfridinn, gèngu þeir til dura ok spurdu hverir úti væro. Þeir segia at Urækia var þar ok Grunnvíkíngar, Oddr trúdi ekki at Urækia væri þar. Þeir báro eld at húsum, en þá var fylgt konum ok börnum til kyrkio. Högni Halldórsson eggiadi útgaungo, þvíat þar var mart röskra manna fyrir, Oddr ok Högni, Sanda-Bárdr[5]), Börkr Biarnason, Magnús Gíslason, Hallbeörn Kalason[6]) ok margir adrir. Oddr vard all-

[1]) Jökull. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) vantar í sömu.

[3]) fiörutygi ok fimm. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) vantar í sömu.

[6]) vantar í *E.*

röskliga vid, þeir Oddr gèngo til þeirra dura er varo á bak húsum or eldhúsi til badstofu, ok þraungt sund fyrir úti. Þar voro fimm menn í sundino, enn sumir á húsunum. Hallbeörn Kalason lióp fyrstr út, hann drap sèr upp í durunum, sva at stálhúfan hraut af höfdi honum, var hann þegar höggvinn banahögg, þá gèkk Högni út ok hafdi sverd í hendi, hann lagdi því til Þorbearnar Meri [1]) ok var þat banasár, sídan heó hann á öxl Þorbirni, sva at sá inn í lungun. Þá gèkk Oddr út ok heó til Þorbearnar Jónssonar, kvam í höfudit fyrir framan eyrat [2]), ok var þat allmikit sár. Þorbeörn var í þófastakki þeim er sverd þeirra bito ei, þótt þeir breiddu á trè [ok hyggio til [3]), þann heó Högni í sundr bak ok fyrir. Börkr Biarnason gèkk þá út, þá Sanda-Bárdr, þá Sveinbeörn frændi þeirra, átta gèngo þeir út. Màgnús Gíslason veitti banasár fyrir aptan eyra Þorbirni Jónssyni, allir menn hlupo or sundino til [4]) Högna, en þá var lagit af húsunum til þeirra ok höggvit, vard Oddr þá sár miök er margir sóttu hann, ok horfadi hann þá inn í húsin, en Maga-Beörn lióp í sundit til Högna, ok heó Högni til hans, ok sá Beörn þat eitt sitt efni at renna á Högna, ok var þat ofrefli flestum mönnum, ok lupo fimm menn í sundit ok vard Högni þá handtekinn, gaf Beörn honum þá grid ok þat samþykkti Urækia, gèngo þeir þá á völlinn [ok settust nidr [5]), varo mönnum þá grid gèfin, þá kvam madr or húsunum ok segir at Oddr var sár til úlífis, en er Högni heyrdi þat, lióp hann upp ok heó til þess manns er Sighvatr [6]) Slappi hèt ok særdi hann á lend mikit sár ok heó í sundr bróklindann. Sighvatr [7]) vildi hefna sín, en brækurnar fèllo ofan um hann. Högni var þá enn tekinn ok hió hann ádr til beggia handa, kvam þá Urækia til ok bad menn drepa hann. Gudmundr Kvíagimbill va at honum. Eptir þat fór Urækia inn at slökkva eldinn, varo þá öllum mönnum grid fengin ok fóro menn inn, en heimamenn sáto yfir Oddi ok var hann husladr ok oleadr. Um daginn eptir mat var þat borit

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) vantar í *B.*
3) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
4) fyrir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
5) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) Sigurdr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
7) Sigurdr. sömu.

í eyru Urækiu [af hans mönnum [1]), at Oddr væri minnr sár en látit var, ok sendi hann þá Svein ísfirzkan mann ok lèt vega hann, ok mæltist þat illa fyrir Urækiu. Fór Urækia brott af Eyri eptir þessi tídindi ok heim í Vatnsfiörd. Er þat flestra manna sögn, at Magnús prestr ok Grunnvíkíngar hafi látit geöra brèf þat er kvam til Asgríms, [en ei Oddr ok Þórdís [2]).

26. Kolbeinn úngi beó nú á Flugumyri, hann var höfdíngi mikill ok hafdi mikla sveit um sik röskra manna, med þeim Sighvati var þá rènan [3]) mikil vináttunnar [4]), ok varo þeir margir er verr gèngu á milli en skyldi, lupu þeir til Kolbeins er úskpektir giördu í Eyafirdi, en hinir til Sighvats er vestr giördu úspektir í sveitum Kolbeins. I þann tíma varo í Skagafirdi margir stórbændr ok varo flestir vinir Sighvats, [Kálfr Guttormsson á Miklabæ, Hallr í Glaumbæ, Illhugi at Bardi [5]), Beörn í Asi, Jón Markússon á Hialltastödum, hann var þá prestr, vitr madr ok farinn vel. Einar hèt madr er kalladr var Skálphæna, hann var þar sveitarmadr ok lèt til allra manna vel, hann hafdi verit vin Gudmundar biskups ok sva flestra mótstödumanna hans. Þenna vetur fór ordasveimr mikill midli Eyafiardar ok Skagafiardar. Þat var eitt sinn á Flugumyri, at Einar Skálphæna kvam at máli vid Kolbein ok segir, at hann kynni segia honum þá luti er honum væri munr undir at vita. Kolbeinn spyr hvat þat var. Þat er útrúnadr [6]) sá, segir Einar, er bændr hafa vid þik hèr í hèradi, ef þú ættir málum at skipta vid Sighvat. Kolbeinn blótadi [7]) ok segir hann liúga. Einar svarar, hèr má giöra raun til, Jón Markússon segir mèr sva, at þeir Kálfr Guttormsson ok Önundr Þorgrímsson hafa bundizt í því at draga bóndr undan þèr, ef Sighvatr kèmr í hèrad ok þurfir þú manna vid, en ek man senda ord Jóni Markússyni ok inna upp fyrir honum sva at þú heyrir, ef þú ert í nokkrum leyndarstad. Þessu iátar Kolbeinn, ok er sva giört rád, at Einar skal senda eptir Jóni

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) rimma. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) um útrúnad. *B. Gr,* átrúnad. *C, St.*
[5]) vantar í *St.*
[6]) átrúnadr. *C, St.*
[7]) hliódnadi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

ok skulu þeir talast vid í litlu stofo, en Kolbeinn skal vera í kiallaranum undir nidri ok heyra tal þeirra. Sendir nú Einar eptir Jóni, ok er hann fer inn gard, rída fylgdarmenn Kolbeins or gardi. Ivar [1]) Pálsson reid med vapn Kolbeins ok klædi, en er Jón kvam gèngu þeir Einar í litlo stofo, innti Einar þá upp, en Jón sannadi, þótti Jóni Einar of hámælltr ok mælti þó eingo skörugliga ímót því er Einar innti. Menn Kolbeins snèro þegar aptr er Jón var gènginn í stofuna ok stódu þá fyrir stofudyrum. Kolbeinn lióp þá upp or kiallaranum med blóti ok kvad Jón þess verdan at hann væri drepinn, liópo fylgdarmenn hans þá í stofuna, naut Jón þess í þat sinn er hann kvamst heill í brott, at hann var prestr, fór hann heim eptir þat.

27. Eptir þetta sendi Kolbeinn Einar son Glúms Ormssonar frænda sinn vestr til Vatnsfiardar ok bad Urækiu kvama nordr þángat sem skiótast med sveit manna, nokkro sídar sendi hann Hilldibrand Grímsson [2]) á sama eyrindi, ok fann hann Urækiu í Rútafirdi, hafdi hann á þridia tugi manna, fór hann þar til er hann kvam á Flugumyri, tók Kolbeinn allvel vid honum. En eptir tal þeirra Jóns ok Einars, reid Kolbeinn á Miklabæ ok bar fiörráda sakir á Kálf, eptir því sem hann kvad Jón segia, Kálfr kalladi þat ekki fiörrád þótt menn væro vinir Sighvats. En þat samdist med þeim, at Kálfr skyldi skyldr ferda allra med Kolbeini þeirra er færi Illhugi Asgrímsson, Hallr í Glaumbæ, Önundr Þorgrímsson ok Þorsteinn Hiálmsson. En er Urækia kvam nordr, safnar Kolbeinn þegar mönnum ok hafa þeir á þridia hundradi ok ætla at Sighvati. Kolbeinn sendi menn á Miklabæ ok beidir Kálf ferdarinnar, ok í annat sinn er hann reid upp fyrir Miklabæ, sendi hann menn til Kálfs ok bad hann fara, segir at þar var Hallr ok Önundr, en Kálfr vildi ei fara. Þeir Kolbeinn ridu nordr til Þverbrekko, þá spurdu þeir, at neósn var kvaminn Sighvati sú er geört hafdi Styrmir mágr hans or Biarnastadahlíd, [ok hèt sá madr Eyrekkr Greifi [3]), syndist þeim Kolbeini þá aptr at hverfa, fóro

[1]) Isaak. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

þá bændr heim. Kolbeinn ok Urækia giöra nú rád sín, ok er þat þeirra rád, at þeir nefna til fylgdarmenn sína at fara at Kálfi ok taka hann af lífi [ok Guttorm son hans [1]), var þar hinn fyrsti madr af Kolbeins mönnum Þórálfr Biarnason, annar Gudmundr Asbiarnarson, þridi Þórdr [2]) Þumli Halldórsson, fiórdi Sigurdr Eldiárnsson, fimti Símon Ottarsson, siötti Einar Glúmsson [3]), siöundi Hildibrandr Grímsson, áttundi Einar Skálphæna, níundi Ofeigr Biarnason, en af Urækiu mönnum Jón Ofeigsson, Þórdr Tyrfíngsson, Sigmundr Gunnarsson, Játvardr Gudlaugsson, Svartr Grímsson, Bútr Þórdarson. Þeir kvamo á Miklabæ um midmunda skeid middags ok nóns, ok ádr þeir kvamo, spurdi Osk húsfreya hvert Kálfr vildi eta hvítan mat edr þurran. Kálfr svarar: nú skal í dag segiast í þíng med hinum heilaga Pètri postula, valtir verda þeir oss nú þessa heims höfdíngiarnir. Þetta var hinn nærsta dag fyrir Pètursmesso um vetrinn, ok bar þá Pètursmesso uppá midvikudag hinn fyrra í níuviknaföstu. Þeir fedgar varo í litlu stofo ok höfdu látit skafa [4]) krúnur ok raka sèr, var Kálfr akolúthus, en Guttormr sonr hans diákn. Gudmundr Asbiarnarson [5]) gèkk fyrst inn ok fagnadi Osk honum, en hann vard fár um, þá var sagt í litlu stofuna at Kálfr var kalladr út, hann spurdi, hver sik kalladi út? Þeir segia þat Kolbeins rád. Kálfr gèkk þá fram or litlo stofunni [ok þeir bádir fedgar [6]), ok vildi hann taka eggsi sína ok skinnfeld er lá í rúmi hans í almannàstofunni, Kolbeins menn varo þá kvamnir í stofuna ok kvádo hann einga eggsi þurfa, ok segia at þeim bádum fedgum var líflát ætlat. Kálfr spurdi, hvert þar væri Styrmir Gilsson eda Kleppiárn Hallsson? Þeir segia þá ei þar vera. Þá væntir ek, segir hann, at eingir menn sèo þeir hèr kvamnir at miklar sakir eigi vid mik, en þó vilium vèr prestsfund hafa. Þorsteinn prestr Reykiarhóll skriptadi þeim bádum fedgum ok gaf þeim þiónustu, eptir þat varo þeir útleiddir ok tók Kálfr ródukross or hendi presti ok hafdi í hendi sèr er hann gèkk út, ok er þeir kvamo milli kyrkiogards ok útibúrs [7]), þá setti Kálfr

[1]) vantar í *B. Gr.*
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[3]) Glaumsson, *B. C. E. Gr. St. Þ.*
[4]) skapa, *B. Gr.*
[5]) Biarnason. *C. St.*
[6]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[7]) andyris, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

nidr krossinn vid kyrkíogardinn ok lagdist þar nidr fyrir. Þórálfr mælti: ei hyggr þú nú at, Kálfr, hvat þú geörir, ver ei sva nær krossinum at blódit hrióti á hann. Kálfr segir: vandt giörit þèr mèr nú, ok lagdist nidr firr meir krossinum. Bútr Þórdarson heó hann, sídan gèkk Guttormr til þegiandi ok lagdist nidr hiá födur sínum, Bútr heó hann, ok eptir þat rido þeir í burt ok heim á Flugumyri, en heimamenn [unno líkunum [1]), ok varo þeir færdir til Hóla, ok er þat mál manna, at Kolbeinn lèti sèr þetta vel líka. Var Kálfr [kalladr at verit hefdi einhver [2]) mestr bóndi fyrir nordan land þann tíma er hann sat uppi. Eptir víg þeirra Kálfs ok Guttorms fegda rido þeir Kolbeinn ok Urækia sudr i Reykiaholt med átiánda mann at sækia rád at Snorra ok leitudu eptir hvert lidsinni þeir skyldu þar eiga. Snorri kvadst ei vanr vera at eiga lut at hèradsdeildum, en lèzt mundi rída til alþíngis ok veita þeim þar slíkt er öllum þeim væri sæmd at. Eptir þat rída þeir nordr aptr, ok er þeir kvama í sveitir [3]) Kolbeins, kvöddu þeir bóndr at fara í setur í Skagafirdi, ok skyldo bændr siálfir fæda sik, ok sva var geört, ok varo optast þrennar setur.

28. Nú er at segia frá Sighvati, at Eyrekkr Greifi niósnarmadr Styrmis kvam á Grund ok annar madr med honum síd um kveld, sat Sighvatr í rúmi síno ok hafdi skinnfeld [4]) á herdum ok lambskinnskofra á höfdi svartan. Þeir Eyrekkr varo spurdir tídinda, en þeir segia lidsdrátt or Skagafirdi, ok segia at þeir Kolbeinn ok Urækia mundo þar kvama um náttina med úfridi, en Sighvatr [dæsti vid [5]) ok kvad slíkt ekki [gègna mundo [6]), ok ekki vard þá skiótligt at rádagiördum hans. Halldóra húsfreya gèkk þá til ok segir at einsætt væri at senda eptir mönnum. Sighvatr bad hana at senda eptir þeim mönnum er henni líkadi, sendi hon þá þegar mann út í Kaupáng ok var þadan þegar sent nordr á Greniadarstad til Kolbeins, en þá safnadi mönnum hit nedra um hèr-

[1]) biuggu um líkin. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) haldinn. sömu.

[3]) hèrad. sömu.

[4]) tygla-skinnfeld. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) duldist vid. sömu.

[6]) mundo satt vera. sömu.

adit sá er út hafdi farit. Halldóra sendi annan mann uppí hèrad til Saurbæar. [Sídan safnadi Þorvardr mönnum um hèrad [1]). Þórgils Hólasveinn kvam fyrstr med fióra tugi manna, en allir bændr [ínní Eyafirdi [2]) varo kvamnir [um morgininn fyrir messo [3]), var Sighvatr þá í blám kyrtli ok hafdi á höfdi stálhúfo ok eggsi silfrrekna [4]) í hendi, var hann þá miklo hermannligri, en um kveldit er neósnarmenn kvamo, giordi hann þá menn á hestvörd upp á Skiálgdalsheídi ok adra út med firdi, spurdist þá brátt at þeir Kolbeinn höfdu aptr horfit, fóro þá bóndr heim, en Sighvatr hafdi fiölmennt ok vardhöld sterk. En þá er Sighvatr spurdi at setur varo í Skagafirdi, hafdi hann ok setur á Grund ok kostadi einn allt fyrir, en bændr ekki af síno, ok leid sva fram á föstuna.

29. Þenna tíma var Gudmundr biskup í Höfda med Brandi. Sighvatr sendi þángat mann ok baud biskupi til sín ok vildi at hann [væri med honum [5]) í þessum málum. En er sendimenn kvama í Höfda, varo þar fyrir sendimenn þeirra Kolbeins ok Urækiu þeir er Gudmundi biskupi budu vestr þángat, en med því at Urækia hafdi lengi verit vin biskups, sídan hann [fèkk nokkurn þroska [6]), ok Snorri fadir hans, þá virdi biskup þat mest ok fór vestr til Flugumyrar ok var þar um föstuna. Um varit eptir páska sendi Urækia menn vestr [í fiördu [7]) eptir lidi, ok fóro þeir vestan um varit Illhugi Þorvaldsson [8]) med þriá tygi manna, med þeim fóro or Laxárdal Svarthöfdi Dugfússon ok Oddr son Gudlaugs af Höskuldsstödum. Þeir Kolbeinn sendu ok menn austr í Fliótsdalshèrad til Þorarins Jónssonar ok bádu hann fara til lids vid sik, ok fór hann austan med fióra tygi [9]) manna. Þar var þá med honum Ögmundr Sneis ok var hann þá á áttatugasta ári [10]), ok segia menn sva at hann þætti þar vígligastr manna í flokki Þórar-

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) vantar í sömu.
3) er allióst var. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) rekna. sömu.
5) veitti sèr. *B. E. Gr.*
6) mátti nokkru orka. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) vantar í *A. C. St.* þ.
8) Þórdarson. *C. St.*
9) sextygi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
10) á hinum átta tygi vetra. sömu.

ins. Þá er Sighvatr spurdi lidsdrátt Kolbeins ok Urækiu bædi vestan ok austan, dró hann ok lid saman, ok fór til Skagafiardar med fiögur hundrud manna. Þar varo med honum synir hans Kolbeinn ok Þórdr Kakali, ei varo hinir yngri þá enn vopnfærir. Þar varo ok med honum Rafnssynir Sveinbiörn ok Krákr. En er Sighvatr reid ofan eptir Nordrárdal, þá var honum sagt, at þeir Kolbeinn ok Urækia væro á Silfrastödum med sex hundrud manna. Þar var ok Gudmundr biskup. Þángat höfdo ok ridit nokkrir menn Sighvats, ok varo þeir teknir ok flettir [1]). Snèri Sighvatr þá til Flatatúngu, ok var þat um náttina, med lid sitt. Um myrgininn beoggust hverirtveggio til bardaga, ok skriptadi Gudmundr biskup mönnum Kolbeins, hann segir þó at þeir mundo ei beriast um daginn, en þó man Sighvatr fara sem Haraldr kóngr Sigurdarson. Þeir Sighvatr beoggust fyrir í Flatatúngu ok fylkto lidi síno hiá húsum í túnino. Þá er þeir rido nedan at Flatatúngu, reid Þorsteinn Jónsson or Hvammi at Kolbeini ok spurdi hvernveg hann ætladi til um vidskipti þeirra Sighvats? Hann segir at þeir skyldo beriast, þegar er þeir finnast. Þorsteinn segir at menn vildo veita honum til sæmiligra sátta, en beriast ei vid Sighvat. Kolbeinn leggr til hans spióti ok bannadist [2]), Þorsteinn bar af sèr lagit [3]). Þá vildi Kolbeinn bregda sverdi, kvam þá at Urækia ok tók hann, áttu þá margir lut at ok svæfdo [4]) hann, en Kolbeinn var allreidr. Rido þeir þá upp til Flatatúngu ok lupo af baki ok heim á bæinn, en er þeir siá fylkíng Sighvats, var [5]) lidit meira en þeir hugdo, ok vard þeim bilt vid [6]) árásina. Þá tók Sighvatr til orda: ekki þurfum vèr nú at ugga [7]) þá, er þeim vard bilt í fyrsto. Eptir þat gèngo stórbóndr úr Eyafirdi or lidi Sighvats ok menn nokkrir af Kolbeins lidi medal þeirra ok leitudu um sáttir. Þar var ok med þeim Oláfr af Steini, hann var þá í fyrsto ferd, ok var heimamadr at Kèldum med Hálfdáni, þá var hann átián vetra. Kvam sva at

1) klædum bætir *St.* vid.

2) bannadist um. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

3) brá-laginu. *A. C. St.* þ.

4) sefudu. *A. C. St.* þ.

5) leizt þeim. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

6) um. *B. E. Gr.*

7) óttast. *A. C. St.* þ.

hverirtveggio hlyddu gódra manna ordum ok fortölum ok sættust á þat, at Magnús biskup skyldi giöra um öll mál þeirra. Þá var ok sæzt á víg þeirra Kálfs ok Guttorms, þvíat Oláfr í Mödrufelli systurson Kálfs var adili þessa máls, reid Sighvatr eptir sættina nordr heim ok dreifdi lidi síno. Þórarinn [1]) spurdi sættina í Reykiadal, ok snèri hann þá austr aptr. Vestfirdíngar kvamo þat kveld í Skagafiörd er sleit fundinum, ok mæltist illa um er þeir urdo sva seinir. Urækia fór eptir þetta vestr heim ok hafdi meir en sex tygi manna. Þeir fóro úspakliga um sveitir [2]), tóku hesta ok mat þar er þeir þottust þurfa. Þeir rido allir saman í Hvamm til bús Þórdar Sturlusonar ok biuggo þeir úspakliga heyum ok ödru, þeir hiuggo þar uxa níu vetra gamlan er Þórdr átti, hann var þá at Eyri út at búi síno. Urækia fór til Saurbæar ok tók þar fè af bóndum ok giördi bú á Stadarhóli, skyldo þeir Svertíngr Þorleifsson þat eiga bádir samt, ok var hann fyrir. Urækia fór þadan á Reykianes ok giördi þar mikit bú at Hólum, setti hann þar fyrir Snorra Magnússon. Sídan fór hann í Isafiörd ok giördi bú mikit í Vatnsfirdi ok fèkk til um alla fiördo. En er Sighvatr spurdi þetta, þótti honum ei haldast sættir þær er handsaladar höfdo verit í Flatatúngo, [ok beóst hann því ei til þíngreidar [3]).

30. Kolbeinn úngi fór heim á Flugumyri eptir fundinn í Flatatúngo ok líkadi allilla vid bóndr þá er mest höfdu þar medalgèngit. Þá urdo vísir trúnadarmenn [Jóns Markússonar [4]) at Kolbeinn ætladi at láta drepa hann ok giördu honum ord. Reid Jón þá þegar á brott ok Sveinn son hans, ok syndtu vestr yfir Jökulsá ok namo ei stadar fyrr en þeir kvamo sudr í Reykiaholt, ok tók Snorri vid þeim fyrir sakir fornrar vináttо, en Kolbeinn lèt taka upp bú Jóns ok hafdi til sín. En er leid fram at þíngi, þá rido höfdíngiar til þíngs [ok flestir feölmennir [5]). Kolbeinn reid nordan med fimm hundrud manna. Snorri Sturluson hafdi fimm hundrud

[1]) Jónsson, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) hèröd. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) vantar í sömu.

[4]) Sighvats Jón Markússon ok fleiri adrir. *A. B. C. Gr. St.* þ.

[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

manna, en Þorleifr or Gördum hundrad manna, Arni Öreydá fimm tygi [1]) manna, ok veittu þeir Snorra bádir. Ormr Svínfellíngr hafdi tíu tygi manna ok Þórarinn bródir hans fimm tygi manna, ok voro þeir Kolbeins vinir mestir. Gissur Þorvaldsson hafdi tvö hundrud manna ok lèt til allra skipuliga. Þorvaldr Gissursson var á þíngi ok Magnús biskup, hann kvam tveim vetrum ádr út. Þá hafdi Sigurdr erkibiskup tekit embætti af Gudmundi biskupi. Á þíngino varo [dylgiur miklar [2]), þvíat Kolbeinn úþokkadist [3]) miök vid þat er Snorri hafdi tekit vid þeim Jóni Markússyni. Magnús biskup bannadi öllum mönnum at bera vapn til dóma, [giördu menn þá menn til dóma vapnlausa [4]), er þar skyldo mál framflytia. En Kolbeinn úngi gèkk med flokk sinn vapnadan uppí virki þeirra Orms ok Þórarins, ok höfdu þeir flokka sína allir samt med vapnum. Snorri var med flokk sinn á brekkunni fyrir ofan Valhöll ok allt vestr um Dilkinn, var Þorleifr med honum ok Arni [5]). [Urækia var med sinn flokk upp frá lögrèttu, ok hendi skèmtan at glímum [6]). Þórarinn [7]) son Saka-Steingríms hafdi gèngit or flokki Kolbeins ok til búdar Jöklamanna ok stód vid vegginn ok taladi vid annan mann ok stód á vígsl fótunum, þá gèngo þeir at Jón prestr Markússon ok Sveinn sonr hans, ok hió hann sverdi á báda fótleggi Þórarins ok af annan fótinn, en skoradi miök annan, sídan snèro þeir upp milli Austfirdíngabúdar ok Jöklamannabúdar ok stefndu sva í flokkinn Snorra. Gudmundr Asbiarnarson brá sverdi [ok liòp upp [8]) ok spurdi hvör á manninum hefdi unnit. Jón snèrist vid ok mælti: Sveinn Jónsson vann á honum ok [vard ei sá fyrir at því [9]), at ei vildom vèr heldr at þú hefdir fyrir ordit. Þeir Kolbeinn lupo upp þegar ok heim til búdar ok tóko bryniur

1) tvö hundrud. *St.*

2) miklar vidsiár med mönnum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

3) misþóknadist. *C. St.* misþokkadist. *A.* Þ. forþokkadist. *B. E. Gr.*

4) gèngu menn þá vapnlausir til dóma. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

5) Magnússon, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

6) þeir varo fyrir ofan lögrèttu ok hendu *o. s. fr.* sömu.

7) Þorsteinn. sömu.

8) vantar í sömu.

9) ei fyrir því á honum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

sínar ok pansara [1]) ok spiót ok skiöldu, ok gèngu sídan sudr yfir á ok uppá völlu, mætti hann þá Urækiu ok bad hann gánga í lid med sèr [ok hefna mannsins [2]). Urækia lèt sèr ei sóma at beriast vid födur sinn. Kolbeinn var þá allstyggr ok hèt á þá Orm til lidveizlu ok Þórarinn. Biuggust þeir þá allir til bardaga ok fylktu lidi síno á völlunum fyrir nedan lögrèttu [vid Austfirdíngabúd [3]). Urækia gèkk til móts vid födur sinn, ok skipadi [4]) lidi síno fyrir brióstit fylkíngar Snorra, en Arni Öreyda var þá at fylkia lidi Snorra ok tókst þat úfimliga [5]), [þvíat hann var ekki vanr því starfi [6]). Þorvaldr Gissursson gèkk fyrst til Gissurar sonar síns ok bad hann hverigum veita, kvad þat vænst til fridar ef hann misiafnadi ekki med þeim, fyrir því at ádr var lítill lidsmunr, ok hafdi Snorri þó nokkro meira. Þeir Magnús biskup ok Þorvaldr Gissursson gèngu þá til þeirra Kolbeins ok höfdu mikinn flokk, því biskup kalladi til sín alla lærda menn, leitudu þeir þá um sættir, ok lagdi Þorvaldr þat til, at þeir skyldo setia dóm ok giöra Svein sekan, ok þat giördo þeir, ok kvam sva at biskupi [7]) var heitit med gridasetníngo, at allir menn skyldu skiliast úhappalaust á því þíngi, en eingar urdu sættir þar. Þórarinn [8]) dó af sárum.

31. Kolbeinn reid heim af þíngi, ok lauk Magnús biskup eingum giördum upp med þeim Sighvati, fyrir því at hann kvam ei til þíngs, en hann giördi fyrir víg Kálfs ok Guttorms tíutygi hundrud, ok greiddi Kolbeinn þat vel eptir skildögum. Vinir Kolbeins fystu hann miök at sættast vid Sighvat, ok fóro þá menn í milli þeirra, ok kvam sva, at fundr var lagdr í Hörgárdal, en er þeir kvamo til fundarins [ok menn leitudu um sættir [9]), kvam þat helst ásamt, at annarhver skyldi einn giöra, ok skyldo þeir þat luta med sèr ok kasta til teníngum. En er þeir lutudu fyrir kast, kastadi Sighvatr daus ok ás. Þá mælti einn af fylgdarmönnum

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) milli ok Austfirdíngabúdar, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) fylkti, sömu.
[5]) seinliga, *A. C. St.* þ.
[6]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[7]) því, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[8]) Þorsteinn, sömu.
[9]) vantar í sömu.

Kolbeins: smátt fèll nú or hendi, Sighvatr bóndi. En í sídörum köstum kastadi Sighvatr stærra ok laut at giöra. Hann lauk ei giörd upp á þeim fundi, en þat var þá rádit at Kolbeinn Arnórsson ok Kolbeinn Sighvatsson skyldu rída sudr um land ok hafa á ödru hundradi manna ok setiast í bú Snorra er hann átti sudr þar í Dal undir Eyafiöllum ok á Leirubakka ok enn fleiri. [Þeir sátu miök lengi um sumarit á Leirubakka ok giördo þar margar úspektir ok rændu vída [1]).

32. Þórdi Sturlusyni þótti sem menn Urækiu mundo giöra margar úspektir vid þíngmenn hans ef hann sæti í Saurbæ edr á Hólum, er því rád hans, at hann dregr saman lid ok Bödvar son hans ok rída þeir inn til dala ok sva til Saurbæar [med tvö hundrud manna [2]), en hina yngri sonu sína Olaf ok Sturlu lèt hann fara á skipum med [hálft hundrad manna [3]), fóro þeir á Hóla med lidi síno ok tóko þar upp bú allt, fóro sídan aptr til Saurbæar ok finna þar födur sinn, ok tóku þeir allt bú þat er þar hafdi verit samandregit, fengu þeir þá menn til at reka hverttveggio fèd [4]) út til Krossunds, en þeir fara út eptir firdi med skipum. Þórdr ok Bödvar rido aptr sömu leid med flokkinum, en þeir er fèit ráko fóro til matar í Búdardal, en sendu sex menn í Hvarfsdal til matar. Þar beó sá madr er Eyúlfr hèt ok var kalladr Tiúga, hann var Erpsson frændi Þorbiarnar í Búdardal, hann vildi ei gèfa þeim mat, en þeir vildo hafa ekki at sídr, fóro þeirra skipti sva, at hann hióp til eins þeirra ok særdi hann banasári, sá hèt Haflidi ættadr [5]) af Snæfellsnesi. Sídan hióp Eyúlfr í fiall ok höfdo þeir hans ekki, fóro þá út eptir strönd ok fundo þá Oláf brædur at Melum ok sögdo þeim tídindin [6]), gèngu þeir brædur þá á Lánghúf [7]) um náttina ok þrír tygir manna ok rèro inn til Búdardals, varo þeir Þorbiörn ok Bárdr brædur farnir út til Skards at finna

1) En er þeir komu sudr, giördu þeir margar úspektir. *A. E. C. E. Gr. St. Þ.*

2) hálft annad hundrad manna. *A. Gr.* vantar í *E.*

3) sextygi. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

4) báit. sömu.

5) vantar í sömu.

6) vígit. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

7) Lánghróf. *A. C. St. Þ.*

Snorra prest Narfason, en er þeir Oláfr kvamo þar, báru þeir út hvervetna þat er laust var. Þá kvam Snorri prestr Narfason ok leitadi um sættir, vildi Olafr hafa siálfdæmi, en Snorri baud giörd Þórdar födur hans, ok þat vard at sætt, ok vildi Oláfr at Sturla væri í giörd med födur sínum, ok lèt Snorri sèr þat vel líka, gèkk þá Þorbeörn til handsala vid Oláf fyrir vígit, ok skildu sáttir. Fór Oláfr út til Biarnarhafnar [1]) med allt ránfèit ok sat þar um sumarit ok hafdi fiölmennt. Þórdr hafdi ok fiölmennt á Eyri um sumarit. En er þetta spurdist til Borgarfiardar, fór sunnan Jón Markússon ok Sveinn sonr hans ok Bergr ok Ari, tók Oláfr vid þeim öllum, ok varo þar.

33. At álidnu sumri sendi Snorri Sturluson ord Urækio syni sínum, at hann skyldi kvama sudr þángat med fiölmenni, ok vill Snorri fara sudr at þeim Nordlendíngum er í búunum sáto, safnadi hann þá lidi um alla Vestfiördu, ok fèkk á fimta [2]) hundrad manna ok fór sudr á sveitir. En er lidsdráttrinn var um Raudasand ok Bardaströnd, þá sendi Haukr prestr Þórgilsson [3]) or Haga sonu sína Oláf ok Pál sudr til Eyrar, ok segia þeir Þórdi lidsdráttinn, ok segia, at sudr þángat mundi snúit flokkunum. Lèt Þórdr þá lidi safna fyrir nordan nes, en Bödvar fyrir sunnan, ok fengu tvö hundrud hverir, en því kvamo þeir ei saman lidino, at þeir visso ei hverium meginn Urækia mundi fara út nessins. Þá er Urækia kvam í Dali med flokk sinn, kvamo menn sunnan frá Snorra ok sögdu at þeir Kolbeinarnir varo brott af Rángárvöllum ok höfdo farit nordr um land ok höfdo giört sva mikinn skada á búum Snorra, at þat var virdt meir en til sextygi hundrada. Snorri bad Urækiu þá ekki fara sudr þángat ok bad hann snúa flokkinum, ef hann ætti ekki eyrindi í Hvamm edr annan veg at fara sudr þar.

34. Urækia snyr nú flokkinum út yfir Raudamelsheidi ok kvam í Höfda, þar beó sá madr er Fiallgeir hèt ok synir hans,

[1]) Biarnarfiardar. *C. St.*

[2]) 4 fiórda. *B. E. Gr.* fiögur hundrud. *A. C. St. þ.*

[3]) vantar í *C. St.*

þar hafdi allr flokkrinn mat, ok ræntu þó meir en til sex hundrada í ödro, fóro þadan í Eyarepp ok sva útí Miklaholtsrepp, ok fóro med hinni mestu úspekt. Þórdr Sturluson hafdi sent Þórd son sinn vestr yfir floá med sveit sína, ok hafdi hann vestan alla tíærínga[1]) þá er varo fyrir vestan Breidafiörd, þeir höfdu ok tólfæríng mikinn er biskup í Skálaholti átti. Þórdr hafdi ok mörg skip ok stór sudr þar fyrir, ok gèngo þar á ok reyro inn yfir fiörd til Akureyar[2]), ok vildi Þórdr bída þar þess er þeir spurdu til flokksins, en synir hans Sturla ok Þórdr fóro vestr til Medalfellsstrandar eptir lidi ok fengu þar fióra tugi manna. Þar var Gudmundr prestr undan Felli. Bödvar Þórdarson hafdi tvö hundrud manna at Stad, en er neósn kvam til hans um ferdir Urækiu, þá reid hann sudr med tuttugu menn á neósn, en Urækiu menn fóru ódfluga um reppinn, ok fundu þeir Bödvar ei fyrr en sumir Urækiu menn varo kvamnir lengra út en þeir ok höfdu ridit hit nedra, fengu þeir niósn af ferdum Bödvars ok giördu Urækiu vidvaran, en er þeir Bödvar visso þetta, tóko þeir þat rád at rída til borgar þeirrar er stendr sudr frá[3]) Hörgsholti, er bærinn er vidkèndr at Borg, ok fóro þeir þar á upp. Urækia reid þángat med allan sinn flokk, en þar mátti ekki atsókn vidkvama, fóro menn þá í milli þeirra ok leitudu um sættir, vildi Urækia ekki annat en siálfdæmi, kalladist vilia hafa sæmd af því, en lèzt ei vera fèsynkr[4]). Attu menn þá lut at vid Bödvar, at hann skyldi at þessu gánga sem Urækia baud, hèt ok Urækia því at Bödvar skyldi miklo umráda med þeim Þórdi, en Bödvar var gódgiarn ok gèkk hann til festu vid þenna skildaga, reid hann sídan nordr yfir heidi ok fann födur sinn í Akureyo ok fysti hann miök sætta, segir Urækia mundi allgódr drengr af verda, ef undir hann væri lagt, en Þórdr segir hann skyldi [eingan drengskap[5]) af því hafa at dæma um mál hans, þvíat hann lèzt honum aldrei skyldu siálfdæmi selia, en bad sonu sína fara med máli síno sem þeim líkadi. Urækia reid med flokk sinn nordr Kèrlíngarskard ok kvam í Bearnarhöfn í

[1]) teinæringa *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) Eyrar. sömu:

[3]) nidr frá. *B. E. Gr.*

[4]) fèsiúkr. *E. Gr.*

[5]) einga drengskapar raun. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

forrádsvedri [1]) ok tók bæinn ok alla menn þá er heima varo, sóttu [2]) þeir lömb or feallino er nær allir bændr höfdu þángat rekit, ok höfdu þau til matar. Oláfr sendi Orm Starkadarson rádamann sínn med tíæring [3]) á niósn til Bearnarhafnar, hvad títt væri um feölmenni edr adra luti. En er þeir Urækia sáu skipit, fóru þeir til siáfar ok kölludu á þá, ok rero þeir Ormr til tals vid Urækio. Þá segia Urækiu menn, at Ormr væri giptusamligr madr ok slíkir menn líkastir til at kvama sættum á med þeim frændum, en Ormi þótti gótt lof sitt, þótt hann væri manna [liótastr ok [4]) úlíkligastr til, ok bad sína menn róa at landi, lèzt hann vilia eiga ordtak vid Urækiu, en er þeir gèngo á land, varo þeir teknir allir ok flettir [5]), en Urækio menn tóko skipit ok reru inn í eyar til rána. Bödvar bad nú Oláf at hann fyndi Urækiu, ok segir hann hefdi heitit sèr vingan ef þeir sættust, kvam þat sva, at þeir Oláfr fóru til Biarnarhafnar ok Bödvar, seldi Oláfr Urækiu siálfdæmi, en hann gaf upp allt málit ok hèt vináttu ámót, ok skildust þeir med hinum mesto vinmælum. Snèri Urækia þá flokkinum inn til Skógarstrandar ok sva heim vestr. Þá er hann var á Reykiahólum, flutti hann hesta marga í Akureyar, en Þórdr Sturluson átti, ok frètti [6]) ekki lofs at, hann hafdi ok giört bú at Hólum, þá er hitt var upptekit, ok ræntan Þorgrím at Midhúsum [fimm hundrudum sauda [7]), en Oddr Oremus mágr Þórgríms fór þá nordr til Sighvats med börn sín Einar ok Ingirídi. Sídan fór Urækia vestr heim, var þá Snorri Magnússon med honum ok skyldi vera heimamadr í Vatnsfirdi, ok er þeir kvamo heim vestr, lèt Urækia afla til bús síns, ok heldr harkasamliga. Þá er Oláfr [8]) kvam heim í Bearnarhöfn, þótti honum þar köld hybyli [9]) var spillt öllum heyum [ok borin út, eydt upp sumarbúino ok spillt öllum húsum [10]). Tók Oláfr þá þat rád at Sturla færdi búit inn

[1]) at foráttu vedri. *A. C. St.* þ.
[2]) eltu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) teinæríng. sömu.
[4]) vantar í sömu.
[5]) klædum bætir *St.* vid.
[6]) bad. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[7]) vantar í sömu.
[8]) Þórdarson, bæta sömu vid.
[9]) kynni. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[10]) ok mörgu ödru. sömu.

í Hvamm, þar höfdu verit um sumarit sláttinn [1]) siö kyr, en tada mikil. Þórdr Tyggi fór fyrst inn í Hvamm med Oláfi, en reid þadan vestr í Vatnsfiörd, ok tók Urækia allvel vid honum ok vildi ekki annat en hann væri þar um vetrinn, ok þat var, ok var Urækia allvel til hans, en Þórdr giördi sèr vid eingan mann kærra en Snorrá Magnússon.

35. Madr hèt Einar gódr bóndi, hann beó nordr í Fliótum, hann var knár madr ok vaskligr, hann hafdi kvamit vid hvalreka um sumarit ok hafdi [gott til [2]) föstumatar, riklíng ok hákall [3]) ok sva fiska, hann var mikill [4]) vin þeirra í Adalvík Magnúsar prests ok Snorra sonar hans, ok vísadi Snorri Urækiu þángat til föstumatar. Urækia sendi þángat Maga-Beörn ok med honum [5]) Einar Koll, en er þeir fundo Einar, föludu þeir föstumat at honum, en hann vildi eingan selia, en baud vætt hákalls [6]) ok adra riklínga, þeir vildu þat ekki ok lupo inn sumir, en Einar lióp í dur ok hafdi svediu [7]) í hendi. Torfi [8]) húskarl hans fylgdi honum. Einar vann á einum fèlaga þeirra, lupu þeir þá, er inn höfdu gèngit, á bak honum ok hrundu honum út, tóku þeir hann sídan ok lögdu nidr, en Tanni son Þorkèls Nadds heó hann banahögg. Eptir þat hlódu þeir þadan tíæríng [9]) med mat ok fóro heim í Vatnsfiörd.

36. I Vatnsfirdi var um vetrinn mikill sveitardráttr, var Snorri fyrst fyrir annari sveit, ok varo margar greinir med þeim Urækiu, en Snorri stökk á brott med Grímo kono sína fyrir iól, ok fór hann í Adalvík til födur síns, en margir varo vinir hans eptir í Vatnsfirdi, Illhugi Þorvaldsson frændi hans, [ok stökk hann brott eptir iól [10]), Snorri Loptsson, Þorsteinn Gunnarsson, Þórdr Tyggi, Maga-Beörn, Gunnlaugr Hrollaugsson ok enn fleiri. Snorri Magnússon fylldist upp hins mesta fiandskapar vid Urækiu

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) gnótt. *A. B. C. St.* Þ.
[3]) rafa. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[4]) litill. sömu.
[5]) sveit manna med honum ok, sömu.
[6]) hvals. *A. B. C. E Gr. St.* Þ.
[7]) svidu. *B. E. Gr.*
[8]) Tiörfi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[9]) teinæríng. sömu.
[10]) vantar í sömu.

ok snèri [1]) í þat mörgum bændum í Isafirdi, Hiálmssonum Atla ok Þormódi ok sonum Halldórs Ragnheidarsonar, Halldóri, Aroni ok Rögnvaldi, sonum Valgèrdar or Ögri Teiti ok Páli ok Þorgrími Bratt or Súdavík, ok gaf upp bæinn í Súdavík til þess at Urækia væri innibrendr, er hann færi í Hvamm [2]) eptir um varit, margir adrir varo í þessum rádum med Snorra, þótt ei sèo hèr nefndir. Illhugi Þorvaldsson var ok vitandi þessa máls ok fleiri heimamenn Urækiu, þeir er mestir varo vinir Snorra. Snorri fór út í Önundarfiörd at finna Gudmund Sigurdarson [3]), ok vildi kvama honum í þetta mál ok taldi honum upp alla þá er í höfdu gèngit þetta mál. Gudmundr var vitur madr ok frændmargr, hann bar málit upp fyrir Steinþóri presti í Holti [ok Steingrími Trèfót [4]), tók Gudmundr þat upp at margir vissu, ok lèt ei örvænt at uppkvæmi fyrir því at þá var enn laung stund til þess er þeir ætludu at fram skyldi kvama, en þóttist vita at allir mundu fyrir stórsökum hafdir [þeir er Snorri hafdi fundit [5]), ef málit kæmi upp. Var þat þeirra rád, at þeir sendu mann til Urækio ok vara hann vid, ok segia honum þessa rádagiörd, er þeir visso af. En þá var enn í Vatnsfirdi sveitardráttr mikill, var fyrir annari sveit Filippus Kolbeinsson er átti Vilborgu systur Urækio, ok Játvardr Gudlaugsson, Þórdr Tyrfíngsson, Sveinn [6]) Hemíngsson, Hallr Egilsson ok margir adrir, en fyrir annar Maga-Beörn, Þorkèll Eyvindarson, Skapti Illhugason [7]), Þórdr Tyggi, en Urækia var heldr med Filippo. Þat var á föstu er þeir herklæddust hverirtveggio, en þat vard þá til at Skapta hvarf skyrta [ok fannst á Játvardi Gudlaugssyni [8]), en þat var af giört at konur höfdu gleymt í þvætti, adrir varo í skála, en adrir í stofu. Urækia átti þá lut at sætta þá at því sinni, ok [var þó samt kyllta [9]) med þeim. I vikunni eptir páskaviko fór Urækia heiman or Vatnsfirdi ok hafdi mikit skip ok mart karla á, en er

1) dró. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) fiórdu. sömu.
3) Sigrídarson. sömu.
4) vantar í sömu.
5) þeir er vissu med Snorra. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
6) Snorri. *A. C. St.* þ.
7) Illhugi Þorvaldsson, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.
8) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
9) vard þó eingi alvara. *A. C. E. St.* þ. eigi eingi alvara. *B. Gr.*

þeir rero út med Mióſafardarnesi, kvad hann upp at þar væro sex menn eda siö þeir er sannir væro at feörrádum [1]) vid hann [um vetrinn [2]), hver syniadi fyrir sik ok budu eida fyrir, ok fèll þat þar nidr. Þeir rero út á Jökulfiördu, ok varo þeir [Atli Hiálmsson [3]) á sió, ok flestir þeir er hann þóttist sakir vid eiga, rero þeir þá til Slètto, ok lysti Urækia þá yfir því at hann ætladi at Snorra Magnússyni, en þess voro margir menn úfúsir ok bádu sèr ordlofs at fara ei. Þeir varo eptir í Slètto Snorri Loptsson, Þorsteinn Gunnarsson, Þórdr Tyggi ok fleiri adrir, en Urækia fór til Adalvíkur, ok stökk Snorri af bænum ok vildi til siáfar á Gnúpinn midli Adalvíkur ok Midvíkur, þar mátti ei ná honum, hann hlióp út á bak húsum ok var í línbrókum [4]), hann var fóthvatr madr. Þeir lupu eptir honum ok budu honum grid, ok fèkk Hallr Egilsson tekit hann. Snorri duldi ei, ok baud fyrir sik, en Urækia vildi þat ei heyra ok bar sakir á hann, fóru þeir þá med hann [um hríd [5]), þá kvaddi Urækia Rögnvald [6]) at vega at honum, ok sva giördi hann. Sídan fór Urækia vestr yfir diúp at þeim mönnum er hann bar fiörrád um [7]), ok lèt þó einga menn drepa fleiri, en hafdi siálfdæmi af mörgum. Hann fór til Bolúngarvíkur ok tók Hólsland af Halldóri Ragnheidarsyni ok fór hann út í Otrardal, en synir hans Aron ok Rögnvaldr stukko sudr til Stadar til Bödvars. Hann tók ok Súdavík af Þorgrími Bratt, en Illhuga Þorvaldsson lèt hann fara sudr til Snorra ok fèkk til föroneytis vid hann Sigmund Gunnarsson. Þeir ridu til matar í Hvamm ok segia þar víg Snorra þeim brædrum Oláfi ok Sturlu, segia þeir róstusamligt or feördunum ok lètust ei vita hve Þórdr bródir þeirra mundi undansetia. I þenna tíma fór vestan [Þórdr Tyggi [8]), þeir tóko tíæríng þann er bestr var í Breidafirdi er Brandagenia hèt, er Vikar Þorkèlsson átti, fóru þá í Akureyar ok [skyldu flytia upp [9])

1) svikrádum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) vantar í sömu.

3) Hiálmssynir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) línklædum einum, sömu.

5) heimleidis, sömu.

6) Runa Biarnarson, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

7) fiörrád á. sömu.

8) Þóroddr med sveit sína. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

9) áttu at hafa utan, sömu.

hesta Urækiu, þeir tyndust allir ok sva hestarnir, [en þessir menn lètust þar, Þóroddr Lodingrímsson, Brandr Brandsson, Skæringr bródir Jóns klerks, Ulfr Halti [1]).

37. Þeir brædur Oláfr ok Sturla fóro um varit vestr til Búdardals um stefnodaga ok ætludu at siá eptir vígsmálino Haflida. Þeir Þórdr höfdu þá giört um vígsmálit tuttugu hundrud. Þeir fóro upp Þverdal, en er þeir kvamo vestr at Búdardalsbotni, kvam þar á móti þeim Grímr Þórgilsson heimamadr Urækiu ok segir þau tídindi or Vatnsfirdi, at Maga-Beörn ok Þorkèll Eyvindarson hefdu særdan til úlífis [2]) Filippus Kolbeinsson, en Urækia er hann vissi, vard hann allstyggr vid þat [3]), [en þeir höfdo gèngit at honum í badstofu ok sært hann þar [4]), eptir þat stukku þeir or Vatnsfirdi sex saman ok [rero nú inn [5]) í Búdardal, Þórdr Tyggi, Maga-Beörn, Þorkèll Eyvindarson, Kètill Gudmundarson, Eyrekkr bródurson Gudmundar biskups, ok Marteinn Midfirdíngr. Oláfr spurdi, hvert þeir ætludu? Grímr kvad þá ætla á fund Þórdar Sturlusonar, ok ætludu at hann skyldi fá Þórdi bústad, sídan ætladi Maga-Beörn at afla til búsins [á vestfirzko [6]). En í för med Oláfi varo þeir menn, er þegar lètust skyldu drepa Beörn er þeir fyndo hann, þar var Gudmundr hinn hvíti Arnason, ok hafdi Beörn flett hann um sumarit [7]) í Haukadal öllum hans [8]) klædum ok ödru því er hann hafdi út haft, en annar var Hiálmr Ofeigsson, hann hafdi verit hraktr [9]) í Svefneyum um haustist, þá er Beörn rænti á Medalfellsströnd; en Oláfr vildi víst at þeir leitudu han ekki á hann, þvíat hann var med Þórdi bródur hans, ok var þar lengi um talat ádr Oláfr fèkk heitord af þeim at þeir lèto kyrt [10]) á þeim fundi. Eptir þat fóro þeir Oláfr í Búdardal, ok

[1]) en þessir — Lodingrímsson, Brandr Slèttr, Brandr bródir Jóns klerks, Ulfr ofi Hallr *B. E. Gr.* vantar í *A. C. St.* þ.

[2]) mág Urækiu, bæta vid *A. C. St.* þ.

[3]) ok rak þá í brott, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) vantar í *Gr.*

[5]) eru þeir nú. *B. E. Gr.* fóru fyrst *A. C. St.* þ.

[6]) um Vestfiördu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) haustit. sömu.

[8]) vopnum. ok, bæta vid *A. C. St.* þ.

[9]) ræntr, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[10]) hann kyrran, sömu.

varo þeir Beörn þar fyrir, ok höfdu þeir bodit Þorbirni at vera fyrir öllum hans málum, en Þorbeörn fór út til Skards [med Sturlu [1]), ok rèdu þeir Snorri prestr þar at Þorbeörn gèkk í vígsgialdit, en Eyúlfr fèkk honum land sitt í Hvarfsdal, ok vard sú sætt med þeim Oláfi, fór hann þá heim í Hvamm, en Sturla fór til Saurbæar ok rèd búlag vid Svertíng [2]) á Stadarhóli. Þeir Þórdr Tyggi fóro út í eyar, ok ætludu á fund Þórdar Sturlusonar.

38. Þetta sama var [um föstu [3]) hafdi Sighvatr sent nordan Magnús hinn mikla ok Odd Oremus til Þórdar bródur síns ok mælti allvingiarnliga til hans, segir at hann ætladi at fardögum í Dali ok vildi at þeir fyndust þar, ok giördu rád sín um hernad þann er Urækia hefdi á þíngmönnum þeirra ok vinum. Þórdr fór af Eyri heiman laugardag sem var í siöttu viku sumars, sem hann var vanr at fara til varþíngs í Þórnes, en hann vildi þá ei [hafa þíng [4]), því hann vildi þá búast til móts vid Sighvat. Fór hann um kveldit í Fagurey, hann hafdi sveit manna, kvam þar Snorri prestr Narfason til móts vid hann ok Atli Bassason [5]) ok fleiri bóndr, en er þeir varo mettir, gèngo þeir í svefnhús ok ætludu nidr at leggiast, þá kvam þar Maga-Beörn [ok Þorkèll [6]) ok gèngo til stofu, [var þá borinn matr fyrir þá [7]). Þórdr lèt kalla föronauta sína á tal vid sik, hann sagdist vilia láta drepa þá Beörn ok Þorkèl ok vildi þó at þeir nædu prestsfundi. [Hann segir at Þórarinn Stóri son Gríms Eldiárnssonar skyldi vega Beörn, en Þorkèll Broddr son Vermundar Píkar skyldi vega at nafna sínum, ætludu þeir þá fyrst at bera at þeim bordit, en þá var þeim sagt at þeir varo mettir ok kvamnir til hvílo [8]). Gèngo Þórdar menn þá til skála, en þeir Beörn ok Þorkèll lágu í innanverdum skála bádir í einni hvílu ok Jóreidr fridla Bearnar Konalsdóttir á milli þeirra. Þórdr Tyggi var þá kalladr til födur síns, [en svá var tilskipat,

[1]) vantar í *A. B. E. St.*

[2]) Líting. *A. C. St.* þ.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) fara til þíngsins. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) Arni Bersason. *A. C. St.* þ.

[6]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) ok fengu sèr matar. *A. C. St.* þ.

[8]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

at þeir Þórgils Arnason or Tialdanesi ok Bardr Snorrason Skards-prests skyldu taka Beörn, en Oláfr Sigurdarson þar bóndi ok Oláfr Haukssón skyldu taka Þorkèl, en adrir föronautar Þórdar önnudust menn þeirra [1]). Sídan varo þeir útleiddir, ok skriptudust vid prest þann er Þorgeir hèt ok var kalladr Strandasvín. En er þeir varo skriptadir, gèkk Þorgeir prestr til Þórdar Sturlusonar, ok segir at Þorkèll bar þá luti fyrir sik [2]), at mèr þykkir hann ei dræpr, segir prestr. Þórdr svarar: þá er honum ei líft, ok skulut þèr dæma hann at því ok hengia hann sídan. Þeir giördo sem Þórdr baud, ok va Þórarinn at Birni, ok vard honum vel vid ok mælti fátt. Sídan lèt Þórdr flytia þá vestr í Gíslaskèr. Sturla Þórdarson ok Hallr or Tialdanesi ridu innan or Saurbæ um náttina, en er þeir kvamo út um Kross-sund [3]), vard Sturla at sofa ok lagdi höfud í knè Halli, en er hann vaknadi, mælti hann: sva dreymdi mik sem fadir minn mundi heldr hardliga [4]) hafa tekit þeim Birni [5]). Þeir kvamo í Fagurey, þá er þeir varo látnir Beörn ok Þorkèll. Þórdr Sturluson fór or Fagurey inn í Hvamm, [en Þórdr Tyggi sudr til Stadar ok Kètill Gudmundarson med honum, Eyrekkr ok Marteinn fóro í Hvamm, ok var Eyrekkr med Oláfi, en Marteinn fór til Midfiardar [6]). En er Þórdr kvam til Hvamms, var Sighvatr ei kvaminn í Dali, ok ei kvam hann á því vari.

39. A Medalfellsströnd at Kvennahóli beó Skídi Þorkèlsson. Jón sonr Þorgeirs Grunda hafdi þar af landi ok fylgiukona hans, ok var illa í búsifium þeirra, höfdu þeir Ingimundr brædur tekit af honum hest, ok at fleira hafdi Skídi hrakt hann, kvam þar sva at Jón lióp [7]) í brott ok inn undir Feall til Gudmundar. Þeir Skards-Snorri [8]) frændr átto lítt vini saman, en Skídi var mikill vin Snorra prests Narfasonar, ok hafdi þat af hans eigo er hann vildi tilmæla. Nú er Þórdr Sturluson var í Hvammi, bad Gud-

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) á sik. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) trègrund. *A. C. E. St.* þ. trègrind. *B. Gr.*

[4]) hrapliga. *A. C. St.* þ.

[5]) er þeir komu í Fagurey, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) vantar í *C. St.*

[7]) strauk. *A. C. St.* þ. stökk. *B. E Gr.*

[8]) prestr, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

mundr Jón fara inn þángat, ok sækia Þórd at síno máli, þvíat Gudmundr vissi at Þórdr var lítill vin Skída. Hann hafdi verit í Hvammsför ok giört margan úiafnad [1]) þíngmönnum Þórdar. Fór Jón inn í Hvamm ok med honum Oddr Einrídason er Skèkkill var kalladr, en er þeir kvamo í Hvamm [2]), vildi Þórdr ei hlyda á ord Jóns, sótti Jón þá Oláf at síno máli, ok gèkk hann á leid med þeim, segir Oddr, at hann lèzt þau heyra ord Oláfs at Jón skyldi sva nærst kvama í Hvamm, at hann færdi honum eggsina Dráplaugo [3]) er Skídi hafdi iafnan í hendi, en Sturla bródir Oláfs hafdi gèfit Sigmundi Snorrasyni. Jón kvam heim föstudaginn fyrir hvítasunnu ok svaf ei þá nátt, laugardaginn hvatti hann eggsi sína forna ok speyngda [4]) er Jarlabani var köllud orkneysk. Geirrídr [5]) Aradóttir [6]) fridla Skída taladi um at Jón var med illo bragdi, ok bad Skída gæta sín, Skídi kvad sèr ei Jón klækismanninn [7]) at skada [8]) mundo verda edr hans iafningia. Laugarnáttina lá Jón í stofo, þá liop Skídi upp í ædi ok kvad Jón vilia sitia um líf sitt ok kvad sik dreyma at hann vildi höggva höfud af honum. Geirrídr hèllt honum ok svæfdi hann, ok var þá álitliga med þeim sunnudaginn, en mánadaginn kvamo þeir nordan frá [9]) Arnarbæli Gunnlaugr [10]) Einridason ok Gudleifr [11]) son Steingríms Kumbalda. Þeir maungudo um ross vid Skída, þá kvaddi Skídi Jón til at taka rossin med þeim, en þau varo inn frá gardi. Rossin liópu inn yfir ána til Stakkabergs [12]), en þeir gèngo eptir, en er þeir kvamo á völlinn, sezt Skídi nidr ok hèllt eggsinni frá sèr ok studdi tönnum [13]) á forskèptit, þeir sáto hiá honum, en Jón var á bak þeim hiá rossunum. Skídi spurdi hvert vera mundi nón ok saung *pater noster*. Gudleifr spyr hvat hann mæli um rossin? Mörk, segir hann, þá skall honum höggit ok tók af höfudit, sva fèll á

1) mikinn skada. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) vantar í sömu.
3) Droplaugu *A. C. E. St.* Þ. Dreplaugu. *B. Gr.*
4) sprengda. *Gr.*
5) Gyrídr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) Arnadóttir. *C. St.*
7) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
8) bana. sömu.
9) nedan úr. sömu.
10) Gudlaugr. sömu.
11) Gunnleifr. sömu.
12) Skakkabergs. *C. St.*
13) taumunum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

brínguna. Jón þreif upp eggsina [1]) ok lióp á bak rossi Skída ok reid inná Strönd. Arni Audunnarson reid upp eptir [2]) Strönd, hann beó undir Ytrafelli, þeir ridust hiá fyrir nedan [3]) Vígúlfsstadi, ok segir Þorkèll son Arna, er reid at baki honum, at Jón ridi rossi Skída. Arni mætti þeim Gunnlaugi ok segia þeir honum vígit, snèri Arni þá aptr ok elti Jón í fiall upp inn hiá Barkarstödum, en Arni tók ross Skída ok hvarf aptr. Jón kvam í Hvamm ok var þar um ríd á laun, Sídan sendi Oláfr Jón á Eyri ok fèkk Asgeir [frænda Valgèrdar [4]) til föroneytis vid hann ok mættu þeir Halli af Jörva ok Kolbrandi syni Skída [hiá Bardi [5]) ok stökk Jón þar í skóg ok lèt hestinn. Hallr særdi Asgeir á hendi ok hvarf hann aptr í Hvamm, en Jón fór út á Eyri ok var þar um sumarit, sídan var hann at Kèldum med Hálfdáni [6]) ok vídar fyrir sunnan land. Þetta var fór Urækia um alla fiördu ok tók fè af mönnum, hann tók Hagaland af Hauki presti ok sva búit, en Haukr fór á Eyri til Þórdar ok synir hans Oláfr, Páll, Oddr ok Halldóra dóttir hans. Þórgils fór í Tialdanes ok enn mær, en Steinúlfr í Búdardal, marga menn adra rak hann af stadfestum sínum. Þat vor giördi Þórdr Tyggi bú í Lángadal ok beó þar þau misseri, en annat vor fór [7]) hann í Midgarda ok beó þar.

40. Um varit [var þat tídt [8]) fyrir nordan land at Kolbeinn úngi beóst [9]) til utanferdar, en ríki sitt ok bú fèkk hann Sighvati til vardveizlo. Sighvatr setti nidr á Flugumyri Þórd Kakala son sinn, ok fèkk honum allt mannaforrád Kolbeins til medferdar, [þá var Mördr Eyreksson fylgdarmadr Þórdar ok Snorri Þórálfsson er verit hafdi med Gudmundi biskupi [10]). Med Kolbeini fóro þeir Þórálfr Biarnason ok Þórdr Þumli [11]) ok Sigurdr Eldiárnsson, ok rèdu þeir allir til Rómferdar um vetrinn ok ridu allir sudr ok

[1]) Droplaugu, bæta vid *A. C. St.* Þ.
[2]) úteptir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) nordan. *C. Gr. St.* Þ.
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) vantar í sömu.
[6]) Sæmundarsyni, bæta sömu vid.
[7]) bióst. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[8]) vard þat til tídinda, sömu.
[9]) brá. sömu.
[10]) vantar í sömu.
[11]) Kumli. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

sunnan, fann Kolbeinn Hákon konúng í Beörgvin ok tók hann vel Kolbeini, en ei giördist hann handgenginn. Um sumarit eptir þíng var fundr lagdr med þeim brædrum Þórdi ok Snorra vid Sandbrekko. Þórdr gisti á Kolbeinsstödum er hann fór til fundarins ok fóru þeir Þorlákr [ok Kètill fedgar [1]) med reppsmenn sína med þeim Þórdi, þvíat þá var heilagt. Þeir Snorri varo siö saman, ok er þeir kvamo sunnan at Hítará siá þeir mannfeölda undir brekkunni, köstudu þeir þá um hestunum ok leyptu sudr í raun, en Þorlákr ok þeir nokkrir saman leyptu eptir þeim ok tóku þá at Svarfhóli, var þá lángt ádr Snorri vildi aptr rída, en þó fundust þeir út frá Hrauni, ok fór allavega sem best med þeim brædrum. Var Þórdr undir Rauni um náttina, en Snorri í Hítardal, var þar veizla búin í móti honum, miödrinn var borinn í berlum undir raun um myrguninn eptir, ok töludu þeir þann dag allan, mæltust þeir þá allvel vid ok [segia sva [2]), at þeirra frændsemi ok vinátta skyldi aldrei skilia [3]) medan þeir lifdu bádir, var þat þá gott [4]) til sambands med þeim, at Sturla son Þórdar skyldi fara med Snorra ok vera med honum, þá fór ok med Snorra Páll son Lopts ok varo þeir bádir med Snorra um sumarit.

41. Þetta sumar sendi Urækia nordr til Sighvats Snorra prest Narfason ok Gudmund undan Felli ok Sverting Þorleifsson til sætta umleitunar ok baud Urækia af sinni hendi at breyta þann veg öllu sem Sighvatr vildi vera láta, en Sighvatr lagdi þat til, at Urækia skyldi fara sudr til Borgarfiardar ok setiast á [5]) kosti födur síns, en sídan skyldi leitast um sættir med þeim frændum. En er þeir kvama aptr, safnar Urækia mönnum ok fór sudr til Borgarfiardar med átta tugi manna. Snorri var sudr á Bersastödum [um sumarit [6]) at búi síno, en sem hann frèttir af ferdum Urækiu, fór hann á skipi upp í Stafaholt ok reid sva til Reykiaholts [7]), en Urækia var þá á Seliaeyri, er þeir beoggust utan [8]) Andreas son [9])

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
2) sagdi Snorri. sömu.
3) spillast. sömu.
4) giört. sömu.
5) at. sömu.
6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
7) hann lèt safna mönnum um allt hèrad til Reykiaholts, bæta sömu vid.
8) til utanferdar. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
9) bródir. sömu.

Rafns lögmanns af Katanesi ok Andreas son Gunna [1]) Andreassonar, en hann var son Sveins Asleifssonar, frá þeim [2]) hafdi Urækia látit taka um vetrinn [3]) sex tygi vætta miöls, fóru þeir til Filippus ok Sigmundr Gunnarsson ok giördo þar þá marga úspekt í þeirri ferd. Andreas Rafnsson átti sverd gott er hann kalladi Sættaspilli, þar höfdu þeir allir ord til sendt um vetrinn Bödvar frá Stad ok Þorleifr or Gördum, [Gissur ok Urækia [4]), en Andres gaf þá Urækiu sverdit, en hann gaf þegar Markúsi á Melum. Urækia reid [af Seliaeyri [5]) upp í Reykiaholt med átta tugi manna, þar var med honum Markús af Melum ok Asgrímr Bergþórsson, Gudmundr Sigurdarson [6]) ok flestir hinir stærri bóndr [7]) or Vestfiördum. Í Reykiaholti var fyrir tvö hundrud manna, þar var Loptr biskupsson ok Oláfr Þórdarson, þar kvam ok Þorleifr or Gördum, var þar skipat mönnum í virki [um allan [8]) bæinn, en Urækiu menn gèngu um virkit ok vard ekki at sótt. Þeir Þorleifr ok Loptr fóru þá medal þeirra fedga ok leitudu um samníngar, kvam þar sva, at þeir er á virkino varo, fundo ei fyrr en Urækiu menn varo allir kvamnir í húsin ok höfdu gèngit upp eptir forskála frá laugo, höfdu þeir [9]) Loptr þá samit med þeim at Urækia skyldi taka vid Stafaholti, þeir varo þar allir um náttina, en þegar um myrgininn reid Urækia í Stafaholt ok tók þar vid búi, en bændr allir fóro vestr aptr ok heim. Urækia sat í Stafaholti [um haustit [10]) ok hafdi þar mikla sveit manna.

42. Þeir menn er varo [11]) vinir Sighvats ræddu þat fyrir Urækiu at hann skyldi rída nordr á vald Sighvats ok sögdu at þá mundi hans mál mest til vegar gánga, ok þar kvam at Urækia hlyddi á þetta ok reid nordr í Eyafiörd um haustit ok med hon-

1) Gunnars. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) honum. sömu.

3) sumarit. *B. E. Gr.*

4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) vantar í sömu.

6) Sigrídarson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

7) menn. sömu.

8) umhverfis. sömu.

9) Þorleifr ok, bæta sömu vid.

10) vantar í sömu.

11) verit höfdu. *B. E. Gr.*

um Svertíngr Þorleifsson ok Markús Þórdarson, Játvardr ok Þorsteinn Gellisson, níu varo þeir. En er þeir kvamo á Grund, tók Sighvatr vid þeim forkunnar vel, var þar hin fegursta veizla ok skorti ei godan miöd, en er þeir töludu um mál sín, sagdi Urækia sva, at hann lèzt því þar kvaminn, at hann vildi at Sighvatr skipadi um mál þeirra um alla þá luti er hann taldi á vid hann, lèzt vera ei fès-rækr [1]), en sagdi þat at Sighvatr mundi ei vilia mínka hann, lèzt honum þat ok mesto þykia skipta, en vid þessi ord Urækiu vard Sighvatr ekki búinn til handsalanna ok varo þeir þar tvær nætr, en um daginn eptir bad Urækia reka heim hesta þeirra, en þeir gèngo í skála at tala, innti Urækia þá til hvern enda hafa skyldi mál hans, baud ok allt hit sama. Sighvatr kvad þat eitt medal [2]) þeirra er þeir mættu semia [3]), en þat er þú hefr brotit vid Sturlu, þar verdr rád fyrir at giöra at hann hafi [nefnur ok [4]) handsöl þau er honum líka. Þèr vil ek bióda ok vid þik vil ek sættast, segir Urækia, en fyrir málum okkrum Sturlu giöri ek ei rád fyrr en hann kèmr til, ok nú er þeir töludu þetta, kvam madr í skálann ok mælti einmæli vid Sighvat. Eptir þat spurdi Sighvatr Urækiu hvern veg hann ætladi at rída? Hann lèzt ætla út til Gása at kaupa sèr þarfindi. Sighvatr tók þá til orda, þú skalt ei rída til Gása, vil ek at þú rídir vestr Skiálgdalsheidi edr Villíngadalsheidi [5]) ok rídir nú þegar, þvíat vid manum ei greida hèdan frá, þat er vid höfum ei hèr til greidt. Gèkk Urækia þá til hesta sinna ok reid brott, varo þar kvediur skipuligar, þá varo ok búnir hestar Sighvats, ok reid hann út eptir hèradi, en er hann kvam út frá Eyrarlandi, kvam þar í mót honum Sturla son hans, hafdi hann ridit frá skipi þegar er hann vard landfastr. Sturla mælti: at þá skyldu þeir þegar rída eptir þeim Urækiu, en Sighvatr vildi þat víst ei [6]). Urækia reid vestr um heidi, en er hann reid á Vídimyri, var Þórdr Kakali þar kvaminn til leiks, þeir stódu úti margir saman, ridu þeir Urækia beint hiá þeim ok mæltu

[1]) fèsynkr. *A. C. St.* fèsiúkr. *B. E. Gr.* Þ.

[2]) í málum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) vel enda á giörn. sömu.

[4]) nokkur þau. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) Villíngaheidi. sömu.

[6]) ok ridu þeir heim til Grundar, bæta sömu vid.

hvarigir vid adra. Reid Urækia heim ok sat þar um haustit, en litlu fyrir vetur reid hann vestr til fiarda. Þá er Urækia reid vestr, gisti hann í Hvammi, ok varo þeir þar fyrir Sturla Þórdarson ok Páll Loptsson. Urækia bad þá báda at þeir skyldo rída med honum vestr ok lagdi þar mörg ord til, en þat vard af, at þeir fóro, þá fór ok vestr Svarthöfdi Dugfússon ok Andrès Rafnsson, hann hafdi ordit aptrreka um haustit. Þá var í Vatnsfirdi allfiölmennt um vetrinn ok gód hybyli, ok eingi varo þá rán berlig, en þó var kvedit á fè bónda um alla fiördu. Af Alftamyri var [rekit fè [1]) nokkut inn á Eyri til brúdlaups er Sigmundr Gunnarsson fèkk Herdísar Rafnsdóttur.

43. Snorri Sturluson sendi um haustit ord Bödvari til Stadar ok vildi at hann væri í Reykiaholti um vetrinn, fór hann þángat med tólfta mann, var med honum Einar frændi hans ok synir Halldórs Ragnheidarsonar, hafdi Snorri þá ok mart manna. Um vetrinn eptir iól fóru menn þeirra Sighvats [ok Sturlu [2]) vestr til Vídidals [3]) ok var eyrindi at bóndr skyldu iárna hesta sína ok vera búnir þá er þeir væro uppkvaddir, en Snorri átti í Vídidal vini marga [ok þíngmenn [4]) ok giördu þeir Snorra varan vid þetta, en hann tekr þat rád at hann sendir menn vestr til Urækiu, ok segir hann at þeir hefdu nordr um sveitir fedgar mannsamnad ok kalladi úrád at sèrhver þeirra væri kvíadr. Þá tekr Urækia þat rád, at hann sendir um alla fiördu menn ok lèt kvedia upp hvern mann er hann fèkk, hann hafdi sex hundrud manna er hann kvam sudr í Dali til Saudafells, reid Urækia þá frá lidino vid sveit sína sudr til födur síns, var þá kvaminn í Reykiaholt Þórdr Sturluson ok Þorleifr or Gördum, ok var þar þá rádagiörd mikil, vildi Urækia at snúit væri nordr med allan afla þann er fenginn var, varo þess margir fysendr þeir er framgiarnir varo, en Snorri var ei búinn til þess at fara at bródur sínum á þeim hátidum [5]) er þá fóro í hönd, var þat þá ráds tekit at þeir sendu nordr Söl-

[1]) tekit saudfè. *B. E. Gr.*
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) Vatnsdals. *B. Gr.*
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) tímum. sömu.

mund mág sinn ok Orm Klængsson at leita um sættir, en Urækia fór í Dali at hnekkia vestr flokkinum, þá fannst vísa þessi at Saudafelli ristin á kèfli:

Sex hundrud fèkk sunda
sǿl-kannadr her manna
[framar menn sex[1]), at sögo,
sagdr á[2]) skömmo bragdi.
Urækia bad auka
[alldurs rírd vidu[3]) skiallda,
miök[4]) var frægd[5]) sú er bil beygdi[6])
blekkt, en Snorri hnekkti.

Urækia fór sudr í Stafaholt med heimamenn sína ok sat þar um föstu. Bödvar fór þá heim út[7]), en Þórdr var í Reykiaholti. Urækia fór um föstuna sudr til Kialarness ok fèkk þar faung mikil miöl ok skreid, [smiör ok[8]) hunáng er Arni í Saurbæ gaf honum.

44. I vikunni fyrir pálm-sunnudag[9]) kvamo neósnarmenn nordan[10]) ok sögdo at lidsdráttr væri um allar sveitir[11]) nordr. Snorri vildi þá ei lidi safna ok fór hann á brott or Reykiaholti ok sudr á Bersastadi med allt skuldalid sitt, en Reykiaholt fèkk hann í hendr Þórdi bródur sínum ok eignadi honum búit ok þat er eptir var. Urækia tók þat rád at hann reid vestr í Fiördu med tólfta mann, en Sturla fór á Myrar út ok þeir fimtán saman ok báro miöl ok önnur faung á tólf hestum. Þeir fóro síd or Stafaholti[12]) ok út í Alptartúngo. Um náttina leyndist frá þeim

1) frami mun sex. *A. B. E. Gr.* Þ. framr med sex. *C. St.*
2) at. *B. E. Gr.*
3) aldur dyrd virda. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
4) vantar í sömu.
5) fræg. *A. B. Gr.* Þ.
6) brygdi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
7) til Stadar, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
8) vantar í *St.*
9) páskadag. *E.*
10) Snorra í Reykiaholt. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
11) um öll hèröd. sömu.
12) Reykiaholti. *B. E. Gr.*

Hiálmr Ofeigsson á iarpskióttum hesti er Sprógr hèt. Hiálmr fór þar til er hann fann Sturlu upp vid iökla, þá var þetta kvedit:

Sèn var síd á hesti
Seggrinn ædromesti,
fátt hyggium þess [1]) fríða.
fús var hann seint [2]) at ríða,
hèr má ek [3]) hvergi kènna,
hlotit hefr Sprógr at renna,
Hiálm hinn herdi-þunna [4])
hissig sudr um runna.

Þá er Urækia kvam í Isafiörd, færdi hann faung sín öll út í Ædey ok sat þar um vorit. [Þeir Sturla fóro þar til er þeir kvamo [5]) í Biarnarhöfn, sídan fór Sturla út á Eyri eptir skipinu Lánghúf [6]) ok kvamo í Fagurey pálmsunnudag ok sáto þar til lángafriádags, þá fèll landnyrdíngr. Þeir kvamo í Vatnsfiörd páskadaginn um [7]) messo ok rèru til matar í Ædey. Lèt Urækia þá sækia Lánghúf ok fór hann hit vestra til Ædeyar. Urækia tók um varit handarmein ok lá lengi, þar var hörd vist, þvíat vor var íllt, en vetur allgódr, fiórtán hestar dóu í Ædey uppstigníngardag [medan menn varo at mat [8]), til landaudnar horfdi í Isafirdi ádr fiskr gèkk upp á kvíarmidi. Urækia lèt safna í Ædey öllum skipum þeim er vöxtr var at í Vestfiördum, sum kvamo or Rútafirdi.

45. Sighvatr Sturluson ok synir hans Sturla, Kolbeinn ok Þórdr Kakali kvamo pálmsunnudag í Borgarfiörd med þúsund manna, en er Þórdr Sturluson spurdi þat, reid hann í móti þeim ok fann Sighvat bródur sinn í Hvítársídu, veitti hann Sighvati átölur miklar um þat er hann fór at bródur sínum á hátídum, ok segir, at hann mundi stór geöld fyrir slíkt taka [9]) gamall madr.

1) þann. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) skiótt. sömu.
3) vantar í sömu.
4) herdaþunna. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
5) Sídan fór Sturla þórdarson. sömu.
6) Lánghróf. *A. B. C. E. Gr. St.* þ. bæta vid: ok ödru fleiru.
7) til. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
8) þá er menn sátu yfir bordum. sömu.
9) af gudi, bæta sömu vid.

Sighvatr tók undir í gamni ok med nokkurri sva græd [1]): hvergi okkar þarf nú at bregda ödrum elli, edr hvert giörist þú nú spámadr, frændi? Þórdr svarar, eingi em ek spámadr, [en þó man ek þèr verda spámadr [2]), sva mikill sem þú þykkist nú ok trúir á mátt þinn ok sona þinna, þá mano fáir vetur lída ádr þat man mælt, at þar sè mest eptir [3]) ordit. Reidr ertú nú frændi, segir Sighvatr, ok skal ei marka reids manns mál, kann vera okkur mælist betr annat sinn, þá er vid erum bádir í gódu skapi ok skal þess at bída [4]). Sighvatr reid í Sídumúla, en Sturla í Reykiaholt, ok lèt sem hann ætti þar einn allt, tók hann þar undir sik alla eign Snorra í Borgarfirdi. Sturla sendi ok menn í Stafaholt, ok tóko þeir þar mat or kyrkio ok báro út föstudaginn um kropníngo, kölludu at kyrkia ætti ekki at halda bannsettra manna fè. Sturla lagdi ok undir sik allt hèrad ok fann Þorleif or Gördum ok iátti hann öllu því er Sturla baud. Eptir þat dreifdu þeir flokkinum ok fóro synir Sighvats hinir yngri nordr, en hann reid vestr í Dali ok var í Túngo at Jóreidar um páska ok fór sídan nordr. Þá er Snorri spurdi at Sturla hafdi lagit undir sik hèrad allt, fór hann brott af Sudrnesium ok sudr til búa sinna, ok þadan austr í Skál til Orms Svínfellíngs ok var þar um sumarit. Urækia hafdi í Ædey skipabúnad mikinn, en er leid at alþíngi, lèt hann bera faung sín öll á skip ok fór út eptir Isafirdi med alla sína sveit. Var þat ord á, at hann mundi halda öllum skipunum sudr á Breidafiörd edr allt at Borgarfirdi, hvat sem sídan giördist at, en er þeir kvamo vestr fyrir Dyrafiörd, snèro þeir inn til Alvidru öllum skipunum, nema ein feria sigldi vestr fyrir er Stokkr var kölludu. Þeir lögdu ei fyrri at en í Kópavík, þar var fyrir Jón Halldórsson [5]) er hálfprestr var kalladr ok Audun Skyti or Isafirdi. Þá lögdust at stormar miklir. Þat var einn dag er Urækia hafdi róit yfir fiörd til Haukadals at skèmta sèr, at Jón Ofeigsson hafdi farit í Arnarfiörd á Kúlu til Isleifs frænda síns, honum fylgdi

1) græzku. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) vantar í *B. E. Gr.*

3) sik, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

4) reid Þórdr þá í brott, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) úr Eyrarhrepp, bæta sömu vid.

etiuhundr hvítr [1]) er hann átti, en' er hann var á Kúlu, kvamo menn Sturlu á Eyri, var þeim sagt at Jón var á Kúlu, fóro þeir þá á Kúlu, ok segir Isleifr at hann væri ei þar, þeir siá hundinn liggia hiá bænahúsi [2]) ok kèndo, þóttust þeir þá vita at hann mundi þar inni, heitast þeir þá vid at brióta húsit. Jón giördi þá vart vid sik ok sömdu þeir þat, at þeir hèto Jóni gridum þartil er þeir fyndi Sturlu, þá fór Jón med þeim útí Otrardal á fund Sturlu ok tók hann allhart á Jóni, þá fèkk hann grid at bæn manna. Urækiu kvam niósn í Haukadal, fór hann þá aptr í Alvidro, giördist þá kurr mikill í bóndum ok varo allmargmæltir ok sáttgiarnir. Sturla spurdi er hann var í Otrárdal til manna Urækiu í Kópavík ok sendi út þángat Þórd Gudmundarson [ok Eyvind Bratt Austmann, Sigmund son Skards-Snorra, Gudlög Gilsson, Eyrekk Birkibein, Þóri Jökul, Þórd Víti [3]), fimtán varo þeir. Þeir kvamo í víkina sva at hinir sváfo í tveim [4]) tiöldum, heoggo þeir á þá tialdit þat er þeim var nær, var þar í Jón hálfprestr ok Audun Skyti, var Jón veginn, en Audun var höggvinn á vángann ok kinnina, sva at af fèll hárit, en trautt dreyrdi á kinnina, var þar ok höggvinn Styr Hallsson [5]) ok Þórgils [Saurbæíngr ok [6]) Flókafinnr ok fleiri adrir. Þeir heoggo ofan annat tialdit, þar var í Dagr hinn mikli bródir Játvardar, Þórarinn Bolli ok Rögnvaldr [son Tanna Bearnasonar [7]), ok varo þeir allir dregnir út, [va sá madr at þeim er Gamli hèt föronautr þeirra siálfra, Eyrekkr Birkibeinn gaf grid Halli Egilssyni, Eyvindr Brattr Arna Bratt Austmanni, Gudlaugr Ormi hvíta [8]). Tóku þeir þar öll faung þeirra ok fóro sídan til Sturlu. Sturla flutti lid sitt yfir Arnarfiörd ok hafdi hann sunnan haft nær sextygi [9]) manna, en þá hafdi hann meir en hundrad er hann kvam í Dyrafeörd, fóro þá menn í milli þeirra Urækiu ok var fundr lagdr á Söndum ok grid til seld. Fór Urækia þá yfir Dyrafeörd med siötygi manna, en Sturla sat í brekk-

1) mikill. *B. E. Gr.*
2) Biarna húsi. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
3) vantar í sömu.
4) vantar í sömu.
5) Hallason, *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
7) vantar í sömu.
8) sumum grid gèfin. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
9) tvo hins fimta tugar. *A. B. Gr. þ.*

unni ofan frá Söndum med allt sitt lid, en þeir fundust iafnnær flokkunum vid iafnmarga menn, var þá talat um sættir, ok þarf þar ei ord um at tyna, at sættin gèkk greidliga saman, en þær varo málalyktir at Sighvatr skyldi giöra ok lúka upp at midiu sumri á Kèldum. Urækia skyldi fara sudr þá þegar med Sturlu ok hafa brott or Vestfiördum allt sitt, hann skyldi hafa bú í Stafaholti, en Sturla skyldi hafa Reykiaholt ok fè Snorra í fridi fyrir Urækiu, þat var ok mælt, at þá skyldi vel vera med þeim frændum ok bída sva hveriar málalyktir yrdo med þeim Snorra, þá er hann væri fundinn. Fór Urækia til Alvidro af fundinum ok giördi menn til Isafiardar eptir faungum sínum ok hestum ok lèt færa sudr, en þeir Urækia fóro þá eptir Sturlu til Arnarfiardar ok fundo hann á Eyri, fóru sídan sudr allir saman til Saurbæar ok stilltu [1]) sva til at iafnan mötudust í síno húsi hverir Sturlu menn ok Urækiu menn.

46. Þeir skildu í Tialdanesi ok reid Sturla til þíngs, en þeir Urækia fóro til Stafaholts ok dvöldu þar litla hríd ádr þeir fóro sudr, fundu þeir þá Sturla á Bláskógaheidi, mæltust þeir þat vid at þeir skyldu finnast at midiu sumri ok mundi Sighvatr þá kvama nordan ok lúka giördum upp. Urækia reid austr í Skál at finna födur sinn ok sídan aptr á Rángárvöllo ok var í Klofa med Þorsteini presti bródur sínum ok beid Sturlu ok fundust þeir þar sem mælt var, en Sighvatr kvam ekki at nordan ok vard eingi sætt med þeim [at sinni [2]), fóru þeir þá allir saman út í Skálaholt at Þorláksmesso ok matadist Urækia ok þeir einir í húsi iafnan þá er Sturla var vid. Þeir fóro or Skálaholti allir samt upp í Laugardal ok þadan vestr á Bláskógaheidi þar til er þeir kvamo til Hallbearnar-vardna, þá segir Urækia at hann vill rída hinn sydra dal til Stafaholts, en Sturla bad hann rída til Reykiaholts ok kalladi mart útalat, ridu þá hinn sydra dal sumir menn Urækiu, Markús af Melum ok þeir fedgar Grímr Þórgilsson ok Eyúlfr ok Jón Arnason or Tialdanesi, en Urækia reid í Reykiaholt ok Sturla Þórdarson, Svarthöfdi Dugfússon, Egill hagi, [Svartr Einarsson, Asbiörn Sveinbearnarson, Þorgeir Stafsendi ok Svertíngr Þorleifsson [3]). Þeir Urækia mötudust

1) stillti Sturla *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) á þeim fundi *C. St.*
3) ok fiórir eda fimm adrir *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

í litlu stofu um kveldit, en um morgininn er þeir gengo frá messo fóro þeir í stofo, þá var Urækia kalladr í litlu stofu ok Sturla Þórdarson, litlu sídar kvam Sturla Sighvatsson í stofudur þær er ero [1]) frá litlu húsum ok kalladi Sturlu Þórdarson til sín ok gengu þeir í lopt þat er þar var, tók þá Sturla Sighvatsson til orda: Þèr var kunnigt, nafni, [2]) um sætt vara í Dyrafirdi, en nú kvam fadir minn ekki til, en sva var mælt at Urækia skyldi búa í Stafaholti, en ek hèr, ok þykkir þat ei heilligt [3]) at hann siti þar [4]) vid lítil [5]) efni, en ek svama [6]) í fè Snorra, er þar nú knefat um annat rád, at ek ætla hann skuli fara nordr til Skagafiardar ok þar utan, ok man nu skilia ydvart föroneyti, tók hann þá til sverdsins Kètlíngs er lá hiá þeim er Sturla Þórdarson hafdi í hendi haft, gengo þeir þá til stofo ok í dur, kvamo á móti þeim menn Urækiu ok varo þá allir fletitir vapnum, [7]) var þeim þá fylgt í loptit ok settir þar menn til gæzlo, þá kvam Þorleifr med sveit sína, hann var í Bæ um náttina ok hafdi ridit ofan Flókadal, því hann var ok sudr þar med Sturlu. Þorleifr var nú settr til at gæta Urækiu manna. Sturla reid nú á brott med Urækiu upp til jökla ok Svertíngr med honum einn hans manna. Þeir ridu upp á Arnarvatnsheidi þar til er þeir kvama á Hellisfitiar; þá fara þeir í hellinn Surts [8]) ok uppa vígit, lögdu þeir þá hendr á Urækiu ok kvaddi Sturla til Þorstein Lángabein [9]) at meida hann, þeir skorudo af spiót-skapti ok giördu þar af hæl, bad Sturla hann þarmed lióstа út augun, en Þorsteinn lèzt ei kunna vid [10]) þat, var þá tekinn knífr ok vafdr ok ætlat af meir en þverfíngur. Urækia kalladi á Þorlák biskup sèr til hiálpar, hann saung í meidslunum bænina: *sancta Maria mater domini nostri Jesu Christi.* Þorsteinn stakk í augun knífinum upp at vafino, en er því var lokit, bad Sturla hann minnast Arnbiargar ok gèlda hann, tók hann þá burt

[1]) gengu *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) frændi, *B. E. Gr.*
[3]) trúligt. *A. B C. E. Gr. St.* þ.
[4]) sva nær. sömu.
[5]) lítit, sömu.
[6]) svima. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[7]) ok klædum bæta sömu vid.
[8]) Surt. *A. B. C. Gr.* þ.
[9]) Lánga. *A. C St* þ. Láng *B. E. Gr.*
[10]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

annat eystat, eptir þat skipadi Sturla til menn at geyma hans, en Svertíngr var þá hiá Urækiu, en þeir Sturla rída þá í brott ok ofan í Reykiaholt, lèt Sturla þá fara á brott menn Urækiu ok hèldu þeir flestum föngum sínum, en hestr Urækiu ok vapn varo tekin. Þá er þeir Sturla ok Svarthöfdi [1]) kvamo til Hvítár, kvam þar á móti þeim Játvardr Gudlaugsson, en er þeir sögdu honum þessi tídindi, lèzt hann vilia upp í hellinn at finna Urækiu, en þeir löttu þess, hann vildi fara ei at sídr ok kalladi sik ei saka mundu er þar var Þórir Jökull módur-bródir hans. Sturla [bodadi honum [2]) út til Stadar at segia þeim tídindi slík er hann yrdi vís. Arnbiörg var í Stafaholti ok sendi Sturlu Þórdarsyni ord at hann skyldi fara út til Stadar í mót faungum sínum er þar varo kvamin á skipum þeim er vestan höfdu farit, reid Svarthöfdi þá vestr í Hiardarholt, en þeir Sturla út til Stadar ok þadan til Helgafells at láta skripta sèr, ok sva a Eyri til Þórdar, en Þórdi þóttu skriptir Sturlu of miklar ok kvad hann skyldi fara í Skálaholt á fund biskups, fóro þeir þá til Stadar ok var þar kvamin Arnbiörg ok Játvardr, ok segir hann þau tídindi í hliódi, at Urækia hefdi syn sína [3]), hann bad þau rída á móti sèr ef þá mættu þau med nokkro móti, þvíat Sturla var þá ridinn nordr um land. Þau Sturla Þórdarson ok Arnbiörg rido þá sudr ok [med þeim Játvardr ok Ingialdr Geirmundarson, Rafn Einarsson ok Asbiörn Sveinbiarnarson [4]), en er þeir kvamo í Borgarfiörd, var Urækia brott or hellinum, hafdi hann ridit sudr um land vid þridia mann, ridu þau þá í Skálaholt ok kvam Urækia þá til móts vid þau austan or Klofa ok var hinn hressasti, allved tók Magnús biskup vid þeim ok leysti þá miskunsamliga, fèkk hann Urækiu tíu hundrud vadmála ok lagdi þat til med honum at hann skyldi utan, sagdi hann mundi einga uppreist fá hèr sinna mála, ridu þau Urækia þá ofan á Eyrar, ok tók hann sèr far med Andresi Rafnssyni. Þá fóru utan á Eyrum þeir Magnús son Gudmundar Gríss, hann var kosinn til biskups í Skálaholti, ok Kygri Beörn, er Nordlend-

1) Svertíngr. *C. St.*

2) bad hann skunda aptr af fiallinu ok *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

3) ok væri heill, bæta vid *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

4) fiórir menn adrir, *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

íngar höfdu kiörit til biskups. Mariumessodag er þeir Urækia varo á Eyrum, sigldi, þar af hafi knör einn lítill ok var þar á Kolbeinn Ungi ok þeir fèlagar, var þar fagnafundr med þeim Urækiu mágum, tók Kolbeinn þá vid Arnbiörgu systur sinni, ok fór hon nordr med honum. Þeir Sighvatr gáfo honum upp bú sitt ok ríki sitt, ok fór þeim þat betr en gètit var til þeirra. Urækia fór utan á Eyrum ok rèd til sudrferdar um vetrinn, hann fann i Danmörko Valdimar konúng hinn Gamla ok orti um hann vísu, en konúngr gaf honum hèst þann er hann reid sudr ok sunnan. Fóro þeir Kygri-Beörn bádir samt sudr ok sunnan, þartil er Beörn andadist. Menn Urækiu fóro af Eyrum, fór Sturla heim á Eyri ok var þar um vetrinn ok þeir þrír saman [Ingialdr ok Rafn Einarsson. [1]) Þenna vetur beó Olafr Þórdarson at Borg, hann hafdi þángat fært sik um varit or Hvammi at rádi Snorra. Þenna vetur varo þeir allir brædur jafnan at Stad med Bödvari.

47. Med þeim Sturlu Sighvatssyni ok Þorleifi í Gördum tók at grennast [2]) miök vináttan eptir meidíngar Urækiu, gèkk Þorleifr illa undir flutníngar Sturlu, en hann þurfti mikils vid, er flutt var or Eingey bædi miöl ok skreid, en sumt keypt á Akranesi, en er Snorri spurdi austr í Skál at fátt var med þeim, sendi hann menn ofan til Þorleifs, en sumir fóru allt til Stadar ok á Eyri. Um vetrinn eptir jól fór Snorri or Skál fyrst i Dal til bús síns, en sídan vestr í Ölfus til Gissurar Þorvaldssonar ok sva á Bersastadi, en er þetta spyr Sturla Sighvatsson, sendi hann vestr í sveitir eptir mönnum, ok kvam vestan lid mikit til Borgarfiardar, sídan safnadi hann lidi þar um öll hèrud ok fór út fyrir Hafnarfiall. Þorleifr safnadi lidi um nes út ok sunnan um fiörd því er hann fèkk, ok ætladi í mót. Þá fóru menn á midli þeirra ok var kvamit á stefnolagi med þeim [ok fundust þeir á Melum [3]), fór þá enn skipuliga med þeim vid fortölur Bödvars [4]) ok annara vina hans, en er þeir varo skildir, sögdu sitt hverir fra tali þeirra, en þó dreifdu

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) grynnast, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) vantar í *C. St.*

[4]) í Bæ. bæta vid *A. B. C. E. Gr. St* þ.

þeir flokkunum, en litlu var þat sídar [er miklu var [1]) verr en ádr, giördu þeir þá spott mikit at Reykhyltíngium fylgdarmenn Þorleifs Þorkèll Faxi ok Gudlaugr Ausuglámr. Snorri fór af nesium sudr til Reykia ok var med Gissuri um föstuna, var þá allvel med þeim mágum, [gód ord fóru þá í midlum þeirra Gissurar ok Sturlu [2]).

48. Kolbeinn Ungi sat í búi sínо at Flugumyri, hann hafdi mart röskra manna med sèr, Gudmundr Asbiarnarson var med honum eptir víg þeirra fedga Kálfs ok Guttorms, þar var þá ok Þórálfr [3]) Bearnarson. Med þeim Gudmundi ok Þórálfi var jafnan fátt. Gudmundr kvad vísu:

Beiddist illra orda
um snúd [4]) röndin borda
fæddr var á beinum bördum
barkhriódr i Austfiördum,
eltr var austan glanni
úgiptan skaut manni
hádsamir [5]) misto meidi
yfir Mödrudals heidi.

Sá atburdr var á Flugumyri þrem [6]) vetrum eptir víg þeirra fedga Kálfs ok Guttorms, at þeir sátu at tafli Kolbeinn Ungi ok Gudmundr ok tefldu kvotro þar á gólfino í stofunni þrèm náttum eptir jól, en er hríngdi til aptansaungs gèkk Kolbeinn til kyrkiu ok mart manna med honum. Gudmundr sat eptir ok batt saman taflit, þar kvam Þórálfr í stofuna ok Helga húsfreya Sæmundardóttir. Þeir menn varo á Flugumyri er annar hèt Skálp-Biarni, en annar Bódvar, þeir varo brædur ok var fiandskapr med þeim Gudmundi. En er Kolbeinn var útgènginn þá höggr Bearni til Gudmundar ok kèmr á lærit fyrir ofan knè, ok var þat mikit sár. Gudmundr vildi þá uppstanda ok hafdi fyrir sèr tafl-bordit. [7])

[1]) at miklu vard, *B. E. Gr.*
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) Þorleifr. *C. St.*
[4]) smid, *B. E. Gr.* sund. *A. C. St.* þ.
[5]) hardsamr. *B. E. Gr.*
[6]) tveim. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[7]) bordtaflit. *A. B. E. Gr.* þ.

Bödvar hió þá í höfud honum ok var þat banasár, bádir unnu þeir á honum. Þau Helga ok Þórálfr skuto þeim á brott, vard Kolbeinn ei fyrr var vid en þeir varo sva lángt kvamnir at þeir urdo ei áhendir. Þeir fóro austr í fiördu, Þórarinn Jónsson kvam þeim utan, en Kolbeinn var hinn reidasti, en þó vard eingi hefnd eptir Gudmund ok eingar fébætr.

49. Þá er þeir höfdo sæzt í Flatatúngo Sighvatr ok Kolbeinn ok Urækia, fór Gudmundr biskup med Kolbeini á Flugumyri, en sídan fór hann út til Hóla ok var þá ei lángvistum brott frá Hólum þadan frá medan hann lifdi, var hann þá iafnan í litlu stofu ok tveir klerkar med honum Helgi bródurson hans ok Þorkèll son Kètils Ingialdssonar, lifdi hann þá líkar [hliódlátum ok rólyndum [1]) einsetumanni, en hardlyndum ok hlutsömum lydbiskupi, sem úvinir [2]) hans höfdu ord á, tvo vetur fulla var hann þar ok þat hins þridia sem hann lifdi, laungum var hann lítt heill, þvíat hann var ei bókskygn þá er hann fór or Höfda, en blindr med öllu hinn sídasta vetur er hann lifdi. Andlitsmein hafdi hann mikit ok var [3]) verkr í hinni hægri kinn ofan frá augano. Hann saung löngum edr lèt lesa fyrir sèr sögur helgra manna á latíno þá er hann vakti. Þenna vetur er nú var frá sagt ok Sturla fór á Mela, kvam nordan frá Hólum litlu fyrir föstu á Eyri til Þórdar Magnús tölosveinn, hann var múnkr ok ei merkr, en midlúngi rèttordr, hann sagdi Gudmund biskup hafa sendan sik til Þórdar. Þeir töludu á þverpalli ok kalladi Þórdr til Sturlu son sinn at heyra tal þeirra. Þórdr spyr at eyrindum hans, en hann segir at biskup sendi honum ástarkvediu ok bad mik þat segia þèr at þú skyldir ei efast í at þid mundut finnast í var. Þat þykkir mèr nú úglíkligt, segir Þórdr, þvíat hvergi okkar er til lángferda felldr. Þetta sagdi hann þó, kvad Magnús. En hvat taladi hann um mótgángsmenn sína, segir Þórdr? Umtaladi hann nokkut, segir Magnús. Hvat, segir Þórdr? Hann kvad fá vetur mundu lída ádr mótgángsmenn hans mundo [4]) siálfir hendr áleggiast ok þeirra af-

[1]) hliódlyndum ok róligum. *A. B. C. E. Gr. St* þ.

[2]) vinir. *B. E. Gr.* þ.

[3]) lá. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) innbyrdis sundrrífast, bæta vid *B. C. E. Gr. St.* þ. sundrdrífast. *A.*

kvæmi ok drepast nidr sem vargar, kvad þar mundi mest eptir [1]) verda, er þá var mestr uppgángrinn; mart sagdi hann annat, þó hèr sè ei ritat í þessari sögo [2]). En þenna vetur hinn sama tók Gudmundr biskup sótt litlo fyrir [lángaföstо þúnga ok hliódliga, í þeirri sótt lá hann fram um [3]) Gregoríusmesso, en bana bar midli ymbrodaga, en föstudaginn lèt hann Jón prest Lærdiúd olea sik vid fulltíng diákna sinna ok annara lærdra manna þar heima. Eptir þat vildi hann þat eitt mæla er naudsyn krafdi, til fás skipadi hann, ádr hann var oleadr, nema skipti bókum med nokkrum klerkum sínum, en miklu ádr hafdi hann fyrirsagt um leg sitt í stúkunni sudr af kyrkio á millum presta tveggia er hann hafdi þar iarda látit. Hann sagdi hvern mann í berri moldu eiga at andast. Nú lidu stundir fram um drottinsdag, ok dró [at um mátt [4]) hans stund frá stundo, sva at annan myrgin vikunnar sá þeir ei vid varo staddir, at stundarbid var, sem reyndist, en á fiórdu stundu þessa dags andadist hann ok hinum siötta vetri hins átta tugar aldurs síns. I andlátino hófo þeir Helgi ok Þorkèll [5]) hann af klædum á fiöl öskudreifda, ok þar á [6]) höndum þeim skildist öndin vid líkamann, ok þar á fiölinni mynntust þeir vid hann ok báro mikinn harm af því strídi er þeir skildust sva lángæliga [7]) vid sinn födur, þvíat þeir höfdo frá barnsaldri af honum þegit födurliga ást ok blído, finnst ok varla á varo landi edr vídar sá madr sem þokkasælli [8]) hafi verit af sínum vinum, en þessi hinn blessadi biskup, sva sem at votta brèf Þóris erkibiskups, edr Guttorms erkibiskups, edr hins ágæta konóngs Hákonar ok margra annara dyrdligra [9]) manna í Noregi, at þeir unno honum sem bródur sínum, ok bádo hann fulltíngs í bænum sem födur sinn. Lík biskups var náttsett þar í stofunni, en hinn þridia dag var þat til kyrkio borit ok skrydt. Kvam þá til Eyúlfr prestr af Völlum

[1]) sik, bæta vid *B. E. Gr.*
[2]) bók *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) vantar í sömu.
[4]) af mætti. *B. Gr.*
[5]) prestar, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) fiölinni í, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[7]) lángliga. sömu.
[8]) ástsælli. sömu.
[9]) lærdra. sömu.

ok gaf til gull þat er hann hafdi í gröf. Allir dádust er sá þenna líkama ok kvádust aldrei hafa sèd dauds manns hold iafn biart edr þekkiligt [1]) sem þetta. Jón prestr saung líksaung, en [Kolbeinn Kaldaliós [2]) þakkadi líkferdina ok mælti fagurt eyrindi yfir greptinum. Þá er lík [3]) Gudmundar biskups var borit til kyrkio, bádu formenn kyrkiunnar hríngia sem flestum klokkum, var þá hríngt tvennum, ok skalf miök kyrkian, er hon var gömul. Þá bad Jón prestr hríngia ödrum tvennum, ok sva var giört, fundu þeir mun á at kyrkian var fastari en ádr. [Þá bad hann hríngia öllum klokkum ok sva var giört [4]), ok hafa þeir menn sva sagt er þeir varo vid, at kyrkian skalf ekki, ok þótti þat merkiligr [5]) lutr. Margir merkiligir lutir urdu þann dag er biskup var grafinn, þótt hèr sèó ei ritadir, ok huggudust þeir er hryggvir varo. Þetta bænahald var vanr at hafa Gudmundr biskup þá er hann lifdi: hvern morgin er hann vaknadi, signdi hann sik fyrst ok saung þetta: *Adesto Deus* [*unus et* [6]) *omnipotens* [7]) *etc.*; þá: *Credo in Deum*, þá: *Confiteor*, þá þessa bæn: *Omnipotens sempiterne Deus, qvi es ternus et unus*, þá: *Assidui* [8]) *nobis* [9]), þá: *Pater noster* ok nokkra Davíds sálma, þá: *Domine exaudi orationem meam*, ok mart annat fleira, þó ei sè hèr gètit, vonum vèr hann fengit hafa himnaríkis ok eylífrar gledi med öllum guds útvöldum ok helgum mönnum. [10])

50. Þórdr Sturluson tók sótt á föstunni er á leid, var þá sent eptir Bödvari syni hans, ok þá varo þar allir synir hans ok margir vinir hans. Amundi Bergsson gèkk honum nærst ok taladi flest vid hann. En er sóttin herdi at honum, bad Amundi hann skipa til [11]), en Þórdr bad þá Hauk prest [12]) Audunarson [13]) vita

1) þokkaligt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) Stadar-Kolbeinn. sömu.
3) herra, bæta sömu vid.
4) vantar i sömu.
5) ok minniligr, bæta sömu vid.
6) vantar í *St.*
7) *pater et filius et spiritus sanctus*, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
8) *assidue. A. B. C. E. Gr. St.* þ.
9) *est*, bæta vid *B. E. Gr.*
10) amen, bæta vid *A. C. St.* þ.
11) um eignir sínar, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
12) vantar í sömu.
13) Amundason. *B. E. Gr.* Audnuson. *C.*

vid Bödvar, [hve honum væri gèfit um tilskipan hans [1]), þvíat hann er arfi minn, segir hann, en Bödvar bad hann skipa öllu sem honum líkadi. Sídan lèt Þórdr hafa hundrad hundrada hvorn þeirra Oláfr ok Sturlu, en áttatygi hundrud hvern Þórd ok Guttorm, Valgèrdr hafdi huudrad hundrada, en hver hinna dætra hans fiörutygi hundrud, laut Bödvar þá enn fimm hundrud hundrada. Sturla hafdi Eyri, ok skyldi þá þegar taka vid búi. Eptir þat var Þórdr oleadr er hann hafdi tilskipat, en hann andadist föstudaginn fyrir pálmsunnudag at midium degi, ok saung í andlátino: *Pater in manus tuas commendo spiritum meum*, eptir Hauki presti. Lík Þórdar var þar iardat á Eyri er hann hafdi fyrirsagt fyrir framan kyrkiona. Hann hafdi tvo vetur hins átta tugar er hann andadist. Magnús biskup andadist þat sumar hit næersta eptir, hinn næersta dag fyrir Mariumesso fyrri. Þorvaldr Gissursson kanúki hafdi andazt tveim vetrum fyrr en þeir Magnús biskup brodir hans ok [Þórdr Sturluson [2]), ok er ártíd hans Ægidiusmesso. A því ári er Þorvaldr andadist dó Flósi múnkr Bearnason, Sigurdr Ormsson ok Digurhelgi.

[1]) hvernin hann vildi helst at væri eda hvört hann vildi samþykkia skipan födur síns. *A, B, C, E, Gr. St,* Þ.

[2]) Gudmundr biskup. *A, B, C, E, Gr. St,* Þ.

# Siötti þáttr.

Af Sighvati á Grund ok Sturlu syni hans ok þeirra yfirgángi. Af bardögum Sturlu ok attektum; item hvörnin Kolbeinn úngi, Gissur Þorvaldsson ok fleiri adrir safna lidi, þeir fedgar í annan stad, med því fleira er fyrr ok sídan giördist. Um fall þeirra fedga ok annara á Örlygsstödum. Kolbeinn giördist einvaldsherra fyrir nordan. Sigling Snorra ok utkoma, hans aftekt. Af Urækiu, drápi Klængs ok fleirum atburdum hèr á landi um þann tíma.

1. Gissor Þorvaldsson beó at Reykium í Ölfusi þau misseri er þeir öndudust Magnús biskup ok Gudmundr biskup, hann giördist höfdíngi mikill ok vitur madr [1]), þá hafdi hann átta vetur ok tuttugu, þá voro lidin frá burdi vors herra Jesu Christi tólf hundrud þriátygi ok siö [2]) ár. Gissur hafdi giörzt skutilsveinn Hákonar konúngs frænda síns, þá hann skorti vetur á tvítugan. I þann tíma var sva mikill ofsi Sturlu Sighvatssonar, at nær eingir menn hèr á landi hèldo sèr rèttum [3]) fyrir honum, ok sva hafa sumir menn hermt ord hans sídan, at hann þættist allt landit undir hafa lagt ef hann gæti Gissur yfirkvamit. Gissur var medalmadr [4]) at vexti, ok [allra manna best [5]) á sik kvaminn, vel limadr, snareygdr, ok láu fast augun, skírligr í yfirbragdi, betr taladr en flestir menn hèr á landi, blídmæltr ok mikill rómrinn, eingi ákafamadr, ok þótti iafnan hinn dreingiligasti til rádagiördar, en þó bar sva opt til þá er hann var vid deilur höfdíngia edr venzlamanna sinna, at hann var afskiptalítill, ok þótti þá ei víst hverium hann vildi veita, hann var frændríkr [6]), ok flestir hinir besto bændr fyrir

[1]) ok vinsæll, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) átta. *C. St.*

[3]) sínu rèttu, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) mikill madr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) vel. sömu.

[6]) frændríkari en allir adrir, sömu.

sunnan land ok vídar varo vinir hans, þá var ok vel med þeim [Snorra Sturlusyni [1]). Oláfr Þórdarson hafdi ort drápo um Þorlák biskup um vetrinn nærsta fyrir [2]) andlát Magnúsar biskups, hann [fór um föstuna sudr í Skálaholt ok gaf [3]) sèr þat til eyrindis at færa drápuna, en hann vildi þó hitta Snorra Sturluson, sem hann giördi þá er hann fór sunnan, var Snorri þá at Reykium med Gissuri, segir hann Olafi at hann ætladi eptir páska til Borgarfiardar, ok vildi þó at vinir hans kvæmo til móts vid hann þeir er honum vildi lid veita. Oláfr fór heim at páskum. A föstunni þá er Oláfr var sunnan kvaminn, kvam sá madr til Borgar er kalladíst sendimadr Snorra, ok leyndo þeir honum Askèll Oláfsson ok Oláfr [4]) þar í hlödo nokkrar nætr, ok töludu þeir marga luti um málaferli ok ferdir Snorra, en þann mann hafdi sendt Sturla Sighvatsson, ok giördi þessi madr honum kunnigt allt þeirra tal. Madr hèt Haflidi Höskuldsson bródir Sighvats [5]) hins andga, hann dreymdi um vetrinn eptir iól þá er Melaför var, [at hann var úti staddr [6]) á Kolbeinsstödum, er hann átti heima í Haugatúngo, hann sá at leikr var sleginn skamt frá gardi, ok varo karlar einir at, þat var knattleikr. Þá gèkk grálæddr madr mikill ofan frá Mydal ok bidu þeir þess at leiknum. Þeir frèttu hann at nafni. Hann kvad:

Kár kalla mik,
er ek kvaminn hèdra
heim at skèlfa
ok hugi manna,
borgir brióta,
boga sveigia,
elda at auka
ok aga [7]) kinda.

[1]) Sturlu Sighvatssyni. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) eptir. sömu.

[3]) var um föstuna í Skálaholti ok giördi. sömu.

[4]) Þórdarson, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) Sigurdar. sömu.

[6]) hann bió. sömu.

[7]) akra. *A. B. E. Gr.* Þ. elda. *C. St.*

Edr hví leikit þèr nú eigi? Þeir kvádust eingan hafa knöttinn. Hèr er, segir hann, ok brá steini undan kuflinum ok laust einn til bana. Sídan tók hver at ödrum þann stein ok bördust med, ok fèllu allir þeir er fyrir urdu. Hann dreymdi ok annan draum litlu sídar, at hann þóttist vera í Fagraskógi, ok þóttist siá upp eptir Hítárdal, ok sá rída ofan eptir dalnum flokk mana. Kona fór fyrir lidino mikil ok íllilig ok hafdi dúk í hendi ok á raufartrefiur [1]) nidr ok blæddi or. Annar flokkr fór á móti þeim frá Svarfhóli ok mættust út frá Hrauni ok bördust þar. Kona þessi brá dúkinum yfir höfud þeim, ok er raufin kvam á hálsinn, þá kiptti [2]) hon höfdino af hverium þeirra. Hon kvad:

Veg ek med dreyrgom dúki,
drep ek menn [í hír [3]) þenna,
þar [4]) hlægir mik ærit [5])
til vist [6]) er þeir gista.

2. Þá er Sturla Sighvatsson hafdi grun af um samdrátt þeirra Snorra ok Þorleifs [7]), giördi hann menn vestr í fiördu eptir lidi ok nordr í Reykiadal eptir Kolbeini bródur sínum ok Rafnssonum, ok dreif at honum lid mikit. I páskaviku kvam vestan Gísli af Sandi ok Asgrímr Bergþórsson ok mikit fiölmenni or öllum sveitum vestan. Hann dró ok lid at sèr um Borgarfiörd ok hafdi ei færra en fimm hundrud manna. Snorri kvam sunnan í páskavikunni, ok drógu þeir Þorleifr lid saman um Romshvalanes ok um öll nes fyrir sunnan Borgarfiörd, ok höfdo nær fiögur hundrud manna er þeir fóru utan um Skardsheidi, namo þeir stadar á Midfitium ok giördu rád sín, vildi Snorri rída upp þegar um náttina ok láta skipta um med þeim, segir vera mega at þeir yrdo ei vidbúnir edr kvæmo sèr ei saman, ef þá bæri skiótt at. En Þorleifi þótti þat úfæra at hætta á sva mikinn lidsmun sem hann segir vera mundi. Þá vildi Snorri at þeir hvyrfo aptr, en Þorleifr vildi þat

[1]) raudar trefur. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) skipti. *St.*
[3]) hve. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) en. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) eigi. sömu.
[6]) þat, bæta sömu vid.
[7]) Þórdarsonar, bæta sömu vid.

ei ok kvad þá mundo heria út þannveg ok sagdi þá mundo eingo eira. Þá spyr Snorri hvert rád hann vildi hafa? Þorleifr bad þá rída upp í hèrad ok fá sèr vígi ok sækiazt þadan eptir því sem audit yrdi, kalladi mega verda at skipti þeirra færo sem um vetrinn á Melum. Snorri [lèzt þess geyma [1]) mundu at hann kvæmi aldrei á vald Sturlu edr annara úvina sinna, hvat sem annat legdist fyrir. Tala þeir þarùm til þess er Snorra rídr frá vid annan mann ok fer sudr á nes, en Þorleifr fer upp í hèrad med flokkinn ok fór um kveldit á borgina hiá Vatnshömrum í Borgarfirdi, kvamo þeir til Þorleifs Oddr Sveinbiarnarson ok Oláfr frá Borg med sveit manna. Lid Þorleifs var vel búit at vapnum ok mart hafdi hann röskra manna med sèr.

3. Tyrsdaginn [2]) eptir páskaviku reid Sturla heiman or Reykiaholti, en er hann kvam í Kálfanes, var Þorleifr þar fyrir med flokk sinn, ok hafdi hann þar fylkt á melunum vid himin at siá, sá þeir Sturla at fylkíngin var laung ok þunnskipat, er þeir siá himin millum mannanna. Þá var leitat um sættir ok fór Bödvar á milli. Sturla vildi þá einga sætt nema siálfdæmi, ok kvadst af sèr skylldi reka slittmælit [3]) at sinni. Bödvar bad Sturlu miök sætta, var þá sva kvamit, at [Þorleifr iátti siálfdæmi [4]), en Sturla vildi þá eingan kost annan en þeir Þorleifr legdi vapn sín öll á vídan völl, [ok gèngio frá, en menn Sturlu skyldu taka þau öll [5]) fyrir sættir. En Þorleifr kvam sèr ekki at því. Gèngo þeir þá til hesta sinna ok rido heim til bæar, ok skipadi Þorleifr þar lidi síno til varnar á húsum ok um kyrkiogard, var Þorleifr á húsum þeim er ero [6]) í útnordr frá kyrkio, hafdi hann þar handboga ok Jósteinn *Glenna* austmadr hans. Fyrir austan kyrkio var Klængr Bearnason or Brautarholti ok Kiálnesíngar, en fyrir framan var Markús Þórdarson ok Akurnesíngar, þar var ok Oláfr Þórdarson. Nesiamenn varo flestir á húsum. Jörundr [7]) hinn mikli

[1]) kvad þat gègna, *C. St.*

[2]) Þridiudaginn, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) stútmennit, *A. B. C. E. Gr.* skútmennit, *St.* Þ.

[4]) Sturla hardnadi í ummælum, en Snorri neitti ok Þorleifr siálfdæminu, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í *Gr.*

[6]) voro, *A. C. St.* Þ.

[7]) Játvardr, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[or Hvammi [1]) var á forskála medal húsa ok kyrkio. Sturla bad menn sína ríða eptir þeim, en er þeir sóttu heim [á bæinn [2]), reid Bödvar hiá Sturlu ok leitadi iafnan um sættir. En er Sturla sá vidbúnadinn á húsunum, þá lèt hann taka Bödvar þar hiá gardinum [3]) ok fèkk menn til at geyma hans, Einar son Jóns Loptssonar heimamann sinn ok Þórarinn prest Vandrádsson [4]) ok enn fleiri. En Sturla reid heim á bæinn ok skipadi mönnum sínum til atgaungo, gèngu sveitúngar hans framan at kyrkio, en Asgrímr ok Gísli [5]) austan. Kolbeinn Sighvatsson var fyrir Reyknesíngum ok Króksfirdíngum, ok gèkk fast fram. Vestfirdíngar sóttu at húsunum. Þorleifr skaut af handboga, ok var allskeinohættr, en af Jósteins skotum [6]) vard ekki, ok lèt Þorleifr illa vid hann. Þórdr diákn Símonarson [7]) hèllt skildi fyrir Þorleifi. Þar var hardr bardagi, ok gèkk mest greót öndverdan bardagann. Þat var ok snimma fundarins er Eyrekkr Birkibeinn lagdi Mána Ivarsson igègnum fyrir framan kyrkio, en sva segia menn, at Jón Halldórsson Ragnheidarsonar gèngi fyrstr á húsin, gèngu menn þá eptir honum, en þá brast flótti á Nesiamenn ok [8]) flydu nordr eptir húsunum til kyrkiogardsins. Jörundr [9]) hinn mikli flydi ekki ok var særdr til úlífis á forskálanum ok vardist alldrengiliga. Þórdr diákn er skildi hèllt fyrir Þorleifi fèkk steinshögg, ok kvam á skiöldinn, ok bar hann at andlitino, ok lamdist tanngardrinn, ok vard sídan lítit af honum, var þá flóttinn kvaminn í kyrkiogardinn, sá Þorleifr at ei var audvellt at kvamast í kyrkiona, hann sá ok at þá var umskipt sigrinum, fór hann þá til kyrkiu ok kvamst inn lítt sár. Þá flydu ok allir til kyrkiu er því kvamo vid, en sva vard þraungt at kyrkionni at ei kvamst inn helmíngr þeirra er vildo, lá þá valrinn fyrir durum kyrkiunnar. En Sturlu menn gèngo þá at ok lögdu ok hiuggo sem þeir kvamust vid. Lèzt þar þá mart

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) at Bæ. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) geilunum. sömu.

[4]) vantar í sömu.

[5]) Bergþórsson, bæta sömu vid.

[6]) örum. *A B. C E. Gr. St.* þ.

[7]) vantar í sömu.

[8]) en þó vard enn hörd hríd um stund ádr þeir flydu *o. s. fr.* bæta sömu vid.

[9]) Játvardr, sömu.

manna, en fiöldi vard sár ádr Sturla veitti atkvædi at hætta skyldí áverkum vid menn. [Þessir menn lètust þar af Þorleifi: Helgi Jónsson bródir Bearnar or Kvíguvagom, Sveinbeörn Styrkársson, Sigurdr Tryggvason ok Atli, þessir varo af Rosmhvalanesi. Þórúlfr or Videy, Gudmundr Bárdarson, Atli af Valdastödum, Oddleifr or Hækíngsdal, Gudmundr diákn Eindridason, þessir varo or Kiós. Þórir Egilsson, Þorbeörn Gunnarsson or Svínadal. Þessir varo af Akranesi: Sörli Sveinsson, Sigurdr Sölvason, Oláfr Bödvarsson, Þorkèll Jónsson, Gudlaugr Ausugláinr Halldórsson, Már ok Oddr or Leirárgördum, Sigurdr Illhugason, Steindór, Vígfús Þórdarson, Gudlaugr Jónsson af Melum, Skèggi Gudlaugsson af Asi, Þorsteinn Gilsson af Narfastödum, Gunnar Bárdarson, Máni Ivarsson, Illhugi Jódhildarson, Sölvi Háleggr, Eyúlfr Gunnarsson [1]). Þessir af Sturlu: Arnór Bergsson ok Kodran Sörlason. Ögmundr [2]) Gudmundarson var særdr til úlífis, ok drukknadi í Hvítá er hann fór heim. Þat er sögn manna, at [3]) tuttugu [ok þrír [4]) yrdo sárir af Sturlu. Feöldi manna vard sár af Þorleifi, ok hinir bestu bóndr Hafurbeörn Styrkársson ok Runúlfr bródir hans, er sídan vard ábóti í Videy, Jörundr hinn mikli, Kodran Svarthöfdason ok margir adrir. Um myrgininn eptir gèngu þeir Þorleifr or kyrkio til grida, ok seldu allir Sturlu siálfdæmi, var þá rádit at Þorleifr skyldi utan ok Oláfr Þórdarson ok enn fleiri þeir er þar varo. Sturla fór eptir fundinn útí Garda, ok var þar rænt mörgo, nær þriátygi yxna, en hundrad gèldínga lèt hann reka um haustit til Saudafells, tekin var ok or Gördum skèmma gód ok færd útí Geirshólm, rænt var ok í Saurbæ ok Hvammi ok vída annarstadar þar um sveitir. Sturla seldi Reykiaholt i hendr Þorláki Kètilssyni, en fór um varit til Saudafells ok giördi þar bú. Rafnssonu lèt hann fara vestr í Fiördu, ok tóko vid búi síno.

4. Sturla fór um varit nordr til Eyafiardar at finna födur sinn. Sighvatr tók vid þeim allvel, ok var margtaladr um bar-

[1]) [Þessir menn lètust af Þorleifi, af Rosmhvalanesi ok úr Kiós, úr Svínadal, af Akranesi, alls at tölu þriátygi ok einn. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) Sigmundr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[3]) auk þessara, bæta sömu vid.

[4]) vantar í sömu.

dagann í Bæ, ok þó med etvara-glens [1]) nokkurri. Hann spyr þá Sturlu: hefir þar nokkur bardagi verit hiá ydur, frændi? Sva lètum vèr, segir Sturla. Skamt hefir þat el verit, segir Sighvatr. Ei þótti oss allskamt, segir Sturla. Allmiök þykkist þú nú upp hafa gengit, segir Sighvatr, ok er þat sva audsèt. Hví man ei sva þó, kvad Sturla, ok svaradi [vid brosu [2]), en ekki hefir ek þar ord á giört. Þá mælti Sighvatr: Bú munto nú ætla at efna [3]), frændi, en mèr er sagt, at þú hafir af höndum látit Reykiaholt, sèr þú nú ok ofsiónum yfir flestum bústödum, edr hvar skal stadfestu fá þá þèr þykki sæmilig? Þik læt ek nú allt atgiöra, segir Sturla. Ekki er um fleiri at leita en um tvo, segir Sighvatr, þegar frá ero teknir biskupsstólarnir, er þat Oddastadr ok Mödruvellir í Hörgárdal, þeir ero bústadir bestir, ok mano þèr þykia eingis til miklir. Þessir líka mèr bádir vel, segir Sturla, en ei ætlak þá lausa liggia fyrir. Margs þarf búit vid, segir Sighvatr, rádamann þyrftir þú ok rádakono, þessir menn skyldu velbyrgir, ok kunna góda feárhagi, þessa menn sè ek giörla, þat er Hálfdán mágr þinn [á Kèldum [4]) ok Steinvör systir þín, þessi starfi er þeim fallinn í besta lagi. Þá svarar Sturla: þessa er víst vel tilfengit. Þá þarftu, frændi, smalamann at ráda í fyrra lagi, segir Sighvatr, hann skyldi vera lítill ok lèttr á baki, kvennsamr ok liggia laungum á kvíagardi; þann mann sè ek giörla, þat er Beörn Sæmundarson, en fylgdarmenn skal ek fá þèr þá er gángi út ok inn eptir þèr, þat skulo vera brædur þínir Þórdr Krókr [5]) ok Markús. Sturla kvad brædrum sínum þat mundi vel fara. Margs þarf búit vid, frændi, segir Sighvatr, þá menn þyrftir þú, ok sem hefdi veidifar [6]), ok væri bánghagir [7]) nokkut, kynno at giöra at skipum ok því ödru sem búit þarf, þessa menn sè ek giörla, þar eru þeir frændr þínir Stadar-Bödvar ok Þorleifr í Gördum. Sturla lèt sèr þá fátt um finnast, ok lèzt þó ætla at þeir væro bádir velhagir. Sva er ok

[1]) eliara-glettu. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) brosandi. sömu.

[3]) reisa. sömu.

[4]) vantar í sömu.

[5]) Kakali. *B. E. Gr.*

[6]) veidi fyrir dyrum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[7]) biarghagir. sömu.

frændi, segir Sighvatr, þá menn þarftu er vel kunna rossa at geyma ok hafa ætlan á hver í hveria ferd skuli hafa, þessa menn sè ek giörla, þar er Loptr biskupsson ok Bödvar í Bæ. Eingi van er mèr þess, segir Sturla [1], at allir menn þióni mèr, ok er slíkt þarfleysutal. Nú er fátt manna skipanar eptir þar er mèr þykkir allmikla naudsyn til bera, segir Sighvatr, en þó þarftu þá menn med þèr er hafi atdráttinn ok fari í kaupstefnur ok til skipa, skilvísa ok skióta í vidbragdi, ok kunni vel fyrir mönnum at siá ok til ferda at skipa, þá menn sè ek giörla, þat er Gissur Þorvaldsson ok Kolbeinn úngi. Þá spratt Sturla upp ok gèkk út, en er hann kvam inn, brá Sighvatr á gaman vid Sturlu, ok tóko þá annat tal. Sturla dvaldist þá þar ei lengi, ok reid heim til Saudafells. En er Lopti biskupssyni var hermt tal þeirra Sighvats ok Sturlu, þá mælti hann: slíkt er allkèskiligt [ok allvel tilkvamist [2]), þvíat þat er hverium iafn [3]) hent er hann hefir tilfundit. En er þat var hermt at þeir Bödvar skyldu rossanna geyma, þá mælti hann: diöfull hafi þeirra hróp, þrífist þeir aldrei, ok man þeim at ödru verda en allir menn mano til þeirra stunda [4]).

5. Snorri Sturluson fór utan á Eyrum um sumarit ok Þórdr Kakali, Þorleifr ok Oláfr, ok kvamo þeir [5]) vid Noreg ok varo í Nidarósi um vetrinn, var Snorri med [Pètri syni [6]) Skúla hertoga, en hertoginn sat í Oslo um vetrinn ok þeir Hákon kóngr bádir, fór þá skipuliga [7]) med þeim mágum. Urækia var þá med hertoganum. Um varit [eptir páska [8]) fór hertoginn nordr til Nidaróss, en kóngrinn út til Tunsbergs ok frú Ragnhildr med drottníngunni dóttur sinni, fæddi Margrèt drottníng þá um varit tveggia postula messo Magnús, er sídan vard kóngr, hann var skírdr krossmessodag. Sturla sat at Saudafelli um sumarit ok var heldr fár til Stadar-Bödvars ok annara sona Þórdar, þótti honum þeir miök

[1]) því þá væri sagt, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) heint *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) skunda. *A. St.*

[5]) nordarligs, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) vantar í sömu.

[7]) var þá sæmiligt sömu.

[8]) vantar í sömu.

hallast undir Snorra í skiptum þeirra frænda. Þeir Bödvar fundust á vegum um haustit, ok fór þá álitliga [1]) med þeim, en sídar um haustit var Bödvar at Saudafelli er hann fór nordan frá Kolbeini mági sínum, ok fór þá allvel med þeim. En á iólaföstu fóro þeir Sturla ok Þórdr til Saudafells med Páli Hallssyni at rádi hans, ok tók Sturla allvel vid þeim, ok hèt at giöra þá at sæmdarmönnum ef þeir kynno til at gæta. Þá er þeir ridu út eptir Skógaströnd, rídr á móti þeim kona sú er Alfheidr hèt, hon var dóttir Eyúlfs Jónssonar bródur Kèldna-Valgèrdar, hon var kvamin frá Helgafelli ok hafdi skírt sik ok fært sik í födurætt sína, en hon var þó eiginkono dóttir ok einka barn Eyúlfs, en Solveig vildi ei taka vid frændsemi hennar ádr hon skírdi sik, þvíat hon þótti úlík frændum sínum í skapi ok atferd, en nú er hon var skír ordin, kalladi Sturla at hon veri ordin arfi at hálfum Oddastad, er þeir höfdo tekit eptir Eyúlf prest Sæmundarson Loptr prestr ok Lodmundr fadir Jóns fodur Eyúlfs födur Alfheidar, tók Sturla þá heimildir af henni á stadnum. I þenna tíma hóf Ormr Svínfellíngr [ákall á [2]) fè Kols hins audga; kalladi Ormr Kol hafa gèfit sèr til hundrad hundrada at hann lèti drepa Dagstygg Jónsson, en Kolr vildi þá ei laust láta fèit. Sótti Ormr þá Sturlu at því máli, ok fóro þá margar ordsendíngar á milli þeirra Orms ok Sturlu, ok var þat ord á at þeir mundo fara til bádir ok skipta fè Kols med sèr. Kolr var fostbródir Andresar Sæmundarsonar, ok þótti honum hann skyldr til lidveizlo vid sik slíkt er hann mátti atgiöra. Þetta sama haust kvam Beörn Sæmundarson sunnan til Saudafells at heimbodi, ok var þá mart talat um fè Kols, ok þóttist Beörn hafa nokkrar heimildir á hálfo fèno, ok taladi vel um [at Sturla skyldi hafa þær [3]) sem honum líkadi, en eingi handsöl höfdo þeir at því [4]). Sturla hafdi þá [ord um at hann [5]) mundi til kvama um varit at skipta fèno med þeim Koli ok Ormi öllu saman. En er Beörn fór frá Saudafelli, veitti Sturla honum sæmiligar giafir ok skildu þeir med kærleikum, segir Beörn sva sudr,

[1]) all-likliga. *St.*

[2]) at kalla uppá. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[3]) þat. *A. B. C. E. Gr. Þ.*

[4]) frá [ vantar í *St.*

[5]) ordfátt um, en kvadst. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

at Sturla ætladi sèr fè Kols [ok þeim Ormi hálft edr allt [1]). En er Kolr spyr þetta, fann hann Andreas fóstbródur sinn ok sótti hann at rádum ok lidi. En Andreas þóttist ei mega deila vid Sturlu um mál [2]) hans. Fór Kolr þá til fundar vid Beörn ok sótti hann at síno máli, tók Beörn þá málit á sik ok bèt Koli fyrir at setiast, sendi hann þá menn vestr til Sturlu ok sendi honum gullhríng digran ok þar med adra gripi, lèt hann þá segia Sturlu hvar kvamit var med þeim Koli ok bad hann vægia málit fyrir sínar sakir edr gèfa upp. Sturla vard allstyggr vid þat ok vildi víst ei þiggia gripina, en segir mál Kols því verr skyldi fara, er fleiri ætto lut at.

6. Sturla sendi um varit um fösto Kètil Þorláksson ok Svarthöfda Dugfússon sudr í Ölfus til Gissurar Þorvaldssonar ok lèt segia honum, at hann ætladi um varit sudr um land at heimta fè Kols med þeim Ormi. Tók Gissur vel á því Var þat þá rádit, at Gissur skyldi fara med honum, ef hann vildi, austr um ár, ok skyldu þeir finnast þá er Sturla kvæmi sudr um heidi, skyldi Gissur halda niósnum austr yfir ár ok vita hvat rádagiördum þeir hefdo um mál þessi. Margar ordsendíngar fóro millum þeirra Sighvats ok Sturlu er áleid. Um varit eptir páska fór Sturla vestr í feördu ok kvaddi menn upp þá er hann vildi at færo med honum, fyrst Rafnssono ok marga adra röskva menn er þá varo um alla feördu. Sighvatr kvam nordan [í Dali [3]) medan Sturla var vestr, ok gisti á Jörva, ok lèt sèr mart finnast um vesturför Sturlu, ok spyr at hví hann hefdi farit, en þat kunni eingin at segia, þótti flestum at hann mundi giör vita en þeir er hann spurdi at. Þá er Sighvatr reid ofan eptir Haukadal, reid Már Kumbaldi til móts vid hann forn vin Sturlúnga, ok töludu þeir mart, spyr Sighvatr enn um ferdina Sturlo, ok lèt sèr mart um finnast. Már kvad hann giörla vita mundu. Þá tók Sighvatr til orda: hve lengi man haldast ofsi sá hinn mikli er Sturla hefir um fram alla frændr vara adra. Már svarar: þat þykkir líkast at lengi haldist fyrir þínar sakir ok annara frænda ydvarra göfigra, en þú mant slíko nærst

[1]) vantar í *A, B, C, E, Gr, St, Þ.* [2]) um varit, *A, B, C, E, Gr, St, Þ.*
[3]) fè, *St.*

gèta, bóndi, ok vildak heyra hverso þèr segir hugr um þetta. Sighvatr svarar: ekki kann ek slíkt at seá, en fá ero úhóf lengi, en þó má vera at þetta sè lángt [1]) ef hann drepr ei brátt fæti, en ef hann drepr, þá man hann [drepa ei alllítt [2]). Slíkt var tal þeirra Márs Kumbalda ok mart annat.

7. Sighvatr kvam til Saudafells um hádegis skeid, ok var lagt [3]) undir höfud honum í þverpalls horni, taladi Solveig vid hann, spyr hann at ferdum Sturlu ok eyrindum í fiórduna vestr, en Solveig kvad honum mundi ei úkunnara en sèr. Þá var sagt inn, at tveir menn ridu hvatliga nedan frá Leidarhólmi, þótti mönnum líkast at vera mundi Sturla, ok sva var, ok þegar er hann kèmr í bæinn, gèkk hann til födur síns ok [fagnar honum [4]) ok sezt at fótum hans. Sighvatr spyr at ferdum hans ok eyrindum í fiórduna, en Sturla lèt sèr fátt um finnast. Sighvatr var styggr í talino, ok segir þat eitt eyrindi verit mundo hafa, er [verra mundi vera en ekki [5]). Sturla kvad hann þat mundu ei vita, spratt hann þá upp ok gèkk út ok kvam inn aptr ok settist í sama stad. Sighvatr tók þá til orda: ætlar þú sudr um land? Mælt hefir ek þat, segir Sturla. Þar hefir þú íllt eyrindi [6]) er þú ætlar at deila um fè Kols, segir Sighvatr, þvíat þar er þat fè er margr man stórt íllt af hlióta, þvíat ílla er fengit. Þá svarar Sturla: sè ek þat fè er ek ætla at ei mani betra afhliótast. Hvert er þat, segir Sighvatr? Þat er fè Snorra bródur þíns, segir Sturla. Fyrr man þèr þat bera en þetta, segir Sighvatr. Eptir þetta rída þeir fedgar út á Eyri til Páls prests, ok fundu þar Bödvar frá Stad, vildi Sighvatr fá Hvamms-land af honum til handa Svertíngi Þorleifssyni, en Sturla mælti heldr á mót, ok fèkk Sighvatr þat ei af Bödvari, en Sturla bad hann þá til ferdar med sèr sudr um land, ok hèto þeir Sturla brædur honum bádir at fara med honum. Sighvatr fór heim nordr eptir þat, en Sturla dró lid saman. Þá er Feardar-

1) láng-gætt. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) ei drepa sem hinn minnsti. sömu.
3) hægindi, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
4) mynntist til hans. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
5) allir mættu heyra. sömu.
6) rád upptekit. sömu.

menn kvamo vestan, fór hann fyrst til Borgarfiardar ok dró þar lid saman, kvam þá Bödvar til móts vid hann med mikla sveit manna. Þeir ridu sudr á Bláskógaheidi ok höfdu [1]) þriú hundrud manna. En er þeir kvamo sudr undir Rafnabiörg, kvam þar á móti þeim sendimadr Gissurar ok segir at þeir varo sáttir Kolr ok Beörn ok Ormr, ok segia at Sturla þyrfti ei til at kvama, bad hann aptrhverfa ef honum líkadi þat. Sturla kalladi til sín trúnadarmenn sína ok spyr [hvat þá skal hafa [2]), en flestir viko til hans ráda. Sturla kvad Sunnlendínga ei skyldo vísa [3]) sèr sem hiörd í haga, hvergri lausúng sem þeir slá á sik. Sídan segir Sturla mönnum sínum at þeir mundu nær gánga ádr þeir hyrfo aptr, sendi hann þá menn til Gissurar, at hann skyldi finna hann at Apavatni.

8. Sturla reid til Apavatns med allan flokkinn snimma dags, lèto menn hesta sína á gras, því ei skorti áfánga, ok var þat fyrir helguviko, þat var var allra vara best. Gissur kvam er áleid daginn med fiörutygi menn, hann hafdi valit menn med sèr, þar var Klængr Bearnarson frændi hans med honum, hann átti þá heima á Breidabólstad med Ormi bródur sínum. Þeir Sturla ok Gissur gánga á tal, ok hver annara taladi vid sinn kompán. Þeir varo fóstbrædur Sturla Þórdarson ok Klængr ok gèngo þeir á tal, spyr Klængr Sturlu: manut þeir ei svíkia oss? þá værut þèr gèrsemar ef þèr giördut þat. Hví spyr þú slíks, segir Sturla, ok man þat fiarri fara. Vèr giördum ord á slíku med oss, segir Klængr. En þess hafdi nær hver spurt sinn fèlaga. Þeir Sturla ok Gissur tóko tal med sèr. Sturla spyr austan yfir ár, en Gissur segir þar kyrrt allt ok eingan safnad Sturla spyr hvert hann mundi nokkut þurfa meira lid sudr at hafa, en þá var þar. Gissur segir hann ei þurfa, at hann færi, er eingi var safnadr fyrir. Sturla lèzt vilia at hann færi, en Gissur taldist undan, en lèzt fara mundi sem hann vildi. Sidan spyr Gissur at vapnum Klængs er tekin varo á fundinum í Bæ sverd ok brynia, ok [lèzt vilia at þá heimtist [4]).

[1]) nær, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) ráds hvat þeir skyldu upptaka, sömu.

[3]) víkia. *St.*

[4]) kvadst vilia at þau væru laus látin, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

Sturla kvad Lauga-Snorra vita [1]) bryniona, en Þórd Gudmundarson sverdit, man ek nú, segir hann, kalla þá híngat til mín med vapnin. Sídan gèkk Sturla til þeirra Þórdar ok Snorra ok bad þá geyma Gissurar, hvat sem í giördist. Eptir þat fer hann til trúnadarmanna sinna, ok segir at hann lèzt ei vita med hverio [2]) Sunnlendíngar fóru, kalladi Gissur undanteliast at fara med þeim, lèzt ok ei vita þat nema samnadr væri á Rángárvöllum ok væri sú rádageörd, at þeim sè ætlat at verda í klofanum, en Gissur fari eptir oss, [ef vèr förum sudr [3]), vil ek þat ei undir þeim eiga, skulum vèr taka Gissur med valdi, en taka af þeim vapnin öllum. Bödvar gèkk til Sturlu bródur síns ok segir honum hlótt hvat títt var. Klængr spyr Sturlu hvat Bödvar taladi? hann kvad þat úmerkiligt, en bad þá vera báda samt hvat sem í giördist, Klængr lèzt þat giarna vilia. Þá gèkk Sturla Sighvatsson til manna Gissurar ok kalladi hátt ok bad þá leggia vapnin, kalladi ei betr at þar [lètist menn nokkrir [4]). Gissors menn brugdu vid hart, ok brotnudo spiótsköpt þeirra sum, Beörn Kægill ok Teitr Olason kvamust or þrönginni, ok var Beörn tekinn af brædrum sínum, þá kalladi Gissur á þá at þeir skyldo leggia vapnin, ok hafa ei líf þeirra í hætto, gáfu þeir þá upp vapnin. Gissur spyr Sturlu þá, hví hann lèti leggia hendr á hann? Sturla bad hann ei efast í því at hann ætladi sèr meira hlut en ödrum mönnum á Islandi, en mèr þykkir sem þá sèu allir yfirkvamnir er þú ert, þvíat ek uggi þik [einn manna [5]) á Islandi, ef ei fer vel med okkur. Sídan var bók tekin ok fengin Gissuri, bad Sturla hann sveria utanferd sína ok at halda trúnad vid hann. Gissur spyr, hvert hann skyldi vinna norrænan eid edr íslenzkan? Sturla bad hann ráda. Þá man ek norrænan eid vinna, segir Gissur, er ek skal þángat fara, en þat man ek segia fyrir eid minn, at ek skal aldrei til þín öfugt ord mæla údrukkinn. Sídan vann Gissur eid, ok varo þeir allir um náttina þar, en um daginn eptir snèri Sturla flokkinum útí Grímsnes ok sva til Ölfuss, reid Gissur fyrir allan dag. Þeir ridu út um Alfta-

[1]) um, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) móti, bæta vid *C. St.*

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) væri unnit á mönnum, sömu.

[5]) manna mest, sömu.

vatn, [ok höfdu heldr diúpt [1]), var Sturla heldr úfrynn [2]), en Gissur var hinn kátasti, ok reid um kveldit út til Reykia, varo þá sendir menn um Grímsnes ok Ölfus eptir nautum ok varo [rekin til Reykia ok [3]) etin þar um helgina, þá kvam þar Ormr Svínfellíngr med sveit manna til Sturlu, þar kvamo ok frændr Gissurar, Teitr [bródir hans [4]) ok Hialti son Magnúsar biskups ok Magnús Hallsson [5]), var þá talat um hver þeirra taka vildi vid ríki Gissurar ok halda af Sturlu, ok vera skyldr lidveizlomadr hans hver sem á móti væri, en þar gèkk eingi madr iafnglatt undir sem Hialti biskupsson at heita öllu því er Sturla mælti til. Þat er sögn Gissurs siálfs, at þá er þeir namo stad í raunino fyrir ofan Alptavatn ok sáto á baki, þá þagdi Sturla sva um hríd, ok er sva hafdi verit um stund, mælti hann: rídum enn. Hefir Gissur þá helst grunat hvert Sturla efadist þá ei hvern hann skyldi [afgeöra vid [6]) hann ok enn fleiri menn adra. Þeir Sturla fóro eptir helgina sudr í flóa, var Gissur í sveit med Bödvari, varo þeir í Villíngaholti nokkrar nætr, sídan átti Sturla fund vid Þiórsá, tók þá Hialti vid öllum godordum Gissurs ok hèt því at veita Sturlu vid hvern mann sem hann ætti málum at skipta, fóru þeir sídan austr yfir ár, reid Sturla í Odda med sveit sína, en þeir Bödvar ok Gissur fóro á Breidabólstad í Fliótshlíd. Sturla bar sakir á Harald Sæmundarson um beargir vid Aron Hiörleifsson, ok gallt hann þar fyrir lönd tvö í Skagafirdi, Halldórsstadi ok Þórbrandsstadi [7]) í Nordrárdal, en eptir þat kalladi hann stadinn í Odda hálfan í arf Alfheidar, lysti hann því, at hann vill eingar samníngar adrar um en hafa stadinn, sídan var sendt eptir Koli ok kvam hann á fund Sturlu, kvam þar ekki ödru vid en hann skyldi gialda í Ormi hundrad hundrada, en Sturla tók á fè Kols vardveizlo handsölum, ok skyldi þá hafa þriátygi hundrud, Ormr tók vid Gissuri ok skyldi geyma hans þar til er hann færi utan. Beörn reid á Kiöl nordr ok var ekki vid þat er Sturla var á Rángárvöllum. Sturla sendi Svarthöfda

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) ok diúphugsadr, bæta sömu vid.
[3]) vantar í sömu.
[4]) biskupsson, sömu.
[5]) Hialtason. *St.*
[6]) fara med. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[7]) Þorbergsstadi, sömu.

Dugfússon ofan í eyar [1]) eptir yxnum Kols [2]), kvam Beörn þar ok var med Koli í greidslum. Þeir Svarthöfdi vildu hafa ardur-uxa er þar var í rèttinni, en þeir Beörn vildu [hann undan [3]) ok budu fyrir annan uxa í Landeyum, þá liop Gudmundr Bösöll [4]) í rèttina ok elti ut alla uxana, stigu þeir Svarthöfdi á bak ok fóru leid sína, ok skildi þar med þeim. Sturla fór med flokk sinn útí Skálaholt ok fann þar Einar Þorvaldsson í kyrkioskoti, ok var Einar sva styggr at þeir mátto ekki tala, fór Einar eptir þat á Kiöl nordr ok þeir frændr, ok fundo þar Kolbeinn únga, giördu þeir rád sín, en Sturla fór vestr til hèrada. Þeir Kolbeinn frændr rèdu þat á Kilinum at þeir skyldu flokka uppi hafa ok slíta ei fyrr en adrir hverir væro í helio Sturla edr þeir, gèkk Hialti þá í þetta vandrædi med þeim, giördu þeir þá ákvedit med sèr nær þeir skyldu finnast á Beitivöllom med alla flokka sína. Gissur var med Ormi sem fyrr er ritat, hann fèkk kvamit brèfi austan til trúnadarmanna sinna, at þeir skyldu rída á mót honum, ef frændr hans fengi afla nokkurn.

9. Kolbeinn úngi dró lid saman um Skagafiörd ok öll hèrud vestr þadan til Midfiardar, en er hann kvam sudr um Kiöl, reid hann frá lidino med hundrad manna ok sudr til Kèldna, ok bad Hálfdán veita sèr med allan sinn afla, en er hann vildi eigi, giördi Kolbeinn hann handtekinn ok tók til eggsarinnar er hann hèllt á, ok vard ei laus fyrr en fleiri tóku til. Hálfdán hèllt frá sèr herdinni [5]) ok kvádu þeir örninn fast hremmt [6]) hafa, varo þeir Vilhiálmr brædur ok allir heimamenn reknir í stofu, var Kolbeinn þar um náttina med allan flokkinn ok lètu taka allan [vapna afla [7]) þeirra brædra ok hesta, hann tók þar ok sverdit Rostúng er þá átti Vilhiálmr, vid þat sverd hafdi Sæmundr Jónsson íafnan ridit. Eptir þat sendi hann ord brædrum Hálfdánar at þeir skyldu standa upp med honum, ella lèzt hann mundi fara um allt hèradit ok

[1]) eyrar. *A. St. Þ.*
[2]) en er þeir voru vid yxna-rèttinn, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[3]) þat ekki. sömu.
[4]) vantar í sömu.
[5]) hendinni. *A. B. E. Gr. Þ.* vantar í *C. St.*
[6]) klemmt. *A. C. St. Þ.*
[7]) mannafla. sömu.

hrekia fyrir þeim, stódu þeir þá upp fiórir brædur Beörn ok Andreas, Haraldr ok Filippus med allan afla þann er þeir fengo. I þann tíma ridu þeir austr [til Gissurs[1]) átián saman Gissur Gladi ok vinir[2]) hans adrir, þeir kvamo austr í Skál ok bundu þar hesta sína vid gard ok gèngo heim til móts vid Orm ok Gissur, ok beiddo at Gissur skyldi fara med þeim. Ormr var þess heldr tregr, en þó lagdi hann ei bann fyrir, er hann sá at Gissur vildi ekki annat en fara, ok fundu þeir ádr á Skardi í Medallandi Brand Abóta[3]) ok Ögmund Helgason, ok var hann vid þeirra rád laus látinn, ridu þeir þá vestr ok kvamo á Beitivöllu til flokkanna, var þat þá ráds tekit at þeir sendu Hialta biskupsson upp á þíng, ok leyptu þeir upp þíngino ok flettu vestan-menn vapnum, hestum ok klædum, ok gèkk Gudmundr Þórdarson af þíngino er mestr var fyrir vestan-mönnum. I þenna tíma dreymdi kono at Múnkaþverá, at madr kvæmi at henni ok kvædi sva:

Saman dragast sveitir,
svellr úrói,
varir mik ok varir mik,
at vinna[4]) Sturlu.
Ætla lydir,
þó á laun fari,
[kèmr vel þat vel,
vèlar at giallda[5]).

Margir varo þá adrir stórdraumar bædi fyrir sunnan land ok nordan.

10. Þá er Sturla Sighvatsson spurdi sunnan um heidi lidsdrátt, dró hann lid saman um öll hèröd fyrir vestan Bláskógaheidi, hann sendi ord Bödvari til Stadar ok stefndi honum inn til Dala, þángat stefndi hann öllu lidi or Borgarfirdi. Loptr biskupsson var fyrir Myramönnum ok varo þeir sextygi. Bödvar hafdi á ödru hundradi, Sturla bródir hans fimm tugi manna, vestan var

[1]) menn Gissurar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) synir. *C. St.*

[3]) prest Jónsson. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) vitia. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) kèmr. vel, fer vel *o. s. fr. A. C.* kèmr væl fyrir væl, vælar at gialda. *B.* kèmr væl, fer væl *o. s. fr. St.*

stefnt Rafnssonum ok öllum Vestfirdíngum. Þeir Gissur ok Kolbeinn hèlldo flokki sínum vestr um Bláskógaheidi ok höfdu þrettán hundrud manna. En er þeir kvamo í Borgarfiörd, spurdu þeir þá at Sturla væri í Dölum, ridu þeir þá vestr Brattabrekko. Sturla hafdi hestvörd á brekkunni, ok sá þeir er flokkrinn reid upp eptir Bearnardal, en er Sturla spurdi, reid hann vestr til Sælíngsdals, ok kvam Bödvar þar eptir, sídan rido þeir til Saurbæar ok varo þar til þess er Sunnlendíngar ridu í Svínadal, þá fóro þeir Sturla inn til Kleifa, kvam þar Gísli af Raudasandi ok adrir Vestfirdíngar, sumir á skipum, en flestir á hestum, fè var rekit nordr til Kollafiardar or allri sveitinni. Sturla ætladi at veria kleifarnar, ef þeir hefdu ridit inn þángat. Sunnlendíngar ridu til Saurbæar, ok var þorri lidsins undir Melrakkahvoli, ok foro þadan á bæi sem þeim líkadi. Eingar urdu medalferdir sva at þat ætti stad, voro þeir í Saurbæ nokkrar nætr [ádr þeir hnekktust[1]) sudr aptr. Synir Arna átto heima í Bitro, þeir höfdu ridit á niósn sudr fiórir saman, Gudmundar tveir, Jón ok Oláfr, en er þeir kvamo sudr í Glerárdal, fundo þeir þar þriá menn ok höfdu drepit naut, voru þeir þá at höggva sídu frá rigginum. Jón kvad þá stórt höggva ok man nú skamt höggva í milli, heó hann þá um þverar herdar þeim manni er Þióúúlfr hèt, ok var þat mikit sár, sídan vagu þeir þann mann er Þorkèll hèt, Kristraudr hèt hinn þridi, [hann var son Einars Jónssonar Loptssonar[2]), hann var vígdr, hann særdu þeir til úlífis, en hinir dóu þar bádir, Kristraudr var færdr til Saudafells ok dó hann þar. Arnasynir siá at sveit manna reid nedan at þeim, ridu þeir þá undan upp á heidi ok sva vestr til Kleifa, ok lèt Sturla vel yfir þeirra ferd, en Sunnlendíngar sá fyrir sínum mönnum, þessir varo or sveit Sæmundarsona. Eptir þat fengo þeir tekit þann mann er Kári hèt Gunnsteinsson or Laxárdal, hann fóthiuggo[3]) þeir, þat giördi Beörn Arnason Strandmadr utan. Eptir þat fóru Sunnlendíngar til Dala ok varast meir sídan afreid en ádr. Þá er Sturla vissi at flokkarnir höfdu hnekkzt, dreifdi hann síno lidi, en reid siálfr sudr skyndiliga ok vildi vita ef hann

[1]) ok hvurfu sídan. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í *A. C. St* þ.

[3]) hiuggu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

fengi nokkurn hent af þeim er seinastir yrdo, en þat vard ei, þá skildu þeir flokkana í Dölum, reid Kolbeinn nordr, en Gissur sudr med alla Sunnlendínga. Grid höfdu farit ádr á midli en flokkarnir skildust fram um midsumar. Sturla sat heima eptir þetta um ríd. I þenna tíma dreymdi mann í Borgarfirdi, at mikill madr ok illiligr kvæmi at honum ok kvad þetta:

Sumar man-at þetta
svarflaust vera,
rydr rekka skot [1])
raudo blódi.
Her [2]) man finnast
fyrir Höfn ofan,
þar man blód vakit,
betra en ekki.

11. Sighvatr sat heima á Grund um sumarit, hann dreymdi at hann þóttist sitia í stofu í rúmi síno, ok þótti honum stofan alskipud, stódo bord um alla stofo ok vistir á, trapiza á gólfino ok skaptkèr. Þá þótti honum gánga inn hestr raudr er hann átti er Fölski hèt, hann gèkk fyrir Sighvat ok spurdi hann, hví hann bydi honum ei til öls ok matar? ok lèzt vera svángr ok þyrstr; sídan tok hann til ok át bædi diskinn ok matinn, ok tók hvad at ödru er á var bordino. Hèr um kvad Sighvatr víso:

Lèt-at [3]) mèr [4]) hinn mæri [5])
mót eflandi speóta,
hræri ek bodnar [6]) báro,
bodit til öls, kvad Fölski.
Elskyndir lèt unda
allsvángan mik gánga,
verd ek hellst til [7]) hardan
heliar disk [8]) at velia.

[1]) sveit. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) hiss. sömu.
[3]) leitadr. *St.* letadr. *A. C.* Þ.
[4]) mun. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) mæti. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[6]) bödvar. *A. C. St.* Þ.
[7]) helkti. sömu.
[8]) dúk. *B. E. Gr.*

Sturla var at Saudafelli lengstum heima [1]) framan til Jakobsmesso, hon var á sunnodag, þann tíma sendi hann sudr Svarthöfda Dugfússon ok nær flesta alla fylgdarmenn sína til Hvalfiardar, ok fóro þeir úti Geirshólm ok drógo þadan faung ok öfludu heldr med hardindum til, var þá leypt sudr til Reykia ok sagt Gissuri at Sturlu menn væro í Geirshólmi ok mundo ræna um alla sveit nidri þar. Gissur brá þegar vid ok reid ofan um heidi, en bóndr eggiudo at hann skyldi draga skip at sèr, ok leggia þegar at þeim í hólminn. Gissur segir at úhægt mundi at vinna hólminn, en þar ero þeir flestir er mèr er ei sva mikill slægr til, at ek vili þar í hættu leggia líf mitt edr minna manna [2]), en ef Sturla væri í hólminum, þá mundak freysta at þeim at leggia, en nú skulut þèr gæta ydvar ok feár ydvars sem þèr kunnit ok halda saman sem best hverir sem mest þurfa. Gissur lèt um sumarit taka upp bú Dugfúss Þorleifssonar á Strönd í Selvogi ok ræna þar öllu búfè, en lid allt var úbyrgt eptir ok sá bóndr fyrir því.

12. Þá er Sturla hafdi sent þá Svarthöfda til Geirshólms, reid hann siálfr vestr á Reykiahóla til bús síns, ok giördi þadan menn vestr í fiördu til Rafnssona ok annara vina sinna, ok stefndi vestan lidi ok lagdi þeim stefnudag at allir skyldu kvama til Saudafells laugardaginn fyrir Laurentíusmesso, en hon var á tyrsdag [3]). Hann sendi ok menn til Asgríms [4]) at hann skyldi samna um Steingrímsfiörd ok Strandir, hann sendi ok menn Bödvari at hann skyldi senda honum menn, var Einar Usidr fyrir Bödvars mönnum. Halldór Gudmundarson sendi hann á Eyri til Sturlu ok bad hann kvama til sín, ok fóro tuttugu menn, hann [5]) lagdi öllum hina sömo stefno. Borgfirdíngar fóro Arnarvatnsheidi ok fóro þeir í Vatnsdal sunnudaginn síd, þá er lidsamnadr var um Strandir, váro þar menn nordan um flóa, Halldór son Amunda Berggssonar ok Snorri Bláhattr son Þórarins prests [ok Þórörno Þórgilsdóttur Gunnsteinssonar [6]). En er þeir urdu varir vid lidsdráttinn, fóro

[1]) um sumarit, bæta vid *A. C. St.* Þ.

[2]) vina. *B. C. E. Gr. St.*

[3]) þridiudag. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) Bergþórssonar, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St* Þ.

[5]) Sturla. *A. B C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) vantar í *A. C. St.* Þ.

þeir nordr yfir flóa, fengo þeir þar hesta ok ridu nordr til Skagafiardar ok fundu þeir Kolbein á mannamóti[1]) sunnodaginn, ok segia honum lidsdráttinn vestan. Kolbeinn hafdi þá rádagiörd vid sína menn, ok var þat rád tekit, at Kolbeinn valdi med sèr hit röskvasta lid ok lysti því at hann mundi rída af hèradi fyrst at sinni, nær sem honum yrdi audit aptr at kvama. Laugardaginn kvam lid þat til Saudafells er Sturla hafdi þángat stefnt, ok var þá kvaminn Markús bródir hans nordan frá Grund ok þeir fiórir Vígfús Smidr ok Kolli[2]) af Espihvoli ok Bagal-Már, þá kvam ok Svarthöfdi sunnan, en sunnudaginn reid hann heiman nordr til Midfiardar, reid sumt lid Laxárdalsheidi. Sturla giördi Kálf Gilsson ok Midfirdínga um náttina á neósn nordr fyrir, ok fóro þeir allt í Bólstadahlíd í hrídinni. Sturla reid ok um náttina ok daginn eptir nordr med flokk sinn, ok kvam í Bólstadahlíd mánadaginn síd ok átu menn þar náttverd, var þá spurt or hèradino at Kolbeinn var brotto. Midfirdíngar rido nordr um Vatnsskard siö saman, þeir kvamo um kveldit fyrir messodag Laurentii í Valadal[3]) ok slógust þar inn ok tóko þat er laust var, þá kvamo þar Kolbeins menn þeir er seinna höfdu ridit ok flettu þá alla ok særdo einn miök, sá hèt Þorkèll[4]), en adra höfdu þeir sudr á Kiöl med sèr, ok fundu þeir Kolbein í Hvínveriadal[5]), ok gaf hann þeim grid, ok fóro þeir aptr vapnlausir.

13. Sturla reid til Skagafiardar Laurentíusmesso dag snimma med alla flokkana, ok átu þeir mat á Reykiarhóli, var þángat borinn til þeirra matrinn. Sídan reid Sturla á Flugómyri med sveit sína, en flokkarnir dreifdust um hèradit, var tekinn matr ok höggvit fè til matar mönnum, var þat giört vid rád Sturlu, en þó var stolit hiá fram hvívetna, því sem úrádvandir menn kvamo höndum á ok ei var í kyrkiur borit. Þá er flokkarnir varo í Skagafirdi, dreymdi mann þar í hèradi, at madr kvæmi at honum mikill ok ógrligr, hann þóttist spyria: hve man verda um úfrid þann hinn

[1]) hestaþíngi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) Kolbeinn. *B. E. Gr.*
[3]) Vatnsdal. *C. St.*
[4]) Berklíngr, bæta vid *B. E. Gr.* Þorbiörn. *A. C. St.* þ.
[5]) Vínveriadal. *A. B. C. E. Gr.* þ. Vínberiadal. *St.*

mikla er nú er hèr í hèradi. Hinn mikli madr svarar illa man verda ok allilla, Sturla man falla, en Kolbeinn man ei brott kvamast, hann vard hræddr miök ok hugdi at Kolbeinn Arnórsson [1]) mundi þetta eiga. Steinvöro Sighvatsdóttur at Kèldum dreymdi í þenna tíma, at hon þóttist útí stödd ok kvamin í eyditröd eina, hon þóttist siá Þorgrím or Gunnarsholti sitia á tradarvegginum, ok horfdi á mannshöfud er lá á vegginum ok kvad:

Sit ek ok sè ek þat [2])
svarit [3]) Steinvarar,
hví liggr hèr á vegg
höfud í örtröd.

Margir varo adrir draumar í þenna tíma sagdir, þeir er tídindavænir varo ok sva adrir atburdir, þó hèr sèo ei ritadir. Sturla var á Flugumyri nokkrar nætr, sídan reid hann út til Hóla, ok var [Kolbeinn Kaldaliós [4]) þá fyrir rádum á Hólum, ok lagdist alllítt á med þeim Sturlu, var Kolbeinn í forkyrkio ok mæltust þadan fyrir. Reid Sturla þadan ok til Kolbeinsáróss, varo þar tvö skip í búnadi, giördi hann þadan sveit manna út í Fliót eptir rossum [5]). Sveinn Ásgeirsson or Króksfirdi va þar mann er Eyúlfr hèt. Sturla reid þá í Hegranes ok var í Ási friádaginn ok laugardaginn Mariomessu, ok vatnfastadi hann hverntveggia daginn, en eptir Mariomessodag reid hann upp í Sæmundarhlíd med flokkana ok á Lángholt, spurdi hann þá at Sighvatr var kvaminn nordan í hèrad ok hafdi fiögur hundrud manna, voro þar synir hans allir þeir er þá voro á Islandi. Sturla fór þá nordr [6]) yfir vötn, ok fundust þeir vid Vallalaug, var þat þá rádit at menn skyldo búa sik sem best ok leita á sudr, ef þeir Kolbeinn kvæmi ei sunnan. Sturla sendi iafnan bóndr or hèradi upp or bygd edr á Kiöl sudr edr annan veg á neósn, en eingir kvamo aptr, leid sva fram á vikuna til friádags, þá var Sturla á Vallalaug, var þá mart talat um þat hvert þeir Kolbeinn mundu sunnan kvama edr ei, ok er menn tala þetta,

[1]) úngi. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) vantar í sömu,
[3]) snarit. *St.*
[4]) Stadar-Kolbeinn. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[5]) ok fóro þeir heldr allúspakliga, bæta sömu vid.
[6]) austr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

tók Sturla til orda: mikinn mun ætlak þess um oss frændr hvernig þeim er gèfit ef þeir hafa vald á mèr frændr mínir, þá hygg ek at mèr sè daudi einn ætladr, en þat veit gud med mèr, þótt ek eigi vald á þeim, at eingis þeirra blódi skal ek úthella. Eingar neósnir feingu þeir um kveldit af sínum mönnum, en þó fór þá pati nokkur af því, sva at menn höfdo grun af, at flokkar mundo í nánd vera. Þá var þat rád giört, at flokkarnir allir skyldo liggia úti um náttina med vapnum sínum, voro þeir þá skamt frá lauginni ok sváfu menn heldr lítt flestir. Um myrgininn spurdi Sturla [1]) nafna sinn Sturlu Þórdarson: hvat ætlar þú, nafni, hvert þeir kvami sunnan? Sturla svarar: þat ætlak nú at þeir kvami. Hvad dreymdi þik, segir Sturla Sighvatsson? Mik dreymdi, segir hann, at ek var í Hvammi á födurleifd minni, ok þar varum vèr allir fyrir handan á upp frá Akri, kross stód hiá oss á holtshniúknum [2]) hár ok mikill, þá þótti mèr laupa skrida or fiallino mikil, ok var smágriót eitt allt nema einn steinn, hann var sva mikill sem hamar lypi at oss, ok þótti mèr undir verda mart várra manna, ok mart kvamst undan, en Vígfús Ivarsson [3]) kèndak at undir vard, en þá vaknadi ek. Sturla Sighvatsson svarar: opt verdr sveipr í svefni, segir hann. Friádags aptaninn reid Sturla med sveit sína á Miklabæ, en Kolbeinn bródir hans á Vídivöllu, Sighvatr á Sólheima. Markús var á Midskytio ok synir Skards-Snorra med Medalfellsstrendíngum, flokkinum var dreift eptir allri Blönduhlíd miök sva, en hestar fyrir nedan [4]).

14. Kolbeinn reid af hèradi, sem fyrr var ritat, ok hafdi hálft annat hundrad manna, hann reid sudr af Kili, þá er hann hafdi lausa látit menn Sturlu, þá er teknir varo í Valadal. En er hann kvam af fealli, reid hann til móts vid Gissur, hann sat þá í Hróarsholti um sumarit, ok hafdi þángat látit færa bú þat er hann hafdi látit upptaka fyrir Dugfúsi. En er þeir fundust frændr, rèdu þeir þá þegar at menn varo sendir ofan um heidi ok um alla

[1]) Sighvatsson, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) holtsmúlanum, sömu.

[3]) Mársson. *A. C. E. Gr.* þ. Markússon. *St.*

[4]) nordan. *A. C. St.* þ.

sveit Gissurar [at samna lidi öllu því er þeim þætti af hèradi fært [1]), ok kvam þar skiótt saman mikit lid. Þeir sendu á Rángárvöllu eptir lidi, ok vildu þeir þá ekki uppstanda brædur nema Beörn, hann fór med fióra tygi manna [2]). Þeir sátu í Túngo Maríumesso ok drógust þar at flokkarnir, en eptir messodaginn fóro þeir til fealls, ok giördi Kolbeinn þá frá sèr menn til vina sinna nordr um land ok stefndi þeim til móts vid sik á fiallino þeim öllum er honum vildu lid veita. Þeir Gissur fóro þartil er þeir kvamo nordr í Kidiaskard [3]), þar kvamo til Vatnsdælir ok fleiri Vestanmenn, Þorsteinn or Hvammi ok Þorsteinn Hiálmsson varo fyrir þeim, háttudu þeir sva reidinni [4]), at Gissur reid sídastr ok skyldi geyma at eingir hrökktust aptr, en Kolbeinn reid fyrstr ok sætti niósnarmönnum sínum, gèngo ok sva niósnirnar, at þá kvamo iafnan adrir til Kolbeins er adrir varo hiá Gissuri er fyrr kvamo. Rída þeir þá til Skídastada-laugar, þá reid Brandr Kolbeinsson frá med nokkra menn, hann hafdi farit sudr med Kolbeini frænda sínum. Hann fór ofan í hèrad ok samnadi lidi um Sæmundarhlíd ok Lángaholt ok Hegranes ok nordr [5]) yfir vötn, ok miök sva nedan at Flugumyri, hann fèkk þá mikit lid, þeir höfdu níu hundrud sunnan, en þá er þeir varo vid Reykialaug, var nær þrettán hundrud. Þeir kvamo þar friákveldit, ok var Brandr þar kvaminn laugarmyrgininn med hundrad manna.

15. Fyrir þessum tídindum er hèr fara eptir, vurdu margir fyrirburdir, þótt hèr sèo fáir ritadir. Bryniúlfr hèt madr á Kialarnesi er þat dreymdi, at hann sá mann mikinn, ok var höggvinn af hnakkinn ok á hálsinn. Hann kvad vísu þessa:

Þornar heimr ok hrörnar,
hríd eptir fer vída,
Þiód er hörd á heidi
heldr, en vèr erum felldir.

1) var sva giörla eptir farit, at allir menn fóro þeir er herfærir þóttu vera, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) fimta mann, sömu.

3) Kinnaskard, *A. B. C. St.*

4) sunnan, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) austr, sömu.

Því var ek nordr med niördum,
náir fèllo þar sárir,
spiót drifu [grönn á [1]) gauta,
geirrídar [2]) hel bída, geirrídar hel bída.

Haflidi prestr Liótsson [3]) hafdi heyrt kvedit í Halleyarhóli [4]):

Rídum allir
rógstefno til
sun Sigurladar
þar er snarir beriast, sem þeir beriast.

Þórarinn Gilsson dreymdi at kona kvad þetta:

Man ek brátt fara,
beria grióti,
þar er þeir beriast
Beörn ok Sighvatr [5]).

Einar Kláp dreymdi at þetta væri kvedit:

Daudr er hersir,
daudr er dólgrögnir,
daudir ero nidiar,
logheimr [6]) búinn.

Madr hèt Snæbiörn [7]), hann gèkk út um nátt, þat var fyrir iól um vetrinn ádr Örlygsstadafundr var, þá gèkk kona í túnit mikil ok þrístilig, dapurlig ok raudleit, hon var í dökkblám [8]) kyrtli, stokkabelti hafdi hon um sik, hon kvad þetta, ok snerist vid honum:

Giörd [9]) man ek gumnum herda,
grand þróast mart í landi,
sótt [10]) man ek ydr, því ættak
efni margs at hefna.

[1]) grana. *B. Gr.* gran á. *E.*

[2]) Geirhrídar. *A. C. E. St.* Þ.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) Halleigiarhóli. *B. E. Gr.* Þ. Hallveigarhóli. *C.*

[5]) Sigurdr. *A. C. St.* Þ.

[6]) lögheimr. *C. St.*

[7]) hann bió í Sandvík út frá Höfdahverfi, bæta vid *B. E. Gr.*

[8]) dökklitudum. *St.*

[9]) grid. *A. C. St.* Grídr munk gunnum heida. *Gr.*

[10]) sett. *C. St.*

Urdar [1]), [ek man [2]) ferdast [3]),
at kèmr far er varar,
dör [4]) man dólgom orom
dáins raddar þá kvaddr [5]),
dáins raddar þá kvaddr.

Enn kvad hon þetta:

Eysandi fer ek unda
[und sannliga [6]) funda
Lídk nm hól ok hædir
hart sem fuglinn svarti.
Kèmk í dal [7]) þar er dylíumst
dánar [8]) akurs til mána [9]),
harmþrúngin fór ek híngat
heliar ask at velia,
heliar ask at velia.

Haldóra hèt kona, ok var Þórdardóttir, hon var í Fliótum, hana dreymdi um sumarit fyrir Örlygsstadafund at madr kvæmi at henni ok kvad þetta:

Rökkr at eli,
rignir blódi,
hrytr hardsnúinn
hiálmstofn af bol.

Þessi vísa var kvedin fyrir Ormsteini presti fyrir Örlygsstadafund í svefni:

Dust er á iördu,
dimmt er í heimi,
nú kveda [10]) örvar
eitri skèptar,

[1]) urdr. *A. C. Gr. St.* þ.
[2]) man eigi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) fordast. *B. E. Gr.*
[4]) daudi. *A.* þ. daudr. *E.*
[5]) kvaddir. *B. E. Gr.* kvaddist. *A. C. St.* þ.
[6]) undrsamliga. *B. E. Gr.*
[7]) dag. *A. C. St.* þ.
[8]) dávanr. *B. E. Gr.*
[9]) nánar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[10]) kvedum. *B. E. Gr.*

Þrymr æ ok þrymr æ,
þegnar beriast,
þá kveda firdar
fá blá vera [1]).

Þessi vísa var kvedin vestr í Svartárdal fyrir kono einni, ok kvam at henni svartr madr mikill ok illiligr [2]):

Varist þèr ok varist þèr,
vindr er á lopti,
blódi man rigna
á berar þiódir.
Man oddr ok egg
arfi skipta,
nú er hin skarpa
skálmöld kvamin.

Þetta var kvedit fyrir Sturlu Sighvatssyni at Saudafelli um sumarit ádr fundrinn var:

Leyft er ydr nè ödrum,
álm-tynendum syna,
hverir grams or grimmri [3])
griótríd [4]) hèdan lída.

Honum þótti kona kveda, ok kvad hon kiökrandi [5]). [Kono eina í Dölum dreymdi [6]) at henni þótti Sturla kvama at sèr kvedandi þetta, kvonan hèt Þórrídr:

Hverir vökto mèr
varman dreyra?
segit mèr ok segit mèr,
sárt var ek leikin,

[1]) vantar í *A*, *B*, *C*, *E*, *Gr*, *St*, þ.

[2]) *B*, *E*, *Gr*, bæta vid:
suuar munat
þetta svarfligt.
Jón hèt madr ok var Grettisson, hann dreymdi, at madr kvam at honum ok kvad þetta:

[3]) grímu. *B*, *Gr*.

[4]) gríóthrídar. sömu.

[5]) klökknandi, *B*. *E*. *Gr*. þ. klökkara. *C*. *St*. klökkardi. *A*.

[6]) um sumarit enn fyrir Örlygsstadafund dreymdi þá konu er Þurídr hèt at Fellsenda í Dölum, *B*, *E*, *Gr*.

ætla virdar
ok veit Tumi,
gledr mik ok gledr mik,
Gissur veida [1]).

Staka þessi var kvedin fyrir Sturlu Þórdarsyni enn fyrir fundinn:

Vatnfalli man vella [2]),
vapnröst náir föstu,
valr skytr [3]) varma kyliu,
verd ek þángat at gánga.

Enn var þessi vísa kvedin fyrir þeim manni er Bergr hèt:

Nú mano naudir
nordmenn kveda
Sighvats suna,
sút [4]) edr meira,
gaungum blódgir
med bana sárum
sigurleiks snarir
sverd at rióda.

Þetta var hátt kvedit um biartan dag fyrir konu einni nær Þíngeyrum, en þó sá hún eingan:

Leikr er í nordri,
lydir beriast,
þeir vilia Gissur
geirum sveipa.

Þorgeir hèt prestr, hann dreymdi fyrir fundinn, at kona kvam at honum ok kvad þetta:

Líd ek af [5]) heim or heimi
heims myrkrum frá þeima,
höld [6]) mano gumnum gialda
grimmleikann stáls [7]) rimmo.

[1]) verda. *A. B. E. Gr.*
[2]) fella. *A. B. E. Gr. St.* Þ.
[3]) slítr. *B. E. Gr.*
[4]) slíkt. *A. B. E. Gr.* Þ.
[5]) of. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[6]) hörd. sömu.
[7]) stafs. *A. C. St.* Þ. stifir. *B. E. Gr*

Fara [1]) mano sárir af sárum,
sár [2]) heldr en menn felldu [3]),
kvama man hörd fyrir harda
hríd ok skammt at bída.

Sigurd Styrbearnarson dreymdi þat fyrir fundinn á Örlygsstödum, at hann þóttist siá rafna tvo, ok kvádu sitt ord hver:

Hverir mano birnir beitast?
hver byst mest til rómo?
hver man falla hinn frækni?
fadir Kolbeins edr Sturla?
Brátt kèmr bödvar ótti,
beit egg í tvö leggi,
menn giöra mest þeir er unno
mannspell í styr fella.

Eyúlf Fornason dreymdi er hann svaf hiá Midskytiodalsá [4]), at kvona kvædi þetta:

Sefr þú út í,
sè ek eld fyrir [5]) þèr.

16. Þá er Sturla kvam á Miklabæ friá-aptaninn, reid hann upp á Sólheima at finna födur sinn, ok töludu þeir um ríd. En er hann reid ofan, kvam hann á Vídivöllu, gèkk Kolbeinn út [6]) ok sveit hans, var þat frítt lid ok allvel búit. Sturla taladi um: þú hefir gott [7]) lid, bródir. Sva þykkir mèr, segir Kolbeinn. Sva er ok, segir Sturla, enda man þess þurfa, þvíat hèr mano þeir fyrst at sækia, er þeir kvama handan or Túngunni, ok er þat mitt rád at þèr farit upp á húsin, hèr er vígi á húsunum, en vèr skulum skiótt kvama ok hiálpa ydr. Sva skal vera sem þèr skipit til, segir Kolbeinn. Vel væri þá, segir Sturla, ok reid brott ok á Miklabæ. Hann giördi þá út vördu sem vant var. Sturla lá í

1) fáir. *A. B C. E. Gr. St.* þ.
2) svo er. *B. E. Gr.*
3) felldust. sömu.
4) Skytio á Skagaströnd. *B. Gr.* Skytiodalsá á Skógarströnd. þ.
5) yfir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
6) bródir hans, bæta sömu vid.
7) frídt — ok vel búit. *A. B. C. St.* þ.

lokhvílu um náttina ok Illhugi prestr Þórarinsson hiá honum, en í annari lokhvílo lá Sturla Þórdarson ok Einar Usidr. Skálinn var allr skipadr mönnum. Þessa nátt var Gissur vid Reykialaug, ok stódu þeir Kolbeinn snimma upp um myrgininn [ok vöktu lidit[1]). Gissur sagdi Kolbeini draum sinn ok Brandi, þvíat Brandr var kvaminn ádr þeir varo klæddir. Þat dreymdi mik, segir hann, at mèr þótti Magnús biskup födurbródir minn kvama at mèr, ok mælti hann: standit upp, frændi, ek skal fara med ydr, þá vaknadi ek. Þetta er vel dreymt, segir Kolbeinn, edr hverso lízt þèr? Betr þykkir mèr þetta dreymt en údreymt, segir Gissur. Kolbeinn gèkk til skriptar vid Þórd prest á Reykium, ok fèkk honum til vardveizlo spiótt gott er hann átti, en tók kèsio í hönd sèr. Gissur taladi þá fyrir lidino ok eggiadi þá til framgaungo, vil ek ei, segir hann, at þèr hafit mik á spióta-oddum fyrir ydr, sem Skagfirdíngar höfdu Kolbein Tumason frænda minn, þá er hann fèll í Vídinesi, en runnu siálfir þegar í fyrstu sva hræddir, at þeir visso ei er þeir runno yfir Jökulsá, ok þar er þeir þóttust skiöldu bera á baki sèr, þá báro þeir södla sína. [Þat man ek ætla at vera ydr ei fiarri, ef þèr dugit vel[2]), leitit nú ydr heldr vaskra manna dæma þeirra er vel fylgdu Sverri kóngi edr ödrum höfdíngium, þá er æ uppi frægd ok gódr röskleikr, efizt ok ekki í því, at ek skal ydr ei fiarri staddr, ef þèr dugit vel, sem ek vænti góds af öllum ydr, er þat ok satt at segia, at sá madr má aldrei röskr heita er eigi rekr þessa úalldarflokka af sèr, gæti var allra gud, segir Gissur. Allir rómudu þetta eyrindi vel. Eptir þetta rido þeir allir austr yfir túnguna, ok var þá saman kvamit allt lid þeirra, stefndu þeir at ánni gègnt Vídivöllum.

17. Sturla vaknadi þá er sól var lítt farin, hann settist upp ok var sveitugr um andlitit, hann strauk hendinni fast um kinnina ok mælti: ekki er mark at draumum. Sídan stód hann upp ok gèkk til salernis[3]) ok Illhugi prestr med honum. En er hann kvam aptr, lá hann litla ríd ádr madr kvam í skálann ok kalladi:

[1]) at fylkia lidi sínu. *A. C. St.* Þ.
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) gèkk hann af sæng. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

nú rídr flokkrinn Sunnléndínga ok er her manna. Liópu menn þá til vapna. En er Sturla kvam út í dur ok sá lid þeirra Gissors, mælti hann: ekki er þat sva fátt, sem þat er smátt, allvel kvamum vær lidi saman, ok fari hestasveinar til rossa ok rekit undan þeim. Rossin stólu um allar myrar ofan til árinnar. Sturla gèkk þá til kyrkio ok tók rollu or pússi[1]) ok saung af bænir sínar ok saung Augustínus-bæn medan lidit bióst. Sídan gèngu þeir upp or gardi ok stefndu hit efra til Vídivalla. Þá er Sunnlendíngar rido at Jökulsá, fèll madr þeirra af baki er Þorleifr Spadi[2]) hèt[3]), ok æpto menn at. Gissur bad þat óp ei lægia, ok vard þat at herópi. Þeir Sturla þögdu þartil er Kolbeinn kvam at þeim med sína sveit, þá æptu þeir allir, ok snúa upp í gèrdi þat er heitir á Örlygsstödum. Saudahús stód í gèrdino, en gardrinn var lágr um, sva at þat var [med öllu ekki[4]) vígi. Sturla nam stadar er hann kvam sudr um húsit á milli þess ok gardsins, hann var í blárri ólpu, ádr Hallr Arason steypti yfir hann mórendri flekku ok erm á ok litla brynio, menn Sturlu nokkrir gèngu fram at gardinum ok namu þar stad, ok var þar völlr á milli ok þess er Sturla stód. Skildir varo bundnir í klifiar, ok urdu þeir ei leystir, einn skiöldr var laus er á var markadr *crucifixus*[5]), sá var Sturlu ætladr, en hann tók ei vid. Gissur med sína sveit reid á Vídivöllu, ok stigu þeir þar af hestum ok gèngu. Kolbeinn reid ok mestr luti lids, ok fóro þeir nær hlídinni. Sighvatr reid þá ofan med fiallino med sitt lid. Þeir Gissur ok brædur[6]) hans namo stadar í útsudr frá gèrdino, en þeir Kolbeinn ridu miök at gèrdino ádr þeir lupo af hestum. Þá mælti madr er stód vid gardinn til Sturlu: skulum vèr nú ei laupa á þá medan þeir stíga af hestum? eigi, segir hann, hèr skulum vèr bída ok renna ei hèdan, en þó runnu þá nokkrir menn út af gardinum, Svarthöfdi Dugfússon ok synir Snorra frá Skardi, Bárdr ok Sigmundr, Ormr Kistill[7]) ok Hallr af Jörva, siö varo þeir, brátt hurfo þeir aptr, þvíat menn Kolbeins snero diarf-

[1]) þíngi sínum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) Svadi. *C. St.*

[3]) hann bió sudr á Rútsstödum, bæta sömu vid.

[4]) ei öllum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) markad *crucifixum.* sömu.

[6]) menn. sömu.

[7]) Kyrtill. *B. E* þ. Kètill. *A. C. Gr. St.*

liga í móti þeim, ok liόp Mördr[1]) fyrst á gardinn ok eggiadi af sèr at reka fá menn, ok fylgdu honum þá margir. I þenna tíma rídr Sighvatr ofan í gèrdit, ok vagu Kolbeins menn tvo hans menn á rossbaki er sídast ridu, þórd Kollsson heimamann hans, Sigurdr Eldjárnsson va hann. þá snero þeir Kolbeinn upp med gardinum ok fylgdarmenn hans Einar Drángi[2]) Illhugason, þorbeörn[3]) Göndlir[4]) bródir hans, Jón Krappi[5]), Oláfr Höskuldarson Rámi[6]), Sigurdr Eldjárnsson, þórálfr Bearnason ok margir adrir, ok veitto harda atgaungo[7]). Kolbeinn mælti þá er hann gèkk at gardinum í fyrstunni, gángi nú at guds vilia ok málaefnum, segir hann. Snero þeir Kolbeinn þá upp med gèrdinu sva at þá varo þar eingir eptir, er þeir höfdu fyrst atgèngit í gèrdinu ok [þvert mót horft[8]). Gissur gèkk af útsudri at gèrdino. Snero þá Sturlu menn á móti þeim, ok var þar hart vidnám. Sturla tók upp stein, er Kolbeinsmenn höfdu kastat í gerdit, ok varp í móti þeim Gissuri, ok vard fyrir Narfi Svartsson, kvam á stálhúfuna fyrir ofan hausinn, ok fèll hann á bak aptr, sva at nær kastadi yfir fótunum, hann spratt skiótt upp, þvíat hausinn var ei skadadr, ok var þá hinn ákafasti. Madr einn mælti í lidi Gissurar: þat skal Borgfirdíngrinn vita ádr sól gèngr undir, at Sunnlendíngrinn er ei ragr. Eyrekkr Birkibeinn var í hvítum pansara, hann varp steini til þessa manns, ok brá hann vid búklara ok fèll á bak aptr, hann stód skiótt upp ok snaradi at Sturlu mönnum, þá unno margir á honum ok fèll hann þar. Gissurs menn grytto á lid Sturlu í fyrsto. þá mælti Gissur: Kastit þèr ei grióti í lid þeirra, þvíat þèr takit stórhögg af því sama grióti þá er þeir senda aptr. Askèll son Skèggia Arnasonar hafdi verit med Sturlo ok farit til rossa um myrgininn, hann var sva nauduliga staddr, at hann liόp í flokk Gissurs ok fór med þeim til bardaga, en er samanlaust lidino, kvamst hann til sinna manna ok hitti fèlaga sinn er þorkèll hèt

[1]) Eyríksson, bæta vid *B. E. Gr.*

[2]) Dragi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) þorsteinn, sömu.

[4]) vantar í sömu.

[5]) Kiappi. *Gr.* Kappi. *A. C. St.* þ.

[6]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) lánga stund, en þó urdu menn Sturlu at víkia, bæta sömu vid.

[8]) best var vidhorft. sömu.

ok mælti: hèr ero brögd í, ek hefi verit í lidi Sunnlendínga, sva at þeir hafa ei vitat. Þá mælti einn Sunnlendíngrinn, eigi skaltu lengr eiga at hælast vid oss. [Stálhúfa var höllud á höfdi Askatli ok lausar kinnbiargir [1]). Þorkèll mælti: settu vel húfo þína, en ek man hlífa þèr á medan. Þá kvam Þorkatli steinhögg, ok snerist hann vid úvinum sínum, þá lagdi madr til hans spióti, ok hió hann þat af skapti, sídan brá hinn sverdi, en Þorkèll hió á hönd honum, ok fleiri unnn á honum. Þorkèll kvamst heill í brott, en Askèll fèll þar. I þenna tíma var kallat á Sturlu menn, at úvinir þeirra væro kvamnir á bak þeim, ok varo þeir Kolbeins menn þat. Þá snero Sturlo menn á móti þeim, ok urdu þá í kvíinni, [ok drógu sik úr nordr í gèrdit, þar fèll Ögmundr Kolbeinsson í kvíinni [2]), en þá var Kolbeinn Sighvatsson ok hans menn kvamnir á flótta upp or gèrdino, en Eyfirdíngar varo þá kvamnir í gèrdit, ok lagdi Gudmundr Gilsson til Halls Þorsteinssonar or Glaumbæ sva at hann fèll. Sighvatr gèkk þá sudr eptir gardinum á móti Skagfirdíngum, hann var í blám kyrtli ok hafdi stálhúfu á höfdi, en eggsi forna ok rekna [3]) í hendi er Stiarna hèt, hann hèllt um skaptit fyrir nedan auga ok sneri frá sèr egginni ok veifdi skaptino, madr mælti til hans, sá er gèkk or kvíinni: gakk þú eigi þer fram, þar ero úvinir einir fyrir, hann svarar eingo ok gèkk ei at sídr. Þorvardr or Saurbæ gèkk med honum [ok Sighvatr Runúlfsson ok Sámr húskarl Þorvardar [4]). Arni Audunnarson gèkk fram med Sighvati ok heó til beggia handa. Kolbeins menn spurdu hví hann lèti sva lítill [5]) madr ok gamall? þvíat ek ætla mèr ekki í brotto, segir hann. Þeir Sighvatr fiórir fèllu út af gardinum, þá kvam at Beörn Leifsson or Asi [6]) ok skaut yfir hann skildi, en studdi höndum at höfdi honum, þvíat hann var þrotinn miök, en lítt sár edr ekki. Þá kvam Kolbeinn þar at ok spurdi, hver húkir þar? Sighvatr, segia þeir. Kolbeinn mælti: hví drepit þèr hann ekki? Beörn hlífir honum, segia þeir, drepit þèr hann þá, segir Kolbeinn. Beörn sneri þá í brott þadan. Kol-

1) vantar í *A. C. St.* Þ.
2) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
3) gullrekna, *C. St.*
4) frá [ vantar í *St.*
5) liótr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) vantar í sömu.

beirn lagdi til Sighvats þar er mættist háls ok herdar, ok var þat lítit sár, þvíat oddrinn var af spiótino. Sighvatr mælti: höfumst vid ord, þèr manut nú ráda skiptum vorum, þá lióp at Einar Drángi [1]) ok hió í höfud honum, ok var þat ærit banasár, en þó unnu þá fleiri menn á honum, en er Sighvatr diákn sá giörd þeirra, lagdist hann á nafna sinn ok var þar veginn. Sighvatr Sturluson hafdi seytián sár, þá var hann á hinu átta ári hins siöunda tugar. Arni Audunnarson lèzt þar vid mikinn ordstír. Þorvardr var í brynio þeirri er Fulltrúi hèt ok gèngu ekki spiötalög á, þat gaf honum líf. Sámr lèzt þar. Arni var á átta tugi, flettu þeir Sighvat klædum öllum nema skyrtu ok stuttbrókum. I annan stad er at segia frá Sturlu, hann hafdi mikla atsókn ok vardist drengiliga. Markús Þórgilsson [2]) hèt úngr madr, hann lióp or flokki Sturlo ofan á gardinn snimma fundarins, hann var lagdr med spióti gègnum, ok vardist eptir þat sem best, þá fèkk hann annat lag í gègnum, svo at út fèllo idrin, ok fèll hann þá. Sturla horfadi upp or kvíinni fyrir nedan húsit ok sva vestr um. Lauga-Snorri gèkk fyrir Sturlu ok hlífdi honum med búklara, ok hafdi sverdit undir búklaranum sem þá er menn skilmast. Sturla hafdi sinn búklara yfir höfdi honum, þá var mikil atsókn at Sturlu, en Snorri hlífdi honum, en ekki siálfum sèr, ok fèkk hann því mörg sár ok stór ádr hann fèll. Sturla vardist med spióti því er Grásída hèt fimt ok vel, þat var stórt mála-spiót fornt ok ekki vel stinnt, hann lagdi sva hart med því at menn fèllu iafnan fyrir, en beygladist [3]) spiótit, ok brá hann því nokkrum sinnum undir fót sèr. Húnraudr son Magnúsar Húnraudarsonar lagdi spióti til Sturlu, en hann lagdi í mót sva at Húnraudr fèll, hann var lítill madr ok hafdi góda brynio ok vard ekki sár. Þá sótti Kodran Svarthöfdason at Sturlu, ok lagdi spióti til hans, Sturla mælti til hans: ertu þar enn fiandinn? Kodran svarar: hvar væri hans meiri van? Þat segia fleiri menn at Sturla skeindist ei af því lagi. Þá stód Húnraudr upp ok lagdi spióti í hægri kinn Sturlu ok nam í beini stad. Þá mælti Sturla: ok nú vinna smádiöflarnir á mèr. Þá lögdu tveir menn til Sturlu,

1) Dragi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) þorkèlsson. *St.*
3) lagdist. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Hialti biskupsson lagdi í vinstri kinn honum, ok skar spiótit or túngu, ok var sárit beinfast. Bödvar Kampi son Einars Nautbylíngs [1]) lagdi spióti í kverk Sturlu, ok rendi upp í munninn. Sturla lagdi til Hiálms á Vídivöllum [2]), ok fèll hann vid þat. Þá Sturla var sár þremr sárum, mælti hann vid Hialta: grid, frændi! Grid skaltu af mèr hafa, segir Hialti. Sturla var þá þrotinn af mædi ok blódrás, hann studdi þá höndum á herdar Hialta, ok gèngu þeir sva út or gèrdino. Hialti tók annari hendi aptr á bak sèr ok studdi hann sva. Sturla kastadi sèr nidr er hann kvam skamt or gèrdino, mál hans var þá úskírt, ok þótti Hialta sem hann beiddi prests fundar. Hialti gèkk þá í brott, en yfir honum stód þá Oláfr Tötli [3]) mágr Flosa prests, hann skaut skildi yfir Sturlu, en Játgeir Teitsson mágr Gissurar kastadi búklara yfir hann. Þá kvam Gissur at ok kastadi af honum hlífunum ok sva stálhúfunni, hann mælti: hèr skal ek at vinna, hann tók breideggsi or hendi Þórdi Valdasyni ok hió í höfud Sturlu vinstra meginn [4]) mikit sár, ok hióp lítt í sundr. Þat segia menn þeir er hiá varo, at Gissur hióp bádum fótum upp vid er hann hió Sturlu, sva at lopt sá millum fótanna ok iardarinnar. Þá lagdi Klængr Bearnarson í kverk Sturlu í þat sár er þar var ádr, ok upp í munninn, var alltsaman sárit sva mikit at stínga mátti inn þrem fíngrum. Þá kvam Einar Þorvaldsson þar ok segir lát Sighvats. Ekki tel ek at því, segir Gissur. Önundr biskups frændi skar púss [5]) af Sturlu ok fèkk Gissuri, annr madr dró gull af fíngri honum, þat er átt hafdi Sæmundr í Odda, var dökkr steinn í ok grafit á innsigli. Gissur tók gullit ok vapn Sturlu. Markús Mardarson lagdi þá spióti í kvid Sturlu hægra meginn upp frá nafla, þriú sár hafdi hann á bríngunni vinstra meginn. Naddr hèt madr er hió á barka honum, eingi sár blæddu þau er hann fèkk sídan Gissur vann á honum. Þórarinn Sveinsson var iafnan nær Sturlu ok bar sik vel, en Gissur gaf honum grid, þá er hann kènndi hann, sakir frændsemi vid Gróu kono Gissurar,

1) Nautbælíngs. *B. E. Gr.* vantar í *A. C. St.* þ.

2) Vídimyri. *C. St.*

3) Tottr. *B. E. Gr.* vantar í *A. C. St.* þ.

4) fyrir aptan eyra, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) píng. sömu.

hann þó lík Sturlu ok saumadi um, en þeir höfdu ádr flett líkit sva at bert var. Marteinn Þorkèlsson [1]) fèll skamt frá Sturlu. Kolbeinn Sighvatsson ok meginn flóttinn [2]) nam stad undir hlídinni á grióthaugi miklom [3]), þar kvam til Gísli af Sandi med sína sveit, ok varo þeir á hestum ok eggiudu menn hann ofan at hiálpa þeim í trödinni, [ok bad hann Vestfirdínga eggia sína menn [4]), ok þá kvam Máni or Gnúpufelli ok sagdi at þeir varo bádir fallnir Sighvatr ok Sturla, ok bad hann Kolbein forda sèr sem honum þætti líkast. Kolbeinn lióp þá til kyrkio á Miklabæ ok allr flokkrinn, sumir á kyrkiuna, en sumir á húsin. Þeir Gissur kvamo litlo sídar at kyrkiunni, Gísli af Raudasandi ok Tumi Sighvatsson flydu á feall upp ok mart manna ok sva til Eyafiardar. Markús Sighvatsson var særdr til úlífis í gèrdino, sídan var hann færdr á Vídivöllu [ok lagdr á grefio [5]) ok husladr. Brandr Ulfhèdinsson sat yfir honum. Þá sendi Gissur til Símon Knút ok Gissur Glada at drepa hann. Börkr son [Þórarins [6]) Sigurdarsonar Stèls [7]) va at honum. Þórdr Gudmundarson vardist í húsdurum á Miklabæ, þartil er leitat var til laundura á bak honum, þá opadi hann í stofo ok vardist þar lengi vel ok drengiliga ádr hann yrdi sóttr. Gissur Gladi hió bádar hendr af honum, þat var banasár. Þá er Gissur kvam til kyrkio, varo mönnum grid bodin, fyrst Eyfirdíngum. Þeir Klængr ok Gissur budu Sturlu Þórdarsyni grid, en hann skildi Asgrím Bergdórsson til grida med sèr, ok var því skiótt iátat. Dugfússonum varo grid gèfin fyrir flutníng Oláfs Svartssonar. Þeir voro á kyrkiu uppi Svarthöfdi [8]) ok Kolbeinn Grön, en þar kvam at öllum mönnum varo grid gèfin [9]) nema sex. Sturla spurdi Kolbein Sighvatsson, hvert hann vildi at þeir gèngio út? en Kolbeinn bad þá útgánga, ok segir þat helst til hiálpar ef rýmdist í kyrkiunni, þvíat fólkino hèllt vid spreing. Kolbeinn bad þá bidia

1) Þórdarson. *A. B C. E. Gr. St.* Þ.
2) flokkrinn. *B. E. Gr.*
3) nokkrum. *A. B. C. E. Gr. St* Þ.
4) vantar í sömu.
5) grúfu. *A. B. C. E. Gr.* Þ. frá [ vantar í *St.*
6) Þorbiarnar. *B. E. Gr.*
7) Stóls. *B. E. Gr.* frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.
8) Dugfússon, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
9) ok íátat fridi, bæta sömu vid.

sèr grida er þeir kæmo út ok beóda þat allt fyrir hann er honum sæmdi til lífs sèr at vinna. Hann baud utanför sína ok kvama aldrei út, en ekki var á þat hlytt [1]). Þeir heitudust at brenna kyrkiona ok kölludu úvígda, ef þeir gèngio ekki út. Þeir varo þar til sólarfalls um kveldit, þá bad Kolbeinn at þeim skyldi leyfa at gánga til kamars [2]), ok var því iátat. Þá var rökkvat er þeir gèngo or kyrkio. Þeir gèngu um skálann ok var hann skipadr af sárum mönnum ok þeim er grid voro gèfin. Þeir fögnudu er þeir Kolbeinn varo þar kvamnir heilir. Kolbeinn segir: víst er þat vel, en þó höfum vèr ei gridin fengit. En er þeir höfdu setit [í kamri, sem þat vildu [3]), þá gèngu þeir út. Kolbeinn mælti til þeirra er inni voro, vilit þèr fara út ok siá stór högg? Þeim vard ekki af [4]) munni. Kolbeinn mælti til Gissurar, er þeir kvamo út: þat vildak at þú lètir mik fyrr höggva en Þórd bródur minn. Gissur kvad sva vera skyldu. Þá hió Einar Kollr Kolbein. Þá var Þórdr til höggs leiddr, þá mælti madr vid Kolbein únga, vilto ei árna sveininum frænda þínum grida? Fór sá nú er meiri skadi var at, segir Kolbeinn, Brandr Þorleifsson va Þórd. Þá voro þeir Rafnssynir afteknir [5]), Sveinbiörn ok sva Krákr. Hersteinn son Bersa [6]) prests Halldórssonar [7]) va at þeim. Þóri Jökul va sá madr er hefna þóttist bródur síns er Þórir hafdi vegit í Bæ. Þórir kvad víso þessa medan [8]) hann lagdist undir höggit:

Upp skaltu á kiöl klifa,
köld er sæfar drífa,
kostadu hug þinn herda,
hèr skaltu [9]) lífit verda.
[Skafl beygia áttu [10]) skalli,
þó skúr [11]) á þik falli.

[1]) litit. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) nádhúss. sömu.

[3]) um hríd. sömu.

[4]) at. *A. B. C. Gr. St. Þ.* á. *E.*

[5]) vegnir. *A. B. E. Gr. St. Þ.*

[6]) Bergs. sömu.

[7]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[8]) ádr. sömu.

[9]) muntu. sömu.

[10]) skalf-beigadir þú. *B. E. Gr.* skaflbeigadir. *A.* skaflbeigladr. *C. St.*

[11]) skör. *Gr.* skír. *A. C. St. Þ.*

ást hafdir þú meya,
eitt sinn skal hver deya.

Þá var til höggs leiddr Hermundr Hermundarson, hann var manna best hærdr, ok mælti, at hann vildi kneppa hári síno, sva þat yrdi ei blódigt, ok sva giördi hann. Hann horfdi í lopt upp, er Geirmundr þiófr va hann, [Klængr fèkk hann til [1]). Allir varo þeir höggnir med eggsi Sighvats Stiörno. Lík Sighvats ok Sturlu, Þórdar ok Markúsar varo færd til Þverár, en Kolbeins lík á Grenjadarstadi. Þessir menn lètust þar med þeim, er af sárum dóu: Sturla Sighvatsson vestan, Arni Audunnarson, Snorri Þórdarson, Vígfús Ivarsson, Eyrekkr [2]) Halldórsson, Marteinn Þorkèlsson, Markús Þórgilsson, Gissur Þórarinsson, Hermundr Hermundarson, Þórir Steinfinnsson, Valdi ok Askèll Skèggiasynir, Bersi Þorsteinsson. Or Feördum [3]): Sveinbeörn ok Krákr Rafnssynir, Markús Magnússon, Helgi Sveinsson, Þórdr Gudmundarson, Eindridi Smidr, Þórdr Hallkèlsson, Amundi, [Ögmundr Sveinsson [4]), Ögmundr Kolbeinsson, Jón Kaupi [5]), Dálkr Þórgilsson. En nordan: Sighvatr [6]), Markús ok Þórdr synir hans, Sighvatr [7]) Runúlfsson, Ingialdr Stami, Þórdr Daufi, Einar Ingialdsson, Beörn Gissurarson, Beörn Þórarinsson, Eyúlfr, Gudmundr Halldórsson, Sámr, Þórdr Eysteinsson, Eyrekkr Þorsteinsson, Beörn Þorgrímsson, [Kolbeinn Sighvatsson nordan [8]), Páll Magnússon, Þorgeir Biarnason, Oddr Kárason, Skèggi Hallsson, Sigurdr Gudmundarson, Brandr Þorleiksson [9]), Brandr [10]) Einarsson, Liótr, Lodinn Helgason. En af Gissuri [fèllo þessir: Játgeir Þórarinson, *Sigfús Tófason, Þorlákr Barkarson [11]), Þórgils Steinason, Þórdr Snorrason, Þorbeörn, Þóroddr húskarl Teits Þorvaldssonar [12]).

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
2) Ormr. sömu.
3) Vestfiördum. sömu.
4) vantar í sömu.
5) Kampi. *C. St.*
6) Sturluson, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
7) Sigurdr. *A. C. St. Þ.*
8) en leingra nordan Kolbeinn Sighvatsson *o. s. fr. A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
9) Þorkèlsson. sömu.
10) Dadi. *A. B. C. Gr. St. Þ.*
11) frá * vantar í *B. E. Gr.*
12) frá [: lètust átta eda fleiri. *A. C. St. Þ.*

18. Sunnudaginn fóro flestir menn brott or Skagafirdi er færir varo fyrir sárum, varo þá enn Vestanmenn flettir á Jökulsár bökkum af fylgdarmönnum Kolbeins, en sumir varo bardir, mundu þeir fengit hafa hinar mestu hrakníngar, ef ei hefdi Þorsteinn Jónsson ok Vatnsdælir holpit [1]) þeim, var Kolbeinn í öllu snarpari en Gissur eptir fundinn, mart manna lá eptir í Skagafirdi í sárum, synir Snorra prests frá Skardi Bárdr ok Sigmundr, ok varo bádir særdir til örkumbsla, ok lágu þeir þar allan vetrinn á Silfrastödum, Sunnlendíngar [2]) höfdu [3]) á þeim unnit, fèll Bárdr sudr frá gèrdino, en Sigmundr í útnordr. Þá varo ei skip gèngin af Islandi er fundinum var lokit. Spurdust tídindin um haustit til Noregs. Teitr Styrmisson ok Sigrídar Sighvatsdóttur var á fundinum ok kvamst í brott ok lèt Sigrídr hann fara út um haustit í Eyafirdi, ok kvam hann vid Orkneyar ok var þar um vetrinn ok fór þadan út aptr. Þá er tídindi þessi kvamo til Noregs um haustit, þótti þar hinn mesti mannskadi eptir þá fedga, þvíat þeir varo miök vinsælir af kaupmönnum ok ödrum landsmönnum. Hákon kóngr var ok mikill vin Sturlu, þvíat þat var miök talat, at þeir Sturla hefdi þau rád giört, at hann skyldi vinna Island undir kóng, en kóngrinn skyldi giöra hann höfdíngia yfir landino, hafdi Hákon kóngr þar mest varat Sturlu vid at hann skyldi ei auka manndráp á landino, en reka menn heldr utan. Þá er Snorri Sturluson spurdi fall Sighvats bródur síns ok sona hans, kvad hann víso þessa ok sendi til Þórdar Kakala Sighvatssonar:

Tveir lifit [4]) Þórdr, en þeirra,
þá var ædri hlutr brædra,
rán var á [5]) lydum launat
laust, en sex [6]) á hausti,
[gèra-svín, en verdr vænast [7])
vor ætt ef sva mætti

[1]) borgit. *B. E. Gr.*
[2]) Stólúngar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) bádir, bæta vid *A. C. St.* þ.
[4]) lifum. *B. Gr.*
[5]) varat. *B. Gr.* vana. þ.
[6]) úr. *A. B. C. E. Gr St.* þ.
[7]) gèrast sum en vördr veniast. *B. E. Gr.* gèrist en vördr veniast. *A. C. St.* þ.

úskèlfandi úlfar [1])
afar-kaupum samlaupa.

þótti honum hinn mesti skadi at Sighvati bródur sínum, sem var, þótt þeir bæro ei gæfu til samþykkis sín á medal.

19. Eptir þessi tídindi sem nú ero sögd, lagdi Kolbeinn undir sik allan Nordlendínga fiordúng, ok tók hann heimildir á öllum godordum af þeim mönnum er átt höfdu at forno, var þat þá kalladr úiafnadr ok rángindi, er Sighvatr hafdi haft ríki ok godord af mönnum nordr þar. Um varit eptir lèt Kolbeinn hefia [2]) skuldadóm eptir Sighvat í Eyafirdi, var þá dæmt af örfum allt fè er Sighvatr hafdi átt, bædi lönd ok lausafè, ok iafnvel Grundar land, var þat sellt Styrmi ok Sigrídi dóttur Sighvats, en tekin af þeim Biarnastadahlíd [3]). þeim Halldórn ok Tuma syni þeirra Sighvats var fengin Grund í Svarfadardal, ok beoggu þau þar fyrst. þá er Kolbeinn fór frá skuldadóminum, var hann út í Hörgárdal á einum bæ, hann var leikinn miök ok manna fimastr, hann hendi skèmtan at er hann hlióp yfir gards-rúst lága, ok fèll af sva undir honum vard höfudit, ok vard honum meint vid ok mest í bríngunni, þar sló í þrota ok opnadi, ok hafdi hann þat mein medan hann lifdi ok þat leiddi hann til grafar. Um sumarit á alþíngi bar Gissur hernadarsök á alla þá menn er verit höfdu at Apavatni, ok gèngu þar menn til festo fyrir or öllum sveitum vestan, var þat stórt fègiald, ok dregit sudr um land, þat giald líkadi mönnum allþúngt, sem van var at.

20.*) þórálfr Bearnason var austfirzkr at kyni ok kvaminn af ætt þórgils Oddasonar, hann va þann mann í Austfiördum er hèt Hallageir, sídan sendi þórarinn Jónsson hann til Kolbeins Unga, ok er hann var fylgdarmadr Kolbeins, var hann heldr stór [4]) ok framdráttarsamr [5]), en þat líkadi lítt ödrum fylgdarmönnum Kol-

[1]) úlfa. *B. E. Gr.*
[2]) heya. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) Biarnastadaland. sömu.
*) þessi kapituli fylgir eptir 21ta kap. í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) skapstór. sömu.
[5]) framgiarn. sömu.

beins ok þótti hann õfunda sik. Þá varo þeir med Kolbeini Brandr Kolbeinsson ok Ivar Pálsson Sæmundssonar, ok þótti þeim Þórálfr vera heldr í áleitni vid sik, ok gaf þeim auknefni[1]) [ok kalladi þá dúnvötta[2]), en Kolbeinn virdi ei annan meira en Brand frænda sinn, en Þórálfi fèkk hann kvanfáng Arnrídi Biarnadóttur ok beoggo þau á Oslandi, hafdi Þórálfr ok farit af landi brott med Kolbeini. Þórálfr var ok úvinsæll vid nágranna sína, en þeir varo þá mestir menn þar í sveit Broddi Þorleifsson ok Alfr Gudmundsson í Gröf, var med þeim Þórálfi allþúngt, ok um vetrinn tveimr vetrum[3]) eptir Örlygsstadafund fór [Alfr at finna Brand Kolbeinsson[4]) ok minnti hann Brand á þat, at Þórálfr hafdi fast gèngit at vígum þeirra fedga Kálfs ok Guttorms, en Jórunn vildi þar ei tilleggia húsfreya Brands, hon var dóttir Kálfs Guttormssonar, [en þó var þat ei nidrbarit af öllum[5]) at hon hefdi Brand nokkut framhvatt, en sva kvam því at þeir rèdu atför at Þórálfi Brandr ok Broddi ok Alfr, fèkk Brandr til tíu menn, [en þeir átta[6]) edr tólf. Var hann siálfr hinn fyrsti, annar Einar Audmadr[7]) í Vík, þridi Bödvar Botn, fiórdi Sigurdr Þiódúlfsson, fimti Þorsteinn Ormsson, siötti [Þorvardr Þormódsson[8]), siöundi Helgi Skaptason, áttundi Þórgils Pávi, níundi Þorleifr Grímsson, tíundi Þorsteinn Mársson, ellefti Oddgeir Þórdarson, tólfti Beörn Melkarl. Med Alfi var sá madr er Skapti[9]) hèt ok Þorkèll Bríkarkeingr[10]) ok Rafn Oláfsson, med Brodda var Gudmundr or Brimnesi ok madr er Naddr hèt ok Þorkèll Svali er þá beó í Höfda ok Hlenni son hans. Þeir tóku hús á Þórálfi ok gèngo inn, þar varo fyrir tólf karlar. Þórálfr kvamst í brynio ok uppá lokhvílu þilit, hann spyr hvert Brandr væri þar? Þeir segia hann þar vera. Þángat man ek af þilino sem Brandr er fyrir, segir Þórálfr, ok sva giördi hann. Var hann þá tekinn ok útleiddr. Hann skriptadist vid föronaut þeirra

1) vidrnefni *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) vantar í *A. C. St.* Þ.
3) nóttum. sömu.
4) Brandr ok Alfr til Stadar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
5) var ok ekki þat ord á, sömu.
6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
7) vantar í *A. C. St.* Þ.
8) Þormódr Þorvardsson. *A. B. C. Gr. St.* Þ. Þorm. Þormódars. *E.*
9) Loptr. *A. B. C. St.*
10) Búkéngr. *B. Gr.* Búkeingr. *E.*

Sigurd Þiódúlfsson diákn, en Helgi Skaptason va at honum, ridu þeir til Hóla [ok voro leystir sídan af Bótólfi biskupi. Sídan ridu þeir til Stadar [1]) ok höfdu þar setu, fór þá Stadar-Kolbeinn upp á Flugumyri at leita um sættir ok kvama á gridum. Sídan ridu þeir Brandr allir á Flugumyri [2]), en Kolbeinn hafdi mart manna fyrir ok var í [allþúngo skapi [3]). Hann sat í stofu, ok var öll skipud stofan, ok gèkk kví eptir midio golfi. Brandr gèkk fyrst inn ok þá hver at ödrum. Kolbeinn spurdi, hví Brandr lèti Þórálf drepa? Hann kvad mart vera, kvad hann lengi til sín illa verit hafa, en ei giördak þetta í hefnd eptir Kálf, þó þat sè borit í eyru ydar. Þá spurdi hann Brodda, hví hann færi at Þórálfi vin [4]) hans? Broddi svarar: þvíat ek var skyldastr at reka svívirdíngar þinnar, hafdi hann þèr lengi útrúr verit ok limskliga þiónat bædi hèr ok utanlands. Vid Alf vildi Kolbeinn ei sættast ádr Brandr sagdi, at annathvert skyldu þeir allir sættast edr eingir, ok beiddi þá síns luta mannaforráda. Attu menn þá lut at, at ei skyldi í greinir fara med þeim, ok sættust þeir at því, at Kolbeinn giördi átián hundrud þriggia álna aura fyrir víg Þórálfs, Brandr greiddi land á Þorleiksstödum [5]) ok lagdi Ósk þat til módir Jórunnar, ok skildu þeir sáttir.

21.*) Vermundr Tumason beó í þenna tíma á Ökrum frændi Kolbeins Unga, hann átti Oddnyu dóttur Halls or Glaumbæ. Olöf Benediktsdóttir var módir Oddnyar, hon var þar á Ökrum ok hafdi kú ok hiábú. Þorsteinn Gallti gætti nauta Vermundar [ok var vaskligr madr [6]). Brandr hèt son hans, [hann var á vist med Vermundi [7]), en Þorsteini födur hans voro kaup gèfin til verka. Þetta var —— [8]) vetrum eptir Örlygsstadafund. Vermundr ræddi

1) frá [ vantar í *St.*

2) vantar í *A. C. St.* Þ.

3) hördu fari. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) ok menn. *B. Gr.*

5) í Blönduhlíd, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

*) þessi kap. gèngr undan 20ta kap. í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

6) vantar í sömu.

7) hann gætti sauda Vermundar ok var vaskligr madr. *B. E. Gr.* vantar í *A. C. St.* Þ.

8) eyda i handritinu. nokkrum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

eitt sinn vid þorstein nautamann sinn, ok kvadst ei vilia at hann stæli tödo hans fyrir kú Olöfar mágkono sinnar. þorsteinn kvadst þat ei giört hafa, kvad Hall í Glaumbæ gèfa sva födur hennar ok Skída Bearnarson bródur hennar sammæddan er beó á Frostastödum, at hann þyrfti ei at stela fyrir kúna. Vermundr lèt [1]) hann á brott ok kvad hann þar ei lengr vera skyldo. þetta var milli ióla ok fösto. þorsteinn fór á brott um daginn, en Brandr son hans var gènginn til fiár ok vissi ei þetta. Madr hèt Gudmundr Gódi [2]), hann var Gunnarsson, hann átti heima í Hegranesi á Asgrímsstödum, hann gèkk til Miklavatns at veida fiska atfánga-dag ióla, þat var föstudag, ok um kveldit ádr hann fór heim, tók at dimma miök, þá gèkk madr at honum mikill ok ákafliga þrekligr, hann var í kufli ok lèt slúta hattinn, Gudmundr spyr, hver hann væri? Hann kvedst Járngrímr heita. Hvert skaltu fara, segir Gudmundr? Upp í Raunskard ok þadan til Akra ok þadan [3]) til Línakradals. Sídan gèkk hann á brott, Gudmundr leit eptir honum, ok sá at svört bót var á millum herda honum, fór Gudmundr heim, ok vissi ekki til manna fyrr enn hann sá liósit. þat sama kveld var veginn í Raunskardi [4]) sá madr er Geir hèt, [Glumr hèt sá er hann va [5]).

22. Nú er þar til at taka, sem ádr var fráhorfit, at laugardaginn eptir reid Vermundr til laugar ok med honum Asgeir Anarprestr [6]) fylgdarmadr hans. Hann var skartsmadr mikill ok manna gladastr, raddmadr mikill. Vermundr kvam síd heim ok þeir fèlagar ok gèngu til stofo, þar brann liós ok var dregit upp, en myrkt hit nedra, tiöldud var stofan, eingan siá þeir þar mann. Vermundr bad föronaut sinn siá fyrir hestum þeirra, gèkk Asgeir þá or stofunni, en Vermundr festi upp vapn sín. Brandr hafdi kvamit heim nokkro ádr ok sat í skugga [7]) ok hafdi snarpa eggsi í hendi, hann vissi þá at fadir hans var á brott rekinn, ok þat

[1]) hèt. *A. B. E. Gr.* þ.

[2]) Gódi-þekkr. *B. E. Gr.*

[3]) vestr, bæta sömu vid.

[4]) Hornskardi. *A. C. St.* þ.

[5]) Glúmr Svartmönúngr va hann systurson hans. *B. E. Gr.*

[6]) Auraprestr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) koluskugga. *B. E. Gr.*

segia sumir menn, at Vermundr hafi lostit hann nokkro ádr um vetrinn. Ok er Vermundr sló [1]) af sèr yfirklædi sitt þat er hánn hafdi yzt, þá leypr Brandr at honum ok höggr á öxlina ok miök sva frá höndina ok var þat banasár. Brandr leypr út ok stiykr brott í náttmyrkrino, hann kèmr í Haga ok finnr þar födur sinn, þeir kvama á Flugumyri, var Kolbeinn þá í hvílu kvaminn ok menn hans. Brandr gèkk at húdfati Einars Dránga [2]) Illhugasonar, honum var vel til hans, hann segir honum áverka vid Vermund ok rèdst um vid hann, hvert hann skyldi ei gánga á vald Kolbeins. Einar bad hann brott verda skiótt, ok kvadst ei nenna at taka hann, en þótti þó íllt [3]). Fóro þeir fedgar þá í brott ok namo stad í nautahlödo at Dyrfinnastödum, þar beó þá Kollsveinn Karphelgason. Kolbeinn spurdi þegar um náttina áverkann, en Vermundr lèzt drottinsdaginn, ok var þá sent eptir Bersa [4]) til Móbergs vestr, ok kvam hann á Flugomyri ok hafdi sanna niósn af hvar þeir Brandr voro, ok var Brandr þar handtekinn í hlödunni ok vardist vel ádr hann var særdr mörgum sárum. Sídan leiddu þeir hann út ok vard hann vel vid ok va Bersi at honum. Þorsteinn fadir Brands fór med þeim, ok gaf Kolbeinn honum grid, hann fastadi kárföstu eptir son sinn á Völlum í Svarfadardal. Vermundr var færdr til Stadar, ok fylgdi Kolbeinn ok menn hans líki Vermundar til kyrkio.

23. Um vetrinn eptir Örlygsstadafund varo þeir med Skúla hertoga í Nidarósi [5]) Snorri Sturluson ok Urækia ok Þorleifr [6]) Þórdarsón, en Þórdr Kakali var í Beörgvin med Hákoni kóngi, en um varit fengu þeir skip er átti Gudleikr af Skartastödum vinr Snorra ok beoggo þat til Islands [7]) med rádi hertogans, en er þeir voro búnir ok höfdu lagt út undir hólm, kvamo menn sunnan frá kóngi med brèfum, ok stód þat á, at Hákón kóngr bannadi þeim öllum Islendíngum at fara út á því sumri, þeir syndu Snorra brèfin

[1]) fló. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) Draga. *B. E. Gr.*

[3]) vondt. *A. C. St. Þ.* verkit vondt. *B. E. Gr.*

[4]) bródur hans. *B. E. Gr.*

[5]) vantar í *A. C. St. Þ.*

[6]) Þórdr. *Gr.*

[7]) hafs. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

ok svaradi hann sva: út vil ek, segir hann. Þá er þeir voro búnir, hafdi hertogi þá í bodi sínu ádr þeir tæki ordlof, voro þá fáir menn vid tal þeirra hertoga ok Snorra. Arnfinnr Þiófsson [1]) ok Oláfr Hvítaskáld varo med hertoga, en Urækia ok Þorleifr varo med Snorra, ok var þat sögn Arnfinns, at hertogi gæfi Snorra iarlsnafn, ok sva hefir Styrmir hinn fródi ritat [ártid Snorra fólgsnar [2]) iarls [3]), en eingi þeirra Islendínga lèt þat ásannast [fyrir oss [4]). Eptir þetta lögdu þeir Snorri í haf, ok tóko Vestmannaeyar, þar laust Rani Kodransson Austmann einn, hann var þá med Snorra ok Oleigr Bearnason, þeir gèngu þar af í eyunum. Fór Snorri þá á Breidabólstad í Fliótshlíd, þar var fyrir Hallveig, Urækia gèkk ok þar af ok med honum Egill Sölmundarson ok Hákon Bótulfsson er Galinn [5]) var kalladr.

24. Þorleifr [6]) átti lut í skipino ok hèllt hann því á Eyrar, en þeir Urækia ridu vestr [7]) til Borgarfiardar, ok fann hann Gissur, er hann fór vestr, ok fór skipuliga med þeim, ok heimti Urækia af honum sverdit er Kètlíngr hèt, þat var þá tekit er Urækia var meiddr. Urækia fór í Stafaholt ok gaf Þórarinn Vandrádsson honum upp búit, [sömnudust skiótt menn at honum [8]). Snorri ok þau Hallveig fóro í Reykiaholt, þar var fyrir Klængr Bearnarson. Þorleifr fór í Garda heim ok þeir med honum brædur Runúlfr ok Bergr [9]), Hafurbeörn ok Halldór Asvardssynir. Þetta sama sumar kvamo þeir út Sigvardr [10]) biskup, er vígdr var til biskups í Skálaholti ok verit hafdi ábóti í Selio, ok Bótúlfr biskup, hann var ádr bródir at Elgi-setri [11]), fóro þeir bádir heim til stóla sinna. Þat sumar hafdi Oláfr af Steini skip fyrir nordan land ok beó til hafs, þeir skyldu utan med honum Svarthöfdi Dugfússon ok Jón son Arna Audunnarsonar ok Gudmundr Oláfsson, er þá lifdi einn eptir

[1]) Þiódólfr Arnfinnsson, *A. C. St.* Þ. Arnfinnr Þiódólfsson, *B. E. Gr.*
[2]) Fölsnar. *B. E. Gr.*
[3]) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) Kalinn. *C. St.*
[6]) Þórálfr. *B. E. Gr.*
[7]) vantar í *A. C. St.* Þ.
[8]) vantar í sömu.
[9]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[10]) Sigurdr. sömu.
[11]) Helgi-setri. sömu.

þeirra manna er verit höfdu at brenno Þorvalds Vatnsfirdíngs [1]), þeir lêtu út ok urdu aptrreka í Hlöduvík vid Horn [um haustit [2]) ok brutu þar skipit, þá beó Illhugi Þorvaldsson í Ædey, en er hann frêtti þetta, fór hann heiman ok þeir siö saman. Einar bródir hans fór med honum, hann var þá þrettán [3]) vetra, þar fór ok med Grímr Hèdinsson, hann kvam þar af hafi. Þeir fóro [í Nordurfiörd [4]) ok þadan til Kearansvíkur. Madr þeirra einn skeindist er hann skyldi á bak fara [5]), [brast önnur tialdsperra á hann [6]) ok vard hann eptir, en Illhugi hafdi eggsina. Oláfr Markússon var med honum Saurbæíngr, var hann ætladr til áverka vid Gudmund, því hann einn hafdi sèd [7]) hann, en er þeir kvamo í Hlöduvík, þurkudu Austmenn vöru sína, þeir Gudmundr ok Svarthöfdi voro þar hiá, en er þeir siá mannferdina, gèngo þeir til búdar, tók Gudmundr [vapn sín ok [8]) eggsi, þá kalladi Svarthöfdi hann or búdinni, er hann kèndi Illhuga, snèro þeir þá upp til sinna manna. Þeír Illhugi renna þá eptir þeim, Gudmundr fór seint ok spurdi Svarthöfdi hvert herfiötur [9]) væro á honum? [hann kvad þat ei [10]). Þá bar Illhuga at, ok snerist Gudmundr at honum, ok hiuggust þeir í mót, kvam hver eggsin í skapt annari. Svarthöfdi vildi taka Illhuga, þá hió Illhugi í höfud Gudmundi, ok var þat banasár. Þá kvamo Austmenn til ok voro heldr úsvífir, en þá er Illhugi segir málaefni sín, svæfdust [11]) Austmenn. Snero þeir Illhugi þá í brott. Svarthöfda líkadi illa, er hann hafdi sva nær borit [12]), ok var hann eingi vin Illhuga sídan.

25. Þorleifr Þórdarson bar sakir [13]) á alla þá er verit höfdu á Bæarfundi med Sturlu, hêt hann þeim afarkostum hvar sem hann kæmi vid. Þeir Snorri ok Urækia hèto honum síno lidi til þess-

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) vantar í sömu.
3) fiórtán. *St.* átián. *A.*
4) inn yfir fiörd. *A. B. C. St.*
5) á öxi, bæta sömu vid.
6) vantar í sömu. brast öxin Tialdsperra *o. s. fr. B. E. Gr.*
7) sært. *A. C. St.* þ.
8) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
9) fiötur. sömu.
10) vantar í sömu.
11) sefudust. *A*: *B. Gr. St.* þ.
12) nærri verit. sömu.
13) hernadarsakir. *A. C. St.* þ.

ara mála. Þeir giördu ordsendíngu vestr um sveitir ok stefndu öllum mönnum vestan í Dali þeim er sættast vildu vid þá. Solveig beó þá at Saudafelli, ok vildi hon lidsinna þeim mönnum nokkut ef hon mætti. Þeir Snorri fóro [um haustit [1]) vestr i Dali med flokk mikinn, þar var Þorleifr ok Urækia ok Klængr Bearnarson, en vestan kvam Sturla Þórdarson, var hann fyrir Saurbæíngum ok Strendum ok þeir Gudmundr undan Fealli. Asgrímr Bergdórsson var fyrir Steingrímsfirdíngum, or flestum sveitum kvamo menn vestan nema af Raudasandi ok þeir er Gísla höfdu fylgt, en þó voro þessir menn fyrir bóndum med Solveigu sem nú voro nefndir, en þær urdu þar málalyktir, at Snorri skyldi giöra einn ok lúka upp um varit eptir, undir þessa sætt skyldu allir menn kiósa sik þeir er þat vildu, þótt ei væro þar, ok iátto því allir nema Gísli ok hans sveitúngar. Þessum giördum lauk Snorri upp um vorit, hann giördi á hvern þeirra er víg hafdi vegit [2]) tíu hundrud, en fimm hundrud á þá er menn höfdu sært, en hálft þridia hundrad á þá er grióti köstudo, en þeir menn er vettvángsbeargir [3]) höfdu veitt skyldu gialda fimm aura ok hundrad, gèkk þetta giald yfir allar sveitir vestr, nema Raudasand. Urækia fór vestr um haustit, ok fór um alla feördo ok lagdi undir sik sva sem hann hafdi fyrr haft, en þá er hann kvam í Isafiörd, kvam Oláfr af Steini til hans ok Gudrún [4]) kona hans, þá rèdst ok Svarthöfdi til hans, dreif þá mart manna at honum, sat hann þann vetur í Stafaholti ok lagdist þá lítt á med þeim Þorleifi, hafdi Urækia miök tèkit mál Gísla á sik um haustit. Nú um varit [5]) eptir giördu þeir Snorri ok Þorleifr Gísla sekan skógarmann ok nokkra menn med honum, en eptir þíng fór Snorri vestr undir fiall ok hádi þar fèránsdóma eptir þá Gísla, en er hann kvam aptr til Saudafells, lysti Solveig því yfir at hon ætladi utan um sumarit ok dætur hennar bádar, [Jón sonr hennar hafdi [6]) farit utan hit fyrra sumarit ok Þórarinn Sveinsson med honum. Solveig fær í hendr Snorra búit at Saudafelli, en hann fèkk Sturlu Þórdarsyni

[1]) vantar í *A, C, St.* Þ.
[2]) vakit. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) veifáng. sömu.
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) sumarit. sömu.
[6]) ok Jón — hennar, hann hafdi. sömu.

frænda sínum, tók hann vid búinu ok Bearneyum, Skáleyum ok Drángareka ok fiórtán ómögum, Snorri fèkk Sturlu þá þridiúng Snorrúnga godords, en Bödvar hafdi ádr fengit honum [hinn fiórda luta[1]). Urækio þótti þetta miök í móti skapi, er hann hafdi ei vid öllu tekit.

26. Þetta sumar kvam Eyvindr Brattr ok Arni Óreyda út med brèfum Hákonar kóngs, ok var þeim lítt uppi haldit, þeir segia ok úfrid þann er verit hafdi um vetrinn í Noregi ok lát[2]) Skúla hertoga. Urækia sat nú í Stafaholti um vetrinn, gezt Snorra lítt at kostnadi þeim er hann hafdi á hèradsmönnum, þá var ok allfátt med þeim Þorleifi ok Urækio. Um varit hafdi Svarthöfdi fengit Herdísar dóttur Odds Olasonar, ok var hann á Eyri med Steinunni ok Rafni syni hennar, Rafn var þá fimtán vetra. Þann vetur er Sturla var at Saudafelli, kvam Tumi Sighvatsson nordan fyrst til Saudafells ok sídan í Reykiaholt, ok tók Snorri allvel vid þeim. Þorkèll Dráttarhamar var med honum ok Hiálmr Ofeigsson, þeir voro í Reykiaholti um vetrinn, en um vetrinn eptir iól festi Tumi Þórrídi Ormsdóttur systur Hallveigar, skyldi brúdkaup vera í Reykiaholti um varit, þá voro þeir þar allir Urækia, Sturla ok Þorleifr[3]), ok var Snorri til allra þeirra vel, en hann beiddi Sturlu þá at hann skyldi gèfa upp Saudafell vid Tuma, ok var þat þá rádit. Þeir töludu þá mart Urækia ok Snorri, en Urækia var þá fár til Sturlu frænda síns ok sva Þorleifs. Urækia fór vestr til fearda litlu sídar ok gisti at Saudafelli, en þeir Sturla sátu bádir í Sælíngsdalstúngo rídfastir sumarmála-helgi þriár nætr á fiórda tugi manna, ok var þá fátt med þeim. Urækia fór þadan vestr til Flateyar, [en Sturla á Stadarhól. Urækia kaupir þá Flatey[4]) at Þórdi Tyggia ok giörir þar bú, en fèkk Þórdi Laugardal[5]) í Tálknafirdi. Eptir þat fór Urækia vestr í Fiördu ok fann Einar Þorvaldsson frænda sinn ok stefndi honum raunar-stefnu um þat, hvert hann hefdi rèttar[6]) heimildir á Stadarhólslandi ok Hvítadal,

[1]) sinn luta. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) fall. sömu.

[3]) úr Gördum, bæta sömu vid.

[4]) frá [ vantar í *A. C. St. Þ.*

[5]) í Laugarland. *B. E. Gr.*

[6]) nokkrar. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

Múla ok Þverfialli, Þverárdal [1]), Eysteinsstödum ok Saurhóli. Tók Urækia heimildir á þessum löndum af Einari, ef honum bæro. Hann stefndi málino til Þorskafiardarþíngs, [þá er fimm vikur væro af sumri [2]), [sídan lèt hann ord fara um alla fiördu ok stefndi mönnum til Þorskafiardarþíngs, þá er fimm vikur ero af sumri [3]), kvam Urækia þar þá ok Asgrímr Bergþórsson ok menn or öllum fiördum. Þar kvam Illhugi Þorvaldsson med átián menn ok var hann einn sèr, ok ekki mæltust þeir Urækia vid á þíngino. Urækia hafdi fram landariptíngar, ok hafdi fyrirsögn á málino Starkadr Snorrason, hann var sendr sunnan frá Snorra, sá madr reifdi málit er Brandr hèt Sigmundarson Isfirdíngr forn [4]), þar dæmdust Urækiu löndin öll, einn madr sat í dómi or Saurbæ, Jón sonr Þórbearnar Smids or Holti. Med þeim Urækio ok Illhuga var audsær fiandskapr [5]), en Asgrímr taladi mart vid báda þá, en þat var ord á at Urækia grunadi Illhuga, [þvíat miök fóro menn milli þeirra Kolbeins Unga [6]). Þótti Urækiu sem Illhugi mundi þar hefiast til höfdíngia í Isafirdi ok hafa þar til stirk Kolbeins. Jón Ofeigsson [7]) var þar á þíngino, hann mælti sva vid búdunauta sína, er hann hèllt sveit med Urækiu: nú mundak stökkva af þíngino, ef ek ætti Illhuga lut, þvíat mèr þykkir hættiligt um hèrvist hans, en þó skyldu þar allir menn vandrædalaust, gèkk Urækia á Lánghúf [8]) ok fór vestr til Flateyar ok þadan í feördu vestr.

27. I þenna tíma kvam nordan frá Kolbeini Mördr Eyreksson ok var med Illhuga [um varit [9]), giördist Illhugi þá vinmargr ok þyddust fornir Isfirdíngar þá miök til hans, þeir er verit höfdu vinir födur hans. Þá er Urækia var í feördum, sendi hann menn til Isafiardar ok stefndi Illhuga til móts vid sik í Holt í Önundarfeörd, ok þángat fór Illhugi med níunda mann, þar var Mördr. Þá er þeir kvamo í Holt, spurdi Illhugi Steindór prest, hvat Urækia

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
2) í greindan tíma. *B. E. Gr.*
3) vantar í sömu. 4) gamall. *St.*
5) ættarsvipr. *B. E. Gr.* mátti sià fædarsvip. *A. C. St. Þ.*
6) vantar í *A. C. St. Þ.*
7) Vígfússon. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
8) Lánghróf. *C. St. Þ.*
9) vantar í *A. C. St. Þ.*

mundi vilia honum, vid fundumst, segir hann, á þorskafiardarþíngi ok [taladi hann þá ei vid mik [1]), nú veit ek ei hvad hann vill. Prestr svarar, hann man nú vilia at þid eigizt fleira vid, vera má þat, segir Illhugi. Eptir þat kvama menn þeir, er segia at Urækia sè kvaminn vestan um heidi. Illhugi spurdi hvat manna væri med honum? sveit hans, segia þeir, ok þeir mágar Svarthöfdi, Rafn ok Gísli. Illhugi svarar, nú sè ek, er ek veit manna skipunina, hvat Urækia man vilia, bad hann þá Steindór prest at hann væri vid tal þeirra. Þeir varo úti, þá er Urækia kvam, ok var þar mart manna fyrir. Urækia kalladi Illhuga á tal vid sik þá er hann kvam, ok gèngu þeir allir austr med kyrkiogardi ok sva nordr um þadan. Urækia bad fólk ei eptirganga. Þeir Steindór prèstr ok Gísli af Sandi varo eptir í kyrkio [2]), en þeir Urækia ok Illhugi gèngo frá fólkino ok med þeim Þórarinn Stör ok Asgrímr Baulufótr, þeir höfdu talat ádr um daginn þrír. Urækia tók þá til Illhuga ok mælti: nú skal launa þèr fiörrádin, hann steig fyrir [fætr Illhuga [3]), en Þórarinn va at honum, eptir þat fóru menn Illhuga á brott ok ei eyrindi fegnir, en þeir Urækia varo leystir. Sídan sá prestr fyrir líki Illhuga, en Urækia fór at eyrindum sínum þar um feördunа.

28. Þá er Sturla spurdi, at Stadarhóll var dæmdr undan honum, fór hann út undir fell til Gudmundar ok fann þar Pál prest er landit átti, ok giördu þeir þá rád sín. Spurdi Páll ef Sturla vildi at þeir fyndo Urækiu ok sendo vid hann, ef hann vildi nokkurs fyrir unna, Sturla vildi þat víst ei, ef Páli þætti úrèttilig riptíngin, en Páll segir, at eingi væro rèttindi, ef iafnir mælendr væro at. Sturla vildi at þeir hætto á þat. Páll segir fyrir hversu med málino skal fara, en Sturla tók þá málit til sóknar ok til sættar, hann fór þá til Saurbæar ok stefndi Jóni Þorbearnarsyni til alþíngis um þat at hann hefdi dæmt ólög á Þorskafiardarþíngi ok stefndi til rofs dóminum. Eptir þat reid Sturla til þíngs

1) lagdi hann ekki til mín eda taladi vid mik, *A. C. St.* Þ.

2) kyrkiugardi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

3) hann ok felldi Illhuga. sömu.

ok voro tólf saman. Sámr Pálsson kvam til hans med þridia mann, ok sendi Páll prestr hann til Gissorar ok kalladi at hann skyldi veita at málino, er Þorvaldr fadir hans hafdi [únytta giöf þá er[1]) Einar Þórgilsson hafdi gèfit Kolfinno dóttur sinni laungètinni undan systrum sínum skilgètnum er taka átto, en Þorvaldr rauf giöfina af hendi Ingveldar Þórgilsdóttur[2]) mágkono sinnar. Kètill Þorláksson veitti Sturlu at málino, þvíat med þeim Urækio hafdi stórilla farit er þeir höfdu fundizt á Kolbeinsstödum um varit. Sturla hafdi fram málit ok raufst dómrinn, en mál Jóns var tekit or dómi, þvíat Sturla vildi ei hann sækia. Þá var dæmt Sturlu Stadarhólsland, en hverium annara þat er hann átti. Um þíngit fóru ord á millum þeirra Snorra Sturlusonar ok Gissurs, ok var til þess mælt, at Snorri skyldi rída til þíngs ok hafa Tuma med sèr ok siá[3]) sættir ok födurbætr honum til handa. Snorri kvam á þíng um dóma med hundrad manna, en daginn eptir reid Kolbeinn Ungi á þíng med fimm hundrud manna, vissu þeir Snorri ekki van til þess ok gèngu þeir Snorri þá ok Tumi til kyrkio ok mæltust þadan fyrir, en menn Snorra voro úti fyrir kyrkiu, ok gèkk Sturla þá til þeirra. Kolbeins menn fóro ódfluga um völlinn ok lèto gífurliga, en þeir Gissor ok Kolbeinn töludu leingi tveir einir, en ei vard um sættirnar leitat. Þeir Kolbeinn tóko ei af hestum sínum ok ridu af þíngino um kveldit. Þá gèkk Gissur til kyrkio ok tala þeir Snorri leingi, ok þá fór allt skipuliga med þeim. Hallveig húsfreya hafdi tekit vanmátt[4]) mikinn um þann tíma ok lá hon í rekkiu um allt þíngit. Þá er Snorri reid af þíngi, fundust þeir Sturla í Vídikèrum ok taldi Snorri heldr á hann ok kalladi hann vildi deila vid frændr sína um lut annara manna at úsynio. Þá er Sturla kvam vestr í Grísartúngo, kvamo í móti honum húskarlar hans tveir [Snorri Steinsson ok Halldór Geitúngr Þórdarson[5]), þeir segia Urækia var kvaminn vestan til Saurbæar med átta tygi manna, ok ætladi at setiast á Stadarhól. Sturla reid þá út yfir feall til Raundals ok þadan á Kolbeinsstadi, senda þeir Kètill

[1]) órètt giört, þá er. *St.*
[2]) vantar í *A. C. St.* Þ.
[3]) segia, sömu.
[4]) siúkleik. *B. E. Gr.*
[5]) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

þá mann til Stadar ok fundust þeir Bödvar þá í Skógarnesi, rédu [1]) þeir þat þá at samna lidi, ok skyldu þeir finnast at Raudamel tveim náttum sídar, kvám þar þá saman á þridia hundradi manna. Þá kvám þar frá Urækiö Asgrímr Bergþórsson ok þeir þrír ok leitadi hann um sættir, en bændr voro sva ákafir, Snorri [2]) or Skógarnesi ok þeir er hraktir höfdo verit í Bearnarhafnarför, at þeir vildu ei annat en fara til móts vid Urækio, ok mátto þeir Asgrímr eingum flutníngum ákvama, ok rido brott vid þat til móts vid Urækio ok segia hvat títt var ok hvè ákafir bóndr varo. Þeir Bödvar rido inn til Dala ok ridu á holtit fyrir sunnan Haukadalsá nidr frá Harastödum. Urækia var þá kvaminn vestan í Hvammssveit ok fóro þá menn medal þeirra ok voro grid sett. Þeir fundust á Kambsnesi tuttugu menn hverir. En er þeir fundust, tók Urækia til orda, hann mælti til Sturlu: hvert er þat satt, frændi, at þú villt ei sættast vid mik, ef ek kalla til Stadarhóls? Satt er þat, segir Sturla, at ek vil hann ei láta. Þá vil ek nú handsala þèr allar þær heimildir er ek hefi á, segir Urækia, ok vil ek at þú sèrt nú slíkr vin minn ok frændi sem þá er best var med okkr, en þat er dagsanna, at fadir minn þarf ekki at skipa mèr adrar stadfestur, en þá er mèr var í fyrstu ætlud, vil ek þar ydvarn stirk til hafa [frænda minna [3]) at ek haldi lut mínum í Borgarfirdí [4]), hverir sem til móts ero, eptir þat handsalar Urækia Sturlu allar þær heimildir er hann þóttist eiga á Stadarhólslandi. Snorri prestr Narfason hafdi þau ord sent Sturlu mági sínum (Sturla átti bródurdóttur hans), at hann skyldi ráda fyrir Reykiahólum þau misseri, hvert hann vildi búa þar siálfr eda fá Urækiu, ef þat væri til greidslu [5]) med þeim, ok því fèkk hann [6]) Urækiu Hólaland til ábúdar þau misseri, ok skildu þeir frændr þá med vináttu, ok giördi Urækia þá bú á Hólum. Þeir Sturla ok Bödvar skildu í Dölum, ok fór Sturla heim á Stadarhól, höfdu þeir Urækia þar drepit tvær kyr, en giört eingar adrar úspektir.

[1]) ridu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) vantar í sömu.

[4]) vantar í *A. C. St.* þ.

[5]) greida. *A. C. St* þ. greina. *B. E. Gr.*

[6]) Sturla. *A. B. C. E. Gr. St* þ.

29. Um sumarit Jakobsmesso andadist Hallveig Ormsdóttir í Reykiaholti, ok þótti Snorra þat allmikill skadi, sem var, þá kvam ok skip í Rútafeörd nær Olafsmesso ok varo þeir styrimenn Þorfinnr Fíngur [1]) ok Arnbeörn Salteyda, höfdu þeir gæzku [2]) mikla á skipi. Þá er þeir brædur Klængr ok Ormr spurdu lát módur sinnar, ridu þeir vestr í Reykiaholt med sveit manna, var med þeim Þorgeir or Holti ok fleiri bóndr, en er þeir töludu um fiárskipti, þótti sinn veg hverium þeirra, þóttust þeir eiga fè allt at helmíngi, en Snorri kalladi Bláskógaheidi ráda eiga, kalladi ok Bersastadi af sinni eign keypta, hann vildi ok ei stadina í skipti leggia Reykiaholt ok Stafaholt, en þeir skiptu gripum ok bókum, en um lönd var ei greidt, ok þótti miök sinn veg hverium. Ridu þeir brædur brott, en lögdu eptir gripina í Bæ. Þeir fundu Gissur [3]) er þeir kvamo sudr, ok kalladi hann þat úfallit at þeir hefdu ei rètt skipti af Snorra, ok lèzt þar til vilia veita þeim sinn stirk.

30. Urækia sat á Reykiahólum um sumarit ok þóttist hafa þær frèttir or Isafirdi, at bóndr mundu vera úvinir hans sem mestir, þeir er verit höfdu frændr edr vinir Illhuga, var mest fyrir því hafdr Þórdr Henreksson ok Hiálmssynir Atli ok Þormódr ok synir Valgèrdar or Ögri [ok Gleidúngar Pètur Sveinsson ok Þorbeörn Háseti [4]). Urækia reid vestr ok hafdi á þridia tugi manna, hann ætladi at taka Þórd Henreksson, þeir kvamo í Reykiarfiörd í lysíng. Þórdr hafdi lítt sofit ok var hann gènginn út til hlödu, þá er þeir ridu at bænum, þeir tóku húsin ok gèngu inn, en Jón Svartakampi [5]) var á húsum, hann sá at madr hióp út hlödu-vindauga upp í fiallit ok á hamrana, ok segir hann þat ei fyrr en madrinn var horfinn, en er þeir visso at hann var í brotto, þóttust þeir vita at hann mundi giöra ödrum mönnum niósn, þeim er þeir vildu

*) Þessi fyrirsögn ok þær er eptir koma, eru teknar úr handriti *B* sem brúkad hefir verid vid samburdinn.

[1]) vantar í *A*, *C*, *St*. *þ*. Pipr. *B*. *E*. *Gr*.

[2]) gæzlu. *C*. *St*. gèrzku. *B*. *E*. *Gr*.

[3]) frænda sinn, bæta vid *A*. *B*. *C*. *Gr*. *St*. þ.

[4]) ok enn fleiri. *A*. *C*. *St*. þ.

[5]) Kappi. *A*. *C*. *St*. þ. Svartakiappi. *B*. *E*. *Gr*.

finna, ok ridu þeir þá heim á Hóla, en þeir sömnudust saman Isfirdíngarnir ok fóru nordr til Kolbeins níu saman, ok tók Kolbeinn vid þeim, eptir þat sendi Kolbeinn ord Urækiu, at þeir skyldu finnast í Midfirdi, ok er Urækiu kvamo þessi ord, reid hann sudr í Saurbæ, ok ridu þeir Sturla bádir nordr til skips í Rútafiörd ok ætludu þadan til móts vid Kolbein, þá spurdu þeir þar andlát Orms Svínfellings. Þá kvam ok madr med brèfi frá Kolbeini, ok var þar bedit fyrir Vestfirdíngum, at Urækia skyldi selia þeim grid, ok skyldo þeir fara heim vestr, en þeir Urækia ok Kolbeinn skyldu semia mál þeirra þá er þeir fyndust, lèzt Kolbeinn þá ei tóm at eiga at rída til móts vid Urækiu at sinni. Þá kvamo þeim Urækiu [1]) ord sunnan frá Saudafelli, at Snorri Sturluson var þar kvaminn ok vildi finna Urækiu, ridu þeir þá sudr þángat, ok var Snorri hinn kátasti, töludu þeir í litlu stofo Snorri, Urækia ok Sturla, en Tumi skeinkti, þar var biór heim kvaminn frá skipino. Snorri segir frá skiptum þeirra Hallveigarsona, hann hafdi þar ok brèf er Oddr Sveinbearnarson af Alftanesi hafdi sent honum, var þar á stafkallaletur, ok fengu þeir ei lesit, en sva þótti þeim sem [vörun nokkur væri á því [2]), Snorri lèzt ei trúa Sunnlendíngum, en þó man ek fara sudr fyrst, segir hann, ok skipa til búa minna, fara þá vestr ok vera hrídum á Hólum, en stundum í Saurbæ, mart var þar talat, ok ridu þeir allir samt inn í Heardarholt, en þadan reid Snorri sudr, en þeir vestr.

31. Þeir Kolbeinn ok Gissur fundust í þenna tíma á Kili ok giördu rád sín þau er sídar kvamo fram. Þetta sumar var veginn Kolr hinn audgi, Arni er Beiskr var kalladr va hann Arni liop sídan til Gissors ok tók hann vid honum. Þá er Gissur kvam af Kili, stefndi hann mönnum at sèr, varo þeir þar brædur Klængr ok Ormr, Loptr biskupsson, Arni Öreyda, hèllt hann þá uppi brèfum þeim er þeir Eyvindr ok Arni höfdu út haft, var þat þar á, at Gissor skyldi láta Snorra fara utan hvert honum væri liúft edr leidt, edr drepa hann at ödrum kosti fyrir þat er hann hafdi farit

[1]) ok Sturlu, bæta vid *A, B, C, E, Gr, St,* þ.

[2]) nokkut sèrligt mundi í vera. *A, C, St,* þ.

út í banni kóngs, kalladi kóngr Snorra landrádamann vid sik, segir Gissur at hann vill med eingo móti brióta kóngsbrèf, en lèzt vita at Snorri mundi ei únaudigr utan fara, lèzt Gissur þá vilia fara til at taka Snorra. Ormr vildi ekki vera vid þessi rád, ok reid hann heim á Breidabólstad, en Gissor dró þá lid saman ok sendir þá brædur vestr til Borgarfiardar á niósn [1]) Arna Beisk ok Svart, hann reid med siötygi manna frá lidino, en Lopt biskupsson lèt hann vera fyrir því lidi er sídar fór. Klængr reid á Kialarnes eptir lidi ok sva upp í hèrad. Gissur kvam í Reykiaholt um nóttina eptir Mauritius-messo, brutu þeir upp skèmmuna er Snorri svaf í, en hann hlióp upp ok úr skèmmunni ok inn í litlu hús er varo vid skèmmuna, fann hann þar Arnbeörn prest ok taladi vid hann, rèdo þeir þat af at Snorri gèkk í kiallarann er var undir loptinu þar í húsunum þeir Gissur fóro at leita hans um husin, þá fann Gissur Arnbeörn prest ok spurdi hvar Snorri væri, hann lèzt ei vita, Gissur kvad þá ei mega sættast ef þeir finnast ei, prestr segir at vera mætti at Snorri fyndist ef honum væri gridum heitit, eptir þat urdu þeir varir vid hvar Snorri var ok gèngo fimm í kiallarann, Markús Mardarson, Símon Knútr, Arni Beiskr, Þorsteinn Gudnason, Þórarinn Asgrímsson. Símon bad Arna höggva hann. Ei skal höggva, segir Snorri. Högg þú, segir Símon. Ei skal höggva, segir Snorri. Eptir þat veitti Arni honum banasár, ok bádir þeir Þorsteinn unnu á honum. Um daginn eptir kvama þeir Loptr, Klængr ok Arni [2]) med flokkinn. Þegar daginn eptir gèkk niósn vestr í Dali til Tuma ok fór hann þegar inn í Hvamm ok þadan út í Rappsey, en Svertíngr sendi Steinar [3]) son sinn vestr til Sturlu, en hann giördi Urækiu niósn, ok fór hann vestan ok fundust þeir Sturla í Tialdanesi. Þá spurdu þeir at Kolbeinn var kvaminn nordan í Dali ok var at Kvennabrekku med þriú [4]) hundrud manna. Lèt Urækia þá eptir Lánghúf í Salthólmum, skyldi Sturla þar á gánga ef hann þyrfti, en Sturla skyldi láta hestvörd halda á hverritveggia heidi medan flokkrinn væri í Dölum. Gissur reid vestr til móts vid Kolbein med flokkinn, ok sendu þeir ord Böd-

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) vantar í sömu.
[3]) vantar í *A. C. St. Þ.* Einar. *Gr.*
[4]) fiögur. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

vari til Stadar at hann færi á fund þeirra, en er hann kvam, var þat rádit, at Bödvar skyldi taka vid búi at Saudafelli ok sitia þar um vetrinn ok halda niósnum fyrir þeim Gissori, til Urækiu ok þeirra sem honum veitto, en þeir skyldu vera í gislíngo med Gissuri Þórgils Skardi son Bödvars ok Guttormr bródir hans, fóru þeir Kolbeinn þá nordr, en Gissur sudr, var þat rád giört at Klængr skyldi eiga bú í Reykiaholti. Gissur sendi ord Sölmundi ok þeim Helgo, at þau skyldu finna hann, en er þau kvamo í Reykiaholt, varo menn settir þar at telia um fyrir þeim, at þau skyldu handsala Gissuri arf Snorra, [var þat tals, at þau mundu eingi rèttindi fá af Urækiu, en Hallveigarsynir mundu þeim verda hardir í skiptum, kvam því sva at þau handsöludu Gissuri arfinn [1]), Eigill skyldi hafa af ei minna en tvö hundrud hundrada, en Gyda heimanfylgiu sem hon þurfti. Þau höfdu handsalat ádr Sturlu Sveinssyni fèit til varúdar. Gissur fór þá heim sudr, en Klængr út í Brautarholt ok skipadi menn fyrir búit í Reykiaholti. Kolbeinn fór nordr or Dölum. Bödvar fann Sturlu bródur sinn í Hiardarholti ok lagdist lítt á med þeim. Þótti Sturlu undarligt at hann hafdi í úróa þann gèngit at halda niósnum fyrir Gissur, en hann þóttist ei einn hafa vidmælzt, er þeir Kolbeinn ok Gissor sátu bádir um hann, en eingir adrir til mótmæla. Urækia var rèttr adili eptir födur sinn at þeim lögum er þá varo á landi hèr, en honum varo eingi bod bodin, ok leid sva fram til iólaföstu, en þá fór Urækia í fiördu vestr, hann kvam vestan til Saurbæar at Thómásmesso, ok hafdi nær þriú hundrud manna þar var med honum Gísli af Sandi, Asgrímr Bergdórsson, Vígfús Gunnsteinsson ok flestir hinir betri bændr or fiördum. Þeir Urækia ok Sturla fóro af Stadarhóli daginn eptir Thómásmesso fyrst í Hiardarholt, þadan fóro synir Dugfúsar ok kvamo til Saudafells um náttina, ok höfdo þeir Bödvar sèt lidit, [ok varo þar vígásar í durum ok mart manna fyrir, reid Sturla at durum [2]) ok töludust þeir vid brædur, lauk sva þeirra tali, at Bödvar gèkk út til Urækio ok lagdist vel á med þeim, gèngu þeir inn ok lögdust til svefns ok fóro þadan ei fyrr en þeir varo mettir, ok þar í Dölum áto þeir náttverd Þorláksmesso.

[1]) vantar í *A. C. St.* þ. [2]) frá [ vantar í *St.*

32. Atfángadag ióla ridu þeir um Brattabrekko ok kvamo er rökkvit var í Nordrárdal. Ridu þeir þá frá Urækia ok Sturla med átta tygi manna, en ödru lidi stefndu þeir til Brúar til móts vid sik. Þeir ridu í Sídumúla ok spurdu þar til sanns at Klængr var í Reykiaholti, hafdi hann þar kvamit fyrir Þorláksmesso ok hafdi haft utan á fiórda tugi manna. Var þar Kodran Svarthöfdason ok fleiri bændr af Nesium, þar var ok mart hèradsmanna fyrir, sva at alls var nær átta tygir, þar var virki öruggt um bæinn í Reykiaholti er Snorri lèt giöra. Þeir Klængr höfdu hestvörd vid Brú ok öll vöd á Hvítá nema Steinsvad, þar hafdi ei geymt verit, en þeir Urækia ridu þat vadit ok höfdu stiga frá Skáney, en annan af Grímsstödum. Vakat var í Reykiaholti, ok siá þeir er mátto reidina ok vöktu þá menn upp, en þá Urækiu bar skiótt at, ok ridu þeir Urækia í kyrkiogard ok setto stiga vid dur þær er þar varo, en Sturla reid til dura þeirra er til laugar varo ok settu þeir þar stiga vid ok gèngo þeir þar upp fylgdarmenn hans ok kvamo þeir iafnsnimma at uppgaungu í virkit Ingialdr Geirmundarson ok Klængs menn þeir er út ætludu. Lagdi Ingialldr til þess er fyrst gèkk ok hrökk sá inn í húsin ok leitudu þeir sídan ekki útgaungo. Fóro þeir Sturla þá upp á húsin, ok sáu menn í liórana, höfdu þeir Klængr þá vapn sín ok gèngu um skálann, kvam þá Urækia á skálann ok bad þá uppgèfast ok leggia vapnin, en þeir bádo sèr grida, en Urækia kvad þá grid skyldu hafa þann hinn helga dag er yfir þá væri þá kvaminn, gáfu þeir upp vörnina, en hèradsmenn gèngo þá til grida, Eyrekkr Birkibeinn í fyrra lagi. Gèngu þeir þá inn Urækiu menn, en þeir Klængr varo færdir í lopt þat er var uppi yfir kiallara þeim er Snorri lèzt í, var þá farit til tída, en þá drifu menn þeirra Urækiu at allan daginn, þar kvam ok um daginn Börkr Ormsson or Þíngnesi, hafdi Bödvar or Bæ sent hann, ok bad hann Klængi grida, segir Þorleifi þat mundi ok þykkia giört til skaps síns, ef hann ætladi þar til nokkrar lidveizlo er hann var. Urækia vard fár vid þat, en Sturla bad hann at Bödvar kvæmi til ok segir at menn mundu þá med honum bidia Klængi grida, ef hann vildi fyrirbindast, en þá er þeir Urækia ok menn hans töludust vid um málit Klængs, dró honum þat mest til dauda, at þeim þótti ekki verda eyrindi sitt, ef

Klængr [1]) rækist undan, svá illa sem þeir varo beiddir. Annan dag ióla þá er óttusaungr var súnginn, lèt Urækia kalla Klæng út, ok gèngu þeir sudr um hús, kvaddi Urækia þá til Odd [2]) Siáraf [3]) at vega at honum, bádu menn þá enn honum grida ok mest Asgrímr Bergdórsson, ok tiádi þá ekki, ok lèzt hann þar ok vard alldrengiliga vid. Þá var Sturla gènginn til messo er honum var sagt lát Klængs, menn hans unnu líkino, ok var hann iardadr þridia dag ióla. Urækia lèt fara um hèrad allt at samna lidi, þeir fengo ok tekit tvennar niósnir Gissors, hèldu þeir Urækia þá á búnadi sínum ok ætludu sudr at Gissori. Urækia gaf grid mönnum Klængs öllum, en vapn þeirra varo tekin flestra. Hann spurdi Kodran Svarthöfdason, ef hann vildi fara med honum? en hann neitti því, þá var leitat vid Þórd son Þorsteins á Hvalsnesi [4]) at hann færi, ok iátti hann því med rádi Dugfússona frænda sinna. Asgrímr var siúkr miök, vildi hann ok ei fara, kalladi Urækiu lítils hafa virdt ord sín um gridagiöf vid Klæng, ok fór hann vestr ok flestir hans menn. Klængs manna var geymt þar eptir í Reykiaholti. Þeir Urækia fóro or Reykiaholti siötta dag ióla fyrst ofan til Bæar ok lèdi Bödvar þeim vapna margra, fóro þeir upp í Reykiadal um kveldit, siöunda dag fóro þeir sudr Gagnheidi, ok höfdo fimm hundrud manna. Þeir Urækia ok Sturla fóro á Þíngvöll med sínar sveitir, en annat lid fór á Kárastadi ok Brúsastadi, höfdu þeir þá eingar frèttir sannligar sunnan frá Gissori.

33. Gissur sat í Tungu um vetrinn, hann hafdi fiölmennt [5]), hafdi hann bodit til vinum sínum at hinum átta degi, þar var miödrblandinn ok munngát heitt, þar var Oláfr Svartsson, Þorkèll son Þorsteins frá Hólum, Bersi hinn Hvíti, Gissur Gladi ok enn fleiri vinir hans or Runamannarepp ok Biskupstúngum. Gissur var var um sik ok hafdi vördu mikla, þeim þótti undarligt at niósnarmenn hans kvamo ei þeir er hann hafdi sent til Borgarfiardar. Þar var alþydo drykkia hinn átta aptan ióla ok setit þó skamma ríd, var

[1]) Gissur. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) Orm. *A. C. St.* þ.
[3]) Starason. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) iólabod, bæta sömu vid.

þar nær áttatygi vígra [1]) manna, en þá er þeir kvamo úr badi um kveldit, lèt Gissur bera inn vapn allra manna í skála ok leggia hiá hvers manns rúmi, ok er hann kvam or badi fór hann í klædi sín, ok lèt sauma at höndum sêr, ok lagdist vid þat nidr, hann lá í lokhvílu, ok er hann hafdi skamma stund í hvílu verit, kèmr Þorsteinn Lángi ok gèngr í Skálann ok til lokhvílu ok bidr upp lúka ok var sva giört, heilsadi Gissur honum ok spyr tídinda, hann segir honum víg Klængs med þeim atburdum sem verit höfdu ok þat med at Urækiu sè vestan van med miklu lidi á hendr honum. Gissur segir nú í hávada þessi tídindi ok bidr menn uppstanda ok klædast ok vapnast sem hvatligast, ok eptir þat gèngo allir menn út, er nú þat til ráds tekit, [at Gissur fer þegar í Skálaholt med því lidi er þar var, en setr eptir í Túngo nokkra menn [2]) at bera í kyrkiu gripi sína ok þat allt er laust var, [skyldu þeir ok sva fylgia [3]) módur hans í Skálaholt um myrgininn, en Hall son sinn níu vetra gamlan hafdi hann med sèr. Gissur kvam í Skálaholt fyrir midja nátt, gèkk hann þá þegar at finna herra Sigvard biskup, en lèt menn sína bída sín í kyrkiogardi. Biskup var sofnadr ok vaknar þegar er Gissur gèkk at hvílunni, Gissur kvaddi hann ok segir honum slík tídindi öll er hann hafdi spurt, lèzt nú þurfa traust biskups ok rád hans. Biskup bidr hann velkvaminn ok alla hans menn, lèzt veita skyldu allt slíkt traust er hann má, er Gissor þar um náttina. Þegar um myrgininn er lokit var myrgintídum, gánga þeir á tal Gissor ok biskup ok Loptr biskupsson, tala nú med sèr um rádagiördir, er nú þat rád tekit, at Þorleifr Reimr [4]) systurson Gissurar var sendr at draga lid saman um Grímsnes ok Ölfus. Í Flóa ofan var sendr Torfi [5]) prestr at draga þadan slíkt er fengist, um alla reppa voro menn sendir at stefna lidi til móts vid Gissur slíku er fengist. Sá madr hafdi vaxit upp í Skálaholti er Audun Kollr hèt, hann var vel tvítugr ok lítill, frár á fæti ok einardr. Þat er nú ráds tekit, at hann er sendr vestr á heidar mót Urækiu. Þá er þeir Urækia varo at náttverdi á Þíngvelli kvam inn

[1]) virdra, *E.*

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) Þóru, bæta sömu vid.

[4]) Heimr. *A. C. St.* Þ. Hreinn. *B. E.* Hreiminn *Gr.*

[5]) Tiörvi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

sendamadr ok segir at flokkr mikill var kvaminn sunnan at Geábakka ok segir at þá mundi skiótt at bera. Liópu þeir Urækia þá til vapna ok út. Sendu þeir menn á Kárastadi ok stefndu á Almannageárhamar til móts vid sik þeim er þar varo. Þeir giördu ok niósn sudr á raunit at vita hvatt títt væri, en er þeir kvamo sumir vestr um Brú, var laupit eptir þeim ok sagt, at menn urdu vid eingar manna ferdir varir, hurfo menn þá aptr ok vöktu mestan lut nætrinnar med vapnum ok gættu sín sva.

34. Snimma áttadag ióla ridu þeir Urækia af Þíngvelli med lid sitt, ok er þeir kvamo á Língdalsheidi [þar sem Budarbrekka heitir[1]), kèmr Audun Kollr í móti þeim, ok þeir er fyrstir fara taka hann ok kalla niósnarmann ok færa hann Urækiu, en hann kèndi hann þegar, því at hann hafdi opt sèt hann í Skálaholti, ok spyr hve afstædist um ferdir hans? Audun segir at biskup hefdi sent sik til Videyar ok lèzt hafa brèf biskups ok synir þat Urækiu. Urækia lèzt skilia at hann var biskups sendimadr, ok segir at hann skal fara í fridi, en spyr þó hvert Gissur sè heima? Audun svarar: heima var hann í gærkveld. Urækia spyr hve fiölmennr hann væri? Audun segir at hann hafi iafnan fiölmennt, ok nú hefir hann at áttadegi bodit til sín mörgum vinum sínum[2]), ok var heitt í móti þeim meödr ok munngát, drífu nú þángat til mennirnir, sem giarnt er þá nokkut er til nynæma, ok nú kalla þeir[3]): drekki þeir, drekki þeir ok bídi vor sva. Þá spurdi Sturla Þórdarson: man Gissur heima vera? Audun svarar: eingir menn fóro þar í milli í myrgin. Audun beiddist nú at taka vid eggsi sinni er af honum var tekin. Urækia segir hann hafa skyldu eggsi sína, ok ver oss nú tryggr, Audun. Margir menn þuto upp ok kvádu hann niósnarmann ok bádu hann fara med þeim, rèdst þó þat af at hann var laus látinn, fer hann nú leid sína, þartil er leiti bar á milli, snyr þá þegar aptr leidinni þángat sem heidin liggr lægra, fer aldrei meira en ádr, þar til er hann kèmr iafnframt þeim er sídastr rídr, ok er þeir kvamo gègnt Reidarmúla tekr at rökkva.

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) ok frændum, bæta vid *A. C. St.* þ.
[3]) menn Urækiu, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.

Snúa þeir Urækia leid sinni til Laugardals, Audun tekr nú at auka sína för slíkt er hann má, þorir þó ei at stefna til gatnanna, leypr nú heidina þvert til Língdals ok sva austr fyrir ofan Svínavatn til þórisstada ok fær sèr þar hest, rídr nú til Eskidalsvads, var áin mikil ok syndir hann [1]) þar yfir. Sídan lióp hann heim í Skálaholt ok kvam þar er þridiúngr var af nátt, fór þegar í kyrkiugard ok fann þar vardmenn Gissur svaf. í stöplinum ok allt lid var í svefni í kyrkiu, en sumt var í stöpli. Audun gèngr nú ok vekr Gissur, en hann lætr þegar segia biskupi kvamo Audunnar, gánga nú út í kyrkiogardinn, lætr nú Gissur kalla til sín alla þá menn er hann vildi ráð vid hafa. Audun segir nú frá ferdum sínum ok fundi þeirra Urækiu ok hve mikit lid hann hafdi. Audun lèzt ætla at hann mundi hafa nær fimm hundrud manna, mano þeir hèr kvama ádr lyst er, allir menn þökkudu honum hve niósn var borin. Gissor spyr nú biskup ok frændr sína ok vini, hvad nú skal til ráds taka. Allir skutu til siálfs hans úrskurdar, hvers hann væri fúsastr Gissur svarar: þriú lítast mèr rád til, þat er eitt, at fara í nátt ofan í Floá í móti lidi varo ok spara ei at þeir rekist eptir oss um ríd er ádr ero farmódir ok vita et vèr mættum ráda stund ok stad, hvar vèr finnumst. Þat er annat rád, at fara ofan um ísinn hiá Idu, þar var mió spaung yfir, en þydt var at tveim meginn, ok vaka ísinn ok vita ef vèr fáum varit spaungina. Þridia rád er þat, at bída hèr, sem nú höfum vèr umbúizt, ok senda einhvern gódan mann á móti lidi varo, sem bædi kann at skunda ok skipa reidinni sem best gègnir. Biskup ok Loptr fylgdu því rádi, at rída ofan í móti lidino, Jón Toddi [2]) ok Símon Knutr ok flestir fylgdarmenn vildu bída, kölludu vígi gott, en lid frítt, segia fiölmenni skiótt mundu at kvama, en lèto skömm í at flya, ok med áeggian þeirra var þat rád tekit. Var þá Loptr biskupsson sendr eptir lidino í Floá ofan, en skipat nú til varnar hvar hverir skyldo veria. Kyrkiugardinn skyldi veria Kètill þorvaldsson ok Oláfr Tottr, Skeidamenn ok Biskupstúngnamenn fyrir austan gardinn ok allt til gèsta húsa. Oláfr Svartsson ok Grímsnesíngar varo þadan til líka hlids [3]), þá Gissur Gladi ok Reppamenn til þess hlids er

[1]) lèt hann synda. *A. B. C. St.*

[2]) Ruddi. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[3]) litla hlids. *A. C. St. þ.*

til kyrkio er gèngit nedan frá húsum, Gissur Þorvaldsson ok fylgdarmanna sveit hans skyldu veria forskálann ok húsin, stód þar fremstr vid rána Jón Toddi, Símon Knútr, Önundr biskupsfrændi, Gudmundr Þórhildarson, ok sva hver at ödrum fylgdarmanna Gissurar, vaka þeir nú allir med vapnum þat er eptir var nætrinnar. Þeir Guttormr ok Þórgils Skardi bidia Gissur ordlofs at vera ei í bardaga móti frændum sínum, lofar hann þeim þat, ok fær vapn þeirra sínum mönnum, [en þeir gánga í kyrkio [1]).

35. Frá ferd Urækiu er þat at segia at þeir kvama til Laugarvatns um dagsetursskeid, þar beó sá madr er Sokki hèt, hann taka þeir til sín, ok hafa af honum sannar sögur. Segir hann þeim, at Gissur er í Skálaholti, lèzt ei vita hve margmennr [2]) hann var, en segir vera lidsdrátt um allt hèrad. Þeim Urækio þótti þetta ill frètt, en rèdu þó þat af at halda fram sinni ferd, rída sídan austr um náttina yfir Brúará at Reykiavadi, fóro sídan sem leid lá til Skálaholts, kvama þar í öndverda dagan, stíga af baki nordr í stödlum [3]), gánga þeir nú heim med gardinum allir [í einum dyn [4]), snúdigt ok þó hliódliga, ok er þeir kvama heim at geilagardshlidino, verda þeir Gissur varir vid þat ok laupa út á kyrkiugardinn, slá upp herópi ok beria [5]) á skiölduna. Urækiu menn, þeir er sídar fóro, hyggia nú at þeir Gissur laupi út á þá, bregda nú vapnum ok beriast siálfir. Þar vard sár miök Kiartan Helgason ok fleiri menn skeindust þar, ok allir laupa þeir vestr [6]) med gardinum, en þeir er vitrari varo, siá nú hvad títt var ok laupa fyrir þá ok feingo stödvat þá, gèngu sídan inn á túnit, ok bidu þar til þess er lióst var. Gissurs menn vildo nú laupa út eptir þeim ok reka flóttann, en Gissur bannadi þat ok segir þetta prett einn. Einn Urækiu madr hèt Þorkèll, [Breidlíngr einn [7]), hann hafdi

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) mannmargr. *A. C. St.* þ.

[3]) búa sik þá sem hvatligast til atgaungu, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) í einu. *A. C. St.* þ.

[5]) vapnum, bæta vid *A. B. C. Gr. St.* þ.

[6]) austr. sömu.

[7]) Breidleggr. *B. Gr.* vantar í *A. C. St.* þ.

gèngit undir kyrkiogardinn vestr þar sem Grímsnesíngar varo fyrir ok spurdi hliódliga hvert Urækia væri kvaminn í kyrkiugardinn? Þeir segia hann þar vera, ok budu honum þángat, hann rètti hendr á móti þeim, drógo þeir hann upp, flètto ok bundu sídan, ok færdu upp undir kyrkiu, ok lá hann þar um daginn. Sigvardr biskup giördi nú til Urækiu tvo presta at spyria hvert nokkut skal tiá at leita um sættir edr giördir? Þeir vildo ei grid selia, en vel líkadi þeim at biskup færi í milli ok leitadi um sættir. Baud Urækia at Gissur biskupsson skyldi fara þángat í gislíng, en Svarthöfdi Dugfússun færi heim í kyrkiogardinn. Svarthöfdi skyniar hvat lids var fyrir, ok sva hvar hverium var skipat fyrir til varnar. Biskup fór nú á milli ok baud Urækio í hans dóm öll málin úskorud, en Gissur baud í dóm Hákonar kóngs öll mál ok utanferd sína þegar um sumarit, ok gèngo vid þat aptr gislarnir, biskup kèmr þá ok skiótt, ok segir vísa van atgaungo ok bidr menn herda hugina ok beriast [1]) drengiliga, lofar ok öllum lærdum mönnum at beriast med Gissuri, hann lèzt ok vega skyldi þeim vapnum sem hann hefdi til. Gèkk hann þá í kyrkio ok klèrkar hans ok skryddust. Sveitir Gissurs gèngo nú þángat hverir sem hann hefir skipat. Urækia skipar nú mönnum sínum til atsóknar, skal hann þar at gánga med sína sveit sem Gissur var fyrir. Sturla med sína sveit skal þar at gánga sem þeir Kètill Þorvaldsson [2]) ok Oláfr Tottr varo fyrir. Svarthöfdi ok brædur hans gèngo at södlabúri þar er Grímsnesíngar varo fyrir. Þá er þeir Urækia varo kvamnir austan á völlinn miök at kyrkiogardi, kvama prestar á móti þeim ok segia at þá hefdi Gissur iátat sættum þeim er Urækia baud, ok segir hann þá Sturlu hvar komit var. Sturla spurdi hvern hann vill þá upptaka? Urækia svarar: freista vilium vèr þeirra um ríd, eptir þat æpa þeir heróp, ok gánga at hverir þar skipat var, ok lystr þar saman bardaga fyrst er þeir sækia at Sturla ok Svarthöfdi, giöra þeir harda griótríd or gardinum, kvama þar ok hverirtveggio speótalögum á adra ok verda hverirtveggio sárir. Skillítill strákr [3]) einn var í gardinum er Byrgir hèt, hann fór úvarliga út

[1]) veriast *A. C. St.* þ.
[2]) vantar í *St.*
[3]) drengr. *A. C. St.* þ.

á gardinn, hann fèkk lag af spióti í vángann, lèt hann þegar lífit. Beörn Beinisson hèt madr, hann bardist alldiarfliga, ok hafdi staur einn, ok bardi spiótin af sköptum, ok var hlífarlaus, lauk sva at hann fèkk mörg sár ok vard úvígr. Svarthöfdi ok þeir margir sóttu á södlabúrit drengiliga, voro brotnar miök af þeim hlífarnar [1]). Urækia gèkk sunnan á húsin med megin-lidit, ok sótti sva nordr eptir forskálanum [þeim er til kyrkio liggr. þeir Gissur höfdu borit vatn á forskálann [2]) ok var hált á þekiunni. Flestir Urækiu menn höfdu skóbrodda, ok máttu þeir fáir iafnframt gánga. Gèngu þeir fyrstir Sigmundr Gunnarsson, Jón Ofeigsson ok Játvardr Gudlaugsson vestan eptir forskálanum, Gísli af Sandi gèkk austan at forskálanum, hann var í brynio ok grám kufli ok hafdi girdan sik med ólu. Öaundr biskupsfrændi lagdi til hans med speóti, vard Gísla hált ok fèll hann á þekiunni, stódu á honum spiótin ok tóku tæpt til hans, en hann kvamst ei upp ádr Teitr son hans tók til hans ok reisti hann upp, þá kvam Jón Ofeigsson at ok segir hann fara úvarliga gamlan mann ok stirdan. Gísli svarar: þar skulum vid hvergi kvama at ek gángi verr en þú. Gísli var lítt sár. Sigvardr biskup kvam nú at ok klerkar hans, leypr hann þegar út yfir vidnna, hann var skryddr ok hafdi mítur á höfdi ok bagal í hendi, bók ok kèrti í annari, hefr hann nú upp bannsetníng vid Urækiu ok hans menn alla. Slævar þetta þar heldr bardagann, er hverirtveggio vildo hlífast vid at giöra biskupi mein edr klerkum hans. Nú kallar Urækia á biskup, lèzt ei vilia sættum neita, ef þær ero bodnar er honum líkar. Biskup bidr nú stödvast bardagann, ok fóro menn um allan kyrkiogardinn, ok segia at Urækia vill ei beriast láta, kallar þá eingi meir en Eyrekr Birkibeinn, ok leypr fyrir framan kyrkiugardinn, þá flygr steinn út or kyrkiugardinum ok kèmr vid eyra honum, sva at þegar kastar fótunum fram yfir höfudit, ok var lokit hans kalli at sinni. I þenna tíma bar biskup at södlabúrino ok lióp þegar upp á mænirinn [3]), ok flaug griót á hveriatveggio hlid honum ok yfir höfudit ok var sem í drífo sæi, en er menn kèndo hann, vildo menn fyrir eingan

[1]) med grióti, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[2]) frá [ vantar í *St.*

[3]) menninn. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

mun honum mein giöra, ok stödvadist þá bardaginn. Gèngu þeir Sturla þá til Urækio ok var talat um sættir, ok var á þat sæzt sem Urækia baud, at biskup einn skyldi giöra um öll úskorud mál, þessari sætt iátar Gissur. Gánga nú menn hans frá víginu, en Urækiu menn gánga inn í kyrkiogardinn til móts vid Gissur, ok takast þeir í hendr ok handsalast vid sættina full grid ok föst hver ödrum fyrir alla sína menn. Eptir þat gánga í kyrkio allir Urækiu menn, ok leysir biskup þá or banni. Sídan var Gissuri færdr kross er í var *lignum* [1]) *domini* [2]), ok sór hann eid at halda þessa sætt. Talast þeir nú vid um ríd, ok falla allar rædur til hófs med þeim. Urækia beiddist nú byrgda nokkurra af biskupi, því at lid hans var allt matlaust. Biskup bydr þeim öllum í Miklaholt, at hafa þadan slíkt er hann vildi. Oddr Brattr hèt madr er sár var af Urækiu, sva at ei var fær annar en Kiartan, ok sá biskup fyrir þeim. Hann skriptadi [3]) þeim öllum at vatna [4]) fyrir Ládar Þorláksmessur, ok gèfa sex [5]) hundrud til stadarins [6]). Eptir þetta stíga þeir Urækia á bak ok ridu brott. En er Gísli af Sandi reid fram med kyrkiogardinum, spurdi Gissur hver þar færi. Gísli nefndi sik. Lángt hafa slíkir tilsótt, segir Gissur. Naudsyn þótti á vera, kvad Gísli. Far ei optar at mèr, kvad Gissur, þvíat eigi mantu standa yfir höfudsvördum mínum. Meiri van at satt sè, segir Gísli. Urækia rídr nú í brott í ofanverdan dal um kveldit, sídan til Borgarfiardar ok dvaldist þar um hríd. Þá handsala þau Helga honum í annat sinn arf Snorra miök med þem skildögum sem Gissur hafdi haft. Þá gipti hann Margrèto Brandsdóttur Þórdi Bearnasyni [7]). Eptir þat fer hann vestr í feördu ok sezt um kyrrt. Gissur gaf þeim Guttormi ok Þórgilsi ordlof [8]), ok fóro þeir heim til Stadar, var nú tídindalaust um vetrinn.

36. Um varit á páskum finnast þeir Gissur ok Ormr bródurson hans, kærir Ormr þá um vígsmál Klængs [9]) ok vill þat ei eiga

1) *Signum. Gr.*
2) *vitæ. A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) skipar. *B. C. Gr. St.*
4) vatnfasta. *A. B. C. E. Gr. St.*
5) át, sömu.
6) eda fátækum, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) Biarnarsyni sömu.
8) vestr, bæta vid *A. C. St.* þ.
9) bródur síns, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

undir biskupi at þat væri sektalaust, kalladist hann adili málsins, ok kvad Gissur ei mega sættast á þat mál, ef hann tæki þat ei af honum. Gissur kalladist ok ei hafa sæzt á þat mál. Er nú þat til ráds tekit, at þeir frændr Gissur ok Ormr rída bádir nordr til Skagafiardar á fund Kolbeins Unga frænda síns. Þeir voro saman þriátygi menn. Sigvardr biskup reid ok þann tíma nordr ok bydr sik til medalferda, at eiga enn lut at sættum med þeim Urækiu, en er þeir kvamo nordr, rída þeir á Flugumyri, ok tekr Kolbeinn allvel vid þeim öllum, ok var þar fögur veizla, en biskup rídr til Hóla á fund Bótúlfs biskups. Kolbeinn sendi menn vestr til Urækiu at leita um sættir edr fundi, fara sendimenn vestr ok bera fram eyrindi sín er þeir finna Urækiu, en Urækia svarar sva, at hann vill bióda Ormi iafnsætti, at sinn mann taki hver til giördar um öll þeirra mál, en einga fundi lèzt hann þá eiga vilia er Gissur sè vid, lèzt honum ekki trúa. Fara nú sendimenn nordr ok segia þessi svör Urækiu. Ormr vill eigi ok sva sættast at Gissur væri ei vid. Skorast med því móti sundr sættin. Reid biskup nú heim sudr, en þeir frændr dveliast eptir á Flugumyri. Er þat þá talat at Ormr kaupir at Kolbeini hundradi hundrada, at hann veitti honum til sætta þeirra er honum likadi bædi fègiölld ok mannsektir. Þetta greiddi Ormr fyrir Kolbein þá um sumarit Hálfdani Sæmundarsyni fyrir þat er Kolbeinn tók hann ok hrakti Örlygsstada sumar [1]). Eptir þat rída þeir heim sudr Gissur ok Ormr, Fám dögum sídar rídr Ormr til Borgarfiardar med nokkra menn [2]) at búa til vígsmál Klængs á hendr Urækiu ok Sturlu ok fleirum mönnum er þar höfdo verit. Þessi mál byr hann til alþíngis, rída heim eptir þat. Nú lídr fram at þíngi, draga þeir nú lid saman Gissur ok Ormr ok Kolbeinn nordan. Urækia hefir niósn af þessu, ok dregr hann lid at sèr ok hefir fátt manna or Vestfiördum eptir [3]) því er hann var vanr. Kolbeinn rídr hit vestra til Borgarfeardar ok kèmr föstudaginn í Reykiaholt med fiögur hundrud manna. Þeir Gissur ok Ormr rída til öndverds þíngs med því lidi er þeir höfdo fengit, kvama fimtadag á þíng ok skipa sva þíngit, at þeir

[1]) fyrir Örlygstada bárdaga. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í *A. C. St.* þ.

[3]) hit. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

mætto lögligar sóknir framhafa. Selr nú Ormr af höndum málin á hendr Urækiu ok hans mönnum, taka vid Nordlendíngar menn Kolbeins. Höskuldr Gunnarsson sótti Sturlu. Ormsmenn sóttu Urækiu. Eptir þetta rída þeir Gissur ok Ormr til Reykiaholts föstudaginn [1]) til móts vid Kolbein, hafa þeir tvö hundrud manna, var Kolbeinn heima á bænum, en þeir reisa búdir [2]) í nesinu nidri vid ána. Kolbeinn sendi vestr í dali til Urækiu Bödvar mág sinn or Bæ at beóda honum til fundar vid sik ok leita um sættir. Urækia var fús at finna Kolbein, þvíat hann trúdi [3]) honum vel, en þó spurdi hann Bödvar hvert Kolbeinn mundi unna honum iafnsættis sem hann beiddist? Bödvar svarar: ek var sendr eptir þèr, ok vil ek ei draga í sundr sættir ydrar, en ei þarftu at rída til Borgarfiardar ef þú villt ei sættast nema þú fáir iafnsætti. En Urækia vildi ei at sídr rída, þótt Bödvar mælti slíkt. Urækia bad þess Bödvar at þeir Kolbeinn sendi eptir biskupi ok Brandi ábota, ok vildi hann þá vid hafa ef fundirnir yrdo, var þat þegar giört er Bödvar kvam sudr, ok kvama þeir sunnan bádir biskup ok Brandr ábóti, er nú fundr lagdr vid Hvítárbrú er þeir Urækia kvama sudr, kvam Kolbeinn þar til móts vid Urækiu ok þeir bádir biskup [4]) ok Brandr ábóti, en Gissur var at Hurdarbaki ok Ormr med sína flokka. Var þat fyrst rádit, at gislar varo seldir, fór Loptr biskupsson til Urækiu, en Sturla til Kolbeins. Sídan gèkk Urækia sudr yfir á til móts vid Kolbein, ok féllu allar rædur skipuliga med þeim, var Urækia samr í bodum sínum, at biskup skyldi giöra, ok giördist ekki at þann dag. Reid Urækia í Sídumúla um kveldit ok Loptr med honum, en Kolbeinn í Reykiaholt ok Sturla med honum ok tveir hans menn, en um myrgininn eptir ridu þeir allir til Brúar, nádi Sturla þá ei at gánga vestr yfir ána, ok varo menn settir til at gæta hans. Gissur ok Ormr ridu til Brúar, ok bad Gissur þann aldrei þrífast, er ei væri hiá ödrum mönnum. Biskup [5]) fór medal ok ábóti, ok kvam þá sva, at Urækia iátar giörd Sigvardar biskups ok Kolbeins á öllum málum, ok skildi

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) tialda. sömu.
[3]) treysti. *St.*
[4]) biskupar. *B. E. Gr.*
[5]) biskupar. sömu.

undan godord ok stadfestur, utanferdir ok hèradssektir, vildi hann at þeir biskup [1]) færo í milli med handsölum, ella fyndust þeir á brúnni, en hon var mió, lèzt Gissur ei vilia á hana gánga. Þeir biskup [2]) bádu þá Urækio, at hann skyldi gánga yfir brúna ok láta þat ei fyrir sættum standa. Sturla sendi þau ord Urækiu, at hann þóttist þess vís vordinn at honum var ætlat nordr med Kolbeini mági sínum, [ef hann gèngi yfir ána [3]), en kalladi sèr heitit at fara vestr. Urækia vill nú hætta á at gánga sudr yfir brúna med rádi biskups. Þá tók Bödvar til orda: nú er sem í Dölum sagdak þèr um ferdir þínar, eigi þarftu nú at gánga yfir ána, ef þú ætlar at ei skuli hardna sættin þín or því sem þú iátar nú. Urækia gèkk ei at sídr, ok ádr Urækia gèkk yfir brúna, töludu þeir Kolbeinn ok Gissur ei [4]) leingi, ok eptir þat gèngo þeir til flokka sinna. Urækia gèkk yfir brúna med sveit manna, Svarthöfdi gèkk ei leingra en at brúarspordi ok latti Urækiu at gánga, en er þeir kvama yfir ána ok víkia upp frá brúnni, láupa þeir Gissor ok Ormr fyrir brúarspordinn [med allan sinn flokk [5]), ok er eingi kostr at fara yfir ána vestr [edr sudr [6]). Nú leypr upp allr flokkr Kolbeins, ok þykir þeim biskupi [7]) nú undarliga vidbregda. Biskup sendir nú Gissor biskupsson til nafna síns at vita hverio þetta gègnir. Gissur svarar skiótt: lèzt nú vilia ráda sínum skildögum, lèzt vilia sættast vid Urækio med því eino efni, at hann giördi einn um öll mál þeirra, ok til skildar utanferdir þeirra Urækio ok Sturlu ok Dugfússona, ok skyldu þeir vera í valdi þeirra Kolbeins þar til er þeir færo, segir Gissur at eingra skal annara sætta kostr. Gèngr Gissur biskupsson nú ok segir Sigvardi biskupi í hávada allt tal þeirra Gissurar. Biskup [8]) ok Brandr ábóti bregdast miök reidir vid þetta, ok kalla hin mesto svik vid sik giör ok alla þá er lut áttu at þessum málum. Þeir Urækia stódu allir samt upp frá brúnni, slógust þá Gissors menn sumir á bak þeir, en sumir

[1]) biskuparnir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) biskuparnir, sömu.

[3]) vantar í sömu.

[4]) vantar í sömu.

[5]) vantar í *A. C. St* þ.

[6]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) biskupunum, sömu.

[8]) biskuparnir, sömu.

kríngdu um þá. Bóndr nokkrir or flokki Kolbeins [1]) gèngo þá til Urækiu ok lètust skyldu beriast med þeim, ok költudu þetta hin mestu svik, var þar Gudmundr Gilsson [2]), Þórgils Hólasveinn, [Sökku-Gudmundr, Þorvaldr or Vidvík [3]), Kálfr Gilsson ok fleiri adrir. Þá tók Urækia til orda: ei mundak hafa gèngit yfir brúna, ef ek vissa van afarkosta þessara, en at þessu efni verdr nú at [4]) taka ár sem gèngr, skal nú iáta þeim sættum öllum sem beidt er. Gèngr nú Gissur biskupsson til nafna síns ok segir at Urækia iátti þeirri sætt er Gissur baud, þá gèngo til Gissur ok Ormr ok inntust þeir þá til um sættirnar hver skildagi skyldi vera, ok eptir þat tókust þeir í hendr Gissur ok Ormr, Urækia ok Sturla, ok skyldi Kolbeinn Ungi giöra um öll mál, skildar til utanferdir, ef Kolbeinn vill þær giöra, godord ok stadfestur, gèkk Urækia skörugliga at þessari sætt. Sigvardr biskup ok Brandr ábóti ámælto Gissori miök sva um þessar málalyktir at honum hefdi illa farit. Gissur svarar ok lèzt á öllu ödru meiri mein siá en þesso. Urækiu menn gánga vestr yfir brú ok Sturla med þeim, þvíat honum var heitit at fara vestr, en er hann kvam yfir ána, var kallat at Kolbeinn vildi finna Sturlu, sneri hann þá aptr, [en þeir Svarthöfdi tóko þá til hans ok vildu ei at hann færi, en Sturla sleizt or höndum þeim ok kvad sèr leyft vestr at fara [5]), en er hann kvam sudr yfir ána, var honum ei kostr aptr at fara, ridu þeir þá allir í Reykiaholt um kveldit, var Urækia med Kolbeini, en Sturla var í nesinu nidri í tialdi Arna Öreydu, en þeir Símon Knútr ok Kètill Þorvaldsson geymdu hans ok gèngu eptir honum hvert er hann fór. Leid sva fram sunnudaginn, en mánadaginn var Urækia fenginn í hendr Halli á Mödruvöllum, en Sturla Brandi Kolbeinssyni, ok ridu þeir med þeim til Skagafiardar, en fóro sídan bádir á Flugomyri, þá var þetta kvedit [6]):

1) ok Gissurar, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) Gíslason, sömu.

3) Gudmundr úr Vidvík, *A. C. St.* Þ.

4) ráda ok, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

5) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

6) þá kvad Sturla vísu þessa, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

Nú erom tveir, en trúrra
trautt vættir [1]) mik sætta,
el ek med önn ok böli [2])
aldur á [3]) Kolbeins valdi,
[muna eigut þèr at orum [4])
eirlaust saman fleiri,
rudust hialdur [5]) borin hildar
hiól í vetur á iólum.

þeir varo þriár [6]) nætr á Flugomyri ádr Kolbeinn reid med þá nordr til Eyafiardar, ok er þeir ridu um Skiálgdalsheidi, spurdi Urækia Sturlu: skammr er nú hali [7]) okkar í dag, frændi, eda hvad ætlar þú Kolbeinn fyrir ætlist? Sturla lèzt ei vita ok kvad vísu þessa:

Skammr er eldstökkvir [8]) okkar,
af gèkk sveit hin teita
skeids á Skiálgdalsheidi
skautbords [9]), hali ordinn.
Setta [10]) ek lys nè [11]) lausum
lögreifendr veifa,
skal ek hvars á þrek [12]) þersum,
þat hlægir mik, bægia [13]).

þeir rída nú um kveldit til Miklagards [14]), [en annat kveldit [15]) á Greniadarstadi, [hit þridia [16]) á Skinnastadi, ok kvama þar at nóni, var þá sendr [þadan Jón bóndi [17]) út á Melrakkaslètto at taka þeim fár med Rodgeiri Alfssyni, hann beó þar utan skip þat er Raptabússa hèt, [kvama þeir Jón [18]) út at náttmáli, en Rodgeir

1) nættir. *B. Gr.*
2) bölvi *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) í sömu.
4) vita mun at vèr vorum. sömu.
5) hialds *B. E. Gr.* hiald. *A. C. St.* þ.
6) fár *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) dals-hali *B. E. Gr.*
8) eldsstokkr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
9) skuts bords *B. E. Gr.* skutbordr. *A. C. St.* þ.
10) sèka. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
11) nær. sömu.
12) þykk. *C. St.*
13) bæar. *A. B. C. E. Gr.* þ. bæi. *St.*
14) í Miklabæ. *A. B. C. Gr. St.*
15) þadan. *St.*
16) þadan. *St.*
17) madr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
18) kvam sá. sömu.

hafdi útsiglt at nóni, en er Kolbeinn spurdi þat, reid hann aptr sömo leid ok kèmr til Gása, þar lágu tvö skip, ok tekr hann þar Urækiu far. Reid Kolbeinn þá heim, var þar kvaminn á Flugomyri Lambkár[1]) ábóti, hann átti heima á Stadarhóli at búi Sturlu, hann segir þau ord vestan Páls prests ok annara mága Sturlu, at þeir mundu giörast vinir Kolbeins, ef hann lèti hann vestr fara til eigna sinna, Kolbeinn tók ekki á því sva búit. At Oláfsmesso hafdi Gissur bod í Túngo, ok baud þángat Kolbeini, skyldi hann þá lúka upp giördum[2]) þeim, er undir hann varo lagdar vid Brú. Urækia vill ei fara, ok var hann med Brodda[3]) at Hofi medan Sturla fór med Kolbeini. En er þeir kvama sudr, var þar fögur veizla, en er um málin skyldi tala, var Sturla tilkalladr at inna þetta mál, en hann lèzt ekki mundu inna annat en víg Snorra, kvad þat sakargiptir þeirra Urækio til Gissurs ok Klængs. Þar var mart vitra manna, Teitr lögsögomadr bródir Gissurar. Kolbeinn spurdi fyrst Teit, hverium hann bæri arf Snorra, Gissuri edr Urækiu? Þá skaut Arni Öreyda því vid: láttu nú sem þú dæmir um sál þína, segir hann. Þá brostu sumir menn. Skipt var mönnum í sveitir til giörda, en þat vissak ei hvat hverir giördu, en sú var uppsaga Kolbeins, at hann dæmdi Urækiu arf Snorra, en Gissur skyldi hafa af tvö hundrud hundrada [fyrir handsöl sín, en fyrir víg Snorra lèzt hann giöra tvö hundrud hundrada[4]), en fyrir þat er Gissur hafdi farit med þriú hundrud manna vestr at Urækio um haustit, skyldi gialda[5]) hundrad fyrir hvern mann, en fyrir þat er Urækia fór í Skálaholt med fimm hundrud manna, skyldi kvama hundrad fyrir hvern mann, ok var þat fimm hundrud hundrada, en þau tvö hundrud hundrada, sem fóru at skakka, skyldu kvama fyrir víg Snorra, en fiörrádum [lèzt hann saman vilia iafna[6]) med þeim Urækio ok Gissuri, þótt mèr þykki þeir ei iafnir menn, segir hann, þykiumst ek þat ei hèr syna, en fyrir víg Klængs giörik tvö hundrud hundrada[7]), sem giört var fyrir víg födur

1) Lankar. *St.*
2) giöldum. *E.*
3) Þorleifssyni, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St* þ.
4) vantar í sömu.
5) þriú hundrud hnndrada, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
6) kvadst hann ei kunna at misiafna. sömu.
7) hálftannad hundrad hundrada, sömu.

hans, ok utanferd Urækiu ok Sturlu ok Dugfússona ok vera utan þriá vetur, þar skal gialdast Reykiaholt hálft, Stafaholt hálft, Bersastadir hálfir, ok godord þau er Snorri hefir átt. [Þá var þetta kvedit [1]):

Skiótt man ek skökkum sáttum
skialdhlynns [2]) svar [3]) at vinna
elsveigir dregr eigi
ordslædur [4]) á þat [5]) giördi [6]).
Þeim kvami var edr verra
[viss skollr er á öllu [7])
lánga ríd med lydum
landrekstur at feörgrandi.

Eptir þat taladi Kolbeinn til Gissurar, at hann skyldi taka vid Sturlu ok láta hann fara utan med sèr, Gissur vill víst ei. Þá lèzt Kolbeinn hann mundi lausan láta, Gissur vill þat ok ei, ok skyldi hann vera um ráid med Kolbeini, ok skilia þeir vid þat med vináttu ok giöfum, fór Kolbeinn nordr, en Gissur rèdst til utanferdar. Þá er Kolbeinn kvam heim, fór hann skiótt til Eyafiardar med Urækiu, ok sat þar til þess er Urækia fór utan, en Sturla var eptir, þvíat þeir Kolbeinn höfdu þá giört ord vestr til mága Sturlu, at þeir kvæmo nordr í móti honum, ef þeir vildu leysa hann sem Kolbeinn beiddi Þá kvamo ok menn vestan at leita vináttu vid Kolbein, Skèggi or Alvidro ok Jórsala-Bearni mágr hans, þá kvam ok vestan Þórdís Snorradóttir ok Einar [sonr hennar [8]), ok vildu allir Kolbeins vinir vera. Eptir þat kvama þeir vestan Páll prestr, Gunnsteinn bródir hans, synir þeirra Vígfús ok Sámr, Snorri undan Fealli, þar var ok Kètill Þorláksson ok Lambkár [9]) ábóti. Sturla sór nú Kolbeini til trúnadar, ok þessir flestir, nema Kètill, hann var ei beiddr. Þá var þat rádit, at Kolbeinn sendi vestr í feördu Einar [Láng bródur Þorsteins í Hvammi ok Einar

[1]) Þá kvad Sturla vísu þessa ok var ei á lopt haldit. *A. B C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) skialdlinns. sömu.
[3]) snar. *C. St.*
[4]) ordskædr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[5]) því. *C. St.*
[6]) greidi. *A. B E. Gr* grædi *C. St.*
[7]) vera man sköllr ei öllum. *B. E. Gr.* vera man skipt ei öllu. *A. C. St. Þ.*
[8]) Þorvaldsson. *A. C. St. Þ.*
[9]) Lambi. *C. St.*

Dránga, fleiri varo þeir [1]), skyldu þeir seá eida at öllum búendum í Vestfiördum, fóru þeir fyrst til Ásgríms Bergdórssonar í Kaldadarnes ok þadan til Ísafeardar [ok sva um Feördu [2]). Gísla fundu þeir á Bardaströnd ok sóru flestir bóndr þeim eida, ok fóro vid þat nordr aptr. Sturla fór þá nordan, ok er hann kvam í Rútafeörd á Bordeyri, varo þeir nykvamnir af hafi Þorfinnr ok Arnbeörn ok höfdu vordit aptrreka. Þar var med þeim Svarthöfdi ok Rafn mágr hans, þeir skyldu þar utan hafa farit. Sturla kvam heim nokkrum náttum fyrir Maríumesso sídari. Nokkro sídar kvamo þeir nordan Lambkár [3]) ábóti ok Einar Skálphæna, skyldu þeir siá eida at Strendum ok Saurbæíngum. Sturla fór med þeim út til Skards at treysta vináttu Snorra prests ok sona hans.

37. Þá er þeir Sturla varo at Skardi, var þar sögd skipkvama or Eyafirdi, var þar kvaminn út Þórdr Sighvatsson er Kakali var kalladr, Solveig ok Jón son hennar ok dætur þeirra Sturlu Sighvatssonar. Þórdr reid þegar frá skípi ok Snorri Þórálfsson med honum, [hann var prestr at vígslu ok var þá leikmadr, þvíat hann hafdi verit at vígi Knúts prests í Oláfsfirdi [4]). Þeir ridu inn til Grundar, þar beó þá Styrmir ok Sigrídr [5]) systir Þórdar, þar fèkk hann hesta ok leidtoga þann er Amundi [6]) Auga hèt, ridu þeir nordr um heidi ok upp Bleiksmyrardal ok sva sudr um land ok kvama nidr at Kèldum. Þórdr var þar skamma ríd, en þar kvam til hans Nikolás Oddsson, Jón Tostason, [Aron Barka-Bassi [7]), Eyrna-Börkr [8]), Þorgeir Kornasilgia [9]), þeir ridu þadan vestr í sveitir, fyrst í Hvamm til Svertíngs, fór hann med þeim fyrst á Stadarhól, tók Sturla vel vid þeim, átti Svertíngr allan lut í at draga saman vináttu þeirra frænda, var þat ok audvellt.

[1]) frá [ Lángbrók ok fleiri adrir. *A. C. St* Þ.
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) Lauk. *C. St.*
[4]) vantar í *A. C. St.* Þ.
[5]) Sighvatsdóttir, bætt sömu víd.
[6]) Hámundr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[7]) Hiúkabassi. *B. E. Gr.*
[8]) Eyxnabörkr. sömu.
[9]) Krúnusilgia. sömu, frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

# Prentvillur.

## í formálanum.

bls. XII. l. 10. fornfrændi les fornfrædi.
— XVI. l. 5. þessa l. þessi.
— — l. 6. þætta l. þætti.

## í fyrsta þætti:

bls. 7. [11]) *VE.* l. *EV.*
— - l. 23 dótti l. dóttir.
— 8. [6]) úskapudr l. úskapúdr.
— 10. l. 9. þórgils Mársonar l. þórgils ok Haflida Mársonar.
— - [6]) bæt vid: *EV.*
— 11. [1]) og [4]) bæt vid: *EV.*
— 13. [4]) hófliga l. hógliga.
— 14 l. 4. fyrir l. fyrir víg þorsteins.
— 21. [7]) l. 4. hrópom l. hropom.
— 23. [5]) l 1. þeirra l þeirri.
— 24. [2]) l. 6 um l. fram um.
— 27. [11]) stekkvelsin l. stekkvegginn.
— 29. [7]) tók l. fékk.
— — [15]) þá heptist l þá heptist þórgils.
— 31. [11]) Haflida l. þeir Haflidi.
— — l. 23. váotta l. votta.
— 32. [2]) Hallsson l Hallason.
— 36. l 8 fyrisátirnir l fyrisátirnar.
— 37. [8]) l. 6. þá 8 hundrud les þá 7 hundrud.
— 42. [4]) þíngloga l. þínglóga.
— 43 [8]) atgiöra l. at giöra.
— — [9]) bæt. vid: *EV.*
— 45. [5]) l. 2. þar l. þat þá.
— 46. [3]) bæt vid: bætir *EV.* inní
— — [6]) mætti l. mátti.

## í ödrum þætti:

bls. 53. [4]) les: bæta vid *A. C. EV. Gr. St.* þ.
— 54. l. 8. Kolluson l. Kollason.
— 55. [6]) gód l. giördi.
— 58. [2]) gildr l. gildis.
bls. 62. [2]) 15 menn l. 15da mann.
— — l. 20. á [6]) ad standa í 22ri línu eptir Brunnár.
— 63. [2]) Tialdrness l Tialdanes.
— 64. [3]) bæt vid: *EV.*
— 68. [3]) halda l hafa.
— 70. [6]) flikkadi l. flikadi.
— — sein. l. at l. af.
— 72. l. 21. manna l. mann.
— 75. [1]) — 76 [1]) *EV.* l. *St.*
— 79. l. 7 hit l. hitt.
— — [8]) *EV* l. *St.*
— 83. [5]) eigí enn nú l. ekki enn.
— 84 [2]) flestir l. fleiri.
— 85. [1]) Oddr prestr l Prest-Oddr.
— 86 [3]) Oddr prestr l. Prest-Oddr.
— — [4]) bæt. vid: *EV.*
— 89. [3]) at l. af.
— 92. [1]) tók l. gèkk.
— 100. l. 16. les: þá hafdi Bödvar látit giöra virki um bæinn í Túngo ok hafdi þar fiölmenni mikit.
— 105. [4]) leiddist mönnum l. leiddust menn
— 110. [2]) kanpángi l. kaupángi.
— 111. l. 23. ófrídar l. ófridar.
— 112. [2]) l 16. man l. man.
— — — l. 26. bæt vid: *EV.*

## í þridia þætti:

bls. 113. [4]) l. 2. medþurfa l mest þurfa.
— 119. [2]) l. 9. þótta l. þetta.
— 121. l. 13 mikil l. mikill.
— 123. [1]) ræníngia sveit l. reingiasveit.
— 125. l. 28. biskups l. biskupssonar.
— 132. l. 33. Ögmundi l. Önundi.
— 134. l. 13. þorvardar l. Önundar.
— 134 l. 14. Gudmundar l. þorvards.
— 139. l. 13. hún l. hann.

bls. 141. l. 29. les: um med henni ok dró vidu at henni ok annat, o. s fr
— 149. l. 2 þorvardr l þorvardar.
— 151. l. 31 lèttara l. lèttasta.
— 155. l. 32. viti l. víti.
— 158. l 11. þúto l. þuto.
— 171 l 8. úskapligri l. úskap'eldligri.
— — l 14. þeir l. þeir ei.
— 181 ⁶) stökk l. stokk.
— 201 l 12. tólf l siö
— 202. l. 16. fèllr l fellr.
— 204. l. 19. eptir "fadir hans" bæt vid: þá var Jón vígdr til biskups at Hólum.
— 216. l. 11 bradursynir l. bródursynir
— 226. l. 12 Kolda- l. Kalda-.

## í fiórda þætti:

bls. 6. l. 29. var les hèt.
— 18. l. 8 hitta l finna.
— — l 12 fimm l. þrem.
— — l. 16 sídan l sídar.
— 27. l. 28 þóttu l þætti.
— 34 l 16. þeir l. þèr.
— 35 l 8. höfdu l. höfdu ei.
— 36. l. 9. fiórdúngi l. fiórdúngi.
— — l. 18. eptir "hundrud" bæt vid: fyrir fiörtád vid Pètur þriátygi hundrud.
— 39. l. 2. þorúnnar l. þérunnar.
— — l. 15. godar l bodar.
— 43. l. 25 les: Sigrídar Halþórsdóttur
— 49. l. 14 sètti l setti.
— 63. l. 24 sídan l. sídar.
— 64. l. 20. aupa l. laupa.
— — l. 22. utan l. út.
— 69. l. 14. þeir l. þar.
— 72. l. 20. kvama l. kvamo.
— 74. l. 30. les: þángat haft.
— 83. l. 6. meira l. miklo meira.
— 86. l 11. var l. var þá.
bls. 68. l. 13. lanst l. laust.
— 88. l. 25 á l. at.
— 92. l. 18. ekki l. ei.
— 95. l. 14. þegar l. þá þegar.
— 97. l. 12 les: mann þann.
— — l. 23. brúdlaup l. brúdkaup.
— 101. l 20. þar l. þar þá.
— 102. l. 8 fund l fundr.

## í fimta þætti:

bls. 105 l. 24. um l ádr um
— 113. nedst. l. mundi l. mundu.
— 115. l. 24 at l at nú
— 116. l. 29 stofníngo l stefníngo.
— 119. l. 1 lága l. laga.
— 120. l. 2. þorsteins l. þorleifs.
— 126. l. 14 balda l. heimta
— 128. l. 18. mikil l. mikill
— 130. l. 10. þær l. þeir. Urækio l. Urækia.
— 135. l. 5. er l. er þeir.
— 150. l 15 þá l. þó
— — l. 23. var l væri.
— 152. í fyrisögu. sona l. sonar.
— — l 16. á l. at.
— 155. l 11. setur l setu.
— 157. l. 13. at Eyri l. á Eyri.
— 172. l. 6. les: sína til fundarins med þeim þ
— 173. l. 2. Asleifsonar l. Asleifarsonar
— 179. l. 18 þá l þó.
— 180 l. 18. Sturla l Sturlu.
— 181 l 11. nu l nú.
— 183 l. 9 hèst l. hest.
— 184. l. Reykhyltíngium l Reykhyltíngum.
— — l. 10 Bearnarson l. Bearnason.
— — l. 22. var l. vard.

## í siötta þætti:

bls. 192. l 28. Kialnesíngar l. Kialnesíngar
— 216. l. 17 út í l. útí.

Hafi fleiri prentvillur af vangá eptir ordid vid yfirferd bókarinnar, þá er gódfús lesari umbedinn ad lesa þær í málid.

